HIÐ

# NÝA TESTAMENTI

DROTTINS VORS

# JESÚ KRISTS,

ÁSAMT MEÐ

# DAVÍÐS SÁLMUM.

ENDURSKOÐUÐ ÚTGÁFA.

---



OXFORD:
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU HÁSKÓLANS Í OXFORD,
Á KOSTNAÐ HINS BREZKA OG ERLENDA
BIFLÍUFÈLAGS.

---

1866.

# YFIRLIT.

# MATTEUSAR GUÐSPJALL.

## 1. KAPÍTULI.

*Ættartala Krists; hans getnaður af heilögum anda; nafn hans og fæðíng.*

ÞETTA er ættartala Jesú Krists, sonar Davíðs, sonar Abrahams:

2. Abraham gat Ísaak; Ísaak gat Jakob; Jakob gat Júdas og bræður hans;

3. Júdas gat Fares og Sara við Tamar; Fares gat Esrom; Esrom gat Aram;

4. Aram gat Aminadab; Aminadab gat Naasson; Naasson gat Salmón;

5. Salmón gat Bóos við Rakab; Bóos gat Obed við Rut; Obed gat Jessai;

6. Jessai gat Davíð konúng; Davíð gat Salómon við konu Úríasar;

7. Salómon gat Róbóam; Róbóam gat Abía; Abía gat Asa;

8. Asa gat Jósafat; Jósafat gat Jóram; Jóram gat Ósías;

9. Ósías gat Jóatam; Jóatam gat Akas; Akas gat Esekías;

10. Esekías gat Manasses; Manasses gat Amon; Amon gat Jósías;

11. Jósías gat Jekonías og bræður hans um tíma hinnar Babýlonisku herleiðíngar.

12. En eptir herleiðínguna gat Jekonías Salatíel; Salatíel gat Sóróbabel;

13. Sóróbabel gat Abíúd; Abíúd gat Elíakeím; Elíakeím gat Asór;

14. Asór gat Sadók; Sadók gat Akeim; Akeim gat Elíúð;

15. Elíúð gat Eleasar; Eleasar gat Mattan; Mattan gat Jakob;

16. Jakob gat Jósep, mann Maríu, sem var móðir Jesú, hver eð kallast Kristur.

17. Eru þannig alls 14 ættliðir frá Abraham til Davíðs, frá Davíð til hinnar Babýlonisku herleiðíngar 14, og 14 frá herleiðíngunni til Krists.

18. ¶ Fæðíng Jesú Krists varð með þessum atburðum: móðir hans María var föstnuð Jósep, en áður en þau komu saman, fannst hún barns hafandi af Heilögum Anda.

19. En festarmaður hennar Jósep, sem var valmenni, og ekki vildi gjöra henni opinbera minkun, ásetti sèr að skiljast heimuglega við hana.

20. Þegar hann hafði þetta í hyggju, þá vitraðist honum eingill Guðs í draumi og

sagði: Jósep, sonur Davíðs, víla þú ekki fyrir þèr að gánga að eiga Maríu, festarkonu þína; því sá þúngi, er hún geingur með, er getinn af Heilögum Anda.

21. Hún mun son fæða, hann skaltu láta heita Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk frá þess syndum.

22. En alt þetta skeði, svo að rættist það, sem Drottinn mælti fyrir spámanninn, er svo sagði:

23. Sjá, mey mun barns hafandi verða og son fæða, hann munu menn heita láta Emmanúel; það þýðir: Guð með oss.

24. Þegar Jósep vaknaði, gjörði hann, sem eingill Drottins hafði boðið, og tók festarkonu sína til sín;

25. En kendi hennar ekki þángað til hún ól sinn frumgetinn son, sem hann lèt heita Jesús.

## 2. KAPÍTULI.

*Vitríngar veita Kristi lotníngu. Hann flýr til Egyptalands. Heródes lætur deyða sveinbörnin í Betlehem. Jesús kemur til Nazaret.*

ÞEGAR nú Jesús var fæddur í Betlehem í Júdea, á dögum Heródesar konúngs, komu vitríngar úr austurlöndum til Jerúsalem, og sögðu:

2. Hvar er hinn nýfæddi konúngur Gyðínga? Vèr höfum sèð hans stjörnu í austurlöndum, og erum komnir til að veita honum lotníngu.

3. En er Heródes konúngur heyrði þetta, varð hann skelfdur, og öll Jerúsalem með honum,

4. Og lèt samankalla alla æðstu presta og löglærða lýðsins, og spurði þá, hvar Kristur ætti að fæðast.

5. Þeir sögðu honum: í Betlehem í Júdea; því þannig hefði spámaðurinn skrifað:

6. Þú Betlehem í Júdea ert eingan veginn hin minnsta á meðal merkisborga Júdea; Því frá þèr mun koma höfðíngi, er ráða skal fyrir mínum lýð Ísrael.

7. Þá kallaði Heródes vitríngana til sín á laun, og spurði þá vandlega, nær stjarnan hefði sèzt;

8. Sendi þá síðan til Betlehem og sagði: farið, og haldið vandlega spurnum fyrir um barnið, og þegar þèr hafið fundið það, þá kunngjörið mèr það, að eg einninn geti komið að auðsýna því lotníngu.

9. En þegar þeir höfðu heyrt konúnginn, fóru þeir leiðar sinnar. Og sjá, stjarna sú, sem þeir höfðu sèð í austur-

löndum, gekk undan þeim, þar
til hana bar þar yfir, sem
barnið var;
10. Og er þeir sáu stjörnuna,
glöddust þeir harla mjög,
11. ¶ Geingu inn í húsið, og
fundu þar barnið ásamt með
Maríu móður þess, fèllu fram
og veittu því lotníngu. Þar
næst opnuðu þeir fjárhirzlur
sínar, og færðu því gjafir, gull,
reykelsi og myrru.
12. Síðan gaf Guð þeim ávís-
un í draumi, að þeir skyldu
ekki snúa aptur til Heródes-
ar; fóru þeir því aðra leið
heim aptur í sitt land.
13. Þegar þeir voru burtu
farnir, vitraðist eingill Drott-
ins Jósep í draumi, og sagði:
statt upp, tak barnið og móð-
ur þess, og flý til Egypta-
lands, og ver þar, þángað til
eg segi þèr; því Heródes mun
leita barnsins að fyrirfara því.
14. En þegar hann vaknaði,
tók hann barnið og móður
þess um nótt, og fór til E-
gyptalands,
15. Og dvaldist þar, þángað til
Heródes var dauður; svo að
rættist það, sem Drottinn
sagði fyrir spámanninn: af
Egyptalandi kallaði eg son
minn.
16. ¶ En er Heródes sá, að
hann var gabbaður af vitríng-
unum, varð hann afar reiður,
sendi út og lèt myrða öll
sveinbörn í Betlehem, og í
þeim hèruðum, er þar voru í
grend, tvævetur og þau, er
ýngri voru, sem svaraði þeirri
tímaleingd, er hann hafði
komizt eptir hjá vitríng-
unum.
17. Sannaðist það þá, sem
spámaðurinn Jeremías segir:
18. Í Rama heyrðust hljóð,
kveinstafir, grátur og vein mik-
ið; Rakel harmar börn sín,
og vill ekki huggast láta, því
það er útgjört um þau.
19. ¶ Þegar Heródes var dauð-
ur, vitraðist eingill Drottins
Jósep í draumi í Egyptalandi,
og sagði:
20. Statt upp og tak barnið
og móður þess, og far til Gyð-
íngalands, því þeir eru dauðir,
er setið hafa um líf barnsins.
21. Jósep stóð upp, tók barn-
ið og móður þess, og fór til
Gyðíngalands.
22. En er hann heyrði, að
Arkelaus hefði tekið við ríki
í Júdea, í stað Heródesar föð-
ur síns, bar hann ekki traust
til að fara þángað, og veik
því, eptir ávísun Guðs í draum-
i, í Galílealand,
23. Og settist að í borg
þeirri, er heitir Nazaret, svo að
það rættist, sem spámennirnir

höfðu fyrirsagt, að hann skyldi naðverskur kallast.

## 3. KAPÍTULI.

*Jóhannes kennir, skírir, áminnir; Jesús er skírður af Jóhannesi.*

Á ÞEIM tíma kom Jóhannes skírari, og hóf þessa kenníngu í óbygðum Júdealands:

2. Takið sinnaskipti, því himnaríki er nálægt.

3. Því að um hann er það, sem spámaðurinn Esajas kemst svo að orði: Í óbygðum er kallað: tilbúið veg Drottni, beinið brautir hans.

4. En sjálfur bar Jóhannes klæðnað af úlfalda hárum, og hafði leðurbelti um sínar lendar; til matar hafði hann eingisprettur og skógarhunáng.

5. Þá kom til hans fólk frá Jerúsalem og úr öllu Júdea, og úr öllum hèruðum við Jórdan,

6. Og hann skírði þá í ánni, sem játuðu syndir sínar.

7. ¶ En sem hann sá marga Farísea og Sadúsea koma til sinnar skírnar, sagði hann við þá: þèr, nöðru kyn, hver hefir kent yður, að umflýa hina tilkomandi hegníngu?

8. Berið þessvegna þann ávöxt, er sambjóði betruðu hugarfari.

9. Segið ekki af sèrþótta með sjálfum yður: vèr eigum Abraham fyrir föður; því trúið mèr, að máttugur er Guð að vekja Abrahami börn af steinum þessum;

10. Því nú þegar ríður öxin að rótum trjánna, og mun þá hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, upphöggvið verða og í eld kastað.

11. Eg skíri yður einúngis í vatni til lífernis betrunar, en sá, sem eptir mig kemur, er mèr svo miklu meiri, að eg er ekki verður að bera skóklæði hans; hann mun skíra yður með Heilögum Anda og eldi.

12. Sína varpskúflu ber hann í hendi sèr, og hann mun hreinsa sinn láfa; korninu mun hann safna í hlöðu, en hismið mun hann brenna í óslökkvanda eldi.

13. ¶ Um þessar mundir kom Jesús úr Galílea til Jórdanar, til Jóhannesar, þess erindis að skírast af honum,

14. En Jóhannes færðist undan því, og sagði: mèr er þörf, að eg skírist af þèr, og þú kemur til mín.

15. Jesús svaraði honum og sagði: veittu mèr þetta, því þannig ber okkur að fullnægja öllu rèttlæti; og þá lèt Jóhannes það eptir honum.

16. Og sem Jesús var skírð-

ur, stè hann jafnskjótt upp úr vatninu; og sjá, þá opnuðust himnarnir uppi yfir honum, og Jóhannes sá Guðs Anda ofan stíga, eins og dúfu, og koma yfir hann;

17. Og sjá, þá heyrðist rödd af himnum, er sagði: þessi er sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknun.

## 4. KAPÍTULI.

*Jesú er freistað af djöflinum; hann víkur burt frá Júdea og býr í Kapernaum; kennir, kveður fjóra lærisveina sèr til fylgdar, kennir síðan og læknar.*

EPTIR það var Jesús leiddur af andanum á eyðimörku, svo að hann freistaðist af djöflinum;

2. Og er hann hafði fastað fjörutíu daga og fjörutíu nætur, tók hann loks að húngra.

3. Þá kom freistarinn til hans og sagði: ef þú ert Guðs Sonur, þá bjóð þú, að steinar þessir verði að brauðum.

4. Jesús svaraði: Skrifað stendur: maðurinn lifir ekki af einu saman brauði, heldur af sèrhverju orði, sem fram gengur af Guðs munni.

5. Þessu næst tók djöfullinn hann með sèr í borgina helgu, og fór með hann upp á musteris bustina, og sagði við hann:

6. Ef þú ert Sonur Guðs, þá kasta þèr hèr ofan fyrir, því skrifað er: Guð mun bjóða einglum sínum að sjá þèr borgið, og þeir munu bera þig á höndum sèr, að ekki steytir þú fót þinn við steini.

7. Jesús svaraði honum: Aptur stendur skrifað: "ekki skaltu freista Drottins Guðs þíns."

8. Enn á ný fór djöfullinn með hann upp á ofurhátt fjall, og sýndi honum öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð, og mælti:

9. Alt þetta mun eg gefa þèr, ef þú fellur fram og tilbiður mig.

10. Þá mælti Jesús: Far frá mèr, Satan; því skrifað er: Drottinn Guð þinn átt þú að tilbiðja og þjóna honum einum.

11. Þá yfirgaf djöfullinn hann, og sjá, einglar komu og þjónuðu honum.

12. ¶ En þegar Jesús heyrði, að Jóhannes var settur í fángelsi, veik hann til Galílea,

13. Og fór frá Nazaret, og settist að í Kapernaum, er liggur við sjáfarsíðuna á Sabúlons og Neptaleims landamærum,

14. Svo að rættist það, sem spámaðurinn Esajas segir:

15. Land Sabúlons og Nep-

taleims við sjóinn hinumegin
Jórdanar, Galílea hið heiðna,
16. Lýður sá, er í myrkri sat,
sá ljós mikið, og þeim, sem
bjuggu í enu dimma dauðans
landi, er ljós upp runnið.
17. ¶ Upp frá þessu hóf Jes-
ús að kenna, og segja: takið
sinna skipti; himnaríki er
nálægt.
18. ¶ Einhverju sinni er hann
gekk með sjónum í Galílea, leit
hann tvo bræður, Símon, sem
kallaður var Pètur, og Andrès
bróður hans, er voru að leggja
net í sjó, því þeir voru fiski-
menn;
19. Og sagði til þeirra: Fylgið
mèr, og mun eg gjöra yður að
manna veiðurum.
20. Þeir yfirgáfu jafnskjótt
netin, og fylgdu honum.
21. Og er hann gekk þaðan
leingra áfram, leit hann aðra
tvo bræður, Jakob Sebe-
deusson og Jóhannes, bróður
hans, á skipi með Sebedeusi,
föður þeirra, og voru þeir að
bæta net sín; þá kvaddi hann
einninn til fylgdar við sig;
22. Þeir yfirgáfu jafnskjótt
skipið og föður sinn, og rèðust
til fylgdar við hann.
23. ¶ Síðan fór Jesús um alt
Galílea og kendi í samkundum
þeirra, og flutti þeim gleði-
boðskapinn um Guðs ríki, og
læknaði als kyns sóttir og
kránkleika meðal lýðsins;
24. Og barst orðstír hans um
alt Sýrland. Og færðu menn
til hans alla sjúka, sem af
ýmislegum kránkleikum og
þúngum sjúkdómum haldnir
voru, djöfulóða, túnglsjúka,
máttvana, og læknaði hann
þá.
25. Og fylgdi honum mikill
fjöldi fólks úr Galílea og Deka-
pólis, Jerúsalem og Júdea,
og úr landinu fyrir handan
Jórdan.

## 5. KAPÍTULI.

*Kenníng Jesú á fjallinu; hans áminníng til postulanna; hans útskýríng yfir lögmálið og boðorðin.*

EN er hann sá mannfjöld-
ann, gekk hann upp á
fjall eitt og settist þar; þá
komu lærisveinarnir til hans;
2. Tók hann þá til að kenna
þeim á þessa leið:
3. Sælir eru þeir, sem eru
andlega volaðir, því þeirra er
himnaríki.
4. Sælir eru sorgbitnir, því
þeir munu huggun hljóta.
5. Sælir eru hógværir, því
þeir munu jarðríkið erfa.
6. Sælir eru þeir, sem húngr-
ar og þyrstir eptir rèttlætinu,
því þeir munu saddir verða.
7. Sælir eru miskunsamir,
því þeir munu miskun hljóta.

8. Sælir eru hreinhjartaðir,
því þeir munu Guð sjá.
9. Sælir eru friðsamir, því
þeir munu Guðs börn kallaðir
verða.
10. Sælir eru þeir, sem fyrir
rèttlætisins sakir ofsóktir verð-
a, því þeirra er himnaríki.
11. Sælir eruð þèr, þegar
menn atyrða yður, ofsækja og
tala gegn yður alls konar ill-
yrði mín vegna, en þó ljúg-
andi.
12. Fagnið og verið glaðir,
því yðar verðkaup er mikið á
himnum; því þannig ofsóktu
þeir spámennina, sem fyrir yð-
ur voru.
13. ¶ Þèr eruð salt jarðar;
nú, ef saltið dofnar, með hverju
á þá að selta það? það er þá
til einskis nýtt, nema að út-
kastast og fótum troðast af
mönnum.
14. Þèr eruð ljós heimsins;
sú borg, sem á fjalli er bygð,
fær ekki dulizt.
15. Menn kveykja ekki ljós
til að setja það undir mæliker,
heldur setja menn það í ljósa-
stiku, að það lýsi þeim, sem
inni eru;
16. Svo lýsi og yðvart ljós
öðrum mönnum, að þeir sjái
yðar góðverk, og vegsami yðar
himneska föður.
17. ¶ Ætlið ekki, að eg sè
kominn til að aftaka lögmálið
og spámennina; til þess er eg
ekki kominn, heldur til þess
að fullkomna það.
18. Sannlega segi eg yður:
þángað til himin og jörð for-
gengur, mun ekki hinn minnsti
bókstafur eða titill lögmálsins
líða undir lok, uns því öllu er
fullnægt.
19. Hver sem því brýtur eitt
af þessum boðum, er minnst
sýnist um varða, og hvetur aðra
til þess, hann mun minnstur
kallast í himnaríki; en hver
sem hlýðir þeim, og ræður
(öðrum til hins sama), hann
mun mikill kallast í himna-
ríki;
20. Því eg segi yður, að
nema yðar rèttlæti taki fram
Faríseanna og hinna lög-
lærðu, munuð þèr ekki koma
í himnaríki.
21. ¶ Þèr hafið heyrt, að það
var bannað í fornöld mann að
vega, en ef einhver vægi mann,
skyldi hann dóms sekur;
22. En eg segi yður, að hver
sem reiðist bróður sínum, er
dóms sekur; og hver, sem
segir við bróður sinn, þú
heimskíngi, verður sekur eptir
dómi hins mikla ráðs; en hver,
sem segir, þú guðleysíngi, vinn-
ur til helvítis elds.
23. Þar fyrir, þegar þú færir

gáfu þína til altarisins, og þèr
kemur þar í hug, að þú hafir
eitthvað gjört á annars hluta,
24. Þá skil þar eptir gáfu þína
við altarið, far burt og sætzt
áður við bróður þinn, kom
síðan og offra gáfu þinni.
25. Vertu skjótur til sætta
við mótstöðumann þinn, með-
an þú ert enn á vegi með
honum (til dómarans), svo að
eigi afhendi hann þig dómar-
anum, en hann fángaverðinum,
og verði þèr síðan í dýflissu
kastað.
26. Sannlega segi eg þèr, að
þú munt þaðan ekki út kom-
ast, fyrr en þú hefir borgað
hinn síðasta peníng.
27. ¶ Þèr hafið heyrt boðið:
þú skalt eigi hórdóm drýgja;
28. En eg segi yður, að hver
sem lítur konu girndar auga,
hefir þegar drýgt hór með
henni í hjarta sínu.
29. Ef auga þitt hið hægra
hneykslar þig, þá stíng það út,
og kasta því á burt; því betra
er þèr að missa einn lima
þinna, en öllum þínum líkama
verði kastað í helvíti.
30. Eins ef þín hægri hönd
lokkar þig til syndar, þá síð
hana af og kasta á burt; betra
er þèr að missa einn lima
þinna, en að öllum þínum
líkama verði kastað í helvíti.
31. Það er boðið, að hver, sem
segir skilið við konu sína, skuli
gefa henni skilnaðarskrá;
32. En eg segi yður, að hver
sem lætur skilið við konu sína,
án þess hún sè um hór sek, er
skuld í, að hún verður hór-
kona, og hver, sem geingur að
eiga þá konu, sem við mann
sinn hefur skilið, drýgir hór.
33. ¶ Þèr hafið einnig heyrt,
að forfeðrunum var gefið það
boðorð: þú skalt ekki sverja
rángan eið, heldur efna svar-
daga þína við Guð;
34. En eg segi yður, að þèr
eigið öldúngis ekki að sverja,
hvorki við himininn, því hann
er hásæti Guðs;
35. Nè við jörðina, því hún er
hans fótskör; ekki heldur við
Jerúsalem, því hún er borg
hins mikla konúngs;
36. Ekki heldur við höfuð
þitt, því ekki getur þú gjört
eitt einasta hár svart eða hvítt
á því;
37. En játið, þegar játa ber,
og neitið, þegar neita ber;
hvað sem þar er fram yfir, það
kemur frá hinum vonda.
38. ¶ Þèr hafið heyrt, að boðið
er: Auga fyrir auga, tönn fyrir
tönn;
39. En eg segi yður: Rísið
ekki öndverðir móti mein-
gjörðum annara, heldur slái

einhver þig á hægri kinn þína, þá bjóð honum einnig hina.
40. Vilji einhver hafa lagadeilur við þig um kyrtil þinn, þá lát honum og yfirhöfn þína lausa.
41. Neyði nokkur þig um einnar mílu fylgd, þá far með honum tvær;
42. Gef þeim, sem biður, og vert ekki afundinn við þann, sem af þèr vill lán taka.
43. ¶ Þèr hafið heyrt, að boðið er: þú átt að elska náúnga þinn, og hata óvin þinn;
44. En eg býð, að þèr elskið óvini yðar, blessið þá, sem yður bölva, gjörið þeim gott, sem hata yður, og biðjið fyrir þeim, sem rógbera yður og ofsækja;
45. Svo þèr sèuð börn föðurs yðar á himnum, því hann lætur sína sól upp renna yfir vonda og góða, og rigna yfir ráðvanda og óráðvanda.
46. Því þótt þèr elskið þá, sem yður elska, hver laun eigið þèr skilið fyrir það? Gjöra ekki tollheimtumenn hið sama?
47. Og þótt þèr látið að eins kært við landa yðar, hvað gjörið þèr lofsvert með því? Gjöra ekki heiðnir menn hið sama?
48. Verið þar fyrir fullkomnir, eins og yðar faðir á himnum er fullkominn.

## 6. KAPÍTULI.

*Jesús talar um ölmusur, bænir, föstu, himneskan auð; varar við áhyggju.*

VARIZT að gjöra góðverk yðar í manna augsýn, til þess að þeir sjái þau; annars hafið þèr eingra launa að vænta af yðar himneska föður.
2. Þegar þú þar fyrir ætlar að gefa ölmusu, þá lát ekki blása í lúður fyrir þèr, eins og hræsnarar gjöra á samkomum og strætum, til þess að þeim verði hrósað af mönnum: því sannlega segi eg yður, þeir hafa þegar úttekið laun sín.
3. En nær þú vilt gefa ölmusu, þá viti ekki hönd þín hin vinstri, hvað sú hægri gjörir;
4. Svo þín góðgjörð sè hulin, og faðir þinn, sem sèr það, sem í leyni er gjört, mun þèr það opinberlega endurgjalda.
5. ¶ Eins, nær þú biðst fyrir, þá hegða þèr ekki sem hræsnarar, sem helzt vilja standa og biðjast fyrir á strætum og gatnamótum, til þess að þeir verði sènir af öðrum; sannlega segi eg yður, þeir hafa þegar úttekið sín laun.
6. En nær þú vilt biðjast fyrir, þá far þú í svefnhús þitt, og loka dyrunum; bið svo föður þinn i einrúmi, og hann, sem

sèr hvað í einrúmi skeður,
mun veita þèr það opinberlega.
7. Varizt í bænum yðrum ó-
nytju mælgi, eins og heiðíngja
er siður, því þeir hyggja, að
þeir muni verða bænheyrðir
fyrir margmælgi sína;
8. Varizt því að líkjast þeim;
því faðir yðar veit, hvers þèr
við þurfið, áður en þèr biðjið
hann.
9. Biðjið þar fyrir á þessa
leið: Faðir vor, þú sem ert á
himnum, helgist þitt nafn;
10. ¶ Tilkomi þitt ríki; verði
þinn vilji, svo á jörðu, sem á
himni;
11. Gef oss í dag vort daglegt
brauð;
12. Og fyrirgef oss vorar
skuldir, svo sem vèr fyrir-
gefum vorum skuldunautum;
13. Og leið oss ekki í freistni,
heldur frelsa oss frá illu.
14. ¶ Því ef þèr fyrirgefið
öðrum þeirra yfirsjónir, þá
mun yðar himneski faðir fyr-
irgefa yður;
15. En ef þèr ekki fyrirgefið
öðrum, mun faðir yðar him-
neskur ekki heldur fyrirgefa
yður yðar misgjörðir.
16. ¶ Nær þèr fastið, þá verið
ekki með hryggu yfirbragði,
sem hræsnarar, því þeir af-
mynda ásjónur sínar, svo aðrir
sjái, að þeir fasti; sannlega
segi eg yður, þeir hafa sín
laun úttekið.
17. En nær þú fastar, þá
smyr höfuð þitt, og þvo þitt
andlit,
18. Svo aðrir verði ekki var-
ir við, að þú fastir, nema faðir
þinn, sem er ósýnilegur; og
faðir þinn, sem sèr hvað í
einrúmi skeður, mun þèr það
endurgjalda.
19.¶ Safnið yður ekki fjársjóð-
um á jörðu, þar sem mölur og
ryð granda, og þar sem þjófar
grafa til og stela;
20. ¶ Safnið yður heldur fjár-
sjóðum á himnum, þar sem
hvorki grandar mölur eða
ryð, nè þjófar fá eptirgrafið
og stolið;
21. Því þar sem fjársjóður
yðar er, þar mun og yðvart
hjarta vera.
22. Augað er ljós líkamans;
nú ef auga þitt er heilskygnt,
þá er allur líkami þinn í
birtu;
23. En sè auga þitt gallað,
þá er allur líkami þinn í
myrkri. Nú ef það ljós, sem
í þèr er, er myrkur, hve svart
mun ekki það myrkur vera?
24. ¶ Einginn kann tveimur
herrum að þjóna, því annað-
hvort mun hann hata annan
þeirra og elska hinn, eða að-
hyllast annan þeirra og fyrirlíta

hinn. Þannig getið þèr ekki
verið bæði þjónar Guðs og
mammons.
25. Eg segi yður því: Verið
ekki hugsjúkir fyrir yðru lífi,
hvað þèr skuluð eta og drekka,
ekki heldur fyrir yðrum líkam-
a, hverju þèr skuluð klæð-
ast. Er ekki lífið meira vert
en fæðan, og líkaminn meir en
klæðnaðurinn?
26. Lítið til fuglanna í loptinu,
hvorki sá þeir nè uppskera, og
ekki heldur safna þeir í korn-
hlöður, þó fæðir yðar himneski
faðir þá; eruð þèr ekki miklu
ágætari en þeir?
27. Hver af yður getur, með
allri sinni áhyggju, aukið einni
alin við hæð sína?
28. Eða, hví eruð þèr áhyggju-
fullir fyrir fatnaðinum? Skoð-
ið akursins liljugrös, hversu
þau vaxa; hvorki vinna þau
nè spinna;
29. En eg segi yður, að Saló-
mon í allri sinni dýrð var
ekki svo skrýddur, sem eitt
af þeim.
30. Ef að Guð nú skrýðir svo
grasið á jörðunni, sem í dag
stendur, en á morgun verður
í ofn kastað, hversu miklu
framar mun hann ekki klæða
yður, þèr trúarveikir?
31. Spyrjið því ekki hugsjúkir:
hvað fáum vèr til matar? hvað
fáum vèr að drekka? og hvað
fáum vèr til fata?
32. Því slíka áhyggju hafa
heiðnir menn; en yðar him-
neskur faðir veit, að þèr þurfið
alls þessa við.
33. Leitið um fram alt Guðs
ríkis, og hans rèttlætis, þá
mun og alt þetta veitast yður;
34. Verið því ekki hugsjúkir
fyrir morgundeginum, hann
mun sjálfur bera áhyggju fyrir
sèr; hverjum degi nægir sín
þjáníng.

## 7. KAPÍTULI.

*Jesús varar við ómildum dómum; talar um bæn; um kjarna lögmálsins, um veginn til lífsins, um falsspámenn og hræsnara.*

DÆMIÐ ekki, svo þèr verð-
ið ekki dæmdir;
2. Því líkur dómur og þèr
fellið yfir öðrum, mun yfir
yður feldur verða, og eins og
þèr mælið öðrum, munu þeir
aptur mæla yður.
3. Hversvegna sèr þú flísina
í þíns bróðurs auga, en gætir
ekki að bjálkanum, sem er í
þínu eigin auga?
4. Eða hvernig fær þú sagt
við hann: láttu mig taka flís-
ina úr auga þèr, og sjá, það
er þó bjálki í sjálfs þíns
auga?
5. Þú hræsnari, drag fyrst
bjálkann úr þínu eigin auga,
og sjáðu síðan til, að þú fáir

dregið flísina úr aúga bróður þíns.

6. ¶ Kastið ekki helgidómum fyrir hunda, nè perlum yðrum fyrir svín, að þau ekki troði þær fótum, snúist síðan að sjálfum yður, og rífi yður í sundur.

7. ¶ Biðjið, þá mun yður gefast; leitið, þá munuð þèr finna; knýið á, og þá mun fyrir yður upp lokið verða;

8. Því hver sem biður, hann öðlast; hver er leitar, hann finnur; og hver er á knýr, fyrir honum mun upp lokið verða.

9. Eður er nokkur sá af yður, sem gæfi syni sínum stein, ef hann bæði um brauð;

10. Eða höggorm, ef hann bæði um fisk?

11. Ef nú þèr, sem vondir eruð, tímið að gefa börnum yðar góðar gjafir, hversu miklu framar mun þá ekki yðar himneskur faðir gefa þeim góða hluti, sem hann biðja?

12. Alt hvað þèr viljið að mennirnir gjöri yður, það skuluð þèr og þeim gjöra; því þetta er kjarni lögmálsins og spámannanna.

13. ¶ Gángið um hið þraungva hlið; því það hlið er vítt, og sá vegur er breiður, sem liggur til glötunar, og margir eru þeir, sem hann gánga.

14. Hversu er það hlið þraungt og mjór sá vegur, er til lífsins leiðir, og fáir þeir, er hann rata?

15. ¶ Gætið yðar fyrir falskennendum, sem koma til yðar í sauða klæðum, en sem hið innra eru gráðugir vargar;

16. Af þeirra ávöxtum skuluð þèr þekkja þá. Hvort geta menn lesið vínber af þyrnum, eða fíkjur af þistlum?

17. Þannig ber hvert gott trè góðan ávöxt, en vont trè vondan ávöxt.

18. Gott trè getur ekki borið vondan ávöxt, ekki heldur vont trè góðan ávöxt.

19. En hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, skal verða upp höggvið og í eld kastað;

20. Þar fyrir getið þèr þekt þá af ávöxtum þeirra.

21. ¶ Ekki munu allir þeir, sem til mín segja, herra, herra, koma í himnaríki, heldur þeir einir, sem gjöra vilja míns himneska föðurs.

22. Á þeim degi munu margir segja til mín: herra, herra, höfum vèr ekki í þínu umboði kent, rekið djöfla út og gjört mörg kraptaverk?

23. En eg mun segja þeim berlega: aldrei þekta eg yður; farið frá mèr, þèr illgjörðamenn.

24. ¶ Hver sem heyrir þessa mína kenníngu og breytir eptir henni, honum vil eg líkja við forsjálan mann, er bygði hús sitt á bjargi;
25. Nú kom steypiregn og vatnsflóð, stormar risu og buldu á því húsi, en það fèll ekki að heldur, því það var grundvallað á bjargi.
26. Þar á mót er sá, sem heyrir þessa mína kenníngu og breytir ekki eptir henni, líkur heimskum manni, er bygði hús sitt á sandi;
27. Nú kom steypiregn og vatnsflóð, stormar risu og dundu á því húsi, þá fèll það, og hrun þess varð mikið.
28. Þegar Jesús hafði lokið þessari ræðu, undraðist lýðurinn mjög kenníngu hans;
29. Því hann kendi eins og sá, sem (guðlegt) vald hafði, en ekki eins og hinir skriptlærðu.

## 8. KAPÍTULI.

*Jesús læknar líkþráan mann, þjón hundraðshöfðíngjans, móður konu Pèturs og fleiri sjúka; talar um örðugleika við það, að fylgja sèr; kyrrir vind og sjó, útrekur djöfla.*

EN er hann gekk niður af fjallinu, fylgdi honum mikill fjöldi fólks;
2. Þá kom til hans líkþrár maður, tilbað hann og mælti: herra, ef þú vilt, getur þú hreinsað mig.
3. Þá rètti Jesús út höndina, snerti hann og sagði: Eg vil, vertu hreinn;
4. Og jafnskjótt varð hann hreinn af líkþrá sinni.
5. ¶ Þá sagði Jesús við hann: varastu að segja þetta nokkrum, heldur far og sýn þig prestinum, og offra þeirri gáfu, sem Móses bauð, öðrum til sanninda merkis.
6. Þegar hann kom inn í Kapernaum, kom til hans hundraðshöfðíngi nokkur, og tók svo til orða: herra, þjón minn liggur heima limafalls sjúkur, og er mjög þúngt haldinn.
7. Jesús sagði: eg skal koma og lækna hann.
8. Þá svaraði hundraðshöfðínginn: herra, ekki er eg verður þess, að þú gángir inn undir mitt þak. Bjóð þú að eins með einu orði, og mun þjón minn heill verða.
9. Því nær eg, sem er yfirvaldi undirgefinn og hefi að ráða yfir stríðsmönnum, býð einum þeirra að fara, þá fer hann, og öðrum að koma, þá kemur hann, eða þræli mínum að gjöra eitthvað, þá gjörir hann það.
10. Þegar Jesús heyrði þetta, undraðist hann og mælti við þá, sem fylgdu honum: sannlega segi eg yður: því líka

trú hefi eg ekki fundið í Ísrael;

11. En eg segi yður, að margir munu koma að austan og vestan, og sitja til borðs með Abraham, Ísaak og Jakob í ríki himnanna;

12. En erfíngjar ríkisins munu verða út reknir í yztu myrkur, hvar vera mun grátur og gnístrun tanna.

13. Síðan sagði Jesús við hundraðshöfðíngjann: far þú heim, verði þèr eptir trú þinni, og samstundis varð þjón hans heilbrigður.

14. ¶ Síðan kom Jesús í hús Pèturs, og sá þar móður konu hans; hún lá sjúk af köldu;

15. Tók hann þá í hönd henni, og þá yfirgaf kaldan hana, en hún fór á fætur og þjónaði þeim.

16. ¶ Um kvöldið færðu þeir til hans marga djöfulóða, og rak hann andana út með orði einu, og alla þá, sem sjúkir voru, læknaði hann;

17. Sannaðist þá það, sem spámaðurinn Esajas sagði: hann burt tók vorn veikleika, og bar vorar sóttir.

18. ¶ En þegar Jesús sá fjölda fólks hjá sèr, bauð hann að fara yfir um sjóinn;

19. Þá kom einn skriptlærður til hans og sagði við hann: Meistari, eg vil fylgja þèr, hvert sem þú fer.

20. Jesús mælti: refar hafa holur og fuglar himins skýli, en mannsins sonur hefir hvergi höfði sínu að að halla.

21. Annar maður, sem var einn af lærisveinum hans, sagði til hans: herra, leyf mèr fyrst að fara og grafa föður minn.

22. Jesús mælti: fylg þú mèr, og lát hina dauðu grafa sína dauðu.

23. ¶ Síðan steig hann á skip og lærisveinar hans með honum;

24. Gjörði þá svo mikið hafrót, að skipið huldi af bylgjunum, en hann svaf.

25. Þá geingu lærisveinarnir til hans og vöktu hann og sögðu: hjálpa þú oss, herra, vèr forgaungum.

26. En hann svaraði: hví eruð þèr svo hræddir, þèr trúarveikir? Því næst stóð hann upp og hastaði á vindinn og sjóinn; varð þá blíða logn.

27. Þetta undruðust menn mjög og sögðu: hvílíkur er þessi, að bæði veður og sjór hlýða honum?

28. ¶ Þegar hann kom yfir um í hèrað Gergesumanna, hlupu í móti honum tveir menn djöfulóðir, sem komu úr gröfum dauðra manna, svo ólmir, að

eingum var fært að fara þann
veg.
29. Og sjá, þeir hrinu upp
og sögðu: hvað höfum vèr
og þú, Guds Son, saman að
sælda? Ertú kominn híngað,
áður en tími er til, að kvelja
oss?
30. En svo stóð á, að stór
hjörð svína var á beit lángt
þaðan.
31. Djöflarnir báðu hann þá:
ef þú ætlar að reka oss út,
þá leyf oss að fara í svína-
hjörðina.
32. Hann segir: farið þèr.
Þeir fóru út, og í svínin;
ærðist þá hjörðin og steypti
sèr ofan fyrir heingiflug í
sjóinn, og týndist þar.
33. En þeir, er svínanna gættu,
flýðu til borgarinnar, og sögðu
þar alt, sem farið hafði, eins
um þá djöfulóðu.
34. Þá fóru allir borgarmenn
til móts við Jesúm, og þegar
þeir fundu hann, báðu þeir
hann að fara á burt úr þeirra
landareign.

## 9. KAPÍTULI.

*Jesús læknar visinn mann; kveður Matteus til fylgdar, og forsvarar sig og lærisveinana; læknar blóðfallssjúka konu, og uppvekur dóttur Jairusar; læknar tvo blinda, og einn djöfulóðan; aumkast yfir lýðinn.*

HANN steig þá á skip, fór
yfir um og kom í sína
borg.
2. Þá var færður til hans
limafallssjúkur maður, sem lá
í rekkju; og er Jesús sá trú
þeirra, sagði hann til hins
limafallssjúka: vertu hug-
hraustur, sonur, þínar synd-
ir eru þèr fyrirgefnar.
3. Þetta álitu nokkrir skript-
lærðir að vera guðlöstun;
4. Og er Jesús varð var við,
hvað þeir hugsuðu, sagði hann:
því hugsið þèr svo ilt í yðar
hjörtum?
5. Hvort er auðveldara að
segja: syndir þínar eru þèr
fyrirgefnar; eður að segja:
statt upp og gakk?
6. En til þess að þèr skulið
vita, að mannsins sonur hefir
vald til að fyrirgefa syndir á
jörðunni, þá segir hann til hins
limafallssjúka, statt upp, tak
sæng þína og gakk heim til
þín;
7. Og hann stóð upp og fór
heim til sín.
8. Þegar fólkið sá þetta,
undraðist það og lofaði Guð,
að hann hefði gefið mönn-
unum slíkt vald.
9. ¶ Þegar Jesús fór þaðan, sá
hann mann sitja hjá tollbúð-
inni, Matteus að nafni; þenna
kvaddi hann til fylgdar við
sig; hann stóð upp og fylgdi
honum.
10. ¶ En svo bar til, er Jesús

sat yfir borðum í húsi hans, að margir tollheimtumenn og bersyndugir komu þángað, og mötuðust þar með Jesú og lærisveinum hans;

11. Og er Faríseаr sáu það, sögðu þeir til lærisveina hans: því etur lærimeistari yðar með tollheimtumönnum og bersyndugum?

12. Þegar Jesús heyrði það, mælti hann til þeirra: ekki þurfa heilbrigðir læknis við, heldur þeir, sem vanheilir eru;

13. En farið þèr og nemið hvað það þýðir: miskunsemi þóknast mèr, en ekki fórnir; því ekki er eg kominn til að kalla rèttláta, helður synduga (til apturhvarfs).

14. ¶ Þá komu til hans lærisveinar Jóhannesar, og spurðu: því föstum vèr og Farísearnir svo opt, en þínir lærisveinar fasta ekki?

15. Jesús svaraði: það sæmir ekki, að brúðkaupsgestirnir sèu með hryggu bragði, meðan brúðguminn er með þeim. En sá tími mun koma, að brúðguminn verður numinn frá þeim, og þá munu þeir fasta.

16. Einginn leggur nýa bót á gamalt fat, því bótin rífur fatið og spjöllin verða verri.

17. Ekki eru menn heldur vanir að láta nýtt vín í gamla belgi, því annars springa belgirnir, vínið spillist, og belgirnir ónýtast; heldur er nýtt vín látið í nýa belgi, og er þá hvortveggja vel geymt.

18. ¶ En er hann var þetta að tala, kom inn til hans höfðíngi nokkur, tilbað hann og sagði: dóttir mín er nýdauð, kom þú og legg hönd yfir hana, þá mun hún lifna.

19. Jesús fór með honum og lærisveinar hans;

20. ¶ Og sjá, þá kom kona nokkur, sem haft hafði blóðfall í tólf ár, að baki honum og snart fald klæða hans;

21. Því hún sagði með sjálfri sèr: ef eg að eins fæ snortið yfirhöfn hans, þá mun mèr batna;

22. En Jesús snèrist við, og þá hann leit hana, sagði hann: vertu hughraust, dóttir, þín trú hefir hjálpað þèr; og varð hún jafnskjótt heilbrigð.

23. Nú er hann kom í hús höfðíngjans, og sá þar pípara, og þys fólksins,

24. Sagði hann til þeirra: Farið þèr í burtu, ekki er stúlkan dauð, heldur sefur hún; en þeir hlóu að honum.

25. En þá búið var að rýma fólkinu út, gekk hann inn, og

tók í hönd henni, og reis þá stúlkan upp;

26. Og barst fregnin um þetta út um alt það hèrað.

27. ¶ Þegar Jesús fór þaðan, fylgdu honum tveir menn blindir: þeir kölluðu þannig: Jesú, sonur Davíðs, miskuna þú okkur.

28. En er hann var kominn til húss, komu þeir blindu til hans. Jesús sagði til þeirra: trúið þèr, að eg geti þetta gjört? Þeir sögðu: já, herra.

29. Þá snart hann augu þeirra og mælti: verði ykkur að trú ykkar.

30. Og augu þeirra opnuðust; þá lagði Jesús ríkt á við þá, að segja eingum manni frá þessu.

31. En jafnskjótt sem þeir voru komnir út, báru þeir hans orðstír út um alt það hèrað.

32. ¶ Þegar þeir voru í burt farnir, var færður til hans maður nokkur mállaus, djöfulóður;

33. Og er djöfullinn var útrekinn, fèkk sá málið, er mállaus var. Þetta undraðist fólkið og mælti: aldrei hefir þvílíkt sèzt meðal Ísraels manna.

34. En Faríseear sögðu, að hann ræki djöfla út með hjálp djöflahöfðíngjans.

35. ¶ Síðan fór Jesús um allar borgir og þorp, kendi í samkundum þeirra, og flutti gleðiboðskapinn um Guðs ríki; hann læknaði als kyns sjúkdóma og kránkleika;

36. ¶ En er hann sá fólkið, kendi hann í brjósti um það, því það var þjáð og hirðíngarlaust, sem sú hjörð, er eingan hirðir hefir.

37. Þá sagði hann við lærisveina sína: kornskeran er að sönnu mikil, en verkamennirnir fáir;

38. Biðjið því herrann kornskerunnar, að hann vilji senda verkamenn til sinnar kornskeru.

## 10. KAPÍTULI.

*Jesús útsendir þá tólf postula til að kenna og gjöra kraptaverk; hughreystir þá á móti ofsóknum og lífláti; lofar þeim umbun, er veita þeim móttöku.*

SÍÐAN kallaði hann til sín sína tólf lærisveina, og gaf þeim vald til að reka út óhreina anda, og lækna als kyns sjúkdóma og kránkleika.

2. Nöfn þessara tólf postula voru þessi: fyrst var Símon, sem kallast Pètur, og Andrès bróðir hans, Jakob Sebedeusson, og Jóhannes bróðir hans,

3. Filippus og Bartólómeus, Tómás og Matteus tollheimtu-

maður, Jakob Alfeusson og Lebbeus, er kallast Taddeus,
4. Símon vandlætari og Júdas Iskaríot, sem síðan sveik hann.
5. Þessa tólf sendi Jesús frá sèr, og gaf þeim þessa skipun; farið eigi til heiðinna þjóða, og gángið eigi inn í neina samverska borg;
6. Heldur farið til týndra sauða af húsi Ísraels;
7. Og kunngjörið, að Guðs ríki sè nálægt;
8. Læknið sjúka, lífgið dauða, hreinsið líkþráa, rekið djöfla út; þèr hafið feingið þetta kauplaust, gjörið það og kauplaust.
9. Eigi skuluð þèr hafa gull, silfur eður eir í beltum yðrum,
10. Nè taka með yður á veginn nestismal; eigi hafa tvo kyrtla, ekki skó eður staf, því verður er verkamaðurinn fæðisins.
11. En í hverja þá borg eður þorp er þèr komið, þá spyrjist fyrir, hver þar sè verðugur; hjá honum skuluð þèr gista, til þess þèr farið þaðan.
12. Þegar þèr gángið inn í húsið, þá árnið þeim góðs, sem þar eru,
13. Og sèu þeir þess verðir, þá hríni óskir yðar á þeim; en ef ekki, þá hverfi þær aptur til yðar.
14. Sè sá nokkur, sem ekki vill veita yður viðtökur, eða hlýða yðar kenníngu, þá farið burt af því heimili eður þeim stað, og hristið dupt af fótum yðrum;
15. Sannlega segi eg yður, bærilegri munu verða kjör Sódómu og Gómorru á degi dómsins, en þeirrar borgar.
16. ¶ Sjá, eg sendi yður, sem sauði meðal úlfa; verið því sèðir, sem höggormar, og einfaldir, sem dúfur.
17. Gætið yðar fyrir mönnum, því þeir munu færa yður á þíng og húðstrýkja yður í samkunduhúsum sínum,
18. Og fyrir landstjórnara og konúnga munuð þèr færðir verða fyrir mínar sakir, svo bæði þeim og heiðíngjum verði minn lærdómur kunnur.
19. En nær þeir framselja yður, þá verið ekki hugsjúkir um, hvernin eður hvað þèr skuluð tala; því að það mun yður á sömu stundu gefið verða, hvað þèr eigið að tala;
20. Því það er ekki þèr, sem talið, heldur andi föður yðar, sem í yður talar.
21. Bróðir mun framselja bróður til lífláts, og faðir barn sitt; þá munu og börnin rísa

gegn foreldrunum, og firra þá lífi;

22. Og yður munu allir fyrir mínar sakir að hatri hafa. En sá, sem stöðugur stendur til enda, hann mun hólpinn verða.

23. Nær þeir ofsækja yður í einni borg, þá flýið í hina, og nær þeir ofsækja yður í henni, þá flýið í þá þriðju. Því sannlega segi eg yður, þèr munuð ekki hafa lokið umferð yðvarri um allar Ísraels borgir, áður Mannsins Son kemur.

24. Lærisveinninn er eigi fyrir meistara sínum, ekki heldur þjónninn fyrir sínum húss-bónda;

25. Lynda má lærisveininum, að hann hafi sömu kjör, sem meistarinn, og þrælnum, sem húsbóndi hans; en hafi þeir kallað hússföðurinn Belsebúl, hversu miklu heldur munu þeir kalla þjóna hans það?

26. Hræðist þá því ekki; því ekkert er svo hulið, að ei muni opinbert verða, og ekkert svo leynt, að ei verði augljóst;

27. Hvað eg segi yður í myrkri, það skuluð þèr í ljósi öðrum kenna, og það, sem yður er sagt hljóðlega, skuluð þèr í fjölmenni flytja.

28. Hræðist ekki þá, sem líkamann deyða, en geta ekki líflátið sálina; hræðist heldur þann, sem vald hefir til að tortýna bæði sálu og líkama í helvíti.

29. Eru ekki tveir titlíngar seldir fyrir einn pening, þó fellur enginn þeirra til jarðar án vilja föður yðar;

30. Jafnvel yðar höfuðhár eru talin;

31. Hræðist því ekki, þèr eruð meira verðir, en margir titlíngar.

32. Hver sem kannast við mig fyrir mönnum, við þann mun eg einninn kannast fyrir mínum föður á himnum.

33. En hver sem afneitar mèr fyrir mönnum, honum mun eg og afneita fyrir mínum föður á himnum.

34. Ætlið ekki, að af minni komu muni friður standa á jörðu; ekki mun hún friði valda, heldur styrjöldum.

35. Af henni mun koma ósamlyndi milli föðurs og sonar, dóttur og móður, sonarkonu og móður manns hennar;

36. Og hússbóndans heimamenn munu hans óvinir vera.

37. Hver sem elskar föður eða móður meir en mig, hann er mín ekki verður, og hver sem elskar son eða dóttur meir en mig, sá er mín ekki verður;

38. Og hver sem ekki tekur sinn kross og fylgir mèr eptir, hann er mín ekki verður.

39. Hver sem hyggst að forða lífi sínu, mun því týna, en hver sem týnir því, fyrir mína skuld, mun fá því borgið.

40. ¶ Hver sem veitir yður viðtökur, hann veitir mèr og viðtökur, og sá, sem veitir mèr viðtökur, hann veitir viðtökur þeim, er mig sendi.

41. Hver sem veitir spámanni viðtökur, vegna þess hann er spámaður, mun spámannslaun öðlast; hver sem tekur við ráðvöndum, fyrir það að hann er ráðvandur, mun hljóta hins ráðvanda umbun;

42. Og hver sem gefur einum af þessum umkomulausu kaldan vatnsdrykk, vegna þess, að hann er minn lærisveinn, sannlega segi eg yður, hann mun ekki fara á mis við sín laun.

## 11. KAPÍTULI.

*Jóhannes lætur spyrja Jesú, hvert hann sé Messías; Jesús talar um Jóhannes, kvartar yfir þrjózku lyðsins, ávítar borgir, vegsamar ráð Guðs, og býður voluðum til sín.*

ÞEGAR Jesús hafði lokið þessari skipun sinni til þeirra tólf lærisveina sinna, fór hann þaðan að kenna og prêdika í Gyðínganna borgum.

2. Nú er Jóhannes heyrði í fángelsinu verkin Krists, sendi hann til hans tvo lærisveina sína, og lèt þá segja:

3. Ert þú sá, sem koma skal, eða eigum vèr að vænta annars?

4. Jesús sagði við þá: farið þið og segið Jóhannesi, hvað þèr heyrið og sjáið:

5. Blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, dauðir upprísa og fátækum verða guðspjöllin boðuð;

6. Og sæll er sá, sem ekki hneykslast á mèr.

7. ¶ Þegar þeir voru burtu farnir, hóf Jesús ræðu sína til fólksins um Jóhannes á þessa leið: Hvað fóruð þèr að sjá á eyðimörku? Hvort reyr, af vindi skekinn?

8. Eður hvað fóruð þèr að sjá? Hvort mann mjúkklæddan? Gætið að: þeir, sem mjúkan klæðnað bera, eru í konúnganna höllum.

9. Hvað fóruð þèr þá að sjá? Hvort spámann? Já, í sannleika þann, sem meiri er, en nokkur spámaður;

10. Því hann er sá, sem um er ritað: sjá, eg sendi eingil minn undan þèr, er greiða skuli þèr veg.

11. Sannlega segi eg yður: einginn er af konu fæddur, er meiri sè en Jóhannes skírari;

þó er hinn minnsti í himnaríki honum meiri.
12. Frá dögum Jóhannesar skírara, og til þessa, verður himnaríki fyrir ofríki og þeir, sem ofríkinu beita, hrífa það til sín;
13. Því allir spámenn og lögmálið spáðu alt fram að Jóhannesi;
14. Og ef þèr viljið aðhyllast það, þá er hann sá Elías, er koma skal.
15. Hver sem hefir eyru til að heyra, sá heyri.
16. ¶ Við hvað skal eg líkja þessari kynslóð? Þeim fer eins og börnum, sem á torgi eru, og kalla þannig til leiksbræðra sinna:
17. Vèr höfum blásið fyrir yður á hljóðpípu, en þèr hafið ekki viljað dansa; vèr höfum súngið yður harmasaungva, og þó vilduð þèr ekki gráta.
18. Því Jóhannes kom, og át hvorki nè drakk, og segja þeir, að hann sè djöfulóður.
19. Mannsins sonur kom, og át og drakk, og segja þeir: sjáið matstákinn og vínsvelginn, vin tollheimtumanna og bersyndugra. En spekin rèttlætist af börnum sínum.
20. ¶ Síðan tók hann að ávíta þær borgir, í hverjum hann hafði flest kraptaverk gjört, fyrir það, að þær hefðu ekki tekið sinnaskipti, og tók svo til orða:
21. Vei þèr, Korazin; vei þèr, Betsaida; ef þau kraptaverk, sem í ykkur hafa gjörð verið, hefðu verið gjörð í Týrus eða Sídon, þá mundu þeir fyrir laungu hafa iðrun gjört í sekk og ösku.
22. En, eg segi yður, að bærilegri munu verða kjör Týrus og Sídonar á degi dómsins, en ykkar.
23. Og þú, Kapernaum, sem nú gnæfir til himins, þèr mun í grunn niðursökt verða; því hefðu þau kraptaverk verið gjörð í Sódómu, sem í þèr hafa gjörð verið, þá stæði hún enn í dag.
24. Og eg segi yður, að bærilegri munu verða kjör Sódómu á degi dómsins, en þín.
25. ¶ Um sama leiti tók Jesús svo til orða: eg þakka þèr, Faðir, Drottinn himins og jarðar, að þú hefir látið þessa hluti vera hulda fyrir fróðum mönnum og spekíngum, en auglýst þá smælíngjum.
26. Sannarlega hefir þèr, faðir, þóknazt, að svo skyldi vera.
27. Alt er mèr af mínum Föður í vald gefið, og einginn þekkir Soninn nema Faðirinn, og einginn Föðurinn nema

Sonurinn, og sá, sem Sonurinn vill það auglýsa.
28. ¶ Komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg vil gefa yður hvíld;
29. Takið á yður mitt ok, og lærið af mèr, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur, og munuð þèr hugsvölun finna;
30. Því mitt ok er inndælt og mín byrði lètt.

## 12. KAPÍTULI.

*Lærisveinar Jesú tína kornöx á hvíldardegi; Jesús læknar visna hönd, læknar djöfulóðan, sem var blindur og mállaus, og forsvarar sig fyrir álasi Farísea; þeir krefja hann teikns. Móðir hans og ættíngjar vilja tala við hann.*

EINHVERJU sinni fór Jesús á hvíldardegi með sínum lærisveinum yfir sáðlönd nokkur; en er lærisveina hans sveingdi, tóku þeir til að tína kornöxin og eta.
2. Þegar Faríseear sáu það, sögðu þeir til hans: sjá, lærisveinar þínir gjöra það, sem ekki leyfist á hvíldardegi.
3. Jesús mælti: hafið þèr ekki lesið, hvað Davíð gjörði, þegar hann húngraði og menn hans,
4. Að hann gekk inn í Guðs hús og neytti brauðanna helgu, sem hvorki hann nè fylgdarmenn hans, og eingir, nema prestarnir einir, máttu eta?
5. Eður hafið þèr ekki lesið í lögmáls bókinni, að prestarnir vanhelga hvíldardaginn í musterinu á hvíldardögunum, og eru þó sýknir saka?
6. En eg segi yður, að hèr er sá, sem meiri er en musterið.
7. Ef þèr hefðuð skilið, hvað það þýðir: miskunsemi þóknast mèr en ekki fórnir, mundduð þèr ekki hafa sakfelt þessa, sem saklausir eru;
8. Því mannsins sonur er herra hvíldardagsins.
9. Þaðan fór hann til samkundu þeirra;
10. ¶ Og sjá, þar var maður nokkur, er hafði visna hönd; þá spurðu þeir hann, hvort leyfilegt væri að lækna á hvíldardögum; til þess þeir gætu feingið tilefni til að ásaka hann.
11. Hann svaraði þeim: ef sá er nokkur yðar á meðal, sem á einn sauð, og falli sauðurinn í pytt á hvíldardegi, tekur ekki eigandinn hann jafnskjótt, og dregur hann upp?
12. Hvað miklu er þó ekki maðurinn æðri, en sauðurinn? Þess vegna er leyfilegt að gjöra það, sem gott er, á hvíldardögum.
13. Síðan sagði hann við manninn: rèttu fram hönd þína. Hann gjörði svo, og varð hún þá heil, sem hin.
14. ¶ En Faríseearnir geingu út

og báru saman ráð sín í gegn
honum um það, hvernig þeir
feingju ráðið hann af dögum.
15. Þegar Jesús varð þess
vís, veik hann þaðan, og fylgdi
honum þá mikill fjöldi fólks,
og hann læknaði þá alla,
16. Og bannaði þeim harðlega
að gjöra sig augljósan.
17. Svo að það rættist, sem
spámaðurinn Esajas sagði:
18. Sjá þjón minn, sem eg
hefi útvalið, minn ástfólgna,
sem mèr er þóknanlegur, hon-
um vil eg gefa anda minn, svo
að hann kenni heiðnum þjóð-
um, hvað rètt er;
19. Hann mun eigi þrátta, og
eigi háreysti gjöra, og hans kall
mun eigi á strætum heyrast.
20. Hinn brákaða reyrinn
mun hann eigi í sundur brjóta,
og hið dapra ljós ekki slökkva,
þángað til hann hefur unnið
sigur rèttlætinu til handa;
21. Á hann munu þjóðirnar
treysta.
22. ¶ Þá var færður til hans
maður djöfulóður, blindur og
mállaus, þenna læknaði hann,
svo sá hinn blindi og mállausi
fèkk bæði mál sitt og sýn.
23. Þetta undraðist alt fólkið
og sagði: mun ekki þessi vera
sonur Davíðs?
24. En er Farísear heyrðu
það, sögðu þeir: ekki rekur
þessi djöfla út, nema með
fulltíngi djöflahöfðíngjans Bel-
sebúls.
25. Nú er Jesús sá þeirra
hugrenníngar, sagði hann til
þeirra: hvert það ríki, sem í
sjálfu sèr er sundurþykkt, mun
eyðileggjast, og hver sá staður
eður heimili, þar sem innbyrð-
is sundurþykki er, fær ekki
staðizt.
26. Ef nú Satan rekur Satan
út, þá er hann sjálfum sèr
sundurþykkur, og hvernig ætti
þá ríki hans að geta staðizt?
27. Og ef eg rek djöfla út
með Belsebúls fulltíngi, fyrir
hvers aðstoð útreka þá yðar
lærisveinar þá? Þeir skulu
því vera yðrir dómendur.
28. En ef eg rek djöfla út
fyrir Guðs anda, þá er Guðs
ríki komið til yðar.
29. Hver fær brotizt inn í
hús ens sterka og rænt hús-
búnaði hans, nema hann bindi
hinn sterka áður? þá fyrst
getur hann rænt hús hans.
30. Hver sem ekki er með
mèr, hann er móti mèr, og
hver sem ekki samansafnar
með mèr, sá sundurdreifir.
31. ¶ Þess vegna segi eg yður,
að hvers konar synd og löstun
mun mönnum fyrirgefin verða,
en löstun gegn Andanum mun
mönnum ekki fyrirgefast.

32. Þótt einhver lasti Mannsins Son, mun það honum fyrirgefið verða, en ef nokkur talar lastyrði gegn Heilögum Anda, þá mun honum það ekki fyrirgefast, hvorki í þessu nè komanda lífi.

33. Ef trèð er gott, eru og ávextirnir góðir, en sè það vont, eru ávextirnir vondir; því af ávextinum þekkist trèð.

34. Þèr, nöðru-kyn, hvernig megið þèr gott mæla, þar þèr sjálfir eruð vondir? því af gnægð hjartans mælir munnurinn.

35. Góður maður framber gott úr góðum sjóði, en vondur maður framber ilt úr vondum sjóði.

36. Eg segi yður: fyrir hvert það illyrði, er menn mæla, skulu þeir á dómsins degi reikníngsskap lúka;

37. Því af þínum orðum muntu sýkn eður sakfeldur verða.

38.¶ Þá sögðu nokkrir skriptlærðir og Farísear til hans: Meistari, vèr viljum gjarna sjá teikn af þèr.

39. Hann mælti: þessi vonda og hórsama þjóð beiðist teikns, en henni skal ekki teikn gefast, nema teikn Jónasar spámanns;

40. Því eins og Jónas var í hvalfiskjarins kviði í þrjá daga og þrjár nætur, þannig mun og Mannsins Son vera í þrjá daga og þrjár nætur í fylgsnum jarðar.

41. Niníve borgar menn munu rísa upp á degi dómsins með kynslóð þessari, og fordæma hana, því þeir tóku sinnaskipti við kenníngu Jónasar; og sjáið, hèr er sá, sem honum er meiri.

42. Drottníngin úr suðurátt mun upprísa á dómsins degi gegn þjóð þessari og fordæma hana; því hún kom af fjarlægu landi til að heyra speki Salómons; en sjáið, hèr er sá, sem honum er meiri.

43. Þegar hinn óhreini andi fer út af manninum, þá ráfar hann um eyðimerkur, leitar hælis og finnur ekki;

44. Þá segir hann með sèr: eg vil aptur snúa til húss míns, hvaðan eg fór, og er hann kemur aptur, finnur hann það tómt, sópað og prýtt;

45. Þá fer hann síðan og tekur með sèr sjö aðra anda sèr verri, og er þeir eru þángað innkomnir, byggja þeir þar; verður svo hið síðara ásigkomulag mannsins verra, en hið fyrra. Eins mun fara fyrir þessari vondu kynslóð.

46. ¶ Þá er hann enn nú var
að tala til lýðsins, sjá, þá
stóðu móðir hans og bræður
fyrir dyrum úti, og vildu mæla
við hann.
47. Þá sagði einhver honum:
móðir þín og bræður þínir eru
úti, og vilja tala við þig.
48. En hann sagði við þann,
er þetta mælti: hver er móðir
mín og hverjir eru bræður
mínir?
49. Og benti með hendinni á
lærisveina sína, og sagði:
þessir eru móðir mín og
bræður mínir;
50. Því hver sem gjörir vilja
míns himneska föður, hann
er minn bróðir, systir og
móðir.

## 13. KAPÍTULI.

*Dæmisögur um sæðið, illgresið, mustarðskornið, súrdeigið. Útleggíng þeirrar um illgresið; fjársjóðurinn; perlan; netið. Kristur er fyrirlitinn í sínu föðurlandi.*

ÞENNA dag gekk Jesús
heiman og settist við
sjóinn.
2. Þá dreif til hans svo mikill
fjöldi fólks, að hann hlaut að
stíga á skip og setjast þar, en
allur fólksfjöldinn stóð í fjör-
unni;
3. Þá kendi hann þeim margt
í dæmisögum, og hóf svo ræðu
sína: Sáðmaður nokkur gekk
út að sá;
4. En er hann var að sá, fèll
sumt sæðið við veginn, og
fuglar átu það.
5. Sumt fèll í grýtta jörð, þar
sem það hafði ekki nógan
jarðveg; það vóx að sönnu
skjótt, því það hafði litla jörð,
6. En er sól hækkaði (á lopti),
skrælnaði það og visnaði, sök-
um þess það hafði ekki nægar
rætur.
7. Sumt fèll meðal þyrna, og
þyrnarnir uxu upp og kæfðu
það.
8. En sumt fèll í góða jörð
og bar ávöxt, sumt hundrað-
faldan, sumt sextugfaldan og
sumt þrítugfaldan.
9. Hver sem hefir eyru til að
heyra, hann heyri.
10. Þá komu til hans læri-
sveinar hans og spurðu hann,
því hann kendi fólkinu í
dæmisögum;
11. En hann svaraði þeim: af
því yður er gefið að skilja
leynda dóma Guðs ríkis, en
hinum er það ekki gefið;
12. Því þeim, er hefir, mun
veitast, svo hann yfirfljótan-
lega hafi, en frá hinum, er ekki
hefir, mun takast, jafnvel það
hann hefir;
13. En þess vegna kenni eg
þeim í dæmisögum, að sjáandi
sjá þeir ekki, og heyrandi
heyra þeir ekki nè skilja.
14. Sannast því á þeim spá-

dómur Esajasar, er svo segir: Þèr munuð heyra, en þó ekki skilja; þèr munuð sjá, en þó ekki þekkja;
15. Því hjarta lýðs þessa er harðúðarfult, hann heyrir dauflega með eyrunum, og lykur augum sínum, svo að hann skuli ekki sjá með augunum, nè heyra með eyrunum, eða skilja með hjartanu og snúa sèr, svo eg lækni hann.
16. En sæl eru yðar augu, sem sjá, og eyru yðar, sem heyra;
17. Því sannlega segi eg yður, að margir spámenn og Guðs vinir fýstust að sjá það, sem þèr sjáið, og heyra það, sem þèr heyrið, en heyrðu það ekki.
18. ¶ Heyrið nú útskýríngu dæmisögunnar um sáðmanninn:
19. Þegar einhver heyrir lærdóminn um Guðs ríki og skilur hann ekki, þá kemur hinn vondi og tekur burt það, sem sáð var, úr hjarta hans. Þetta merkir sæðið, sem hjá veginum var sáð.
20. En það, sem í grýtta jörð fèll, merkir þann, er heyrir mína kenníngu og veitir henni viðtöku með fögnuði,
21. En hún festir ekki rætur hjá honum, nema um stundar sakir. Því þegar honum mætir mótgángur og ofsóknir fyrir kenníngarinnar skuld, hneykslast hann jafnskjótt.
22. En það, er sáð var meðal þyrna, merkir þann, sem að sönnu heyrir mína kenníngu, en áhyggja þessa heims og táldrægni auðæfanna kefja hana, svo hún ber eingan ávöxt.
23. En það, er fèll í góða jörð, merkir þá, sem heyra mína kenníngu og skilja hana, og bera líka ávöxt, sumir hundraðfaldan, sumir sextugfaldan og sumir þrítugfaldan.
24. ¶ Aðra dæmisögu sagði hann þeim, er svo hljóðar: líkt er Guðs ríki manni þeim, er sáði góðu sæði í akur sinn;
25. En er menn voru í svefni, kom óvinur hans og sáði illgresi meðal hveitisins, og fór síðan á burt.
26. En er sæðið spratt upp og tók að bera ávöxt, þá kom og illgresið í ljós.
27. Þá geingu þjónar hússbóndans til hans og sögðu: Herra, sáðir þú ekki góðu sæði í akur þinn? hvaðan hefir hann þá illgresi.
28. Hann mælti: það hefir óvinurinn gjört. Þá sögðu þjónarnir: viltu ekki, að vèr förum og upprætum það?
29. Hann sagði: nei, svo að þèr ekki, nær þèr upprætið illgresið, rífið hveitið upp með;

30. Látið hvortveggja vaxa
saman til kornskerunnar; og
þegar kornskerutíminn kemur, mun eg segja við kornskerumennina: safnið fyrst
saman illgresinu og bindið
það í knippi til að brennast,
en safnið hveitinu í mína
kornhlöðu.
31. ¶ Aðra dæmisögu sagði
hann þeim einnig og mælti:
líkt er Guðs ríki mustarðskorni því, er maður nokkur
tók og sáði í akur sinn.
32. Minnst er það allra frækorna, en nær það vex, er það
meira en nokkurt kálgresi,
og verður svo stórt, sem eik,
svo að fuglar himins koma
og leita sèr skýlis í greinum
þess.
33. ¶ Enn sagði hann þeim
þessa dæmisögu: líkt er Guðs
ríki súrdeigi því, er kona ein
tók og faldi í þrem mælum
mjöls, uns það alt sýrðist.
34. Þetta alt kendi Jesús
lýðnum í dæmisögum, og fyrir
utan dæmisögur kendi hann
þeim ekki;
35. Svo að það sannaðist, er
spámaðurinn segir: eg mun
kenna í dæmisögum, og þá
hluti, er huldir hafa verið, frá
því er heimur hófst, mun eg
mæla.
36. Síðan lèt hann fólkið frá
sèr fara og fór til húss síns;
þá komu til hans lærisveinar
hans og sögðu: útskýr þú fyrir oss dæmisöguna um illgresið á akrinum.
37. Hann mælti: sá er sáði
því góða sæði, er Mannsins
Son;
38. Akurinn er veröldin; hinn
góði ávöxtur eru Guðs börn;
illgresið eru börn hins vonda;
39. En óvinurinn, er sáði því,
er djöfullinn; kornskerutíminn
er endir heimsins; kornskurðar mennirnir eru einglarnir.
40. Því eins og illgresinu er
safnað og það er brent í eldi,
eins mun fara við enda veraldar þessarar;
41. Mannsins Sonur mun þá
senda eingla sína, og þeir
munu samansafna úr hans ríki
öllum hneykslunum, og þeim,
er ránglæti fremja,
42. Og kasta þeim í ofn glóanda; þar mun vera grátur og
gnístrun tanna;
43. Þá munu hinir góðu skína
sem sól í ríki föður þeirra.
Hver eyru hefir að heyra,
hann heyri.
44. ¶ Enn er Guðs ríki líkt fèsjóð, er fólginn var á akri, hvern
maður nokkur fann og leyndi
honum, en af fögnuði yfir því
fór hann burt, og seldi allar
eigur sínar og keypti akurinn.

45. ¶ Enn er Guðs ríki líkt þeim kaupmanni, er leitaði að góðum perlum;

46. En er hann fann eina dýrmæta perlu, fór hann og seldi alt hvað hann átti, og keypti hana.

47. ¶ Enn er Guðs ríki líkt neti því, er lagt var í sjó, og safnaði í sig allskonar fiski;

48. Og er það var fult, drógu menn það upp í fjöruna, settust síðan og söfnuðu þeim góðu í ílát, en köstuðu þeim óætu út aptur.

49. Eins mun fara við enda heimsins; þá munu einglar Guðs fara og skilja vonda menn frá góðum,

50. Og kasta hinum vondu í ofn brennanda, þar sem vera mun grátur og gnístrun tanna.

51. Síðan spurði Jesús þá: skiljið þèr alt þetta? en þeir játuðu því.

52. Þá mælti hann: þessvegna er hver sá kennari, sem uppfræddur er til himna ríkis, líkur þeim hússföður, sem framber úr forðabúri sínu bæði nýtt og gamalt.

53. ¶ En er Jesús hafði lokið þessum dæmisögum, veik hann þaðan,

54. Og kom til ættjarðar sinnar, og kendi þeim í samkundum þeirra, svo þeir undruðust og mæltu: hvaðan hefir þessi maður slíka speki og kraptaverka gáfu?

55. Er hann ekki sonur smiðsins? Heitir ekki móðir hans María, og bræður hans Jakob og Jóses, Símon og Júdas?

56. Og systur hans, eru þær ekki allar hèr hjá oss? Hvaðan hefir þá þessi alt þetta?

57. Og þeir hneyksluðust á honum; en Jesús sagði til þeirra: spámaður er ekki lítils metinn nema á sinni fósturjörðu og meðal ættíngja sinna.

58. Og hann gjörði þar ekki mörg kraptaverk sakir vantrúar þeirra.

## 14. KAPÍTULI.

*Heródes heldur, að Jóhannes, sem hann hafði látið hálshöggva, sè endurlifnaður. Jesús mettar* 5000 *manns, geingur á sjónum, læknar.*

UM þessar mundir kom fregnin af Jesú til eyrna Heródesar fjórðúngshöfðíngja;

2. Þá mælti hann við menn sína: þessi er Jóhannes skírari, hann er risinn upp frá dauðum, þessvegna gjörir hann svo mikil kraptaverk.

3. ¶ En Heródes hafði látið handtaka Jóhannes, fjötra hann og setja í myrkvastofu, sakir Heródíadis konu Filipusar bróður síns;

4. Því Jóhannes hafði sagt við hann: þú mátt ekki taka saman við hana.
5. Og þótt hann vildi láta drepa hann, þorði hann það þó ekki, sakir alþýðunnar; því allir hèldu Jóhannes að vera spámann.
6. En á fæðíngarhátíð Heródesar, dansaði dóttir Heródíadis fyrir gestunum, og fèll honum það svo vel í geð,
7. Að hann hèt með eiði að veita henni hvað sem hún umbeiddi.
8. En hún bað, eptir undirlagi móður sinnar, að hann gæfi sèr á diski höfuð Johannesar skírara.
9. Við þetta varð konúngurinn hryggur, en sakir eiðs síns og þeirra, er voru í boði hans, bauð hann, að þetta skyldi henni veitast.
10. Sendi hann því og lèt hálshöggva Jóhannes í myrkvastofunni,
11. En höfuð hans var lagt á fat og gefið meyunni, en hún færði móður sinni.
12. Þá komu lærisveinar hans, tóku lík hans og greptruðu það, kunngjörðu síðan Jesú hvað skèð hafði;
13. ¶ Og er Jesús heyrði það, fór hann á skipi til eyðibygða einn saman, og er fólkið varð þess víst, fylgdi það honum á landi úr borgunum.
14. En er hann gekk fram, leit hann mikinn fjölda fólks, kendi í brjósti um þá, og læknaði þá á meðal þeirra, sem kránkir voru.
15. ¶ En er kvöld var komið, komu lærisveinar hans til hans og mæltu: vèr erum hèr í eyðimörku, og dagur er nú liðinn að mestu, láttu fólkið frá þèr, svo að það fari í þorpin til að kaupa sèr vistir.
16. Jesús mælti: ekki þurfa þeir burtu að fara; gefið þèr þeim að eta.
17. Þeir mæltu: ekki höfum vèr hèr nema fimm brauð og tvo fiska.
18. Hann sagði: komið með þá híngað.
19. Síðan sagði hann fólkinu að setjast niður í grasið, tók þau fimm brauð og þá tvo fiska, leit til himins, gjörði Guði þakkir; síðan braut hann brauðin, og fèkk lærisveinum sínum þau, en þeir færðu þau fólkinu;
20. Og allir neyttu, og urðu mettir; þá tóku þeir afgángsleifarnar, og voru það tólf karfir fullar;
21. En þeir, sem neytt höfðu, voru hèr um fimm þúsundir manna, auk kvenna og barna.

22. ¶ Og jafnskjótt bauð hann lærisveinum sínum að stíga á skip og fara undan sèr yfir um, á meðan hann væri að koma frá sèr fólkinu.

23. Og sem hann hafði látið fólkið frá sèr, fór hann einn saman upp á fjall nokkurt að biðjast fyrir; og er kvöld var komið, var hann þar einn;

24. Þá var skipið næstum komið á mitt vatnið, og lá undir áföllum, en andviðri var.

25. En er nær fjórðúngur lifði nætur, kom hann til þeirra gángandi á sjónum.

26. En er lærisveinarnir sáu hann gánga á sjónum, urðu þeir felmtsfullir, og sögðu: það er vofa; og tóku að æpa af hræðslu;

27. En Jesús varpaði þegar orðum á þá, og mælti: verið óhræddir, eg er það, hræðist ekki!

28. Honum ansaði Pètur og mælti: ef þú ert það, herra, þá bjóð, að eg komi til þín á vatninu.

29. Jesús mælti: kom þú; þá fór Pètur útbyrðis og tók að gánga á vatninu til Jesú.

30. En er hann sá ofviðrið, hræddist hann, og er hann tók að sökkva, kallaði hann og mælti: hjálpa þú mèr, herra!

31. Þá rètti Jesús jafnskjótt út hönd sína, tók til hans og sagði: þú trúarlitli, því efaðist þú?

32. Og er þeir stigu á skipið, lægði veðrið;

33. En þeir, sem á skipinu voru, fèllu fram fyrir honum og mæltu: vissulega ertu Guðs sonur.

34. ¶ Síðan fóru þeir yfir um, og komu í Genesarets land.

35. En er þeir, sem þar bjuggu, þektu hann, sendu þeir í alla bygðina umhverfis, og færðu til hans alla þá, sem sjúkir voru,

36. Og beiddust, að hann vildi leyfa þeim að eins að snerta fald klæða sinna; en þeir, er hann snertu, urðu heilbrigðir.

## 15. KAPÍTULI.

*Jesús forsvarar lærisveinana, og kennir hvað það sè, er manninn saurgi; reynir og bænheyrir þá kanversku konu; læknar marga, og mettar 4000 manns.*

UM þessar mundir komu til Jesú skriptlærðir og Farísear frá Jerúsalem; þeir spurðu hann:

2. Því yfirtroða þínir lærisveinar setníngar öldúnganna, er þeir ekki taka handlaugar, áður en þeir gánga til matar?

3. Jesús svaraði þeim: því yfirtroðið þèr Guðs boðorð með yðar eigin setníngum?

4. Því Guð hefir boðið og sagt: heiðra skaltu föður þinn og móður, og enn framar: hver sem atyrðir föður sinn eður móður, hann skal dauða deya.

5. En þèr segið: Segi nokkur við föður eða móður: eigur þær, sem eg gæti hjálpað þèr með, eru heitfè, þá skuli hann ekki framar skyldur að annast föður sinn eður móður;

6. Og hafið þèr þannig með setníngum yðrum ónýtt Guðs lögmál.

7. Hræsnarar, rètt hefir spámaðurinn Esajas spáð um yður, er hann segir:

8. Lýður þessi heiðrar mig með vörunum,

9. En þeirra hjarta er lángt í burtu frá mèr; en þeirra dýrkan er til einskis, með því þeir kenna þá lærdóma, sem eru manna boðorð.

10. ¶ Þá kallaði hann saman fólkið og mælti: heyrið þèr og skiljið:

11. Ekki saurgar það manninn, sem inn fer um munninn, heldur það, sem út fer af munninum, það saurgar manninn.

12. Þá komu til hans lærisveinar hans og mæltu: veiztu af því, að Farísear hneyksluðust, er þeir heyrðu þetta?

13. Hann mælti: sèrhver planta, sem minn himneski faðir ekki hefir gróðursett, mun uppprætast.

14. Skiptið yður ekki af þeim, þeir eru blindir og blindra leiðtogar; ef blindur leiðir blindan, falla þeir báðir í gryfjuna.

15. En Pètur svaraði og sagði við hann: útskýr þú fyrir oss þessa dæmisögu.

16. Jesús mælti: Eruð þèr einnig enn þá svo skilníngslausir?

17. Skiljið þèr ekki, að alt það, sem inn kemur um munninn, fer í magann, og fer burtu fyrir eðlilega rás;

18. En það, er út fer af munninum, kemur frá hjartanu, og þetta er það, sem saurgar manninn.

19. Því frá hjartanu koma illar hugrenníngar, manndráp, hór, frillulífi, þjófnaður, ljúgvitni, illmæli;

20. Þetta er það, sem saurgar manninn; en að gánga með óþvegnum höndum til matar, saurgar eingan.

21. ¶ Þaðan fór Jesús í landsbygð Týrusar og Sídonar.

22. Þá kom kona nokkur kanversk úr þeim hèröðum, kallaði á hann og sagði: herra! sonur Davíðs, miskuna þú mèr, dóttir mín kvelst þúnglega af djöflinum;

23. En hann svaraði henni
eingu orði. Þá komu læri-
sveinar hans beiddu hann og
sögðu: veittu henni úrlausn,
því hún kallar eptir oss.
24. Jesús mælti: eg er ekki
sendur nema til týndra sauða
af Ísraels ætt.
25. En hún kom, fèll fram
fyrir honum og mælti: hjálpa
þú mèr, herra.
26. Jesús mælti: ekki sæmir
að taka brauðið frá börnunum
og kasta því fyrir hundana.
27. Satt er það, herra, mælti
konan, þó eta hundarnir mola
þá, sem detta af borðum
drottna þeirra.
28. Þá mælti Jesús: mikil er
trú þín, kona; verði þèr, sem
þú vilt; og dóttir hennar varð
samstundis heilbrigð.
29. Þaðan fór Jesús til sjáf-
arins í Galílea, gekk þar upp
á fjallið og settist þar;
30. Þá kom til hans mikill
fjöldi fólks, er hafði með sèr
halta menn og blinda, mál-
lausa, handarvana og marga
aðra, og vörpuðu þeim til
fóta Jesú, en hann læknaði
þá;
31. Svo fólkið undraðist, er
það sá mállausa tala, handar-
vana heila, halta heilfætta, og
blinda alsjáandi, og vegsam-
aði Ísraels Guð.

32. ¶ Þá kallaði Jesús á læri-
sveina sína og mælti: eg kenni
í brjósti um fólk þetta; í þrjá
daga hafa þeir nú með mèr
verið, og ekkert til matar
haft; en fastandi vil eg ekki
láta þá frá mèr, svo að þeir
verði ekki magnþrota á veg-
inum.
33. Þá mæltu lærisveinar
hans: hvaðan eigum vèr að
taka svo mörg brauð hèr í
óbygðum, að vèr fáum slíkan
fólksfjölda mettað?
34. Jesús spurði þá: hvað
mörg brauð hafið þèr? Þeir
sögðu: sjö, og fáeina smá-
fiska.
35. Þá bauð hann fólkinu að
setjast niður á jörðina;
36. Síðan tók hann þau sjö
brauð og fiskana, gjörði Guði
þakkir, braut þau og seldi
þau í hendur lærisveinum
sínum, en þeir feingu þau
fólkinu;
37. En þeir neyttu allir og
urðu mettir; síðan söfnuðu
þeir leifunum, og voru það sjö
karfir fullar;
38. En þeir, er neytt höfðu,
voru fjórar þúsundir, auk
kvenna og barna.
39. Að því búnu, lèt hann
fólkið fara á burt, steig á
skip, og fór til Magdala hèr-
aða.

## 16. KAPÍTULI.

*Jesús ávítar Faríseana, er æskja teikns, og varar við súrdeigi þeirra. Pètur játar, að Jesús sè Guðs sonur; Jesús segir fyrir sína pínu, og ávítar Pètur; talar um sjálfsafneitun og sína tilkomu.*

ÞÁ komu til hans Faríseear og Sadúsear, freistuðu hans, og kröfðust, að hann vildi sýna þeim teikn af himni.
2. Hann mælti: að kvöldi segið þèr: það verður gott veður, því roði er á lopti;
3. Og snemma dags segið þèr: það verður illviðri í dag, því loptið er rautt og ískyggilegt. Þèr, hræsnarar, himinsins útlit vitið þèr að dæma, en kenniteikn þessara tíma viljið þèr ekki athuga.
4. Þessi vonda og hórsama þjóð beiðist teikns, og henni skal ekki teikn gefast, nema teikn Jónasar spámanns. Og er hann hafði þetta sagt, skildist hann við þá og fór þaðan.
5. En er lærisveinar hans fóru yfir um, höfðu þeir gleymt að taka brauð með.
6. ¶ En Jesús sagði við þá: varið yður við súrdeigi þeirra Farísea og Sadúsea.
7. Þá töluðu þeir sín á milli, að hann mundi segja þetta, sökum þess að þeir ekki höfðu tekið brauð með sèr;
8. Og er Jesús varð þess var, mælti hann: því ætlið þèr, trúarveikir, að eg hafi sagt þetta sökum þess, að þèr gleymduð að taka brauðin með?
9. Eruð þèr enn þá svo skilníngslausir? Eður minnist þèr ekki þeirra fimm brauðanna, handa þeim fimm þúsundum manna, og hversu margar karfir þèr höfðuð þá afgángs?
10. Ekki heldur þeirra sjö brauðanna, handa þeim fjórum þúsundum, og hversu margar karfir þèr þá fyltuð með leifar?
11. Því skynjið þèr þá ekki, að eg sagði ekki til yðar brauðanna vegna, að þèr skylduð varast súrdeig Farísea og Sadúsea?
12. Þá skildu þeir, að hann ekki hafði varað þá við súrdeigi brauðs, heldur við kenníngu Faríseanna og Sadúseanna.
13. ¶ Þegar Jesús kom í hèröð Sesarea Filippí, spurði hann lærisveina sína: hver halda menn að eg, Mannsins Sonur, sè?
14. Þeir svöruðu: sumir Jóhannes skírari, aðrir Elías, og enn aðrir Jeremías eður einn af spámönnunum.
15. Þá mælti hann: en hvern hyggið þèr mig vera?

16. Honum svaraði Símon Pètur, og mælti: þú ert Kristur, sonur ens lifanda Guðs.
17. Jesús mælti: sæll ert þú, Símon Jónasson, því hold og blóð hefir þèr ekki þetta auglýst, heldur Faðir minn á himnum.
18. En eg segi þèr, að þú ert Pètur (hellusteinn), og á þessari hellu vil eg byggja mína kyrkju, og helvítis makt skal aldrei á henni sigrast;
19. Þèr vil eg og fá lykla himnaríkis, svo að hvað sem þú bindur á jörðu, skal á himni bundið vera, og hvað sem þú leysir á jörðu, skal á himni leyst vera.
20. Síðan bannaði hann lærisveinum sínum að segja nokkrum það, að hann væri Kristur.
21. ¶ Eptir þetta tók Jesús að auglýsa Lærisveinum sínum, að sèr bæri að fara til Jerúsalem, og líða þar margt af öldúngunum, prestahöfðíngjunum og þeim skriptlærðu, líka líflátinn að verða og upprísa á þriðja degi.
22. Þá tók Pètur hann afsíðis, átaldi hann og mælti: guð náði þig, herra, komi þetta aldrei fram við þig!
23. En Jesús snèrist við honum og mælti: vík frá mèr, Satan, þú ert mèr til ásteytíngar. Þú skynjar ekki Guðs vilja, heldur manna.
24. ¶ Þá mælti Jesús til lærisveina sinna: hver, sem vill fylgja mèr, afneiti sjálfum sèr, taki sinn kross á sig, og fylgi mèr eptir.
25. Því hver sem hyggur að forða lífi sínu, mun því týna, en hver, sem týnir því fyrir mína skuld, mun fá því borgið.
26. Því að hverju gagni kæmi það manninum, þó hann eignaðist allan heiminn, ef hann liði tjón á sálu sinni? Eða hvað getur maðurinn gefið til lausnar sálu sinni?
27. Því Mannsins Son mun koma með dýrð síns föður og einglum sínum, og þá mun hann gjalda sèrhverjum eptir hans verkum.
28. Sannlega segi eg yður, að hèr eru nú viðstaddir nokkrir þeir, sem ekki munu dauðann smakka fyr en þeir sjá Mannsins Son koma til ríkis síns.

## 17. KAPÍTULI.

*Jesús ummyndast; talar um Elías; læknar túnglsjúkan; segir fyrir pínu sína; geldur skatt.*

AÐ sex dögum liðnum tók Jesús Pètur og þá bræður Jakob og Jóhannes, og fór

með þeim einslega upp á eitt hátt fjall;

2. Og han ummyndaðist að þeim ásjáendum, og ásýnd hans skein, sem sól, en klæði hans urðu björt eins og ljós.

3. Og sjá, þá birtist þeim Móses og Elías, sem voru að tala við hann.

4. Þá svaraði Pètur og sagði við Jesúm: gott er, að vèr erum hèr, herra; ef þèr svo sýnist, viljum vèr reisa hèr þrjár tjaldbúðir, eina handa þèr, aðra handa Móses og hina þriðju handa Elías.

5. Meðan hann var þetta að tala, bar yfir þá bjart ský, og úr því heyrðist raust, er mælti: þessi er minn elskulegi sonur, sem eg hefi velþóknun á; hlýðið þèr honum.

6. En er lærisveinarnir heyrðu raustina, fèllu þeir fram á ásjónur sínar og urðu mjög óttaslegnir.

7. Þá gekk Jesús til þeirra, snart við þeim og mælti: standið upp og verið óhræddir;

8. En er þeir litu upp, sáu þeir eingan, nema Jesúm einan.

9. Og er þeir geingu ofan af fjallinu, bauð Jesús þeim og sagði: segið eingum frá sýn þessari fyrr en Mannsins Sonur er risinn upp frá dauðum.

10. Þá spurðu lærisveinar hans hann að: því segja þá hinir skriptlærðu, að Elías eigi áður að koma?

11. En hann svaraði og sagði: Elías á að vísu áður að koma og færa alt í lag.

12. En eg segi yður, að Elías er nú þegar kominn, en þeir könnuðust ekki við hann, heldur breyttu við hann, sem þeim líkaði; eins mun og Mannsins Sonur verða að þola þjáníngar af þeim.

13. Þá skildu lærisveinarnir, að hann hafði þetta talað við þá um Jóhannes skírara.

14. ¶ En er þeir komu til fólksins, gekk að honum maður nokkur, fèll á knè fyrir honum,

15. Og mælti: Herra, miskuna þú syni mínum, hann er túnglsjúkur og næsta þúngt haldinn; því opt fellur hann í eld og opt í vatn;

16. Eg hefi fært hann til lærisveina þinna, en þeir gátu hann ekki læknað.

17. Jesús svaraði og sagði: ó, þú trúarlausa og rángsnúna kynslóð, hversu leingi skal eg hjá yður vera? Hversu leingi skal eg þola yður? Færið mèr hann híngað.

18. Og hann hastaði á hann og djöfullinn fór út af honum,

og sveinninn varð samstundis heilbrigður.

19. En er Jesús var einn saman, komu lærisveinar hans til hans og spurðu hann, hvers vegna gátum vèr ekki rekið hann út?

20. En Jesús sagði við þá: sakir trúarleysis yðvars. Því sannlega segi eg yður, ef þèr hefðuð trú einsog mustarðskorn, þá munduð þèr geta sagt við þetta fjall: flyttu þig hèðan og þángað, og það mundi flytja sig, og ekkert mundi yður þá um megn vera.

21. En þetta djöfla-kyn verður ekki út rekið, nema með bænum og föstu.

22. ¶ Þegar þeir voru í Galílea, sagði Jesús við þá: Mannsins Sonur mun á manna vald framseldur verða;

23. Og þeir munu taka hann af lífi, en á þriðja degi mun hann upp rísa. Við þetta urðu þeir mjög hryggvir.

24. ¶ Nú er þeir komu í Kapernaum, komu þeir menn til Pèturs, er skattgjaldsins áttu að vitja, og mæltu: geldur meistari yðar skattgjaldið?

25. Hann kvað svo vera; og er Pètur kom heim tók Jesús fyrr til orða og mælti: hvað lízt þèr, Símon, af hverjum heimta konúngar í heimi þessum toll eður þegnskyldu? Hvort af börnum sínum eður öðrum?

26. Af öðrum, segir Pètur. Þá mælti Jesús: þá eru börnin frí.

27. En til þess vèr ekki sèum þeim til ásteytíngar, þá far þú til sjávar, og kasta út aungli þínum, og tak þann fyrsta fisk, er þú dregur, og er þú opnar munn hans, muntu finna tvípeníng; hann skaltu gjalda þeim fyrir mig og þig.

## 18. KAPÍTULI.

*Jesús varar við ofmetnaði og hneykslunum; kennir, að hann sè kominn til að frelsa hið tapaða; hvernig þeir ættu að hegða sèr við bróður sinn, er syndgaði, talar um sameinaðar bænir, um að fyrirgefa, og dæmisaga þar upp á.*

UM þetta leiti komu lærisveinar Jesú til hans og sögðu: hver er mestur í himnaríki?

2. Jesús kallaði barn eitt til sín, setti það á meðal þeirra,

3. Og mælti: sannlega segi eg yður, nema þèr takið sinnaskipti og verðið einsog börn, munuð þèr ekki koma í himnaríki.

4. Hver sem því lítillækkar sig eins og barn þetta, hann er mestur í himnaríki;

5. Og hver sem tekur á móti þvílíku barni fyrir mína skuld, hann tekur á móti mèr.

6. En ef nokkur hneykslar einhvern af þessum smælíngjum, sem á mig trúa, betra væri honum, að mylnusteinn væri heingdur við háls honum og honum væri sökt í sjáfardjúp.

7. ¶ O, hversu vesall er heimurinn sakir hneykslananna; því ekki getur hjá því farið, að hneykslanir komi, en vesall er þó sá, sem hneykslinu veldur.

8. Ef hönd þín eður fótur hneykslar þig, þá högg hann af og kasta honum burtu, því betra er þèr höltum og handarvana að inngánga til lífsins, en að þú hafir tvær hendur og tvo fætur, og þèr verði í eilífan eld kastað.

9. Og ef auga þitt hneykslar þig, þá stíng það út og kasta því á burt, betra er þèr eineygðum að inngánga til lífsins, en að þú hafir bæði augu þín, og þèr verði í helvítis eld kastað.

10. Gætið yðar, að þèr ekki forsmáið nokkurn þessara smælíngja; því eg segi yður, að einglar þeirra á himnum sjá jafnan auglit míns himneska föður,

11. Því til þess kom Mannsins Sonur, að hann frelsaði það, er tapað var.

12. Hvað lízt yður? Ef einhver ætti hundrað sauða, og skyldi einn af þeim villast frá; mundi hann ekki skilja þá níutíu og níu eptir og fara upp á fjöllin til að leita þess, er frá var viltur?

13. Og ef honum auðnast að finna hann, þá segi eg yður, að hann gleðst meir yfir honum, en yfir þeim níutíu og níu, sem ekki viltust;

14. Eins vill yðar himneski faðir ekki, að nokkur þessara smælíngja skuli týnast.

15. ¶ Brjóti bróðir þinn nokkuð á móti þèr, þá vanda fyrst um við hann heimuglega, og ef hann hlýðir þèr, hefir þú unnið bróður þinn.

16. En vilji hann þèr ekki hlýða, þá tak með þèr einn eður tvo, svo að alt málið verði útkljáð í viðurvist tveggja eður þriggja votta;

17. En vilji hann þeim ekki hlýða, þá seg það söfnuðinum; og vilji hann ekki söfnuðinum hlýða, þá sè hann í þínum augum eins og heiðíngi og tollheimtumaður.

18. Eg segi yður það fyrir sann, að hvað þèr bindið á jörðu, skal á himni bundið vera, og hvað þèr leysið á jörðu, skal á himni leyst vera.

19. Enn framar segi eg yður,

að ef tveir yðar biðja nokkurs samhuga á jörðu, þá mun það þeim af mínum himneska föður veitt verða;

20. Hvar sem tveir eða þrír eru samankomnir í mínu nafni, þar vil eg vera mitt á meðal þeirra.

21. ¶ Þá gekk Pètur til hans og mælti: herra, hversu opt skal eg fyrirgefa þeim, sem gjörir á móti mèr? Er ekki nóg að gjöra það sjö sinnum?

22. Jesús mælti: ekki sjö sinnum, heldur sjötíu sinnum sjö sinnum.

23. ¶ Þar fyrir er Guðs ríki eins háttað og konúngi einum, er reikníngsskap vildi halda við þjóna sína;

24. En er hann tók reiknínginn að halda, var færður til hans maður sá, er honum var skyldugur um tíu þúsund punda;

25. Og sem hann nú ekki hafði þau til að borga með skuld sína, bauð konúngurinn, að selja skyldi sjálfan hann, konu hans og börn og alla eigu hans, til að borga þar með skuldina;

26. Þá fèll þjóninn til fóta hans og mælti: umlíð þú mig, herra, alt skal eg borga þèr.

27. Þá aumkaðist herrann yfir þenna þjón, lèt hann á burtu fara og gaf honum upp alla skuldina.

28. En er hann fór út, hitti hann einn af sínum samþjónum, er honum var skyldugur um hundrað peninga; þenna tók hann höndum, tók fyrir kverkar honum, og mælti: gjald þú það þú ert mèr skyldugur;

29. En samþjón hans fèll fram að fótum honum, og bað, að hann vildi umlíða sig, og lofaði að lúka honum alt;

30. En hann vildi ekki, og setti hann í myrkvastofu, uns hann hafði skuldinni lokið.

31. En er samþjónar hans sáu hvað skeði, urðu þeir mjög hryggvir. Fóru þeir því og sögðu konúngi sínum alt hvað gjörzt hafði.

32. Þá lèt herrann kalla þenna mann fyrir sig og mælti: þú illi þegn, alla skuldina gaf eg þèr upp, sakir þess þú baðst mig;

33. Hvort sæmdi þèr þá ekki einninn ad vera miskunsamur við þinn samþjón, eins og eg var miskunsamur við þig?

34. Þá varð herra hans reiður, og bauð að selja hann í hendur kvölurunum, uns hann hefði goldið alt það, er hann var skyldugur.

35. Þann veg mun og minn

himneski faðir breyta við yður, ef þèr ekki, hver og einn, fyrirgefið af hjarta bróður yðar hans afbrot.

## 19. KAPÍTULI.

*Jesús læknar; talar um hjónaskilnað og hjúskap; blessar yfir úngbörn; talar við hinn ríka úngling; talar um hina ríku; hughreystir þá, sem yfirgefi alt hans vegna.*

NÚ er Jesús hafði lokið þessari ræðu, veik hann burt úr Galílea, og ferðaðist til þeirra hèraða í Júdea, sem liggja hinumegin Jórdanar;

2. Þángað fylgdi honum mikill fjöldi fólks, og þar læknaði hann þá.

3. ¶ Þá komu til hans Faríseár, freistuðu hans og spurðu, hvort manni leyfðist að skilja við konu sína fyrir hverja eina sök.

4. Hann svaraði og sagði við þá: hafið þèr ekki lesið, að skaparinn gjörði í öndverðu karlmann og konu, og mælti:

5. Fyrir þessa sök skal maðurinn yfirgefa foreldra sína, en sameinast konu sinni, svo þau bæði sèu einn maður;

6. Svo að þau eru ekki lengur tveir, heldur einn maður; það sem því Guð hefur sameinað, má maðurinn ekki sundur skilja.

7. Þeir mæltu: því bauð þá Móses að gefa skilnaðarskrá og skilja svo við konu sína?

8. Hann mælti: sakir harðúðar hjarta yðvars leyfði Móses yður að skiljast við konur yðar, en í öndverðu var þetta ekki þannig.

9. En eg segi yður, hver sem skilur við konu sína nema fyrir hórdóms sakir, og geingur að eiga aðra, sá drýgir hór; og hver sem tekur sèr konu þá, sem skilið hefir við mann sinn, sá drýgir einnig hórdóm.

10. ¶ Þá mæltu lærisveinar hans: sè þannig ákomið milli manns og konu, þá er ekki gott að giptast.

11. Jesús svaraði: þetta geta ekki allir, heldur þeir einir, sem það er gefið;

12. Því sumir eru fæddir svo, að þeir eru óhæfir til hjúskapar, aðrir eru geltir af manna völdum; þá eru og þeir, er halda sèr frá hjúskap fyrir Guðs ríkis sakir; gjöri þeir það, er geta.

13. ¶ Þá voru úngbörn færð til hans, til þess að hann legði hendur yfir þau og árnaði þeim góðs; en lærisveinar hans vildu varna þeim þess.

14. En Jesús sagði: leyfið börnunum að koma til mín og hindrið þau ekki, því himna ríki heyrir slíkum til.

15. Og er hann hafði þetta mælt, lagði hann hendur yfir þau, og fór þaðan.

16. ¶ Þá kom maður nokkur
til hans, og sagði við hann:
góði meistari, hvað gott á eg
að gjöra til þess, að eg öðlist
eilíft líf?
17. Jesús mælti: því spyr þú
mig að því, hvað gott sè? Einn
er sá, sem góður er. En ef þú
vilt inn gánga til lífsins, þá
haltu boðorðin.
18. Hann spurði: hver helzt?
Jesús mælti: þessi, eigi skaltu
mann vega, eigi hórdóm drýgja,
eigi stela, eigi ljúgvitni bera,
19. Heiðra föður og móður,
og elska náúnga þinn einsog
sjálfan þig.
20. Þá mælti hinn úngi mað-
ur: þessa hefir eg als gætt
frá barnsbeini; hvers er mèr
þá enn vant?
21. Jesús sagði við hann:
viljir þú algjör vera, þá far og
sel eigur þínar, og gef þær
fátækum, þá muntu fjársjóð
eignast á himni; kom svo og
fylg mèr.
22. En er hinn úngi maður
heyrði þetta, varð hann hrygg-
ur, og fór í burtu; því hann
var stórauðugur.
23. ¶ Þá tók Jesús til orða við
lærisveina sína: sannlega segi
eg yður, að torvelt mun það
verða ríkum manni að inn
gánga í himnaríki;
24. Og enn framar segi eg
yður, að auðveldara er úlfald-
anum að gánga í gegn um nál-
ar augað, en ríkum manni inn
í Guðs ríki.
25. Nú er lærisveinar hans
heyrðu þetta, hnykti þeim
mjög við, og mæltu: hver
getur þá orðið hólpinn?
26. Þá leit Jesús til þeirra
og mælti: mönnum er þetta
að vísu ómögulegt, en Guði
er einginn hlutur ómáttugur.
27. ¶ Þá svaraði Pètur og
sagði við hann: vèr yfirgáfum
alt og fylgdum þèr, hvílík laun
munum vèr hèr fyrir hljóta?
28. En Jesús svaraði þeim
sannlega segi eg yður, að þèr,
sem hafið fylgt mèr, munuð í
endursköpuninni, þá Manns-
ins Sonur situr á sínum veldis-
stóli, einnig sitja á tólf há-
sætum, og dæma hinar tólf
kynkvíslir Ísraels;
29. Og hver helzt, sem yfir-
gefið hefir hús, bræður, syst-
ur, föður, móður, konu, börn
eður eignir fyrir mínar sakir,
mun fá hundraðfalt, og öðlast
eilíft líf.
30. En margir þeir, sem fyrst-
ir, eru, munu verða síðastir,
og hinir síðustu fyrstir.

## 20. KAPÍTULI.

*Dæmisaga um verkamennina í víngarðinum; Jesús fyrirsegir sína pínu; ávítar sonu Sebedeusar; læknar tvo blinda við Jerikó.*

ÞVÍ að Guðs ríki er líkt
þeim hússföður, er gekk út
snemma morguns, til að leigja
verkamenn í víngarð sinn;
2. Og er hann hafði samið
við þá um einn peníng fyrir
dagsverkið, sendi hann þá í
víngarð sinn.
3. Síðan gekk hann út um
þriðju stundu, og leit nokkra
á torginu iðjulausa.
4. Hann sagði til þeirra: farið
þèr og einnig í víngarð minn,
og mun eg gefa yður það sem
rètt er.
5. Þeir fóru í víngarðinn.
Hann gekk og út um sjöttu
og níundu stundu, og gjörði,
sem fyrr.
6. Um elleftu stundu kom
hann og út, og fann enn
nokkra iðjulausa; hann sagði
við þá: því standið þèr hèr
allan daginn iðjulausir?
7. Þeir svöruðu: af því eing-
inn hefir leigt oss. Þá mælti
hann: farið þèr einnig í vín-
garð minn, og skuluð þèr fá
hvað rètt er til launa.
8. Nú er kvöld var komið,
segir eigandi víngarðsins verk-
stjóra sínum: kalla þú verka-
mennina og gjalt sèrhverj-
um þeirra daglaunin, og tak
til á hinum síðustu og enda á
hinum fyrstu.
9. Þá komu þeir, sem um
elleftu stund voru leigðir, og
fèkk hver einn peníng;
10. En er þeir komu, er
fyrstir voru leigðir, hugðu
þeir, að þeir mundu meiri
laun fá; en þeir feingu líka
hver einn peníng;
11. En er þeir höfðu hann
meðtekið, tóku þeir að mögla
í móti hússbóndanum,
12. Og sögðu: þessir hinir
síðustu hafa erviðað eina stund
og þú hefur gjört þá jafna við
oss, sem borið höfum þúnga
og hita dagsins.
13. En hann svaraði og sagði
til eins þeirra: vinur! ekki
gjöri eg þèr rángt til; höf-
um við ekki samið um einn
peníng?
14. Taktu hvað þitt er, og far
hèðan; en þessum, er síðast
kom, vil eg gjalda eins og þèr;
15. Eður, er eg ekki sjálfur
fjár míns ráðandi? eður sèrðu
ofsjónum yfir því, að eg em
góðgjarn?
16. Þannig munu hinir síð-
ustu verða hinir fyrstu, og
hinir fyrstu síðastir; því marg-
ir eru kallaðir, en fáir út-
valdir.
17. ¶ Síðan fór Jesús til Jerú-
salem; þá tók hann þá tólf
lærisveina afsíðis á leiðinni, og
sagði við þá:
18. Nú förum vèr til Jerúsa-

lem, og þar mun Mannsins
Sonur framseldur verða höfuð-
prestunum og hinum skript-
lærðu, og þeir munu hann til
dauða dæma,
19. Og framselja hann heið-
íngjum, svo að þeir hæði hann,
húðstrýki og krossfesti; en á
þriðja degi mun hann upp rísa.
20. ¶ Þá kom til hans móðir
þeirra Sebedeussona með son-
um sínum, og laut honum,
sem hún vildi beiðast nokkurs
af honum.
21. Hann spurði: hvað viltu?
Hún svaraði honum: láttu
þessa tvo sonu mína sitja, ann-
an þèr til hægri, en hinn til
vinstri handar, í ríki þínu.
22. Jesús svaraði: þèr vitið
ekki, hvers þèr biðjið; getið
þèr drukkið þann bikar, sem
eg mun drekka? Þeir kváð-
ust mundu það geta.
23. Þá sagði hann til þeirra:
þèr munuð að sönnu drekka
minn bikar, en það, að sitja
mèr til hægri og vinstri hand-
ar, er ekki mitt að veita
nema þeim, er faðir minn hefir
það fyrirhugað.
24. En er þeir tíu heyrðu
þetta, þyktust þeir við þá
bræður.
25. Þá kallaði Jesús þá til sín
og mælti: yður er kunnugt, að
konúngar jarðarinnar drottna
yfir þegnum sínum, og stór-
menni beita valdi gegn þeim;
26. En yðar á meðal skal
þetta eigi svo vera, heldur
skal hver sá sem mikill vill
verða meðal yðar, vera yðar
þjónustumaður;
27. Og hver sem vill vera
fremstur meðal yðar, hann sè
þjón yðar;
28. Eins og mannsins sonur
kom ekki til þess, að aðrir
skyldu honum þjóna, heldur til
að þjóna öðrum og láta líf sitt
til lausnargjalds fyrir marga.
29. Nú er þeir fóru úr Jerí-
kós borg, fylgdi honum mikill
fjöldi fólks.
30. ¶ Og sjá, þá sátu við
veginn tveir menn blindir, og
er þeir heyrðu, að Jesús fór
þar um, kölluðu þeir og
mæltu: herra, sonur Davíðs,
miskuna þú okkur!
31. En fólkið bauð þeim, að
þeir þegðu, en þess meir köll-
uðu þeir og sögðu: Herra, son-
ur Davíðs, miskuna þú okkur!
32. Þá stóð Jesús við, kallaði
á þá og mælti: hvað viljið þið
að eg gjöri við ykkur?
33. Þeir mæltu: það, herra,
að við verðum sjáandi.
34. Jesús aumkaðist þá yfir
þá og hrærði við augum þeirra,
og þá feingu þeir jafnskjótt
sjónina, og fylgdu honum.

## 21. KAPÍTULI.

*Jesús ríður inn í Jerúsalem, og hreinsar musterið; læknar; forsvarar börnin, sem vegsömuðu hann; lætur fíkjutrè visna; forsvarar sinn myndugleika; segir dæmisöguna um þá tvo sonu, og um víngarðsmennina; prestarnir vilja leggja hendur á hann.*

ÞEGAR þeir nú nálguðust Jerúsalem og komu til Betfage hjá olíufjallinu, þá sendi Jesús frá sèr tvo af lærisveinum sínum og sagði við þá:
2. Farið þið í þorp það, er gagnvart ykkur er, og jafnskjótt munuð þið finna ösnu bundna og fola hjá henni, leysið þau og leiðið til mín;
3. En segi einhver nokkuð til yðar, þá segið, að herra ykkar þurfi þeirra við; og þá mun hann jafnsnart láta þau laus.
4. Alt þetta skeði, svo að uppfyltist það, er spámaðurinn segir:
5. Segið Síons dóttur: Sjá, þinn konúngur kemur til þín hógvær, ríðandi ösnu og fola hennar.
6. Lærisveinarnir fóru leiðar sinnar og gjörðu, sem Jesús hafði fyrir þá lagt,
7. Færðu þángað ösnuna og folann, og lögðu á þau klæði sín, en hann steig á bak;
8. En flestir af fólkinu breiddu klæði sín á veginn; aðrir hjuggu lim af trjánum, og stráðu því á veginn.
9. En múgurinn, er undan fór og á eptir fylgdi, kallaði og sagði: Hósanna syni Davíðs! blessaður sè sá, sem kemur í nafni Drottins; Hósanna í hæztum hæðum!
10. Nú er hann kom inn í Jerúsalem, varð allur borgarlýður uppvægur, og spurði: hver er þessi?
11. En fólkið sagði: þessi er spámaðurinn Jesús frá Nazaret í Galílea.
12. ¶ Þá gekk Jesús inn í musteri Guðs, og rak út þaðan alla þá, sem seldu þar og keyptu; hann hratt og niður borðum peninga víxlaranna, og stólum þeirra, er dúfur seldu,
13. Og mælti við þá: skrifað er: mitt hús skal vera bænahús, en þèr hafið gjört það að ræníngjabæli.
14. Þá gengu til hans blindir og haltir í musterinu, og hann læknaði þá.
15. En er æðstu prestarnir og hinir skriptlærðu sáu þau undur, er hann gjörði, og að börnin kölluðu í musterinu og sögðu: Hósanna syni Davíðs! þá reiddust þeir,
16. Og sögðu við hann: heyrir þú, hvað þessir segja?

Sannlega heyri eg það, sagði
Jesús; en hafið þèr ekki les-
ið: þú hefir tilbúið þèr lof af
munni barna og brjóstmylk-
ínga?
17. ¶ Að svo mæltu veik hann
frá þeim og fór úr borginni til
Betanía, og var þar (um nótt-
ina).
18. En að morgni, er hann
fór aptur til borgarinnar, tók
hann að húngra;
19. Þá leit hann eitt fíkjutrè,
er stóð við veginn; þángað
gekk hann, en fann ekkert á
því, nema blöðin tóm; þá
mælti hann við trèð: aldrei
vaxi á þèr ávöxtur framar; en
fíkjutrèð visnaði þegar.
20. Og er lærisveinar hans
sáu það, undruðust þeir og
mæltu: hvernig visnaði fíkju-
trèð svona fljótt?
21. En Jesús svaraði og sagði
við þá: sannlega segi eg yður,
ef þèr tryðuð og efuðuzt ekki,
þá munduð þèr ekki einúngis
gjört geta þetta við fíkjutrèð,
heldur ef þèr segðuð við fjall
þetta: lyptu þèr upp og fleyg
þèr á haf út, þá mundi það
verða.
22. Því alt það, hvers þèr
trúaröruggir beiðizt, mun yður
veitt verða.
23. ¶ Nú er hann kom í
musterið, söfnuðust til hans
hinir æðstu prestar og öld-
úngar lýðsins, og spurðu
hann: af hvaða valdi gjörir
þú þetta? og hver hefir gefið
þèr þetta vald?
24. En Jesús svaraði og sagði
við þá: eg vil og spyrja yður
eins hlutar, og ef þèr segið
mèr hann, mun eg og segja
yður, af hvaða valdi eg gjöri
þetta.
25. Hver gaf Jóhannesi vald
til að skíra? hvort heldur Guð
eður menn? Þeir íhuguðu
þetta með sjálfum sèr og
mæltu: ef vèr segjum, að
Guð hafi gefið honum þetta
vald, þá mun hann segja við
oss: því trúðuð þèr honum
þá ekki?
26. En ef vèr segjum, að það
hafi verið af mönnum, þá meg-
um vèr óttast lýðinn, því allir
hafa það fyrir satt, að Jó-
hannes hafi spámaður verið.
27. Þá svöruðu þeir, að þeir
vissu það ekki. Jesús sagði
þá og við þá: þá mun eg
ekki heldur segja yður, af
hvaða valdi eg gjöri þetta.
28. ¶ En hvað virðist yður?
Einn maður átti tvo sonu;
hann gekk til annars og sagði:
sonur, far þú í dag og vinn
verk í víngarði mínum;
29. En hann kvaðst hvergi
mundu fara; en eptir á iðr-

aðist hann þess, og fór til verksins.

30. Þá gekk faðirinn til hins, og sagði eins við hann; hann játti því, en fór þó hvergi.

31. Hvor af þessum tveimur gjörði nú vilja föðursins? Þeir svöruðu: sá fyrri. Þá mælti Jesús: sannlega segi eg yður að tollheimtumenn og pútur munu fyrr koma í Guðs ríki, en þèr;

32. Því Jóhannes kom til yðar á vegi rèttlætisins, en þèr trúðuð honum ekki, en tollheimtumenn og pútur trúðu honum; og þótt þèr sæuð það, snèruð þèr yður þó ekki til betrunar, svo að þèr tryðuð honum.

33. ¶ Heyrið aðra dæmisögu: Hússbóndi nokkur plantaði víngarð, hlóð garð um, gjörði þar vínpressu og bygði turn; síðan leigði hann víngarðinn víngarðsmönnum, og fór sjálfur úr landi;

34. En er uppskerutíminn nálgaðist, sendi hann þjóna sína til víngarðsmannanna, að veita ávöxtunum móttöku.

35. En víngarðsmennirnir tóku þá höndum, börðu einn, drápu annan og lömdu hinn þriðja grjóti.

36. Þá sendi hússbóndinn í öðru sinni aðra þjóna, fleiri en þá fyrri; en þeir breyttu eins við þá.

37. Seinast sendi hann til þeirra son sinn, og sagði: þeir munu þó bera virðíngu fyrir syni mínum.

38. En er víngarðsmennirnir sáu soninn, sögðu þeir sín á milli: þetta er erfínginn, tökum hann af lífi, svo vèr náum arfi hans.

39. Síðan tóku þeir hann höndum, drógu hann út úr víngarðinum og drápu hann.

40. Hverninn ætlið þèr nú að eigandi víngarðsins muni breyta við þessa víngarðsmenn, nær hann kemur?

41. Þeir mæltu: illmennum þessum mun hann tortýna; en víngarð sinn mun hann leigja öðrum víngarðsmönnum, þeim er gjalda honum ávextina í rèttan tíma.

42. Jesús sagði við þá: hafið þèr aldrei lesið í ritníngunni: Steinn sá er húsasmiðir útskúfuðu, hann er nú orðinn aðalhyrníngarsteinn; af Guði er hann til þess kjörinn, þótt oss undarlegt þyki.

43. Þess vegna segi eg yður, að Guðs ríki mun frá yður tekið verða og gefið þeirri þjóð, sem ber því verðuga ávexti.

44. Hver sem fellur á stein

þenna, mun sig slasa, en á hvern að steinninn fellur, þann mun hann merja.

45. En er hinir æðstu prestar og Farísearnir heyrðu þessar dæmisögur, skildu þeir, að hann meinti þetta til þeirra,

46. Og vildu leggja hendur á hann, en þorðu það þó ekki fyrir alþýðunni, því allir hèldu hann að vera spámann.

## 22. KAPÍTULI.

*Jesús segir dæmisöguna um brúðkaup eins konúngssonar; úrskurðar, að gefa skuli keisaranum skatt, hnekkir mótmælum Sadúseanna gegn upprisunni; kennir, hvert sè æðsta boðorðið í lögmálinu, og að Kristur sè ekki einúngis niðji Davíðs, heldur og einnig hans drottinn.*

ÞÁ hóf Jesús enn að kenna þeim í dæmisögum og mælti:

2. Himnaríki er líkt þeim konúngi, er hèlt brúðkaup sonar síns,

3. Og sendi út þjóna sína að bjóða boðsgestunum til brúðkaupsins, en þeir vildu ekki koma.

4. Þá sendi hann í öðru sinni aðra þjóna, og sagði: segið þeim boðnu: sjá, veizlu mína hefi eg tilbúið; uxum mínum og alifè er slátrað og alt er reiðubúið; komið til brúðkaupsins.

5. En þeir skeyttu því ekki, fóru burt, einn á akur sinn, og annar til sinnar kaupverzlunar;

6. En sumir tóku sendimennina og smánuðu þá, og drápu.

7. En er konúngurinn heyrði þetta, varð hann reiður, sendi lið sitt, og lèt taka morðíngja þessa af lífi, en brenna borg þeirra.

8. Síðan mælti hann við þjóna sína: brúðkaupið er að sönnu búið, en þeir, sem boðnir voru, voru þess eigi verðir;

9. Farið því út á gatnamót, og bjóðið þeim, er þèr finnið, til brúðkaupsins.

10. Og þjónarnir gengu út á strætin, og söfnuðu saman öllum, sem þeir fundu, vondum og góðum, svo veizlusalurinn varð alskipaður boðsgestum.

11. ¶ Þá gekk konúngurinn inn til að sjá gesti sína; sá hann þar mann nokkurn, er ekki var klæddur brúðkaupsklæði.

12. Hann mælti við hann: hvernig komst þú híngað, vinur, og klæddir þig ekki brúðkaupsklæðum? En maðurinn ansaði eingu.

13. Þá bauð konúngurinn þjónum sínum: bindið hendur hans og fætur og kastið honum í hin yztu myrkur þar sem vera mun grátur og gnístran tanna.

14. Því margir eru kallaðir, en fáir útvaldir.

15. ¶ Þá báru Farísear ráð sín saman um það, hverninn þeir kynnu að veiða hann í orðum,

16. Og sendu til hans lærisveina sína með fylgdarmönnum Heródesar, og sögðu: Meistari, vèr vitum, að þú ert sannorður og kennir Guðs götu í sannleika, þú mælir ekki, sem hver vill heyra, því þú ferð ekki að mannvirðíngum;

17. Seg oss nú, hvað þèr sýnist, hvort það leyfist að gjalda keisaranum skatt eður ekki.

18. En er Jesús varð var við vonzku þeirra, mælti hann: því freistið þèr mín, hræsnarar?

19. Sýnið mèr skattpenínginn. Þeir færðu honum þá penínginn.

20. Þá spurði hann, hvers að væri mynd sú og nafn, er á honum stóð.

21. Þeir sögðu honum, það væri keisarans. Þá mælti Jesús við þá: gjaldið þá keisaranum, hvað keisarans er, og Guði, hvað Guðs er.

22. En er þeir heyrðu það, undruðust þeir, yfirgáfu hann og fóru þaðan.

23. ¶ Þenna sama dag komu til hans Sadúsear, sem neita upprisu framliðinna, spurðu hann,

24. Og sögðu: Meistari, Móses bauð, að ef nokkur dæi barnlaus, þá skyldi bróðir hans fá konu hans, til þess að viðhalda ættlegg bróður síns.

25. En hèr voru með oss sjö bræður; hinn fyrsti gekk að eiga konu, og deyði barnlaus og eptirlèt konu sína bróður sínum;

26. Eins hinn annar og þriðji, alt til hins sjöunda;

27. En seinast þeirra allra dó konan.

28. Hvers þessara sjö eiginkona skal hún verða í upprisunni, því þeir höfðu átt hana allir?

29. Jesús svaraði þeim: þèr villist með því þèr skiljið ekki ritnínguna, nè mátt Guðs;

30. Því í upprisunni munu hvorki karlar nè konur giptast, heldur eru þeir eins og einglar Guðs á himnum.

31. En hafið þèr ekki lesið um upprisu framliðinna það, sem yður er sagt af Guði, er segir:

32. Eg er Guð Abrahams, Guð Isaaks og Guð Jakobs. Nú er Guð ekki Guð dauðra, heldur lifenda.

33. En er fólkið heyrði þetta, undraðist það hans kenníngu.
34. ¶ Nú er Farísear heyrðu, að hann hafði gjört Sadúsea orðlausa, hèldu þeir ráð sitt;
35. Og einn þeirra, sem var lögvitríngur, freistaði hans og spurði:
36. Meistari, hvert er hið æðsta boðorð í lögmálinu? Jesús svaraði honum:
37. Elska skaltu Drottinn Guð þinn af öllu hjarta, allri sálu þinni og öllu hugskoti þínu.
38. Þetta er hið æðsta og helzta boðorð,
39. Og þessu líkt er hitt: elska náúnga þinn, sem sjálfan þig.
40. Í þessum tveimur boðorðum er innifalið alt lögmálið og spámennirnir.
41. ¶ En er Farísear voru samankomnir, spurði Jesús þá að og mælti:
42. Hvað virðist yður um Krist? hvers son er hann? Þeir svöruðu: Davíðs.
43. Jesús mælti: því kallar Davíð hann þá í anda Drottinn, er hann segir:
44. Drottinn sagði mínum Drottni: sit þú mèr til hægri handar, þángað til eg hefi lagt óvini þína undir fætur þèr.
45. Þar eð nú Davíð kallar hann Drottinn, hvernig er hann þá hans sonur?
46. Þessu gat einginn einu orði svarað, eigi heldur dirfðist nokkur upp frá þeim degi að spyrja hann nokkurs.

## 23. KAPÍTULI.

*Jesús býður fólkinu að hlýða kenníngu Faríseanna, en ekki breyta eptir þeim; ávítar Faríseana; fyrirsegir Jerúsalems eydileggingu.*

ÞÁ hóf Jesús svo ræðu sína við lærisveina sína og lýðinn:
2. Á Móses stóli sitja skriptlæðir og Farísear;
3. Þessvegna skuluð þèr hlýða öllu því, sem þeir bjóða yður, en eptir verkum þeirra skuluð þèr ekki breyta, því þeir bjóða það, er þeir sjálfir ekki halda.
4. Þeir binda mönnum byrðar þúngar og örðugar að bera, og leggja þeim þær á herðar, en sjálfir vilja þeir ekki hræra við þeim fíngri sínum.
5. Öll sín verk gjöra þeir til að sýnast fyrir mönnum, því þeir stækka minnisblöð sín og breiðka kögur klæða sinna.
6. Þeir vilja efstir sitja að boði hverju, og sækjast eptir helztu sætum í samkundum;
7. Vilja láta heilsa sèr á torgum og kalla sig meistara.
8. En þèr skuluð ekki láta yður meistara kalla, því einn

er yðar meistari, en þèr eruð
allir bræður.
9. Eingan skuluð þèr heldur
föður yðar kalla hèr á jörðu;
því einn er faðir yðar, sá sem
á himnum er.
10. Ekki heldur skuluð þèr
láta yður leiðtoga kalla, því
einn er yðar leiðtogi, sem er
Kristur.
11. En sá mesti meðal yðar
sè þjón hinna;
12. Því hver sig sjálfan upp-
hefur, mun niðurlægjast, en
hver sig sjálfan lítillækkar,
hann mun upphafinn verða.
13.¶ En vei yður skriptlærðum
og Faríseum! Þèr hræsnarar,
sem etið upp hús ekknanna
og eruð leingi á bænum fyrir
siða sakir; þarfyrir munuð þèr
og sæta þýngri hegníngu.
14. Vei yður skriptlærðum
og Faríseum! Þèr hræsn-
arar, sem læsið fyrir mönnum
himnaríki, því ekki gángið
þèr sjálfir þar inn og leyfið
ekki heldur inngaungu þeim,
sem hennar leita.
15. Vei yður skriptlærðum
og Faríseum! Þèr hræsnarar,
sem farið um lönd öll og höf
til þess, að gjöra einn að Gyð-
íngi, og að því búnu gjörið þèr
hann að barni helvítis, hálfu
verri en þèr sjálfir eruð.
16. Vei yður, þèr blindu leið-
sögumenn, sem kennið, að þótt
einn sverji við musterið, þá sè
sá eiður ógildur, en ef einhver
sver við gullið, sem er í must-
erinu, þá sè sá eiður gildur.
17. Þèr heimskíngjar og
blindir, hvort er meira vert,
gullið, eður musterið, sem
gullið helgar?
18. Og enn framar segið þèr,
að hver sem sver við altarið,
þá sè sá eiður ónýtur, en hver
sem sver við fórnina á altarinu,
þá sè hann skyldur að halda
eið sinn.
19. Þèr heimskir og blindir,
hvort er þá meira vert, fórn-
in, eður altarið, sem fórnina
helgar?
20. Hver sem því sver við
altarið, sver bæði við það og
við alt, sem á því er;
21. Og hver sem sver við
musterið, sver bæði við það
og við hann, sem í því býr;
22. Og hver sem sver við him-
ininn, hann sver við hásæti Guðs
og við þann, er í því situr.
23. Vei yður, þèr Farísear og
skriptlærðir, þèr hræsnarar,
sem gjaldið tíund af myntu,
anis og kúmeni, en hirðið ekki
um það í lögmálinu, sem mest
á ríður, sem er rèttvísi, misk-
unsemi og trú; þetta bar að
gjöra, en hitt ekki ógjört að
láta.

24. Þèr blindir leiðsögumenn, sem frásíið fluguna, en svelgið úlfaldann.

25. Vei yður, þèr skriptlærðir og Farísear, þèr hræsnarar, sem fægið utan bikara yðra og borðdiska, en að innan eru þeir fullir ráns og ofneyzlu.

26. Þú blindur Farísei, fæg fyrst bikar þinn og borðdisk innan, þá mun hann og utan hreinn verða.

27. Vei yður, þèr Farísear og skriptlærðir, þèr hræsnarar, líkir eruð þèr kölkuðum gröfum framliðinna, sem að utanverðu eru að sönnu fallegar útlits, en innan eru þær fullar með dauðra manna bein og als kyns óhreinindi;

28. Þannig sýnist þèr góðir hið ytra fyrir manna sjónum, en innan eruð þèr fullir hræsni og órèttinda.

29. Vei yður, þèr skriptlærðir og Farísear, þèr hræsnarar, sem uppbyggið legstaði spámannanna og prýðið leiði helgra manna, og segið:

30. Hefðum vèr lifað á dögum feðra vorra, skyldum vèr ekki hafa verið með þeim að lífláti spámannanna.

31. Þannig viðurkennið þèr sjálfir, að þèr sèuð niðjar þeirra, sem tóku spámennina af lífi.

32. Fyllið nú og mæli feðra yðvarra!

33. Þèr höggormar, þèr nöðrukyn, hvernig getið þèr umflúið helvítis dóm?

34. ¶ Því, sjá, eg mun senda til yðar spámenn, spekínga og skriptlærða, suma munuð þèr lífláta og á kross festa, suma munuð þèr húðstrýkja í samkunduhúsum yðrum, og hrekja úr einni borg í aðra.

35. Svo að yfir yður komi alt rèttlátt blóð, sem úthelt hefir verið á jörðunni frá blóði Abels hins rèttláta til blóðs Sakaríasar Barakíassonar, sem þèr drápuð á milli altaris og musteris.

36. Sannlega segi eg yður, að alt þetta mun koma yfir þessa kynslóð.

37. Jerúsalem, Jerúsalem, þú sem líflætur spámennina, og grýtir þá, sem til þín eru sendir, hversu opt hefi eg viljað samansafna börnum þínum, eins og þegar hænan safnar úngum sínum undir vængi ser; en þèr hafið ekki viljað það.

38. Þar fyrir skal yðar bústaður í eyði lagður verða.

39. Því eg segi yður, að þèr munuð ekki sjá mig hèðan af, þángað til þèr segið: blessaður sè sá, sem kemur í Drottins nafni!

## 24. KAPÍTULI.

*Jesús spáir um eyðileggíngu Jerúsalems og heimsins, og um andvaraleysi manna, og ræður til árvekni.*

NÚ er Jesús gekk út úr musterinu, þá gengu lærisveinar hans til hans og sýndu honum byggíngu þess;

2. Þá mælti hann: Sjáið þèr ekki alt þetta? Sannlega segi eg yður, hèr mun ekki steinn yfir steini standa, sá er ekki verði niður brotinn.

3. ¶ En þegar hann hafði sett sig niður á olíufjallinu, geingu lærisveinar hans til hans einslega og sögðu: seg oss, hve nær þetta mun framkoma, og hvert vera mun merki þinnar tilkomu og enda veraldarinnar.

4. Jesús svaraði og sagði við þá: varizt það, að einginn tæli yður,

5. Því margir munu koma undir mínu nafni, og segja: eg er Kristur, og munu marga afvega leiða.

6. En þèr munuð frètta styrjöld og ófriðar tíðindi; sjáið til, að þèr skelfizt ekki; því þetta hlýtur alt að skè, en þó er enn ekki endirinn kominn,

7. Því ein þjóð mun rísa mót annari, og eitt ríki mót öðru, þá mun og í ýmsum stöðum vera hallæri, drepsótt og jarðskjálftar.

8. En alt þetta er byrjun hörmúnganna.

9. Þá munu menn selja yður í ánauð og af lífi taka, og allar þjóðir munu yður hata fyrir míns nafns sakir.

10. Margir munu þá hneykslast, hver annan framselja og að hatri hafa;

11. Þá munu og upp koma margir falskennendur, þeir er marga munu afvega leiða,

12. Og sakir varandi rángsleitni mun kærleiki margra kólna.

13. En hver sem stöðugur stendur alt til enda, hann mun hólpinn verða.

14. En kenníngin um Guðs ríki mun um gjörvallan heim boðuð verða, til vitnisburðar fyrir öllum þjóðum; og þá mun endirinn koma.

15. En nær þèr sjáið viðurstygð eyðileggíngarinnar standandi á helgum stað, sem Daníel hefir spáð um, (hver sem les það, gefi gaum að því),

16. Þá flýi hver sá, sem í Júdea er, til fjalla;

17. Hver sá sem er á húsþaki, varist hann að fara ofan í hús sitt til að taka nokkuð þaðan.

18. Hver sem er á akri, snúi

hann ekki til baka að taka
klæði sín.
19. Æ, vesælar eru á þeim
tíma konur þúngaðar, og þær,
er börn hafa á brjósti.
20. En biðjið þèr, að yðar
flótti verði ekki um vetur, eð-
ur á hvíldardegi;
21. Því þá mun vera svo stór
hörmúng, að eingin hefir þvílík
verið frá byrjun heims til þess-
arar tíðar, og ekki heldur mun
síðar verða;
22. Og nema þessir dagar
styttist, mundi einginn frelsast,
en fyrir útvaldra sakir mun
þessi tími styttast.
23. Þó einhver segi yður þá,
að Kristur sè hèr eður þar, þá
skuluð þèr ekki trúa;
24. Því falskristar og fals-
kennendur munu þá upp koma,
og gjöra stór undur og tákn,
svo að í villu munu leiðast, ef
unnt væri, jafnvel útvaldir.
25. Gætið nú þess, að eg hefi
sagt yður þetta fyrir.
26. Þegar þeir nú segja yður,
að hann sè í eyðimörku, þá
farið ekki út þángað; og
þegar þeir segja, að hann sè
í launkofum, þá trúið því
ekki.
27. Því, eins og eldíngin út-
geingur frá austri og skín alt
til vesturs, eins mun verða
tilkoma Mannsins Sonar;
28. Því þar sem hræið er,
þángað munu ernirnir safnast.
29.¶ En undireins eptir hörm-
úng þessara daga, mun sól
sortna, og túngl missa birtu
sinnar, en stjörnur munu
hrapa af himni, og kraptar
himnanna hrærast.
30. Þá mun teikn Mannsins
Sonar birtast á himni, og allar
þjóðir jarðarinnar kveina, og
þær munu sjá hann komanda
í skýum með veldi og dýrð
mikilli.
31. Þá mun hann senda
eingla sína með hvellum lúðri,
og þeir munu samansafna
hans útvöldum úr öllum átt-
um, frá einu heims skauti til
annars.
32. Takið yður dæmi af fíkju-
trè þessu: nær greinir þess
eru orðnar vökvafullar, og
blöðin taka út að spríngа, þá
vitið þèr, að sumarið er í
nánd;
33. Svo fer og, nær þèr sjáið
alt þetta, þá vitið, að hann er
í nánd og fyrir dyrum.
34. Sannlega segi eg yður, að
þessi kynslóð mun ekki undir
lok líðin, áður en alt þetta
kemur fram.
35. Himin og jörð munu for-
gánga, en mín orð munu ekki
forgánga.
36. ¶ En þann dag og tíma

veit einginn fyrir, og ekki
einglar á himnum, nema fað-
irinn einn.
37. En eins og dagar Nóa
voru, eins mun tilkoma Manns-
ins Sonar verða.
38. Því eins og menn fyrir
flóðið hèldu sig vel að mat og
drykk, karlar og konur gipt-
ust, alt til þess dags, þegar
Nói gekk í örkina,
39. Og vissu ekki fyrr af, en
flóðið kom og tók þá alla:
eins mun og verða tilkoma
Mannsins Sonar.
40. Tveir munu þá á akri
vera, annar mun tekinn verða,
hinn eptir skilinn;
41. Tvær konur munu þá
mala í kvernhúsi, önnur þeirra
mun verða tekin, hin eptir
skilin.
42. ¶ Verið því vakandi, þar
þèr vitið ekki, nær herra yðar
muni koma;
43. En það vitið þèr, að ef
hússbóndinn vissi, um hverja
stund nætur að þjófurinn
kæmi, þá mundi hann vaka,
og ekki leyfa, að brotin væru
upp hús sín.
44. Verið þèr því viðbúnir,
því Mannsins Sonur mun kom-
a, þegar þèr sízt ætlið.
45. Hver er þá hinn trúi og
forsjáli þjón, sem herra hans
hefur sett yfir hjú sín til að
gefa þeim mat í rèttan tíma?
46. Sæll er sá þjón, sem herra
hans finnur þannig breyta
þegar hann kemur.
47. Sannlega segi eg yður,
hann mun setja hann yfir allar
eigur sínar.
48. En ef ótrúr þjón segir í
hjarta sínu: það mun dragast,
að herra minn komi,
49. Tekur síðan að berja á
samþjónum sínum og hafa
samneyti við ofdrykkjumenn,
50. Þá mun hússbóndi hans
koma, þegar hann varir sem
minnst, og á þeirri stund, er
hann ætlaði sízt,
51. Og láta hann sæta hörð-
um refsíngum og gjöra hlut
hans jafnan hræsnurum, þar
sem vera mun grátur og
gnístran tanna.

## 25. KAPÍTULI.

*Dæmisaga um þær forsjálu og óforsjálu meyar; um hússbóndann, er fèkk þjónum sínum fè í hendur; um dómadag.*

ÞÁ mun himnaríki vera líkt
tíu meyum, sem tóku
lampa sína og fóru á móti
brúðgumanum:
2. Fimm af þeim voru for-
sjálar, en fimm óforsjálar.
3. Þær óforsjálu tóku að
sönnu lampa sína, en ekki
tóku þær viðsmjör með sèr.
4. En þær forsjálu tóku
viðsmjör með í kerum sínum.

5. En er frestaðist koma brúðgumans, syfjaði þær allar, og fóru að sofa;
6. En um miðnætti var kallað og sagt: brúðguminn kemur, farið út á móti honum.
7. Þá vöknuðu allar meyarnar, og tóku að búa lampa sína.
8. En hinar óforsjálu sögðu við hinar forsjálu: gefið oss nokkuð af yðar viðsmjöri, því annars munu ljós vor slokkna.
9. Hinar forsjálu svöruðu: það mundi, ef til vill, ekki endast handa oss og yður; farið heldur til þeirra, er viðsmjör selja, og kaupið þar viðsmjör handa yður.
10. En er þær voru burtfarnar til kaupa þessara, þá kom brúðguminn; og þær, sem tilbúnar voru, gengu með honum inn til brúðkaupsins; síðan var dyrunum lokað.
11. En síðar komu og hinar meyarnar, og sögðu: herra, herra, ljúk upp fyrir oss.
12. En hann svaraði og sagði: sannlega segi eg yður, eg þekki yður ekki.
13. Verið þar fyrir vakandi, því þèr vitið ekki daginn nè stundina.
14. ¶ Því þessu er eins háttað og manni þeim, er ferðaðist utanlands, og kallaði áður til sín þjóna sína, og seldi þeim í hendur fè sitt.
15. Einum fèkk hann fimm pund, öðrum tvö og enum þriðja eitt, eptir sèrhvers þeirra dugnaði, og fór síðan úr landi.
16. Þá fór sá, er við fimm pundum tekið hafði, varði þeim til kaupeyris, og ávaxtaði þau um helmíng.
17. Eins gjörði sá, er við tveim pundum hafði tekið, að hann græddi á þeim önnur tvö.
18. En sá, er við því eina hafði tekið, fór og fól fè húsbónda síns í jörðu.
19. En eptir lángan tíma liðinn kom húsbóndi þjóna þessara og lèt þá gjöra grein fyrir fènu.
20. Þá kom sá, er við fimm pundum hafði tekið, og bar fram önnur fimm pund og mælti: herra, þú seldir mèr í hendur fimm pund; á þeim hefi eg unnið önnur fimm pund.
21. Herrann mælti: vel hefir þú gjört, þú góði og trúlyndi þjón, þú varst trúr yfir litlu, eg mun setja þig yfir mikið; gakk inn í fögnuð herra þíns.
22. Nú kom sá, er hafði feingið tvö pund, og mælti:

herra, tvö pund fèkstu mèr í hendur, á þeim hefi eg grætt önnur tvö pund.
23. Þá mælti herrann: vel hefur þú gjört, þú góði og trúlyndi þjón, þú varst trúr yfir litlu, nú mun eg setja þig yfir mikið; gakk inn í fögnuð herra þíns.
24. Síðan kom sá fram, sem tekið hafði við einu pundi, og mælti: eg vissi, herra, að þú ert harður maður, sem uppsker, þar sem þú ekki sáðir, og tínir saman, þar sem þú ekki stráðir;
25. Þetta hræddist eg, og fór því og fól þitt pund í jörðu; lít nú á, þar hefir þú þitt.
26. En herra hans svaraði og sagði við hann: þú ótrúi og lati þjón, þú vissir, að eg uppsker, þar sem eg ekki sáði, og tíni saman, þar sem eg ekki stráði.
27. Þessvegna áttir þú að fá fè mitt í hendur verzlunarmönnum, svo að, nær eg kæmi, gæti eg tekið við því með ávexti.
28. Takið því af honum hans pund, og seljið þeim í hendur, sem hefir tíu pund;
29. Því sèrhverjum, sem hefir, honum mun gefið verða, svo hann hafi yfirfljótanlegt; en frá þeim, sem ekki hefir, mun og það takast, er hann hefir;
30. En þessum vonda þjóni skuluð þèr varpa í hin yztu myrkur, þar sem vera mun grátur og gnístran tanna.
31. ¶ En þegar Mannsins Sonur kemur í dýrð sinni og allir einglar með honum, þá mun hann sitja í sínu dyrðar hásæti,
32. Og allar þjóðir munu safnast til hans; hann mun aðskilja þá, eins og þegar hirðir skilur sauði frá höfrum,
33. Og skipa sauðunum sèr til hægri, en höfrunum til vinstri hliðar;
34. Þá mun konúngurinn segja við þá, sem eru honum til hægri hliðar: komið, þèr ástvinir míns föðurs, og eignizt það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi veraldar.
35. Húngraður var eg og þèr gáfuð mèr að eta; þyrstur var eg, og þèr gáfuð mèr að drekka; gestur var eg, og þèr hýstuð mig;
36. Nakinn var eg, og þèr klædduð mig; sjúkur, og þèr vitjuðuð mín; í myrkvastofu, og þèr komuð til mín.
37. Þá munu hinir rèttlátu svara honum og segja: herra, hvenær sáum vèr þig húngraðan og söddum þig? eða

þyrstan, og gáfum þèr að drekka?
38. Hvenær sáum vèr þig gest, og hýstum þig? nakinn, og klæddum þig?
39. Nær sáum vèr þig sjúkan eður í myrkvastofu, og vitjuðum þín?
40. Þá mun konúngurinn svara og segja við þá: sannlega segi eg yður, að hvað þèr gjörðuð við einn af þessum minnstu bræðrum mínum, það hafið þèr mèr gjört.
41. Síðan mun hann segja við þá, sem eru honum til vinstri hliðar: farið frá mèr bölvaðir í þann eilífa eld, sem búinn er djöflinum og árum hans;
42. Því húngraður var eg, og þèr gáfuð mèr ekki að eta; þyrstur var eg, og þèr gáfuð mèr ekki að drekka,
43. Gestur var eg og þèr hýstuð mig ekki; nakinn var eg, og þèr klædduð mig ekki; sjúkur var eg og í myrkvastofu, og þèr vitjuðuð mín ekki.
44. Þá munu þeir svara: herra, nær sáum vèr þig húngraðan eður þyrstan, gest, eða nakinn, sjúkan eður í myrkvastofu, að vèr ekki þjónuðum þèr.
45. En hann mun svara: sannlega segi eg yður, það sem þèr ekki gjörðuð einum af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjörðuð þèr ekki heldur mèr.
46. Þá munu þessir fara til ævarandi kvala, en hinir rèttlátu til eilífrar sælu.

## 26. KAPÍTULI.

*Jesús fyrirsegir sína pínu; ráðagjörð Gyðínga um að deyða hann. Hann er smurður í Betanía; Júdas býðst til að svíkja Jesúm. Jesús etur páskalambið, innsetur kvöldmáltíðina. Hans gángur til olíufjallsins og pína í grasgarðinum. Hann er tekinn höndum, Pètur sýnir vörn, lærisveinarnir flýa. Jesús er færður fyrir hinn andlega rètt. Afneitun Pèturs.*

NÚ er Jesús hafði lokið þessari ræðu, mælti hann við lærisveina sína:
2. Þèr vitið, að eptir tvo daga eru páskar; þá mun Mannsins Sonur ofurseldur verða, til að krossfestast.
3. Um þetta bil komu saman hinir æðstu prestar og skriptlærðir og öldúngar lýðsins í garði höfuðprestsins, er Kaífas hèt,
4. Og tóku saman ráð sín um, hvernig þeir gætu feingið Jesúm höndlaðan með svikum og tekið hann af lífi;
5. Og þókti þeim ekki ráðlegt að gjöra þetta á hátíðinni, svo að ekki yrði upphlaup meðal fólksins.
6. ¶ Þegar Jesús var í Betanía í húsi Símonar líkþráa,
7. Kom til hans kona nokk-

ur, hún hafði alabasturs flösku
með dýrmætum smyrslum í;
þeim helti hún yfir höfuð hans,
er hann sat yfir borðum.
8. En er lærisveinar hans sáu
þetta, mislíkaði þeim það, og
mæltu: til hvers er þessi
eyðsla?
9. Því þessi smyrsl hefði mátt
selja miklu verði, og gefa svo
fátækum.
10. En er Jesús varð þessa
var, mælti hann: því amizt
þèr við konu þessari? vel
gjörði hún til mín;
11. Því fátæka hafið þèr ætíð
hjá yður, en mig hafið þèr
ekki ætíð;
12. Því með þessum smyrsl-
um smurði hún mig til minn-
ar greptrunar;
13. Sannlega segi eg yður,
að hvar um heim sem þessi
náðarboðskapur verður kunn-
gjörður, mun og þess, er hún
gjörði, henni til sæmdar getið
verða.
14. ¶ Þá fór einn af þeim tólf,
Júdas Ískaríot, til enna æðstu
presta,
15. Og spurði þá, hvað þeir
vildu gefa sèr til að koma
honum á þeirra vald; en þeir
greiddu honum þrjátíu silfur-
peninga,
16. Og upp frá þessu leitaði
hann lags að svíkja Jesúm.

17. ¶ En fyrsta hátíðardag enna
ósýrðu brauðanna geingu læri-
sveinarnir til Jesú og spurðu:
hvar viltu að vèr matbúum þèr
páskalambið?
18. Hann mælti: farið þèr í
borgina til manns nokkurs, og
segið honum: Svo segir meist-
arinn: minn tími er nálægur,
hjá þèr vil eg halda páska
með lærisveinum mínum.
19. Lærisveinarnir gjörðu,
sem hann bauð þeim, og efn-
uðu þar til páskaveizlu.
20. Og er kvöld var komið,
settist hann til borðs ásamt
þeim tólf lærisveinum sínum.
21. Nú er þeir voru undir
borð komnir, tók hann svo til
orða: sannlega segi eg yður, að
einn af yður mun svíkja mig.
22. Og þeir urðu mjög hryggv-
ir, og spurðu hann, hver fyrir
sig, með svofeldum orðum:
hvort mun eg verða til þess,
herra?
23. Hann svaraði: sá sem
rètti höndina í fatið með mèr,
hann mun svíkja mig.
24. Mannsins Sonur mun að
sönnu láta líf sitt, eins og því
er spáð fyrir honum, en vei
þeim manni, er svíkur hann;
betra væri honum, að hann
aldrei væri fæddur.
25. En Júdas, sem sveik
hann, svaraði og sagði: hvort

er eg það, herra? en Jesús játti því.

26. ¶ Þegar þeir nú sátu undir borðum, þá tók Jesús brauðið, gjörði Guði þakkir, braut það, og gaf sínum lærisveinum og mælti: takið og etið, þetta er minn líkami.

27. Síðan tók hann kaleikinn, gjörði Guði þakkir, gaf þeim hann og mælti: drekkið hèr af allir;

28. Því þetta er mitt blóð, hins nýa sáttmála, og sem fyrir marga mun verða út helt til fyrirgefníngar syndanna.

29. En eg segi yður, að eg mun ekki hèðan í frá drekka af þessum vínviðar ávexti, til þess er eg drekk með yður af nýum ávexti í ríki föður míns.

30. Þegar þeir höfðu lofsaunginn súngið, fóru þeir til olíufjallsins.

31. Þá sagði Jesús við þá: á þessari nóttu munuð þèr allir hneykslast á mèr, því skrifað er: hirðirinn mun eg slá og sauðir hjarðarinnar munu tvístrast;

32. En eptir það að eg er upprisinn, mun eg verða kominn á undan yður til Galílea.

33. Þá svaraði Pètur honum: þótt allir hneykslist á þèr, skal eg samt aldrei hneykslast á þèr.

34. Jesús svaraði: sannlega segi eg þèr, að á þessari nóttu, áður en haninn gelur, muntu þrisvar afneita mèr.

35. Þá mælti Pètur: þótt eg ætti að láta lífið með þèr, mun eg þó ekki afneita þèr. Hið sama sögðu og allir lærisveinarnir.

36. ¶ Síðan kom Jesús með þeim til þess staðar, er hèt Getsemane, þá mælti hann til lærisveina sinna: setjist hèr á meðan eg fer og biðst fyrir;

37. En Pètur og þá tvo sonu Sebedeusar tók hann með sèr; þá tók hann að hryggjast og mjög harmþrúnginn að verða,

38. Og sagði: sál mín er hrygg alt til dauða, bíðið hèr og vakið með mèr.

39. Þá gekk hann litlu leingra fram, fèll fram á sína ásjónu, og bað og sagði: Faðir minn, ef mögulegt er, þá víki frá mèr þessi kaleikur, þó ekki sem eg vil, heldur sem þú vilt.

40. Síðan kom hann aptur til lærisveina sinna, og fann þá sofandi; og sagði við Pètur: gátuð þèr þá ekki vakað með mèr eina stund?

41. Vakið og biðjið, svo að þèr fallið ekki í freistni, andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt.

42. Þá fór hann í öðru sinni, baðst fyrir og sagði: Faðir minn, ef það er ekki mögulegt, að þessi kaleikur víki frá mèr, án þess eg drekki hann, þá verði þinn vilji.
43. Síðan kom hann, og fann þá aptur sofandi; því svefnþúngi mikill var fallinn á augu þeirra;
44. Þá fór hann enn frá þeim, og gjörði bæn sína í þriðja sinni með sömu orðum og fyrr.
45. Þá kom hann enn til lærisveina sinna og mælti: sofið það sem eptir er, og hvílizt! Sjáið, stundin nálgast, að Mannsins Sonur verður fram seldur á vald vondra manna;
46. Standið upp og förum hèðan, sá er í nánd, er mig svíkur.
47. ¶ Meðan hann var nú þetta að mæla, kom Júdas, einn af þeim tólf, og með honum flokkur mikill, búinn með sverðum og forkum frá hinum æðstu prestum og öldúngum lýðsins;
48. En sá, er sveik hann, bað þá hafa það til marks, að sá er hann kysti, hann væri Jesús, þann skyldu þeir höndla;
49. Og jafnskjótt gekk hann að Jesú og mælti: heill, meistari, og minntist við hann.
50. Jesús svaraði: vinur, því ertu hèr kominn? Þá geingu þeir til Jesú, lögðu hendur á hann og gripu hann.
51. En einn af þeim, sem voru með Jesú, greip til sverðsins, brá því, og hjó eyrað af þjónustumanni ens æðsta prests.
52. Þá sagði Jesús við hann: sliðra þú sverð þitt; þeir er með vopnum vega, munu og fyrir vopnum falla.
53. Eða heldur þú, að eg nú geti ekki beðið föður minn, svo að hann sendi mèr meir enn tólf fylkíngar engla?
54. En hvernig ættu þá ritníngarnar að upp fyllast? því þetta á svo að fara.
55. Á þeirri stundu mælti Jesús við flokkinn: þèr eruð farnir út að höndla mig með sverðum og forkum, eins og ræníngja; en á hverjum degi hefi eg þó hjá yður verið, setið og kent í musterinu, og þó hafið þèr ekki gripið mig.
56. En þetta alt er skèð, svo það rætist, er spámennirnir hafa sagt. Þá yfirgáfu hann allir lærisveinar hans og flýðu.
57. ¶ En þeir, sem höndluðu Jesúm, leiddu hann til Kaífasar æðsta prests, þar sem skriptlærðir og öldúngarnir voru saman komnir;
58. En Pètur fylgdi áleingdar

á eptir, alt að garði ens æðsta
prests. Þar gekk hann inn og
settist meðal þjónustumann-
anna, til þess hann sæi, hver
endir þar á yrði.
59. En hinir æðstu prestar,
öldúngarnir og alt hið mikla
ráð, leituðu ljúgvitna gegn
Jesú, svo að þeir gætu selt
hann í dauðann,
60. En fundu ekkert saknæmt
um hann, jafnvel þó margir
ljúgvottar kæmu fram. Síðast
komu fram tveir ljúgvottar,
61. Þeir er sögðust hafa heyrt
hann segja: eg get brotið
musteri Guðs og bygt það
aptur innan þriggja daga.
62. Þá stóð upp hinn æðsti
prestur og mælti: svarar þú
eingu til þess, sem þessir
ásaka þig um?
63. En Jesús þagði. Þá mælti
hinn æðsti prestur: eg særi
þig við enn lifanda Guð, að
þú segir oss það, ef þú ert
Kristur, sonur Guðs.
64. Jesús svaraði: Svo er,
sem þú sagðir, en eg segi
yður, að eptir þetta munuð
þèr sjá Mannsins Son sitjanda
til hægri handar ens alvalda
Guðs, og komanda í skýum
himins.
65. Þá reif hinn æðsti prestur
sín klæði og mælti: Hann
guðlastar; hvað þurfum vèr
nú framar vitnanna við? nú
heyrðuð þèr sjálfir hans guð-
löstun.
66. Hvað lízt yður? En þeir
kváðu hann allir dauða sekan.
67. Þá hræktu þeir í andlit
honum og slógu hann, sumir
með knefum og sumir með
lófum,
68. Og mæltu: spáðu nú,
Kristur, hver var það, sem
sló þig?
69. ¶ Nú er Pètur sat utar-
lega í garðinum, kom til hans
ambátt nokkur, og mælti: þú
varst með Jesú frá Galíleu.
70. En hann neitaði því, svo
allir heyrðu, og mælti: ekki
veit eg, hvað það er, sem þú
talar um.
71. En er hann gekk út í
fordyrið, þá leit hann önnur
ambátt og mælti við þá, sem
hjá voru: þessi maður var með
Jesú frá Nazaret.
72. En hann neitaði aptur
með eiði, og kvaðst ekki
þekkja þann mann.
73. Skömmu síðar gengu þeir
fram, er hjá voru, og sögðu
við Pètur: víst ertu af hans
mönnum; það anglýsir mál
þitt.
74. Þá tók hann að sverja og
formæla sèr, að hann ekki
þekti þenna mann, og í því
sama gól haninn;

75. Þá minntist Pètur þess, er Jesús hafði mælt, að áður en haninn galaði, mundi hann þrisvar afneita sèr; gekk síðan út og grèt sáran.

## 27. KAPÍTULI.

*Jesús afhentur Pílatusi; örvæntíng og dauðdagi Júdasar; Jesú játníng og þögn; Barabbas er laus látinn, en Jesús afhentur til húðstroku og krossfestíngar, spottaður, þyrnikrýndur og færður út til aftökustaðarins, krossfestur og hæddur. Teiknin við Jesú dauða; Jesús greftraður. Við legstaðinn setjast verðir.*

EN að morgni tóku allir hinir æðstu prestar og öldúngar lýðsins ráð sín saman gegn Jesú, svo þeir gæti ráðið hann af dögum,

2. Bundu hann síðan, færðu hann þaðan og seldu í hendur landstjóranum Pontsíus Pílatus.

3. ¶ En er Júdas, sá er sveik hann, sá, að hann var til dauða dæmdur, iðraðist hann, og skilaði hinum æðstu prestum og öldúngunum aptur hinum þrjátíu silfurpeníngum, og mælti:

4. Illa gjörði eg, er eg sveik saklaust blóð; en þeir sögðu: hvað kemur það oss við? sjá þú þar fyrir.

5. Þá kastaði hann silfrinu á musteris gólfið, skundaði þaðan og heingdi sig.

6. En hinir æðstu prestar tóku silfrið, og sögðu: það er ekki leyfilegt, að leggja það í guðskistuna, því það er blóðsverð.

7. Tóku þeir því það til ráðs, að kaupa með því leirkerasmiðs akur til að jarða þar í útlenda menn,

8. Og þess vegna er hann enn þá kallaður blóðsakur.

9. Þannig rættist það, er Jeremías segir: þeir tóku þá þrjátíu sílfurpenínga, verð þess, er metinn var, sem þeir keyptu af Ísraels börnum,

10. Og þeir keyptu fyrir þá leirkerasmiðs akur, eins og Drottinn hafði boðið mèr.

11. Nú er Jesús kom fyrir landstjórann, spurði landstjórinn hann og sagði: ert þú konúngur Gyðínga? En Jesús sagði við hanu: svo er, sem þú segir.

12. En er hinir æðstu prestar og öldúngar báru sakir á hann, svaraði hann eingu.

13. Þá sagði Pílatus við hann: heyrir þú ekki, hve harðlega þeir ásaka þig?

14. En hann svaraði honum ekki til neins orðs, svo að landstjórann furðaði mjög.

15. Á hátíðinni var landstjórinn vanur að láta fólkinu lausan bandíngja þann einn, er þeir sjálfir kysu;

16. En þá var þar bandíngi

nokkur nafnkunnur, sá er Barabbas hèt.
17. Nú er þeir voru samankomnir, sagði Pílatus við þá: hvorn viljið þèr nú að eg gefi yður lausan, Barabbas eður Jesúm, sem Kristur er kallaður?
18. Því hann vissi, að þeir höfðu Jesúm fyrir haturs sakir fram seldan.
19. ¶ En er hann sat á dómstólnum, sendi kona hans til hans, og lèt segja honum: láttu þenna rèttláta mann vera, því margt þúngt hefir mèr borizt í drauma í dag hans vegna.
20. En hinir æðstu prestar og öldúngarnir eggjuðu alþýðuna, að þeir skyldu biðja um Barabbas, en Jesúm skyldu þeir lífláta.
21. Síðan tók landstjórinn til orða og mælti: hvorn þessara tveggja viljið þèr nú að eg gefi yður lausan? En þeir sögðu: Barabbas.
22. Þá spurði Pílatus þá: hvað skal eg þá gjöra við Jesúm, er Kristur kallast? Þeir sögðu allir: lát þú krossfesta hann.
23. Þá spurði landstjórinn: hvað hefir hann þá ilt gjört? En þeir kölluðu þess meir: krossfestist hann!
24. ¶ Nú er Pílatus sá, að hann eingu fèkk til vegar komið, en að háreystið fór i vöxt, tók hann vatn og þvoði hendur sínar, svo allir sáu, og mælti: sýkn er eg af blóði þessa rèttláta manns, sjáið þèr fyrir því.
25. Þá mælti allur lýður: komi blóð hans yfir oss og börn vor.
26. ¶ Síðan gaf hann þeim Barabbas lausan, en Jesúm lèt hann húðstrýkja, og afhenti hann til að krossfestast.
27. Að svo búnu færðu stríðsmenn landstjórans Jesúm inn í höll (landstjórans), og söfnuðu að honum öllum flokknum,
28. Færðu hann af klæðum sínum og lögðu yfir hann skarlatskápu,
29. ¶ Flèttuðu kórónu af þyrnum og settu á höfuð honum, gáfu honum reyr í hægri hönd, hneigðu honum, hæddu hann og mæltu: heill vertu, Gyðínga konúngur!
30. Hræktu á hann, tóku reyrinn og hröktu um höfuð honum.
31. Þegar þeir nú þannig voru búnir að hæða Jesúm, færðu þeir hann úr kápunni og í hans eigin föt, og leiddu hann út til að krossfestast.

32. En er þeir geingu út,
fundu þeir mann, er Símon
hèt, frá Sýrene; þessum nauðg-
uðu þeir til að bera hans
kross.
33. Þegar þeir nú komu til
þess staðar, er heitir Gol-
gata, það þýðir hausaskelja-
staður,
34. ¶ Buðu þeir honum súrt
vín beiskjuborið; en er hann
hafði það smakkað, vildi hann
ekki drekka.
35. En þegar þeir höfðu
krossfest hann, skiptu þeir
með sèr klæðum hans eptir
hlutkesti,
36. Biðu svo þar og gættu
hans.
37. En yfir höfuð hans var
fest hans dauðasök, skrifuð
á þessa leið: Þessi er Jesús,
konúngur Gyðínga.
38. Með honum voru líka
krossfestir ræníngjar tveir,
annar til hægri hliðar, hinn
til vinstri.
39. ¶ En þeir, er fram hjá
geingu, atyrtu hann, skóku
höfuð sín og mæltu:
40. Þú, sem ætlaðir að niður-
brjóta musterið og byggja
það aptur á þrem dögum,
hjálpa þú nú sjálfum þèr; ef
þú ert Guðs sonur, þá stíg
niður af krossinum.
41. Líka hæddu hann hinir
æðstu prestar ásamt öldúng-
unum og hinum skriptlærðu,
og sögðu:
42. Öðrum gat hann hjálpað,
en sjálfum sèr getur hann ekki
bjargað; sè hann konúngur
Israels, þá stígi hann niður
af krossinum, þá munum vèr
trúa honum;
43. Hann treysti Guði, hjálpi
hann honum nú, ef hann hef-
ur mætur á honum, þar hann
kvaðst vera Guðs sonur.
44. Um hið sama brigzluðu
honum ræníngjarnir, sem með
honum voru krossfestir.
45. Þá kom myrkur mikið
yfir alt landið frá sjöttu til
níundu stundar;
46. Og um níundu stundu
kallaði Jesús hátt og mælti:
Elí, Elí, lama sabachtaní; það
þýðir: Guð minn, Guð minn,
því hefir þú yfirgefið mig?
47. En er nokkrir af þeim, er
við voru staddir, heyrðu þetta,
sögðu þeir, að hann kallaði á
Elías;
48. Og jafnskjótt hljóp einn
af þeim að, tók njarðarvött og
fylti með súrt vín, setti hann
ofan á reyrlegg, og gaf honum
að drekka.
49. En hinir sögðu: reyn-
um vèr, hvort Elías kemur að
hjálpa honum.
50. ¶ Þá kallaði Jesús aptur

hárri röddu, og gaf upp andann.

51. Og sjá! fortjald musterisins rifnaði í tvent, ofan frá og niður í gegnum, jörðin skalf og björgin klofnuðu,

52. Og legstaðir hinna dauðu opnuðust, og margir helgir menn risu upp, þeir er áður voru dauðir;

53. Og sem þeir voru út farnir af gröfum sínum, komu þeir, eptir hans upprisu, í borgina helgu, og urðu þar sènir af mörgum.

54. Nú er hundraðshöfðínginn og þeir, sem með honum voru, sem Jesú áttu að gæta, sáu jarðskjálftann og það sem skeði, urðu þeir næsta hræddir, og sögðu: sannarlega var þessi maður Guðs Sonur.

55. Þar voru og konur margar viðstaddar, sem horfðu á þetta áleingdar; þessar höfðu fylgzt með Jesú úr Galíleu og þjónað honum.

56. Meðal þeirra voru þær María frá Magdölum, María móðir þeirra Jakobs og Jósis, og móðir þeirra Sebedeussona.

57. Þegar kvöld var komið, kom maður sá, er Jósep hèt, frá Arímatía, auðugur að fè;

58. Þessi var og einn af lærisveinum Jesú; hann fór til Pílatusar og bað um lík Jesú. Þá skipaði Pílatus, að fá honum það.

59. Síðan tók Jósep líkið, og sveipaði það í hreinu líni,

60. Og lagði það í nýan legstað, sem hann hafði látið úthöggva í klett handa sjálfum sèr, velti síðan stórum steini fyrir grafar dyrnar og fór burt.

61. Þar var líka María frá Magdölum og hin önnur María; þær sátu gegnt gröfinni.

62.¶ Daginn eptir, sem næstur var eptir aðfángadaginn, söfnuðust hinir æðstu prestar og Farísearnir saman og komu til Pílatusar,

63. Og sögðu: oss er það í minni, herra, að meðan svikari þessi lifði, kvaðst hann mundi upp rísa innan þriggja daga.

64. Lát þú því gæta legstaðarins vandlega alt til hins þriðja dags, svo að ekki komi lærisveinar hans og steli honum, segi síðan lýðnum, að hann sè upp risinn, og verði svo seinni villan verri hinni fyrri.

65. Pílatus sagði við þá: hèr hafið þèr varðmennina; farið og gætið legstaðarins, sem þèr hafið bezt vit á.

66. Þeir fóru og innsigluðu steininn, og lètu varðmennina gæta grafarinnar.

## 28. KAPÍTULI.

*Jesús upprís og birtist kvinnunum. Varðhaldsmennirnir flýja frá gröfinni. Jesús birtist lærisveinunum í Galílea, býður þeim að skíra og kenna.*

AÐ liðnum hvíldardeginum, þegar lýsti af fyrsta degi vikunnar, komu þær María frá Magdölum og hin önnur María að sjá legstaðinn.

2. Og sjá, þá varð mikill jarðskjálfti; því eingill Drottins kom frá himni, gekk þar að, velti steininum frá dyrum legstaðarins og settist á hann;

3. Ásýnd hans var sem leiptur, og klæði hans björt, sem snjór.

4. Við þessa sýn urðu varðmennirnir svo hræddir, að þeir voru sem örendir.

5. En til kvennanna mælti eingillinn: verið óhræddar; eg veit, að þèr leitið að Jesú, hinum krossfesta;

6. Hann er ekki hèr, því hann er upp risinn, eins og hann sagði; komið, og sjáið staðinn, þar sem Herrann lá;

7. Farið svo með skyndi og segið lærisveinum hans, að hann sè upp risinn frá dauðum; og sjá, hann fer á undan yður til Galílealands; þar munuð þèr sjá hann; sjáið, eg hefi sagt yður það.

8. En þær geingu skyndilega út úr gröfinni, bæði hræddar og glaðar mjög, og hlupu til að flytja lærisveinum hans þenna boðskap;

9. ¶ Og er þær voru á leið komnar, til að segja lærisveinum hans frá þessu, kom Jesús móti þeim og sagði: sælar verið þið! En þær geingu til hans og föðmuðu fætur hans, og veittu honum lotníngu.

10. Þá sagði Jesús við þær; hræðizt ekki, farið og segið bræðrum mínum, að þeir skuli fara til Galílealands, og þar skuli þeir sjá mig.

11. ¶ Þegar þær voru burt farnar, komu nokkrir af varðmönnunum til staðarins og sögðu hinum æðstu prestum alt, sem farið hafði;

12. En þeir geingu á ráðstefnu ásamt með öldúngunum, og tóku það til ráðs, að gefa stríðsmönnunum fè mikið, og sögðu við þá:

13. Segið, að lærisveinar hans hafi komið um nótt og stolið líkinu, á meðan þèr sváfuð.

14. En ef þetta berst til eyrna landstjórans, þá skulum vèr sefa hann og gjöra yður áhyggjulausa.

15. Stríðsmennirnir tóku við

fènu, og gjörðu, sem þeim var kent. Og þessi orðrómur barst út meðal Gyðínga alt til þessa dags.
16. ¶ En þeir ellefu lærisveinar ferðuðust síðan til Galíleалands, á fjall það, er Jesús hafði boðið þeim;
17. Þar sáu þeir hann og veittu honum lotníngu, en sumir voru efablandnir.
18. Þa gekk Jesús til þeirra, talaði við þá og sagði: mèr er gefið alt vald á himni og jörðu;
19. ¶ Farið og kennið öllum þjóðum, og skírið þær í nafni Föðurs, Sonar og Heilags Anda;
20. Og bjóðið þeim að gæta als þess, er eg hefi boðið yður; og sjá, eg er með yður alla daga, alt til veraldarinnar enda.

---

# MARKÚSAR GUÐSPJALL.

## 1. KAPÍTULI.

*Verk Johannesar og Jesú.*

ÞETTA er upphaf gleðiboðskaparins Jesú Krists, Guðs Sonar.
2. Eins og skrifað er hjá spámanninum Esajas: sjá, eg sendi minn eingil undan þèr, sá er greiða skal veg þinn;
3. Það er hans rödd, sem kallar í eyðimörku: tilbúið veg Drottins, beinið brautir hans:
4. Þannig skírði Jóhannes í eyðimörku, og boðaði skírn apturhvarfsins til fyrirgefníngar syndanna.
5. Til hans komu allir Júdea og Jerúsalems íbúar, og voru þeir, sem játuðu syndir sínar, skírðir af honum í ánni Jórdan.
6. Jóhannes var klæddur úlfaldshárum og girtur leðurbelti um lendar sèr; fæða hans voru eingisprettur og skógarhunáng.
7. Hann hóf svo kenníngu sína: sá, er eptir mig kemur, er mèr meiri, og eg er ekki þess verður, að eg krjúpi niður til að leysa hans skóþveingi.
8. Eg kefi skírt yður í vatni, en hann mun skíra yður með Heilögum Anda.
9. Svo bar til um þessar mundir, að Jesús kom frá Nazaret í Galílealandi og lèt skírast af Jóhannesi í Jórdan;

10. En jafnskjótt er hann
steig upp úr vatninu, sá Jó-
hannes himininn opnast og
Andann fara niður, eins og
dúfu, yfir hann;
11. Þá heyrðist rödd af
himni: þú ert Sonur minn
elskulegur, á hverjum eg hefi
velþóknun.
12. Og undireins þar á eptir
knúði Andinn hann til að víkja
á eyðimörku,
13. Og á þessari eyðimörku
var hann í fjörutíu daga freist-
aður af Satan og meðal villu-
dýra; en einglar þjónuðu
honum.
14. En eptir að Jóhannes var
fram seldur (til lífláts), veik
Jesús í Galílealand, og flutti
þar gleðiboðskapinn um Guðs
ríki, og sagði:
15. Tíminn er kominn og
Guðs ríki er nálægt; takið
sinnaskipti og trúið evangelíó.
16. En þegar hann gekk með
sjónum í Galílea, sá hann
Símon og Andrès, bróður
hans, sem voru að leggja net
í sjóinn, því þeir voru fiski-
menn.
17. Jesús sagði við þá: fylgið
mèr eptir, og mun eg gjöra
yður að mannaveiðurum.
18. Þeir yfirgáfu jafnskjótt
netin, og fylgdu honum.
19. Þegar hann var kominn
skamt þaðan, sá hann þá Jak-
ob Sebedeusson og Jóhannes
bróður hans, sem einnig voru
á skipi að bæta net;
20. Þá kvaddi hann þegar til
fylgdar við sig. Þeir yfirgáfu
föður sinn þar á skipinu,
ásamt leiguliðunum, og fylgdu
honum.
21. Þeir komu til Kaperna-
um, og undireins gekk Jes-
ús í samkunduhús þeirra á
hvíldardegi og kendi þar.
22. En fólkið undraðist mjög
kenníngu hans, því hann kendi
þeim, eins og sá, er hefði
vald til þess (af Guði), en ekki
eins og hinir skriptlærðu.
23. Í samkunduhúsi þeirra
var maður nokkur, sem hafði
óhreinan anda; hann kallaði
og sagði:
24. Æ, hvað höfum við saman
að sælda, Jesú frá Nazaret?
Ertu kominn til að fyrirfara
oss? Eg veit, hver þú ert,
hinn Heilagi Guðs.
25. Jesús hastaði þá á hann
og mælti: þegi þú, og far út
af honum!
26. Þá hreif hinn óhreini andi
manninn, og fór út af honum
öskrandi.
27. Þetta undruðust allir, svo
þeir spurðu hver annan og
sögðu: Hvað er þetta? Hver
er þessi hin nýa kenning? því

hann skipar jafnvel óhreinum
öndum með valdi, og þeir
hlýða honum.
28. En orðrómurinn af hon-
um barst strax út um öll þau
hèröð, er lágu í grend við
Galílealand.
29. Undireins og þeir geingu
út úr samkunduhúsinu, fóru
þeir til húss Símonar og An-
drèsar, ásamt með Jakobi og
Jóhannesi;
30. Þar lá móðir konu Sím-
onar sóttveik, og jafnskjótt var
honum sagt frá henni;
31. Hann gekk þángað, tók
í hönd henni, reisti hana á
fætur, og þá hvarf þegar sótt-
veikin frá henni, og hún þjón-
aði þeim.
32. Nú er kvöld kom og sól
var runnin, færðu þeir til hans
alla veika og djöfulóða,
33. Og borgarmenn söfnuðust
allir saman að dyrum hússins;
34. En hann læknaði marga,
þá er veikir voru af ýmsum
sjúkleikum, og rak út marga
djöfla, og leyfði þeim ekki að
segja, að þeir þektu hann.
35. Að morgni fyrir dögun
fór hann á fætur, og gekk út
úr borginni í einn eyðistað, og
gjörði þar bæn sína;
36. En Símon og þeir, sem
með honum voru, eltu hann,
37. Og er þeir fundu hann,
sögðu þeir við hann: allir
leita þín.
38. Þá sagði Jesús við þá:
vèr skulum fara í nálæg þorp,
svo eg fái einnig þar kent;
því til þess er eg út farinn.
39. Og hann kendi í samkundu-
húsum þeirra um alt Galí-
lealand, og rak djöfla út.
40. Og maður nokkur líkþrár
kom til hans, fèll til fóta hans
og bað hann með svo feldum
orðum: ef þú vilt, getur þú
læknað mig.
41. Jesús kendi í brjósti um
hann, rètti út höndina, snart
hann og sagði við hann: eg
vil, vertu heill!
42. Og jafnskjótt er Jesús
mælti þetta, hvarf af honum
líkþráin, og hann varð heil-
brigður.
43. Jesús lèt hann strax frá
sèr fara, lagði ríkt á við
hann,
44. Og mælti: varastu að
segja þetta nokkrum, heldur
far og sýn þig prestinum, og
offra því fyrir lækníngu þína,
sem Móses bauð, þeim til
sannindamerkis.
45. En maðurinn fór og tal-
aði margt um þetta og bar
það út, svo Jesús mátti ekki
framar koma opinberlega í
borgina; var hann því utan
borgar í eyðistöðum, og kom

fólk þángað til hans úr öllum áttum.

## 2. KAPÍTULI.

*Jesús læknar; kallar Matteus; tekur lærisveinana í forsvar.*

NOKKRUM dögum síðar kom hann aptur inn í borgina Kapernaum; og undireins og sú fregn kom, að hann væri í husi sínu,

2. Safnaðist þángað svo mikill fjöldi fólks, að það komst hvergi fyrir, og jafnvel ekki í anddyrinu, en hann flutti þeim sína kenníngu;

3. Þá komu til hans menn nokkrir með limafallssjúkan mann, sem var borinn af fjórum;

4. Nú er þeir gátu ekki komizt til hans fyrir mannþraunginni, rifu þeir gat á þakið uppi yfir honum, og lètu sængina síga þar niður, sem hinn limafallssjúki lá í.

5. Nú er Jesús sá þeirra trú, sagði hann til hins limafallssjúka: sonur, syndir þínar eru þèr fyrirgefnar.

6. En þar sátu nokkrir af þeim skriptlærðu, og hugsuðu með sèr:

7. Því talar maður þessi slíkar guðlastanir? Hver getur fyrirgefið syndirnar, nema Guð einn?

8. Jafnskjótt fann Jesús í anda, að þeir hugsuðu þetta og sagði við þá: því hugsið þèr slíkt í yðrum hjörtum?

9. Hvort er auðveldara að segja hinum limafallssjúka: syndir þínar eru þèr fyrirgefnar, eða segja: statt upp, tak sæng þína og gakk?

10. En til þess að þèr vitið, að Mannsins Sonur hefir vald til að fyrirgefa syndir á jörðu, sagði hann hinum limafallssjúka:

11. Þá segi eg þèr, statt upp og tak sæng þína og far til húss þíns;

12. En hann stóð þegar upp, tók sængina og gekk út, svo allir sáu. Þá undruðust allir og vegsömuðu Guð, og sögðu: vèr höfum aldrei þvílíkt sèð.

13. Þar eptir gekk hann aptur út til sjáfarins, og alt fólkið kom til hans, og hann kendi þeim.

14. Og er hann gekk fram hjá, sá hann mann, er Leví hèt Alfeusson, sitjanda í tollbúðinni, og sagði við hann: fylgdu mèr; hann stóð upp og fylgdi honum.

15. En svo bar til, er Jesús sat yfir borðum í húsi hans, að margir tollheimtumenn og bersyndugir mötuðust þar ásamt Jesú og lærisveinum hans; því þeir voru margir, og í fylgd með honum;

16. En er hinir skriptlærðu og Farísearnir sáu hann eta með tollheimtumönnum og bersyndugum, sögðu þeir við lærisveina hans: hvað kemur til, að hann etur og drekkur með tollheimtumönnum og bersyndugum?

17. Þegar Jesús heyrði þetta, sagði hann við þá: ekki þurfa heilbrigðir læknis við, heldur þeir, sem sjúkir eru. Eg er ekki kominn til að kalla rèttláta, heldur synduga til lífernisbetrunar.

18. Lærisveinar Jóhannesar og Faríseanna voru vanir að fasta; þeir komu til Jesú og tóku svo til orða: því fasta lærisveinar Jóhannesar og Faríseanna, en þínir lærisveinar fasta ekki?

19. Jesús svaraði þeim: geta brúðkaupsgestirnir fastað, á meðan brúðguminn er með þeim? Svo leingi sem þeir hafa brúðgumann með sèr, geta þeir ekki fastað;

20. En sá tími mun koma, að brúðguminn verður frá þeim tekinn, og þá munu þeir fasta.

21. Einginn leggur nýa bót á gamalt fat: því annars rífur hin nýa bót hið gamla fatið, og verða þá spjöllin verri;

22. Einginn lætur heldur nýtt vín í gamla belgi; að öðrum kosti spreingir hið nýa vínið belgina og spillist, en belgirnir ónýtast; heldur á að láta nýtt vín á nýa belgi.

23. Svo bar við, að Jesús gekk yfir sáðlönd nokkur á hvíldardegi; þá tóku lærisveinar hans að tína öx á leiðinni.

24. Farísearnir sögðu þá við hann: því gjöra lærisveinar þínir það, sem ekki leyfist á hvíldardegi?

25. Hann spurði: hafið þèr aldrei lesið, hvað Davíð gjörði, þegar hann þarfnaðist og húngraði sjálfan og förunauta hans,

26. Að hann gekk inn í Guðs hús, á dögum Abíatars æðsta prests, og neytti brauðanna helgu, sem einginn mátti eta nema prestarnir, og gaf þau einnig sínum fylgdarmönnum.

27. Og enn mælti hann við þá: hvíldardagurinn er orðinn til mannsins vegna, en maðurinn ekki vegna hvíldardagsins;

28. Þess vegna er Mannsins Sonur einnig herra hvíldardagsins.

## 3. KAPÍTULI.

*Jesús læknar marga sjúka; kallar til sín þá tólf postula, talar um synd á móti Heilögum Anda; kennir, hver sé hans móðir og hverjir hans bræður.*

Í ÖÐRU sinni kom hann í samkunduhúsið, og var þar sá maður, er visna hönd hafði.

2. Þá höfðu þeir auga á honum, hvort hann mundi lækna þann mann á hvíldardegi, svo þeir gætu áklagað hann.

3. Þá sagði Jesús við manninn, er visnu höndina hafði: stattu á fætur og gakk fram.

4. Þá sagði hann við þá: hvort hæfir á hvíldardögum, að gjöra gott eður ilt, gefa líf eður svipta því? En þeir svöruðu eingu.

5. Þá litaðist hann um með reiðisvip, og varð hryggur yfir harðúð hjartna þeirra; síðan segir hann við manninn: rèttu fram hönd þína. Hann gjörði það, og varð hún þá heil.

6. Þá geingu Faríséar út, og báru þegar saman ráð sín á móti honum, við menn Heródesar konúngs, hvernig þeir feingi hann af dögum ráðinn.

7. Jesús fór þá ásamt lærisveinum sínum til sjóar, og fylgdi honum þá margt fólk úr Galílealandi og Júdalandi,

8. Úr Jerúsalem, úr Ídúmea og úr hèruðum hinumegin Jórdanar; líka kom margt fólk til hans, er bjó í grend við Týrus og Sídon, sem heyrt hafði um hans kraptaverk.

9. Þá bauð hann lærisveinum sínum að hafa sèr skip búið, svo fólksfjöldinn skyldi ekki þraungva honum;

10. Því sökum þess að hann læknaði marga, þá flyktust að honum allir þeir, er sjúkir voru, svo þeir næðu að snerta hann;

11. Líka fèllu þeir, er haldnir voru af óhreinum öndum, fram fyrir honum, undir eins og þeir sáu hann, æptu og sögðu: þú ert Sonur Guðs;

12. En hann bannaði þeim harðlega að segja frá, hver hann væri.

13. Síðan fór hann upp á eitt fjall, og kallaði til sín þá, er hann sjálfur vildi, og komu þeir til hans.

14. Þá tilsetti hann tólf, er vera skyldu með honum, og til að senda þá frá sèr til að flytja hans kenníngu;

15. Og hafa vald til að lækna sjúkdóma og reka djöfla út.

16. Þessir voru: Símon, sem hann kallaði Pètur;

17. Þeir bræður; Jakob og Jóhannes, synir Sebedeusar, þá kallaði hann Boanerges, það er, þrumusyni;

18. Andrès og Filippus og Bartólómeus og Matteus og Tómás og Jakob Alfeusson og Taddeus og Símon vandlætari,

19. Og Júdas Iskaríot, sem sveik hann.

20. Þegar þeir voru komnir til herbergis, þá safnaðist þángað að nýu svo mikill fjöldi fólks, að þeir gátu ekki feingið sèr matar.

21. Og sem náúngar hans heyrðu það, fóru þeir og vildu ná honum út, því þeir sögðu hann væri frá sèr.

22. ¶ En hinir skriptlærðu, er komnir voru ofan frá Jerúsalem, sögðu: hann hefur Belsebub og rekur djöfla út með fulltíngi djöflahöfðíngjans.

23. Jesús kallaði þá til sín, og talaði til þeirra í eptirlíkíngum: hverninn getur Satan rekið Satan út?

24. Og ef eitthvert ríki er sjálfu sèr sundurþykt, þá fær það ekki staðizt;

25. Og ef eitthvert heimili er sjálfu sèr sundurþykt, þá fær það ekki staðizt;

26. Ef nú Satan er upp á móti sjálfum sèr, og er við sjálfan sig ósamþykkur, fær hann ekki staðizt, heldur er útgjört um hann.

27. Einginn getur brotizt inn í hús ens sterka og rænt faungum hans, nema hann taki áður hinn sterka til banda; þá fyrst getur hann rænt hús hans.

28. Sannlega segi eg yður, að als konar syndir, og jafnvel guðlastanir, geta mönnunum fyrirgefizt;

29. En sá, sem talar lastmæli gegn Heilögum Anda, mun eigi að eilífu fá synda fyrirgefníngu, heldur er hann sekur eilífs dómsáfellis.

30. (Því þeir höfðu sagt, að óhreinn andi væri í honum).

31. ¶ Nú kom móðir hans og bræður, stóðu fyrir dyrum úti og sendu honum orð að koma.

32. En fólkið sat alt í kríng um hann; þá var sagt við hann: móðir þín og bræður þínir standa úti og spyrja að þèr;

33. Þá svaraði hann þeim: hver er móðir mín eður bræður mínir?

34. Og sem hann hafði rent augunum yfir þá, er í kríngum hann sátu, sagði hann: sjá, þar er mín móðir og mínir bræður;

35. Því hver sem gjörir Guðs vilja, hann er minn bróðir, mín systir og móðir.

## 4. KAPÍTULI.

*Jesús kennir í eptirlíkíngum; lætur sjóinn verða kyrran.*

OG hann tók aptur til að kenna við sjóinn, dreif þá til hans svo mikill fjöldi fólks, að hann hlaut að stíga á skip og

setjast þar, en múgurinn allur var á landi fram við sjóinn;

2. Þá kendi hann þeim margt í dæmisögum, og sagði við þá í sinni kenníngu:

3. Veitið eptirtekt! Sjá, maður nokkur fór að sá;

4. En það vildi svo til, þá hann var að sá, að sumt sæðið fèll við veginn, og fuglar komu og átu það;

5. En sumt fèll í grýtta jörð, þar sem það hafði lítinn jarðveg; það óx að sönnu skjótt, því það hafði lítinn jarðveg;

6. En er sólin hækkaði á lopti, skrælnaði það og visnaði, sökum þess, það hafði ekki nógar rætur;

7. Og sumt fèll meðal þyrna, en þyrnarnir uxu upp og kæfðu það, svo það bar eingan ávöxt.

8. En sumt fèll í góða jörð, það spratt, óx og bar ávöxt, sumt þrítugfaldan, sumt sextugfaldan og sumt hundraðfaldan.

9. Og hann sagði við þá: hver sem hefir eyru til að heyra, sá heyri.

10. Síðar, er hann var einn saman, spurðu þeir, sem með honum voru, ásamt þeim tólf, um það, hvað þessi dæmisaga ætti að þýða.

11. Jesús mælti: yður er unt að skilja leyndardóma Guðs ríkis, hinum út í frá verður alt að kenna í dæmisögum;

12. Svo að þeir sjáandi sjái, en skynji þó ekki, og heyrandi heyri, en skilji þó ekki; svo að þeir snúi sèr ekki og fái fyrirgefníng synda sinna.

13. Síðan sagði hann við þá: ef þèr skiljið ekki þessa dæmisögu, hvernig getið þèr þá allar dæmisögur skilið?

14. ¶ Sáðmaðurinn þýðir þann, sem orðinu sáir;

15. Sæðið, sem við veginn var sáð, merkir þá, sem orðið er sáð hjá, og nær þeir hafa heyrt það, kemur Satan jafnskjótt og tekur orðið, sem sáð var, burt úr hjörtum þeirra.

16. Eins merkir sæðið, sem fèll í grýtta jörð, þá, sem heyra orðið og veita því jafnskjótt viðtöku með fögnuði;

17. En hafa ekki rót í sèr, heldur eru óstöðugir; en síðan hneykslast þeir undireins og armæða eða ofsóknir bera að höndum fyrir orðsins sakir.

18. Sæðið, sem sáð var meðal þyrna, merkir þá, er að sönnu heyra orðið,

19. En áhyggjur þessa heims, táldrægni auðæfanna og girndir til annara hluta koma til

og kefja orðið, svo það verður ávaxtarlaust.
20. En sæðið, er fèll í góða jörð, þýðir þá, er heyra orðið og bera ávöxt, sumir þrítugfaldan, sumir sextugfaldan og sumir hundraðfaldan.
21. ¶ Síðan sagði hann við þá: Bera menn ljós inn til að setja það undir ílát eður bekk? Er ekki heldur siður að setja það í ljósastiku?
22. Því ekkert er svo hulið, að það verði ekki opinbert, og ekkert svo fólgið, að það verði ekki augljóst.
23. Hver sem hefir eyru til að heyra, sá heyri!
24. Enn framar sagði hann við þá: gefið gaum að því, sem þèr heyrið; með þeim sama mæli, sem þèr mælið, mun yður mælt verða, og við yður, sem takið eptir, mun bætt verða;
25. Því þeim, sem hefir, mun veitast, en frá hinum, sem ekki hefir, mun tekið verða, jafnvel það hann hefir.
26. ¶ Síðan sagði hann: Eins er því varið með Guðs ríki, eins og þegar einhver kastar sæði í jörð;
27. Hann sefur um nætur, en vakir um daga, en sæðið vex og dafnar, án þess hann viti það;
28. Því jörðin ber sjálfkrafa ávöxt, fyrst kornstaungina, síðan axið, og seinast fullvaxið korn í axinu;
29. En nær ávöxturinn er fullvaxinn, lætur hann slá kornið, því þá er kornskurðartíminn fyrir hendi.
30. ¶ Enn sagði hann: við hvað á eg að jafna Guðs ríki? Eður hverja eptirlíkíngu á eg að hafa, til að leiða yður það fyrir sjónir?
31. Líkt er það mustarðskorni: nær því er sáð, er það hið minnsta allra frækorna;
32. Síðan vex það, og verður hverju kálgresi meira, og fær stórar greinir, svo fuglar himins geta leitað sèr skjóls í skugga þess.
33. Í mörgum þess konar eptirlíkíngum flutti hann þeim orðið, eins og bezt átti við þeirra skilníng;
34. En án eptirlíkínga kendi hann þeim ekki. Síðan, þegar hann var einn saman, lagði hann alt út fyrir lærisveinum sínum.
35. Að kvöldi sama dags sagði hann við lærisveina sína: förum yfir um sjóinn.
36. Þeir skildu við fólkið, og fóru með hann með sèr á skipinu, eins og hann stóð, en önnur skip fylgdust með honum.

37. Þá gjörði veður mikið,
svo bylgjurnar fèllu yfir skip-
ið, svo að lá við, að fylti;
38. En hann svaf á kodda í
skutnum. Þeir fóru þá og
vöktu hann og sögðu: Meist-
ari, hirðir þú ekki um það, að
vèr tortýnumst?
39. Hann reis þá upp, hastaði
á vindinn og sagði við sjóinn:
þegi þú og vertu kyr! Þá
lægði veðrið, og varð blíða
logn.
40. Síðan sagði hann við þá:
því eruð þèr svo huglausir,
hverju gegnir yðar vantraust?
41. En þeir urðu næsta
hræddir, og sögðu hver við
annan: hvílíkur er þessi, að
bæði veður og sjór hlýða
honum?

## 5. KAPÍTULI.

*Jesús rekur djöful út. Læknar sjúka.*

ÞEIR komu yfir um sjóinn
í hèrað þeirra Gadara-
manna;
2. Og jafnskjótt sem hann var
stiginn af skipi, hljóp móti
honum úr gröfum framlið-
inna maður nokkur, kvalinn
af óhreinum anda;
3. Hann hafði aðsetur sitt í
gröfum dauðra manna, og var
svo óður, að ekki tjáði að
setja hann í fjötur;
4. Því opt hafði hann verið
bundinn með fjötrum og
hlekkjum, en hann sleit af sèr
hlekkina og braut fjötrin, og
einginn gat ráðið við hann;
5. Um allar nætur og daga
var hann á fjöllum, og í gröf-
um dauðra manna, hrein og
lamdi sjálfan sig með grjóti.
6. Nú er hann sá Jesúm á-
leingdar, hljóp hann þángað,
fèll fram fyrir honum, kallaði
hátt og mælti:
7. Hvað hefi eg með þig að
gjöra, Jesús, Sonur Guðs ens
hæsta? Eg særi þig við Guð,
að þú kveljir mig ekki.
8. (Því Jesús hafði skipað
hinum óhreina anda að fara
út af honum.)
9. Þá spurði Jesús hann að
nafni, en hann segir: Legíó
heiti eg; því vèr erum margir.
10. Þá bað hann Jesúm inni-
lega, að hann ræki þá ekki
burt úr því hèraði.
11. En þar var við fjallið stór
svínahjörð á beit;
12. Þá báðu djöflarnir hann,
að hann vildi leyfa þeim að
fara í svínin.
13. Jesús leyfði þeim þetta
þegar, og fóru hinir óhreinu
andar í svínin, og öll hjörðin
hljóp fyrir björg ofan í sjóinn,
og kafnaði þar; var það hèr
um tvö þúsund svína;
14. En þeir, er gættu þeirra,

flýðu, og sögðu frá þessu bæði
í borginni og á landsbygðinni.
15. Þá fóru menn að sjá,
hvað skeð hafði, komu til
Jesú, og sáu þar þann djöful-
óða sitjanda, klæddan og heil-
vita, þann, er djöflasægurinn
hafði í verið.
16. Við þetta urðu þeir
hræddir, en þeir, sem við
höfðu verið, sögðu þeim,
hvernig farið hefði bæði fyrir
þeim óða og svínunum.
17. Þá báðu þeir hann, að
hann færi úr þeirra hèröðum.
18. Nú er hann steig á skip,
beiddi sá, sem óður hafði
verið, hann leyfis að fara með
honum;
19. Þessa synjaði Jesús hon-
um, og sagði: far þú heim til
þín og þinna, og skýr þeim
frá, hvað mikið gott Drottinn
hefir veitt þèr, og hversu hann
hefir miskunað þèr.
20. Hann fór og bar það út
í Dekapólis, hversu vel Jesús
hefði gjört til sín, og undruð-
ust það allir.
21. Þegar Jesús var kominn
yfir um á skipinu aptur, safn-
aðist að honum mikill mann-
fjöldi; var hann þá staddur
við sjóinn.
22. Þángað kom til hans einn
af samkunduhöfðíngjunum, er
hét Jaírus, og þegar hann sá
Jesúm, fèll hann til fóta
honum,
23. Og bað hann mjög inni-
lega og sagði: dóttir mín er
að fram komin; kom og legg
hendur þínar yfir hana, svo
henni batni; þá mun hún lifa.
24. Jesús fór með honum;
honum fylgdi múgur manns,
er þreyngdi sèr að honum.
25. Þar var kona nokkur, sem
um tólf ár hafði verið sjúk af
blóðláti;
26. Hún hafði mikið þolað af
mörgum læknum, og varið til
þess aleigu sinni, og þó ekki
batnað, heldur varð henni æ
þýngra.
27. Hún hafði heyrt af Jesú,
kom í mannþraunginni að
baki honum, og snart klæði
hans;
28. Því hún sagði: geti eg
aðeins snert klæði hans, mun
mèr batna.
29. Og jafnskjótt stöðvaðist
blóðlát hennar, og hún fann
á sèr, að hún var heil orðin
meina sinna.
30. Undireins fann Jesús á
sèr, að kraptur var út af hon-
um geinginn, snèrist við í
mannþraunginni, og spurði,
hver hefur snert klæði mín?
31. Þá tóku lærisveinar hans
til orða: þú sèr, að mann-
fjöldinn þreyngir að þèr, og

þó spyr þú, hver hafi snortið þig.

32. Þá skygndist Jesús um eptir þeirri, sem þetta hafði gjört;

33. En hún var hrædd og skjálfandi, því hún vissi, hvað við sig hafði fram farið, kom og fèll fram fyrir hann, og sagði alt hið sanna.

34. En hann sagði við hana: dóttir, þín trú hefir hjálpað þèr; far í friði, og vert heil sjúkleika þíns.

35. En er hann var þetta að mæla, komu menn frá heimili samkunduhöfðíngjans, er sögðu: dóttir þín er látin; því viltu ómaka framar meistarann?

36. Undireins og Jesús heyrði þessa fregn, mælti hann við samkunduhöfðíngjann: vertu óhræddur, trú þú einúngis.

37. Og nú leyfði hann eingum að fylgja sèr, nema Pètri, Jakobi og Jóhannesi, bróður Jakobs.

38. Þegar hann kom í hús samkunduhöfðíngjans, og sá þar ys mikinn, og þá, er grètu og æptu mjög,

39. Gekk hann inn og sagði við þá: Því æðrist þèr og grátið? mærin er ekki dauð, heldur sefur hún;

40. En þeir hlógu að honum. Síðan bauð hann öllum að fara út og tók með sèr föður og móður stúlkunnar, og þá, sem með honum voru, og gekk inn, þángað sem barnið var,

41. Tók í hönd þess og mælti: Talita kúmí; það þýðir: stúlka, eg skipa þèr, rís þú upp.

42. Og jafnskjótt reis stúlkan upp, og tók að gánga; en hún var tólf ára að aldri.

43. Þá undruðust þeir næsta; en hann bannaði þeim alvarlega að láta nokkurn fá þetta að vita, og bauð að gefa henni mat.

## 6. KAPÍTULI.

*Jesús er fyrirlitinn; útsendir postula; nokkrir ætla hann sè Jóhannes; seður 5000 manns; geingur á sjónum; læknar.*

ÞAÐAN fór hann til ættjarðar sinnar, og lærisveinar hans voru í fylgd með honum;

2. Og þegar hvíldardagurinn kom tók hann til að kenna í samkunduhúsinu, og undruðust margir, sem það heyrðu, og mæltu: Hvaðan hefir þessi maður numið þetta? og hvílíka vizku hefir hann öðlazt, og hvílík eru þau kraptaverk, er hann gjörir?

3. Er hann ekki smiðurinn, sonur Maríu, og bróðir þeirra Jakobs og Jóses, Júdasar og Símonar? og eru ekki systur

hans hèr með oss? Og þeir
hneyksluðust á honum.
4. En Jesús mælti við þá: ekki
er spámaður óvirtur nema á
fósturjörðu sinni og meðal
ættmanna sinna og heima;
5. Og hann gat ekkert krapta-
verk gjört þar, að undanteknu
því, að hann lagði hendur yfir
fáeina sjúka og læknaði þá,
og furðaði hann sig á vantrú
þeirra,
6. Og fór um þorpin þar í
kríng og kendi.
7. ¶ Og hann kallaði þá tólf
til sín, og sendi þá frá sèr tvo
og tvo saman, og gaf þeim
vald yfir óhreinum öndum;
8. Til ferðarinnar bannaði
hann þeim að taka nokkuð
með sèr, nema einúngis staf,
en hvorki nestismal, brauð
eður fè í beltum sínum,
9. En þeir skyldu hafa skó á
fótum; ekki skyldu þeir held-
ur klæðast tvennum kyrtlum;
10. Og enn framar sagði hann
við þá: haldið kyrru fyrir í
hverju því húsi, er þèr takið
yður gistíngu, þar til þèr farið
úr því þorpi;
11. En ef einhverjir vilja ekki
veita yður viðtöku eður heyra
yður, þá farið þaðan og hristið
dupt af fótum yðar til vitnis
gegn þeim.
12. Þeir fóru og prèdikuðu,
að menn skyldu taka sinna-
skipti,
13. Ráku marga djöfla út,
og smurðu marga sjúka með
viðsmjöri, og læknuðu þá.
14. Þetta heyrði Heródes
konúngur (því miklar sögur
geingu nú af Jesú); þá sagði
hann: Jóhannes skírari er
risinn upp frá dauðum, og
því gjörast slík kraptaverk af
honum.
15. Sumir sögðu, hann væri
Elías; aðrir, að hann væri
spámaður, eins og einn af
spámönnunum.
16. En er Heródes heyrði
þetta, mælti hann: Jóhannes,
sem eg hefi látið hálshöggva,
er nú risinn upp frá dauðum.
17. Því áður hafði Heródes
látið höndla Jóhannes og setja
í myrkvastofu vegna Heró-
díadis, konu Filippusar bróður
hans, sem Heródes nú hafði
geingið að eiga;
18. Því Jóhannes hafði sagt
við Heródes: þú mátt ekki
eiga bróðurkonu þína.
19. Vegna þessa var Heró-
díadi illa til Jóhannesar og
vildi ráða honum bana, en gat
það ekki,
20. Því Heródes hafði beig
af Jóhannesi, þar hann vissi,
að hann var rèttlátur og helg-
ur maður, og verndaði hann,

og gjörði margt að hans ráð-
um, og heyrði hann gjarna.
21. En sem hentugur dagur
kom, þá Heródes gjörði veizlu
á sínum afmælisdegi fyrir gæð-
íngum sínum, hershöfðíngjum
og enum helztu mönnum í
Galílea,
22. Kom inn dóttir Heró-
díadis og dansaði, svo Heró-
desi og þeim, sem boðnir voru,
líkaði það vel. Þá sagði kon-
úngurinn við skúlkuna: bið
mig, hvers þú vilt, og mun eg
veita þèr.
23. Og lofaði henni með eiði:
hvers þú beiðist af mèr, þá
mun eg veita þèr, alt að helm-
íngi ríkis míns;
24. En hún gekk út, og spurði
móður sína: um hvað skal eg
biðja?
25. Hún mælti: um höfuð
Jóhannesar skírara. Hún kom
inn aptur með skyndi til kon-
úngsins, og mælti: eg vil, að
þú gefir mèr þegar höfuð Jó-
hannesar skírara á diski.
26. Við þetta varð konúngur-
inn næsta hryggur, en sökum
eiðs þess, er hann hafði unnið,
og boðsmanna sinna, vildi hann
ekki synja henni þess;
27. Sendi þá konúngurinn
jafnskjótt einn varðmanna
sinna og skipaði að færa sèr
höfuð Jóhannesar;
28. En hann fór og hjó hann
í myrkvastofunni, kom með
höfuðið á fati og færði mey-
unni, en hún bar það til móður
sinnar.
29. En er lærisveinar hans
heyrðu þetta, komu þeir, tóku
lík hans og lögðu það í gröf.
30. Postularnir komu aptur
til Jesú, og sögðu honum frá
öllu því, sem þeir höfðu gjört
og kent;
31. Þá sagði Jesús við þá:
farið með mèr einir saman á
afvikinn stað, og hvílizt þar
um stund, því svo margir voru
komandi og farandi, að þeir
höfðu ekki matfrið.
32. Síðan fóru þeir einir sèr
á skipi til óbygða,
33. En menn sáu, þegar þeir
fóru burt, og margir þektu
þá; hlupu menn því saman
þángað á fæti úr öllum borg-
um, og komu þeir á undan
þeim og fundu hann.
34. Og er hann steig af skipi,
sá hann þar mikinn mann-
fjölda, og kendi í brjósti um
þá, því þeir voru sem sauðir
án hirðis, og prèdikaði hann
fyrir þeim um marga hluti.
35. En er mjög var álíðið
dags, komu lærisveinar hans
til hans og sögðu: vèr erum
hèr í eyðistað, og framorðið er
dags,

36. Lát þá frá þèr, svo þeir geti farið í bygðina og þorpin hèr um kríng og keypt sèr vistir, því þeir hafa als ekkert til matar.
37. En Jesús svaraði og sagði við þá: gefið þèr þeim að eta. Þeir sögðu við hann: eigum vèr að fara og kaupa þeim mat fyrir 200 penínga, og gefa þeim að eta?
38. Jesús mælti þá: hve mörg brauð hafið þèr? Farið og gætið að því. Þeir gjörðu svo, og sögðust hafa fimm brauð og tvo fiska.
39. Þá bauð hann þeim að láta fólkið setjast niður hópum saman í grænu grasi;
40. Og það settist niður í flokkum og voru hundrað í sumum, en fimmtygir í sumum.
41. Þá tók Jesús þau fimm brauðin og þá tvo fiska, leit til himins, gjörði Guði þakkir, braut brauðin, og fèkk þau lærisveinum sínum, svo að þeir legðu þau fyrir fólkið; og einnig skipti hann þeim tveimur fiskum meðal allra;
42. En þeir neyttu allir, og urðu saddir.
43. Síðan tóku þeir upp molana, og urðu það tólf karfir fullar, og einnig fiskleifarnar;
44. En þeir, sem neytt höfðu matarins, voru að tölu fimm þúsundir manna.
45. Og jafnskjótt bauð hann lærisveinum sínum að stíga á skip og fara undan sèr yfir um til Betsaída, meðan hann skildi fólkið við sig.
46. En er hann hafði látið fólkið frá sèr, fór hann upp á fjallið að biðjast fyrir;
47. Og er kvöld var komið, var skipið á miðju vatninu, en hann einn á landi;
48. Sá þá Jesús, að róðurinn gekk þeim mjög örðugt, því andviðri var á. En nær fjórðúngur lifði nætur, kom hann til þeirra, og gekk á sjónum, og lèt, sem hann ætlaði að gánga fram hjá þeim.
49. En er þeir sáu hann gánga á sjónum, hèldu þeir, að það mundi vera vofa, og æptu upp yfir sig;
50. Því allir sáu þeir hann, og urðu felmtursfullir. Hann varpaði þá jafnskjótt orðum á þá, og mælti: verið hughraustir, eg er það, óttizt ekki.
51. Síðan fór hann upp í skipið til þeirra; lægði þá veðrið. Og þeir urðu mjög frá sèr numdir og undruðust;
52. Því þeir höfðu ekki orðið hyggnari við brauða táknið,

þar eð hjarta þeirra var svo blindað.

53. Síðan fóru þeir yfir um og lentu við Genezaret.

54. Og er þeir stigu af skipi, þekti fólkið hann þegar,

55. Og hljóp um alt það bygðarlag, og tóku að færa sjúka í burðarrekkjum, þángað sem þeir heyrðu hann væri;

56. Og hvar sem hann fór inn í þorp, borgir eður bæi, þá lögðu þeir vanheila menn á torgin, og báðu hann, að þeim mætti leyfast að snerta einúngis klæðafald hans; því þeir, sem snertu hann, urðu heilbrigðir.

## 7. KAPÍTULI.

*Jesús tekur í forsvar lærisveina sína, útrekur djöful; læknar daufan og málhaltan.*

ÞÁ komu til hans Farísear og nokkrir skriptlærðir menn, er komnir voru frá Jerúsalem;

2. Og er þeir sáu, að nokkrir af lærisveinum hans neyttu matar með vanhelgum höndum, það er: óþvegnum

3. (Því Farísear og Gyðíngar yfir höfuð eta ekki, nema þeir áður taki handlaugar, og fylgja þeir í þessu tilskipunum öldúnganna; ekki heldur eta þeir matvæli, sem á torgi eru keypt, nema þeim sè áður dýft í vatn;

4. Og margt annað er það, er þeir hafa undirgeingizt að gæta, svo sem er þvottur á drykkjarkerum, könnum, eirkerum og borðbekkjum):

5. Þá spurðu Farísear og hinir skriptlærðu hann: því fylgja lærisveinar þínir ekki tilskipunum hinna gömlu, heldur matast með óhreinum höndum?

6. En Jesús svaraði þeim og sagði: heppilega hefir Esajas spáð um yður, þèr hræsnarar! eins og skrifað er: lýður þessi heiðrar mig með vörunum, en hjörtu þeirra eru lángt frá mèr;

7. Þeir dýrka mig til einskis, er þeir kenna það, sem eru manna tilskipanir.

8. Þèr skeytið ekki boðum Guðs, en haldið fast við manna tilskipanir, svo sem er þvottur á könnum og drykkjukerum, og margt fleira þess háttar gjörið þèr.

9. Enn framar sagði hann: dáfallega tekst yður að ónýta Guðs boð, svo þèr getið fylgt yðar eigin setníngum!

10. Því Móses hefir sagt: heiðra föður þinn og móður, og hver sem formælir föður eður móður, skal dauða deya;

11. Þar á mót segið þèr: ef einhver segir við föður eður

móður: eigur þær, sem eg gæti
hjálpað þèr með, eru heitfè,
12. Þá leyfið þèr honum ekki
að gjöra foreldrum sínum
nokkuð gott framar af þeim,
13. Og ónýtið þannig Guðs
lög með yðar eigin tilskipun-
um, þeim er þèr sjálfir hafið
til sett; og margt annað gjörið
þèr þessu líkt.
14. ¶ Síðan kallaði hann sam-
an allan lýðinn, og tók svo til
máls: hlýðið mèr allir, og veit-
ið eptirtekt!
15. Ekkert er það fyrir utan
manninn, sem inn í hann fer,
er geti saurgað hann, heldur
það, sem út fer af manninum,
það er það, sem saurgar hann.
16. Hver sem hefir eyru að
heyra, hann heyri!
17. En er hann var kominn
inn frá fólkinu, spurðu læri-
sveinarnir hann um þýðíngu
þessarar dæmisögu.
18. Jesús mælti: eruð þèr
einnig svo skilníngslausir?
Skynjið þèr ekki, að ekkert af
því, sem utan frá kemur inn í
manninn, getur saurgað hann;
19. Því ekki fer það inn í
hjarta hans, heldur í magann,
hvaðan það fer eptir eðlilegri
rás, sèm hreinsar fæðuna.
20. Þar á mót, sagði hann,
það sem út fer af manninum,
saurgar hann;
21. Því að innan frá hugskoti
mannsins koma illar hugrenn-
íngar, hór, frillulífi, manndráp,
22. Þjófnaður, ágirnd, ill-
mennska, hrekkvísi, óstjórn-
legt líferni, öfund, lastmæli,
drambsemi, heimska;
23. Allir þessir vondu hlutir
koma að innan og saurga
manninn.
24. ¶ Hèðan fór hann, þar til
er skilur land Týrus og Sí-
donar, og gekk þar inn í hús
nokkurt, og vildi, að einginn
skyldi verða var við, en gat
þó ekki dulizt,
25. Því kona nokkur, sem
hafði frètt til hans og átti dótt-
ur, sem kvalin var af óhreinum
anda, kom og fèll honum til
fóta;
26. Hún var heiðin, sýrlenzk
að ætt, úr Fenisía. Þessi kona
beiddi hann að reka djöfulinn
út frá dóttur sinni.
27. En Jesús sagði við hana:
lofaðu börnunum að seðjast
fyrst, því ekki sæmir að taka
brauðið frá þeim og kasta því
fyrir hvolpa.
28. Satt er það, herra, sagði
hún: þó eta hvolparnir sem
eru undir borðunum, af mol-
um barnanna.
29. Hann mælti: sökum þessa
svars, þá far þú heim, djöfull-
inn er út farinn af dóttur þinni.

30. Og er hún kom heim,
fann hún, að djöfullinn var út
farinn, en dóttir hennar lá í
rekkju.
31. ¶ Frá landamerkjum Tý-
rus og Sídonar fór hann apt-
ur til sjáfarins í Galílea, yfir
Dekapólis land;
32. Hèr færðu þeir honum
mann daufan og málhaltan;
þeir báðu hann að leggja
hendur yfir hann.
33. Jesús veik honum til síðu
frá fjölmenninu, stakk fíngrum
sínum í eyru honum, hrækti
frá sèr, og hrærði við túngu
hans,
34. Leit upp til himins, and-
varpaði og sagði við hann:
Effata! það þýðir: opna þú þig!
35. Og jafnskjótt opnuðust
hans hlustir, og hapt hans
túngu losnaði, og hann talaði
skírt.
36. Frá þessu bannaði hann
að segja nokkrum; en því
meir sem hann bannaði þetta,
því framar víðfrægðu þeir það,
37. Og sögðu næsta undrun-
arfullir: alt gjörði hann dá-
samlega, því heyrnarlausum
gefur hann heyrn og mállaus-
um mál.

## 8. KAPÍTULI.

*Jesús mettar 4000 manna; talar um súrdeig Heródesar og Faríseanna; gefur blindum sýn. Meðkenning lærisveinanna um Jesús.*

UM þessar mundir bar enn
svo við, að mikill fólks-
fjöldi var hjá honum, og hafði
ekkert til matar. Þá kallaði
Jesús á lærisveina sína og
sagði við þá:
2. Eg aumkast yfir fólk þetta,
það hefir nú hjá mèr verið í þrjá
daga og ekkert til matar haft;
3. En ef eg læt þá fara frá
mèr fastandi til heimila sinna,
verða þeir magnþrota á veg-
inum; því sumir af þeim voru
lángt að komnir.
4. Þá svöruðu lærisveinar
hans: hvaðan ætti að taka
brauð til að seðja þá hèr á
eyðimörku?
5. Hann spurði þá, hversu
mörg brauð hafið þèr? Þeir
sögðu: sjö.
6. Síðan bauð hann fólkinu
að setjast niður á jörðina, tók
þau sjö brauð, gjörði Guði
þakkir, braut þau og fèkk þau
síðan lærisveinum sínum, svo
að þeir legðu þau fyrir fólkið.
Þeir gjörðu, sem þeim var
boðið.
7. Líka höfðu þeir fáeina
smáfiska; hann þakkaði einn-
ig Guði fyrir þá, og bauð, að
þá skyldi einnig fram bera;
en þeir neyttu og urðu mettir.
8. Síðan söfnuðu þeir matar-
leifunum, og voru það sjö
karfir;

9. En þeir, sem neytt höfðu, voru hèr um fjögur þúsund; og að því búnu lèt hann þá frá sèr fara.

10. ¶ Undireins eptir þetta fór hann á skipi með lærisveinum sínum, og kom í hèraðið við Dalmanúta.

11. Hèr komu Farísear og tóku að hefja við hann spurníngar, og kröfðust teikns af himni, til að reyna hann;

12. Andvarpaði hann þá þúngan og mælti: hversvegna beiðist þjóð þessi teikns? sannlega segi eg yður, henni skal ekki teikn gefast.

13. Síðan skildist hann við þá, steig aptur á skip og fór yfir um.

14. ¶ Þeim hafði gleymzt að taka með sèr brauð, svo þeir höfðu ekki nema eitt á skipinu.

15. Þá bauð Jesús þeim og sagði: varizt súrdeig þeirra Farísea og Heródesar.

16. Þá sögðu þeir sín á milli, að Jesús mundi segja þetta sökum þess þeir höfðu ekki brauð;

17. En er hann varð þess vís, mælti hann: því fáizt þèr um það, að þèr ekki tókuð brauð með? skynjið þèr enn ekki nè skiljið? er hjarta yðar ennþá sljóft?

18. Sjáið þèr ekki með berum augum? heyrið þèr ekki með opnum eyrum?

19. Eða munið þèr ekki, þegar eg skipti þeim fimm brauðum meðal fimm þúsunda? hversu margar karfir með matarleifar hirtuð þèr þá?

20. Þeir svöruðu: tólf. Eður þegar eg skipti þeim sjö brauðum meðal fjögra þúsunda, hversu margar karfir fullar höfðuð þèr þá afgángs?

21. Þeir sögðu: sjö. Þá mælti hann: hvers vegna getið þèr þá ekki þetta skilið?

22. ¶ Og hann kom til Betsaida borgar; hèr færðu þeir til hans blindan mann, og báðu, að hann snerti hann.

23. Jesús tók í hönd honum, og leiddi hann út fyrir borgina, hrækti í augu hans, lagði hendur yfir hann, og spurði hann, hvert hann sæi nokkuð.

24. Hann leit upp og mælti: eg sè mennina gánga, eins og eg sæi trè.

25. Í annað sinn fór Jesús höndum um augu hans, og bað hann líta upp, var hann þá orðinn heilskygn, og sá alla glögt.

26. Jesús bauð honum að fara heim til sín, en ekki inn

í borgina, ekki heldur segja
nokkrum í þorpinu frá þessu.
27. ¶ Hèðan fór Jesús og
hans lærisveinar í þau þorp,
er liggja, í grend við borgina
Sesarea, sem kend er við Fil-
ippus. Á leiðinni sagði hann
við lærisveina sína: hver segja
menn, að eg sè?
28. Þeir sögðu: sumir segja,
að þú sèrt Jóhannes skírari;
aðrir, að þú sèrt Elías; en
aðrir, að þú sèrt einn af spá-
mönnunum.
29. Þá mælti hann: en hver
haldið þèr eg sè? Þá svaraði
Pètur og sagði við hann: þú
ert Kristur;
30. En hann bannaði þeim að
segja nokkrum frá því.
31. Eptir það tók Jesús að
segja þeim frá, að Mannsins
Syni bæri margt að líða, út-
skúfast af öldúngunum, enum
æðstu prestum og skriptlærð-
um; líka líflátinn að verða,
en rísa upp eptir þrjá daga.
32. Þetta sagði hann þeim
með berum orðum. Þá tók
Pètur hann afsíðis, og fór að
átelja hann;
33. En hann snèrist við, leit
til lærisveina sinna, og ávítaði
Pètur og sagði: far þú frá
mèr, Satan, því þú skynjar
ekki það, sem Guðs er, heldur
það, sem manna er.
34. ¶ Og hann kallaði á fólkið
og lærisveina sína, og sagði:
hver sem vill fylgja mèr, af-
neiti sjálfum sèr, taki sinn
kross, og fylgi mèr eptir;
35. Því hver, sem hyggst að
forða lífi sínu, mun því týna;
en hver sem týnir því fyrir
mínar og náðarboðskaparins
sakir, mun fá því borgið;
36. Því að hverju gagni kæmi
það, manninum, þó hann eign-
aðist allan heiminn, ef hann
liði tjón á sálu sinni?
37. Eða hvað getur maðurinn
gefið til lausnar sálu sinni?
38. Því hver sem skammast
sín fyrir mig og mín orð hjá
þessari hórsömu og syndugu
kynslóð, fyrir hann mun og
Mannsins Sonur skammast sín,
þegar hann kemur með heil-
ögum einglum í dýrð föður
síns.
39. Enn framar sagði hann:
sannlega segi eg yður, að
hèr eru nú viðstaddir nokkrir
þeir, sem ekki munu dauðann
smakka fyrr en þeir sjá Guðs
ríki koma með krapti.

## 9. KAPÍTULI.

*Jesús ummyndast á fjallinu; útrekur málleysis og heyrnarleysis anda; talar um dauða sinn; finnur að metorðagirnd lærisveinanna, o. s. frv.*

EPTIR sex daga tók Jesús
Pètur, Jakob og Jóhannes
með sèr eina saman, og fór

með þeim upp á hátt fjall, og
hann ummyndaðist fyrir þeirra
augum;
2. Urðu klæði hans skínandi
og hvít, sem snjór; hvítari en
nokkur þvottamaður á jörðu
getur gjört.
3. Þá birtist þeim Elías og
Móses, og voru þeir á tali við
hann.
4. Þá tók Pètur svo til orða
við Jesúm: meistari, gott er,
að vèr erum hèr; vèr viljum
reisa hèr þrjár tjaldbúðir, eina
handa þèr, aðra handa Móse,
og hina þriðju handa Elías;
5. Því hann vissi ekki, hvað
hann sagði, af því felmtur var
yfir þá kominn.
6. Þá dró yfir þá ský, og úr
því heyrðist rödd, er mælti:
þessi er Sonur minn elskuleg-
ur, hlýðið þèr honum!
7. Og þegar þeir jafnskjótt
lituðust um, sáu þeir eingan
framar hjá sèr, nema Jesúm
einan.
8. Nú er þeir geingu niður
eptir fjallinu, þá bannaði hann
þeim að segja nokkrum frá
því, er þeir hefðu sèð, fyrr en
Mannsins Sonur væri upp ris-
inn frá dauðum.
9. Þeir hugfestu þetta orð,
og spurðu hver annan, hvað
það ætti að þýða, að upprísa
frá dauðum;
10. ¶ Og spurðu hann: því
segja hinir skriptlærðu, að
Elías eigi áður að koma?
11. En hann svaraði og sagði
við þá: Elías kemur að sönnu
fyrst, og færir alt í lag; og
það mun fara, eins og skrifað
er um Mannsins Son, að hann
líði margt og verði fyrirlitinn;
12. En eg segi yður, Elías er
kominn, og þeir breyttu við
hann, sem þeim líkaði, eins og
spáð er um hann.
13. ¶ Þegar hann kom til læri-
sveina sinna, sá hann, að
mikill fjöldi fólks var hjá
þeim, og hinir skriptlærðu,
sem spurðust á við þá;
14. En undireins og fólkið
sá hann, hnykti því við, hljóp
til og heilsaði honum.
15. Jesús spurði þá, um hvað
þeir væru að þrátta.
16. Honum svaraði einn af
fólkinu á þessa leið: meistari,
eg hefi flutt son minn til þín,
hann er þjáður af málleysis
anda;
17. Nær andinn hrífur hann,
kastar hann honum niður, og
þá froðufellir hann, gnístir
tönnum og verður máttvana.
Eg bað lærisveina þína að
reka hann út, en þeir gátu
það ekki.
18. En hann svaraði þeim
og sagði: þú trúarlausa þjóð,

hversu leingi skal eg hjá yður vera? hversu leingi skal eg umbera yður? færið mèr hann!
19. Þeir gjörðu svo; en undireins og hann sá Jesúm, teygði andinn hann sundur og saman, fèll hann þá til jarðar, veltist um og froðufeldi.
20. Jesús spurði þá föður hans, hversu lángt er síðan honum vildi þetta til? En hann svaraði: (þenna sjúkdóm hefir hann haft) frá barnæsku.
21. Opt hefir andinn kastað honum bæði á eld og í vatn til að fyrirfara honum; en ef þú ert nokkurs orkandi, þá hjálpa þú okkur, og kenn í brjósti um okkur!
22. Jesús mælti: já, ef þú getur trúað; trúuðum er alt mögulegt.
23. Jafnskjótt grèt faðir sveinsins hástöfum og sagði: eg trúi, en hjálpa þú trúarleysi mínu!
24. Nú er Jesús sá, að fólkið þyrptist að, hastaði hann á hinn illa anda og sagði við hann: eg býð þèr, þú andi, sem veldur málleysi og heyrnarleysi manns þessa, að þú farir út af honum, og komir aldrei aptur.
25. Hann hrein þá og teygði hann mjög sundur og saman, síðan fór hann út; en sveinninn lá eptir, sem væri hann dauður, svo margir sögðu, að hann væri látinn;
26. Jesús tók þá í hönd hans og reisti hann á fætur, og þá stóð hann upp.
27. Þegar Jesús var kominn heim, spurðu lærisveinar hans einslega, því þeir hefðu ekki getað rekið hann út.
28. Jesús mælti: þetta kyn verður með eingu út rekið, nema með bæn og föstu.
29. ¶ Þegar þeir fóru þaðan yfir Galílea, vildi Jesús ekki, að nokkur skyldi vita það;
30. Því hann var þá að kenna sínum lærisveinum, og sagði: Mannsins Sonur mun verða ofurseldur í manna hendur og þeir munu lífláta hann, en eptir að hann er líflátinn, mun hann upp rísa á þriðja degi.
31. En þeir skildu það ekki, en þorðu þó ekki að spyrja hann um það.
32. ¶ Hann kom til Kapernaum, og þegar hann kom til herbergis síns, spurði hann lærisveina sína, hvað það hefði verið, sem þeir hefðu verið að tala um á leiðinni sín á milli;
33. En þeir þögðu, því þeir höfðu verið að tala um það á

leiðinni, hver þeirra væri mestur.
34. Hann settist þá niður, og kallaði til sín þá tólf, og mælti svo til þeirra: hver yðar sem vill vera fremstur, hann sè síðastur allra og allra hinna þjón.
35. Síðan tók hann barn eitt, og setti það meðal þeirra, faðmaði það, og mælti:
36. Hver sem meðtekur þvílíkt barn í mínu nafni, hann meðtekur mig; en hver sem meðtekur mig, hann meðtekur ekki mig einúngis, heldur þann, sem mig sendi.
37.¶ Þá tók Jóhannes til orða og mælti: meistari, vèr sáum mann einn, sem í þínu nafni rak djöfla út, og vèr bönnuðum honum það, af því hann fylgir oss ekki eptir.
38. Jesús sagði: bannið honum það ekki; því einginn sá, sem gjörir kraptaverk í mínu nafni, mun rètt á eptir geta talað illa um mig.
39. Því hver sem ekki er á móti yður, hann er með yður;
40. Því hver sem gefur yður vatnsdrykk vegna mín, vegna þess að þèr heyrið Kristi til, sannlega segi eg yður, honum mun það ekki ólaunað verða.
41. Og hver sem hneykslar einn af þessum smælíngjum, sem trúa á mig, betra væri honum, að mylnusteinn hèingi um háls honum, og honum væri sökt í sjáfar djúp.
42. Ef hönd þín hneykslar þig, þá högg þú hana af; betra er þèr inn að gánga handarvana til lífsins, en að hafa báðar hendur heilar og fara til helvítis í hinn óslökkvanda eld,
43. Þar sem ormur þeirra ekki deyr, og eldur aldrei slokknar.
44. Ef að fótur þinn hneykslar þig, þá högg þú hann af; betra er þèr höltum inn að gánga til lífsins, en að þú hafir báða fætur heila, og þèr verði kastað í helvíti í hinn óslökkvanda eld,
45. Þar sem ormur þeirra aldrei deyr, og eldur aldrei slokknar.
46. Ef auga þitt hneykslar þig, þá slít þú það út; betra er þèr að koma eineygðum í Guðs ríki, en að þú hafir bæði augu þín, og þèr verði kastað í helvítis eld,
47. Þar sem ormur þeirra ekki deyr, og eldur ekki slokknar.
48. Því sèrhver á að saltast með eldi, og sèrhver fórn á að saltast með salti.
49. Saltið er gott, en láti það krapt sinn, með hverju viljið

þèr þá selta það? Haldið seltunni í yður, og verið samlyndir innbyrðis.

## 10. KAPÍTULI.

*Jesús talar um hjónaband; tekur úngbörn sèr í faðm; talar um hina ríku, um tímanleg verðlaun, um dauða sinn; áminnir til lítillætis, læknar blindan.*

SÍÐAN tók hann sig upp þaðan og kom í landsbygðir Júdea fyrir handan Jórdan, kom þá enn til hans fjöldi fólks, og kendi hann þeim enn, eins og hann var vanur.

2. ¶ Hèr komu til hans Farísear og spurðu hann, til að freista hans, hvort maður mætti segja skilið við konu sína.

3. Hann svaraði og sagði við þá: hvað hefir Móses boðið yður?

4. Þeir sögðu, að Móses hefði leyft að rita skilnaðarskrá, og segja skilið við hana.

5. Jesús mælti: þetta hefir Móses leyft yður sökum yðar hjartans harðúðar;

6. En frá fyrstu sköpun gjörði Guð þau mann og konu;

7. Þar fyrir á maðurinn að yfirgefa föður og móður, og lifa svo sameinaður konu sinni.

8. Og þau skulu bæði vera eitt hold, svo þau eru ekki framar tvö, heldur eitt hold.

9. En það sem Guð hefir sameinað, mega menn ekki að skilja.

10. Þegar þeir voru heim komnir, spurðu lærisveinarnir hann á ný um þetta sama efni.

11. Hann sagði við þá: hver sem segir skilið við konu sína og geingur að eiga aðra, hann drýgir hór mót henni,

12. Og ef kona skilur við mann sinn og giptist öðrum, þá drýgir hún líka hór.

13. ¶ Nú færðu menn börn til hans, til þess að hann skyldi snerta þau, en lærisveinarnir ávítuðu þá, sem þau báru.

14. Þegar Jesús varð þess vís, líkaði honum það illa, og mælti: látið börnin koma til mín og bannið þeim það ekki, því slíkum heyrir Guðs ríki til;

15. Sannlega segi eg yður, hver sem ekki meðtekur Guðs ríki eins og barn, mun aldrei þángað koma.

16. Síðan faðmaði hann börnin að sèr, lagði hendur yfir þau og blessaði þau.

17. ¶ En þegar hann var kominn út á veginn, kom maður hlaupandi, fèll á knè fyrir honum og mælti: góði meistari, hvað á eg að gjöra, til þess eg öðlist eilíft líf?

18. Jesús mælti: því kallar
þú mig góðan? Einginn er
góður, nema Guð einn.
19. Boðorðin veiztu: þú skalt
ekki drýgja hór; ekki mann
vega; ekki stela; ekki bera
ljúgvitni; ekki svíkja; heiðra
föður þinn og móður.
20. Hinn svaraði: meistari,
þetta alt hefi eg haldið frá
barnæsku minni.
21. Jesús leit þá til hans,
elskaði hann og mælti: eins
er þèr enn vant: far þú og
sel allar eigur þínar og gef
fátækum, og munt þú fjársjóð
hafa á himni; kom síðan, fylg
mèr og tak á þig krossinn.
22. En er hann heyrði þetta,
kom sorgarsvipur yfir hann,
og fór hryggur í burtu, því
hann var maður auðugur.
23. ¶ Þá litaðist Jesús um,
og mælti við lærisveina sína:
hversu torvelt er hinum ríku
að komast inn í Guðs ríki!
24. Við þetta hnykkti læri-
sveinum hans; þá svaraði
Jesús aptur og sagði við þá:
börn mín, hve torvelt er þeim,
sem setja traust sitt á auðinn,
að inngánga í Guðs ríki;
25. Auðveldara er úlfaldanum
að gánga í gegn um nálar-
augað, en ríkum manni að
komast í Guðs ríki.
26. Við þetta brá þeim enn
þá meir, og sögðu sín á milli:
hver getur þá orðið hólpinn?
27. Jesús leit til þeirra og
mælti: fyrir manna sjónum er
það ómögulegt, en ekki fyrir
Guði; því Guði er ekkert um
megn.
28. ¶ Þá tók Pètur svo til
orða: vèr höfum yfirgefið alt
og fylgt þèr.
29. Jesús svaraði og sagði:
sannlega segi eg yður, einginn
hefir svo yfirgefið heimili sitt,
bræður eður systur, föður eður
móður, konur eður börn eður
fasteign, mín eður náðarboð-
skaparins vegna,
30. Að honum ekki veitist nú
þegar í þessu lífi, og það
jafnvel mitt í ofsóknunum,
hundraðfalt aptur, heimili,
bræður, systur, mæður, börn
og fasteign, og hèr á ofan í
öðrum heimi eilíft líf;
31. En þá munu margir þeir,
er fyrstir eru, verða síðastir,
og enir síðustu fyrstir.
32. ¶ Nú hèldu þeir til Jerú-
salem, gekk þá Jesús á undan
þeim, en þeir voru felmturs-
fullir, og fylgdu honum með
ótta; þá tók hann þá tólf
aptur til sín, og sagði þeim,
hvað fyrir sèr lægi.
33. Sjá, vèr förum nú upp til
Jerúsalem; þar mun Manns-
ins Sonur verða fram seldur

hinum æðstu prestum og
skriptlærðum; þeir munu
dæma hann til dauða og fram
selja hann heiðnum mönnum;
34. Þeir munu hæða hann,
húðstrýkja, hrækja á hann og
taka hann af lífi, en á þriðja
degi mun hann upp rísa.
35. ¶ Þá komu til hans þeir
synir Sebedeusar, Jakob og
Jóhannes, og mæltu: meistari,
veittu okkur eina bæn.
36. Hann spurði: hvers beið-
izt þèr?
37. Veittu okkur, sögðu þeir,
að við megum sitja hvor til
sinnar hliðar þèr, í dýrð þinni.
38. Jesús mælti: þið vitið
ekki, hvers þèr beiðizt; hvert
treystið þið ykkur til að
drekka þann bikar, sem mèr
er æltaður, eður skírast skírn
þeirri, sem eg á fyrir höndum?
39. En þeir sögðu við hann:
það getum við. Jesús mælti:
þann bikar, sem mèr er ætl-
aður, munuð þið að sönnu
drekka, og skírast skírn þeirr-
i, sem eg á fyrir höndum;
40. En að sitja mèr til hægri
eður vinstri handar, stendur
ekki í mínu valdi að veita,
nema þeim einum, sem það
er fyrirbúið.
41. Þegar hinir tíu heyrðu
þetta, mislíkaði þeim mjög
við þá Jakob og Jóhannes.
42. Þá kallaði Jesús þá til
sín og mælti: þèr vitið, að
þeir, sem löndum ráða, drottna
harðlega yfir undirsátum sín-
um, og gæðíngar þeirra sýna
þeim ofríki;
43. En þetta skal ekki svo
vera með yður: því hver yðar
sem mestur vill vera, hann sè
hinna þjónustumaður;
44. Og hver sem vill vera
æðstur yðar á meðal, hann
skal allra yðar þjón vera;
45. Því ekki er Mannsins
Sonur kominn til þess að láta
þjóna sèr, heldur til þess,
öðrum að þjóna, og til að
láta líf sitt sem lausnargjald
fyrir marga.
46. ¶ Nú komu þeir til Jerí-
kóborgar. Þegar hann fór
þaðan, fylgdu honum læri-
sveinar hans og mikill fjöldi
fólks. Þá sat Bartímeus Tí-
mausson hinn blindi við veg-
inn og beiddist ölmusu:
47. Þegar hann heyrði, að
Jesús frá Nazaret færi þar
hjá, kallaði hann hátt og mælt-
i: Jesú, sonur Davíðs, miskuna
þú mèr!
48. Margir skipuðu honum
þá að þegja, en hann kallaði
þess hærra, og sagði: sonur
Davíðs, miskuna þú mèr!
49. Þá nam Jesús staðar og
lèt kalla á hann; þeir gjörðu

svo og mæltu: vertu vongóður, stattu upp, hann kallar á þig.

50. Hann kastaði þá yfirhöfn sinni, stóð á fætur og kom til Jesú.

51. Jesús sagði við hann: hvað viltu að eg gjöri við þig? Hinn blindi mælti: meistari, það, að eg fái sjón mína.

52. En Jesús sagði við hann: far þú leiðar þinnar, þín trú hefir hjálpað þèr. Og jafnskjótt fèkk hann aptur sjón sína, og fylgdi honum áleiðis.

## 11. KAPÍTULI.

*Jesús ríður inn í Jerúsalem; formælir fíkjutrènu; hreinsar musterið, en vill ekki segja, hvaða vald hann haft hafi til að hreinsa það.*

ÞEGAR þeir voru komnir í nánd við Jerúsalem til Betfage og Betanía við olíufjallið, þá sendi Jesús frá sèr tvo af lærisveinum sínum og sagði við þá:

2. Farið þið í þorpið, sem gagnvart ykkur er, og jafnskjótt sem þið komið þángað, munuð þið finna fola bundinn, hverjum einginn maður hefir áður riðið, leysið hann og færið mèr;

3. En ef einhver segir við ykkur: hversvegna gjörið þið þetta? þá segið: Herrann þarf hans við og mun hann þegar senda hann híngað.

4. Þeir fóru leiðar sinnar, og fundu folann bundinn fyrir dyrum úti á strætinu, og leystu hann.

5. Þá spurðu nokkrir, sem við voru staddir, hversvegna leysið þið folann?

6. Þeir svöruðu, eins og Jesús hafði boðið þeim, og þá lètu hinir þá fara.

7. Síðan færðu lærisveinarnir Jesú folann, lögðu klæði sín á hann, en hann settist á bak;

8. En margir breiddu klæði sín á veginn, aðrir hjuggu lim af trjánum, og stráðu því á veginn;

9. En múgurinn, sem á undan fór og eptir fylgdi, kallaði og sagði: Hósanna! blessaður sè sá, sem kemur í Drottins nafni!

10. Blessað sè hið komanda ríki föður vors Davíðs! Hósanna í hæztum hæðum!

11. Jesús gekk inn í Jerúsalem og upp í musterið, og þegar hann hafði skoðað þar alt, fór hann til Betanía með þeim tólf undir kvöld.

12. ¶ Morguninn eptir, þá þeir fóru frá Betanía, húngraði hann;

13. Þá sá hann áleingdar

fíkjutrè, sem laufblöðin voru vaxin á, þángað fór hann að leita, hvort hann ekki fyndi ávöxt á því; en þegar hann kom að því, fann hann ekkert nema blöðin tóm, því þá var ekki fíkna tími;

14. Hann sagði þá við trèð: hèr eptir eti enginn ávöxt af þèr að eilífu! þetta heyrðu lærisveinar hans.

15. ¶ Síðan fóru þeir til Jerúsalem, gekk þá Jesús inn í musterið, og tók til að reka út þá, sem seldu þar og keyptu, og hratt um borðum þeirra, er skipti höfðu á peníngum, og stólum þeirra, er dúfur seldu,

16. Og eingum leyfði hann að bera áhöld um musterið.

17. Síðan kendi hann og sagði við þá: er ekki skrifað í ritníngunni: mitt hús skal vera bænahús fyrir allar þjóðir? en þèr hafið gjört úr því ræníngja bæli.

18. Þetta heyrðu hinir skriptlærðu og æðstu prestarnir og leituðust við, hvernig þeir gætu ráðið hann af dögum, því þeim stóð ótti af honum, vegna þess alt fólkið dáðist mjög að hans kenníngu.

19. Þegar kvöld var komið, fór hann út úr borginni.

20. ¶ Þegar þeir morguninn eptir gengu frammhjá, sáu þeir, að fíkjutrèð var visnað frá rótum.

21. Þá mintist Pètur þess, sem Jesús hafði sagt, og sagði við hann: skoðaðu, meistari; fíkjutrèð, sem þú formæltir, er visnað.

22. Þá svaraði Jesús og sagði við þá: treystið Guði!

23. Því sannlega segi eg yður, ef einhver segði við fjall þetta: lypt þèr upp og kasta þèr í hafið, og efaði ekki í hjarta sínu, heldur tryði, að það mundi verða, eins og hann segði, þá mundi honum verða að því sem hann sagði.

24. Þar fyrir segi eg yður: um hvað helzt þèr biðjið Guð, þá trúið, að þèr munið það öðlast, og þá munuð þèr fá það.

25. Og þegar þèr standið og biðjist fyrir þá fyrirgefið, ef yður þykir nokkuð við einhvern, svo að faðir yðar á himnum fyrirgefi yður einninn yðar afbrot;

26. En ef þèr ekki fyrirgefið öðrum, mun faðir yðar himneskur ekki heldur fyrirgefa yður yðar afbrot.

27. ¶ Nú komu þeir aptur til Jerúsalem, og þegar hann var staddur í musterinu, komu til hans hinir æðstu prestar, skriptlærðir og öldúngarnir,

28. Og sögðu við hann: af hvaða valdi gjörir þú þetta? og hver hefur gefið þèr vald til að gjöra þetta?
29. Jesús svaraði og sagði við þá: eg vil og spyrja yður eins; ef þèr svarið mèr til þess, mun eg segja yður, af hvaða valdi eg gjöri þetta.
30. Var skírn Jóhannesar af himnum, eða af mönnum? Svarið mèr!
31. Þeir hugleiddu þetta með sèr og sögðu: ef vèr segjum: af himnum, mun hann segja: því trúðuð þèr honum þá ekki?
32. En ef vèr segjum: af mönnum, þá megum vèr óttast lýðinn; því allir hèldu Jóhannes fyrir sannan spámann.
33. Og þeir svöruðu og sögðu við Jesúm: vèr vitum það ekki. Jesús mælti: þá segi eg yður ekki heldur, af hvaða valdi eg gjöri þetta.

## 12. KAPÍTULI.

*Jesús flytur dæmisögu um víngarðinn; talar um skatt; um upprisuna; um lögmálið; um sjálfan sig; um gjöf ekkjunnar.*

OG hann tók til að kenna þeim í dæmisögum: maður nokkur plantaði víngarð, og hlóð garð um hann; þar gjörði hann vínpressu og bygði þar turn; síðan leigði hann víngarðinn víngarðsmönnum, og fór úr landi.
2. Þegar tími var til, sendi hann þjón sinn til víngarðsmannanna, til að taka hjá þeim nokkurn hluta ávaxtarins;
3. Hann tóku þeir höndum, börðu hann, og sendu aptur tómhentan.
4. Þá sendi hússbóndinn annan þjón til þeirra; þenna börðu þeir grjóti, særðu hann á höfði, lögðu honum háðúngar til, og lètu hann svo fara.
5. Enn þá sendi hann þann þriðja þjón til þeirra; hann myrtu þeir. Marga fleiri sendi hann, en suma af þeim börðu þeir, en suma drápu þeir.
6. En þá átti hann eptir einn einkason, sem hann unni mjög: þenna sendi hann seinast til þeirra, og sagði: þeir munu þó bera virðíngu fyrir syni mínum;
7. En víngarðsmennirnir tóku ráð sín saman, og mæltu sín á milli: þetta er erfínginn, tökum hann af lífi, svo verður arfurinn vor.
8. Síðan tóku þeir hann höndum, myrtu hann og köstuðu honum út fyrir víngarðinn.
9. Hvað mun þá eigandi víngarðsins gjöra? Hann mun koma og fyrirfara víngarðs-

mönnunum, og leigja víngarð sinn öðrum.

10. Hafið þèr ekki lesið í ritníngunni: sá steinn, er húsasmiðir útskúfuðu, hann er nú hyrníngarsteinn orðinn;

11. Af Drottni er hann þar til kjörinn, og er furðanlegur í augum vorum.

12. Þá vildu þeir leggja hendur á hann, en þorðu það ekki fyrir alþýðunni, því þeir skildu, að hann sagði dæmisögu þessa upp á þá; þeir yfirgáfu hann því og geingu á burt.

13. ¶ Og þeir sendu til hans nokkra af Faríseum og mönnum Heródesar, er leitast skyldu við að veiða hann í orðum.

14. Þeir komu og sögðu við hann: meistari! vèr vitum, að þú ert sannorður, og mælir ekki, sem hver vill heyra, því þú ferð ekki að mannvirðíngum, heldur kennir þú Guðs götu í sannleika, hvort eigum vèr að lúka keisaranum skatt eður ekki? hvort skulum vèr gjalda hann eður ekki?

15. Nú er Jesús sá hræsni þeirra, mælti hann: því freistið þèr mín? færið mèr peníngin, svo að eg sjái hann. Þeir færðu honum hann.

16. Jesús sagði við þá; hvers mynd og yfirskript er þetta? Þeir sögðu við hann: keisarans.

17. Og Jesús svaraði og sagði við þá: gjaldið þá keisaranum, hvað keisarans er, og Guði, hvað Guðs er; og þá furðaði á honum.

18. ¶ Nú komu Sadúsear til hans, sem neita því, að upprisan sè til. Þeir spurðu hann og sögðu:

19. Meistari, Móses hefir boðið oss, að ef nokkur dæi barnlaus frá konu sinni, þá skyldi bróðir hans fá konu hans, og halda við ættleg bróður síns;

20. Nú voru sjö bræður, hinn fyrsti þeirra kvongaðist og dó barnlaus;

21. Þá gekk annar bróðir hans að eiga konu hans; hann dó og barnlaus;

22. Síðan hinn þriðji, og allir sjö eignuðust hana, og dóu barnlausir, en seinast allra dó konan.

23. Hvers þeirra eiginkona mun hún nú verða í upprisunni, þegar þeir rísa upp? því þeir höfðu átt hana allir sjö.

24. Þá svaraði Jesús og sagði við þá: villizt þèr ekki þess vegna, að þèr hvorki skiljið ritnínguna, nè Guðs mátt?

25. Því þegar menn upp rísa, munu hvorki þeir kvænast, nè

þær giptast, heldur munu þeir verða eins og einglar Guðs á himnum.

26. En hvað upprisu framliðinna við víkur, hafið þèr ekki lesið í Mósis bók í frásögunni um runninn, hvað Guð sagði við hann, og svo hljóðar: Eg er Guð Abrahams, Guð Ísaks og Guð Jakobs?

27. Guð er ekki Guð dauðra, heldur lifenda; þessvegna villizt þèr mjög.

28. ¶ Þá kom til hans einn af þeim skriptlærðu, er heyrt hafði á samtal þeirra, og hversu vel að Jesús hafði svarað þeim; hann spurði á þessa leið: hvert er hið allra æðsta boðorð?

29. Jesús mælti: hið allra æðsta boðorð er þetta: heyr þú, Ísrael, Drottinn vor Guð, Drottinn er einn.

30. Og þú átt að elska Drottinn Guð þinn af öllu þínu hjarta, af allri þinni sálu, af öllum huga og öllum kröptum.

31. Þetta er hið æðsta boðorð, og þessu líkt er hitt: elska skaltu náúnga þinn, eins og sjálfan þig; ekkert boðorð er æðra, en þessi.

32. Þá sagði hinn skriptlærði: ágætlega svaraðir þú, og satt er það, að ekki er nema einn Guð, og enginn nema hann;

33. Og að elska Guð af öllu hjarta, öllum huga, allri sálu og öllum kröptum, og náúngann eins og sjálfan sig, er meir áríðandi, en öll boðorð um brennifórnir og slátrunarfórnir.

34. Þegar Jesús heyrði þetta skynsamlega andsvar hans, sagði hann við hann: þú ert ekki fjærri Guðs ríki; og eingin þorði að spyrja hann framar.

35. ¶ Og er Jesús var að kenna í musterinu sagði hann: því segja hinir skriptlærðu, að Kristur sè Davíðs sonur?

36. Því Davíð segir þó sjálfur fyrir Heilagan Anda: Drottinn sagði við minn Drottinn: sit þú mèr til hægri handar, þar til eg legg óvini þína að skör fóta þinna.

37. Hèr kallar Davíð hann sjálfur Drottinn; hvernig er hann þá sonur hans? Og allur lýðurinn heyrði hann fúslega.

38. ¶ Í kenníngu sinni sagði hann þá til þeirra: varið yður við hinum skriptlærðu, sem gjarna vilja gánga í síðum klæðum, láta heilsa sèr á torgum,

39. Sitja í fyrirsæti í samkundum og vera efstir til borðs í veizlum;

40. Þeir útsjúga hús ekkna, og eru lengi á bænum fyrir

siðasakir; þeir munu og því
þýngri dómi sæta.
41. ¶ Og þegar Jesús sat
gagnvart fèhirzlu musterisins,
sá hann, að fjöldi fólks lagði
þar fè í, og margir þeir, er
ríkir voru, lögðu mikið til;
42. Þá kom þar að ekkja
nokkur fátæk, og lagði þar í
tvo smápenínga, sem eru hálfs
skildíngs virði.
43. Þá kallaði Jesús til sín
lærisveina sína, og sagði þeim:
sannlega segi eg yður, þessi fá-
tæka ekkja hefir meira fè lagt
í fjárhirzluna, en allir hinir;
44. Því þeir gáfu allir af því,
sem þeir höfðu afgángs, en
hún af fátækt sinni, aleigu
sína, alla sína lífsbjörg.

## 13. KAPÍTULI.

*Jesús talar um eyðileggíngu Jerúsalemsborgar og um heimsendirinn.*

ÞEGAR hann gekk út úr
musterinu, sagði einhver
af lærisveinum hans við hann:
skoðaðu, meistari, hvílíkir
þessir steinar eru, og hvílík
þessi bygging!
2. Jesús svaraði og sagði við
hann: sèr þú þessar miklu
byggíngar? þar mun ekki eptir
skilinn verða steinn yfir steini,
sem eigi verði rifinn niður.
3. Nú sem hann sat á
olíufjallinu gegnt musterinu,
spurðu þeir Pètur, Jakob,
Jóhannes og Andrès hann
einslega,
4. Seg þú oss, nær mun þetta
verða, og hvað verður til
merkis um það þegar alt
þetta á að fullkomnast?
5. Jesús tók þá svo til orða:
varizt, að einginn leiði yður í
villu,
6. Því margir munu koma í
mínu nafni, og segja: eg er
Kristur, og þeir munu marga
afvega leiða.
7. En er þèr heyrið stríð og
hersögur, þá látið ekki hug-
fallast, því þetta hlýtur að
ske; þó er þar fyrir ekki end-
irinn kominn.
8. Því ein þjóðin mun reisa
ófrið móti annari, og eitt ríki
móti öðru; þá munu í ýms-
um stöðum vera landskjálftar,
hallæri og flokkadrættir; þetta
er byrjan hörmúnganna;
9. ¶ En verið þèr þá varir um
yður, því þeir munu hafa yður
á ráðstefnur og í samkundur,
þèr munuð húðstrýktir verða,
og mín vegna færðir verða
fyrir landshöfðíngja og kon-
únga, þeim til vitnisburðar.
10. En áður hlýtur náðar-
lærdómurinn að vera fluttur
öllum þjóðum.
11. En nær þeir draga yður
(fyrir rètt) og framselja yður,
þá verið ekki áhyggjufullir

um, hvað þèr eigið að tala, nè
hugsið um það fyrir fram,
heldur talið það, sem yður
verður inn gefið á þeirri sömu
stundu; því þèr eruð ekki
þeir, sem tala, heldur Heil-
agur Andi.
12. Þá mun bróðirinn fram-
selja bróður sinn til dauða,
og faðirinn barn sitt; börnin
munu rísa gegn foreldrum
sínum, og taka þá af lífi,
13. Og mín vegna munu allir
yður að hatri hafa; en sá sem
stöðugur stendur til enda,
hann mun hólpinn verða.
14. ¶ En nær þèr sjáið viður-
stygð eyðileggíngarinnar (sem
Daníel spámaður talar um),
standa þar, er ekki skyldi
(hver sem les það, gefi gaum
að því): þá flýi hver sá, sem
er í Gyðíngalandi, til fjalla,
15. En hver sem er á hús-
þaki, varist hann að fara ofan
í húsið, eður gánga inn í það,
til að taka nokkuð þaðan,
16. Og sá, sem er á akri, snúi
hann ekki aptur til að taka
klæði sín;
17. En vesælar eru á þeim
tímum konur þúngaðar, og
þær, er börn hafa á brjósti;
18. En biðjið, að yðar flótti
verði ekki um vetur;
19. Því á þeim tímum mun
verða svo stór hörmúng, að
eingin hefir slík verið frá
upphafi þeirra hluta, sem Guð
skapaði, til þess, og ekki
heldur mun verða;
20. Og nema Drottinn stytti
þessa tíma, mundi einginn
frelsast; en vegna hinna út-
völdu, sem hann hefir útvalið,
mun hann stytta þá.
21. Og ef einhver þá segir við
yður: sjá, hèr er Kristur, eða
þar, þá trúið ekki;
22. Því upp munu rísa fals-
kristar og falsspámenn, er
gjöra munu tákn og stór-
merki, til að afvegaleiða, ef
verða mætti, jafnvel útvalda.
23. En verið varir um yður,
og minnizt þess, að eg sagða
yður alt þetta fyrir.
24. ¶ En á þeim tíma, nær
þessi hörmúng er á enda, mun
sólin sortna og túnglið missa
birtu sinnar;
25. Og þá munu stjörnurnar
hrapa af himni, og kraptar
himnanna skjálfa.
26. Þá munu menn sjá Manns-
ins Son komandi í skýunum
með miklu valdi og dýrð;
27. Og hann mun senda eingla
sína til að samansafna hans
útvöldu úr öllum áttum, frá
einu heimsskauti til annars.
28. En takið dæmi af fíkju-
trènu: nær greinir þess eru
orðnar vökvafullar, og blöðin

taka út að springa, þá vitið þèr, að sumarið er í nánd.

29. Eins skuluð þèr og vita, að nær þèr sjáið þetta framkoma, þá er hann (Mannsins Sonur) fyrir dyrum.

30. Sannlega segi eg yður, þessi kynslóð mun ekki undir lok liðin, áður en alt þetta kemur fram.

31. Himin og jörð munu forgánga, en mín orð munu aldrei forgánga.

32. ¶ En þann dag eður stund veit einginn, hvorki einglar á himni nè Sonurinn, og einginn, nema Faðirinn einn.

33. Verið varir um yður, vakið og biðjið, því þèr vitið ekki, nær þessi tími kemur.

34. Því er eins varið, og manni nokkrum, sem ferðaðist úr landi, og fól hús sitt og eigur þjónustumönnum sínum á vald, og skipaði hverjum sitt verk, en bauð dyraverðinum að vaka.

35 Vakið þessvegna, því þèr vitið ekki, þegar hússbóndinn muni koma, hvort heldur að aptni, um miðnætti, um aptureldíngu, eður að morgni,

36. Svo að hann finni yður ekki sofandi nær hann skyndilega kemur.

37. En hvað eg segi yður, það segi eg öllum: Vakið!

## 14. KAPÍTULI.

*Höfuðprestarnir leitast við að fyrirkoma Jesú; kona nokkur smyr hann; Jesús innsetur kvöldmáltíðina, fyrirsegir Péturs hrösun; Jesú þjáníng í grasgarðinum; svik Júdasar; Jesús handtekinn; lærisveinarnir flýa; Jesús er leiddur til höfuðprestsins, hans meðkenning fyrir honum; hann er dómfeldur og hæddur; Péturs hrösun.*

EN tveim dögum síðar var páskahátíð, hátíð hinna ósýrðu brauða; þá leituðust hinir æðstu prestar og skriptlærðir við, hverninn þeir gætu höndlað hann með svikum, og ráðið hann af dögum;

2. En þeir sögðu: ekki á hátíðinni, svo ekki rísi órói milli alþýðunnar.

3. ¶ Nú er hann var undir borðum í Betanía í húsi Símonar líkþráa, kom þar kona nokkur, sem hafði smyrslaflösku úr alabastri, fulla með dýrmæta, ómeingaða nardusolíu; hún braut flöskuna og helti olíunni yfir höfuð honum.

4. En þar voru nokkrir, sem stygðust af þessu með sjálfum sèr, og sögðu: því er þessum smyrslum spilt?

5. Því þau hefði mátt selja fyrir meir enn 300 penínga og gefa fátækum; og tóku þeir að ásaka hana hèr fyrir.

6. En Jesús mælti: látið hana í friði! því amizt þèr við henni? vel gjörði hún til mín.

7. Því fátæka hafið þèr ætíð

hjá yður, og getið gjört þeim gott, nær þèr viljið, en mig hafið þèr ekki ætíð hjá yður.

8. Hún gjörði hvað í hennar valdi stóð; hún hefir fyrir fram smurt líkama minn til greptrunar.

9. Sannlega segi eg yður, hvar helzt í öllum heimi sem gleðiboðskapurinn verður boðaður, mun þess og getið, sem hún gjörði, henni til endurminníngar.

10. ¶ Og Júdas Iskaríot, einn af þeim tólf, fór til enna æðstu presta, til þess hann kæmi honum með svikum á þeirra vald;

11. En þegar þeir heyrðu það, urðu þeir glaðir, og hètu honum fè, en hann leitaði, hvernig hann á hentugastan hátt gæti svikið Jesúm.

12. ¶ Og á fyrsta hátíðardegi hinna ósýrðu brauða, þegar páskalambinu átti að slátra, spurðu lærisveinar Jesú hann: hvar viltu, að vèr matreiðum þèr páskalambið?

13. Og hann sendi tvo af lærisveinum sínum og sagði: farið þèr í borgina, þar munuð þèr mæta manni, sem ber vatnskrús, fylgið honum,

14. Og segið við ráðanda þess húss, sem hann geingur inn í: lærimeistarinn spyr: hvar er það herbergi, sem eg get neytt páskalambsins í með lærisveinum mínum?

15. Og mun hann þá sýna yður stóran loptsal með uppbúnum bekkjum; búið þèr þar oss til matar.

16. Og lærisveinar hans fóru og komu í borgina, og fundu alt, eins og hann hafði sagt þeim, og matbjuggu þar páskalambið.

17. Og þegar kvöld var komið, kom hann sjálfur með þeim tólf.

18. Þegar þeir voru komnir undir borð, og teknir til matar, mælti Jesús: sannlega segi eg yður: einn af yður, sem etur með mèr, mun svíkja mig.

19. Við þetta urðu þeir hryggvir, og spurðu hann einn eptir annan,

20. Er eg það? Hann svaraði og sagði við þá: það er einn af þeim tólf, sem dýfir með mèr í fatið.

21. Mannsins Sonur mun að vísu láta líf sitt, eins og spáð er um hann, en vei þeim, sem svíkur hann; betra væri honum, að hann aldrei væri fæddur.

22. ¶ Meðan þeir enn þá voru undir borðum, tók Jesús brauðið, gjörði Guði þakkir, braut það, rètti að þeim, og

mælti: takið þèr við, þetta er
minn líkami.
23. Síðan tók hann kaleikinn,
gjörði Guði þakkir, og fèkk
þeim hann, og þeir drukku
allir af honum;
24. Þá sagði hann við þá:
þetta er mitt blóð, blóð hins
nýa sáttmála, sem fyrir marga
verður út helt;
25. Sannlega segi eg yður, að
hèðan í frá mun eg ekki af
vínviðar ávexti drekka, til þess
dags, er eg drekk af nýum
ávexti í Guðs ríki.
26. ¶ Þegar þeir höfðu súngið
lofsaunginn, fóru þeir til olíu-
fjallsins;
27. Og Jesús sagði við þá: í
nótt munuð þèr allir hneyksl-
ast á mèr, því skrifað er: eg
mun slá hirðirinn og sauðirnir
munu tvístrast;
28. En eptir mína upprisu
mun eg verða kominn á undan
yður til Galílea.
29. Þá sagði Pètur: þótt allir
hneykslist (á þèr), þá skal eg
samt aldrei hneykslast (á þèr).
30. Og Jesús sagði við hann:
sannlega segi eg þèr, nú í
nótt, áður en haninn hefir
galað tvisvar, muntu þrisvar
hafa afneitað mèr.
31. En hann kvað enn frekar
að, og mælti: þótt eg ætti að
láta líf mitt með þèr, skyldi
eg þó aldrei afneita þèr; eins
sögðu allir lærisveinarnir.
32. Og þeir komu í þann
stað, er heitir Getsemane, þá
sagði hann við lærisveina sína:
setjist hèr meðan eg biðst
fyrir.
33. Hann tók þá með sèr
Pètur, Jakob og Jóhannes,
og tók ákaflega að hryggjast
og harmþrúnginn að verða.
34. Og hann sagði við þá:
sál mín er hrygg alt til dauð-
ans; bíðið hèr og vakið.
35. Þá gekk hann lítið leingra
áfram, fèll til jarðar og bað,
að þessi stund mætti hjá sèr
líða, ef þess væri kostur.
36. Og hann sagði: Faðir
minn! alt er þèr mögulegt;
tak þenna bikar frá mèr; þó
ekki sem eg vil, heldur sem
þú vilt.
37. Þá hann kom aptur til
þeirra, fann hann þá sofandi;
þá sagði hann til Pèturs:
Símon, sefur þú? gaztu ekki
vakað eina stund?
38. Vakið og biðjið, svo að
þèr fallið ekki í freistni; and-
inn er að sönnu reiðubúinn,
en holdið er veikt.
39. Í öðru sinni fór hann
burtu, og gjörði bæn sína
og talaði enum sömu orðum.
40. Og þá er hann kom aptur,
fann hann þá aptur sofandi,

og voru þeir svo yfirkomnir af
svefnþúnga, að þeir ekki vissu,
hverju þeir svöruðu honum.
41. Þriðja sinn kom hann til
þeirra, og sagði við þá: sofið
nú það eptir er, og hvílizt;
það er nóg; nú er tíminn
kominn; sjá, Mannsins Sonur
mun framseldur verða á vald
vondum mönnum.
42. Standið upp, förum hèð-
an; sá er í nánd er mig
svíkur.
43. ¶ Jafnskjótt er hann var
þetta að tala, kom Júdas, er
var einn af þeim tólf læri-
sveinum, og með honum fjöldi
manna, búnir sverðum og
bareflum, sendir frá höfuð-
prestunum og hinum skript-
lærðu og öldúngunum.
44. En svikarinn hafði sagt
þeim þetta til marks: sá sem
eg kyssi, hann er Jesús;
handtakið hann og leiðið hann
varlega burt.
45. Og er hann kom, gekk
hann þegar að Jesú, og segir:
Meistari, meistari; og minntist
við hann.
46. ¶ En hinir lögðu hendur
á hann og tóku hann.
47. En einn af þeim, sem
hjá stóðu, brá sverði og hjó
á eyra þjónustumanni hins
æðsta prests, svo af tók.
48. Þá tók Jesús til orða og
mælti til þeirra: þèr eruð út
farnir með sverðum og bar-
eflum til að handtaka mig,
sem væri eg ránsmaður.
49. Dags daglega kendi eg í
musterinu hjá yður, og hand-
tókuð þèr mig samt ekki; en
þetta er fram komið, svo að
ritníngarnar rætist.
50. Þá yfirgáfu hann allir
lærisveinarnir, og flýðu.
51. Maður nokkur úngur
fylgdist með honum, hann
hafði lín eitt klæða á berum
sèr;
52. Og er flokksmennirnir
vildu handtaka hann, kastaði
hann línklæðinu, og flýði nak-
inn í burt frá þeim.
53. ¶ Síðan leiddu þeir Jesúm
til höfuðprestsins, og þángað
söfnuðust allir hinir æðstu
prestar og öldúngarnir og
hinir skriptlærðu.
54. Og Pètur fylgdi honum
áleingdar, alt inn í garð
höfuðprestsins, settist þar hjá
þjónustumönnunum, og orn-
aði sèr við eldinn.
55. En höfuðprestarnir og alt
ráðið leitaði vitna gegn Jesú,
til að lífláta hann, en fundu
ekkert saknæmt um hann;
56. Því þó margir bæru ljúg-
vitni gegn honum, urðu þó
vitnisburðir þeirra ekki sam-
hljóða.

57. Nokkrir stóðu upp og
báru það ljúgvitni:
58. Vèr heyrðum hann segja:
eg skal brjóta niður þetta
musteri, er með höndum er
gjört, og innan þriggja daga
byggja upp annað musteri,
sem ekki er með höndum
gjört.
59. En ekki heldur varð
vitnisburður þeirra samhljóða
í þessu.
60. Þá gekk höfuðpresturinn
fram, spurði Jesúm og sagði:
svarar þú eingu? hvað vitna
þessir gegn þèr?
61. En hann þagði og svaraði
eingu orði. Höfuðpresturinn
spurði hann þá enn aptur:
ertu Kristur, Sonur hins Bless-
aða.
62. En Jesús svaraði: eg
em hann; og þèr munuð sjá
Mannsins Son sitjanda til
hægri handar þeim Alvalda
og komanda í skýum himins.
63. Þá reif höfuðpresturinn
klæði sín og mælti: hvað þurf-
um vèr nú framar vitna við?
64. Þèr heyrðuð hans guð-
löstun, hvað lízt yður? En
þeir kváðu hann allir dauða
sekan.
65. Þá tóku sumir til að
hrækja á hann, hylja hans
ásjónu, slá hann með knefum
og segja: spáðu nú! líka
slógu þjónarnir hann knefa-
höggum.
66. ¶ Meðan Pètur var niðri í
forgarðinum, kom ein af þern-
um höfuðprestsins,
67. Og þá hún sá, hvar Pètur
var að orna sèr, leit hún við
honum, og mælti: þú varst þá
einnig með Jesú hinum nað-
verska.
68. En hann bar á móti því,
og sagði: eg veit ekki og skil
ekki, hvað þú segir. Gekk
hann þá út í forgarðinn, og þá
gól haninn.
69. Og þernan sá hann þá
aptur, og sagði við þá, sem
hjá stóðu: þessi er einn af
þeim; en hann neitaði aptur.
70. Og skömmu síðar sögðu
þeir, er þar voru, við Pètur:
víst ertu einn af þeim; því þú
ert Galíleari og málfæri þitt
líkist því.
71. Þá tók hann að sverja
og sárt við leggja, að ekki
þekti hann þenna mann, er
þeir töluðu um.
72. Þá gól haninn annað sinn
og Pètur mintist þess, er Jes-
ús hafði sagt við hann, að áður
en haninn galaði tvisvar, mundi
hann afneita sèr þrisvar; flýtti
hann sèr þá út, og grèt.

## 15. KAPÍTULI.

*Jesús er áklagaður, dæmdur til dauða og krossfestur; deyr og er greftraður.*

UNDIREINS í dögun gjörðu þeir ráð sín höfuðprestarnir, öldúngarnir og hinir skriptlærðu og alt ráðið, bundu Jesúm, færðu hann burt og seldu Pílatusi í hendur.

2. Og Pílatus spurði hann: ertu konúngur Gyðínga? En hann svaraði og sagði við hann: svo er, sem þú segir.

3. Höfuðprestarnir báru margar sakir á hann.

4. Pílatus spurði hann þá aptur og sagði: svarar þú eingu? sjá þú, hve margar sakir þeir bera upp á þig!

5. En Jesús svaraði eingu orði framar, svo að Pílatus undraðist.

6. En á hátíðinni var Pílatus vanur að láta þeim lausan bandíngja þann einn, er þeir sjálfir æsktu sèr;

7. En þar var einn, er nefndur var Barabbas, er í böndum var hafður ásamt með öðrum uppreistarmönnum, sem í upphlaupi nokkru höfðu víg vegið.

8. En er lýðurinn tók til að kalla upp, og heimta, að hann gjörði, sem hann var vanur,

9. Þá tók Pílatus til orða og sagði: viljið þèr, að eg gefi yður lausan Gyðínga konúnginn?

10. Því hann vissi, að höfuðprestarnir höfðu fyrir öfundar sakir framselt Jesúm.

11. En höfuðprestarnir æstu upp múginn til að biðja, að hann heldur gæfi þeim Barabbam lausan.

12. Þá sagði Pílatus aptur við þá: hvað viljið þèr þá að eg gjöri við Gyðínga konúnginn, er þèr svo nefnið?

13. Þeir kölluðu aptur: krossfestu hann!

14. Pílatus spurði: hvað hefir hann þá til saka gjört? en þeir kölluðu þess ákafar: krossfestu hann!

15. ¶ Nú með því að Pílatus vildi gjöra eptir vild lýðsins, þá gaf hann þeim Barabbas lausan, en lèt húðstrýkja Jesúm, og fèkk hann svo (stríðsmönnunum) í hendur til krossfestíngar.

16. En stríðsmennirnir leiddu hann inn í fordyrið, sem var ráðhúsið, og stefndu þángað öllum flokkinum;

17. Og þeir færðu hann í purpurafat, og settu á höfuð honum kórónu, flèttaða af þyrnum,

18. Og tóku til að heilsa honum og sögðu: heill vertu, konúngur Gyðínga,

19. Slógu reyrsprota um höfuð honum, hræktu á hann, fèllu á knè og veittu honum lotníngu.

20. En er þeir höfðu spott-
að hann, færðu þeir hann úr
purpurakápunni, og í hans
eigin klæði.
21. En er þeir leiddu hann
út, til að krossfesta hann,
gekk þar fram hjá maður
nokkur, er Símon hèt frá
Cyrene, faðir þeirra Alexand-
ers og Rúffusar; hann kom
utan af landsbygðinni; þenna
mann neyddu þeir til að bera
kross hans.
22. Síðan færðu þeir Jesúm
til þess staðar, er heitir Gol-
gata, það þýðir hausaskelja-
staður;
23. Og þeir gáfu honum vín
að drekka myrru-blandað, en
hann þáði það ekki.
24. En er þeir höfðu krossfest
hann, skiptu þeir klæðum hans
milli sín, og köstuðu hlutum
um, hvað hver skyldi eignast.
25. En það var um þriðju
stund, að þeir krossfestu hann.
26. Uppi yfir honum var rituð
dauðasök hans, þannig orðuð:
Konúngur Gyðínga.
27. Tvo ræníngja krossfestu
þeir með honum, annan til
hægri, hinn til vinstri handar
honum;
28. Rættist svo það, er ritn-
íngin segir: með illvirkjum er
hann talinn.
29. Og þeir, sem fram hjá
geingu, atyrtu hann, skóku
höfuð sín og sögðu: svei,
það ert þú, sem ætlaðir
að niðurbrjóta musterið, og
byggja það upp aptur á þrem-
ur dögum!
30. Bjarga nú sjálfum þèr,
og stíg niður af krossinum!
31. Sömuleiðis hæddu höfuð-
prestarnir hann sín á milli,
ásamt hinum skriptlærðu og
sögðu: öðrum hjálpaði hann,
sjálfum sèr getur hann ekki
bjargað.
32. Stígi nú Gyðínga konúng-
urinn Kristur ofan af krossin-
um, svo vèr sjáum, og þá skul-
um vèr trúa honum. Líka
illmæltu honum þeir, er með
honum voru krossfestir.
33. En um sjöttu stundu
gjörði myrkur yfir alt land,
alt til ennar níundu stundar.
34. En um níundu stundu
kallaði Jesús hárri röddu og
sagði: Elóí, Elóí, lamma Sa-
bachthaní! það þýðir: Guð
minn, Guð minn, því hefir þú
yfirgefið mig?
35. En er nokkrir af þeim,
sem hjá stóðu, heyrðu það,
sögðu þeir: sjá, hann kallar
á Elías.
36. Hljóp þá einn til, fylti
njarðarvött með súrt vín, stakk
honum á reyrstaf, og gaf hon-
um að drekka, og mælti: lát-

um sjá, hvort Elías kemur að taka hann ofan.

37. En Jesús kallaði upp hástöfum, og gaf upp andann;

38. Og þá rifnaði musteris tjaldið sundur í tvent, frá ofanverðu og alt niður í gegn.

39. En er hundraðshöfðínginn, sem stóð gegnt honum, sá, að hann kallaði svo hátt, er hann lèzt, þá sagði hann: sannlega hefir þessi maður verið Sonur Guðs.

40. Konur nokkrar, er stóðu áleingdar, horfðu og á þetta; meðal þeirra var María frá Magdölum, og María móðir Jakobs ýngra og Jósesar, og Salóme.

41. Þessar köfðu verið í fylgd með honum, þegar hann var í Galílea, og þjónað honum; þar voru og margar aðrar konur, er farið höfðu með honum upp til Jerúsalem.

42. ¶ Og er kvöld var komið með því (það var aðfángadags kvöldið fyrir hvíldardaginn),

43. Þá kom Jósep af Arímatea, göfugur ráðherra, sem líka vænti eptir Guðs ríki; hann dirfðist að fara inn til Pílatusar og biðja hann um líkama Jesú.

44. En Pílatus furðaði sig á, að hann skyldi vera þegar látinn,

45. Og lèt því kalla hundraðshöfðíngjann fyrir sig og spurði hann, hvort hann væri fyrir laungu andaður. Og er hann var þess viss af hundraðshöfðíngjanum, gaf hann Jósep líkamann.

46. Keypti hann þá lín, tók líkið ofan, og sveipaði það í líninu, og lagði það í gröf, er höggvin var út í klett, velti síðan steini fyrir grafarmunnann.

47. En þær María frá Magdölum og María móðir Jósesar horfðu á, hvar líkið var lagt.

## 16. KAPÍTULI.

*Jesú upprisa og himnaför.*

ÞÁ er hvíldardagurinn var liðinn, keyptu þær María frá Magdölum og María Jakobs móðir og Salóme smyrsl til að smyrja með líkið.

2. Og mjög árla hinn fyrsta dag vikunnar fóru þær til grafarinnar; það var um sólar uppkomu.

3. Þær sögðu þá hver við aðra; hver mun velta fyrir oss steininum frá grafarmunnanum?

4. En er þær litu þángað, sáu þær, að steininum hafði verið velt burt, því hann var næsta mikill.

5. Geingu þær þá inn í gröfina, og sáu, hvar úngur maður sat hægra meginn, skrýddur

hvítum dragkyrtli, og hnykti þeim mjög við.

6. En hann sagði við þær: hræðizt eigi, þèr leitið að Jesú frá Nazaret, hinum krossfesta; hann er upp risinn og er ekki hèr. Þarna er staðurinn, þar sèm hann var lagður.

7. Farið heldur og segið lærisveinum hans og Pètri, að hann fari á undan yður til Galílea; þar munuð þèr sjá hann, eins og hann sagði yður.

8. Konurnar fóru þá út og flýðu frá gröfinni, en ótti og ofboð var yfir þær komið, og eingum sögðu þær frá neinu, því þær voru hræddar.

9. ¶ En er Jesús var upp risinn snemma morguns hinn fyrsta dag vikunnar, lèt hann María frá Magdölum, frá hverri hann hafði út rekið sjö djöfla, sjá sig fyrst.

10. Hún fór og kunngjörði þetta þeim, er með honum höfðu verið, sem voru harmandi og grátandi;

11. En þó þeir heyrðu, að hann lifði, og að María hefði sèð hann, trúðu þeir þó ekki.

12. ¶ En eptir þetta birtist hann í annarlegri mynd tveimur þeirra, þá þeir voru á gángi, og ætluðu út á landsbygðina;

13. Þessir fóru og sögðu það hinum öðrum, en þeir vildu heldur ekki trúa þeim.

14. ¶ Síðast lèt hann þá ellefu sjá sig, þá þeir sátu undir borðum, og bar hann þeim þá á brýn trúarleysi þeirra og hjartans harðúð, að þeir hefðu ekki viljað trúa þeim, er höfðu sèð hann upprisinn.

15. Og hann sagði þá við þá: farið út um allan heim, og kunngjörið gleðiboðskapinn allri skepnu.

16. Sá, sem trúir og verður skírður, mun hólpinn verða, en sá, sem ekki trúir, mun fordæmast.

17. En þessar dásemdir skulu fylgja þeim, er trúa: þeir skulu í mínu nafni djöfla út reka, tala nýum túngum, taka upp höggorma (að ósekju);

18. Ef þeir drekka eitthvað banvænt, þá skal það þeim ekki granda; yfir sjúka skulu þeir hendur leggja, og mun þeim þá batna.

19. ¶ Nú er drottinn hafði endað tal sitt við þá, varð hann uppnuminn til himins, og settist til Guðs hægri handar.

20. En þeir fóru út og kunngjörðu lærdóminn allstaðar, og var Drottinn í verki með þeim, og staðfesti lærdóminn með táknum, er honum fylgdu.

# LÚKASAR GUÐSPJALL.

## 1. KAPÍTULI.

*Formálinn; Gabríel boðar fæðíngu Jóhannesar og Guðs Sonar. María heimsækir Elísabet og vegsamar Guð; Jóhannes fæðist, Sakarías spáir, og Jóhannes vex upp.*

ÞAREÐ margir hafa tekið sèr fyrir hendur að færa þá hluti í frásögur, er oss eru fullkunnir,
2. Með því þeir menn hafa sagt oss þá, er frá öndverðu sjálfir voru sjónarvottar og þjónar orðsins;
3. Þá hefir mèr einnig sýnzt, eptir að eg hafði rannsakað öll þessi efni kostgæfilega frá rótum, að skrásetja þau í röð fyrir þig, göfugi Teófílus,
4. Svo þú hefðir óbrigðula vissu um, að það sè sannleikur, er þèr hefir kent verið.
5. ¶ Þegar Heródes konúngur rèði fyrir Gyðíngalandi, var þar prestur nokkur, er Sakarías hèt, af prestaflokki Abíasar; kona hans var komin af ætt Arons og hún hèt Elísabet;
6. Þau voru bæði ráðvönd í augliti Guðs, og breyttu í öllu óaðfinnanlega eptir boðum og skipunum Drottins.
7. Þau áttu ekki barna, því Elísabet var óbyrja, og bæði voru þau hnigin á efra aldur.
8. Einhverju sinni bar svo til, þá röðin kom til þess prestaflokks, sem hann var í, og hann skyldi gegna prestsverkum í musterinu,
9. Að honum hlotnaðist, eptir venju prestaþjónustunnar, að veifa reykelsinu; gekk hann þá inn í musteri Drottins,
10. En alt fólkið var fyrir utan á bæn meðan á reykelsisfórninni stóð.
11. Þá birtist honum eingill Drottins, sem stóð hægra meginn við reykelsis altarið;
12. Og er Sakarías sá hann, varð hann felmtursfullur og ótti fèll yfir hann.
13. En eingillinn sagði við hann: vertu óhræddur, Sakarías, því bæn þín er heyrð. Kona þín Elísabet mun fæða þèr son, og hann skaltu Jóhannes nefna;
14. Hann mun verða þèr til fagnaðar og gleði, og margir munu gleðjast yfir hans fæðíngu,
15. Því hann mun verða mikill í Guðs augum. Hann mun hvorki drekka vín nè áfeingan

drykk, og alt í frá móðurlífi mun hann fyllast Helgum Anda,

16. Og mörgum af Ísraels börnum mun hann snúa til Drottins Guðs þeirra.

17. Hann mun gánga fyrir hans augliti í Elíasar anda og krapti, svo að hann snúi hjörtum feðranna til barnanna, og komi inn hugarfari ráðvandra hjá hinum þverbrotnu, og tilreiði svo Drottni vel undirbúinn lýð.

18. Þá sagði Sakarías við eingilinn: hvað get eg haft til marks um þetta? því eg er maður gamall, og kona mín er hnigin á efra aldur.

19. Og eingillinn svaraði og sagði við hann: eg er Gabríel, sem stend frammi fyrir Guði, sendur að flytja þèr þessi gleðilegu tíðindi;

20. En sjá, þú munt mállaus verða og ekki fá talað, uns þetta kemur fram, vegna þess að þú efaðir orð mín, sem þó munu rætast á sínum tíma.

21. Á meðan beið fólkið eptir Sakarías, og undraðist, að honum dvaldist í musterinu.

22. En er hann kom út, gat hann ekki talað við þá; þóktist þá fólkið vita, að hann mundi sýn sèð hafa í musterinu, sem hann og lèt þá skilja í bendíngum, og hann var mállaus.

23. En er hans tíðaþjónusta var á enda, fór hann heim til sín.

24. En eptir þetta varð Elísabet kona hans með barni, og hèlt hún sig heima í fimm mánuði,

25. Og sagði: þannig hefir Drottinn farið með mig, þá hann vitjaði mín til að burttaka hneysu mína í augum manna.

26. En á sjötta mánuði sendi Guð Gabríel eingil í þá borg í Galílea, sem heitir Nazaret,

27. Til þeirrar meyar, er hèt María; hún var heitkona þess manns, sem Jósep hèt, af ætt Davíðs.

28. Og eingillinn kom inn til hennar og sagði: heil vert þú, sem nýtur náðar Guðs, þú hin sælasta allra kvenna!

29. En hún varð hrædd, er hún sá hann og heyrði orð hans, og tók að hugleiða, hvílík þessi kveðja væri.

30. Og eingillinn sagði við hana: hræðstu ekki, María, því hú hefir fundið náð hjá Guði.

31. Og sjá, þú munt barnshafandi verða og fæða sveinbarn; hann skaltu láta heita Jesús;

32. Hann mun mikill verða og kallast Sonur hins Hæsta; Drottinn mun gefa honum ríki Davíðs forföður síns,
33. Og hann mun ráða æfinlega yfir ætt Jakobs, og á hans ríki mun einginn endir verða.
34. Þá sagði María við eingilinn: hvernig má þetta ske, þar eg ekki hefi nokkurn mann kent?
35. Og eingillinn svaraði og sagði við hana: Heilagur Andi mun koma yfir þig, og kraptur hins Æðsta mun yfirskyggja þig, og þar fyrir mun það heilaga, sem af þèr fæðist, kallast Sonur Guðs.
36. Og sjá, Elísabet frændkona þín er einnig orðin hafandi að sveinbarni í elli sinni, og hún, sem álitin var óbyrja, er komin nú alt á sjötta mánuð;
37. Því Guði er einginn hlutur ómáttugur.
38. Þá mælti María: sjá, eg em ambátt Drottins; verði mèr eptir orðum þínum. Að svo búnu fór eingillinn í burtu frá henni.
39. Um þær mundir fór María skyndilega til fjallbygða, til borgar nokkurrar í Júdea,
40. Og kom í hús Sakaríasar, og heilsaði Elísabetu.
41. En svo brá við þegar Elísabet heyrði kveðju þessa, að barnið hrærðist í lífi hennar, og að hún uppfyltist Helgum Anda,
42. Kallaði hátt og mælti: blessuð ertu meðal kvenna, og blessað er það fóstur, er þú geingur með!
43. Hvaðan kemur mèr það, að móðir Drottins míns kemur til mín?
44. Því sjá, þegar kveðja þín kom mèr til eyrna, hrærðist barnið af gleði í lífi mèr;
45. Sæl ertu, sem trúðir, því það mun rætast, sem þèr er fyrirheitið af Drottni.
46. Þá sagði María: önd mín lofar Drottinn,
47. Og minn andi gleður sig í Guði, frelsara mínum.
48. Því að í náð sinni leit hann til auðvirðilegrar ambáttar sinnar, þess vegna munu mig allar aldir sæla prísa,
49. Því hinn voldugi hefir breytt dásamlega við mig;
50. Hans nafn er heilagt, og hans miskunsemi varir um aldur og æfi við þá, sem hann óttast.
51. Hans armleggur hefir þrek unnið, hinum dramblátu í hjarta sínu hefir hann stökt á dreif;
52. Konúngunum hefir hann

hrundið úr hásæti, en hafið
þá lítilmótlegu;
53. Húngruðum hefir hann
veitt als nægtir, en ríka hefir
hann látið snauða frá sèr fara.
54. Hann hefir að sèr tekið
sitt barn, Ísraels lýð, með því
að hann hefir minzt miskunar
þeirrar,
55. Er hann hèt að veita
feðrum vorum, Abraham og
niðjum hans, æfinlega.
56. En María dvaldi hjá
henni hèr um bil þrjá mánuði,
síðan fór hún heim til sín.
57. Nú er tími var kominn,
að Elísabet skyldi verða lètt-
ari, ól hún sveinbarn.
58. En er nágrannar hennar
og ættmenn heyrðu, hversu
mikla miskun Drottinn hafði
henni auðsýnt, samfögnuðu
þeir henni.
59. Síðan komu þeir á átt-
unda degi að umskera svein-
inn, og vildu kalla hann Sak-
arías eptir föður sínum;
60. En móðir hans svaraði og
sagði: eingan veginn, heldur
skal hann heita Jóhannes.
61. Þá sögðu þeir við hana:
einginn er þó í ætt þinni með
því nafni;
62. Bentu þeir síðan föður
hans, að hann lèti þá vita,
hvað hann vildi að sveinninn
hèti.
63. Hann beiddi um spjald,
og reit þar á: Jóhannes er
nafn hans; og furðaði alla á því.
64. Í þessu bili fèkk hann
aptur mál sitt, og tók hann
þá að tala og lofa Guð.
65. Ótti kom yfir alla ná-
granna hans og allir þessir
atburðir bárust út um allar
fjallbygðir Júdea;
66. Og öllum, sem þetta
heyrðu, varð það minnisstætt,
og sögðu: hvað mun þessi
sveinn verða? og Drottinn
hèlt hendi sinni yfir honum.
67. Og Sakarías faðir hans
fyltist Helgum Anda, spáði og
mælti:
68. Lofaður veri Drottinn,
Guð Ísraelsmanna, sem vitjaði
síns fólks, og frelsaði það,
69. Og vakti oss öflugt hjálp-
arhorn af ætt síns þjóns Da-
víðs,
70. Eins og hann í öndverðu
hèt fyrir sína helgu spámenn,
71. Að frelsa oss frá óvinum
vorum og undan valdi allra
vorra hatursmanna;
72. Að auðsýna feðrum vor-
um miskun, og minnast síns
heilaga sáttmála,
73. Eptir þeim eiði, er hann
vann forföður vorum Abraham,
að hann vildi unna oss,
74. Frelsuðum af valdi óvina
vorra, að þjóna sèr óttalaust,

75. Með heilagleika og rèttlæti um alla æfi vora.
76. Og þú, sveinn, munt kallast spámaður hins Hæzta, því þú munt verða fyrirrennari Drottins til að gjöra hans vegu greiða,
77. Og gefa hans fólki þekkíngu sáluhjálparinnar, með fyrirgefníngu syndanna,
78. Fyrir hjartgróna miskun Guðs vors, sem vèr eigum það að þakka, að oss er upprunnið ljós af hæðum,
79. Til að lýsa þeim, sem sitja í myrkrunum og dauðans skugga, til að stýra fótum vorum á friðarins veg.
80. En sveinninn vóx og styrktist í anda og var á eyðimörkum til þess tíma, er hann fram gekk fyrir Ísraels lýð.

## 2. KAPÍTULI.

*Jesús fæðist; er umskorinn; færður drottni til musterisins; er uppalinn í Nazaret; fer 12 ára til páskahátíðarinnar.*

EN það bar til um þessar mundir, að það boð kom frá Agústus keisara, að taka skyldi manntal um allan heim.
2. (Þetta manntal varð fyrst, þá Kýreníus var landshöfðíngi á Sýrlandi).
3. Fóru þá allir til manntals, hver til sinnar borgar.
4. Þá fór og Jósep frá Galílea úr borginni Nazaret upp til Júdea til borgar Davíðs, sem heitir Betlehem, því hann var af húsi og kynþætti Davíðs,
5. Til manntals, ásamt með Maríu heitkonu sinni, sem þá var með barni.
6. En svo bar við, á meðan þau dvöldu þar, að þeir dagar fullnuðust, að hún skyldi ala barnið;
7. Fæddi hún þá son sinn frumgetinn, vafði hann reifum og lagði hann í jötuna, því þau feingu ekki húsrúm í gestaherberginu.
8. En í því bygðarlagi voru fjárhirðarar, er vöktu úti um nóttina yfir hjörð sinni;
9. Og sjá, eingill Drottins stóð hjá þeim, og birta Drottins ljómaði í kríng um þá, urðu þeir við það næsta hræddir;
10. Og eingillinn sagði við þá: óttizt ekki, því eg flyt yður mikinn fögnuð, sem veitast mun öllu fólki;
11. Því í dag er yður frelsari fæddur, sem er Drottinn Kristur, í borg Davíðs,
12. Og hafið það til marks, að þèr munuð finna reifað barn liggjandi í jötunni.
13. Og jafnskjótt var þar hjá einglinum mikill fjöldi himneskra hersveita, sem lofuðu Guð og sögðu:

14. Dýrð sè Guði í upphæðum, friður á jörðu, og velþóknan yfir mönnunum.

15. Eptir að einglarnir voru farnir til himna, sögðu hirðararnir hver við annan: vèr skulum fara til Betlehem og sjá þenna atburð, sem Guð hefir oss kunngjört.

16. Síðan fóru þeir með skyndi, fundu Maríu og Jósep, og barnið liggjanda í jötunni;

17. En þegar þeir sáu barnið, skýrðu þeir frá því, er þeim hafði verið sagt um það,

18. Og undruðust allir, er heyrðu sögu þeirra.

19. En María geymdi öll þessi orð og hugleiddi þau með sèr.

20. Síðan snèru hirðararnir aptur, lofuðu Guð og vegsömuðu fyrir alt það, er þeir höfðu heyrt og sèð, eins og þeim hafði sagt verið.

21. Þegar liðnir voru átta dagar, þá hann skyldi umskerast, var hans nafn kallað JESÚS, eins og hann var kallaður af einglinum, aður en hann var getinn í móðurlífi.

22. En er þeirra hreinsunar tími var liðinn eptir Mósis lögum, fóru þau með hann til Jerúsalem til að færa hann Drottni,

23. (Eins og boðið er í lögmáli Drottins, að alt karlkyns, er fyrst fæðist af móðurlífi, skal vera Drottni helgað),

24. Og færa þá fórn, sem boðin er í lögmáli Drottins, tvær turtildúfur eða tvo dúfuúnga.

25. Og sjá, þá var í Jerúsalem sá maður, er Símeon hèt, hann var ráðvandur og guðrækinn, og vænti eptir huggun Ísraelsmanna, og Heilagur Andi var yfir honum.

26. Honum var birt það af Heilögum Anda, að hann skyldi ekki deya, fyrr en hann sæi Drottins smurða.

27. Símeon kom að Andans tillaðan í musterið, í því sama og foreldrarnir færðu þángað sveininn Jesúm, til að fara með hann eptir lögmálinu, eins og siður var til;

28. Og hann tók hann í fáng sèr, og lofaði Guð og sagði:

29. Lát þú nú, Drottinn, þjón þinn í friði fara, eins og þú hefir mèr heitið,

30. Þar eð eg hefi fengið að sjá hjálpræði þitt,

31. Sem þú hefir fyrir búið fyrir augliti allra þjóða,

32. Ljós til opinberunar heiðíngjum og vegsemdar þínum lýð Ísrael.

33. En Jósep og móðir hans

undruðust yfir því, er um hann var spáð.
34. Og Símeon blessaði þau og sagði við Maríu, móður hans: þessi er settur til að verða mörgum í Ísrael til falls og mörgum til viðreisnar, og til að verða það tákn, sem móti verður mælt,
35. (En sverð mun þína eigin sálu nísta) svo margra hjartans hugrenníngar verði opinberar.
36. Þar var og Anna spákona, dóttir Fanúels af ætt Assers, hún var þá hnigin á efra aldur, hafði verið sjö ár í hjónabandi með manni sínum, er fèkk hennar meyar;
37. Nú var hún ekkja, og hafði hèr um bil fjóra vetur um áttrætt. Hún var jafnan í musterinu, og þjónaði Guði nætur og daga með föstum og bænahaldi.
38. Hana bar þar að í því sama; lofaði hún Drottinn og talaði um hann við alla í Jerúsalem, sem frelsisins væntu.
39. Nú er þau höfðu lokið öllu, er lögmál Drottins bauð, snèru þau aptur til Galílea til borgar sinnar Nazaret.
40. En sveinninn vóx og styrktist í anda, fullur vizku, og Guðs náð var yfir honum.
41. Og foreldrar hans fóru hvert ár upp til Jerúsalem á páskahátíðinni.
42. Og þegar hann var tólf ára gamall, ferðuðust þau til Jerúsalem, eins og siður var til á hátíðinni.
43. Þegar hún var liðin, snèru þau aptur heimleiðis; en sveinninn Jesús varð eptir í Jerúsalem, svo Jósep og móðir hans urðu ekki vör við það;
44. En af því þau ætluðu, að hann mundi vera í flokki samferðamanna þeirra, fóru þau eina dagleið, og leituðu að honum meðal frænda og kunníngja.
45. Og þegar þau fundu hann ekki, snèru þau aptur til Jerúsalem, og leituðu hans þar;
46. Og eptir þrjá daga fundu þau hann í musterinu, sitjandi mitt á meðal lærifeðranna, hlýðandi á þá og syprjandi þá;
47. En alla, sem heyrðu, furðaði á skilníngi hans og andsvörum.
48. Og þau undruðust næsta, er þau sáu hann þar; og móðir hans sagði við hann: því breyttir þú svo við ekkur, sonur minn? faðir þinn og eg leituðum þín harmþrúngin.
49. Og hann sagði við þau: því hafið þið leitað að mèr?

vissuð þið ekki, að mèr ber að vera í því, sem míns Föður er?

50. En þau skildu ekki, hvað hann meinti.

51. Síðan fór hann með þeim til Nazaret, og var þeim hlýðinn. Og móðir hans geymdi öll þessi orð í hjarta sínu;

52. Og Jesús þroskaðist að vizku og aldri og náð hjá Guði og mönnum.

## 3. KAPÍTULI.

*Jóhannes skírir og kennir; er settur í myrkvastofu; skírir Jesúm. Ættartala Jesú.*

EN á fimtánda ríkisári Tiberíus keisara, þegar Pontsíus Pílatus var landshöfðíngi í Júdea, Heródes fjórðúngshöfðíngi í Galílea, en Filippus bróðir hans í Ítúrea og Trakonítis, og Lysanías í Abílene;

2. Þegar þeir Annas og Kaífas voru æðstu prestar; þá kom orð Guðs til Jóhannes Sakaríassonar í óbygðum,

3. Og hann fór um öll þau hèröð, er liggja við Jórdan, og prèdikaði iðrunarskírn til syndanna fyrirgefníngar,

4. Eins og segir í spádómsbók Esajasar, er hann kveður svo að orði: hrópandinn kallar í eyðimörku: tilbúið veg Drottni, beinið brautir hans;

5. Hvert dalverpi skal uppfyllast, og öll fjöll og hálsar lægjast; þeir enir krókóttu vegirnir skulu gjörast beinir, og þeir hrjóstugu slèttir,

6. Og hver maður mun geta sèð hjálpræði Guðs.

7. Þessvegna sagði hann við mannfjöldann, sem fór út til að skírast af honum: þèr, nöðrukyn, hver hefir sagt yður, að þèr getið umflúið tilkomandi reiði?

8. Berið því iðruninni samboðna ávexti. Segið ekki með sjálfum yður: vèr eigum Abraham fyrir föður; því eg segi yður, að Guð getur vakið Abrahami börn af steinum þessum.

9. En öxin er þegar reidd að rótum trjánna; hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, skal því upphöggvið verða og í eldinn kastað.

10. Þá spurði fólkið hann og sagði: hvað eigum vèr þá að gjöra?

11. En hann svaraði og sagði við þá: hver sem hefir tvo kyrtla, sá gefi annan, þeim sem eingan hefir; eins á sá að gjöra, sem matfaung hefir.

12. Þá komu og tollheimtumenn að skírast, og þeir sögðu við hann: meistari, hvað eigum vèr að gjöra?

13. En hann sagði við þá: krefjist ekki meira, en yður er boðið.

14. Líka spurðu stríðsmenn hann og sögðu: hvað eigum vèr þá að gjöra? Hann mælti: takið ekki fè af neinum með valdi eða prettum, heldur látið yður nægja yðar málagjald.

15. En þegar nú fólkið var farið að gjöra sèr í hugarlund, og allir voru teknir til að halda, að vera mætti, að Jóhannes væri Kristur,

16. Sagði hann öllum áheyrandi: eg skíri yður að vísu í vatni, en eptir mig mun koma sá, sem mèr er meiri, hvers skóþvengi eg er ekki verðugur að leysa. Hann mun yður skíra með Heilögum Anda og eldi.

17. Sína varpskúflu ber hann í hendi sèr, og með henni mun hann hreinsa sinn láfa; korninu mun hann safna í hlöðu, en hismið brenna í óslökkvanda eldi.

18. Margt annað fleira kendi hann fólkinu.

19. En vegna þess að Jóhannes hafði ávítað Heródes jarl, bæði sökum Heródíadis, konu bróður hans, og fyrir alt hið illa, sem Heródes hafði gjört,

20. Bætti Heródes því við alt hitt, að hann lokaði Jóhannes í myrkvastofu.

21. En svo bar við, þegar alt fólk lèt sig skíra, og Jesús var skírður og baðst fyrir að himininn opnaðist,

22. Og Heilagur Andi steig niður í líkamlegri mynd, eins og dúfa, yfir hann; þá heyrðist og rödd af himnum, er sagði: þú ert Sonur minn elskulegur; á þèr hefi eg velþóknun.

23. En sjálfur var Jesús hèr um þrítugur að aldri, þegar hann hóf að kenna, og var haldinn sonur Jóseps, sonar Elí;

24. Sonar Mattats, sonar Leví, sonar Melki, sonar Janna, sonar Jóseps;

25. Sonar Matatías, sonar Amos, sonar Naúms, sonar Eslí, sonar Naggaí;

26. Sonar Maats, sonar Matatías, sonar Símeí, sonar Jóseps, sonar Júda;

27. Sonar Jóhanna, sonar Hresa, sonar Sóróbabels, sonar Salatíels, sonar Nerí;

28. Sonar Melkí, sonar Addí, sonar Kósams, sonar Elmódams, sonar Ers;

29. Sonar Jóse, sonar Elíesers, sonar Jórims, sonar Mattats, sonar Leví;

30. Sonar Símeons, sonar

Júda, sonar Jóseps, sonar
Jónans, sonar Elíakims;
31. Sonar Melea, sonar Mainans, sonar Mattata, sonar Natans, sonar Davíðs;
32. Sonar Jessaí, sonar Obeds, sonar Bóos, sonar Salmons, sonar Naassons;
33. Sonar Amínadabs, sonar Arams, sonar Esroms, sonar Fares, sonar Júda;
34. Sonar Jakobs, sonar Ísaks, sonar Abrahams, sonar Tara, sonar Nakórs;
35. Sonar Sarúks, sonar Ragavs, sonar Faleks, sonar Ebers, sonar Sala,
36. Sonar Kainans, sonar Arfaxads, sonar Sems, sonar Nóa, sonar Lameks;
37. Sonar Matúsala, sonar Enoks, sonar Jareds, sonar Malaleels, sonar Kainans;
38. Sonar Enoss, sonar Sets, sonar Adams, sonar Guðs.

## 4. KAPÍTULI.

*Jesús er freistaður; hann kennir í Galílea og Nazaret; í Kapernaum, og læknar þar djöfulóðan, einninn teingdamóður Pèturs og fleiri sjúka.*

EN Jesús snèri aptur frá Jórdan, fullur af Heilögum Anda, og var leiddur af Andanum út á eyðimörku;
2. Hèr var hann í fjörutíu daga freistaður af djöflinum, og neytti einskis matar í þá daga, og er þeir voru liðnir, tók hann loksins að húngra.
3. Þá sagði djöfullinn við hann: ef að þú ert Guðs Sonur, þá bjóð þú, að steinn þessi verði að brauði.
4. Jesús svaraði og sagði við hann: skrifað er: maðurinn lifir ekki af brauði einu saman, heldur af sèrhverju Guðs orði.
5. Þar eptir fór djöfullinn með hann upp á hátt fjall, og sýndi honum þaðan á augabragði öll ríki veraldarinnar,
6. Og sagði: alt þetta veldi mun eg gefa þèr og vegsemd þess, því alt er mèr það í vald gefið, svo eg get gefið það, hverjum sem eg vil;
7. Skal alt þetta vera þín eign, ef þú fellur fram og tilbiður mig.
8. Jesús svaraði honum og sagði: Það er og skrifað: Drottinn Guð þinn skaltu tilbiðja, og honum einum þjóna.
9. Síðan færði djöfullinn hann til Jerúsalem, og setti hann upp á musteris bustina og mælti: ef þú ert Guðs Sonur, þá fleygðu þèr hèr ofan af;
10. Því það er ritað: Guð mun bjóða einglum sínum að gæta þín og bera þig á höndum sèr,

11. Svo að ekki steytir þú fót þinn við steini.

12. Jesús svaraði og sagði við hann: það er og sagt, að eigi skaltu freista Drottins Guðs þíns.

13. Og er djöfullinn hafði lokið þessum freistíngum, veik hann frá honum um hríð.

14. ¶ Síðan snèri Jesús í krapti Guðs Anda aptur til Galílea, og orðstír hans barst út um öll nærliggjandi hèröð;

15. Og hann kendi í samkunduhúsum þeirra, svo allir vegsömuðu hann;

16. ¶ Hann kom og til Nazaret, þar sem hann var upp alinn, og gekk á hvíldardeginum, eins og hann var vanur, í samkunduhúsið, og stóð upp til að lesa,

17. Og var honum feingin spádómsbók Esajasar; en er hann fletti upp bókinni, varð fyrir honum sá staður, þar sem þetta er skrifað:

18. Andi Drottins er yfir mèr, þessvegna hefir hann smurt mig til að flytja fátækum gleðilegan boðskap, sent mig til að boða herteknum lausn, blindum, að þeir fái sýn sína aptur, láta hina þjáðu lausa,

19. Og að kunngjöra, hið þóknanlega ár Drottins.

20. Síðan lèt hann aptur bókina, fèkk þjóninum, og settist niður, en allir, sem í samkunduhúsinu voru, störðu á hann;

21. Hóf hann þá mál sitt á þessa leið: í dag hefir þessi ritníng rætzt fyrir yðrum eyrum.

22. Lofuðu hann þá allir, og dáðust að þeim náðarríku orðum, sem fram gengu af munni hans, og sögðu: er ekki þessi sonur Jóseps?

23. Þá sagði hann við þá: vissulega munuð þèr heimfæra upp á mig máltækið: læknir, lækna sjálfan þig; vèr höfum heyrt, hvað þú hefir aðhafzt í Kapernaum; gjör þú nú hið sama hèr á ættjörð þinni.

24. En hann sagði: sannlega segi eg yður, að einginn spámaður er vel metinn á ættjörð sinni.

25. Eg segi yður það satt, að margar ekkjur voru meðal Ísraelsfólks á dögum Elíasar spámanns, þegar himininn var luktur í þrjú ár og sex mánuði, svo mikið óár var í öllu landinu;

26. En til eingrar þeirra var Elías sendur, nema til ekkjunnar í Sarepta hjá Sídon.

27. Margir voru og líkþráir meðal Ísraelsmanna á dögum Elíseusar spámanns, en eing-

inn þeirra varð læknaður,
nema Naaman Sýrlenzki.
28. En er þeir, sem í sam-
kunduhúsinu voru, heyrðu þett-
a, urðu þeir allir afarreiðir,
29. Risu upp, hröktu hann
út af borginni og leiddu hann
upp á nýpu fjalls þess, sem
borg þeirra var bygð á og
ætluðu að steypa honum þar
ofan fyrir,
30. En hann gekk burt mitt
á meðal þeirra, og fór þaðan.
31. Hèðan fór hann til Ka-
pernaumborgar í Galílealandi
og kendi þeim á hvíldardög-
unum,
32. Og undruðust þeir kenn-
íngu hans; því hann talaði af
myndugleika.
33. ¶ Í samkunduhúsinu var
maður nokkur, kvalinn af
óhreinum anda; hann kallaði
hástöfum,
34. Og sagði: æ, hvað þurfum
við að eigast við, Jesú frá
Nazaret? Ertu kominn til að
fyrirfara oss? eg veit, hver þú
ert, hinn Heilagi Guðs.
35. En Jesús hastaði á hann,
og sagði: þegi þú, og far þú
út af honum; þá hreif djöfull-
inn hann og kastaði honum
fram á meðal þeirra, yfirgaf
hann og gjörði honum ekki
mein.
36. Og felmtur kom yfir alla
og þeir sögðu hver við annan:
hvílík ræða er þetta, að hann
skipar óhreinum öndum með
myndugleika og valdi, og þeir
fara?
37. Barst þá orðstír hans út
um öll þau hèröð, er í grend
voru.
38. ¶ En hann stóð upp og
fór úr samkunduhúsinu inn í
hús Símonar; þar lá móðir
konu Símonar mjög sjúk af
köldu, og báðu þeir hann fyrir
hana.
39. Fór hann þá til hennar,
skipaði köldunni að hverfa
burt, og hvarf hún þá frá henn-
i; en hún fór þá jafnskjótt á
fætur og þjónaði þeim.
40. ¶ Þegar sól var setzt, færðu
menn til hans alla þá sjúk-
línga, er haldnir voru af ýmis-
legum veikindum; en hann
lagði hendur yfir sèrhvern
þeirra, og læknaði þá.
41. Djöflar fóru og út af
mörgum, æptu og sögðu: þú
ert Sonur Guðs; en hann
bannaði þeim að tala, því þeir
vissu, að hann var Kristur.
42. Undireins og dagaði, fór
hann út úr borginni í eyðistað
nokkurn, en fólkið leitaði hans
og kom til hans og lagði fast
að honum að fara ekki frá
þeim;
43. En hann sagði við þá:

mèr ber og að boða Guðs ríki
í hinum öðrum borgum; því
til þess er eg sendur.
44. Og hann kendi í sam-
kunduhúsunum í Galílea.

## 5. KAPÍTULI.

*Jesús kennir af skipinu; læknar einn líkþráan og fleiri; læknar limafalls sjúkan mann, og sannar þar með, að hann hafi vald til að fyrirgefa syndir; kveður Leví til að fylgja sér, og forsvarar, að hann eti með tollheimtumönnum; talar um föstu.*

EINHVERJU sinni bar svo
við, er fólkið þreyngdist
að honum til að heyra Guðs
orð, en hann stóð við vatnið
Genesaret,
2. Að hann leit tvö skip við
vatnið, en fiskimennirnir voru
farnir í land og voru að þvo
net sín,
3. Fór hann þá út á annað
skipið, sem Símon átti, og bað
hann leggja lítið frá landi;
settist hann þá niður og kendi
fólkinu af skipinu;
4. En er hann hætti að kenna,
sagði hann við Símon: legg
þú út á djúpið, og leggið net
yðar til fiskidráttar.
5. Og Símon svaraði og sagði
við hann: meistari, vèr höfum
setið í alla nótt og ekkert fisk-
að; en eptir þínu orði vil eg
leggja netið.
6. Þeir gjörðu svo; kom þá
svo mikill fiskur í netið, að
það rifnaði;
7. Þá bentu þeir fèlögum
sínum á hinu skipinu, að þeir
kæmu þeim til liðs; þeir komu
og sökkhlóðu bæði skipin.
8. En þegar Símon Pètur sá
þetta, fèll hann til fóta Jesú
og sagði: far þú frá mèr,
Herra, því eg er maður synd-
ugur;
9. Því felmtur var kominn
yfir hann og alla þá, sem með
honum voru, af þeim mikla
afla, sem þeir höfðu feingið;
10. Eins yfir Jakob og Jó-
hannes, Sebedeussonu, sem
voru fèlagar hans. Þá sagði
Jesús við Símon: óttast þú
ekki, hèðan í frá skaltu menn
veiða.
11. Drógu þeir síðan skip sín
á land, yfirgáfu alt og fylgdu
honum.
12. ¶ Einhverju sinni bar svo
við, þá hann var í borg nokk-
urri, að líkþrár maður var
þar; en sem hann sá Jesúm,
fèll hann fram á ásjónu sína, og
bað hann og mælti: ef þú vilt,
Herra, getur þú læknað mig.
13. Jesús rètti út höndina,
hrærði við honum og mælti:
eg vil, vertu heilbrigður; og
jafnskjótt hvarf líkþráin frá
honum.
14. Frá þessu bannaði Jesús
honum að segja nokkrum
manni; heldur far og sýn þig

prestinum, og fær fórn fyrir hreinsun þína, eins og Móses hefir boðið, þeim til sanninda-merkis.

15. En orðstír hans útbreiddist meir og meir, og fjöldi fólks kom saman til að heyra kenníngu hans, og til að læknast af honum af sjúkleikum sínum;

16. ¶ En sjálfur veik hann til eyðistaða, og var þar á bæn.

17. Svo bar við á einum degi, er hann kendi, og þar sátu Farísear og löglærðir, er komnir voru úr öllum þorpum í Galílea, Júdea og frá Jerúsalem, og kraptur Drottins auðsýndi sig í að lækna þá (hina sjúku),

18. ¶ Að þar komu nokkrir menn, er báru limafallssjúkan mann á sæng. Þeir leituðust við að bera hann inn, og leggja hann fram fyrir Jesúm;

19. Og þegar þeir, vegna mannfjöldans, ekki vissu, hvar þeir áttu að bera hann inn, fóru þeir upp á þakið, og lètu hann síga niður gegnum það í sænginni frammi fyrir Jesú;

20. Og er hann sá trú þeirra sagði hann: maður, syndir þínar eru þèr fyrirgefnar.

21. Þá tóku hinir skriptlærðu og Faríseanir að hugsa með sèr og sögðu: hver er þessi, sem guðlastar? hver getur fyrirgefið syndirnar nema Guð einn?

22. En þegar Jesús varð var við hugsanir þeirra, sagði hann við þá: hvað er það, sem þèr hugsið í hjörtum yðar?

23. Hvort er auðveldara að segja: þèr eru þínar syndir fyrirgefnar? eða: statt upp og gakk?

24. En til þess þèr vitið, að Mannsins Sonur hefir vald á jörðu til að fyrirgefa syndirnar, þá sagði hann við hinn limafallssjúka: eg býð þèr, statt upp og tak sæng þína og far heim til þín.

25. Fór hann þá jafnskjótt á fætur, svo allir sáu, tók það, sem hann hafði legið á, og fór til húss síns, og lofaði Guð.

26. Og allir urðu frá sèr numdir, og vegsömuðu Guð óttafullir, og sögðu: óvenjulegir hlutir eru það, sem vèr höfum sèð í dag.

27. ¶ Síðan fór hann burt; þá sá hann tollheimtumann, er sat hjá búð sinni, Leví að nafni;

28. Og sagði við hann: fylg þú mèr! og hann yfirgaf alt, fór og fylgdi honum.

29. Og Leví bjó honum veizlu mikla í húsi sínu, var þar að

boði margt tollheimtumanna og annara.

30. Og hinir skriptlærðu þeirra og Farísearnir mögluðu við lærisveina hans og sögðu: því hafið þèr samneyti við tollheimtumenn og bersynduga?

31. Jesús svaraði og sagði við þá: heilbrigðir þurfa ekki læknis við, heldur þeir, sem vanheilir eru;

32. Eg er ekki kominn að kalla rèttláta, heldur synduga til apturhvarfs.

33. ¶ En þeir sögðu við hann: því fasta lærisveinar Jóhannesar optlega og eru á bænum, eins lærisveinar Faríseanna, en þínir eta og drekka?

34. Jesús sagði við þá: getið þèr fengið brúðkaupsgestina til að fasta, meðan brúðguminn er með þeim;

35. En sá tími mun koma, að brúðguminn verður tekinn frá þeim, og þá munu þeir fasta.

36. ¶ En hann sagði þeim líka þessa dæmisögu: einginn leggur nýa bót á gamalt fat, því annars rífur nýa bótin gamla fatið, og hið nýa sambýður ekki hinu gamla.

37. Og einginn lætur nýtt vín í gamla belgi, annars rífur hið nýa vínið gömlu belgina, og það fer niður og belgirnir spillast;

38. Heldur ber að láta nýtt vín á nýa belgi, og varðveitist þá hvortveggja.

39. Og enginn, sem drekkur gamalt vín, vill undireins drekka nýtt vín, því hann segir: hið gamla er betra.

## 6. KAPÍTULI.

*Lærisveinar Jesú týndu kornöx á hvíldardegi; Jesús læknar mann handarvisinn; er á bæn, útvelur þá tólf postula og læknar; kennir, hverjir sælir sèu, og um miskun í dómum; kennir, að hugarfarið þekkist af verkunum.*

EN það bar við á hvíldardegi þeim, sem fyrstur er eptir páska, að hann fór yfir akurlönd nokkur; reyttu þá lærisveinar hans kornöx nokkur, nèru þau með höndum sínum og átu;

2. En þá sögðu nokkrir af Faríseunum við þá: hví hafizt þèr það að, sem ekki er leyfilegt á hvíldardögum?

3. Jesús svaraði og sagði við þá: hafið þèr ekki lesið, hvað Davíð gjörði, þegar hann húngraði og menn hans?

4. Að hann fór í Guðs hús, tók brauðin helgu, át þau sjálfur, og gaf fylgdarmönnum sínum; en þessi brauð mátti einginn eta, nema prestarnir.

5. Og enn framar sagði hann: Mannsins Sonur er líka herra hvíldardagsins.

6. En á öðrum hvíldardegi bar svo við, að hann kom í samkunduhús þeirra og kendi; var þar þá maður nokkur, sem hafði ena hægri hönd visna;

7. En Farísear og enir skriptlærðu gáfu gætur að, hvort hann læknaði á hvíldardegi, svo þeir feingi tilefni til að ásaka hann.

8. En Jesús vissi hvað þeir hugsuðu og sagði við manninn, sem visna hafði höndina: statt á fætur, og kom þú fram híngað. Maðurinn stóð upp og kom.

9. Þá sagði Jesús við þá: eg vil spyrja yður, hvort er heldur leyfilegt að gjöra á hvíldardögum gott eður ilt; að frelsa líf manns eður að fyrirfara því?

10. Þá hann hafði litið í kríng til allra, er við voru, sagði hann við manninn: rèttu fram hönd þína! Hann gjörði svo, og varð hún þá jafnheil sem hin.

11. En þeir urðu afarreiðir, og báru saman ráð sín um, hvað þeir skyldu gjöra við Jesúm.

12. En svo bar við, að hann um þessar mundir fór upp á eitt fjall, til að biðjast fyrir, og var þar alla nóttina á bæn til Guðs.

13. ¶ En er dagur kom, kallaði hann til sín lærisveina sína, og valdi tólf af þeim, sem hann kallaði postula;

14. Þessir voru: Símon, sem hann kallaði Pètur, og Andrès bróðir hans, Jakob og Jóhannes, Filippus og Bartólómeus;

15. Matteus og Tómas, Jakob Alfeusson, og Símon, sem kallaðist vandlætari;

16. Júdas Jakobsson og Júdas Ískariot, sem síðan sveik hann.

17. ¶ Með þeim fór hann niður af fjallinu, og nam staðar á velli nokkrum; var þar þá með honum fjöldi af lærisveinum hans og miklar sveitir fólks úr öllu Júdea og Jerúsalem og frá sjáfarbygðinni hjá Týrus og Sídon,

18 Sem komnar voru til að heyra hann, og til að læknast af sjúkdómum sínum, og þeir er þjáðir voru af óhreinum öndum.

19. Urðu þeir allir heilbrigðir, og alt fólkið leitaðist við að snerta hann, því kraptur gekk út frá honum, sem læknaði þá alla.

20. ¶ Jesús leit þá yfir lærisveina sína og sagði: Sælir eruð þèr, fátækir; því yðar er Guðs ríki.

21. Sælir eruð þèr, sem nú líðið húngur; þèr skuluð saddir verða; sælir eruð þèr, sem nú grátið; því þèr munuð hlæa.

22. Sælir eruð þèr, nær menn hatast við yður, útskúfa, lastmæla og bera út um yður óhróður, eins og illræðismenn, vegna Mannsins Sonar:

23. Fagnið þá og verið glaðir, því sjá, laun yðar eru mikil á himnum; því þannig breyttu forfeður þeirra við spámennina.

24. En vei yður, þèr ríku; því þèr hafið úttekið yðar huggun.

25. Vei yður, þèr söddu; því þèr munuð húngur líða. Vei yður, sem nú hlæið; því þèr munuð sýta og gráta.

26. Vei yður, nær mennirnir hæla yður; því eins gjörðu forfeður þeirra við falsspámennina.

27. ¶ En yður býð eg, er orð mín heyrið: elskið óvini yðar, gjörið þeim gott, sem hata yður;

28. Blessið þá, sem yður bölva, og biðjið fyrir þeim, er yður gjöra órètt.

29. Slái nokkur þig á aðra kinn þína, þá bjóð þú honum hina; og ef einhver tekur frá þèr yfirhöfn þína, þá meinaðu honum ekki að taka kyrtil þinn.

30. En gef þú hverjum, sem biður þig, og ef einhver tekur frá þèr það, sem þitt er, þá kref þú þess ekki aptur.

31. Og eins og þèr viljið að mennirnir breyti við yður, eins eigið þèr og að breyta við þá.

32. Því þó þèr elskið þá, sem yður elska, hvaða þökk eigið þèr skilið fyrir það? því bersyndugir elska einnig þá, sem þá elska;

33. Og þó þèr gjörið þeim gott, sem yður gjöra gott, hvaða þökk eigið þèr skilið fyrir það? því bersyndugir gjöra hið sama.

34. Og þó þèr lánið þeim, sem þèr búizt við að fá endurgjald hjá, hvaða þökk eigið þèr skilið fyrir það? því bersyndugir lána líka sínum líkum, svo þeir fái fult aptur.

35. Þèr þar í mót eigið að elska óvini yðar, gjöra gott og lána, án þess að vænta nokkurs aptur; þá mun umbun yðar verða mikil, og þèr munuð vera börn hins Hæsta, sem gjörir gott bæði vondum og vanþakklátum.

36. Verið því miskunsamir, eins og Faðir yðar og er miskunsamur.

37. Og dæmið ekki svo þèr

verðið ekki dæmdir. Sakfellið
eigi, svo að þèr eigi verðið
sakfeldir. Fyrirgefið, þá mun
yður fyrirgefið verða.
38. Gefið, svo mun yður gef-
ast; góður mælir, troðinn,
skekinn og fleytifullur mun
yður gefin verða; því með
sama mæli og þèr mælið öðr-
um, mun yður aptur mælt
verða.
39. En hann sagði þeim
dæmisögu: Hvort fær blindur
vísað blindum veg? munu þeir
ekki báðir falla í gryfju?
40. Lærisveinninn er ekki fyr-
ir sínum lærimeistara, en sá,
sem er fullnuma, er eins og
lærimeistari hans.
41. Hvernig fær þú sèð flís-
ina í auga bróður þíns, en
gætir ekki þess bjálkans, sem
er í þínu eigin auga?
42. Eður hvernig fær þú
sagt við hann: bróðir, lát þú
mig taka flísina úr auga þèr,
meðan þú gefur ekki gaum
að bjálkanum í þínu eigin
auga? Þú, hræsnari, drag þú
fyrst bjálkann úr þínu eigin
auga, og sjáðu síðan til, að
þú fáir dregið flísina úr auga
bróður þíns.
43. Því það er ekki gott trè,
sem ber slæma ávexti; ekki
heldur er það slæmt trè, sem
ber góða ávexti;
44. Því sèrhvert trè þekkist
af sínum ávexti; því ekki lesa
menn fíkjur af þyrnum eður
vínber af þistlum.
45. Góður maður fram ber
gott úr góðum sjóði hjarta
síns, en illur maður fram
ber ilt úr vondum sjóði síns
hjarta; því af gnægð hjartans
mælir munnurinn.
46. ¶ En því kallið þèr mig
Herra, og gjörið þó ekki það
sem eg býð yður?
47. Eg vil segja yður, hverj-
um sá er líkur, sem kemur til
mín og heyrir mín orð og
breytir eptir þeim:
48. Hann er líkur manni
þeim, er bygði sèr hús, gróf
djúpt fyrir, og grundvallaði
það á kletti; nú er vatnsflóð
kom, skall straumurinn á
þessu húsi, en fèkk hvergi
hrært það, því það var grund-
vallað á kletti.
49. En sá er heyrir mín orð
og breytir ekki eptir þeim,
hann er líkur manni þeim, er
bygði sèr hús á jarðvegi, en
hafði einga undirstöðu; þegar
straumarnir skullu á því, fèll
það þegar, og þess hrun varð
mikið.

## 7. KAPÍTULI.

*Jesús læknar þjón hundraðshöfðíngja nokkurs; endurlífgar son einnar ekkju; talar við lærisveina Jóhannesar um sjálfan sig; við fólkið*

*um Jóhannes og þjóðarinnar vantrú; forsvarar sjálfan sig, og afleysir bersynduga konu.*

ÞEGAR Jesús hafði lokið þessari ræðu í áheyrn lýðsins, fór hann inn í Kapernaum.
2. En þjón hundraðshöfðíngja nokkurs lá sjúkur, að kominn dauða, sem honum var næsta kær.
3. Þessi maður hafði heyrt af Jesú, og sendi til hans öldúnga Gyðínga, og bað hann koma til sín, og lækna þjón sinn.
4. En þegar þeir komu til Jesú, beiddu þeir hann alúðlega og sögðu: hann er þess verður, að þú veitir honum þetta;
5. Því hann elskar þjóð vora, og hefir bygt handa oss samkunduhúsið.
6. Jesús fór með þeim; en er hann átti skamt eitt til hans, sendi hundraðshöfðínginn vini sína og lèt segja honum: ómaka þig ekki, Herra, því eg er ekki verðugur, að þú komir í hús mitt;
7. Þar fyrir hefi eg ekki heldur álitið sjálfan mig verðan að koma til þín; heldur mæl þú eitt orð, og mun þjón minn heill verða.
8. Því eg, sem er sjálfur yfirvaldi undirgefinn, hefi að ráða fyrir stríðsmönnum, og nær eg býð þessum að fara, þá fer hann, og hinum að koma, þá kemur hann, og þræli mínum að vinna þetta eður hitt, þá vinnur hann það.
9. En þegar Jesús heyrði þetta, furðaði hann á þessum manni, og snèrist að þeim, sem með honum voru, og mælti: sannlega segi eg yður, slíka trú hefi eg ekki fundið, jafnvel meðal Ísraelsmanna.
10. En þeir snèru aptur heim, er sendir voru, og fundu þjóninn, er sjúkur hafði verið, heilan heilsu.
11. ¶ Daginn eptir bar svo við, að hann fór til borgar þeirrar, sem heitir Nain; voru þá í ferð með honum margir af lærisveinum hans og fjöldi fólks.
12. Nú er hann kom að borgarhliðinu, stóð svo á, að þar var borinn út dauður maður; hann var einka sonur móður sinnar og hún var ekkja; fylgdi henni fjöldi bæarmanna.
13. Þegar Drottinn sá hana, kendi hann í brjósti um hana, og sagði: grát þú ekki!
14. Síðan gekk hann nær, og hrærði við líkbörunum, en þeir, sem báru, stóðu við. Þá sagði hann: eg býð þèr, þú úngi maður, að þú rísir upp.

15. Þá settist sá upp, er
dauður var, og tók að mæla;
og hann gaf hann aptur móð-
ur sinni. Við þetta kom ótti
yfir alla;
16. Vegsömuðu þeir Guð og
sögðu: spámaður mikill er ris-
inn upp meðal vor, Guð hefir
litið í náð sinni til síns lýðs.
17. En þessi fregn um hann
barst út um alla Júdeu og öll
þau hèröð, er í grend voru.
18. Og lærisveinar Jóhann-
esar sögðu honum frá öllu
þessu;
19. ¶ Kallaði þá Jóhannes á
einhverja tvo af þeim, sendi
þá til Jesú, og lèt spyrja hann:
ert þú sá, sem á að koma, eða
eigum vèr að vænta annars?
20. En þegar þeir komu til
hans sögðu þeir: Jóhannes
skírari sendi okkur til þín, og
lèt spyrja: ert þú sá, sem á
að koma, eða eigum vèr að
vænta annars?
21. En svo stóð á, er þeir
komu, að Jesús var að lækna
marga, er þjáðir voru af sjúk-
dómum og meinsemdum og
af illum öndum, og mörgum
blindum gaf hann aptur sýn
þeirra.
22. Og Jesús svaraði og sagði
við þá: farið þið, og segið Jó-
hannesi, það sem þið hafið sèð
og heyrt; blindir fá sýn, halt-
ir gánga, líkþráir hreinsast,
daufir heyra, dauðir upprísa
og fátækum er evangelium
boðað;
23. Og sæll er sá, sem ekki
hneykslast á mèr.
24. ¶ Þegar sendimenn Jó-
hannesar voru burtu farnir,
hóf Jesús að tala til fólksins
um Jóhannes á þessa leið:
hvað var það, sem þèr fóruð í
óbygðir að sjá? var það reyr
af vindi skekinn?
25. Hvað fóruð þèr að sjá?
var það maður mjúkklæddur?
sjá, þeir, sem í skraut eru
búnir og í sælgæti lifa, eru í
konúnganna höllum.
26. Eða hvað fóruð þèr þá að
sjá? var það spámaður? já,
eg segi yður satt, þann, sem
spámanni er meiri;
27. Hann er sá, sem þetta er
ritað um: sjá, eg sendi eingil
minn undan þèr, er greiða
skuli veg þinn.
28. Því eg segi yður: einginn
er sá af konu fæddur, er meiri
sè en Jóhannes skírari; þó er
hinn minsti í Guðs ríki hon-
um meiri.
29. Og öll alþýða og toll-
heimtumenn, er hlýddu hans
kenníngu, viðurkendu Guðs
ráðstöfun, er þeir lètu skírast
af honum;
30. En Farísear og hinir

skriptlærðu einskisvirtu Guðs ráðstöfun á sèr, og lètu ekki skírast af honum.

31. ¶ Við hvað skal eg þá samlíkja þessarar aldar mönnum, eður hverju eru þeir líkir?

32. Líkir eru þeir börnum, sem á torgi sitja og kallast á og segja: vèr blèsum fyrir yður á hljóðpípu, en þèr vilduð ekki dansa; vèr þuldum yður sorgartölur, en þèr vilduð ekki gráta.

33. Því Jóhannes skírari kom, át ekki brauð og drakk ekki vín, og þèr segið: hann er djöfulóður.

34. Mannsins Sonur er kominn og etur og drekkur, og þèr segið: sjáið mathákinn og vínsvelginn, vin tollheimtumanna og bersyndugra!

35. En spekin rèttlætist af öllum börnum sínum.

36. ¶ En einn af Faríseum bauð honum til matar; kom hann og settist undir borð;

37. En sjá, þar í bænum var kona nokkur bersyndug; þegar hún varð þess vís, að hann sat yfir borðum í húsi Faríseans, kom hún með smyrslakrús úr alabastri,

38. Stóð á baka til við fætur hans og grèt og tók til að væta fætur hans með tárum sínum, þerraði þá með hári sínu, kysti þá og smurði með smyrslunum.

39. En er Faríseinn, sem honum hafði boðið, sá þetta, talaði hann við sjálfan sig og sagði: ef þessi maður væri spámaður, þá vissi hann, hvaða kona það er, sem hrærir við honum, að hún er bersyndug.

40. Og Jesús svaraði og sagði við hann: Símon, eg hefi nokkuð að segja þèr. Hann mælti: seg þú það, meistari.

41. Jesús mælti: lánardrottinn nokkur átti tvo skuldunauta; annar þeirra skuldaði honum fimm hundruð peninga, en hinn fimmtíu.

42. Nú er þeir áttu ekkert til að lúka með þessar skuldir, gaf hann þær báðum upp. Hvor þeirra heldur þú nú að elski hann meira?

43. En Símon svaraði og sagði: eg hygg, að sá muni elska hann meira, sem hann gaf upp stærri skuldina. Jesús sagði: þú ályktaðir rètt;

44. Snèrist síðan að konunni og sagði við Símon: sèr þú konu þessa? eg kom í hús þitt, og þú gafst mèr ekki vatn að þvo í fætur mína, en hún vætti þá með tárum sínum og þerraði þá með hári sínu.

45. Ekki mintist þú við mig, en frá því eg kom hèr, hefir hún ekki hætt að kyssa fætur mína.

46. Ekki smurðir þú höfuð mitt með viðsmjöri, en hún hefir smurt fætur mína með smyrslum.

47. Vegna þessa segi eg þèr það, að hennar mörgu syndir eru henni fyrirgefnar, með því hún elskaði svo mikið; en þeim sem lítið er fyrirgefið, hann elskar lítið.

48. Síðan sagði hann við konuna: þèr eru þínar syndir fyrirgefnar.

49. Þá tóku þeir, sem til borðs sátu með honum, að segja sín á milli: hver er þessi, sem fyrirgefur jafnvel syndirnar.

50. En hann sagði við konuna: trú þín hefur frelsað þig; far þú í friði.

## 8. KAPÍTULI.

*Jesús ferðast um kríng og prédikar, framsetur dæmisöguna um sáðmanninn; um ljósið; segist meta sína tilheyrendur sem náskylda ættíngja; kyrrir vind og sjó; útrekur djöfla, læknar blóðfallssjúka konu og uppvekur dóttur Jairusar.*

SÍÐAN fór hann borg úr borg og þorp úr þorpi, og kendi þeim, og flutti lærdóminn um Guðs ríki;

2. Voru þá með honum þeir tólf og konur nokkrar, er hann hafði læknað af illum öndum og öðrum sjúkleikum; það vóru þær María frá Magdölum, frá hverri sjö illir andar höfðu út farið,

3. Og Jóhanna, kona Kúsa, ármanns Heródesar, Súsanna og margar aðrar, sem veittu honum af eignum sínum.

4. ¶ Nú er margt fólk var saman komið, og fjöldi úr stöðunum var farinn út til hans, sagði hann þeim þessa dæmisögu:

5. Sáðmaður nokkur fór að sá akur sinn; en er hann var að sá, fèll sumt sæðið við veginn og varð fótum troðið, og átu fuglar himins það.

6. Sumt fèll í grýtta jörð, og er það óx, skrælnaði það, því það vantaði vökva;

7. Sumt fèll meðal þyrna, uxu þeir upp með og kæfðu það;

8. En sumt fèll í góða jörð, óx upp og bar hundraðfaldan ávöxt. Þegar hann sagði þetta, kallaði hann hátt og mælti: hver sem hefir eyru að heyra með, hann heyri.

9. Síðan spurðu lærisveinar hans, hvað þessi dæmisaga ætti að þýða.

10. En hann sagði: yður er unt að skilja leynda lærdóma Guðs ríkis; hinum öðrum

kenni eg í dæmisögum, svo að sjáandi sjái þeir ekki og heyrandi skilji þeir ekki.
11. En þessi er útskýríng dæmisögunnar: Sæðið merkir Guðs orð;
12. En það, sem fèll við veginn, þýðir þá, sem nema það; síðan kemur djöfullinn og tekur það burt úr hugskotum þeirra, svo að þeir ekki skuli trúa og verða hólpnir.
13. En það, sem fèll í grýtta jörð, merkir þá, sem heyra orðið og taka við því með fögnuði, en vegna þess þeir hafa ekki rætur, trúa þeir að eins um stundar sakir, en falla frá á tímum freistínganna.
14. En það sæðið, er meðal þyrna fèll, merkir þá, sem heyra (orðið), en af því þeir lifa í áhyggjum, auðæfum og girndum þessa lífs, kefjast þeir og bera ekki fullkominn ávöxt.
15. En það, er fèll í góða jörð, merkir þá, er heyra orðið, geyma það í góðu og siðsömu hjarta, og bera ávöxt með stöðuglyndi.
16. ¶ En einginn kveykir ljós og skýlir því með keri, eður setur það undir bekk, heldur setja menn það í kertastiku, svo þeir, sem inn koma, sjái ljósið.
17. Því ekkert er svo hulið, að það verði ekki opinbert, eða svo heimuglegt, að ekki verði það kunnugt og komi í ljós.
18. Gefið því gaum að, hversu þèr hlýðið minni kenníngu; því sá sem hefir, honum mun gefið verða; en sá sem ekki hefir, frá honum mun tekið verða, einnig það sem hann ætlar sig hafa.
19. ¶ En móðir hans og bræður komu til hans, en gátu ekki náð fundi hans vegna fólksfjöldans;
20. Þá var honum sagt, að móðir hans og bræður stæðu fyrir dyrum úti og vildu finna hann.
21. En hann svaraði og sagði við þá: móðir mín og bræður mínir eru þeir, sem heyra Guðs orð og breyta eptir því.
22. ¶ Svo bar við einhvern dag, að hann steig á skip, og lærisveinar hans; segir hann þá við þá: látum oss fara yfir um vatnið.
23. Lètu þeir þá frá landi; en á leiðinni sofnaði hann. Þá kom hvirfilvindur á vatnið, svo skipið fylti undir þeim, og voru þeir þá nauðulega staddir;
24. Fóru þeir þá og vöktu hann, og sögðu: meistari, vèr

förumst. En hann reis upp,
hastaði á storminn og sjáfar-
ólguna, svo hún sefaðist, og
gjörði logn.
25. Síðan sagði hann við þá:
hvar er nú trú yðar? En þeir
urðu hræddir, og undruðust
þetta, og sögðu sín á milli:
hver er þessi, er hann býður
bæði vindi og sjó, og þeir
hlýða honum?
26. ¶ Síðan lentu þeir við hèr-
að Gadaramanna, sem liggur
hinumegin gagnvart Galílea.
27. En er hann steig á land,
kom á móti honum maður
nokkur úr borginni, sem láng-
an tíma hafði verið djöfulóður.
Hann klæddist ekki fötum, og
var ekki í húsum, heldur í
gröfum dauðra manna.
28. En þegar hann sá Jesúm,
hrein hann, fèll fram fyrir hann
og sagði með hárri raustu:
hvað höfum við saman að
sælda, Jesú, Sonur hins æðsta
Guðs? Eg bið þig, kvel þú
mig ekki!
29. Því Jesús bauð hinum
óhreina anda að fara út af
honum. Því að í lánga tíma
hafði þessi andi kvalið hann;
hann hafði verið bundinn viðj-
um og fjötrum og hafður í
gæzlu, en hann hafði slitið af
sèr fjötrin og hlaupið í djöful-
æði í óbygðir.
30. En Jesús spurði hann og
sagði: hvað heitir þú? hann
sagði: Legíó; því margir djöfl-
ar voru í hann farnir.
31. Síðan bað hann Jesúm
að skipa þeim ekki í undir-
djúpið;
32. En þar var stór svínahjörð
á beit í fjallinu, og beiddu þeir
Jesúm leyfis að fara í þau, og
lèt hann það eptir þeim.
33. En djöflarnir fóru út af
manninum, og í svínin, ærðist
þá hjörðin, og steypti sèr ofan
fyrir þverhnýpi í sjóinn, og
drukknaði.
34. Þegar hjarðsveinarnir sáu
þetta, flýðu þeir, og sögðu frá
því bæði í borginni og þar í
bygðarlaginu;
35. Fóru þá borgarmenn út
að sjá þenna atburð, og komu
til Jesú, og fundu manninn,
af hverjum djöflarnir höfðu
út farið, sitjandi klæddann og
heilvita við fætur hans; urðu
þeir þá felmtursfullir.
36. En þeir, sem horft höfðu
á þetta, sögðu þeim frá, hvern-
inn sá djöfulóði hefði orðið
heill heilsu sinnar.
37. ¶ Bað þá mannfjöldinn
úr hèröðunum hjá Gadara, að
hann færi burt frá þeim, því
þeir voru orðnir næsta hrædd-
ir. Steig hann nú á skip og
fór aptur yfir um.

38. Beiddist þá maðurinn,
sem djöflarnir höfðu farið út
af, að hann mætti vera með
honum; en Jesús lèt hann frá
sèr, og mælti:
39. Far þú aptur heim til
þín, og seg þú frá, hversu
mikið Guð hafi gjört við þig.
Hann fór og kunngjörði í
allri borginni, hve mikið Jes-
ús hafði við hann gjört.
40. En svo bar við, þegar
Jesús kom aptur, að fólks-
fjöldinn tók vel við honum, því
allir höfðu vænt hans.
41. ¶ Þá kom maður nokk-
ur, Jairus að nafni, hann var
forstöðumaður samkunduhúss-
ins; hann fèll til fóta Jesú
og bað hann koma heim til
sín;
42. Því einkadóttir hans, hèr
um bil 12 vetra, var að komin
dauða. Á veginum þreyngdist
fólkið að honum,
43. ¶ Og var þar kona sú,
er haft hafði blóðfall í tólf
ár, og varið allri eigu sinni
til lækna, og gat þó einginn
læknað hana.
44. Hún kom að baki honum
og hrærði við faldi klæða hans;
stiltist þá jafnskjött blóðlát
hennar.
45. Og Jesús sagði: hver var
það, sem snerti mig? Þegar
allir synjuðu þess, sagði Pètur
og þeir sem með honum voru:
meistari, fólkið þreyngist og
treðst að þèr, og þú spyr, hver
hafi snortið þig.
46. En Jesús sagði: einhver
snart mig, því eg fann krapt
út af mèr gánga.
47. Nú er konan sá, að hún
fèkk ekki dulizt, kom hún
skjálfandi, fèll til fóta honum
og sagði frá, svo allur lýðurinn
heyrði, hvers vegna hún hefði
snortið hann og hvernig hún
hefði jafnskjótt orðið heil-
brigð.
48. En hann sagði við hana:
vertu hughraust, dóttir, trú
þín hefir frelsað þig, far þú í
friði!
49. ¶ Nú er hann var enn þetta
að mæla, kom maður frá heim-
ili samkunduhöfðíngjans, er
sagði honum: dóttir þín er
látin, ómaka ekki meistarann.
50. Þegar Jesús heyrði þetta,
svaraði hann honum og sagði:
óttast þú ekki! trú þú einúng-
is, og mun hún heil verða.
51. En þegar hann kom í
húsið, lèt hann einga fara inn,
nema Pètur, Jakob og Jó-
hannes og foreldra barnsins;
52. En allir grètu og syrgðu
hana; en hann sagði: grátið
ekki! hún er ekki dauð, held-
ur sefur hún;
53. Gjörðu þeir þá gys að

honum, því þeir vissu, að hún var dauð.

54. En hann rýmdi öllum út, tók í hönd hennar, kallaði og sagði: stúlka, statt upp!

55. Og andi hennar snèri aptur og hún reis jafnskjótt upp; bauð hann þá að gefa henni mat.

56. Og foreldrar hennar urðu frá sèr numdir, en hann bannaði þeim að segja nokkrum frá þessum atburði.

## 9. KAPÍTULI.

*Þeir tólf lærisveinar eru útsendir; Heródes vill sjá Jesúm; postularnir koma aptur; Kristur kennir, læknar, mettar fimm þúsundir manna. Pètur játar Jesúm vera Guðs Son. Jesús talar um sína pínu, um sjálfsafneitun og sitt ríki; forklárast á fjalli; læknar túnglsjúkan; segir sína pínu fyrir; talar um auðmýkt og ótilhlýðilegt vandlæti, og um það, hvers hans eptirbreytendur mættu vænta.*

EN hann kallaði þá tólf saman, og gaf þeim vald og ráð yfir öllum djöflum, og til að lækna sóttir,

2. Og sendi þá til að boða lærdóminn um Guðs ríki, og til að lækna sjúka, og sagði við þá:

3. Takið ekkert með yður til ferðarinnar, hvorki staf eður tösku, og ekki brauð eða silfur, og ekki tvo kyrtla.

4. Þegar þèr hafið tekið yður aðsetur á einu heimili, þá verið þar, til þess þèr farið þaðan.

5. En vilji einhver ekki veita yður viðtöku, þá farið burt úr þeirri borg og hristið dupt af fótum yðrum, til vitnis gegn þeim.

6. En þeir fóru á stað og ferðuðust um þorpin, boðuðu gleðiboðskapinn, og læknuðu allstaðar.

7. ¶ En sem fjórðúngshöfðínginn Heródes fèkk að heyra alt það, sem Jesús hafði gjört, vissi hann ekki, hvað hann átti að hugsa; því sumir sögðu, að Jóhannes væri upp risinn frá dauðum,

8. Aðrir, að Elías væri kominn, og sumir, að einn af hinum gömlu spámönnum væri risinn upp.

9. Og Heródes sagði: Jóhannes hefi eg látið hálshöggva, en hver er þessi, sem eg heyri þessa hluti um? og hann lángaði til að sjá hann.

10. ¶ Þá komu lærisveinar Jesú, sem hann hafði sent frá sèr, til baka, og sögðu honum frá, hvað þeir hefðu aðhafzt; fór hann þá með þeim einslega í eyðistað nokkurn hjá borginni Betsaida;

11. En er fólkið varð þess vart, fylgði það eptir honum, og veitti hann því viðtöku, og kendi því um Guðs ríki, og læknaði þá, er þess þurftu við.

12. En er degi tók að halla, komu þeir tólf til hans, og sögðu við hann: láttu fólkið fara frá þèr, svo það fari í þorpin og landsbygðina hèr í kríng og leiti sèr náttstaða og matar, því þeir eru hèr í óbygðum.

13. Þá sagði hann við þá: gefið þèr þeim að eta. Þeir mæltu: vèr höfum ekki nema fimm brauð og fiska tvo, nema ef vèr eigum að fara og kaupa öllum þessum mannfjölda mat;

14. Því þar voru hèr um fimm þúsundir manna. En hann sagði við lærisveina sína: látið þèr þá setjast niður í hópa, fimmtíu í hverjum hóp.

15. Þeir gjörðu svo, og lètu þá alla setjast niður.

16. Þá tók hann þau fimm brauð og tvo fiska, leit upp til himins, blessaði þau, braut þau og fèkk þau lærisveinunum, svo að þeir legðu þau fyrir fólkið;

17. Mötuðust þeir allir og urðu saddir; voru þá upp teknar leifarnar, og voru það tólf karfir fullar.

18. ¶ Einhverju sinni, er hann var einn saman á bæn, og lærisveinar hans hjá honum, spurði hann þá og sagði: hver ætla menn að eg sè?

19. En þeir svöruðu og sögðu: sumir ætla, að þú sèrt Jóhannes skírari, aðrir Elías, og sumir, að einn af þeim gömlu spámönnum sè upp risinn.

20. Þá sagði hann: en hver ætlið þèr eg sè? Þá svaraði Pètur og sagði: vèr ætlum, að þú sèrt Kristur Guðs.

21. Þá lagði hann ríkt á við þá, að þeir ekki segðu nokkrum frá því;

22. Því Mannsins Sonur, sagði hann á margt að líða, verða útskúfaður af öldúngunum og hinum æðstu prestum og enum skriptlærðu, líflátast, en upp rísa á þriðja degi.

23. ¶ Síðan sagði hann við þá alla: hver, sem vill fylgja mèr, afneiti sjálfum sèr, taki á sig sinn kross hversdaglega, og fylgi mèr eptir;

24. Því hver, sem vill fá borgið lífi sínu, mun týna því; en hver sem lætur líf sitt mín vegna, hann mun frelsa það;

25. Því að hverju gagni kæmi það manninum, þótt hann eignaðist allan heiminn, en týndi sjálfum sèr, eða skaðaði sig?

26. Því hver sem lætur sèr minkun þykja að mèr og mínum orðum, að þeim mun og Mannsins Syni minkun þykja, þegar hann kemur í dýrð sinni og Föður síns og helgra eingla.

27. En sannlega segi eg yður, að nokkrir af þeim, sem hèr eru nú viðstaddir, munu ekki deya, fyrr en þeir sjá Guðs ríki.

28. ¶ Hèr um átta dögum eptir að hann talaði þetta, tók hann með sèr Pètur, Jóhannes og Jakob, og fór upp á fjall til að gjöra bæn sína.

29. Þá skeði það, er hann var á bæninni, að útlit ásjónu hans umbreyttist, og klæði hans urðu ljómandi hvít.

30. Og sjá, tveir menn töluðu við hann;

31. Sem voru þeir Móses og Elías, er sáust í ljóma og töluðu þeir um hans tilkomanda líflát í Jerúsalem.

32. En Pètur og þeir, sem með honum voru, voru yfirkomnir af svefni; en er þeir vöknuðu, sáu þeir ljómann af honum, og þá tvo menn, er hjá honum voru.

33. En þegar þeir skildust við hann, mælti Pètur við Jesúm: gott er, að vèr erum hèr; meistari, látum oss gjöra hèr þrjár tjaldbúðir, eina handa þèr, aðra handa Mósi, og hina þriðju handa Elíasi; því ekki vissi hann, hvað hann sagði.

34. En er hann var þetta að mæla, kom ský og skygði yfir þá, urðu þeir hræddir, er þeir komu inn í skýið;

35. Kom þá rödd úr skýinu, er sagði: þessi er Sonur minn elskulegur, hlýðið þèr honum.

36. En í því röddin kom, fundu þeir Jesúm einan. Um þetta þögðu þeir, og sögðu á þeim dögum eingum frá, hvað þeir höfðu sèð.

37. ¶ En svo bar við deginum eptir, er þeir fóru niður af fjallinu, að mikill fjöldi fólks kom á móti honum,

38. Kallaði þá maður nokkur úr flokkinum og sagði: meistari, eg bið þig, lít þú náðarsamlega til sonar míns, því hann er einkabarn mitt.

39. Því sjá, þegar andinn hrífur hann, hrín hann þegar upp, og teygist sundur og saman með froðufalli, og varla víkur andinn frá honum, þegar hann hefur kvalið hann.

40. Eg bað lærisveina þína, að þeir rækju hann út, en þeir gátu það ekki.

41. En Jesús svaraði og sagði: þú vantrúaða og rángsnúna kynslóð, hversu leingi á eg að vera hjá yður og umbera yður? fær þú híngað son þinn!

42. En er hann kom til hans, hreif hinn illi andi hann og teygði hann sundur og saman. Hastaði þá Jesús á hinn

óhreina anda og læknaði sveininn og gaf hann aptur föður sínum;
43. ¶ En allir undruðust Guðs almætti. En er allir voru nú að furða sig yfir öllu því, sem Jesús gjörði, tók hann svo til orða við lærisveina sína:
44. Takið eptir þessum orðum: Mannsins Sonur á að ofurseljast í manna hendur.
45. En þeir skildu það ekki, og það var svo hulið fyrir þeim, að þeir skynjuðu það ekki, en þorðu þó ekki að spyrja hann að, hvað hann meinti með því.
46. ¶ En sú hugsun hófst meðal þeirra, hver þeirra mestur væri.
47. En er Jesús varð var við þeirra hugrenníngar, tók hann barn eitt og setti það hjá sèr,
48. Og sagði við þá: hver sem veitir þessu barni viðtöku í mínu nafni, hann veitir mèr viðtöku, en hver sem veitir mèr viðtöku, hann veitir og þeim viðtöku, sem mig sendi; því sá sem minnstur er meðal yðar allra, hann mun mikill verða.
49. ¶ En Jóhannes svaraði og sagði: meistari, vèr sáum mann nokkurn, sem í þínu nafni rak út djöfla, og vèr bönnuðum honum það, þar hann ekki var í fylgd með oss.
50. Jesús mælti: bannið það ekki, því sá sem ekki er mót yður, hann er með yður.
51. ¶ Nú er leið að hans upphafníngar tíma, einsetti hann sèr að fara til Jerúsalem, og sendi menn undan sèr;
52. Þeir fóru og komu í þorp nokkurt samverskt til að útvega honum þar gistíng;
53. En bæarmenn vildu ekki við honum taka, af því hann ætlaði til Jerúsalem.
54. En er lærisveinar hans, Jakob og Jóhannes, urðu þess vísir, sögðu þeir: viltu, Herra, að vèr bjóðum eldi að falla af himni og tortýna þeim, eins og Elías gjörði.
55. Þá snèrist hann við, ávítaði þá og sagði: vitið þèr ekki, hvers anda þèr eruð?
56. Því Mannsins Sonur er ekki kominn til að tortýna lífi manna, heldur til að frelsa það. Síðan fóru þeir í annað þorp.
57. ¶ Svo bar við á veginum, að maður nokkur sagði við hann: eg vil fylgja þèr, Herra, hvert sem þú fer.
58. Og Jesús sagði við hann: refar hafa greni og fuglar himins hreiður en Mannsins Sonur

hefir hvergi höfði sínu að að
halla.
59. Við annan sagði hann:
fylg þú mèr! Hann mælti:
leyf mèr fyrst, Herra, að fara
og grafa föður minn.
60. En Jesús sagði við hann:
lát hina dauðu grafa sína
dauðu, en far þú og flyt lær-
dóminn um Guðs ríki.
61. Enn nú annar sagði: eg
vil fylgja þèr, Herra, en leyf
mèr fyrst að fara og kveðja
heimilisfólk mitt.
62. En Jesús sagði við hann:
einginn sá, sem leggur hönd á
plóginn og horfir á það, sem
er að baki hans, er hæfur til
Guðs ríkis.

## 10. KAPÍTULI.

*Jesús sendir út ena sjötíu lærisveina; þeir koma aptur; hann vegsamar sinn Föður; segir dæmisögu um Samarítann og Levítann; talar við Maríu og Mörtu.*

EPTIR þetta útvaldi Drott-
inn einnig aðra sjötíu, og
sendi þá undan sèr tvo og tvo
í allar þær borgir og staði,
sem hann hafði ásett sèr að
koma,
2. Þessvegna sagði hann við
þá: kornskeran er mikil, en
verkamennirnir eru fáir; biðj-
ið því Herra uppskerunnar,
að hann sendi verkamenn til
kornskurðar síns.
3. Farið þèr, eg sendi yður,
eins og lömb á meðal úlfa.
4. Takið hvorki með yður
fègyrðil eður tösku, og ekki
skó, heilsið eingum á vegi
yðrum;
5. Nær þèr komið inn í hús
nokkurt, þá segið fyrst: friður
sè í þessu húsi!
6. Og sè þar nokkur inni
friðar verður, munu friðar
óskir yðar hrína á honum; en
ef ekki, munu þær hverfa til
yðar aptur.
7. Verið kyrrir á hinu sama
heimili, etið og drekkið, það
sem yður verður boðið, því
verður er verkamaðurinn laun-
anna; ekki skuluð þèr flytja
úr einu húsi í annað.
8. Nær þèr komið í bæ nokk-
urn, og bæarmenn veita yður
viðtöku, þá neytið þess, er
fyrir yður framreitt verður;
9. Læknið þá, sem þar eru
sjúkir, og segið þeim: Guðs
ríki er nálægt yður.
10. En ef þèr komið í þann
bæ, þarsem menn ekki vilja
veita yður viðtöku, þá farið
út á strætin, og segið:
11. Duptið, sem loðir á oss
úr yðvarri borg, hristum vèr
af oss á yður, vitið samt það,
að Guðs ríki er í nánd.
12. Eg segi yður, að bæri-
legri munu verða kjör Só-
dómu á degi dómsins, en þeirr-
ar borgar.

13. Vei þèr, Korazin; vei þèr, Betsaida; ef þau kraptaverk, sem gjörð hafa verið í ykkur, hefðu gjörð verið í Týrus eður Sídon, mundu þeir fyrir laungu hafa klæðst í sekk og ösku og sèð að sèr;

14. En bærilegri munu verða kjör Týrusar og Sídonar á degi dómsins, en ykkar.

15. Og þú, Kapernaum, sem nú mænir við himin, þèr mun til helvítis niðursökt verða.

16. Sá sem hlýðir yður, hlýðir mèr, og hver sem fyrirlítur yður, fyrirlítur mig; en hver sem fyrirlítur mig, fyrirlítur þann, sem mig sendi.

17. ¶ En þegar þeir sjötíu komu til baka, voru þeir glaðir, og sögðu: Herra, einnig illir andar hlýða oss í þínu nafni.

18. Jesús mælti við þá: eg sá Satan falla af himni, eins og eldíngu.

19. Sjá, eg gef yður vald til að fótum troða höggorma og sporðdreka og alt óvinarins veldi, og ekkert skal yður granda.

20. En gleðjist samt ekki yfir því, að illir andar hlýða yður, heldur yfir því, að nöfn yðar eru skrifuð á himnum.

21. ¶ Samstundis varð Jesús glaður í anda, og sagði: eg þakka þèr, Faðir, Herra himins og jarðar, að þú hefir látið þetta hulið fyrir spekíngum og vitríngum, en hefir auglýst það fáfróðum. Já, Faðir! því þèr hefur þóknast, að það skyldi þannig vera.

22. Alt er mèr í vald gefið af mínum Föður, og einginn veit, hver Sonurinn er, nema Faðirinn, eður hver Faðirinn er, nema Sonurinn og sá, sem Sonurinn vill það auglýsa.

23. ¶ Þá snèri hann sèr til lærisveina sinna, og sagði við þá einslega: sæl eru þau augu, sem sjá, það sem þèr sjáið;

24. Því eg segi yður, að margir spámenn og konúngar hafa viljað sjá það, sem þèr sjáið, en sáu það ekki, og heyra það, sem þèr heyrið, og heyrðu það ekki.

25. ¶ Og sjá, maður nokkur skriptlærður stóð upp, freistaði hans og sagði: meistari, hverninn á eg að breyta, svo eg eignist eilíft líf?

26. En hann sagði við hann: hvað er skrifað í lögmálinu? hverninn les þú?

27. Hann mælti: elska skaltu Drottinn Guð þinn af öllu hjarta, af allri sálu, af öllum kröptum og öllum huga, og náúnga þinn, eins og sjálfan þig.

28. En hann sagði við hann:

þú svaraðir rètt; gjör þú þetta,
og þá muntu lifa.
29. En þar eð hann vildi rètt-
læta sjálfan sig, sagði hann
við Jesúm: hver er þá minn
náúngi?
30. En Jesús svaraði og sagði:
maður nokkur ferðaðist frá
Jerúsalem til Jeríkó og fèll
í hendur ræníngja, sem flettu
hann klæðum, veittu honum
áverka, fóru síðan burtu og
lètu hann eptir dauðvona.
31. Svo bar til, að prestur
nokkur fór þenna sama veg,
og er hann sá hann, gekk
hann fram hjá;
32. Eins Levítinn, þegar hann
kom til þess staðar og sá
hann, gekk hann einninn fram
hjá.
33. En samverskur maður
nokkur, er fór um farinn veg,
kom þar að, og er hann sá
hann, kendi hann í brjósti
um hann,
34. Gekk til hans og batt sár
hans, og helti í þau viðsmjöri
og víni, setti hann síðan upp á
sinn eiginn eyk, og flutti hann
til gestgjafa húss, og lèt sèr
hugarhaldið um hann.
35. Degi síðar, er hann var
ferðbúinn, tók hann upp tvo
penínga, fèkk gestgjafanum
og mælti: al þú önn fyrir
honum, og það, sem þú kostar
meiru til, skal eg borga þèr,
þegar eg kem aptur.
36. Hver af þessum þremur
sýnist þèr vera náúngi þess,
sem fèll í hendur ræníngjanna?
Hann mælti: sá, sem misk-
unarverkið gjörði á honum.
37. Þá sagði Jesús við hann:
far þú og gjör hið sama.
38. ¶ Nú bar svo við, er þeir
voru á ferð, að hann kom í
þorp nokkurt; þar var kona,
að nafni Marta, sem veitti
honum gistíngu;
39. Hún átti systur, er María
hèt, hún sat til fóta Jesú og
hlýddi hans kenníngu.
40. En Marta hafði mikil
umsvif með að standa þeim
fyrir beina; gekk hún þá til
hans og tók svo til orða: hirð-
ir þú ekki um það, Herra, að
systir mín lætur mig eina
gánga um beina? seg þú
henni að hjálpa mèr.
41. En Jesús svaraði og sagði
við hana: Marta, Marta, þú
hefir mikla áhyggju og umsvif
fyrir mörgu, en eitt er nauð-
synlegt.
42. María hefir valið sèr hið
góða hlutskiptið, sem ekki
mun frá henni tekið verða.

## 11. KAPÍTULI.

*Jesús kennir sínum lærisveinum að biðja; rekur djöful út, og hrindir lastmælum hinna skriptlærðu; etur með Faríseum og ávítar þá og hina löglærðu.*

EITT sinn bar svo við, að hann var einhverstaðar að biðjast fyrir; en er hann hafði lokið bænagjörðinni, sagði einn af lærisveinum hans við hann: kenn þú oss, Herra, að biðja, eins og Jóhannes kendi sínum lærisveinum.

2. Þá sagði hann við þá: nær þèr biðjist fyrir, þá segið: Faðir vor, helgist þitt nafn, tilkomi þitt ríki;

3. Gef oss hvern dag vort daglegt brauð;

4. Fyrirgef oss vorar syndir, því vèr fyrirgefum og öllum vorum skuldunautum; leið oss ekki í freistni.

5. Og hann sagði við þá: ef einhver yðar á vin, og fer til hans um miðnætti og segir við hann: vinur, lánaðu mèr þrjú brauð;

6. Því vinur minn er kominn til mín úr ferð sinni, og eg hefi ekkert að bjóða honum;

7. Og sá, sem inni er, svarar: gjörðu mèr ekki ónæði, dyr eru lokaðar, og börn mín eru ásamt mèr geingin til hvílu; eg get þess vegna ekki farið á fætur til að fá þèr þau.

8. Eg segi yður, ef hann ekki fer á fætur til að lána honum þau sökum vináttu þeirra, þá mun hann samt fara á fætur vegna þrábeiðni hans, og fá honum svo mikið, sem hann við þarf.

9. Þar fyrir segi eg yður: biðjið, og mun yður gefast; leitið, og munuð þèr finna; knýið á, og mun fyrir yður upp lokið verða;

10. Því sá fær, sem biður, sá finnur, sem leitar, og fyrir þeim, sem á knýr, mun upp lokið verða.

11. En ef sonur einhvers yðar á meðal beiddi föður sinn um brauð, hvort mundi hann gefa honum stein? og ef hann bæði um fisk, mundi hann þá gefa honum höggorm í staðinn fyrir fisk?

12. Eður bæði hann um egg, mundi hann þá gefa honum sporðdreka?

13. Ef nú þèr, sem vondir eruð, tímið að gefa börnum yðar góðar gjafir, hvað miklu framar mun þá ekki Faðir yðar á himnum gefa þeim Heilagan Anda, sem hann biðja.

14. ¶ Og hann rak út djöful þann, er mállaus var, og er djöfullinn var út farinn, tók sá, er mállaus var, að mæla.

15. Þetta undraðist fólkið, en sumir þeirra sögðu, að hann ræki djöfla út með fulltíngi djöflahöfðíngjans Belsebúls;

16. En aðrir freistuðu hans

og kröfðust af honum teikns
af himni;
17. En hann, er vissi, hvað
þeir hugsuðu, sagði við þá:
hvert það ríki, sem í sjálfu sèr
er sundurþykt, mun leggjast í
auðn, og hvert hús mun þar
yfir annað hrapa.
18. Ef nú Satan er sjálfum
sèr sundurþykkur, hverninn
fær hans ríki þá staðizt, þar
þèr segið, eg útreki djöfla
fyrir fulltíngi Belsebúls?
19. En ef eg útrek djöfla með
fulltíngi Belsebúls, fyrir hvers
fulltíngi útreka þá yðrir læri-
sveinar þá? þess vegna skulu
þeir og vera yðrir dómendur.
20. En ef eg rek djöfla út
með Guðs fíngri, þá er Guðs
ríki þegar til yðar komið.
21. Nær vopnuð hetja varð-
veitir sitt andyri, er alt í friði,
sem hún á;
22. En komi annar yfirsterk-
ari og sigri hann, flettir hann
hann hertýgjum sínum, er
hann treysti á, og skiptir
herfánginu.
23. Hver sem ekki er með
mèr, hann er á móti mèr; og
hver sem ekki samansafnar
með mèr, hann sundurdreifir.
24. Þegar óhreinn andi fer út
af manninum, ráfar hann um
vatnslausa staði, leitar hælis,
og nær hann ekki finnur það,
þá segir hann við sjálfan sig:
eg vil hverfa aptur í hús mitt,
þaðan sem eg fór;
25. Og er hann kemur, finnur
hann það sópað og prýtt.
26. Þá fer hann og tekur með
sèr aðra sjö anda sèr verri, og
er þeir eru inn komnir, setjast
þeir þar að; verður svo hið
síðara ásigkomulag mannsins
verra en hið fyrra.
27. ¶ En svo bar við þegar
hann var að tala þetta, að
kona nokkur meðal fólksins
hóf upp raust sína, og sagði
við hann: sæll er sá kviður,
er þig bar, og þau brjóst, er
þú mylktir.
28. En hann sagði: já, að
vísu, sælir eru þeir, sem heyra
Guðs orð og varðveita það.
29. ¶ En þegar fólkið þyrptist
að honum, tók hann svo til
orða: þessi þjóð er vond, hún
krefst teikns; en henni skal
ekkert teikn verða gefið, nema
teikn Jónasar;
30. Því eins og Jónas var
Niníveborgar mönnum teikn,
eins mun og Mannsins Sonur
verða þjóð þessari.
31. Drottníngin úr suðurátt
mun rísa upp, í dóminum
ásamt þessari kynslóð, og
sakfella hana, því hún kom
af fjarlægu landi til að heyra
speki Salómons; en gætið

þess, að hèr er meira en Salómon.

32. Niníveborgar menn munu rísa upp, í dóminum ásamt þessari þjóð, og sakfella hana, því þeir bættu ráð sitt við kenníngu Jónasar; en sjáið, hèr er meira en Jónas.

33. Einginn kveikir ljós og setur það í skot eður undir mæliker, heldur í kertastiku, svo þeir, sem inn koma, sjái birtu þess.

34. Augað er ljós líkamans; ef því auga þitt er heilskygnt, þá er allur líkami þinn í birtu; en sè það gallað, er líkami þinn í myrkri;

35. Gæt þú þar fyrir þess, að þitt innra ljós verði ekki að myrkri.

36. Sè því líkami þinn allur í birtu, svo hvergi beri skugga á, þá verður hann allur bjartur, eins og þegar ljósið skín á þig með birtu sinni.

37. ¶ Þegar hann var þetta að mæla, bauð einhver af Faríseum honum til máltíðar. Hann fór og settist undir borð.

38. En þegar Faríseinn sá það, undraðist hann, að Jesús tók ekki handlaugar, áður en hann tók til matar.

39. Þá sagði Drottinn við hann: þèr, Farísear, hreinsið ker yðar og bikara utan, en yðvart hið innra er fult með rán og vonzku.

40. Þèr, heimskíngjar, hefur ekki sá sem gjörði hið ytra, einnig gjört hið innra?

41. En þegar þèr gefið ölmusur af því, sem þar er, þá haldið þèr, að alt sè yður hreint.

42. En vei yður Faríseum, sem tíundið myntu og rúðu og allar matjurtir, en hirðið hvorki um rèttvísi nè elskuna til Guðs; þetta ber að gjöra, en hitt ekki ógjört að láta.

43. Vei yður, þèr Farísear, sem keppizt eptir efstu sætum í samkunduhúsum, og að yður sè heilsað á torgunum.

44. Vei yður, því eins eruð þèr og grafir dauðra manna, sem ekki ber á, og sem menn gánga yfir án þess að vita það.

45. ¶ Þá tók einn af þeim skriptlærðu svo til orða: meistari, þú atyrðir oss einnig með þessu;

46. En hann mælti: vei yður líka, þèr skriptlærðir, því þèr bindið mönnum lítt bærar byrðar, en sjálfir snertið þèr þær ekki með einum fíngri.

47. Vei yður, sem byggið upp grafir spámannanna, sem feður yðar líflètu;

48. Þannig lofið þèr og samþykkið athafnir feðra yðvarra, því þeir líflètu þá, en þèr upp byggið grafir þeirra.
49. Fyrir því segir og speki Guðs: eg mun senda þeim spámenn og postula; suma af þeim munu þeir ráða af dögum, og aðra ofsækja,
50. Svo að af þessari kynslóð verði krafið blóð allra spámanna, er út helt hefir verið frá heims upphafi,
51. Frá því Abel var drepinn, til líf láts Sakaríasar, sem drepinn var millum altaris og musteris. Eg segi yður satt, þess mun krafizt verða af þessari þjóð.
52. Vei yður, þèr skriptlærðir, sem hafið hrifsað til yðar lykil vizkunnar, en sjálfir farið þèr þar ekki inn, og fyrirmunið öðrum inngaungu.
53. En þegar hann sagði þetta við þá, tóku hinir skriptlærðu og Farísear þúnglega að reiðast honum og lokka af honum andsvör um ýmislegt,
54. Sitja um hann og leitast við að veiða eitthvað af munni hans, er þeir gætu ásakað hann fyrir.

## 12. KAPÍTULI.

*Jesús varar við súrdeigi Faríseanna, og við því, að hræðast menn; vill ekki skipta arfi; varar við ágirni og búksorg; hvetur til árvekni og trúskapar; talar um hörmúngar fyrir hans lærdóms skuld, og um að veita tímanum eptirtekt.*

ÞEGAR svo margar þúsundir voru saman komnar, að næstum tróð hver annan undir, hóf hann svo tal sitt við lærisveina sína: varizt fyrst og fremst súrdeig Faríseanna, það er, hræsnina;
2. En ekkert er svo dulið, að ekki verði opinbert, og ekkert svo leynt, að ekki verði kunnugt;
3. Því mun hvað eina, sem þèr talið í leyni, koma í hámæli, og hverju þèr hvíslið í launkofum, það mun kunngjört verða á þökum uppi.
4. En eg segi yður, vinir mínir! hræðizt ekki þá, sem líkamann deyða, og fá ekki meira aðgjört;
5. En eg skal sýna yður, hvern þèr eigið að hræðast: hræðizt þann, sem eptir að hann hefir líflátið, hefir vald til að kasta í helvíti; já, eg segi yður, hræðist hann!
6. Seljast ekki fimm titlíngar fyrir tvo smápenínga, og þó gleymir Guð eingum af þeim;
7. Og enn fremur: öll yðar höfuðhár eru talin; verið því ekki hræddir, þèr eruð meira verðir, en margir titlíngar.
8. En eg segi yður það, að hver sem kannast við mig fyrir

mönnum, við hann mun og Mannsins Sonur kannast fyrir einglum Guðs;

9. En hver sem afneitar mèr fyrir mönnum, honum mun verða afneitað fyrir einglum Guðs.

10. Hver sem lastar Mannsins Son, honum mun verða það fyrirgefið; en sá, sem talar lastyrði gegn Heilögum Anda, honum mun það ekki fyrirgefið verða.

11. En þegar þeir færa yður í samkunduhús sín og fyrir höfðíngja sína og valdsmenn, verið þá ekki hugsjúkir, hvernig eða með hverju þèr eigið að forsvara yður, eður hvað þèr eigið að tala;

12. Því Heilagur Andi mun kenna yður á sömu stundu, hvað þèr eigið að segja.

13. ¶ Þá sagði einn af fólkinu við hann: meistari, skipaðu bróður mínum, að hann skipti með mèr arfi okkar.

14. En hann sagði við hann: maður, hver hefir sett mig fyrir dómara eður skiptaráðanda milli ykkar?

15. Og hann sagði við þá: gætið yðar, og varið yður við ágirni, því einskis líf er innifalið í því, að hann hafi auð fjár.

16. Þá sagði hann þeim dæmisögu þessa: akur ríkismanns nokkurs hafði borið mikinn ávöxt;

17. Þá hugsaði hann með sèr og sagði: hvað á eg nú að gjöra? því eg hefi ekki forðabúr fyrir ávexti mína;

18. Og hann sagði: þetta skal eg gjöra, rífa niður hlöður mínar og byggja aðrar stærri, þángað vil eg safna öllum ávöxtum mínum og auðæfum;

19. Og þá vil eg segja við sálu mína: sál mín! þú hefur fengið mikinn forða til margra ára, hvíl þú þig nú, et þú og drekk og vert glöð!

20. En Guð sagði við hann: heimskíngi, á þessari nóttu verður sál þín af þèr heimtuð, og hvers verður það þá, sem þú hefir safnað?

21. Svo fer þeim, er sèr safnar fè, án þess að vera í Guði ríkur.

22. ¶ En við lærisveina sína sagði hann: þar fyrir segi eg yður: verið ekki hugsjúkir fyrir lífi yðru, hvað þèr skuluð hafa til fæðu; ekki heldur fyrir líkama yðrum, hverju þèr skuluð klæðast;

23. Lífið er meira vert, en fæðan, og líkaminn meir, en klæðnaðurinn.

24. Gætið að hröfnunum, þeir sá hvorki nè uppskera, og ekki hafa þeir kornhlöður nè

forðabúr, samt fæðir Guð þá;
hve miklu ágætari eruð þèr
ekki en fuglarnir?
25. Hver af yður getur með
allri sinni áhyggju aukið einni
alin við hæð sína?
26. Og ef þèr ekki getið
komið því til leiðar, sem
minst er í varið, því eruð
þèr þá áhyggjufullir um hitt
annað?
27. Skoðið liljugrösin, hvernig
þau vaxa, hvorki vinna þau
nè spinna; en eg segi yður, að
Salómon í allri sinni dýrð var
ekki svo skrýddur, sem eitt
af þeim.
28. Ef að Guð skrýðir svo
grasið, sem í dag vex á akrinum
og á morgun verður í ofn
kastað, hversu miklu framar
mun hann ekki klæða yður,
þèr lítiltrúaðir?
29. Ekki skuluð þèr heldur
vera áhyggjufullir um, hvað
þèr skuluð hafa til matar eður
drykkjar, og hugsið ekki hátt;
30. Því fyrir slíku bera heiðnir
menn áhyggju, en Faðir yðar
veit, að þèr þurfið þessa við.
31. ¶ Leitið heldur Guðs
ríkis, þá munuð þèr fá alt
þetta í viðbót.
32. Vert ekki hrædd, litla
hjörð, því Föður yðar hefir
þóknazt að gefa yður sitt ríki;
33. Seljið eigur yðar og gefið
fátækum, safnið yður fjársjóðum,
sem ekki fyrnast, fjársjóði
á himni, sem aldrei þverrar,
sem þjófar ekki geta nálgazt
eða mölur skemt;
34. Því þar sem yðar fjársjóður
er, þar mun og yðar hjarta
vera.
35. Yðar lendar sèu gyrtar,
og ljós yðar logandi,
36. Og líkizt þeim mönnum,
er vænta hússbónda sins, nær
hann muni koma frá veizlu,
svo nær hann kemur og ber
að dyrum, að þeir þá jafnskjótt
ljúki upp fyrir honum.
37. Sælir eru þeir þjónar,
sem hússbóndinn finnur vakandi,
þá hann kemur. Sannlega
segi eg yður, hann mun
binda belti um sig, setja fyrir
þá borð og veita þeim sjálfur
beina.
38. Finni hann þá svo, hvort
sem hann kemur um aðra
eður þriðju eykt nætur, þá
eru þessir þjónar sælir;
39. Því vitið það, ef hússbóndinn
vissi, á hverjum tíma
þjófurinn mundi koma, þá
vekti hann og lèti ekki brjótast
inn í hús sitt.
40. Verið þar fyrir reiðubúnir,
því Mannsins Sonur mun
koma á þeirri stundu, sem
þèr ekki ætlið.
41. ¶ En Pètur sagði við

hann: meistari, hvort meinar
þú oss með þessari dæmisögu,
eður alla?
42. En Drottinn mælti: hver
er þá hinn dyggi og forsjáli
ráðsmaður, sem hússbóndi
hans hefir sett yfir hjú sín til
að úthluta þeim í rèttan tíma
þeirra skamt?
43. Sæll er sá þjón, ef húss-
bóndi hans finnur hann svo
breyta, nær hann kemur.
44. Eg segi yður satt, að hann
mun setja hann yfir allar
eigur sínar;
45. En ef þjóninn hugsar svo
með sèr: hússbóndi minn mun
ekki koma svo bráðum; og
tekur að berja þjónustumenn
og ambáttir, og lifa í óhófi til
matar og drykkjar;
46. Þá mun hússbóndi þess
þjóns koma á þeim degi, sem
hann ekki ætlaði, og á þeirri
stundu, sem hann ekki varði,
hegna honum harðlega, og
gjöra hlut hans jafnan ótrúrra
þjóna.
47. En sá þjón, sem veit vilja
hússbónda síns og hirðir ekki
um að hlýða honum, mun
sæta mikilli refsíngu;
48. En sá, sem ekki veit
hann, en gjörir það, sem hegn-
ingar er vert, mun sæta vægri
hegníngu; en hverjum sem
mikið er gefið, af honum mun
og mikils krafizt verða, og
þeim sem mikið er í hend-
ur selt, af honum verður og
meira heimtað.
49. ¶ Eg er kominn að senda
eld á jörðu; og hve feginn
vildi eg, að hann þegar væri
kveiktur;
50. En eg hefi skírn að skír-
ast, og hversu ángistarfullur er
eg þángað til henni er lokið?
51. Ætlið þèr, að eg sè kom-
inn til að senda frið á jörðu?
Nei, segi eg yður, heldur
ósamlyndi.
52. Því upp frá þessu munu
fimm vera í einu húsi, allir
sundurþykkir; þrír á móti
tveimur, og tveir á móti
þremur.
53. Faðirinn mun hefja fjand-
skap móti syni sínum, og son-
urinn gegn föðurnum, móðirin
gegn dótturinni, og dóttirin
gegn móðurinni, móðir konu
manns móti sonarkonu sinni,
og sonarkonan gegn móður
mannsins.
54. ¶ Enn talaði hann þannig
til fólksins: nær þèr sjáið ský
draga upp í vestri, segið þèr
jafnskjótt, að regn muni koma,
og það geingst eptir;
55. Og þegar sunnanvindur
blæs, þá segið þèr, að hiti
muni verða, og það rætist.
56. Þèr hræsnarar, þèr hafið

vit á að taka eptir útliti lopts og jarðar; hví hafið þèr þá ekki vit á að veita þessum tíma eptirtekt?

57. Og hví dæmið þèr ekki af sjálfum yður, hvað rètt sè?

58. ¶ Þegar þú fer með mótstöðumanni þínum til dómarans, þá kostaðu á veginum kapps um að sættast við hann, svo ekki dragi hann þig fyrir dómarann, og dómarinn afhendi þig fángaverðinum, og fángavörðurinn kasti þèr í dýflissu.

59. Eg segi þèr, þú munt ekki þaðan út komast, fyrr en þú hefir borgað hinn síðasta peníng.

## 13. KAPÍTULI.

*Af lífláti nokkurra Galílea tekur Jesús sèr tilefni til að áminna til betrunar; dæmisagan um fíkjutrèð; Jesús læknar krepta konu; framsetur dæmisöguna um mustarðskornið og súrdeigið; talar um útskúfun margra, en inntöku heiðíngja í Krists ríki; hræðist ekki Heródes; ávítar Jerúsalem.*

EN um þessar mundir vóru nokkrir viðstaddir, er sögðu honum frá þeim Galíleumönnum, hverra blóði Pílatus hafði blandað við fórnir þeirra.

2. Og Jesús svaraði og sagði við þá: haldið þèr, að þessir Galílear hafi verið syndugri menn, en allir aðrir í Galílea, þó þeir hafi orðið fyrir þessu?

3. Nei, segi eg yður, en nema þèr bætið ráð yðar, munuð þèr allir eins fyrir farast;

4. Eður hvort ætlið þèr, að þeir átján, sem turninn fèll yfir í Sílóam og varð að bana, hafi verið meira sekir, en allir þeir sem í Jerúsalem búa?

5. Nei, segi eg yður, en nema þèr bætið ráð yðar, munuð þèr allir fá sömu afdrif.

6. ¶ En hann sagði þessa dæmisögu: maður nokkur átti plantað fíkjutrè í víngarði sínum, og hann kom og leitaði ávaxta á því, og fann ekki;

7. Þá sagði hann við víngarðsmanninn: í þrjú ár hefi eg komið og leitað ávaxta á þessu fíkjutrè og ekki fundið; högg þú það upp, hvers vegna skal það spilla jörðunni?

8. En hann svaraði og sagði við hann: leyf þú því, herra, enn nú að standa þetta árið, þar til eg hefi grafið um það og borið að myki,

9. Ef vera kynni, að það beri ávöxt; en ef ekki, þá lát þú höggva það upp síðar.

10. Eitt sinn, er hann kendi í einhverju samkunduhúsi á sabbatsdegi,

11. ¶ Bar svo við, að þar var kona, sem haldin hafði verið af sjúkleiks anda í átján ár, hún var krept og gat með eingu móti rètt sig upp.

12. En þegar Jesús sá hana, kallaði hann á hana og sagði við hana: kona, vertu laus við sjúkleika þinn!

13. Síðan lagði hann hendur yfir hana og jafnskjótt rèttist hún upp og lofaði Guð;

14. En forstöðumaður samkunduhússins, sem líkaði illa, að Jesús læknaði á sabbatsdegi, sagði við fólkið: sex eru dagar þeir, sem ætlaðir eru til vinnu, komið þèr á þeim og látið yður lækna, en ekki á hvíldardegi.

15. Þessvegna svaraði Drottinn honum og sagði: hræsnari, hver er sá yðar, sem ekki leysi naut sitt eður asna af stalli, og leiði til vatns á hvíldardegi?

16. Mundi þá ekki vera tilhlýðilegt að leysa þessa dóttur Abrahams á sabbatsdegi úr fjötrum þeim, sem Satan hefir haldið henni í í átján ár?

17. Og er hann hafði þetta mælt, urðu allir mótstöðumenn hans sneyptir, en fólkið gladdist yfir öllum þeim dásemdarverkum, er hann gjörði.

18. ¶ En hann sagði: hverju er Guðs ríki líkt? eður við hvað skal eg því samjafna?

19. Líkt er það mustarðskorni, sem maður tók og sáði í jurtagarð sinn; það óx og varð að svo stóru trè, að fuglar himins hreiðruðu sig í greinum þess.

20. Aptur sagði hann: við hvað á eg að líkja Guðs ríki?

21. Líkt er það súrdeigi því, er kona tók og fól í þrem mælum mjöls, þángað til það sýrðist alt saman.

22. Þegar hann var á ferð til Jerúsalem, fór hann um borgir og þorp, og kendi;

23. En þá sagði einhver við hann: meistari, munu þeir ekki verða fáir, sem hólpnir verða? En hann sagði við þá:

24. ¶ Kostið kapps um að komast gegn um hið þraungva hliðið; því eg segi yður satt, að margir eru þeir, sem leitast við að komast þar inn, en munu ekki geta það.

25. Frá þeim tíma að hússbóndinn er uppstaðinn og hefir lokað dyrunum, munuð þèr standa fyrir utan og taka til að berja upp á og segja: lúk þú upp fyrir oss, Herra, en hann mun svara og segja við yður: eg þekki yður ekki, og veit ekki, hvaðan þèr eruð.

26. Þá munuð þèr segja: vèr höfum etið og drukkið með þèr, og á strætum vorum kendir þú.

27. En hann mun segja: eg þekki yður ekki, nè veit, hvað-

an þèr eruð; farið frá mèr
allir illgjörðamenn!
28. Mun þar þá verða vein
og tannagnístran, nær þèr
sjáið Abraham, Ísak og Jakob
og alla spámennina í Guðs
ríki, en yður útrekna.
29. Þá munu þeir koma frá
austri og vestri, norðri og
suðri, og sitja til borðs í Guðs
ríki;
30. Og sjáið, þeir eru til, sem
eru síðastir; en verða munu
hinir fyrstu, og þeir eru til,
sem eru fyrstir og verða munu
hinir síðustu.
31. ¶ Þenna sama dag komu
til hans nokkrir Faríseаr og
sögðu við hann: far þú hèðan,
því Heródes situr um líf þitt.
32. Og hann sagði við þá:
farið þèr og segið þessum ref:
sjá, eg rek djöfla út, og held
lækníngum áfram í dag og á
morgun, en á þriðja degi mun
eg ljúka þeim af;
33. Þó verð eg að halda áfram
í dag og á morgun og daginn
þar eptir; því það hæfir ekki,
að nokkur spámaður sè líflát-
inn fyrir utan Jerúsalem.
34. Jerúsalem, Jerúsalem, þú,
sem líflætur spámennina, og
grýtir þá, sem til þín eru
sendir, hversu opt hefi eg
ekki viljað saman safna börn-
um þínum, eins og hænan
safnar úngum sínum undir
vængi sèr, en þèr hafið ekki
viljað.
35. Sjá, bústaður yðar mun
yður í eyði látinn verða. En
eg segi yður, að þèr munuð
ekki sjá mig, þángað til sá
tími kemur, er þèr segið:
blessaður sè sá, sem kemur í
Drottins nafni.

## 14. KAPÍTULI.

*Jesús læknar vatnsjúkan; ræður frá því að metast um sæti; framsetur dæmisöguna um þá miklu kvöldmáltíð; talar um það, sem krefst af þeim, sem vilja verða hans lærisveinar, og við hverju þeir megi búast.*

SVO bar við einhvern tíma,
að hann kom á hvíldar-
degi í hús eins af höfðíngj-
um Faríseanna til máltíðar;
höfðu þeir þá vörð á honum.
2. Og sjá, frammi fyrir hon-
um stóð maður nokkur vatns-
sjúkur.
3. Þá spurði Jesús hina skript-
lærðu og Faríseana og sagði:
hvort er leyfilegt, að lækna
á hvíldardegi? en þeir þögðu
við.
4. Tók þá Jesús á honum,
læknaði hann og lèt hann burt
fara.
5. Síðan sagði hann við þá:
ef einhver yðar á asna eða
naut, sem fellur í pytt, dregur
hann það ekki jafnskjótt upp,
þótt hvíldardagur sè?
6. Og þeir gátu eingu svarað.

7. ¶ Síðan sagði hann við þá, er til borðsins sátu, þegar hann sá, að þeir völdu sèr hin æðstu sæti:

8. Þegar einhver býður þèr til veizlu, þá set þig ekki í hin æðstu sæti; vera kann, að annar æðri þèr sè boðinn,

9. Og sá komi, sem bauð þèr og honum, og segi við þig: gef þú þessum rúm, og hljótir þú þá með kinnroða að hafa hinn yzta sess;

10. Heldur, nær þèr er boðið, þá set þig í hið yzta rúm, svo þegar sá kemur, sem þèr bauð, segi hann við þig: vinur, þoka þèr upp betur! Mun þèr þá virðíng veitast af þínum sessunautum;

11. Því að hver sig sjálfan upphefur, hann mun niðurlægjast, og hver sig sjálfan niðurlægir, hann mun upp hafinn verða.

12. ¶ Ennfremur sagði hann við þann, er honum hafði boðið: þegar þú býður til miðdags eður kvöldverðar, bjóð þú þá hvorki vinum þínum, bræðrum eður náúngum, ekki heldur ríkum nágrönnum þínum, svo ekki bjóði þeir þèr aptur, og verði það þèr þannig endurgoldið.

13. Heldur nær þú gjörir heimboð, þá bjóð þú fátækum, vönuðum, höltum og blindum;

14. Og sæll ert þú þá, því þeir hafa ekkert til að endurgjalda þèr með; en það mun verða þèr endurgoldið í upprisu rèttlátra.

15. ¶ En er þetta heyrði einn af þeim, er til borðsins sátu, sagði hann við hann: sæll er sá, sem situr til borðs í Guðs ríki.

16. Honum svaraði Jesús: maður nokkur bjó til mikla kvöldmáltíð, og bauð þángað mörgum;

17. Og þegar matmáls tími var kominn, sendi hann þjón sinn að segja þeim til, er boðnir voru, að þeir skyldu koma, því alt væri til reiðu; en þeir tóku til að afsaka sig allir í einu hljóði.

18. Hinn fyrsti sagði: eg hefi keypt mèr akur, og er mèr því nauðsyn á að fara og skoða hann; eg bið þig, afsaka mig.

19. Annar sagði: fimm pör akneyta keypta eg, fer eg nú út að reyna þau; eg bið þig, afsaka mig.

20. Hinn þriðji sagði: konu hefi eg mèr festa, og get eg þess vegna ekki komið.

21. Þjóninn fór og kunngjörði hússbónda sínum alt þetta; þá reiddist hússbóndinn og sagði

við þjón sinn: far þú skjótlega út á stræti og götur borgarinnar, og fær þú híngað volaða, vanaða, halta og blinda.
22. Þjóninn sagði: eg hefi gjört það sem þú bauðst, herra, en þar er enn nú meira rúm.
23. Þá sagði hússbóndinn við hann: far þú út á stigu og þjóðvegi, og þrýstu þeim til að koma, svo að hús mitt verði fult;
24. Því eg segi yður, að eingginn þeirra manna, er boðnir voru, skal smakka mína máltíð.
25. ¶ En honum varð samferða mikill fjöldi fólks; snèrist hann þá við þeim og tók svo til orða:
26. Ef sá er nokkur, sem til mín kemur, og hatar ekki föður sinn og móður, konu, börn, bræður og systur, og jafnvel sitt eigið líf, hann getur ekki verið minn lærisveinn;
27. Og sá, sem ekki ber sinn kross og fylgir mèr, getur ekki minn lærisveinn verið.
28. Því hver er sá af yður, sem vill byggja sèr stórt hús, er ekki setjist fyrst niður og reikni kostnaðinn, hvort hann hafi það, sem til þess þarf,
29. Svo að þegar hann er búinn að leggja grundvöllinn, en getur ekki lokið við bygg-ínguna, þá skuli ekki allir, sem það sjá, gera gys að honum og segja:
30. Maður þessi tók að byggja, en gat ekki lokið við það.
31. Eða hver er sá konúngur, sem fer í hernað móti öðrum konúngi, er ekki ráðslagi fyrst um, hvort hann með tíu þúsundum geti mætt þeim, sem hefir tuttugu þúsundir gegn honum?
32. Að öðrum kosti mun hann senda boðskap til hins, meðan hann er enn nú í fjarska, og leita friðar.
33. Þannig er því og varið með hvern af yður, sem ekki yfirgefur allar eigur sínar, að hann getur ekki verið minn lærisveinn.
34. ¶ Saltið er gott, en missi það krapt sinn, með hverju skal það þá selta?
35. Það er þá hvorki á túnjörð, nè til áburðar hæfilegt, heldur kasta menn því út. Hver eyru hefir að heyra, hann heyri!

## 15. KAPÍTULI.

*Dæmisaga um hinn týnda sauð, hinn mista peníng og hinn glataða son.*

EN allir tollheimtumenn og bersyndugir nálguðust

hann, til að heyra kenníngu
hans;
2. En Farísear og skript-
lærðir ömuðust við því, og
sögðu: þessi tekur að sèr
bersynduga og hefur samneyti
við þá.
3. Þá sagði Jesús þeim þessa
dæmisögu:
4. Hver er sá af yður, er á
hundrað sauði, og týnir einum
af þeim, að hann ekki skilji
þá níu og níutíu eptir í eyði-
mörku, og fari að leita þess,
er týndur var, þángað til hann
finnur hann?
5. Og þegar hann hefir fund-
ið hann, leggur hann hann
með gleði á herðar sèr,
6. Og nær hann er heim
kominn, kallar hann saman
vini sína og nágranna, og
segir við þá: samgleðjist mèr,
því eg hefi minn sauð aptur
fundið, sem eg týndi.
7. Eg segi yður, þannig mun
verða meiri gleði á himnum
yfir einum syndugum, sem
bætir ráð sitt, en yfir níutíu
og níu rèttlátum, er ekki
þurfa yfirbótar við.
8. Eður hver er sú kona, sem
á tíu penínga, og týni hún
einum, að hún ekki kveiki
ljós, sópi húsið og leiti vand-
lega, þángað til hún finnur
hann?
9. Og þegar hún hefir fundið
hann, kallar hún á vinkonur
sínar og grannkonur, og segir:
samgleðjist mèr, því eg hefi
minn peníng aptur fundið,
sem eg týndi.
10. Þannig segi eg yður, að
einglar Guðs munu gleðjast
yfir einum syndugum, sem
bætir ráð sitt.
11. Ennfremur sagði hann:
maður nokkur átti tvo sonu,
12. Sá ýngri þeirra sagði við
föður sinn: faðir! lát mig fá
þann hluta fjárins, sem mèr
ber; og hann skipti milli
þeirra fènu.
13. Nokkrum dögum síðar
tók sá ýngri alt fè sitt og
ferðaðist í fjarlægt land; þar
sóaði hann fè sínu í óhófsöm-
um lifnaði.
14. Nú er hann hafði eytt
öllum eigum sínum, kom þar
mikið hallæri í landið, tók
hann þá að líða nauð,
15. Fór hann þá og rèðst til
eins borgara í því landi, sem
sendi hann út á bú sitt, að
gæta þar svína sinna;
16. Varð hann þá feginn, að
seðja sig af drafi því, er svínin
átu; og einginn varð til að
gefa honum nokkuð.
17. Nú er hann ránkaði við
sèr, sagði hann: hversu marga
daglaunamenn heldur faðir

minn, sem hafa gnægð matar,
en eg ferst í húngri;
18. Eg vil taka mig upp og
fara til föður míns, og segja
við hann: Faðir! eg hefi syndg-
að móti himninum og fyrir
þèr,
19. Og er ekki leingur verður
að heita sonur þinn. Far þú
með mig eins og einn af dag-
launamönnum þínum.
20. Bjóst hann þá til ferðar
til föður síns; en er hann
var enn nú lángt í burtu, sá
faðir hans hann og kendi í
brjósti um hann, hljóp og
fèll um háls honum og kysti
hann.
21. En sonurinn sagði við
hann: Faðir minn, eg hefi
syndgað móti himninum og
fyrir þèr, og er nú ekki
framar verður að heita son-
ur þinn.
22. Þá sagði faðirinn við þjóna
sína: færið híngað hina beztu
skikkju og færið hann í, drag-
ið hríng á hönd hans og skó á
fætur honum;
23. Komið með alikálf og
slátrið, svo vèr getum matazt
og verið glaðir;
24. Því þessi sonur minn,
sem var dauður, er lifnaður
aptur, og hann, sem týndur
var, er fundinn; tóku menn
nú að gleðjast.
25. En svo bar við, að eldri
bróðir hans var á akri, og er
hann kom og nálgaðist húsið,
heyrði hann samsaung og
dans;
26. Kallaði hann þá á einn af
þjónustumönnunum, og frètti
hann, hvað um væri;
27. Hann sagði: bróðir þinn
er kominn, og faðir þinn hefir
slátrað alikálfi, af því hann
heimti son sinn heilan heim.
28. Reiddist hann þá og vildi
ekki fara inn. Faðir hans fór
því út og bauð honum inn að
koma.
29. En hann svaraði og sagði
við föður sinn: í svo mörg ár
hefi eg nú þjónað þèr og
aldrei breytt út af boðum
þínum, þó hefir þú aldrei
gefið mèr kiðlíng, svo að eg
gæti glatt mig með vinum
mínum;
30. En þessi sonur þinn, sem
sóað hefir eigum þínum með
skækjum, er nú kominn, og
hans vegna slátrar þú alikálfi.
31. En hann sagði við hann:
sonur minn, þú ert alt af með
mèr, og allar mínar eigur
heyra þèr til;
32. Nú ættir þú að vera glað-
ur og í góðu skapi, þar bróðir
þinn, sem dauður var, er lifn-
aður aptur, og hann, sem týnd-
ur var, er fundinn.

## 16. KAPÍTULI.

*Dæmisagan um hinn ótrúa ráðsmann; Jesús ávítar Faríseana, og segir dæmisögu um Lazarus og hinn ríka.*

EN hann sagði einnig við lærisveina sína: maður nokkur ríkur hafði sèr ráðsmann, þann er rægður var fyrir honum um það, að hann hefði sóað hans gózi;

2. Kallaði hann þá þenna fyrir sig og sagði við hann: hví heyri eg þetta um þig? gjör þú reikníngskap ráðsmennsku þinnar, því þú getur ekki leingur verið ráðsmaður minn.

3. En ráðsmaðurinn hugsaði með sjálfum sèr: hvað á eg nú til bragðs að taka, fyrst hússbóndi minn sviptir mig ráðsmennskunni? eg megna ekki að grafa, en skammast mín að biðja ölmusu.

4. Sè eg, hvað eg skal gjöra, svo að þeir, nær eg verð settur frá ráðsmennskunni, skjóti skjólshúsi yfir mig.

5. Kallaði hann þá á hvern og einn af skuldunautum hússbónda síns, og sagði við hinn fyrsta: hvað mikið ert þú skuldugur hússbónda mínum?

6. Hann sagði: hundrað tunnur viðsmjörs. Hinn mælti: tak handskript þína, set þig niður og skrifa þú skyndilega fimmtíu.

7. Þar eptir sagði hann við annan: en hvað mikið ert þú skuldugur? Hann sagði: hundrað mælikeröld hveitis; þá sagði hann: tak þú handskript þína, og skrifa þú áttatíu.

8. Þá hrósaði hússbóndinn þeim rángláta ráðsmanni fyrir það, að hann hefði breytt svo kænlega, því þessa heims börn eru kænni en synir ljóssins við sína kynslóð.

9. Og eg segi yður: gjörið yður vini af mammóni ránglætisins, svo nær þèr farið hèðan, að þèr þá verðið meðteknir í hinar eilífu tjaldbúðir.

10. Sá, sem er trúr yfir litlu, mun einnig vera trúr yfir miklu, og sá, sem er ótrúr yfir litlu, mun og ótrúr vera yfir miklu.

11. Ef að þèr því ekki hafið verið trúir yfir hinum rángláta mammóni, hver mun þá trúa yður fyrir sannarlegum gæðum?

12. Og ef þèr hafið ekki sýnt trúmennsku í meðferð þess, sem aðrir eiga, hver mun þá gefa yður það, sem yðvart er?

13. ¶ Einginn þjón getur tveimur herrum þjónað, því annaðhvort mun hann hata

annan og elska hinn, eður aðhyllast annan og afrækja hinn. Þannig getið þèr ekki þjónað bæði Guði og mammóni.
14. Þegar Faríseararnir, sem voru menn ágjarnir, heyrðu alt þetta, gjörðu þeir gys að honum;
15. Og hann sagði við þá: þèr keppizt eptir að sýnast rèttlátir fyrir öðrum, en Guð þekkir yðar hjörtu; því það sem er hátt meðal manna, er fyrir Guði andstyggilegt.
16. Lögmálið og spámennirnir (spáðu) alt til Jóhannesar tíma; síðan hefir kendur verið lærdómurinn um Guðs ríki, og hver maður vill þreyngja sèr þar inn með valdi;
17. En auðveldara er það, að himin og jörð forgángi, en að hið minsta atriði af lögmálinu gángi úr gildi.
18. Hver, sem segir skilið við konu sína og geingur að eiga aðra, drýgir hór, og hver, sem tekur þá konu, sem skilið hefir sig frá manni sínum, drýgir hór.
19. ¶ En það var einu sinni ríkismaður, sem klæddist purpura og dýrindis líni, og lifði hvern dag í dýrðlegum fagnaði.
20. En fyrir dyrum hans lá fátækur maður, er Lazarus hèt, hlaðinn kaunum;
21. Hann girntist að seðja sig af molum þeim, er fèllu af borðum ens ríka, og jafnvel hundar komu og sleiktu sár hans.
22. En svo bar við, að hinn fátæki dó og var borinn af einglum í faðm Abrahams; sömuleiðis dó hinn ríki og var grafinn.
23. En er hann var í helvítis kvölum, þá hóf hann upp augu sín, og sá Abraham áleingdar, og Lazarus í faðmi hans.
24. Þá kallaði hann og sagði: faðir Abraham, miskuna þú mèr, og send Lazarus, að hann dýfi fíngurgómi sínum í vatn og kæli túngu mína, því eg kvelst í þessum loga.
25. En Abraham sagði; minstu þess, sonur, að þú nauzt hins góða í lífinu, en Lazarus ens vonda, því verður hann nú huggaður, en þú kvalinn.
26. Auk als þessa er á meðal vor og yðar mikið djúp staðfest, svo hvorki þeir, sem vilja hèðan til yðar, eður frá yður til vor, geta komizt yfir.
27. Þá sagði hann: þá bið eg þig, faðir, að þú sendir hann í hús föður míns,

28. Því eg á fimm bræður, svo að hann vari þá við, að ekki komi þeir líka í þenna kvalastað.

29. Þá sagði Abraham: þeir hafa Móses og spámennina, hlýði þeir þeim.

30. En hann sagði: nei, faðir Abraham, heldur ef einhver frammliðinna kæmi til þeirra, þá mundu þeir bæta ráð sitt.

31. Þá svaraði Abraham: ef þeir ekki vilja hlýðnast Mósi og spámönnunum, munu þeir ekki heldur trúa, þótt einhver framliðinn upp risi.

## 17. KAPÍTULI.

*Jesús talar um hneykslanir, sáttgirni, trú; að menn eigi ekki að ætlast til launa, þó þeir gjöri skyldu sína; læknar tíu líkþráa; talar um, hverninn Guðs ríki muni koma.*

EN hann sagði við lærisveina sína: ekki getur hjá því farið, að ekki komi hneykslanir, en vei þeim, er þeim veldur.

2. Betra væri honum, að mylnusteinn væri heingdur um háls honum, og honum væri sökt í sjó, en að hann hneyksli einn af þessum smælíngjum.

3. ¶ Hafið gát á sjálfum yður. Hafi bróðir þinn gjört á hluta þinn, þá átel hann, og iðri hann þess, þá fyrirgef honum það,

4. Og þótt hann sjö sinnum á degi hafi misgjört við þig, og komi sjö sinnum og segist iðrast þess, þá áttu að fyrirgefa honum.

5. Og postularnir sögðu við Drottinn: auk þú oss trúna.

6. En Drottinn sagði: ef þèr hefðuð trú eins og mustarðskorn, munduð þèr geta sagt við þetta mórberjatrè: ríf þú þig upp með rótum, og festu aptur rætur í hafinu; þá mundi það hlýða yður.

7. Hver er sá af yður, sem hefir þjón, er plægir jörð og gætir fjár, að hann segi við hann, nær hann kemur af akri: far þú og set þig til borðs?

8. Mun hann ekki heldur segja: bú þú mèr kvöldverð, gyrð þú þig, og þjóna þú mèr, meðan eg et og drekk, eptir þetta máttu fá þèr mat og drykk?

9. Hvort mun hann gjalda þjóni þeim þakkir, þótt hann gjöri það, sem honum var boðið? Eg held ekki.

10. Sömuleiðis eigið þèr að segja, nær þèr hafið gjört alt hvað yður var boðið: ónýtir þjónar erum vèr, þar eð vèr höfum einúngis gjört það sem vèr áttum að gjöra.

11. ¶ Svo bar við þegar hann var á ferð sinni til Jerúsalem,

og leið hans lá millum Samaría og Galílea,
12. Og hann fór inn í þorp nokkurt, að honum mættu tíu menn líkþráir; þeir stóðu lángt frá,
13. Kölluðu og sögðu: Jesú meistari, miskuna þú oss!
14. Og er hann leit þá, sagði hann við þá: farið og sýnið yður prestunum. En svo bar við, er þeir fóru, að þeir urðu heilbrigðir.
15. En einn af þeim, þegar hann sá, að hann var heill orðinn, snèri aptur og lofaði Guð með hárri raustu,
16. Og fèll til fóta Jesú og þakkaði honum; en þessi maður var samverskur.
17. Þá sagði Jesús: voru þeir ekki tíu, sem heilbrigðir urðu? hvar eru hinir níu?
18. Fundust eingir, sem vildu aptur snúa til að gefa Guði dýrðina, nema þessi útlendíngur?
19. Síðan sagði Jesús við hann: stattu á fætur, og far þú leiðar þinnar; þín trú hefir frelsað þig.
20. ¶ En er hann var að spurður af Faríseunum, hvenær Guðs ríki mundi koma, svaraði hann þeim: Guðs ríki kemur ekki þannig, að á því beri;
21. Og ekki verður sagt: sjá, það er þar, eða það er hèr; því Guðs ríki er hið innra í yður.
22. Síðan sagði hann við lærisveina sína: sá tími mun koma, að yður mun lánga eptir að sjá einn dag Mannsins Sonar, og þèr munuð ekki sjá hann.
23. Þá munu sumir segja við yður: sjáið, hann er þar, hann er hèr; farið ekki þángað og fylgið þeim ekki;
24. Því eins og leiptrandi eldíng líður frá einu skauti himins til annars, eins mun og verða tilkoma Mannsins Sonar;
25. En áður hlýtur hann margt að líða og útskúfaður verða af þessarar aldar mönnum.
26. Því eins og gekk til á dögum Nóa, eins mun til gánga við tilkomu Mannsins Sonar.
27. Þeir átu, drukku, tóku sèr konur og giptust, alt til þess dags er Nói fór inn í örkina og flóðið kom, sem eyðilagði þá alla.
28. Eins gekk til á dögum Lots: þeir átu, drukku, keyptu, seldu, plöntuðu og bygðu hús;
29. En á þeim degi, þegar

Lot fór út af Sódóma, rigndi eldi og brennisteini af himni, sem eyðilagði þá alla.
30. Eins mun til gánga á þeim degi, þegar Mannsins Sonur birtist.
31. Á þeim degi þá varist sá, sem er á þaki uppi, að fara niður í húsið að taka búsgögn sín; eins sá, sem er á akri, að snúa aptur.
32. Munið til konu Lots;
33. Sá, sem þá vill forða lífi sínu, mun týna því, en sá, sem týnir því, mun fá því borgið.
34. Eg segi yður, á þeirri nóttu munu tveir vera í einu hvílurúmi, annar mun verða tekinn, og hinn eptir skilinn;
35. Tvær munu mala saman, önnur þeirra mun verða tekin, hin eptir skilin.
36. Þá spurðu þeir hann að: hvar þá Herra? En hann sagði við þá: þar sem hræið er, þángað munu ernirnir safnast.

## 18. KAPÍTULI.

*Jesús ræður til óþreytanlegra bæna; framsetur dæmisöguna um Faríseann og tollheimtumanninn; talar um úngbörn, um sjálfsafneitun, að hún muni endurgoldin verða; talar um sína pínu. Læknar blindan.*

ÞÁ sagði hann þeim dæmisögu upp á það, að menn ættu stöðugt að biðja og ekki þreytast.
2. Og hann sagði: í borg nokkurri var dómari, sem hvorki óttaðist Guð, nè skeytti um menn.
3. Í sömu borg var ekkja, sem kom til hans, og mælti: lát þú mig ná rètti yfir mínum mótstöðumanni;
4. En hann skeytti því ekki um hríð. En eptir á hugsaði hann með sjálfum sèr: þótt eg ekki óttist Guð, nè skeyti um nokkurn mann,
5. Þá samt vegna þess, að ekkja þessi gjörir mèr ónæði, vil eg láta hana ná rètti sínum, svo að hún ekki ávalt komi til mín og nauði á mèr.
6. Þá sagði Drottinn: gefið gaum að, hvað þessi ránglláti dómari sagði;
7. Mundi þá ekki Guð láta sína útvöldu ná rètti sínum, sem ákalla hann nótt og dag, þó hann fresti hjálpinni.
8. Eg segi yður: hann mun skjótt hjálpa þeim. En þegar Mannsins Sonur kemur, mun hann þá finna trú á jörðu?
9. En hann sagði líka við nokkra, sem treystu sjálfum sèr, að þeir væru rèttlátir og fyrirlitu aðra, þessa dæmisögu:
10. Tveir menn fóru upp í musterið til að biðjast fyrir,

annar þeirra var Farísei, hinn
tollheimtumaður.
11. Faríseinn stóð og baðst
þannig fyrir með sjálfum sèr:
Guð, eg þakka þèr, að eg er
ekki, eins og aðrir menn, ræn-
íngjar, óráðvandir, hórkarlar,
eður eins og þessi tollheimtu-
maður.
12. Eg fasta tvisvar í viku, og
geld tíundir af öllu því eg á.
13. En tollheimtumaðurinn
stóð lángt frá, og vildi ekki
hefja augu sín til himins, held-
ur barði sèr á brjóst og sagði:
Guð, vert þú mèr syndugum
líknsamur!
14. Eg segi yður, að þessi fór
rèttlátari en hinn heim í sitt
hús; því hver sem upp hefur
sjálfan sig, hann mun niður
lægjast, en hver sem lítillækk-
ar sjálfan sig, hann mun upp
hafinn verða.
15. En þeir færðu líka úng
börn til hans, svo að hann
snerti þau. En er lærisvein-
arnir sáu það, ávítuðu þeir þá.
16. En Jesús kallaði þau til
sín og mælti: leyfið börnunum
til mín að koma og bannið
þeim það eigi, því slíkra er
Guðs ríki.
17. Sannlega segi eg yður,
hver sem ekki meðtekur Guðs
ríki, eins og barn, mun ekki
inn koma í það.
18. Þá spurði höfðíngi nokk-
ur hann að og sagði: góði
meistari, hvað á eg að gjöra,
svo eg öðlist eilíft líf?
19. En Jesús sagði við hann:
hví kallar þú mig góðan?
einginn er góður, nema Guð
einn.
20. Þú kant boðorðin: þú
skalt ekki hórdóm drýgja,
ekki mann vega, ekki stela,
ekki bera ljúgvitni, heiðra
föður þinn og móður þína.
21. Þá sagði hann: alls þessa
hefi eg gætt frá únga aldri.
22. En þegar Jesús heyrði
það, sagði hann: enn er þèr
nokkurs ávant: sel þú alt sem
þú átt, og skipt þú því með
fátækum, munt þú þá fjársjóð
hafa á himni; kom þú síðan,
og fylg mèr.
23. En er hann heyrði þetta,
varð hann mjög hryggur, því
hann var mjög auðugur.
24. En er Jesús sá, að hann
varð hryggur, sagði hann:
hversu torvelt er það fyrir þá,
sem ríkir eru, að komast í
Guðs ríki.
25. Því hægra er úlfaldanum
að fara í gegnum nálaraugað,
en ríkum manni í Guðs ríki.
26. Þá sögðu þeir, er þetta
heyrðu: hver mun þá hólpinn
verða?
27. Hann mælti: það, sem

fyrir mönnum er ómögulegt,
er mögulegt fyrir Guði.
28. Þá sagði Pètur: sjá, vér
yfirgáfum alt og fylgdum þèr.
29. En Jesús sagði við þá:
sannlega segi eg yður, að
einginn er sá, sem yfirgefið
hefir hús eður foreldri, bræð-
ur, konu eður börn, Guðs
ríkis vegna,
30. Að hann ekki fái það
margfaldlega endurgoldið í
þessu lífi, og í komanda heimi
eilíft líf.
31. ¶ En hann tók þá tólf til
sín og sagði við þá: nú förum
vèr til Jerúsalem, mun þá
fram koma alt það, sem skrif-
að er af spámönnunum um
Mannsins Son.
32. Því hann mun ofurseld-
ur verða heiðíngjum, hæddur,
spottaður, og spýtt á hann;
33. Þeir munu og húðstrýkja
hann og lífláta, en á þriðja
degi mun hann upp rísa.
34. En þeir skildu ekkert af
þessu, það var þeim hulið, og
þeir skynjuðu ekki það, sem
hann sagði þeim.
35. ¶ En svo bar við þeg-
ar þeir nálguðust Jeríkó, að
blindur maður sat við veginn
og beiddist ölmusu.
36. Nú er hann heyrði, að
mikill fjöldi fólks fór fram hjá,
spurði hann, hvað um væri.
37. En honum var sagt, að
Jesús af Nazaret færi þar hjá.
38. Þá kallaði hann og sagði:
Jesús, sonur Davíðs, miskuna
þú mèr!
39. En þeir, sem á undan
fóru, höstuðu á hann, svo að
hann þegði; en hann kallaði
þess ákafar og sagði: sonur
Davíðs, miskuna þú mèr!
40. Þá nam Jesús staðar og
bauð að leiða hann til sín.
Þegar hann nálgaðist, spurði
Jesús hann og sagði:
41. Hvað viltu, að eg gjöri
við þig? Hann mælti: það,
Herra, að eg fái aptur sjón
mína.
42. Og Jesús sagði við hann:
vertu skygn, þín trú hefir
hjálpað þèr.
43. Og jafnskjótt fèkk hann
sjón sína, og fylgdi honum,
lofandi Guð, og fólkið alt, er
sá þetta, vegsamaði Guð.

## 19. KAPÍTULI.

*Sakeus meðtekur Jesúm; Jesús framsetur dæmisögu um dygga og ódygga meðferð feingins fjár; ríður inn í Jerúsalem; hreinsar musterið, kennir þar, og menn leitast við að ráða hann af dögum.*

ÞEGAR hann ferðaðist gegn
um Jeríkó, var þar maður
nokkur, er Sakeus hèt,
2. Hann var foríngi tollheimtu-
manna og auðugur að fè;
3. Hann leitaði tækifæris til

að sjá Jesúm, en gat ekki fyrir mannfjöldanum, því maðurinn var lítill vexti;

4. Hljóp hann þá fyrir, og klifraði upp í eitt mórberjatrè, svo að hann gæti sèð Jesúm, því leið hans lá þar fram hjá.

5. Þegar nú Jesús kom þángað, varð honum litið upp, sá hann, og sagði við hann: Sakeus, skunda þú ofan, því að í dag ber mèr að dvelja í húsi þínu.

6. Hann fór þá ofan með flýti, og tók við honum næsta glaður,

7. En allir, sem þetta sáu, lètu illa við og sögðu: hann tekur sèr gistíngu hjá bersyndugum.

8. En Sakeus stóð fyrir honum, og sagði við Drottinn: helmíng fjár míns gef eg fátækum, og hafi eg nokkuð ránglega af öðrum, gef eg honum ferfalt aptur.

9. Jesús sagði þá við hann: í dag er heill sken húsi þessu, því að þessi maður er og Abrahams sonur,

10. Því Mannsins Sonur er kominn til að leita að hinu týnda, og frelsa það.

11. En er þeir heyrðu þetta, bætti hann við þessari dæmisögu, því nú var hann kominn í nánd við Jerúsalem, en þeir ætluðu, að Guðs ríki mundi nú þegar birtast;

12. Hóf hann þá svo ræðu sína: maður nokkur eðalborinn ferðaðist í fjarlægt land, til að afla sèr ríkis og koma síðan heim aptur.

13. En er hann hafði kallað fyrir sig tíu af þjónum sínum, seldi hann þeim í hendur tíu pund, og sagði við þá: verzlið með þau þángað til eg kem aptur.

14. En borgarmönnum var illa til hans, og sendu menn á eptir honum, er skyldu segja: vèr viljum ekki hafa þenna fyrir konúng yfir oss.

15. Nú er hann kom til baka og hafði tekið við ríkinu, bauð hann að kalla til sín þjóna þá, er hann hafði selt silfrið í hendur, svo hann feingi að vita, hvað hver þeirra hefði ábatazt.

16. Kom þá hinn fyrsti og sagði: pund þitt, herra, hefir ávaxtazt um tíu pund.

17. Konúngurinn sagði við hann: vel sè þèr, þú góði þjón, þú varst trùr yfir litlu, skaltu því fá yfirráð yfir tíu borgum.

18. Nú kom annar og sagði: pund þitt, herra, hefir ávaxtazt um fimm pund.

19. Hann mælti sömuleiðis við þenna: þú skalt og ráða yfir fimm borgum.
20. En nú kom einn og sagði: herra, sjá hèr er pund þitt, sem eg hefi geymt í sveitadúki;
21. Því eg óttuðumst þig, því þú ert maður harðdrægur, tekur það, sem þú ekki niður lagðir, og upp sker það, sem þú ekki hefir sáð.
22. Við hann sagði konúngurinn: eptir þínum eigin orðum dæmi eg þig, þú illi þjón, þar þú vissir, að eg er maður harður, sem tek það, sem eg ekki hefi niður lagt, og sker þar upp, sem eg ekki hefi sáð;
23. Hví gafstu þá ekki fè mitt þeim í hendur, sem verzla með penínga, svo eg gæti feingið það aptur með vöxtum þegar eg kæmi?
24. Þá sagði hann við þá, er nær voru staddir: takið pundið frá honum, og gefið þeim, sem tíu pund hefir.
25. (Þeir mæltu: herra, hann hefir áður tíu).
26. Því eg segi yður, að hverjum, sem hefir, mun gefið verða, en frá hinum, sem ekkert hefir, mun jafnvel tekið verða það sem hann hefir;
27. En þessa óvildarmenn mína, sem ekki vildu hafa mig til konúngs yfir sèr, færið þá híngað, og takið þá af lífi fyrir augum mèr.
28. ¶ Og er Jesús hafði þetta sagt, hèlt hann ferðinni áfram upp til Jerúsalem.
29. Og svo bar við þegar hann kom í grend við Betfage og Betanía hjá olíufjallinu, að hann sendi tvo af sínum lærisveinum og mælti:
30. Farið þið í þorp það, sem gagnvart ykkur er, og þegar þið komið þar, munuð þið finna fola bundinn, sem einginn hefir áður riðið, leysið hann og leiðið híngað.
31. En spyrji einhver ykkur, því leysið þið hann? þá svarið honum, að Herrann þurfi hans við.
32. Þeir fóru, sem sendir voru, og fundu, eins og hann hafði sagt þeim;
33. En er þeir leystu folann, sögðu eigendur hans við þá: því leysið þið folann?
34. Þeir mæltu: Herrann þarf hans við;
35. Og færðu hann síðan til Jesú. Síðan köstuðu þeir klæðum sínum yfir folann, og settu hann á bak.
36. En er hann fór á stáð, breiddu menn klæði sín á veginn.

37. En þegar hann kom þángað, sem farið er ofan af olíufjallinu, tók allur flokkur lærisveina hans að lofa Guð með hárri gleðiraustu fyrir öll þau kraptaverk, er þeir höfðu sèð, með þessum orðum:

38. Blessaður sè konúngur sá, er kemur í nafni Drottins. Friður sè á himni og dýrð í upphæðum!

39. Nokkrir af Faríseum, sem voru í flokknum, sögðu þá við hann: meistari, hastaðu á lærisveina þína.

40. En hann svaraði og sagði við þá: það segi eg yður, ef að þessir þegðu, þá mundu steinarnir hrópa.

41. ¶ Nú er hann kom svo nær, að hann sá borgina, grèt hann yfir henni og mælti:

42. Æ, að þú að minsta kosti á þessum þínum degi vissir, hvað til þíns friðar heyrði, en nú er þèr það hulið;

43. Því að þeir dagar munu koma yfir þig, að óvinir þínir munu gjöra hervirki um þig, setjast um þig og þraungva þèr á alla vegu,

44. Leggja þig að velli, og börn þín, sem í þèr eru, og ekki láta stein yfir steini standa, vegna þess, að þú þektir ekki þinn vitjunartíma.

45. Síðan gekk hann inn í musterið, tók til að reka þá út, er seldu þar og keyptu, og sagði við þá: ritað er:

46. Mitt hús er bænahús, en þèr hafið gjört það að ræníngja bæli.

47. Daglega kendi hann í musterinu, en hinir æðstu prestar og skriptlærðu, og foríngjar fólksins, leituðust við að ráða hann af dögum,

48. En þeir vissn ekki, hverninn þeir skyldu fara að því, því allur lýðurinn hnè að honum og hlýddi á hann.

## 20. KAPÍTULI.

*Jesús vill ekki segja hinum skriptlærðu, hvaðan hann hefði sinn myndugleika: framsetur dæmisöguna um víngarðsmennina, leysir úr spurníngum og ávítar hina skriptlærðu.*

SVO bar við einhvern þessara daga, er hann kendi lýðnum í musterinu og boðaði náðarlærdóminn, að enir æðstu prestar, hinir skriptlærðu og öldúngarnir geingu til hans,

2. Og spurðu hann og sögðu: seig þú oss, með hvaða myndugleika gjörir þú þetta, eður hver hefir gefið þèr þetta vald?

3. En hann svaraði og sagði við þá: eg vil og spyrja yður eins; segið mèr:

4. Hvort var skírn Jóhannes-

ar frá himni, eður frá mönn-
um?
5. En þeir hugsuðu: ef vèr
segjum, að hann hafi haft hana
frá himni, mun hann spyrja:
því trúðuð þèr honum þá
ekki?
6. En ef vèr segjum, frá
mönnum, mun allur lýðurinn
grýta oss; því hann var sann-
færður um, að Jóhannes, væri
spámaður;
7. Kváðust þeir því ekki vita
það.
8. Og Jesús sagði við þá: eg
segi yður þá ekki heldur, með
hverjum myndugleika eg gjöri
þetta.
9. En hann tók til að segja
lýðnum þessa dæmisögu: mað-
ur nokkur plantaði víngarð, og
leigði hann vínyrkjumönnum,
fór síðan og var erlendis í
lánga tíma.
10. Nú er tími var kominn,
sendi hann til vínyrkjumann-
anna þjón sinn, svo að þeir
gildi honum af ávexti vín-
garðsins; en víngarðsmennirnir
tóku hann og börðu, og sendu
hann aptur tómhentan;
11. Síðan sendi hann annan
þjón, þenna börðu þeir einn-
inn, lögðu honum háðúngar
til, og sendu hann aptur tóm-
hentan;
12. Enn nú sendi hann hinn
þriðja, þann lemstruðu þeir
sárum og ráku í burt;
13. Þá sagði eigandi víngarðs-
ins: hvað á eg nú að gjöra?
Eg vil senda einkason minn;
vera má, þá þeir sjá hann, að
þeir beri virðíngu fyrir hon-
um.
14. En er vínyrkjumennirnir
sáu hann, báru þeir ráð sín
saman og sögðu: þessi er erf-
ínginn, látum oss koma og
ráða hann af dögum, svo vèr
náum arfinum.
15. Síðan hröktu þeir hann
út úr víngarðinum, og drápu
hann. Hverninn mun nú eig-
andi víngarðsins fara með
þá?
16. Hann mun koma og ráða
þessa vínyrkjumenn af dögum,
og leigja víngarð sinn öðrum.
En er þeir heyrðu þetta, sögðu
þeir: verði það aldrei.
17. En hann leit til þeirra og
mælti: hvað þýðir það þá,
sem stendur í ritníngunni: sá
steinn, sem húsasmiðirnir burt
köstuðu, hann er nú hornsteinn
orðinn;
18. Hver, sem fellur um
þenna stein, mun sundur mol-
ast, en á hvern sem hann
fellur, þann mun hann merja.
19. ¶ Þá leituðust æðstu prest-
arnir og enir skriptlærðu við
að leggja hendur á hann, en

þeir þorðu það ekki fyrir fólk-
inu, því þeir skildu, að hann
hafði sagt þessa dæmisögu
upp á þá.
20. Þeir hèldu nú vörð á hon-
um og settu út njósnarmenn,
er láta skyldu, sem væru þeir
rèttlátir, svo að þeir gæti haft
á orðum hans, og selt hann í
hendur yfirvaldinu og á vald
landstjórans.
21. Þessir spurðu hann og
mæltu: vèr vitum, meistari,
að þú segir og kennir það,
sem rètt er, og gjörir þèr
eingan manna mun, heldur
kennir þú sanna Guðs götu.
22. Leyfist oss að gjalda keis-
aranum skatt, eður ekki?
23. En er hann merkti þeirra
fláttskap, sagði hann við þá:
því freistið þèr mín?
24. Sýnið mèr penínginn;
hvers mynd er á honum, og
hvers yfirskript hefir hann?
en þeir svöruðu og sögðu:
keisarans.
25. Hann sagði við þá: gjald-
ið þá keisaranum, hvað keis-
arans er, og það Guði, sem
Guðs er.
26. Þannig gátu þeir ekki
veitt hann í orðum í viðurvist
lýðsins, en undruðust svör
hans og þögnuðu.
27. ¶ Þá komu nokkrir af
Sadúseum, sem neita því, að
framliðnir menn upp rísi, og
spurðu hann og sögðu:
28. Meistari, Móses hefir boð-
ið oss, að ef einhver missir
bróður síns, þess er kvæntur
var og dó barnlaus, skuli bróð-
ir hins dána gánga að eiga
konu hans og þannig halda
við ættlegg bróður síns.
29. Nú voru sjö bræður; hinn
fyrsti kvongaðist og dó barn-
laus,
30. Svo giptist hún öðrum, og
þessi dó einninn barnlaus,
31. Síðan hinum þriðja, og
svo framvegis, og eingum
þeirra varð barna auðið, og
svo dóu þeir;
32. Seinast allra þeirra dó og
konan.
33. Nú er menn upp rísa,
hvers þessara eiginkona verð-
ur hún þá, því allir sjö höfðu
átt hana?
34. Og Jesús svaraði og sagði
við þá: hèr í heimi kvongast
menn, og konur giptast,
35. En þeir, sem verðir álítast
að öðlast annað líf og upp rísa
frá dauðum, munu hvorki
kvongast nè giptast;
36. Því þeir geta ekki framar
dáið, heldur eru þeir einglum
líkir og Guðs börn.
37. En að dauðir upp rísi, það
hefir og Móses sýnt í grein-
inni um þýrnirunninn, þar sem

hann kallar Drottinn Guð Abrahams, Guð Ísaaks og Guð Jakobs;

38. En Guð er ekki Guð dauðra, heldur lifenda, því honum lifa þeir allir.

39. ¶ Þá svöruðu nokkrir af hinum skriptlærðu og sögðu: meistari, vel svaraðir þú.

40. Og þeir dirfðust ekki framar að spyrja hann nokkurs;

41. En hann spurði þá þannig: því segja menn, að Kristur sè sonur Davíðs?

42. Þar sjálfur Davíð segir í sálmabókinni: Drottinn sagði mínum Drottni:

43. Sittu mèr til hægri handar, þángað til eg legg óvini þína undir skör fóta þinna.

44. Hafi nú Davíð kallað hann Drottinn, hverninn er hann þá sonur hans?

45. ¶ En í áheyrn als lýðsins sagði hann við lærisveina sína:

46. Varið yður við hinum skriptlærðu, sem vilja gánga í síðum klæðum og láta heilsa sèr á mannamótum, sitja í fyrirsæti í samkunduhúsum, og efstir til borðs í veizlum.

47. Þeir eru það, sem út sjúga hús ekkna og biðja lángar bænir fyrir siðasakir. Þeir munu sæta því þýngri hegníngu.

## 21. KAPÍTULI.

*Jesús hrósar gjöf ekkjunnar, er lagði í fèhirzlu Guðs; talar um musterisins og Jerúsalems eyðileggíngu, og enda heimsins; kennir daglega í musterinu.*

ÞÁ leit hann upp, og sá þá ena ríku, er lögðu gjafir sínar í fèhirzlu musterisins;

2. Og hann sá líka ekkju eina fátæka, er lagði þar inn tvo smápenínga.

3. Þá sagði hann: sannlega segi eg yður, þessi fátæka ekkja hefir meira lagt en hinir allir;

4. Því þeir hafa allir lagt í fèhirzlu Guðs af því, sem þeir höfðu afgángs, en þessi gaf af fátækt sinni aleigu sína.

5. ¶ Þegar nokkrir töluðu um, að musterið væri prýtt með fögrum steinum og heitgjöfum, sagði hann:

6. Þeir dagar munu koma, að af þessu, sem þèr nú sjáið, mun ekki steinn yfir steini standa, sem eigi verði niður rifinn.

7. Nær verður það, meistari, spurðu þeir, og hvað skal til marks hafa um það, hve nær slíkt eigi að fram koma?

8. Hann svaraði: gjaldið varhuga við, að þèr verðið ekki flekaðir, því margir munu koma í mínu nafni og segjast vera Kristur, og nú sè tíminn nálægur, en fylgið þeim ekki.

9. Nær þèr heyrið um stríð
og upphlaup, þá skelfizt ekki,
því þetta hlýtur á undan að
fara, en endirinn er samt ekki
undireins kominn.
10. Þá, sagði hann við þá,
mun ein þjóð rísa upp gegn
annari, og eitt ríki gegn öðru;
11. Þá munu á ýmsum stöð-
um verða miklir landskjálftar,
hallæri og drepsóttir; þá
munu sjást ógurlegir fyrir-
burðir og tákn mikil á himn-
um;
12. En áður en alt þetta
kemur fram, munu þeir leggja
hendur á yður, ofsækja yður,
framselja yður í samkunduhús
og fángelsi, og draga yður fyr-
ir míns nafns sakir fyrir kon-
únga og landstjóra.
13. Og þetta mun koma fram
við yður til vitnisburðar.
14. Látið yður því fast í huga
vera, að þèr ekki fyrir fram
búið yður undir málavörn
yðar;
15. Því eg mun gefa yður
málsnilli og vizku, sem allir
mótstöðumenn yðar ekki munu
megna að mótmæla eður móti
að standa.
16. En þèr munuð jafnvel
framseldir verða af foreldrum,
systkinum, frændum og vinum,
og nokkra af yður munu þeir
lífláta,
17. Og allir munu yður fyrir
míns nafns sakir að hatri hafa;
18. En ekkert hár af yðar
höfði skal þó farast.
19. Látið stöðuglyndi vera
vörn sálum yðar.
20. En nær þèr sjáið Jerú-
salem umkríngda af herflokk-
um, þá vitið, að eyðileggíng
hennar er í nánd.
21. Sá sem þá er í Júdea-
landi, flýi hann til fjalla, og
hver sem í borginni er, flytji
hann þaðan; en þeir sem á
landsbygðinni eru, fari þeir
ekki inn í borgina,
22. Því að þessir eru hennar
refsíngardagar, og mun þá
fram koma alt það sem hèr
um er ritað.
23. En vei þúnguðum konum
og þeim, sem börn hafa á
brjósti um þær mundir, því
mikil neyð mun þá verða í
landinu, og hegníng yfir þess-
um lýð;
24. Og þeir munu falla fyrir
sverðs-eggjum, og herleiddir
verða meðal allra þjóða, og
Jerúsalem mun fóttroðin verða
af heiðnum mönnum, þángað
til þeirra tími er uppfyltur.
25. ¶ Tákn munu verða á
sólu, túngli og stjörnum, og á
jörðu ángist meðal þjóðanna í
örvínglun.
26. Sjór og haf mun þá þjóta;

menn munu þá deya af
ángistarfullri eptirvæntíngu
þess, er yfir allan heiminn
mun koma, því kraptar himn-
anna munu hrærast,
27. Og þá munu menn sjá
Mannsins Son komanda á
skýunum með makt og mikilli
dýrð.
28. En þegar þetta tekur til
að koma fram, þá lítið upp og
upp hefjið yðar höfuð, því að
lausn yðar er í nánd.
29. Og hann sagði þeim dæmi-
sögu: gætið að fíkjutrènu og
öðrum trjám;
30. Þegar aldini þeirra taka
út að springa, þá sjáið þèr á
þeim, að sumarið er í nánd.
31. Sömuleiðis og þèr, nær
þèr sjáið þetta fram koma, þá
vitið, að Guðs ríki er í nánd.
32. Sannlega segi eg yður, að
þessi kynslóð mun ekki undir
lok líðin, áður en alt þetta
fram kemur.
33. Himin og jörð munu líða
undir lok, en mín orð skulu
ekki undir lok líða.
34. ¶ En gætið yðar, að hjörtu
yðar ekki ofþýngist við óhóf í
mat eður drykk eður búksorg,
svo að ekki komi þessi dagur
yfir yður óvart;
35. Því eins mun hann koma
og tálsnara yfir alla þá, sem á
jörðu búa.
36. Verið því ávalt vakandi
og biðjandi, svo þèr verðið á-
litnir þess verðugir, að umflýa
alt þetta, sem fram mun koma,
og mæta frammi fyrir Manns-
ins Syni.
37. Um daga kendi hann í
musterinu, en um nætur var
hann utan borgar á því svo
kallaða olíufjalli;
38. Og alt fólkið flyktist
hvern morgun í musterið að
heyra hann.

## 22. KAPÍTULI.

*Gyðíngar ráðgast um að lífláta Jesús; Júdas svíkur hann; Jesús etur páskalambið og setur kvöldmáltíðina; áminnir til auðmýktar og hughreystir lærisveinana; fyrir segir Pèturs hrösun, og þær freistíngar, sem lærisveinunum sèu búnar; Jesú sálar-ángist í grasgarðinum; hann er tekinn höndum; Pèturs afneitun; Jesús er spottaður og sleginn: játar, að hann sé Kristur.*

NÚ nálgaðist hátíðin ósýrðu
brauðanna, sem páskar
heita.
2. Þá báru enir æðstu prestar
og skriptlærðir ráð sín saman
um, hverninn þeir skyldu ráða
hann af dögum, því þeir voru
hræddir við alþýðuna.
3. ¶ En þá fór Satan í Júdas,
er kallaður var Iskaríot, einn
af þeim tólf;
4. Hann fór og kom að máli
við hina æðstu presta og varð-
manna foríngjana um það,
hvernig hann skyldi koma
honum á vald þeirra.

5. Við þetta glöddust þeir; og hètu honum fè til þess.
6. En hann gekkst undir þetta, og sætti tækifæri að koma honum á vald þeirra, án þess að upphlaup yrði.
7. ¶ Nú kom dagur enna ósýrðu brauðanna, þegar slátra átti páskalambinu.
8. Þá sendi Jesús Pètur og Jóhannes, og sagði: farið þið og matbúið páskalambið fyrir oss, svo vèr neytum þess.
9. Þeir spurðu, hvar hann vildi láta matbúa.
10. En hann sagði við þá: þegar þið komið í borgina, mun mæta yður maður, sem ber vatnskrús, fylgið honum til þess húss, sem hann fer inn í,
11. Og segið svo hússbóndanum: meistarinn spyr þig, hvar er það herbergi sem eg geti neytt í páskalambsins með lærisveinum mínum?
12. Mun hann þá sýna yður loptsal mikinn, vel upp búinn; búið þar til matar.
13. En þeir fóru og fundu alt, eins og hann hafði fyrir sagt, og matreiddu þar páskalambið.
14. Nú er tími var til, gekk hann undir borð, og þeir tólf postular með honum.
15. Þá sagði hann við þá: hjartanlega hefir mig lángað eptir að neyta þessa páskalambs með yður, áður en eg líð;
16. Því eg segi yður: eg mun ekki neyta af því framar, þángað til það fullkomnast í Guðs ríki.
17. Þá tók hann kaleikinn, gjörði Guði þakkir og mælti: meðtakið hann, og skiptið honum meðal yðar;
18. Því eg segi yður, að eg mun ekki drekka af vínviðar ávexti þángað til Guðs ríki kemur.
19. ¶ Síðan tók hann brauðið, gjörði Guði þakkir, braut það, gaf þeim það og mælti: þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn, gjörið þetta í mína minníngu.
20. Sömuleiðis (tók hann) kaleikinn eptir kvöldmáltíðina, og mælti: þessi kaleikur er hinn nýi sáttmáli í mínu blóði, sem fyrir yður verður úthelt.
21. ¶ En sjá, hönd þess, er mig svíkur, er á borðinu með mèr.
22. Um Mannsins Son mun að sönnu fara, eins og ályktað er, en vei þeim manni, sem svíkur hann.
23. Þá tóku þeir að spyrjast á, hver þeirra sá mundi vera, er þetta mundi fremja.

24. ¶ En það hófst líka kapp-
ræða meðal þeirra um það,
hver þeirra væri mestur;
25. Þá sagði hann við þá:
konúnga, sem ríkjum ráða, og
maktarmenn kalla menn vel-
gjörðamenn;
26. En þannig á það ekki að
vera meðal yðar, heldur á sá,
sem mestur er yðar á milli, að
vera eins og hinn minsti, og
sá, sem yfirráðin hefir, eins og
þjón hinna.
27. Því hver er meiri, sá sem
situr til borðs, eður hinn, sem
þjónar fyrir borði? er það
ekki sá, sem til borðs situr?
en eg er meðal yðar, sem
þjónustumaður.
28. En þèr eruð þeir, sem
stöðugir hafið verið með mèr
í freistíngum mínum;
29. Og eg fæ yður ríkið í
hendur eins og faðir minn
fèkk mèr það,
30. Svo að þèr skuluð sitja
til borðs með mèr í ríki mínu;
líka skuluð þèr sitja í hásæt-
um og dæma allar tólf Ísraels
kynkvíslir.
31. ¶ En Drottinn sagði: Sím-
on, Símon, sjá, Satan vildi fá
yður til að sælda yður eins og
hveiti,
32. En eg hefi beðið fyrir þèr,
að þín trú ekki skyldi þrotna,
og þegar þú seinna sèrð að
þèr, þá styrk þú bræður
þína.
33. En Pètur sagði við hann:
reiðubúinn er eg, Herra, að
fylgja þèr jafnvel í fángelsi og
dauða.
34. Jesús mælti: sannlega
segi eg þèr það, Pètur, að þú
munt þrisvar hafa neitað því,
að þú þektir mig, áður en
haninn gelur í dag.
35. Og hann sagði við þá:
þegar eg sendi yður án pýngju,
mals og skóa, hvort brast yð-
ur þá nokkuð? Ekkert, sögðu
þeir.
36. Þá sagði hann við þá: en
hver yðar sem nú hefir pýngju
eður mal, taki hann það, og sá
sem ekki hefir, selji hann yfir-
höfn sína, og kaupi sverð;
37. Því eg segi yður: að nú
hlýtur það að rætast á mèr,
sem skrifað er: "meðal ill-
virkja er hann talinn," og það
sem um mig er spáð, mun nú
rætast.
38. En þeir sögðu: Herra, sjá,
hèr eru tvö sverð. En hann
sagði við þá: það er nóg.
39. ¶ Síðan gekk hann út úr
borginni og fór, sem hann
var vanur, til olíufjallsins,
og fylgdu honum lærisveinar
hans.
40. Þegar hann var þángað
kominn, þá sagði hann við þá:

biðjið, að þèr fallið ekki í
freistni.
41. Gekk hann þá frá þeim
nær einu steinsnari, fèll á knè
og bað á þessa leið:
42. Faðir, ó að þú vildir taka
þenna kaleik frá mèr! en verði
samt þinn, en ekki minn vilji!
43. Birtist honum þá eingill
af himni, sem styrkti hann;
44. Og er hann var staddur í
dauðans ángist, tók hann enn
ákafar að biðja; en sveiti hans
var sem blóðdropar, er fèllu
á jörðina.
45. Síðan stóð hann upp frá
bæn sinni, kom til lærisveina
sinna, og fann þá sofandi af
hrygð.
46. Þá sagði hann við þá: hví
sofið þèr? rísið upp og biðjið,
að þèr fallið ekki í freistni.
47. En meðan hann var þetta
að mæla, þá kom flokkur
manna, og fyrir honum var
einn af þeim tólf, sem Júdas
hèt. Hann veik sèr að Jesú,
og mintist við hann.
48. En Jesús sagði við hann:
Júdas, svíkur þú Mannsins
Son með kossi?
49. En er þeir, sem með hon-
um voru, sáu, hvað verða
mundi, sögðu þeir: Herra,
eigum vèr ekki að bregða
sverði?
50. ¶ Og einn af þeim hjó til
þjóns ens æðsta prests, og sneið
af honum hans hægra eyra.
51. Jesús mælti: látið hèr við
staðar nema; hrærði við eyra
þjónsins, og læknaði hann.
52. Síðan sagði Jesús við hina
æðstu presta og fyrirliða varð-
manna musterisins og öldúng-
ana: þèr hafið farið með sverð-
um og forkum til að höndla
mig, eins og ræníngja;
53. En á hverjum degi hefi eg
verið hjá yður í musterinu, og
þèr hafið eigi lagt hendur á
mig, en þessi er yðar tími og
myrkranna veldi.
54. ¶ Nú er þeir höfðu hand-
tekið hann, færðu þeir hann í
hús ens æðsta prests; en Pèt-
ur fylgdi eptir áleingdar.
55. Höfðu menn kveiktan eld
í miðjum hallargarðinum, og
sezt við hann; tók Pètur sèr
þá sæti við hann meðal þeirra.
56. En er ambátt nokkur sá
hann við eldinn, starði hún á
hann og mælti: þessi maður
var líka með honum;
57. En hann neitaði því og
sagði: kona, eg þekki ekki
þann mann.
58. Litlu síðar sá hann ann-
ar maður og sagði: þú ert og
einn af þeim; en Pètur kvað
nei við því.
59. Nú er liðinn var hèr um
bil einn tími, styrkti annar

maður þetta og sagði: í sannleika var þessi maður einnig með honum, því hann er frá Galíleu.

60. Pètur mælti: eg skil ekki, maður, hvað þú segir; og þegar hann var þetta að tala, gól haninn.

61. En Drottinn snèri sèr við, og leit til Pèturs, mintist þá Pètur þess, er Drottinn hafði sagt, að áður en haninn galaði, mundi hann þrisvar hafa afneitað sèr;

62. Gekk hann þá út og grèt sáran.

63. ¶ En þeir menn, sem höfðu Jesúm í varðhaldi, gjörðu gys að honum, og börðu hann,

64. Byrgðu fyrir augu hans og slógu í andlit honum, og sögðu: spá þú, hver var sá, sem barði þig?

65. Og margt annað sögðu þeir háðuglegt við hann.

66. ¶ Og í dögun söfnuðust saman öldúngar lýðsins, enir æðstu prestar og skriptlærðir, og færðu hann í ráðstofu þeirra.

67. Og sögðu: ert þú Kristur? seg oss það. En hann sagði við þá: þó eg segi yður það, þá trúið þèr því ekki;

68. En spyrji eg yður nokkurs, þá svarið þèr mèr ekki, eða látið mig lausan;

69. En hèðanaf mun Mannsins Sonur sitja til hægri handar Guðs kraptar.

70. Þá spurðu þeir allir: ert þú þá Guðs Sonur? Hann mælti: þèr segið satt, því eg em það.

71. Þá sögðu þeir: hvað þurfum vèr nú framar vitna við, þar vèr höfum sjálfir heyrt það af hans munni?

## 23. KAPÍTULI.

*Pílatus úrskurðar, að Jesús sè saklaus; sendir hann til Heródesar; lætur Barabbas lausan, en fordæmir Jesúm. Símon ber hans kross. Jesús bannar Jerúsalems dætrum að gráta yfir sèr; er krossfestur og biður fyrir óvinum sínum; hann er spottaður; yfirskriptin; annar ræníngjinn iðrast. Jesús deyr; undur við Jesú dauða; hans greptrun.*

OG allur mannfjöldinn stóð upp, og færði hann til Pílatusar,

2. Og tók til að áklaga hann með svo feldum orðum: vèr höfum komizt að því, að þessi afvegaleiðir alþýðuna, og bannar að gjalda keisaranum skatt, og segist vera konúngurinn Kristur.

3. Þá spurði Pílatus hann og sagði: ertú konúngur Gyðínga? Jesús mælti: rètt segir þú.

4. Þá sagði Pílatus til enna æðstu presta og lýðsins: ekkert finn eg saknæmt hjá þessum manni.

5. En þeir voru því ákafari os sögðu: hann hefir uppæst

fólkið með kenníngum sínum
í öllu Gyðíngalandi, alt frá
Galílea og híngað.
6. Nú er Pílatus heyrði nefnt
Galílea, spurði hann, hvort
þessi maður væri frá Galíleu:
7. Og er hann varð þess vís,
að hann var úr ríki Heródesar,
sendi hann hann til Heródesar,
sem um þessar mundir var í
Jerúsalem.
8. ¶ En þegar Heródes sá Jes-
úm, varð hann næsta glaður,
því leingi hafði hann lángað
til að sjá hann, því hann hafði
heyrt margt af honum sagt,
og gjörði sèr von um að sjá
eitthvert teikn af honum.
9. Spurði Heródes hann á
marga vega, en hann svaraði
honum eingu.
10. Geingu þá fram enir æðstu
prestar og skriptlærðir, og
áklöguðu hann harðlega;
11. En Heródes og stríðsmenn
hans hæddu hann, og gjörðu
gys að honum, lögðu yfir hann
skraut-klæði og sendu hann
aptur til Pílatusar.
12. ¶ Á þessum sama degi
urðu þeir Pílatus og Heródes
vinir, því áður hafði verið
fjandskapur þeirra á milli.
13. ¶ Nú lèt Pílatus samankalla
ena æðstu presta, höfðíngjana
og fólkið, og tók svo til orða:
14. Þèr hafið fært mèr þenna
mann, svo sem þann, er frá-
snèri lýðnum; en sjáið, nú í
yðar viðurvist hefi eg rann-
sakað málefni hans og ekki
fundið hann sekan um nokkuð
það, er þèr ákærið hann fyrir.
15. Ekki heldur Heródes, því
til hans sendi eg yður sjálfa.
Sjáið nú, ekkert er það af hon-
um drýgt, sem dauða sè vert;
16. Ætla eg því að refsa hon-
um og láta hann lausan.
17. (En hann varð að gefa
þeim lausan einn bandíngja á
hverri hátíð);
18. Þá kallaði allur lýðurinn
og sagði: lát þú aflífa þenna,
en gef oss Barabbas lausan.
19. En þessi Barabbas var,
fyrir upphlaup í borginni og
manndráp, settur í myrkva-
stofu.
20. Pílatus talaði enn þá til
þeirra, og vildi láta Jesúm
lausan;
21. En þeir æptu enn hærra
og sögðu: krossfestu hann,
krossfest þú hann!
22. I þriðja sinni sagði Píla-
tus við þá: hvað hefir þá þessi
maður ilt aðhafzt? eg hefi einga
dauðasök fundið hjá honum,
þess vegna vil eg refsa honum
og láta hann lausan.
23. En þeir stóðu því fastar
á með miklum óhljóðum, og
kröfðu, að hann skyldi kross-

festast; og óhljóð þeirra og enna æðstu presta tóku yfir.

24. Þá lagði Pílatus þann úrskurð á, að beiðni þeirra skyldi verða framgengt.

25. Og gaf þeim að bón þeirra þann lausan, sem fyrir upphlaup og manndráp hafði verið settur í myrkvastofu, en Jesúm framseldi hann eptir vild þeirra.

26. Og þegar þeir leiddu hann út, tóku þeir mann nokkurn, Símon frá Kyrene, sem kom af akri, og lögðu krossinn á hann, svo að hann bæri hann eptir Jesú.

27. ¶ En mikill fjöldi fólks og kvenna fylgdi honum eptir, sem hörmuðu og grètu yfir honum.

28. Þá snèri Jesús sèr til þeirra og mælti: þèr, Jerúsalems dætur, grátið ekki yfir mèr, en grátið yfir sjálfum yður, og börnum yðrum;

29. Því sjáið, þeir tímar munu koma, að menn munu segja: sælar eru óbyrjur og þau móðurlíf, er ekkert fóstur báru, og þau brjóst, er ekki voru mylkt.

30. Þá munu menn segja til fjallanna: hrynjið yfir oss! og til hálsanna: hyljið oss!

31. Því ef menn fara svo með hið græna trèð, hversu mun þá fara fyrir hinu visna.

32. Með honum voru færðir til lífláts tveir illræðismenn.

33. Og þegar þeir voru komnir til þess staðar, sem kallaður er hausaskeljastaður, þar krossfestu þeir hann og þessa illræðismenn, annan til hægri handar honum, en hinn til vinstri.

34. ¶ En Jesús sagði: Faðir, fyrirgef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra. Síðan skiptu þeir klæðum hans, og vörpuðu (um þau) hlutkesti.

35. Og fólkið stóð og horfði á; en höfðíngjarnir gjörðu og gys að honum, og sögðu: öðrum hefir hann hjálpað, hjálpi hann nú sjálfum sèr, ef hann er Kristur, hinn útvaldi Guðs.

36. Sömuleiðis hæddu hann stríðsmennirnir, komu og báru honum súrt vín, og sögðu:

37. Ef þú ert konúngur Gyðínga, þá frelsaðu sjálfan þig.

38. Yfirskript var og yfir honum rituð á grísku, rómversku og ebresku, þannig hljóðandi: "þessi er konúngur Gyðínga."

39. ¶ En annar af þeim illvirkjum, sem krossfestir voru, spottaði hann og sagði: sèrtu Kristur, þá frelsaðu sjálfan þig og okkur.

40. Þá tók hinn til orða, ávítaði hann og sagði: hræðist þú ekki Guð, þar sem þú þó ert undir sama dómi?

41. Og að vísu (líðum við) rèttilega, því við fáum makleg gjöld fyrir okkar athæfi, en þessi hefir ekkert ilt aðhafzt.

42. Og hann sagði við Jesúm: minst þú mín, Herra, þegar þú kemur í ríki þitt!

43. Og Jesús sagði við hann: sannlega segi eg þèr: í dag skaltu vera með mèr í Paradís.

44. En það var um sjöttu stund, að myrkur kom yfir alt landið, sem varaði alt til ennar níundu, og sólin misti sinnar birtu;

45. Þá rifnaði og fortjald musterisins að endilaungu.

46. ¶ Og Jesús kallaði hárri raustu og sagði: Faðir, í þínar hendur fel eg minn anda; og er hann hafði þetta mælt, uppgaf hann sinn anda.

47. Nú er hundraðshöfðínginn sá þessa atburði, vegsamaði hann Guð og sagði: sannlega hefir þessi maður verið rèttlátur;

48. Og alt fólkið, sem komið hafði að horfa á þetta, þegar það sá, hvað skeði, barði það sèr á brjóst, og snèri heimleiðis;

49. En allir þeir, sem honum voru kunnugir, og konur þær, er honum höfðu fylgt úr Galílea, stóðu lángt frá, og sáu þetta.

50. ¶ En sjá, þá kom maður, Jósep að nafni, hann var ráðherra, góður maður og rèttvís.

51. Þessi maður hafði ekki samþykt ráð og athafnir þeirra; hann var frá borginni Arímatea í Júdea, og vænti sjálfur Guðs ríkis.

52. Þessi maður gekk til Pílatusar, og bað hann um líkama Jesú;

53. Tók hann síðan niður, sveipaði hann í líni, og lagði hann í höggna steingröf, sem einginn hafði áður verið lagður í.

54. Þetta var aðfángadaginn, og hvíldardagurinn fór í hönd.

55. En konur þær, er með Jesú höfðu komið úr Galíleu, fylgdu og eptir, skoðuðu legstaðinn, og sáu, hverninn lík hans var lagt;

56. Snèru síðan heim og tilbjuggu ilmandi og dýrmæt smyrsl; en um helgina hèldu þær kyrru fyrir, samkvæmt lögmálinu.

## 24. KAPÍTULI.

*Einglar boða konunum Jesú upprisu; Jesús birtist þeim tveimur, sem geingu til Emaus, og þeim tíu; heimfærir til sín spádómana, og lofar lærisveinunum Heilögum Anda; upp stígur til himna.*

EN hinn fyrsta dag vikunn-
ar, undireins og lýsti af
degi, komu þær til legstaðar-
ins, og höfðu með sèr smyrsl
þau, er þær höfðu tilbúið, og
nokkrar aðrar konur með
þeim;
2. Fundu þær þá steininn
veltan frá gröfinni,
3. Geingu síðan inn og fundu
ekki lík Drottins Jesú.
4. En meðan þær voru að
furða sig á þessu, þá sjá,
tveir menn stóðu hjá þeim í
skínandi klæðum.
5. Við þetta urðu þær hrædd-
ar, og hneigðu andlit sín til
jarðar; þá sögðu þeir við þær:
hví leitið þèr ens lifanda
meðal framliðinna?
6. Hann er ekki hèr, heldur
er hann upprisinn; minnizt
þess, er hann sagði yður,
meðan hann var enn nú í
Galílea,
7. Og kvað svo að orði:
Mannsins Syni byrjar að verð-
a seldur í hendur syndugra
manna og krossfestast, og
upp rísa á þriðja degi.
8. Mintust þær þá orða hans,
9. Snèru heim frá gröfinni,
og kunngjörðu alt þetta þeim
ellefu og hinum öðrum.
10. Þessar konur voru: Mar-
ía frá Magdölum, Jóhanna og
María, móðir Jakobs, og aðrar
með þeim, er færðu postulun-
um þessa fregn.
11. En þeir hèldu, að þetta
væri hègómi og trúðu þeim
ekki;
12. En Pètur stóð þó upp,
hljóp til grafarinnar, gægðist
inn og sá tómar líkblæurnar
liggja þar; fór hann síðan
heim og undraðist þenna at-
burð.
13. ¶ Svo bar við, að þenna
sama dag fóru tveir af þeim
til þorps nokkurs, sem heitir
Emaus; það er hèr um bil
sextíu skeiðrum frá Jerúsal-
em;
14. Voru þeir þá að tala sín á
milli um alt það, er við hafði
borið.
15. Bar þá svo við, er þeir
voru að tala um þetta og
spyrja hvor annan, að sjálfur
Jesús nálgaðist þá og slóst í
ferð með þeim,
16. En augu þeirra voru svo
haldin, að þeir þektu hann
ekki.
17. Þá sagði hann við þá:
hvað er það, sem þið eruð að
tala um ykkar á milli á leið
ykkar, og eruð svo hryggvir?
18. Þá svaraði annar þeirra,
sem Kleófas hèt og sagði við
hann: ert þú sá eini meðal
aðkomandi manna í Jerúsa-
lem, sem ekki veizt, hvað þar

á þessum dögum kefir við
borið?
19. Jesús sagði við þá: hvað
er það? Þeir sögðu: hvernig
farið var með Jesús frá
Nazaret, sem var spámaður
og máttugur í orðum og verkum,
fyrir Guði og öllu fólki;
20. Hvernig enir æðstu
kennimenn og höfðíngjar vorir
fram seldu hann til dauða,
og krossfestu hann.
21. En vèr hugsuðum, að
hann mundi vera sá, sem
frelsa ætti Ísrael; og ofan á
alt þetta er í dag sá þriðji
dagur, síðan þetta bar við.
22. Auk þessa hafa nokkrar
konur vorar hrætt oss, þær
er árla voru við gröf hans,
23. En fundu ekki líkið, og
þóktust hafa sèð eingla, sem
höfðu sagt, að hann væri lifandi;
24. Síðan fóru nokkrir af
þeim, sem með oss voru, til
grafarinnar, og fundu alt, eins
og konurnar höfðu sagt, en
hann sáu þeir ekki.
25. Þá sagði hann við þá:
ó, þèr heimskir, og tregir í
hjarta til að trúa öllu því,
sem spámennirnir hafa sagt!
26. Átti ekki Kristur að líða
þetta og inn gánga svo í sína
dýrð?
27. Byrjaði hann þá á Móses
og öllum spámönnunum, og
útlagði fyrir þeim alt það í
ritníngunum, er hljóðaði um
hann.
28. Nú tóku þeir að nálgast
þorpið, sem þeir ætluðu til,
lèt hann þá, sem ætlaði hann
leingra að fara;
29. En þeir báðu hann innilega
að vera hjá þeim, og
sögðu: vertu hjá oss, því að
kvölda tekur og á daginn
líður: fór hann þá inn í
þorpið og var með þeim.
30. En svo bar við, þá hann
sat til borðs með þeim og
hann tók brauðið, blessaði
það, braut það og deildi meðal
þeirra,
31. Að þá opnuðust þeirra
augu, svo þeir þektu hann,
en þá hvarf hann þeim.
32. Þá sögðu þeir hver við
annan: brann ekki hjarta
okkar í okkur, meðan hann
talaði við okkur á veginum
og útlagði fyrir okkur ritníngarnar?
33. Stóðu þeir þá samstundis
upp og fóru aptur til Jerúsalem;
þar fundu þeir þá ellefu
samansafnaða, og þá, sem með
þeim voru,
34. Sem sögðu: Drottinn er
sannarlega upprisinn og hefur
birzt Símoni;
35. En hinir sögðu frá því,

sem við hafði borið a veginum,
og hvernig þeir hefðu þekt
hann, í því hann braut brauðið.
36. ¶ En þegar þeir voru að
tala um þetta, stóð hann sjálfur
meðal þeirra og sagði við
þá: Friður sè með yður!
37. Við þetta urðu þeir næsta
hræddir, því þeir hugsuðu, að
þeir sæu anda; og hann sagði
við þá:
38. Hvað hræðist þèr, og hví
vakna hjá yður slíkar hugrenníngar?
39. Skoðið hendur mínar og
fætur, að það er eg. Þreifið
á mèr, og gætið að; því andi
hefir hvorki hold nè bein,
eins og þèr sjáið mig hafa;
40. Og þegar hann hafði
þetta mælt, sýndi hann þeim
hendur sínar og fætur.
41. En er þeir af fögnuði og
undrun ekki vildu trúa þessu,
sagði hann: hafið þèr hèr
nokkuð til matar?
42. Þeir lögðu þá fyrir hann
stykki af steiktum fiski og
nokkuð af hunángsköku,
43. Og neytti hann þessa að
þeim ásjáandi.
44. En hann sagði við þá:
þetta er það, sem eg sagði
yður, meðan eg var enn með
yður, að á mèr ætti að rætast
alt það, sem ritað er um mig í
lögmáli Móses, spámönnunum
og sálmunum.
45. Opnaði hann þá hugskot
þeirra, svo þeir skildu ritníngarnar,
46. Og sagði við þá: svo er
skrifað, þannig átti Kristur að
líða og upprísa frá dauðum á
þriðja degi,
47. Og láta í sínu nafni boða
öllum þjóðum apturhvarf og
fyrirgefníngu syndanna, sem
byrja skyldi í Jerúsalem.
48. En þèr eruð vottar þessara hluta.
49. ¶ Sjáið, eg sendi fyrirheit
Föður míns yfir yður; en þèr
skuluð halda kyrru fyrir í
borginni, þángað til þèr hafið
íklæðzt krapti frá hæðum.
50. ¶ Síðan fór hann með þá
út til Betanía, hóf upp hendur
sínar og blessaði þá;
51. En meðan hann var að
blessa yfir þá, skildist hann
frá þeim og varð upp numinn
til himins.
52. En þeir fèllu fram og
tilbáðu hann. Snèru síðan
aptur til Jerúsalem með miklum fögnuði,
53. Og voru stöðuglega í
musterinu, lofandi Guð og
vegsamandi.

# JÓHANNESAR GUÐSPJALL.

## 1. KAPÍTULI.

*Uppruni og holdgan Jesú Krists; vitnisburður Jóhannesar skírara; Andrés, Filippus, Pètur, Natanael og enn ónefndur lærisveinn finna Jesúm.*

Í UPPHAFI var Orðið og Orðið var hjá Guði, og Orðið var Guð.

2. Það var í upphafi hjá Guði.

3. Allir hlutir eru fyrir það gjörðir, og án þess er ekkert til orðið, sem til er.

4. Í því var líf, og lífið var ljós mannanna;

5. Og ljósið skín í myrkrinu, og myrkrið meðtók það ekki.

6. ¶ Maður nokkur var sendur af Guði, hann hèt Jóhannes.

7. Þessi kom til vitnisburðar, til þess að vitna um ljósið, svo allir tryðu fyrir hans vitnisburð.

8. Ekki var hann ljósið, heldur átti hann að vitna um ljósið.

9. Það var hið sanna ljós, sem upplýsir hvern mann, er kom í heiminn.

10. Það var í heiminum, og heimurinn var fyrir það gjörður og þekti það þó ekki.

11. Hann kom til sinna, og hans eigin meðtóku hann ekki.

12. En svo mörgum sem hann meðtóku, gaf hann kost á að verða Guðs börn, þeim, sem trúa á hans nafn,

13. Sem ekki eru fæddir af blóðinu, nè holdsins vild, nè mannsins vilja, heldur af Guði.

14. Og Orðið varð hold og bjó með oss, fult náðar og sannleika, og vèr sáum þess dýrð, dýrð sem hins eingetna Föðursins.

15. ¶ Um þenna vitnaði Jóhannes opinberlega og sagði: þessi er sá, sem eg sagði um: eptir mig mun koma sá, sem var fyrri en eg, því hann var á undan mèr.

16. Af hans gnægð höfum vèr allir meðtekið náð á náð ofan.

17. Því lögmálið er gefið fyrir hönd Mósis, en náðin og sannleikurinn veittist fyrir Jesúm Krist.

18. Einginn hefir nokkurn tíma sèð Guð; sá eingetni Sonurinn, sem er í Föðursins skauti, hann hefir sagt oss af honum.

19. ¶ Og þessi er vitnisburður, Jóhannesar þegar Gyðíngar sendu frá Jerúsalem presta og Levíta til að spyrja hann að, hver hann væri.

20. Hann játti og neitaði ekki, og sagði: ekki em eg Kristur.

21. Og þeir spurðu hann: hvað ertu þá? ertu þá Elías? Hann svaraði: ekki em eg. Ertu þá spámaðurinn? og hann svaraði: nei.

22. Þá sögðu þeir við hann: hver ertu? svo vèr getum gefið svar þeim, er oss sendu; hvað segir þú um sjálfan þig?

23. Hann svaraði: eg er rödd þess, sem hrópar í eyðimörku: gjörið beinan veg Drottins, eins og Esajas spámaður hefir sagt.

24. En þeir, sem sendir höfðu verið, voru Farísear.

25. Þeir spurðu hann þá, og sögðu við hann: hví skírir þú þá, ef þú ert hvorki Kristur, nè Elías, nè spámaðurinn?

26. Jóhannes svaraði þeim og sagði: eg skíri í vatni, en sá stendur mitt á meðal yðar, sem þèr þekkið ekki, sá sem koma mun eptir mig,

27. Og hans skóþveingi er eg ekki verðugur að leysa.

28. Þetta bar við í Betanía hinumegin við ána Jórdan, þar sem Jóhannes skírði.

29. ¶ Daginn eptir sèr hann Jesúm koma til sín og segir: sjá það Guðs lamb, sem ber heimsins synd!

30. Hann er sá, sem eg sagði um: eptir mig mun koma maður, sem var á undan mèr; því hann var fyrri en eg.

31. En eg þekti hann ekki, en til þess kom eg að skíra með vatni, að hann yrði kunnur í Ísrael.

32. Og Jóhannes vitnaði og sagði: eg sá Andann fara niður af himni, eins og dúfu, og nema staðar yfir honum.

33. En eg þekti hann ekki, en sá sem sendi mig til að skíra með vatni, hann sagði mèr: sá sem þú sèr Andann koma yfir og staðnæmast yfir, hann er sá, sem skírir með Heilögum Anda.

34. Þetta sá eg, og eg vitna, að þessi sè Sonur Guðs.

35. ¶ Daginn eptir var Jóhannes þar aptur staddur og tveir af hans lærisveinum;

36. Og er hann horfði á Jesúm, hvar hann gekk, sagði hann: sjá það Guðs lamb!

37. Þessir tveir lærisveinar heyrðu hann tala þetta, og fóru eptir Jesú.

38. En þegar Jesús snèri sèr við og sá þá koma á eptir sèr, sagði hann: hvers leitið þèr?

39. En þeir sögðu við hann: Rabbí (það þýðir lærimeistari), hvar áttu heima? Hann sagði við þá: komið og sjáið.

40. Þeir komu og sáu hvar hann átti heima, og voru hjá honum um daginn, en þetta gjörðist um tíundu stund.
41. Annar af þessum tveimur, sem heyrðu þetta til Jóhannesar og geingu eptir Jesú, var Andrès, bróðir Símonar Pèturs.
42. Hann finnur fyrst bróður sinn Símon og segir við hann: við höfum fundið Messías, það útleggst, Kristur, og hann fylgdi honum til Jesú.
43. En er Jesús leit hann, sagði hann: þú ert Símon, sonur Jónasar, þú skalt heita Kefas, það er, bjarg (Pètur).
44. ¶ Daginn eptir ætlaði Jesús að fara til Galílea; hann hitti þá Filippus og sagði við hann: fylg þú mèr,
45. En Filippus var frá Betsaida, borg þeirra Andrèsar og Pèturs.
46. Filippus fann Natanael og sagði við hann: vèr höfum fundið þann, sem Móses skrifaði um í lögmálinu og spámennirnir, Jesúm, son Jóseps frá Nazaret.
47. Og Natanael sagði við hann: getur nokkuð gott komið frá Nazaret? Filippus svaraði: kom þú og sjá.
48. Jesús sá Natanael koma til sín og sagði um hann: sjá, þessi er sannur Ísraelíti, sem eingin svik búa í.
49. Natanael sagði við hann: hvaðan þekkir þú mig? Jesús svaraði og sagði við hann: áður en Filippus kallaði á þig, sá eg þig, þar sem þú varst undir fíkjutrènu.
50. Natanael svaraði og sagði við hann: Rabbí, þú ert Sonur Guðs, þú ert Ísraels Konúngurinn.
51. Jesús svaraði og sagði við hann: þú trúir því, af því eg sagði þèr: eg sá þig undir fíkjutrènu; annað þessu meira muntu fá að sjá.
52. Og hann sagði við hann: sannlega, sannlega segi eg yður: hèðanaf munuð þèr sjá himininn opinn og eingla Guðs stíga upp og stíga niður yfir Mannsins Son.

## 2. KAPÍTULI.

*Brúðkaupið í Kana; fyrsta ferð Jesú til Jerúsalem, og gjörðir hans þar.*

OG á þriðja degi var haldið brúðkaup í Kana í Galílea.
2. Þar var móðir Jesú, en Jesú og hans lærisveinum var líka boðið til brúðkaupsins.
3. Og er vín þraut, sagði móðir Jesú við hann: þeir hafa ekki vín.
4. Jesús sagði við hana: kona, hvað kemur það þèr og mèr

við? minn tími er enn ekki
kominn.
5. Móðir hans sagði við þjón-
ana: gjörið það, sem hann
segir yður.
6. En þar voru sex vatnsker
úr steini, sett þángað, eptir
hreinsunar siðum Gyðínga, og
tók hvert þeirra tvo eður þrjá
mælira.
7. Jesús sagði við þá: fyllið
nú kerin með vatni, og þeir
fyltu þau á barma.
8. Þá sagði hann við þá: ausið
nú af, og færið forstöðumanni
veizlunnar, og þeir gjörðu svo.
9. En sem hann smakkaði
vatnið, sem orðið var að víni,
og vissi ekki hvaðan það var
komið (en þjónarnir, sem
vatnið jusu, vissu það), kall-
aði hann á brúðgumann og
sagði við hann:
10. Allir menn veita fyrst
góða vínið, en þegar gestirnir
taka ölvaðir að verða, þá hið
lakara; þú hefir geymt góða
vínið þángað til nú.
11. Þetta var hið fyrsta jar-
teikn, sem Jesús gjörði í Kana
í Galílea. Og hann opinberaði
sína dýrð, og hans lærisveinar
trúðu á hann.
12. ¶ Eptir þetta fór Jesús til
Kapernaum, hann og móðir
hans, bræður og lærisveinar,
en voru þar ekki marga daga.
Og páska hátíð Gyðínga fór í
hönd.
13. ¶ Þá ferðaðist Jesús upp
til Jerúsalem.
14. Þar fann hann í muster-
inu þá, sem seldu naut, sauði
og dúfur, og þá menn sitjandi,
er víxluðu peníngum.
15. Hann gjörði sèr þá svipu
úr köðlum og rak alla út úr
musterinu, bæði sauðina og
nautin, steypti niður peníng-
um víxlaranna og hratt um
borðum þeirra.
16. En sagði við þá, sem dúf-
urnar seldu: takið þetta hèð-
an og gjörið ekki hús Föður
míns að verzlunarbúð.
17. En lærisveinum hans kom
í hug, að skrifað hafði verið:
vandlæti vegna þíns húss upp-
etur mig.
18. ¶ Gyðíngar tóku þá til
orða og sögðu við hann: hvert
jarteikn sýnir þú oss, að þú
megir gjöra þetta?
19. Jesús svaraði þeim og
sagði: brjótið niður þetta
musteri, en eg mun reisa það
á þrem dögum.
20. Þá sögðu Gyðíngar: must-
eri þetta var verið að byggja
í fjörutíu og sex ár, og þú
mundir reisa það á þremur
dögum?
21. En hann talaði um must-
eri síns líkama.

22. Þar fyrir kom lærisveinum hans í hug, þá hann var upp risinn frá dauðum, að hann hafði þetta talað, og trúðu ritníngunni og því, sem Jesús hafði talað.

23. ¶ En meðan Jesús var í Jerúsalem á páska hátíðinni, trúðu margir á hann, af því þeir sáu þau teikn, er hann gjörði.

24. En sjálfur Jesús trúði þeim ekki fyrir sèr,

25. Því hann þekti alla, og þurfti þess ekki, að nokkur vitnaði um manninn, því hann vissi, hvað með manninum bjó.

## 3. KAPÍTULI.

*Samtal við Nikódemus um endurfæðíngu, trú og góðverk. Jesús skírir, og Jóhannes. Þessi vitnar enn um Jesúm.*

EN þar var maður nokkur af flokki Faríseanna, er hèt Nikódemus, einn af höfðíngjum Gyðínga.

2. Hann kom til Jesú um nótt og sagði við hann: Meistari, vèr vitum, að þú ert lærifaðir, kominn frá Guði, því einginn getur gjört þau jarteikn, sem þú gjörir, nema Guð sè með honum.

3. Jesús svaraði og sagði við hann: sannlega, sannlega segi eg þèr: maðurinn getur ekki sèð Guðs ríki, nema hann endurfæðist.

4. Nikódemus segir við hann: hvernig getur maður fæðzt, þá hann er orðinn gamall? getur hann aptur komizt í kvið móður sinnar og fæðzt?

5. Jesús svaraði: sannlega, sannlega segi eg þèr, ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann ekki feingið inngaungu í Guðs ríki.

6. Það sem af holdi er fætt, það er hold, og það sem af andanum er fætt, það er andi.

7. Undrast þú ekki, að eg sagða þèr: yður byrjar að endurfæðast.

8. Vindurinn blæs, þar sem hann vill, og þú heyrir hans þyt, en ekki veiztu, hvaðan hann kemur eður hvert hann fer; eins er því varið með hvern, sem af andanum er fæddur.

9. Nikódemus svaraði og sagði við hann: hvernig má þetta verða?

10. Jesús svaraði og sagði við hann: ertú lærimeistari Gyðínga, og veizt ekki þetta?

11. Sannlega, sannlega segi eg þèr: vèr tölum, það sem vèr vitum, og vitnum, það sem vèr sèð höfum, og vorn vitnisburð meðtakið þèr ekki.

12. Ef að þèr trúið mèr ekki, þegar eg segi yður jarðneska hluti, hvernig munuð þèr þá

trúa, ef eg segi yður himneska hluti?

13. Einginn hefir stigið upp til himins, nema sá, sem niður stè af himni, Mannsins Sonur, sem er á himni.

14. ¶ Og eins og Móses upp hóf höggorminn á eyðimörkinni, eins á Mannsins Sonur að verða upp hafinn,

15. Til þess að hver, sem á hann trúir, ekki glatist, heldur hafi eilíft líf.

16. ¶ Því svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn Son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki glatist, heldur hafi eilíft líf.

17. Því ekki sendi Guð sinn Son í heiminn til að dæma heiminn, heldur til þess að heimurinn frelsaðist fyrir hann.

18. ¶ Hver sem á hann trúir, dæmist ekki, en hver sem ekki trúir, sá er nú þegar dæmdur, því hann trúði ekki á nafn Guðs eingetins Sonar.

19. En þessi er dómurinn: ljósið kom í heiminn, og mennirnir elskuðu myrkrið meir en ljósið, því þeirra verk voru vond.

20. Því hver, sem ilt aðhefst, hatar ljósið og kemur ekki til ljóssins, svo verk hans verði ekki uppvís.

21. En sá, sem sannleikann gjörir, hann kemur til ljóssins, svo verk hans verði opinber, því þau eru í Guði gjörð:

22. ¶ Eptir þetta kom Jesús og hans lærisveinar til Júdea:

23. ¶ Þar var hann með þeim og skírði; en Jóhannes skírði líka í Ainon nálægt Salem, því þar var vatn mikið. Þángað komu menn og lètu sig skíra;

24. Því ekki var enn búið að kasta Jóhannesi í myrkvastofu.

25. ¶ Þá varð þræta milli Jóhannesar lærisveina og Gyðíngs nokkurs um hreinsunina.

26. Og þeir komu til Jóhannesar og sögðu við hann: Meistari, sá sem var með þèr hinumegin Jórdanar, sem þú gafst vitnisburðinn, sjá, hann skírir, og allir koma til hans.

27. Jóhannes svaraði og sagði: maðurinn getur ekkert tekið, nema honum sè gefið það af himni.

28. Þèr eruð sjálfir mínir vottar, að eg sagði: ekki em eg Kristur, en eg er sendur á undan honum.

29. Sá sem brúðina á, hann er brúðgumi, en brúðgumans vinur, sem stendur hjá honum og heyrir hann, gleðst mjög við rödd brúðgumans. Þessi gleði mín er því fullkomin.

30. Hann á að vaxa, en eg að

minka. Sá sem að ofan kemur, er öllum æðri.

31. Sá sem er af jörðu, hann er af jörðu og talar af jörðu. Sá, sem kemur af himni, er yfir öllum;

32. Og það, sem hann hefir heyrt og sèð, það vitnar hann, og einginn meðtekur hans vitnisburð.

33. En sá sem meðtekur hans vitnisburð, sá kannast við, að Guð sè sannorður.

34. Því sá, sem Guð sendi, talar Guðs orð, því ekki gefur Guð Andann af skornum skamti.

35. Faðirinn elskar Soninn og hefir gefið alla hluti í hans hönd.

36. Hver sem trúir á Soninn, sá hefir eilíft líf, en hver sem ekki hlýðnast Syninum, skal ekki sjá lífið, heldur varir Guðs reiði yfir honum.

## 4. KAPÍTULI.

*Jesús talar við hina samversku konu; snýr mörgum samverskum; fer til Galílea og Nazaret; læknar son kongsmannsins í Kapernaum.*

ÞEGAR Drottinn fèkk það að vita, að Farísearnir höfðu frètt, að hann drægi til sín fleiri lærisveina og skírði fleiri en Jóhannes,

2. Jesús skírði samt ekki sjálfur, heldur hans lærisveinar,

3. Fór hann burtu úr Júdea og kom aptur til Galílea.

4. En hann varð að ferðast um Samaría.

5. Þá kom hann að borg í Samaría, sem heitir Sikkar; hún er nálæg því landi, sem Jakob gaf syni sínum Jósep.

6. En þar var Jakobs brunnur. Jesús, sem var vegmóður, settist niður við brunninn; það var um sjöttu stund.

7. Þar kom þá kona nokkur samversk til að ausa vatn. Jesús sagði við hana: gef þú mèr að drekka;

8. Því lærisveinar hans voru farnir inn í borgina til að kaupa mat.

9. Hin samverska kona svaraði og sagði við hann: hvernig stendur á því, að þú sem ert Gyðíngur, biður mig, konu samverska, að gefa þèr að drekka? því Gyðíngar hafa ekki mök við samverska menn.

10. Jesús svaraði og sagði henni: ef þú þektir Guðs gjöf og hver sá er, sem segir við þig: gef mèr að drekka, þá mundir þú biðja hann og hann mundi gefa þèr lifandi vatn.

11. Konan sagði við hann: herra, þú hefir ekkert að ausa með, og djúpt er niður í brunninn; hvaðan hefir þú þá hið lifanda vatn?

12. Eður ertu meiri föður vorum Jakob, sem gaf oss brunn-

inn og drakk sjálfur af honum, og synir hans og fènaður?

13. Jesús svaraði henni og sagði: hver, sem drekkur af þessu vatni, hann mun þyrsta aptur,

14. En hinn, sem drekkur af því vatni, er eg mun gefa, mun að eilífu ekki þyrsta, heldur mun það vatn, sem eg mun gefa honum, verða í honum að lind, uppsprettandi til eilífs lífs.

15. Konan segir þá við hann: herra, gef mèr þetta vatn, svo að mig þyrsti ekki framar og eg þurfi ekki að koma híngað til að ausa vatn.

16. Jesús sagði við hana: far þú, kallaðu á mann þinn, og kom þú svo híngað.

17. Konan svaraði og sagði: eg á eingan mann. Jesús sagði við hana: rètt segir þú, að þú eigir eingan mann;

18. Því þú hefir átt fimm menn, og sá, sem þú nú hefir, er ekki þinn maður; það sagðir þú satt.

19. Konan segir þá við hann: herra, eg sè, að þú ert spámaður.

20. Feður vorir hafa tilbeðið á þessu fjalli, en þèr segið, að í Jerúsalem sè staðurinn, þar sem eigi að tilbiðja.

21. Jesús segir henni: kona, trú þú mèr, sá tími kemur, að þèr hvorki munuð tilbiðja Föðurinn á þessu fjalli nè í Jerúsalem.

22. Þèr tilbiðjið það, sem þèr ekki þekkið; vèr tilbiðjum það, sem vèr þekkjum, því frá Gyðíngum kemur hjálpræðið.

23. En sá tími kemur og er nú þegar kominn, að sannir tilbiðjendur munu tilbiðja Föðurinn í anda og sannleika, því Faðirinn leitar þeirra, sem þannig tilbiðja hann.

24. Guð er Andi, og þeir, sem hann tilbiðja, eiga að tilbiðja hann í anda og sannleika.

25. Konan segir þá við hann: eg veit, að Messías kemur (Messías er sama sem Kristur); þegar hann kemur, mun hann kunngjöra oss alla hluti.

26. Jesús segir við hana: eg sem við þig tala, eg er það.

27. ¶ Rètt í því komu hans lærisveinar að, og furðuðu sig á því, að hann talaði við konuna; þó sagði einginn: hvað ertu að biðja hana um, eður hvað ertu að tala við hana?

28. Þá skildi konan þar eptir vatnsfötu sína og gekk inn í borgina og sagði við bæarmenn:

29. Komið að sjá mann, sem sagði mèr alt hvað eg hefi aðhafzt; mundi ekki þessi vera Kristur?

30. Menn geingu þá út úr
borginni og komu til hans.
31. ¶ Meðan á þessu stóð, báðu
lærisveinarnir hann og sögðu:
32. Meistari, neyttu matar!
Hann svaraði þeim: eg hefi
þá fæðu að eta, sem þèr ekki
vitið af.
33. Lærisveinarnir sögðu þá
hver við annan: ætla nokkur
hafi fært honum mat?
34. Jesús sagði við þá: minn
matur er að gjöra vilja þess,
sem mig sendi, og leysa af
hendi hans verk.
35. Segið þèr ekki, enn þá
eru fjórir mánuðir, þá kemur
uppskeran? sjá, eg segi yður,
lítið upp og sjáið akrana, þeir
eru þegar hvítir til uppskeru.
36. Hver, sem uppsker, fær
laun og safnar ávexti til eilífs
lífs, svo ásamt fagni bæði sá,
sem sáir, og sá, sem uppsker;
37. Því hèr sannast orðtækið:
Annar sáir og annar uppsker.
38. Eg hefi sent yður til að
uppskera það, sem þèr ekki
unnuð að; aðrir unnu, og þèr
hafið geingið að þeirra vinnu.
39. ¶ En margir samverskir
menn úr þeirri borg trúðu á
hann fyrir konunnar orð, sem
vitnaði: hann hefir sagt mèr
alt, sem eg hefi aðhafzt.
40. Þegar nú samverskir
komu til hans, beiddu þeir
hann að vera hjá sèr, og hann
var hjá þeim tvo daga;
41. Og miklu fleiri trúðu
fyrir hans orð, og sögðu við
konuna:
42. Vèr trúum nú ekki framar
fyrir þín orð, því vèr höfum
sjálfir heyrt, og vitum, að þessi
er sannarlega heimsins frels-
ari, Kristur.
43. ¶ En eptir tvo daga hèlt
hann þaðan og fór til Galílea;
44. Því sjálfur Jesús vitnaði,
að spámaður væri ekki í met-
um í sínu föðurlandi.
45. En þegar Jesús kom í
Galílea, tóku Galíleamenn við
honum, sem höfðu sèð alt
það, er hann á hátíðinni hafði
gjört í Jerúsalem; því þeir
höfðu líka sókt þángað hátíð-
ina.
46. Þá kom Jesús aptur til
Kana í Galílea, þar sem hann
hafði gjört vatnið að víni. Og
konúngsmaður nokkur var í
Kapernaum, og lá sonur hans
sjúkur.
47. Þegar þessi frètti, að Jes-
ús væri kominn frá Júdea til
Galílea, fór hann til hans og
bað hann koma til að lækna
son sinn; því hann lægi dauð-
vona.
48. Jesús sagði við hann: þèr
trúið ekki, nema þèr sjáið tákn
og stórmerki.

49. Konúngsmaðurinn sagði
við hann: Herra, kom þú áður
en sonur minn andast. Jesús
segir við hann: far þú, sonur
þinn lifir.
50. Og maðurinn trúði því
orði, sem Jesús talaði til hans,
og fór.
51. En á heimleiðinni mættu
honum þjónar hans og sögðu:
sonur þinn lifir.
52. Þá spurði hann þá að,
hvenær honum hefði farið að
lètta; og þeir sögðu honum:
í gær um sjöundu stund hvarf
kaldan frá honum.
53. Þá sá faðirinn, að það var
á þeim tíma, er Jesús hafði
sagt við hann: sonur þinn lifir.
54. Og hann trúði, og alt hans
heimafólk. Þetta var hið ann-
að jarteikn, sem Jesús gjörði,
þegar hann kom til Galílea
frá Júdea.

## 5. KAPÍTULI.

*Jesús læknar við Betesda laug á sabbatsdegi, mann, sem veikur hafði verið í 38 ár, forsvarar þetta verk.*

EPTIR þetta var hátíð Gyð-
ínga, og Jesús fór upp til
Jerúsalem.
2. En í Jerúsalem er laug við
sauðahliðið, sem kallast á he-
bresku Betesda, og hefir fimm
stólpagöng.
3. Í þeim lá mikill fjöldi
veikra manna, blindra, haltra,
visinna, sem biðu vatnsins
hræríngar.
4. Því á vissum tímum stè
eingill niður í laugina og
hrærði upp vatnið, en hver
sem fór fyrstur í laugina, ept-
ir að vatnið hafði verið hrært,
hann varð alheill, hver veiki
sem hann þjáði.
5. Maður nokkur var þar,
sem veikur hafði verið í þrjá-
tíu og átta ár.
6. Þegar Jesús sá hann liggja,
og vissi, að hann hafði þegar
leingi legið, segir hann við
hann: viltu verða heill?
7. Sjúklíngurinn svaraði hon-
um: herra, eg hefi eingan til,
sem láti mig í laugina, þegar
vatnið hrærist upp; svo þegar
eg kem, er annar kominn nið-
ur í það á undan mèr.
8. Jesús segir við hann: stattu
upp, tak sæng þína og gakk;
9. Og jafnskjótt varð mað-
urinn heill, tók upp sængina
og gekk, en sá dagur var
helgidagur.
10. ¶ Því sögðu Gyðíngar við
hinn læknaða mann: það er
helgidagur, þèr leyfist ekki að
bera sængina.
11. Hann svaraði þeim: Sá
sem mig gjörði heilan, hann
sagði mèr: ber þú sæng þína
og gakk.
12. Þeir spurðu þá: hver er

sá maður, sem sagði þèr: ber
þú sæng þína og gakk?
13. En hinn læknaði vissi
ekki, hver það var, því Jesús
hafði í kyrrþey farið burtu, en
þraung var mikil á staðnum.
14. Eptir þetta hitti Jesús
hann í musterinu og sagði við
hann: sjá, nú ertu orðinn heill,
syndga þú ekki framar, svo að
þèr vilji ekki annað verra til.
15. Maðurinn gekk burt og
kunngjörði Gyðíngum, að Jes-
ús væri sá, sem hefði gjört sig
heilbrigðan,
16. Og vegna þess ofsóktu
Gyðíngar Jesúm, að hann
gjörði þetta á helgum degi.
17. ¶ En Jesús svaraði þeim:
Faðir minn starfar til þess nú,
og eg starfa einnig.
18. Vegna þess leituðust Gyð-
íngar enn heldur við að ráða
hann af dögum, af því hann
ekki einúngis braut helgina,
heldur kallaði Guð Föður sinn,
og gjörði sjálfan sig Guði
jafnan.
19. Jesús svaraði þá og sagði
við þá: sannlega, sannlega segi
eg yður: Sonurinn getur ekk-
ert gjört af sjálfum sèr, nema
það, sem hann sèr Föðurinn
gjöra, því það sem hann gjörir,
það gjörir og Sonurinn sömu-
leiðis.
20. Því Faðirinn elskar Son-
inn og sýnir honum alt það,
er hann sjálfur gjörir; og hann
mun sýna honum meiri verk
en þessi, svo yður mun furða.
21. Því að eins og Faðirinn
upp vekur dauða og lífgar,
þannig lífgar og Sonurinn þá,
sem hann vill.
22. Því ekki dæmir Faðirinn
nokkurn, heldur hefir hann
falið Syninum á hendur allan
dóm,
23. Svo að allir heiðri Soninn,
eins og þeir heiðra Föðurinn.
Hver sem ekki heiðrar Son-
inn, sá heiðrar ekki Föðurinn,
sem sendi hann.
24. Sannlega, sannlega segi
eg yður: hver sem heyrir mitt
orð og trúir þeim, sem mig
sendi, sá hefir eilíft líf og
kemur ekki til dóms, heldur
hefir stigið yfir frá dauðanum
til lífsins.
25. Sannlega, sannlega segi
eg yður: sá tími mun koma
og er þegar kominn, að hinir
dauðu munu heyra raust Guðs
Sonar, og þeir, sem heyra,
munu lifa.
26. Því eins og Faðirinn hef-
ir lífið í sjálfum sèr, svo gaf
hann og Syninum að hafa lífið
í sjálfum sèr,
27. Og hann hefir og gefið
honum vald til að halda dóm,
því hann er Mannsins Son.

28. Undrizt ekki yfir þessu, því sá tími mun koma, að allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra hans raust, og þeir munu gánga út,

29. Þeir, sem gott hafa gjört, til upprisu lífsins, en þeir, sem ilt hafa aðhafzt, til upprisu dómsins.

30. Eg megna ekkert að gjöra af sjálfum mèr; eg dæmi, eins og eg heyri, og minn dómur er rèttvís, því eg leita ekki míns vilja, heldur vilja Föðursins, sem sendi mig.

31. Ef eg vitna um sjálfan mig, þá er minn vitnisburður ekki sannur.

32. ¶ Annar er, sem vitnar um mig, og eg veit, að sá vitnisburður er sannur, sem hann vitnar um mig.

33. Þèr hafið sent til Jóhannesar, og hann bar sannleikanum vitni.

34. En eg tek ekki vitnisburð hjá mönnum, heldur tala eg þetta, svo að þèr frelsizt.

35. Jóhannes var logandi og skínandi ljós, en þèr hafið að eins um stund viljað gleðjast við hans ljós.

36. ¶ En eg hefi vitnisburð meiri en Jóhannesar, því þau verk, sem Faðir minn fèkk mèr að leysa af hendi, einmitt þau verk, sem eg gjöri, vitna um mig, að Faðirinn hafi sent mig.

37. Og sjálfur Faðirinn, sem sendi mig, hann vitnar um mig. Hvorki hafið þèr nokkurn tíma heyrt hans rödd, nè sèð hans ásýnd;

38. Og þèr hafið ekki í yður hans orð varanlegt, þar eð þèr trúið ekki þeim, sem hann sendi.

39. ¶ Rannsakið ritníngarnar, því í þeim hugsið þèr að þèr hafið eilíft líf, og þær eru það, sem vitna um mig,

40. Og samt viljið þèr ekki koma til mín, svo þèr hafið lífið.

41. Eg tek ekki heiður af mönnunum;

42. En eg þekki yður, að þèr hafið ekki Guðs kærleika í yður.

43. Eg kom í nafni míns Föðurs og þèr takið þó ekki við mèr. Ef einhver kæmi í sínu eigin nafni, við honum munduð þèr taka.

44. Hvernig getið þèr trúað, þèr, sem sækizt eptir heiðri hver hjá öðrum, en leitið ekki þess heiðurs, sem er hjá Guði einum?

45. Ætlið ekki, að eg muni ákæra yður fyrir Föðurnum; sá er, sem ákærir yður, Móses, sem þèr treystið.

46. Ef að þèr tryðuð Móses,
þá tryðuð þèr og mèr, því hann
hefir skrifað um mig.
47. En ef þèr trúið ekki hans
bókum, hver von er þá til þess,
að þèr trúið mínum orðum?

## 6. KAPÍTULI.

*Jesús mettar fimm þúsundir manna; geingur á vatninu; talar um lífsins brauð.*

EPTIR þetta fór Jesús yfir
um stöðuvatnið hjá Tí-
berías í Galílea,
2. Og margt fólk fylgdi hon-
um, því menn sáu þau teikn,
er hann gjörði á hinum sjúku.
3. En Jesús gekk upp á fjall-
ið og settist þar niður með
lærisveinum sínum.
4. En þá voru páskar, hátíð
Gyðínga, í nánd.
5. ¶ Þegar Jesús litaðist nú
um og sá, að fjöldi fólks kom
til hans, sagði hann við Filipp-
us: hvaðan kaupum vèr brauð,
svo að þessir fái að borða?
6. En hann sagði þetta til að
reyna hann, því sjálfur vissi
hann, hvað hann ætlaði sèr
að gjöra.
7. Filippus svaraði honum:
brauð fyrir tvö hundruð pen-
ínga er ekki nóg handa þeim,
svo að hver einn fái lítið eitt.
8. Þá sagði Andrès, einn af
hans lærisveinum, bróðir Sím-
onar Pèturs:
9. Hèr er eitt úngmenni, sem
hefir fimm byggbrauð og tvo
smáfiska, en hvað er það handa
svo mörgum?
10. En Jesús sagði: látið fólk-
ið setjast niður. Í þeim stað
var gras mikið. Þá settust
niður karlmenn að tölu nær
fimm þúsundir.
11. En Jesús tók brauðin, og
þegar hann hafði gjört Guði
þakkir, fèkk hann þau læri-
sveinunum, en lærisveinarnir
þeim, sem höfðu sezt niður,
sömuleiðis af fiskunum svo
mikið sem þeir vildu,
12. En sem þeir voru mettir,
segir hann við lærisveina sína:
takið saman leifarnar, sem af-
gángs eru, svo ekkert spillist.
13. Þeir söfnuðu þeim saman
og fyltu tólf karfir með leifar
af þeim fimm byggbrauðum,
sem geingu af hjá þeim, er
neytt höfðu.
14. Þeir menn, sem sáu það
teikn, er Jesús gjörði, sögðu
þá: þessi er sannarlega sá
spámaður, sem á að koma í
heiminn.
15. ¶ Jesús, sem vissi, að þeir
mundu koma og taka hann,
til þess að gjöra hann að kon-
úngi, veik aptur afsíðis einn
saman upp á fjallið.
16. En er kvöld var komið,
fóru lærisveinar hans niður að
vatninu og geingu á skipið,

17. Og fóru yfir vatnið til Kapernaum; þá var þegar orðið dimt, og Jesús var ekki kominn til þeirra.

18. En vatnið tók til að æsast, því veður blès mikið.

19. Þegar þeir höfðu nú róið hèr um bil 25 eður 30 skeiðrúm, sjá þeir Jesúm gángandi á vatninu og kominn nálægt skipinu, og urðu hræddir.

20. En hann sagði við þá: eg em það, óttizt ekki.

21. Þeir vildu þá taka hann innbyrðis, og jafnskjótt rann skipið að landi, þar sem þeir rèru að.

22. ¶ Daginn eptir, þar eð fólksfjöldinn, sem hafði staðið hinumegin við vatnið, vissi að ekkert skip hafði þar verið, nema það eina, sem lærisveinar hans höfðu geingið á, og að Jesús hafði ekki farið á skipið með lærisveinum sínum, heldur að lærisveinar hans höfðu farið einir;

23. En þar komu önnur skip frá Tíberías nálægt þeim stað, þarsem þeir átu brauðin, eptir að Drottinn hafði gjört þakkir;

24. Og þar eð fólkið nú sá, að hvorki var Jesús þar, nè hans lærisveinar, gekk það einnig á skipin og kom til Kapernaum til að leita að Jesú.

25. Og sem þeir fundu hann hinumegin við vatnið, sögðu þeir við hann: Meistari, nær komstu híngað?

26. Jesús svaraði þeim og sagði: sannlega, sannlega segi eg yður: þèr leitið mín ekki, af því þèr sáuð teiknin, heldur af því þèr átuð af brauðunum og urðuð mettir.

27. Aflið yður ekki þeirrar fæðu, sem eyðist, heldur þeirrar fæðu, sem varir til eilífs lífs, sem Mannsins Sonur mun gefa yður, því þenna hefir Guð, Faðirinn, innsiglað.

28. Þeir sögðu þá við hann: hvað eigum vèr að gjöra, svo vèr vinnum Guðs verk?

29. Jesús svaraði og sagði við þá: það er Guðs verk, að þèr trúið á þann, sem hann sendi.

30. Þá sögðu þeir við hann: hver teikn gjörir þú, svo að vèr sjáum og trúum þèr? hvað vinnur þú?

31. Feður vorir átu manna í eyðimörku, eins og skrifað er: hann gaf þeim brauð af himni að eta.

32. Þá sagði Jesús við þá: sannlega, sannlega segi eg yður: Móses gaf yður ekki brauð af himni, en Faðir minn gefur yðar brauð af himni, sem er hið alsanna;

33. Því þetta Guðs brauð er

sá, sem stígur niður af himni
og gefur heiminum líf.
34. Þá sögðu þeir við hann:
Herra, gef oss ætíð þetta
brauð.
35. En Jesús sagði við þá:
Eg em lífsins brauðið; sá
sem kemur til mín, mun ekki
verða húngraður, og þann
mun aldrei þyrsta, sem á
mig trúir.
36. En eg hefi sagt yður:
þèr hafið sèð mig, og trúið
þó ekki.
37. Alt sem Faðir minn
gefur mèr, kemur til mín, og
þann, sem til mín kemur,
mun eg ekki burt reka.
38. Því að eg hefi niður
stigið af himni, ekki til að
gjöra minn vilja, heldur vilja
þess, sem mig sendi.
39. En það er vilji þess, sem
mig sendi, að eg glati eingu af
því, sem hann gaf mèr, heldur
upp veki það á efsta degi.
40. Því þetta er vilji þess,
sem mig sendi, að hver sem
sèr Soninn og trúir á hann,
hafi eilíft líf, og eg mun upp
vekja hann á efsta degi.
41. Þá mögluðu Gyðíngar
móti honum, af því hann
sagði: eg em það brauð, sem
kom niður af himni,
42. Og sögðu: er þetta ekki
Jesús sonur Jóseps, hvers
föður og móður vèr þekkj-
um? hvernig segir hann þá,
að hann hafi stigið niður af
himni?
43. Jesús svaraði þeim og
sagði: möglið ekki innbyrðis.
44. Einginn getur komið til
mín, nema Faðirinn, sem sendi
mig, dragi hann, og eg mun
upp vekja hann á efsta degi.
45. Það er skrifað í spá-
mönnunum: "þeir munu all-
ir verða af Guði uppfræddir;"
hver sá sem heyrir Föðurinn
og lærir af honum, sá kemur
til mín.
46. Ekki er það svo að skilja,
sem nokkur hafi sèð Föðurinn
nema sá, sem er frá Guði,
hann hefir sèð Föðurinn.
47. Sannlega, sannlega segi
eg yður: hver, sem á mig
trúir, hefir eilíft líf.
48. Eg em lífsins brauð.
49. Feður yðar átu manna í
eyðimörkinni og dóu.
50. Þetta er brauðið, sem
kemur af himni, svo að mað-
ur neyti af því og deyi ekki.
51. Eg em það hið lifanda
brauð, sem kom niður af
himni; ef nokkur etur af
þessu brauði, mun hann lifa
til eilífðar, og það brauð, sem
eg mun gefa, er mitt hold,
sem eg mun gefa heiminum
til lífs.

52. Þá þráttuðu Gyðíngar
innbyrðis og sögðu: hvernig
getur þessi gefið oss sitt hold
að eta?
53. Því sagði Jesús við þá:
sannlega, sannlega segi eg
yður: ef þèr etið ekki hold
Mannsins Sonar og drekkið
ekki hans blóð, hafið þèr
ekki lífið í yður.
54. Hver sem etur mitt hold
og drekkur mitt blóð, sá hefir
eilíft, líf, og eg mun upp vekja
hann á efsta degi;
55. Því hold mitt er sann-
arlega fæða, og blóð mitt er
sannarlega drykkur.
56. Sá sem etur mitt hold
og drekkur mitt blóð, sá er
í mèr og eg í honum;
57. Eins og sá lifandi Faðir
sendi mig, og eg lifi fyrir
Föðurinn, eins mun sá lifa
fyrir mig, sem mig etur.
58. Þetta er það brauð, sem
komið er af himni, ekki sem
manna, er feður yðar átu, og
dóu samt. Sá sem etur þetta
brauð mun lifa að eilífu.
59. Þetta talaði Jesús í sam-
kundunni, þá hann kendi í
Kapernaum.
60. Margir af lærisveinum
hans, sem heyrðu á, sögðu
þá: hörð er þessi ræða, hver
getur hlýtt á hana?
61. En er Jesús vissi með
sjálfum sèr, að lærisveinar
hans mögluðu um þetta,
sagði hann: hneykslar yður
þetta?
62. En ef þèr sæuð þá Manns-
ins Son upp stíga þángað, sem
hann var áður?
63. Andinn er það, sem lífg-
ar, holdið gagnar til einskis;
þau orð, sem eg tala til yðar,
eru andi og líf.
64. En þeir eru nokkrir með-
al yðar, sem ekki trúa; því
Jesús vissi frá upphafi hverjir
þeir voru, sem ekki trúðu, og
hver sá var, sem mundi svíkja
hann.
65. Og hann sagði: vegna
þess sagði eg yður: einginn
getur komið til mín nema
honum sè það gefið af Föður
mínum.
66. ¶ Upp frá þessu fóru
margir af lærisveinum hans
frá honum, og voru ekki
framar með honum.
67. Jesús sagði því við þá
tólf; viljið þèr einnig fara
burt?
68. Símon Pètur svaraði hon-
um: Herra, til hvers ættum
vèr að fara?
69. Þú hefir orð eilífs lífs, og
vèr höfum trúað og kannazt
við, að þú ert Kristur, Sonur
hins lifanda Guðs.
70. Jesús sagði við þá: hefi

eg ekki útvalið yður tólf? og
einn yðar er djöfull.
71. En hann meinti Júdas
Símonsson, Iskaríot, því hann
varð síðan til að svíkja hann,
og var einn af þeim tólf.

## 7. KAPÍTULI.

*Þjoðin dæmir ýmislega um Jesúm á laufskálahátíðinni; Jesús kennir í musterinu og forsvarar lækníngu á sabbatsdegi; þeim, sem áttu að taka hann, fallast hendur, þegar þeir heyra hann tala. Nikódemus forsvarar Jesúm.*

EPTIR þetta ferðaðist Jes-
ús um Galílea, því hann
vildi ekki vera í Júdea, af því
Gyðíngar sátu um líf hans.
2. En hátíð Gyðínga, sem kall-
ast laufskálahátíð, var í nánd.
3. Þá sögðu bræður hans við
hann: far þú nú hèðan til Jú-
dea, svo að lærisveinar þínir,
sem þar eru, sjái þau verk,
sem þú gjörir;
4. Því einginn sá gjörir nokk-
uð leynilega, sem vill verða víð-
frægur; sè það þín ætlan, þá
sýndu þig sjálfan heiminum;
5. Því bræður hans trúðu
ekki heldur á hann.
6. Þá sagði Jesús við þá:
minn tími er enn ekki kom-
inn, en yðar tími er jafnan.
7. Heimurinn getur ekki hat-
að yður, en mig hatar hann, af
því eg vitna um hann, að hans
verk sèu vond.
8. Farið þèr og sækið þessa
hátíð, eg fer ekki að sinni til
þessarar hátíðar, því minn
tími er ekki enn þá kominn.
9. Þetta talaði hann við þá,
og var kyrr í Galílea.
10. ¶ En er bræður hans voru
farnir, þá fór hann og sjálfur
til hátíðarinnar, ekki opinber-
lega, heldur eins og á laun.
11. Þar fyrir leituðu Gyðíng-
ar hans á hátíðinni og sögðu:
hvar er hann?
12. Og kurr var mikill um
hann meðal fólksins; nokkrir
sögðu: hann er góður maður;
aðrir sögðu: nei, heldur tælir
hann fólkið.
13. Þó talaði einginn einarð-
lega um hann af ótta fyrir
Gyðíngum.
14. ¶ En er hátíðin var hálfn-
uð, gekk Jesús í musterið og
kendi.
15. Gyðínga furðaði það, og
þeir sögðu: hvernig þekkir
þessi ritníngarnar, þar eð hann
þó ekki hefir lært?
16. Jesús svaraði þeim og
sagði: minn lærdómur er ekki
minn, heldur þess, sem mig
sendi.
17. Ef sá er nokkur, sem vill
gjöra hans vilja, hann mun
komast að raun um, hvort
lærdómurinn er af Guði, eður
eg tala af sjálfum mèr.
18. Hver sem talar af sjálfum
sèr, sá leitar eigin lofdýrðar,

en sá sem leitar vegsemdar þess, sem sendi hann, sá er sannorður og ránglæti er ekki í honum.
19. Gaf Móses yður ekki lögmálið? og einginn yðar heldur þó lögmálið. Hví leitizt þèr við að lífláta mig?
20. Múgurinn svaraði og sagði: þú ert djöfulóður, hver leitast við að lífláta þig?
21. Jesús svaraði og sagði þeim: eitt verk gjörða eg, og yður alla furðar á því.
22. Móses gaf yður umskurnina; þó er hún ekki frá Mósi, heldur frá feðrunum; og þèr umskerið manninn á sabbatsdegi.
23. Ef að maðurinn meðtekur umskurnina á sabbatsdegi, svo að Mósis lögmál verði ekki brotið, hví reiðizt þèr þá mèr fyrir það, að eg gjörði allan manninn heilan á sabbatsdegi?
24. Dæmið ekki eptir ásýndum, heldur dæmið rèttan dóm.
25. Þá sögðu nokkrir af Jerúsalems mönnum: er þessi ekki sá, sem þeir leitast við að lífláta?
26. Og sjá, hann talar einarðlega, og þeir segja ekkert við hann. Munu höfðíngjarnir með sanni hafa feingið að vita, að þessi sè Kristur?
27. Vèr vitum þó, hvaðan hann er; en þegar Kristur kemur, veit einginn, hvaðan hann er.
28. Þá kallaði Jesús, þar sem hann kendi í musterinu og sagði: þèr þekkið mig og vitið, hvaðan eg em. Af sjálfum mèr em eg ekki kominn, en sá er sannur, sem sendi mig og hann þekkið þèr ekki.
29. Eg þekki hann, því eg er frá honum, og hann sendi mig.
30. Vegna þessa leituðust þeir við að handtaka hann, þó lagði einginn á hann hönd, því hans tími var enn ekki kominn.
31. En margir af fólkinu trúðu á hann og sögðu: þegar Kristur kemur, mun hann þá gjöra fleiri jarteikn, en þau, sem þessi hefir gjört?
32. ¶ Þegar Farísearnir heyrðu, að fólkið var þannig að þrætast á um hann, þá sendu þeir og æðstu prestarnir þjóna til að handtaka hann.
33. Þessvegna sagði Jesús við þá: enn þá er eg hjá yður lítinn tíma og fer svo til hans, er mig sendi.
34. Þèr munuð leita mín og þèr munuð ekki finna mig, og þèr getið ekki komizt þángað, sem eg er.
35. Þá sögðu Gyðíngar hver við annan: hvert mun þessi

ætla að fara, svo vèr ekki
finnum hann? mun hann ætla
til þeirra, sem eru útdreifð-
ir meðal Grikkja, og kenna
Grikkjum?
36. Hvaða tal er þetta, sem
hann segir: þèr munuð leita
mín og ekki finna, og þèr
munuð ekki geta komizt þáng-
að, sem eg er?
37. En á hinum síðasta, hin-
um mikla degi hátíðarinnar,
gekk Jesús fram og kallaði,
segjandi: ef nokkurn þyrstir,
þá komi sá til mín og drekki.
38. Sá sem trúir á mig, úr
hans kviði munu, eins og ritn-
íngin segir, renna lækir lif-
anda vatns.
39. En þetta sagði hann um
þann Anda, er þeir mundu
meðtaka, sem á hann trúa,
því enn þá var Heilagur Andi
ekki, af því Jesús var ekki
enn þá vegsamlegur orðinn.
40. ¶ Þá sögðu margir af fólk-
inu, sem heyrðu þessa ræðu:
þessi er sannarlega spámaður-
inn.
41. Aðrir sögðu: þessi er
Kristur; en nokkrir sögðu:
mun Kristur þá koma frá
Galílea?
42. Segir ekki ritníngin, að
af Davíðs sæði og frá Betle-
hem, þeirri borg, hvar Davíð
var, muni Kristur koma?
43. Þannig varð ágreiníngur
um hann meðal fólksins.
44. En nokkrir af þeim vildu
grípa hann, og þó lagði eing-
inn á hann hendur.
45. ¶ Þá komu þjónarnir til
prestahöfðíngjanna og Faríse-
anna, og þessir sögðu við þá:
því komuð þèr ekki með hann?
46. Þjónarnir svöruðu: aldrei
hefir nokkur maður talað, eins
og þessi maður.
47. Þá svöruðu Farísearnir:
eruð þèr einnig afvega leiddir?
48. Trúir nokkur af höfðíngj-
unum á hann, eður af Farí-
seum?
49. En þessi múgur, sem ekki
þekkir lögmálið, er bölvaður.
50. Nikódemus sá, sem kom
til hans um nótt og var einn
af þeim, segir við þá:
51. Munu lög vor dæma mann-
inn, nema hann sè áður yfir-
heyrður, og rannsakað það,
sem hann gjörir?
52. Þeir svöruðu og sögðu
honum: ert þú líka frá Galí-
lea? rannsakaðu og sjáðu, að
spámaður hefir aldrei komið
í ljós úr Galílea.
53. Og hver fór heim til
sín.

## 8. KAPÍTULI.

*Jesús vill ekki fordæma hórkonuna; talar um sig, sína burtför og sakleysi; átelur Gyðínga fyrir það, að þeir sèu vondir og ólíkir Abraham.*

EN Jesús fór til olíufjallsins,
2. En snemma að morgni
kom hann aptur í musterið,
og alt fólkið kom til hans, og
hann settist niður og kendi því.
3. En hinir skriptlærðu og
Farísear leiddu til hans konu,
sem staðin hafði verið að hórdómi,
og lètu hana standa mitt
á meðal þeirra, og sögðu við
hann:
4. Meistari, þessi kona er
staðin að hórdómi,
5. En Móses bauð oss í lögmálinu,
að þess háttar konur
skyldu grýtast; hvað segir þú
til þess?
6. En þetta sögðu þeir til að
freista hans, svo þeir hefðu
eitthvað að ákæra hann fyrir.
En Jesús laut þá niður og ritaði
með fíngrinum á jörðina.
7. En þar eð þeir hèldu áfram
að spyrja, rètti hann sig upp
og sagði við þá: sá yðar,
sem er syndlaus, kasti fyrstur
steini á hana.
8. Svo laut hann aptur og
ritaði á jörðina.
9. En er þeir heyrðu þetta
og voru slegnir af þeirra samvizku,
geingu þeir burt hver
eptir annan, en fyrstir þó öldúngarnir,
svo Jesús varð einn
eptir og konan, sem stóð þar.
10. En er Jesús rètti sig upp
og sá eingan nema konuna,
sagði hann við hana: kona,
hvar eru þeir, sem ákærðu
þig? sakfeldi einginn þig? hún
svaraði: enginn, Herra.
11. En Jesús sagði við hana:
eg sakfelli þig ekki heldur,
far þú hèðan og syndga ekki
framar.
12. ¶ Í annað sinn talaði Jesús
til þeirra og sagði: eg em
heimsins ljós; hver, sem fylgir
mèr, mun ekki gánga í myrkri,
heldur hafa lífsins ljós.
13. Þá sögðu Farísear við
hann: þú vitnar um sjálfan
þig, þinn vitnisburður er ekki
sannur.
14. Jesús svaraði þeim og
sagði: þó eg vitni um sjálfan
mig, er minn vitnisburður sannur,
því eg veit, hvaðan eg kom
og hvert eg fer. En þèr vitið
ekki, hvaðan eg kem, eða
hvert eg fer.
15. Þèr dæmið eptir holdinu,
eg dæmi eingan,
16. En þó eg dæmi, er minn
dómur sannur, því eg em ekki
einn, heldur bæði, eg og Faðirinn,
sem sendi mig.
17. Það er og skrifað í yðar
lögmáli, að tveggja manna
vitnisburður sè sannur.
18. Eg em sá, sem vitna um
mig sjálfan; og Faðirinn, sem
sendi mig, vitnar um mig.

19. Nú sögðu þeir við hann: hvar er Faðir þinn? Jesús svaraði: hvorki þekkið þèr mig nè Föður minn; ef að þèr þektuð mig, þá þektuð þèr og minn Föður.

20. Þessi orð talaði Jesús hjá fjárkistunni, þar sem hann kendi í musterinu, og einginn lagði hönd á hann, því enn var ekki hans tími kominn.

21. Þá sagði Jesús aptur við þá: eg fer burt og þèr munuð leita mín og deya í yðar syndum. Þángað, sem eg fer, getið þèr ekki komizt.

22. Þá sögðu Gyðíngar: mun hann ætla að deyða sjálfan sig, þar eð hann segir: þángað, sem eg fer, getið þèr ekki komizt?

23. Og hann sagði við þá: þèr eruð neðan að, eg em ofan að; þèr eruð af þessum heimi, eg em ekki af þessum heimi.

24. Þess vegna sagða eg yður, að þèr munduð deya í yðar syndum; því ef þèr trúið ekki, að eg sè sá sem eg er, munuð þèr deya í yðar syndum.

25. Þeir sögðu þá við hann: hver ertú? Jesús svaraði þeim: einmitt það, sem eg segi yður.

26. Eg hefi margt um yður að segja og dæma; en sá, sem sendi mig, er sannorður, og það sem eg heyrði af honum, það tala eg til heimsins.

27. En þeir skildu ekki, að hann meinti Föðurinn;

28. Því sagði Jesús við þá: þegar þèr hefjið upp Mannsins Son, þá munuð þèr þekkja, að eg em það, og að eg gjöri ekkert af sjálfum mèr, heldur tala eg eins og Faðir minn kendi mèr;

29. Og sá, sem sendi mig, er með mèr; Faðirinn lèt mig ekki einan, því eg gjöri ætíð það, sem honum þóknast.

30. Þegar hann talaði þetta, trúðu margir á hann.

31. Jesús sagði þá við þá Gyðínga, sem á hann höfðu trúað: ef að þèr haldið stöðugt við mitt orð, þá eruð þèr sannarlega mínir lærisveinar.

32. Þèr munuð þekkja sannleikann, og sannleikurinn mun gjöra yður frjálsa.

33. ¶ Þeir svöruðu honum: vèr erum Abrahams niðjar, og aldrei höfum vèr verið þrælar nokkurs manns, hvernig segir þú þá: þèr munuð verða frjálsir?

34. Jesús svaraði þeim: sannlega, sannlega segi eg yður: sá, sem gjörir syndina, er syndarinnar þræll;

35. En þrællinn er ekki ávalt í húsinu, Sonurinn verður þar ætíð.

36. Ef að Sonurinn gefur yður

þá frelsi, þá munuð þèr verða
sannarlega frjálsir.
37. Eg veit, að þèr eruð A-
brahams niðjar, en þèr leitizt
þó við að lífláta mig, af því
mitt orð fær ekki rúm hjá
yður.
38. Eg tala það, sem eg hefi
sèð hjá mínum Föður, og þèr
gjörið það, sem þèr hafið sèð
hjá yðar föður.
39. Þeir svöruðu og sögðu við
hann: Abraham er vor faðir.
Jesús sagði við þá: ef að þèr
væruð Abrahams börn, þá
gjörðuð þèr Abrahams verk.
40. En nú leitið þèr eptir að
deyða mig, mann, sem hefi
sagt yður sannleikann, sem eg
heyrði af Guði, þetta hefði A-
braham ekki gjört; þèr gjörið
verk yðar föður.
41. Þá sögðu þeir við hann:
vèr erum ekki hórgetnir, vèr
höfum einn Föður, sem er
Guð.
42. Þá sagði Jesús við þá: ef
að Guð væri yðar Faðir, þá
elskuðuð þèr mig, því eg em
út geinginn og kominn frá
Guði, því eg em ekki kominn
af sjálfum mèr, heldur hefir
hann sent mig.
43. Hví skiljið þèr ekki mál
mitt? af því þèr getið ekki
heyrt mitt orð.
44. Þèr eruð af föðurnum
fjandanum, og girndum yð-
ar föður viljið þèr hlýðnast.
Hann var manndrápari frá
upphafi og var ekki stöðugur
í sannleikanum, því sannleiki
er ekki í honum; þegar hann
talar lýgi, talar hann af sínu
eigin, því hann er lygari og
lýginnar faðir.
45. En mèr trúið þèr ekki, af
því eg tala sannleikann.
46. Hver yðar getur sannað
upp á mig synd? en ef eg tala
sannleikann, hví trúið þèr mèr
ekki?
47. Sá sem er af Guði, sá
heyrir Guðs orð; vegna þess
heyrið þèr ekki, að þèr eruð
ekki af Guði.
48. Gyðíngar svöruðu honum
og sögðu: segjum vèr ekki
rètt, að þú sèrt samverskur
og hafir djöful?
49. Jesús svaraði: ekki hefi eg
djöful, heldur heiðra eg Föður
minn, en þèr smánið mig.
50. En eg leita ekki míns
heiðurs; sá er, sem hans leit-
ar og dæmir.
51. Sannlega, sannlega segi
eg yður: ef að nokkur varð-
veitir mitt orð, sá skal ekki
að eilífu sjá dauðann.
52. Þá sögðu Gyðíngar við
hann: nú vitum vèr, að þú
hefir djöful; Abraham er dá-
inn og spámennirnir, og þú

segir: ef nokkur varðveitir mitt orð, sá mun að eilífu ekki smakka dauðann.

53. Ert þú meiri en faðir vor Abraham, sem er dáinn, og spámennirnir, sem eru dánir? hvílíkan gjörir þú sjálfan þig?

54. Jesús svaraði: ef eg vegsamaði sjálfan mig, væri mín vegsemd ekkert. Faðirinn, sem þèr kallið yðar Guð, hann er sá, sem vegsamar mig;

55. Og þèr þekkið hann ekki, en eg þekki hann, og ef eg segði: eg þekki hann ekki, þá væri eg lygari, eins og þèr; en eg þekki hann og geymi hans orð.

56. Abraham faðir yðar gladdist af því, að hann mundi sjá minn dag, og hann sá hann og gladdist.

57. Þá sögðu Gyðíngar við hann: þú ert enn ekki fimmtugur og þú hefir sèð Abraham?

58. Jesús sagði við þá: sannlega, sannlega segi eg yður: áður en Abraham var, er eg.

59. Þeir tóku þá upp steina til að kasta á hann, en Jesús forðaði sèr og fór út úr musterinu.

## 9. KAPÍTULI.

*Jesús gjörir þann sjáandi, sem blindur var fæddur.*

OG á leiðinni þaðan sá hann mann, sem var blindur borinn,

2. Og lærisveinar hans spurðu hann og sögðu: Meistari, hvor hefir syndgað, þessi, eður foreldrar hans, að hann fæddist blindur?

3. Jesús svaraði: hvorki syndgaði þessi, nè foreldrar hans, heldur er þetta orðið, svo að Guðs verk verði á honum opinber.

4. Mèr ber að vinna verk þess, er mig sendi, meðan dagur er; nóttin kemur, þá einginn getur unnið.

5. Meðan eg em í heiminum, er eg heimsins ljós.

6. Þá hann hafði þetta sagt, hrækti hann á jörðina, gjörði leðju úr hrákanum og reið henni á augu hins blinda;

7. Og hann sagði við hann: farðu og þvoðu af þèr í lindinni Sílóam (en Sílóam þýðir: sendur); þá fór hann og þvoði sèr og kom aptur heilskygn.

8. ¶ Þá sögðu nágrannarnir og þeir, sem höfðu sèð hann áður, því hann var ölmusumaður: er þessi ekki sá, sem setið hefir og beðið ölmusu?

9. Nokkrir sögðu: þessi er maðurinn; en aðrir: hann er honum líkur. Hann sagði: eg em sá hinn sami.

10. Þá sögðu þeir við hann: hvernig fèkkstu sjónina?

11. Hann svaraði og sagði: maður nokkur, sem heitir Jesús, gjörði leðju og reið á augu mín og sagði við mig: farðu til Sílóam og þvoðu þèr. En er eg var þángað kominn og hafði þvegið mèr, fèkk eg sjónina.

12. Þá sögðu þeir við hann: hvar er hann? Hann svaraði: eg veit ekki.

13. ¶ Þeir leiddu þá þann, sem áður hafði blindur verið, til Faríseanna;

14. En þá var helgur dagur, er Jesús bjó til leðjuna og upp lauk augum hans.

15. Þá spurðu og Farísearnir hann aptur: hvernig hann hefði feingið sjónina; en hann sagði við þá: hann lagði leðju við augu mín, eg þvoði mèr og eg sè.

16. Þá sögðu nokkrir af Faríseunum: þessi maður er ekki frá Guði, fyrst hann heldur ekki hvíldardaginn. Aðrir sögðu: hvernig getur syndugur maður gjört þvílíkt teikn? Og þá greindi á innbyrðis.

17. Þeir segja aptur við hinn blinda: hvað segir þú um hann, þar eð hann upp lauk þínum augum? En hann sagði: hann er spámaður.

18. En Gyðíngar trúðu því ekki, að maðurinn hefði verið blindur og væri orðinn heilskygn, fyrr en þeir kölluðu foreldra þess, sem hafði feingið sjónina,

19. Og þeir spurðu þá og sögðu: er þessi, sem þèr segið hafi verið fæddur blindur, ykkar sonur? hvernig er hann nú orðinn sjáandi?

20. Foreldrar hans svöruðu þeim og sögðu: við vitum, að þessi maður er okkar sonur, og að hann fæddist blindur.

21. En hvernig hann hefir feingið sjónina vitum við ekki, og hver hans augum hefir upp lokið, það vitum við ekki heldur; hann sjálfur er fulltíða maður, spyrjið hann; hann getur svarað fyrir sig.

22. Þetta sögðu foreldrar hans, vegna þess þeir óttuðust Gyðínga, af því nú höfðu Gyðíngar samið með sèr, að ef nokkur maður viðurkendi, að hann væri Kristur, skyldi sá hinn sami verða samkundurækur.

23. Þess vegna sögðu foreldrar hans: hann er fulltíða, spyrjið hann sjálfan.

24. Þá kölluðu þeir fyrir aptur þann mann, sem hafði verið blindur, og sögðu við hann: gef þú Guði dýrðina;

vèr vitum, að þessi maður er syndari.

25. Þá svaraði hann og sagði: hvort hann er syndari, veit eg ekki; eitt veit eg, að eg, sem var blindur, hefi nú sjónina.

26. En þeir sögðu við hann aptur: hvað gjörði hann við þig? hvernig lauk hann upp augum þínum?

27. Hann svaraði þeim: eg hefi þegar sagt yður það, og þèr gáfuð því ekki gaum, hvers vegna viljið þèr heyra það aptur? viljið þèr og verða hans lærisveinar?

28. Þá atyrtu þeir hann og sögðu: þú ert hans lærisveinn, en vèr erum Mósis lærisveinar.

29. Vèr vitum, að Guð hefir talað við Móses, en um þenna vitum vèr ekki, hvaðan hann er.

30. Maðurinn svaraði og sagði þeim: það er undarlegt, að þèr vitið ekki, hvaðan hann er, og hann lauk upp mínum augum.

31. Vèr vitum þó, að Guð heyrir ekki syndara, en ef nokkur er guðrækinn og gjörir hans vilja, þann heyrir hann.

32. Aldrei hefir það heyrzt, að nokkur hafi opnað augu þess, sem var fæddur blindur.

33. Væri þessi ekki frá Guði, þá gæti hann ekkert þvílíkt gjört.

34. Þá svöruðu þeir og sögðu við hann: þú ert allur fæddur í synd, og þú kennir oss? og þeir ráku hann út.

35. Jesús heyrði, að þeir hefðu rekið hann út, og er hann fann hann, sagði Jesús við hann: trúir þú á Guðs Son?

36. Hann svaraði og sagði: hver er sá, herra, að eg geti á hann trúað?

37. En Jesús sagði við hann: þú hefir sèð hann, og sá sem við þig talar, hann er sá hinn sami.

38. En hann sagði: eg trúi, Herra, og fèll fram fyrir honum.

39. ¶ Og Jesús sagði: til dóms er eg kominn í þenna heim, svo að þeir, sem ekki sjá, verði sjáandi, og þeir, sem sjá verði blindir.

40. Þetta heyrðu þeir af Faríseum, sem hjá honum voru, og sögðu við hann: erum vèr þá líka blindir?

41. Jesús sagði við þá: ef að þèr væruð blindir, hefðuð þèr ekki synd, en nú segið þèr: vèr sjáum, þar fyrir við helzt yðar synd.

## 10. KAPÍTULI.

*Jesús kallar sig dyr á sauðahúsi og hirðir; á tal við Gyðínga á vígsluhátíðinni.*

SANNLEGA, sannlega segi eg yður: hver sem ekki geingur um dyrnar inn í sauðahúsið, heldur fer inn annarstaðar, sá er þjófur og ræníngi.

2. En sá sem geingur inn um dyrnar, sá er hirðir sauðanna;

3. Dyravörðurinn lýkur upp fyrir honum, og sauðirnir heyra hans raust, og hann kallar sína sauði með nafni og fer út með þá.

4. Og eptir að hann hefir látið út sína sauði, geingur hann fyrir þeim og sauðirnir fylgja honum, af því þeir þekkja hans raust; en ókunnugum fylgja þeir ekki,

5. Heldur hlaupa frá honum, af því þeir þekkja ekki ókunnugra raust.

6. Þessa eptirlíkíngu sagði Jesús þeim, en þeir skildu ekki, hvað það var, sem hann talaði til þeirra.

7. Þess vegna sagði Jesús aptur við þá: sannlega, sannlega segi eg yður: eg em dyr sauðanna.

8. Allir, sem komu á undan mèr, eru þjófar og ræníngjar, en sauðirnir gegndu þeim ekki.

9. Eg em dyrnar; ef nokkur geingur inn um mig, sá mun frelsast, og hann mun gánga inn og gánga út og fá fóður.

10. Þjófurinn kemur ekki til annars en að stela, drepa og skemma. Eg em kominn til þess, að þeir hafi líf og nægtir.

11. Eg em góði hirðirinn; sá góði hirðir gefur líf sitt út fyrir sauðina;

12. En leiguliðinn og sá sem ekki er hirðir og á ekki sauðina, hann sèr úlfinn koma og yfirgefur sauðina og flýr, og úlfurinn grípur þá og tvístrar sauðunum,

13. En leiguliðinn flýr, af því hann er leiguliði og hirðir ekki um sauðina.

14. Eg em góði hirðirinn, og eg þekki mína, og mínir þekkja mig, eins og eg þekki Föðurinn og Faðirinn þekkir mig;

15. Og eg gef út lífið fyrir sauðina.

16. Og eg hefi aðra sauði, sem ekki eru af þessu sauðahúsi, þá byrjar mèr og að leiða, og þeir munu heyra mína raust, og þar mun verða ein hjörð og einn hirðir.

17. Þess vegna elskar Faðirinn mig, að eg læt mitt líf, svo að eg taki það aptur.

18. Einginn tekur það af mèr, heldur læt eg það sjálfviljuglega. Eg hefi vald til að láta það og vald til að taka það aptur. Þetta boðorð hefi eg meðtekið af mínum Föður.

19. ¶ Af þessum orðum varð aptur ágreiníngur millum Gyðínga.
20. En margir þeirra sögðu: hann hefir djöful og er óður, hví hlýðið þèr á hann?
21. Aðrir sögðu: þessi orð eru ekki djöfulóðs manns orð, mun djöfull geta opnað augu blindra?
22. ¶ En musteris-vígsluhátíðin var haldin í Jerúsalem, og þá var vetur.
23. Og Jesús var á gángi í musterinu í stólpagöngum Salómons.
24. Þá flyktust Gyðíngar að honum og sögðu við hann: hversu leingi ætlar þú að halda sálu vorri í efa? ef þú ert Kristur, þá segðu oss það einarðlega.
25. Jesús svaraði þeim: eg hefi sagt yður það, en þèr trúið ekki. Þau verk, sem eg gjöri í míns Föðurs nafni, þau vitna um mig.
26. En þèr trúið ekki, því þèr eruð ekki af mínum sauðum.
27. Eins og eg sagða yður, þekkja mínir sauðir mína raust, og eg þekki þá, og þeir fylgja mèr,
28. Og eg gef þeim eilíft líf, og þeir skulu aldrei að eilífu glatast, einginn skal slíta þá úr minni hendi.
29. Faðir minn, sem hefir gefið mèr þá, er meiri en allir, og einginn getur slitið þá úr hendi Föður míns.
30. Eg og Faðirinn, við erum eitt.
31. Gyðíngar tóku þá upp aptur steina til að grýta hann.
32. Jesús sagði við þá: mörg góðverk sýnda eg yður frá mínum Föður, fyrir hvert af þessum verkum grýtið þèr mig?
33. Gyðíngar svöruðu honum og sögðu: vèr grýtum þig ekki fyrir gott verk, heldur fyrir guðlast og fyrir það að þú, sem ert maður, gjörir sjálfan þig að Guði.
34. Jesús svaraði þeim: er ekki skrifað í yðar lögmáli: "eg hefi sagt: þèr eruð guðir."
35. Ef (ritníngin) kallar þá guði, til hverra Guðs orð var talað og ritníngin getur ekki raskazt,
36. Megið þèr þá segja við þann, sem Faðirinn helgaði og sendi í heiminn: "þú guðlastar," af því eg sagði: eg em Guðs Son?
37. Ef eg gjöri ekki verk míns Föður, þá trúið mèr ekki.
38. En ef eg gjöri þau, þó þèr ekki viljið trúa mèr, þá trúið samt verkunum, svo þèr þekkið og sannfærizt um, að Faðir-

inn er í mèr og eg í Föðurnum.

39. Þá leituðust þeir við aptur að taka hann,

40. En hann gekk þeim úr greipum og fór aptur yfir um Jórdan, til þess staðar, þar sem Jóhannes fyrst skírði, og var þar.

41. Og margir komu til hans og sögðu: Jóhannes gjörði að sönnu ekkert jarteikn, en alt sem Jóhannes sagði um þenna, var satt.

42. Og margir trúðu þar á hann.

## 11. KAPÍTULI.

*Jesús uppvekur Lazarus; Kaífas ræður til að deyða hann; Jesús forðar sèr.*

EN maður nokkur, að nafni Lazarus, lá veikur, hann var frá Betanía, úr þorpi Maríu og Mörtu systur hennar.

2. (En María var sú, sem smurði Drottinn með smyrslum og þerraði fætur hans með hárlokkum sínum).

3. Bróðir hennar, Lazarus, var veikur. Þá sendu þær systur til hans og lètu segja honum: Herra, sá sem þú elskar, er veikur.

4. En er Jesús heyrði það, sagði hann: þessi sótt er ekki til dauða, heldur Guði til dýrðar, svo að Guðs Sonur vegsamist fyrir hana.

5. En Jesús elskaði Mörtu og systur hennar og Lazarus.

6. Þegar hann heyrði, að Lazarus væri sjúkur, var hann að sönnu kyrr í tvo daga á þeim stað, þar sem hann dvaldi;

7. En eptir það sagði hann við lærisveinana: vèr skulum fara aptur í Júdea.

8. Lærisveinarnir sögðu við hann: Meistari, nýlega ætluðu Júdarnir að grýta þig, ætlar þú nú að fara þángað aptur?

9. Jesús svaraði: eru ekki tólf stundir í deginum? gángi maður á degi, rasar hann ekki, því hann sèr ljós þessa heims;

10. En ef hann geingur á nóttu, þá rasar hann, því hann vantar ljósið.

11. Þetta talaði hann og eptir það sagði hann við þá: Lazarus vinur vor er sofnaður, en eg fer nú til að vekja hann.

12. Þá sögðu lærisveinar hans: Herra, ef hann er sofnaður, þá mun honum batna.

13. En Jesús talaði um hans dauða, þeir þar á móti hèldu, að hann talaði um náttúrlegan svefn;

14. Því sagði Jesús þeim þá berlega:

15. Lazarus er dáinn, og það gleður mig yðar vegna, að eg var þar ekki, svo að þèr trúið, en förum nú til hans.

16. Þá sagði Tómás (það þýð-
ir: tvíburi) við sína meðlæri-
sveina, vèr skulum fara líka,
svo að vèr deyum með honum.
17. En er Jesús kom, hafði
Lazarus þegar legið fjóra daga
í gröfinni.
18. (En Betanía var nálægt
Jerúsalem, hèr um bil 15
skeiðrúma þaðan);
19. Og margir Gyðíngar voru
komnir til Mörtu og Maríu,
til að hugga þær eptir bróður
þeirra.
20. Þegar Marta heyrði nú,
að Jesús kæmi, fór hún móti
honum, en María sat heima í
húsinu.
21. Þá sagði Marta við Jesús:
Herra, hefðir þú verið hèr,
væri bróðir minn ekki dáinn.
22. En eg veit líka nú, að Guð
muni veita þèr, hvað sem þú
biður hann um.
23. Jesús sagði við hana:
bróðir þinn mun upprísa.
24. Marta segir við hann: eg
veit, að hann mun upprísa í
upprisunni á efsta degi.
25. Jesús sagði við hana: eg
em upprisan og lífið, hver sem
trúir á mig, hann mun lifa,
þótt hann deyi,
26. Og hver sá, sem lifir og
trúir á mig, hann skal aldrei
að eilífu deya.
27. Trúir þú þessu? Hún
segir við hann: já, Herra, eg
hefi trúað, að þú sèrt Kristur,
Guðs Sonur, sá sem í heiminn
á að koma.
28. Og í því hún hafði talað
þetta, fór hún burt og kallaði
hljóðlega á systur sína Maríu,
og sagði: Meistarinn er hèr,
og vill finna þig.
29. Þegar María heyrði þetta,
stóð hún upp með skyndi og
kom til hans.
30. (En Jesús var enn ekki
kominn til þorpsins, heldur
var þar, sem Marta hafði mætt
honum).
31. Þegar nú Júdarnir, sem
voru hjá Maríu í húsinu og
hugguðu hana, sáu, að hún
gekk út í skyndi, fóru þeir
eptir henni, og sögðu: hún fer
út að gröfinni til að gráta þar.
32. En er María kom þángað,
sem Jesús var, og sá hann, fèll
hún honum til fóta og sagði
við hann: Herra, hefðir þú
verið hèr, væri bróðir minn
ekki dáinn.
33. Þegar Jesús sá hana nú
gráta og þá Júda, sem með
henni höfðu komið líka, komst
hann við ákaflega, og hrygðist
og sagði:
34. Hvar hafið þèr lagt hann?
35. Þeir sögðu við hann:
Herra, kom þú og sjá. Jesús
grèt.

36. Þá sögðu Júdarnir: sjá, hversu hefir hann elskað hann.
37. En nokkrir af þeim sögðu: mundi ekki sá, sem opnaði augu hins blinda, hafa getað gjört það, að þessi hefði ekki dáið?
38. Þá komst Jesús aptur innilega við, og kom til grafarinnar; en hún var hellir og steinn fyrir framan.
39. Jesús sagði: takið steininn frá. Marta, systir ens framliðna, segir við hann: Herra, það er nú þegar nálykt af honum, því líkið er fjögra daga.
40. Jesús sagði við hana: sagði eg þèr ekki, að ef þú tryðir, mundir þú sjá Guðs dýrð?
41. Þeir tóku þá steininn burt, en Jesús hóf upp augu sín og sagði: Faðir, eg þakka þèr, að þú hefir bænheyrt mig.
42. Eg vissi að sönnu, að þú ávalt heyrir mig, en vegna mannfjöldans, sem hèr er saman kominn, talaði eg, svo þeir skyldu trúa því, að þú hafir sent mig.
43. Og þegar kann hafði þetta sagt, kallaði hann hárri röddu:
44. Lazarus, kom þú út; og hinn framliðni kom út, vafinn líkblæum á höndum og fótum, og um andlit hans var sveitadúkurinn. Jesús sagði við þá: leysið hann og látið hann fara.
45. Vegna þessa trúðu margir á hann af Gyðíngum, sem komnir voru til Maríu og sèð höfðu það, sem Jesús gjörði;
46. En nokkrir af þeim geingu til Faríseanna og sögðu þeim, hvað Jesús hefði gjört.
47. ¶ Því söfnuðu hinir æðstu prestar og Faríseear ráðinu og sögðu: hvað eigum vèr að gjöra? því þessi maður gjörir mörg jarteikn.
48. Ef vèr sleppum honum svona, munu allir trúa á hann, og svo koma Rómverjar og taka land vort og þjóð.
49. En einn af þeim, Kaífas, þess árs æðsti prestur, sagði þeim:
50. Þèr vitið ekkert og hugleiðið ekki, að það er betra, að einn maður deyi fyrir fólkið, svo ekki fyrirfarist öll þjóðin.
51. En þetta talaði hann ekki af sjálfum sèr, heldur spáði hann, af því hann var æðsti prestur það árið, að Jesús ætti að deya fyrir þjóðina, og ekki einúngis fyrir þjóðina,
52. Heldur og til þess, að hann safnaði í eitt þeim sundur tvístruðu börnum Guðs.
53. Upp frá þessum degi ráðguðust þeir því um að lífláta hann.

54. Þess vegna gekk Jesús
ekki framar um berlega meðal
Gyðínga, heldur fór hann það-
an í það hèrað, sem liggur í
nánd við eyðimörkina, til þeirr-
ar borgar, sem heitir Efraim,
og var þar nokkurn tíma með
lærisveinum sínum.
55. ¶ En nálægir voru páskar
Gyðínga, og margir fóru úr
hèraðinu til Jerúsalem fyrir
páskana til að hreinsa sig.
56. Þá leituðu þeir að Jesú,
og sögðu hver við annan, þar
sem þeir stóðu í musterinu:
hvað sýnist yður, að hann
kemur ekki til hátíðarinnar?
57. En höfuðprestarnir og
Faríseanir höfðu gefið þá
skipun, að ef nokkur vissi,
hvar hann væri, skyldi hann
segja til, svo þeir gætu hand-
tekið hann.

## 12. KAPITULI.

*Jesú smurníng; innreið í Jerúsalem; Grikkir vilja sjá hann.*

EN sex dögum fyrir páska
kom Jesús til Bethanía,
þar sem Lazarus var, sá sem
hafði dáið og sem Jesús hafði
vakið upp frá dauðum.
2. Þá gjörðu þeir honum þar
kvöldverð, og Marta gekk fyr-
ir borðum, en Lazarus var einn
af þeim, sem sátu til borðs
með honum.
3. Þá tók María pund af
ómeinguðum og dýrmætum
nardus smyrslum og smurði
Jesú fætur, og þerraði með
hárlokkum sínum fætur hans,
en húsið fyltist af ilm smyrsl-
anna.
4. Þá sagði einn af hans læri-
sveinum, Júdas Símonsson, Is-
karíot, sem síðan sveik hann:
5. Hví eru þessi smyrsli ekki
seld fyrir þrjú hundruð pen-
ínga, og gefin fátækum.
6. En þetta sagði hann, ekki
af því honum væri ant um
fátæka, heldur af því að hann
var þjófur; hann hafði fèpýngj-
una og bar það, sem í hana
var lagt.
7. Þá sagði Jesús: láttu hana
vera, þetta hefir hún geymt til
míns greptrunardags;
8. Því að fátæka hafið þèr
ætíð hjá yður, en mig hafið
þèr ekki ætíð.
9. Nú fèkk mikill fjöldi af
Gyðíngum að vita, að hann
væri þar, og þeir komu ekki
einúngis vegna Jesú, heldur og
til að sjá Lazarus, sem hann
hafði upp vakið frá dauðum.
10. ¶ En æðstu prestarnir ráðg-
uðust um að deyða Lazarus
einnig;
11. Því hans vegna fóru þáng-
að margir Gyðíngar, og trúðu
á Jesúm.
12. ¶ Daginn eptir, þegar hinn

mikli fjöldi, sem kominn var
til hátíðarinnar, heyrði, að Jes-
ús kæmi til Jerúsalem,
13. Tóku þeir pálmaviðar-
greinir, og geingu á móti hon-
um og hrópuðu: hósanna,
blessaður sè sá, sem kemur
í nafni Drottins, Ísraels kon-
úngurinn!
14. En Jesús fèkk sèr úngan
asna og settist upp á hann,
eins og skrifað er:
15. "Óttast ekki, Síons dótt-
ir, sjá, konúngur þinn kemur
ríðandi á ösnufola."
16. Þetta skildu ekki læri-
sveinar hans í fyrstunni, heldur
mintust þeir þess, þá Jesús var
vegsamlegur orðinn, að þetta
var skrifað um hann, og að
þetta höfðu þeir við hann gjört.
17. En fólksfjöldinn, sem með
honum var, vitnaði, að hann
hefði kallað Lazarus úr gröf-
inni og uppvakið hann frá
dauðum.
18. Vegna þess gekk og múg-
urinn á móti honum, því menn
höfðu heyrt, að hann hefði
gjört þetta jarteikn.
19. Þá sögðu Faríseararnir hver
við annan: þèr sjáið, að þèr
komið eingu til vegar. Sjá,
hvert mannsbarn hleypur ept-
ir honum.
20. ¶ En þar voru nokkrir
Grikkir af þeim, sem komnir
voru til að biðjast fyrir á hátíð-
inni;
21. Þessir geingu til Filippus-
ar, sem var frá Betsaida í Galí-
lea, og báðu hann og sögðu:
herra, vèr viljum sjá Jesúm.
22. Filippus fór og sagði
Andrèsi, en Andrès og Filipp-
us sögðu aptur Jesú.
23. ¶ En Jesús svaraði þeim
og sagði: tíminn er kominn,
að Mannsins Sonur vegsamist.
24. Sannlega, sannlega segi
eg yður: deyi ekki hveiti-
kornið, sem fellur í jörðina,
verður það ófrjófsamt, en deyi
það, ber það mikinn ávöxt.
25. Sá sem elskar líf sitt, mun
missa það, og sá sem hatar líf
sitt í þessum heimi, mun varð-
veita það til eilífs lífs.
26. Ef nokkur þjónar mèr, sá
fylgi mèr, og hvar sem eg er,
þar mun og þjón minn vera,
og þann, sem mèr þjónar, mun
Faðirinn heiðra.
27. Nú er sál mín óróleg, og
hvað skal eg segja? Faðir,
frelsa þú mig frá þessari
stundu, en til þess em eg
kominn, að þessi stund komi
yfir mig.
28. Faðir, gjör nafn þitt veg-
samlegt. Þá kom rödd af
himni: eg hefi gjört það veg-
samlegt og mun aptur gjöra
það vegsamlegt.

29. Þá sagði fólkið, sem stóð
og heyrði: þar gekk þruma.
Aðrir sögðu: eingill talaði við
hann.
30. Jesús svaraði og sagði:
ekki mín heldur yðar vegna
kom rödd þessi.
31. Nú geingur dómur yfir
þenna heim, nú mun höfðíngi
þessa heims verða útrekinn,
32. Og þegar eg verð hafinn
frá jörðu, mun eg draga alla
til mín.
33. En þetta sagði hann, til
að benda til, hvaða dauðdaga
hann mundi deya.
34. Mannfjöldinn svaraði hon-
um: vèr höfum heyrt í ritn-
íngunni, að Kristur verði til
eilífðar, og hvernig segir þú
þá, að Mannsins Sonur eigi að
verða hafinn upp? hver er
þessi Mannsins Sonur?
35. Þá sagði Jesús við þá:
stutta stund verður ljósið hèr
eptir meðal yðar; gángið, með-
an þèr hafið ljósið, svo myrkr-
ið yfir falli yður ekki; sá sem
geingur í myrkri, veit ekki
hvert hann geingur.
36. Trúið á ljósið, meðan þèr
hafið ljósið, svo að þèr verðið
ljóssins synir. Þetta talaði Jes-
ús og fór burt og fól sig fyrir
þeim.
37. ¶ En þótt hann hefði
gjört svo mörg teikn í augsýn
þeirra, trúðu þeir þó ekki á
hann;
38. Svo að þau orð Esajasar
spámanns rættust, sem hann
hafði talað: "Drottinn, hver
trúir vorri prèdikun, og hverj-
um verður sýnilegur Drottins
armleggur?
39. Þess vegna gátu þeir ekki
trúað, því Esajas segir á öðr-
um stað:
40. "Hann hefir blindað þeirra
augu og forhert þeirra hjörtu,
svo þeir sjái ekki með aug-
unum, og skilji ekki með hjart-
anu og snúi sèr, svo að eg geti
læknað þá."
41. Þetta sagði Esajas, af því
hann sá hans dýrð og talaði
um hann.
42. ¶ En þó trúðu margir einn-
ig af höfðíngjunum á hann, en
vegna Faríseanna meðkendust
þeir það ekki, svo þeir yrðu
ekki samkundu rækir;
43. Því þeir elskuðu lofstýr
manna meir en Guðs dýrð.
44. ¶ En Jesús kallaði og sagði:
sá sem trúir á mig, hann trúir
ekki á mig, heldur á þann,
sem mig sendi,
45. Og sá, sem sèr mig, hann
sèr þann, sem mig sendi.
46. Eg er ljós í heiminn kom-
inn, svo að hver, sem á mig
trúir, sè ekki í myrkrinu;
47. Og þó einhver heyri mín

orð og trúi ekki, þá dæmi eg hann samt ekki, því eg em ekki kominn til að dæma heiminn, heldur til að frelsa heiminn.

48. Sá, sem forsmáir mig, og meðtekur ekki mín orð, hefir þann, sem dæmir hann; það orðið, sem eg hefi talað, mun dæma hann á efsta degi;

49. Því eg hefi ekki talað af sjalfum mèr, heldur hefir Faðirinn, sem mig sendi, gefið mèr boðorð um það, hvað eg skyldi segja, og hvað eg skyldi tala.

50. Og eg veit, að hans boðorð er eilíft líf; það sem eg þar fyrir tala, það tala eg, eins og Faðirinn hefir mèr sagt.

## 13. KAPÍTULI.

*Jesús þvær fætur lærisveinanna; talar um auðmýkt og þann, sem mundi svíkja sig, um innbyrðiskærleika; Pèturs afneitun.*

EN fyrir páskahátíðina, þar eð Jesús vissi, að hans stund var komin, að hann færi úr heiminum til Föðursins; og af því hann hafði elskað sína, sem voru í heiminum, elskaði hann þá alt til enda.

2. Og er kvöldmáltíðin stóð yfir og djöfullinn hafði nú þegar skotið í hjarta Júdasar Símonssonar, Iskaríot, að svíkja hann,

3. Og þó Jesús vissi, að Faðirinn hefði gefið sèr alt í hendur, og að hann væri kominn frá Guði, og færi til Guðs,

4. Stóð hann upp frá kvöldmáltíðinni, lagði af sèr klæðin, tók líndúk og gyrtist honum.

5. Eptir það helti hann vatni í mundlaug, og tók að þvo fætur lærisveinanna og þerra með líndúk þeim, sem hann var gyrtur.

6. Þá hann kom að Símoni Pètri, sagði þessi við hann: ætlar þú, Herra, að þvo fætur mína?

7. Jesús svaraði og sagði við hann: nú skilur þú ekki það sem eg gjöri, en seinna munt þú skilja það.

8. Pètur svaraði honum: aldrei til eilífðar skaltu þvo mína fætur. Jesús svaraði: ef eg fæ ekki að þvo þig, erum við skildir að skiptum. Símon Pètur sagði þá við hann:

9. Herra, ekki einúngis fæturna, heldur einnig hendur og höfuð.

10. Jesús sagði við hann: sá, sem þveginn er, þarf ekki að þvost nema á fótum, því hann er allur hreinn,

11. Og þèr eruð hreinir, en ekki allir; því hann þekti þann, sem síðan sveik hann, þar fyrir sagði hann: þèr eruð ekki allir hreinir.

12. Þegar hann nú var búinn

að þvo fætur þeirra, og hafði tekið klæði sín, settist hann aptur til borðs og sagði við þá: skiljið þèr, hvað eg hefi gjört við yður?
13. Þèr kallið mig meistara og Herra, og þèr mælið rètt, því eg em það.
14. Ef að eg þá, meistarinn og Herrann, hefi þvegið yðar fætur, eigið þèr og að þvo hver annars fætur;
15. Því eg gaf yður eptirdæmi, svo að þèr breytið, eins og eg breytti við yður.
16. Sannlega, sannlega segi eg yður, að þjóninn er ekki meiri en hússbóndinn; sá sem sendur er, hann er ekki meiri en sá, sem sendi hann.
17. Ef þèr skiljið þetta, þá eruð þèr sælir, ef þèr breytið eptir því.
18. ¶ Eg tala ekki um yður alla, eg þekki þá, sem eg hefi útvalið, en ritníngin verður að rætast: sá, sem etur brauð með mèr, hefir lypt upp hælnum á móti mèr.
19. Hèðan af segi eg yður það, áður en það kemur fram, svo þegar það er fram komið, að þèr þá trúið, að eg em (sá, sem eg er).
20. Sannlega, sannlega segi eg yður: hver, sem meðtekur þann, sem eg sendi, sá meðtekur mig, en sá, sem meðtekur mig, hann meðtekur þann, sem sendi mig.
21. Þegar Jesús talaði þetta, komst hann mjög við í anda, vottaði og sagði: sannlega, sannlega segi eg yður, einn af yður mun svíkja mig.
22. Þá litu lærisveinarnir hver upp á annan, og vissu ekki, um hvern hann talaði.
23. En þar var einn af hans lærisveinum, sem sat til borðs í faðmi Jesú, sá sem Jesús elskaði.
24. Símon Pètur benti þessum, að hann skyldi spyrja að, hver sá væri, er Jesús talaði um.
25. Hann hallaði sèr því upp að Jesú brjósti, og sagði við hann:
26. Herra, hver er það? Jesús svaraði: sá er það, er eg mun gefa þann bita, er eg nú dýfi í; þá dýfði hann í bitanum, og rètti að Júdasi Símonarsyni, Iskaríot.
27. Og eptir þann bita fór Satan í hann. Þá sagði Jesús við hann: það sem þú gjörir, það gjör þú skjótt.
28. En einginn þeirra, sem til borðsins sátu, vissi, í hverju skyni hann sagði þetta;
29. Því sumir hèldu, af því Júdas hafði pýngjuna, að Jes-

ús hefði sagt honum: kaup þú það, sem við þurfum til hátíðarinnar, ellegar að hann skyldi gefa eitthvað fátækum.

30. Þegar Júdas hafði tekið bitann, gekk hann þegar út, en þá var nótt.

31. ¶ Þegar hann var geinginn út, sagði Jesús: nú er Mannsins Sonur dýrðlegur orðinn, og Guð er í honum dýrðlegur orðinn.

32. Ef að Guð verður dýrðlegur í honum, mun Guð sjálfur gjöra hann dýrðlegan, og nú þegar mun hann gjöra hann dýrðlegan.

33. Kæru börn, eg verð nú hèðan af skamma stund hjá yður; þèr munuð leita mín, og eins og eg sagði Gyðíngum, segi eg yður nú: þèr getið ekki komizt þángað, sem eg fer.

34. Eg gef yður nýtt boðorð, að þèr elskið hver annan; eins og eg elskaði yður, að þèr einnig elskið hver annan.

35. Af því munu allir sjá, að þèr eruð mínir lærisveinar, ef að þèr elskizt innbyrðis.

36. ¶ Símon Pètur svaraði honum: Herra, hvert ætlar þú að fara? Jesús svaraði honum: þángað, sem eg fer, getur þú ekki fylgt mèr nú; en seinna meir muntu fylgja mèr.

37. Pètur sagði við hann: Herra, hvers vegna get eg ekki fylgt þèr nú þegar? eg vil leggja líf mitt út fyrir þig.

38. Jesús svaraði honum: munt þú leggja líf þitt út fyrir mig? sannlega, sannlega segi eg þèr: haninn mun ekki gala fyrr, en þú verður búinn að afneita mèr þrisvar.

## 14. KAPÍTULI.

*Jesús talar um sína burtför, bænina, Heilagan Anda.*

HJARTA yðar skelfist ekki; trúið á Guð, og trúið á mig.

2. Í húsi föður míns eru mörg hýbýli; væri ekki svo, hefði eg sagt yður það.

3. Eg fer burt til að tilbúa yður stað, og þegar eg er burt farinn, og hefi tilbúið yður stað, þá mun eg koma aptur og taka yður til mín, svo að þèr sèuð, þar sem eg er.

4. Þèr vitið, hvert eg fer, og þekkið veginn.

5. Tómás segir við hann: Herra, ekki vitum vèr, hvert þú ferð, og hvernig getum vèr þá þekt veginn?

6. Jesús svaraði honum: eg em vegurinn og sannleikurinn og lífið; einginn kemur til Föðursins, nema fyrir mig.

7. Ef þèr hefðuð þekt mig, þá hefðuð þèr og þekt Föður

minn, og hèðan í frá þekkið
þèr hann og hafið sèð hann.
8. Filippus sagði við hann:
Herra, sýndu oss Föðurinn,
og þá nægir oss.
9. Jesús svaraði honum: svo
leingi hefi eg verið hjá yður,
og þú, Filippus, ert ekki enn
búinn að þekkja mig? sá,
sem hefir sèð mig, hefir sèð
Föðurinn, og hvernig segir
þú: sýndu oss Föðurinn?
10. Trúir þú ekki, að eg em í
Föðurnum og Faðirinn í mèr?
þau orð, sem eg tala til yðar,
þau tala eg ekki af sjálfum
mèr; en Faðirinn, sem í mèr
er, hann gjörir verkin.
11. Trúið mèr, að eg er í
Föðurnum og Faðirinn í mèr;
en ef ekki, þá trúið mèr vegna
verkanna.
12. Sannlega, sannlega segi
eg yður: sá, sem trúir á mig,
mun einnig gjöra þau verk,
sem eg gjöri, og hann mun
gjöra meiri verk, en þessi;
13. Því eg fer til Föður
míns; og hvers sem þèr
biðjið í mínu nafni, það mun
eg veita, svo að Faðirinn
vegsamist fyrir Soninn.
14. Ef að þèr biðjið einhvers í
mínu nafni, mun eg veita það.
15. ¶ Ef að þèr elskið mig,
þá haldið þèr mín boðorð.
16. Og eg mun biðja Föður-
inn, og hann mun gefa yður
annan huggara, svo að hann
sè hjá yður eilíflega,
17. Sannleiksins Anda, sem
heimurinn getur ekki meðtek-
ið, því hann sèr hann ekki,
og þekkir hann ekki, en þèr
þekkið hann, því hann stað-
næmist hjá yður, og mun
vera í yður.
18. Eg mun ekki skilja yður
eptir munaðarlausa;
19. Eg mun koma til yðar;
innan skamms mun heimur-
inn ekki sjá mig framar, en
þèr munuð sjá mig, því eg lifi,
og þèr munuð lifa.
20. Á þeim degi munuð þèr
þekkja, að eg er í mínum Föð-
ur og þèr í mèr, og eg í yður.
21. Sá, sem hefir mín boðorð
og heldur þau, hann elskar
mig. En Faðir minn mun
elska þann, sem elskar mig,
og eg mun elska hann og sýna
mig honum.
22. Júdas sagði þá við hann
(en það var ekki Júdas Iska-
ríot): Herra, hvað kemur til
þess, að þú ætlar að sýna þig
oss, en ekki heiminum?
23. Jesús svaraði honum og
sagði: sá sem elskar mig, hann
mun varðveita mitt orð, og Fað-
ir minn mun elska hann, og til
hans munum við koma, og taka
okkur bústað hjá honum.

24. Sá, sem ekki elskar mig, hann varðveitir ekki mín orð, og það orð, sem þèr heyrið, er ekki mitt, heldur Föðursins, sem mig sendi.

25. Þetta hefi eg talað við yður, meðan eg var hjá yður;

26. En Huggarinn, sá Heilagi Andi, sem Faðirinn mun senda í mínu nafni, mun kenna yður alt, og minna yður á alt sem eg hefi talað við yður.

27. Frið læt eg eptir hjá yður, minn frið gef eg yður, ekki eins og heimurinn gefur, gef eg yður. Hjarta yðar skelfist ekki nè hræðist.

28. Þèr heyrðuð, að eg sagði yður: eg fer burt, og kem til yðar aptur; ef þèr elskuðuð mig, þá gleddust þèr af því, að eg fer til Föðursins, því Faðirinn er mèr meiri.

29. Og nú hefi eg sagt yður það, áður en það kemur fram, svo að þèr trúið því, þegar það kemur fram.

30. Hèr eptir mun eg ekki tala margt við yður, því að höfðíngi þessa heims kemur, og í mèr hefir hann ekkert.

31. En svo að heimurinn viti, að eg elska Föðurinn, og að eg gjöri eins og Faðirinn hefir mèr boðið, þá standið upp, látum oss fara hèðan.

## 15. KAPÍTULI.

*Jesú skilnaðarræða er í eptirfylgjandi þremur kapítulum.*

EG em hinn sanni vínviður, og Faðir minn er vínyrkjumaðurinn;

2. Hverja þá grein á mèr, sem ekki ber ávöxt, af sníður hann, en hverja þá, sem ber ávöxt, hreinsar hann, svo að hún beri meiri ávöxt.

3. Nú þegar eruð þèr hreinir fyrir það orð, sem eg hefi talað til yðar.

4. Verið í mèr, svo að eg sè í yður. Eins og viðargreinin getur ekki borið ávöxt af sjálfri sèr, nema hún sè föst á vínviðnum, þannig ekki heldur þèr, nema þèr sèuð í mèr.

5. Eg em vínviðurinn, þèr eruð greinarnar; sá sem er stöðugur í mèr, og eg í honum, hann ber mikinn ávöxt, því án mín megnið þèr ekkert.

6. Sá sem ekki er stöðugur í mèr, honum verður snarað út, eins og afkvisti, og visnar upp; menn safna því saman, og kasta því á eld og það brennur.

7. Ef að þèr eruð stöðugir í mèr, og mín orð hafa stað hjá yður, þá megið þèr biðja, hvers þèr viljið, og það mun yður veitast.

8. Með því vegsamast Faðir

minn, að þèr berið mikinn ávöxt, og þèr verðið mínir lærisveinar.
9. Eins og Faðirinn hefir elskað mig, eins hefi eg elskað yður, verið staðfastir í minni elsku.
10. Ef að þèr haldið mín boðorð, þá munuð þèr halda minni elsku, eins og eg hèlt boðorð Föður míns og held hans elsku.
11. Þetta hefi eg talað til yðar, svo að minn fögnuður verði hjá yður varanlegur, og fögnuður yðar fullkominn.
12. Þetta er mitt boðorð, að þèr elskið hver annan, eins og eg hefi elskað yður.
13. Meiri elsku hefir einginn en þá, að hann láti líf sitt fyrir vini sína.
14. Þèr eruð mínir vinir, ef þèr gjörið það, sem eg hefi boðið yður.
15. Eg kalla yður ekki framar mína þjóna, því þjóninn veit ekki, hvað herra hans gjörir; en eg hefi kallað yður vini, því alt það, sem eg hefi heyrt af mínum Föður, það hefi eg kunngjört yður.
16. Þèr hafið ekki útvalið mig, heldur hefi eg útvalið yður og sett yður til þess, að þèr farið og berið ávöxt, og yðar ávöxtur verði varanlegur; svo að hvers þèr biðjið Föðurinn í mínu nafni, það veiti hann yður.
17. Þetta býð eg yður, að þèr elskið hver annan.
18. Ef heimurinn hatar yður, þá vitið, að hann hefir hatað mig fyrri en yður.
19. Ef þèr væruð af heiminum, þá mundi heimurinn líklega elska sitt eigið; en af því þèr eruð ekki af heiminum, þótt eg hafi útvalið yður af heiminum, þá hatar heimurinn yður.
20. Munið til þess, er eg sagði yður: þjóninn er ekki meiri en húsbóndi hans. Hafi þeir ofsókt mig, þá munu þeir líka ofsækja yður; hafi þeir geymt mitt orð, munu þeir og geyma yðvart.
21. En alt þetta munu þeir gjöra yður vegna míns nafns, af því þeir þekkja ekki þann, sem sendi mig.
22. Hefði eg ekki komið og talað til þeirra, þá hefðu þeir ekki synd, en nú hafa þeir einga afbötun synd sinni.
23. Sá sem hatar mig, sá hatar og minn Föður.
24. Ef eg hefði ekki gjört þau verk á meðal þeirra, sem einginn annar hefur gjört, þá hefðu þeir ekki synd; en nú hafa þeir sèð þau, og hafa

bæði hatað mig og Föður minn.

25. En grein þessi í lögmáli þeirra hlýtur að rætast: "þeir hötuðu mig án saka."

26. En þegar Huggarinn kemur, sem eg mun senda yður frá Föðurnum, sá sannleiksins Andi, sem fram geingur af Föðurnum, hann mun vitna um mig;

27. En þèr munuð og vitna um mig, því þèr hafið frá upphafi með mèr verið.

## 16. KAPÍTULI.

ÞETTA sagði eg yður, svo að þèr hneyksluðust ekki:

2. Þeir munu gjöra yður samkunduræka; já, sá tími mun koma, að hver, sem líflætur yður, mun þykjast gjöra Guði þægt verk,

3. Og þetta munu þeir gjöra, af því þeir þekkja hvorki Föðurinn nè mig.

4. En þetta sagði eg yður, svo að þèr minnist þess, þegar að því kemur, að eg sagði yður það; en eg sagði yður ekki í upphafi, því eg var með yður.

5. En nú fer eg til hans, sem mig sendi, og einginn yðar spyr mig: hvert fer þú?

6. Heldur hefir hrygð uppfylt yðar hjarta, af því eg talaði þetta.

7. En eg segi yður sannleikann: það er yður til góðs, að eg fari hèðan; því fari eg ekki, mun Huggarinn ekki koma til yðar, en þegar eg er farinn, mun eg senda hann til yðar.

8. Og þegar hann kemur, mun hann sannfæra heiminn um synd og um rèttlæti og um dóm.

9. Um synd, af því þeir trúa ekki á mig;

10. En um rèttlæti, af því eg fer til Föðursins og þèr sjáið mig ekki leingur;

11. En um dóm, af því höfðíngi þessa heims er dæmdur.

12. Eg hefi enn margt að segja yður, en þèr getið ekki borið það að sinni;

13. En þegar hann, sá sannleikans Andi kemur, mun hann leiða yður í allan sannleika, því hann mun ekki tala af sjálfum sèr, heldur mun hann tala það, sem hann heyrir og kunngjöra yður hið ókomna.

14. Hann mun vegsama mig, því af mínu mun hann taka og kunngjöra yður.

15. Alt það, sem Faðirinn hefir, það er mitt, því sagða eg, að hann mundi af mínu taka og kunngjöra yður.

16. Innan skamms munuð þèr ekki sjá mig, og innan skamms munuð þèr sjá mig aptur, því eg fer til Föðursins.

17. Þá sögðu nokkrir af hans lærisveinum, hver við annan: hvað er þetta, sem hann segir við oss: innan skamms munuð þèr ekki sjá mig, og svo munuð þèr innan skamms sjá mig aptur; og þetta: eg fer til Föðursins?

18. Þeir sögðu því: hvað er þetta, sem hann segir: innan skamms? vèr skiljum ekki það, sem hann talar.

19. Jesús varð þess þá var, að þeir vildu spyrja hann, og sagði við þá: þèr spyrjizt á um það, að eg sagði: innan skamms munuð þèr ekki sjá mig, og aptur munuð þèr sjá mig innan skamms.

20. Sannlega, sannlega segi eg yður: þèr munuð sýta og gráta, en heimurinn mun fagna; þèr munuð verða hryggvir, en yðar hrygð mun snúast í fögnuð.

21. Konan, þegar hún fæðir, þá hefir hún hrygð, því hennar tími er kominn; en þegar hún hefir barnið fætt, minnist hún ekki framar harmkvælisins fyrir fagnaðar sakir, því að maður er í heiminn borinn;

22. Eins hafið þèr nú að sönnu hrygð, en eg mun sjá yður aptur, og yðvart hjarta mun fagna, og yðvarn fögnuð tekur einginn frá yður.

23. Og á þeim degi munuð þèr mig einskis spyrja. Sannlega, sannlega segi eg yður: hvers þèr biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður.

24. Híngað til hafið þèr einskis beðið í mínu nafni; biðjið, og þèr munuð öðlast, svo að yðar fögnuður sè fullkominn.

25. Þetta hefi eg talað til yðar í orðskviðum; sá tími kemur, að eg mun ekki leingur tala við yður í orðskviðum, heldur mun eg berlega segja yður af Föðurnum;

26. Á þeim tíma munuð þèr biðja í mínu nafni, og ekki segi eg yður, að eg muni biðja Föðurinn fyrir yður,

27. Því sjálfur Faðirinn elskar yður, af því þèr hafið elskað mig og hafið trúað, að eg sè kominn frá Guði.

28. Eg em út geinginn frá Föðurnum og kominn í heiminn; eg mun aptur yfirgefa heiminn og fara til Föðursins.

29. Lærisveinar hans segja við hann: sjá, nú talar þú berlega, og mælir eingan orðskvið.

30. Nú vitum vèr, að þú veizt alt, og þarft þess ekki, að nokkur spyrji þig; þess vegna trúum vèr, að þú sèrt frá Guði kominn.

31. Jesús svaraði þeim: trúið þèr nú?

32. Sjá, sá tími kemur og er nú þegar kominn, að þèr munuð tvístrast, hver heim til sín, og látið mig einan, en eg em samt ekki einn, því Faðirinn er með mèr.
33. Þetta hefi eg talað til yðar, svo að þèr hefðuð frið í mèr. Í heiminum munuð þèr hafa þreingíng, en verið öruggir, eg hefi sigrað heiminn.

## 17. KAPÍTULI.

*Jesú bæn til Guðs.*

ÞETTA talaði Jesús, hóf sín augu til himins og sagði: Faðir, tíminn er kominn; gjör Son þinn dýrðlegan, svo að Sonurinn einnig gjöri þig dýrðlegan,
2. Eins og þú hefir gefið honum vald yfir öllu holdi, svo hann gefi eilíft líf öllum þeim, sem þú gafst honum.
3. En þetta er hið eilífa líf, að þeir þekki þig einan sannan Guð og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist.
4. Eg hefi gjört þig dýrðlegan á jörðunni, eg hefi lokið því verki, sem þú fèkkst mèr að vinna;
5. Gjör mig nú vegsamlegan, Faðir, hjá sjálfum þèr með þeirri dýrð, sem eg hafði hjá þèr, aður en heimurinn var.
6. Eg hefi auglýst þitt nafn þeim mönnum, sem þú gafst mèr af heiminum; þeir voru þínir, og þú gafst mèr þá, og þeir hafa varðveitt þitt orð.
7. Nú vita þeir, að alt það, sem þú hefir mèr gefið, er frá þèr,
8. Því að þau orð, er þú gafst mèr, hefi eg gefið þeim; þeir hafa tekið við þeim, og þeir vita með sanni, að eg em kominn frá þèr, og trúa, að þú hafir sent mig.
9. Eg bið fyrir þeim; ekki bið eg fyrir heiminum, heldur fyrir þeim, sem þú gafst mèr, af því þeir eru þínir;
10. Og alt mitt er þitt, og það sem þitt er, það er mitt, og eg em í þeim dýrðlegur orðinn.
11. Eg verð ekki leingur í heiminum, þessir verða í heiminum, en eg fer til þín. Heilagi Faðir, varðveit þá í þínu nafni, er þú gafst mèr, svo þeir sèu eitt, eins og við.
12. Meðan eg var hjá þeim í heiminum, varðveitti eg þá í þínu nafni. Eg varðveitti þá, sem þú gafst mèr, og einginn þeirra týndist, nema sá glötunar sonur, svo að ritníngin rættist.
13. En nú fer eg til þín, og þetta tala eg í heiminum, svo þeir hafi í sjálfum sèr minn fögnuð fullkominn.
14. Eg hefi gefið þeim þitt

orð, og heimurinn hataði þá, því þeir eru ekki af heiminum, eins og eg er ekki af heiminum.

15. Ekki bið eg, að þú takir þá úr heiminum, heldur að þú verndir þá fyrir illu.

16. Þeir eru ekki af heiminum eins og eg em ekki af heiminum.

17. Helga þú þá í þínum sannleika, þitt orð er sannleikur.

18. Eins og þú sendir mig til heimsins, hefi eg sent þá til heimsins,

19. Og fyrir þá helga eg sjálfan mig, svo að þeir sèu helgaðir í sannleikanum.

20. En eg bið ekki einúngis fyrir þessum, heldur og fyrir þeim, sem trúa munu á mig fyrir þeirra orð;

21. Svo að allir sèu eitt, eins og þú, Faðir, ert í mèr, og eg í þèr, svo að þeir og sèu eitt í okkur, svo að heimurinn trúi, að þú hafir sent mig.

22. Og þá dýrð, sem þú gafst mèr, hefi eg gefið þeim, svo þeir sèu eitt, eins og við erum eitt,

23. Eg í þeim og þú í mèr, svo þeir sèu fullkomlega sameinaðir og heimurinn viti, að þú sendir mig og elskir þá, eins og þú elskar mig.

24. Faðir, eg vil, að þeir, sem þú gafst mèr, sèu hjá mèr, þar sem eg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mèr; því þú elskaðir mig, fyrr er veröldin var grundvölluð.

25. Rèttláti Faðir, þó að heimurinn þekki þig ekki, þá þekki eg þig, og þessir hafa þekt, að þú sendir mig.

26. Eg hefi auglýst þeim þitt nafn og mun auglýsa það, svo að sú elska, sem þú elskaðir mig með, sè í þeim og eg í þeim.

## 18. KAPÍTULI.

*Jesús er leiddur fyrir hinn andlega rètt, og fyrir hinn veraldlega rètt.*

ÞEGAR Jesús hafði talað þetta, gekk hann út með lærisveinum sínum yfir um lækinn Kedron. Þar var grasgarður, þángað gekk Jesús og lærisveinar hans.

2. En Júdas, sem sveik hann, þekti og staðinn, því Jesús var vanur að koma þángað með sínum lærisveinum.

3. Þegar nú Júdas hafði tekið með sèr stríðsmanna flokkinn og þjóna prestahöfðíngjanna og Faríseanna, kom hann þángað með blysum, skriðbyttum og vopnum.

4. En Jesús sem vissi alt, er yfir hann mundi koma, gekk fram og sagði við þá: að hverjum leitið þèr?

5. Þéir svöruðu honum: að
Jesú frá Nazaret. Jesús sagði
við þá: eg em hann. En Júdas,
sem sveik hann, stóð hjá þeim.
6. Þegar hann þá sagði við
þá: eg em hann, hopuðu þeir
á hæl og fèllu til jarðar.
7. Hann spurði þá þar fyrir
í annað sinn: að hverjum leit-
ið þèr? En þeir sögðu: að
Jesú frá Nazaret.
8. Jesús svaraði: eg sagði yð-
ur, að eg væri sá hinn sami;
ef að þèr þá leitið mín, leyfið
þessum að fara;
9. Svo það orð rættist, sem
Jesús hafði talað: eingum
glataði eg af þeim, sem þú
gafst mèr.
10. En Símon Pètur, sem
hafði sverð, brá því, hjó þjón
prestahöfðíngjans og sneið af
honum hægra eyrað; en sá
þjón hèt Malkus.
11. Jesús sagði þá við Pètur:
sliðra þú sverð þitt. Ætti eg
ekki að drekka þann kaleik,
sem Faðir minn hefur gefið
mèr?
12. Flokkurinn, fyrirliðinn og
þjónar Gyðínganna gripu nú
Jesúm og bundu hann,
13. Og leiddu hann fyrst til
Hannas, því hann var teingda-
faðir Kaífasar, sem það árið
var æðsti prestur.
14. En Kaífas var sá, sem
gefið hafði Gyðíngum það ráð,
að gagnlegt væri, að einn mað-
ur væri líflátinn fyrir þjóðina.
15. ¶ En Símon Pètur fylgdi
Jesú og annar lærisveinn, en
sá lærisveinn var kunnugur
hinum æðsta presti og gekk
inn með Jesú í hús presta-
höfðíngjans, en Pètur stóð fyr-
ir utan dyrnar.
16. Þá gekk út hinn annar
lærisveinn, sem kunnugur var
prestahöfðíngjanum, talaði við
þá þernu, sem gætti dyranna,
og leiddi Pètur inn.
17. Þá sagði þernan, sem gætti
dyranna, við Pètur: ert þú ekki
líka einn af lærisveinum þessa
manns? Hann svaraði: ekki
em eg.
18. En þjónarnir og sveinarn-
ir stóðu þar við eld, sem þeir
höfðu gjört, og vermdu sig,
því kalt var; en Pètur stóð
hjá þeim og vermdi sig.
19. ¶ Þá spurði prestahöfð-
ínginn Jesúm að lærisveinum
hans og kenníngu.
20. Jesús svaraði honum: eg
hefi talað opinberlega fyrir
heiminum; eg hefi ætíð kent
í samkundunum og í muster-
inu, þar sem allir Gyðíngar
samankoma, og ekkert hefi eg
talað í leyni; hví spyr þú mig?
21. Spyr þú þá, sem heyrt
hafa, hvað eg hefi talað við þá;

sjá, þessir vita, hvað eg hefi
sagt.
22. En er Jesús talaði þetta,
gaf einn af þjónunum, sem hjá
stóð, Jesú kinnhest og sagði:
svarar þú svona prestahöfð-
íngjanum?
23. Jesús svaraði honum: hafi
eg talað rángt, þá sanna þú
það, en hafi eg talað rètt, hví
slær þú mig?
24. Hannas sendi hann bund-
inn til prestahöfðíngjans Kaí-
fasar. En Símon Pètur stóð
og vermdi sig.
25. Þeir sögðu þá við hann:
ert þú og einn af hans læri-
sveinum? Hann neitaði og
sagði: ekki em eg.
26. Einn af þjónum presta-
höfðíngjans, frændi þess, sem
Pètur hjó af eyrað, segir þá:
sá eg þig ekki í grasgarðinum
með honum?
27. Þá neitaði Pètur enn apt-
ur, og jafnskjótt gól haninn.
28. ¶ Nú leiddu þeir Jesúm
frá Kaífasi til hallar landshöfð-
íngjans, en það var snemma
morguns, og þeir geingu ekki
sjálfir inn í höllina, svo þeir
saurguðust ekki, heldur mættu
neyta páskalambsins.
29. Pílatus gekk þá út til
þeirra og sagði: hverja ákæru
færið þèr gegn þessum manni?
30. Þeir svöruðu og sögðu
við hann: væri þessi ekki ill-
ræðismaður, þá hefðum vèr
ekki selt þèr hann í hendur.
31. Pílatus sagði þá við þá:
takið þèr hann og dæmið hann
eptir yðar lögum. Þá sögðu
Gyðíngar við hann: oss leyfist
ekki að lífláta nokkurn,
32. Svo það rættist, sem Jesús
hafði fyrir fram sagt um það,
hvaða dauðdaga hann mundi
fá.
33. Þá gekk Pílatus aptur inn
í höllina, kallaði Jesúm til sín
og sagði við hann: ert þú Gyð-
ínga konúngurinn?
34. Jesús svaraði: talar þú
þetta af sjálfum þèr, eður hafa
aðrir sagt þèr það um mig?
35. Pílatus svaraði: er eg þá
Gyðíngur? Þjóð þín og kenni-
manna höfðíngjarnir færðu
mèr þig, hvað hefir þú að-
hafzt?
36. Jesús svaraði: mitt ríki
er ekki af þessum heimi; væri
mitt ríki af þessum heimi, þá
hefðu þjónar mínir barizt, svo
eg kæmist ekki á vald Gyð-
ínga; en nú er mitt ríki ekki
þaðan.
37. Pílatus sagði þá við hann:
ertu þá ekki konúngur? Jesús
svaraði: rètt segir þú, að eg
sè konúngur; til þess em eg
fæddur, og til þess kom eg í
heiminn að eg beri vitni sann-

leikanum, og hver sem elskar sannleikann, sá hlýðir minni röddu.
38. Pílatus svaraði honum: hvað er sannleikur? Og í því hann sagði þetta, gekk hann út aptur til Gyðínga og segir við þá: eg finn einga sök hjá honum;
39. En það er venja hjá yður, að eg á páskum gefi yður einn lausan. Viljið þèr þá ekki, að eg gefi yður nú lausan Gyðínga konúnginn?
40. Þeir æptu þá allir á móti og sögðu: ekki þenna, heldur Barabbas; en Barabbas var stigamaður.

## 19. KAPÍTULI.

*Jesús er krossfestur og lagður í gröfina.*

ÞÁ tók Pílatus Jesúm og húðstrýkti hann.
2. En stríðsmennirnir flèttuðu kórónu af þyrnum, og settu á höfuð hans, og færðu hann í purpurakápu og sögðu:
3. Heill sèrt þú, konúngur Gyðínga, og þeir gáfu honum pústra.
4. Pílatus gekk þá út aptur og sagði við þá: sjá, eg leiði hann nú út aptur til yðar, svo að þèr vitið, að eg finn einga sök hjá honum.
5. Jesús gekk þá út með þyrnikórónu á höfði og í purpurakápu, og Pílatus sagði við þá: sjáið manninn.
6. En þegar prestahöfðíngjarnir og þjónarnir sáu hann, æptu þeir og sögðu: krossfestu, krossfestu hann! Pílatus sagði við þá: takið þèr hann og krossfestið, því að eg finn einga sök hjá honum.
7. Gyðíngar svöruðu honum: vèr höfum lög, og eptir vorum lögum á hann að deya, því hann hefir gjört sig sjálfan að Guðs Syni.
8. ¶ Þegar Pílatus heyrði þetta, varð hann enn hræddari,
9. Gekk inn í höllina aptur og sagði við Jesúm: hvaðan ertu? En Jesús svaraði honum ekki.
10. Pílatus sagði þá við hann: talar þú ekki við mig? veiztu ekki, að eg hefi vald til að krossfesta þig og vald til að láta þig lausan?
11. Jesús svaraði: ekki hefðir þú vald yfir mèr, nema þèr væri gefið það ofan að; því er sá enn sekari, sem ofurseldi mig þèr.
12. Upp frá því leitaðist Pílatus við að láta hann lausan; en Gyðíngar kölluðu og sögðu: ef að þú sleppir honum, þá ertu ekki vinur keisarans. Hver sem gjörir sig að konúngi, hann rís á móti keisaranum.

13. ¶ Þegar Pílatus heyrði þetta, leiddi hann Jesúm út og settist, á dómstólinn á þeim stað, sem heitir hinn steinlagði, en á hebresku, Gabbatha.

14. En þá var aðfángadagur Páska, hèr um bil um sjöttu stund.

15. Nú sagði hann við Gyðínga: sjáið konúng yðar! En þeir kölluðu: burt, burt með hann, krossfestu hann. Pílatus sagði við þá: á eg að krossfesta konúng yðar? Þá svöruðu hinir æðstu prestar: vèr höfum ekki konúng nema keisarann.

16. Þá fèkk hann þeim Jesúm, til þess að hann yrði krossfestur; en þeir tóku við Jesú og leiddu hann burt.

17. En hann bar sinn kross og gekk út til þess staðar, sem heitir hausaskelja-staður, á hebresku, Golgata;

18. Þar krossfestu þeir hann, og með honum tvo aðra, sinn til hvorrar handar, en Jesúm í miðið.

19. ¶ En Pílatus skrifaði líka yfirskript og festi hana á krossinn; en svo var skrifað: JESÚS FRÁ NAZARET, KONÚNGUR GYÐÍNGANNA.

20. Þessa yfirskript lásu margir Gyðíngar, því sá staður, þar sem Jesús var krossfestur, var nærri borginni; hún var og skrifuð á hebresku, grísku og latínu.

21. Þá sögðu æðstu prestar Gyðínga við Pílatus: skrifa þú ekki: konúngur Gyðínganna, heldur að hann hafi sagt: eg em konúngur Gyðínga.

22. Pílatus svaraði: það sem eg hefi skrifað, það hefi eg skrifað.

23. ¶ En er stríðsmennirnir höfðu krossfest Jesúm, tóku þeir klæði hans og skiptu í fjóra parta, hverjum stríðsmanni part, líka kyrtilinn; en kyrtillinn var ekki saumaður, heldur frá ofanverðu niður úr prjónaður.

24. Þeir sögðu því hver við annan: skerum hann ekki í sundur, hlutumst heldur um, hver hann skal fá; svo að sú ritníng rættist, sem segir: "þeir skiptu með sèr klæðum mínum og köstuðu hlut um kyrtil minn."

25. ¶ Þetta gjörðu nú stríðsmennirnir. En hjá krossinum stóð móðir Jesú og móðursystir hans, María kona Kleófu, og María frá Magdölum.

26. Þegar Jesús sá nú móður sína og þann lærisvein, sem hann elskaði, standandi þar hjá, sagði hann við móður

sína: kona, sjá, þar er þinn sonur; síðan sagði hann við lærisveininn:
27. Sjá, þar er þín móðir, og frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana að sèr.
28. ¶ Eptir þetta, þar eð Jesús vissi, að alt var nú þegar fullkomnað, svo að ritníngin skyldi rætast, sagði hann: "mig þyrstir."
29. Þar var ker fult af ediki; þeir fyltu njarðarvött með edik, settu hann á ísópslegg og báru Jesú að munni.
30. En er Jesús hafði til sín tekið edikið, sagði hann: "það er fullkomnað;" og hann hneigði höfuðið og gaf upp andann.
31. En svo, að líkamirnir væru ekki á krossinum um sabbatsdaginn, þar eð aðfángadagur var, því að sá sabbatsdagur var mikill, beiddu Gyðíngar Pílatus að bein þeirra væru brotin og ofan tekin.
32. Þar fyrir komu stríðsmennirnir og brutu fótleggi hins fyrsta, og þá hins annars, sem með honum höfðu verið krossfestir.
33. En sem þeir komu að Jesú, og sáu að hann var þegar dáinn, brutu þeir ekki hans fótleggi;
34. En einn af stríðsmönnunum stakk spjóti í síðu hans og jafnskjótt kom út blóð og vatn;
35. Og sá hefir vitnað það, sem sá, og hans vitnisburður er sannur, og hann veit, að hann segir satt, svo að þèr einnig trúið.
36. Því þetta er fram komið, svo að ritníngin rættist: "bein hans skulu ekki brjótast."
37. Og á öðrum stað segir önnur ritníng: "þeir munu sjá þann, sem þeir stúngu."
38. ¶ En eptir þetta bað Jósep frá Arematía Pílatus, að hann mætti ofan taka Jesú líkama; því hann var Jesú lærisveinn, þó heimuglegur af ótta fyrir Gyðíngum; og Pílatus leyfði það.
39. Hann fór því til og tók Jesú líkama; en Níkódemus kom líka, sá sem áður hafði um nótt homið til Jesú; hann hafði með sèr hèr um bil hundrað pund af myrrublönduðu alóe.
40. Þá tóku þeir Jesú líkama og sveipuðu hann í líndúk með dýrum smyrslum, eins og Gyðínga siður er að búa lík til greptrunar.
41. En þar, sem Jesús hafði verið krossfestur, var grasgarður, og í grasgarðinum ný gröf, sem einginn hafði enn verið lagður í.

42. Þar lögðu þeir Jesúm vegna aðfángadags Gyðínga, því gröfin var nærri.

## 20. KAPÍTULI.

*Jesú upprisa boðuð; hann birtist sjálfur María og síðan lærisveinunum.*

EN snemma á fyrsta degi vikunnar, áður en bjart var orðið, kemur María frá Magdölum til grafarinnar og sèr, að steinninn er tekinn frá gröfinni.

2. Hún hleypur þá til Símonar Pèturs og hins annars lærisveins, sem Jesús elskaði, og segir við þá: það er búið að taka Drottinn burt úr gröfinni, og vèr vitum ekki, hvar hann hefir verið lagður.

3. Þá fór Pètur út og hinn annar lærisveinn, og þeir komu til grafarinnar.

4. En þeir tveir hlupu ásamt, og hinn lærisveinninn hljóp hraðara en Pètur, og kom fyrri að gröfinni;

5. Og þá hann gægðist inn í gröfina, sá hann líndúkana liggja þar, en þó gekk hann ekki inn.

6. Þá kom Símon Pètur, sem á eptir var, og hann gekk inn í gröfina og hann sá líka líndúkana liggja þar

7. Og sveitadúkinn, sem hafði verið um höfuð hans, ekki hjá líndúkunum, heldur út af fyrir sig samanbrotinn á öðrum stað.

8. Þá gekk og inn hinn lærisveinninn, sem fyrr hafði komið til grafarinnar, og sá og trúði;

9. Því enn þá skildu þeir ekki ritnínguna, að hann ætti að upp rísa frá dauðum.

10. Síðan fóru lærisveinarnir heim til sín aptur.

11. ¶ En María stóð hjá gröfinni og grèt; en sem hún grèt, gægðist hún inn í gröfina,

12. Og sá tvo eingla hvítklædda sitjandi, annan til höfða, hinn til fóta, þar sem Jesús hafði legið.

13. Og þeir sögðu við hana: kona, hví grætur þú? Hún svaraði þeim: af því búið er að taka burt Drottinn minn, og eg veit ekki, hvar hann hefir verið lagður.

14. Í því hún sagði þetta, varð henni litið aptur fyrir sig, og þá sá hún Jesúm standa þar, en hún vissi ekki, að það var Jesús.

15. Jesús segir við hana: kona, hvað grætur þú? að hverjum leitar þú? Hún, sem hugsaði, að þetta væri grasgarðsvörðurinn, sagði við hann: herra, hafir þú borið hann í burtu, þá segðu mèr, hvar þú hefir lagt hann, og mun eg sækja hann.

16. Jesús sagði við hana: María; hún snèri sèr við og segir á hebresku: Rabbúni, það er: lærimeistari.
17. Jesús sagði við hana: snertu mig ekki, því enn þá er eg ekki uppstiginn til Föður míns; en farðu til bræðra minna og segðu þeim, eg muni upp stíga til míns Föður og yðar Föður, til míns Guðs og yðar Guðs.
18. María frá Magdölum kemur og segir lærisveinunum, að hún hafi sèð Drottinn, og að hann hafi talað þetta við sig.
19. ¶ En að kvöldi hins sama dags, sem var sá fyrsti í vikunni, og eptir að búið var að læsa dyrum þar sem lærisveinarnir voru saman komnir af ótta fyrir Gyðíngum, kom Jesús og stóð mitt á meðal þeirra og sagði við þá: friður sè með yður.
20. Og í því hann talaði þetta, sýndi hann þeim hendur sínar og síðu. En lærisveinarnir urðu glaðir þegar þeir sáu Drottinn.
21. Jesús sagði þá aptur við þá: friður sè með yður Eins og Faðirinn hefir sent mig, eins sendi eg yður;
22. Og í því hann sagði þetta, blès hann á þá og sagði: meðtakið þèr Heilagan Anda.
23. Hverjum sem þèr fyrirgefið syndirnar, þeim eru þær fyrirgefnar, og hverjum sem þèr synjið fyrirgefníngar, þeim verður synjað um fyrirgefníngu.
24. ¶ En Tómas, það þýðir: tvíburi, einn af þeim tólf, var ekki með þeim, þegar Jesús kom.
25. Þar fyrir sögðu hinir lærisveinarnir honum frá, að þeir hefðu sèð Drottinn. En hann svaraði þeim: sjái eg ekki naglaförin í hans höndum og láti fíngur minn í þau, og hönd mína í síðu hans, þá trúi eg ekki.
26. ¶ Og eptir átta daga voru hans lærisveinar aptur inni og Tómas með þeim. Þá kom Jesús að læstum dyrum og stóð mitt á meðal þeirra og sagði: friður sè með yður.
27. Síðan sagði hann við Tómas: kom þú híngað með fíngur þinn og skoða hendur mínar; kom þú með hönd þína og legg í síðu mína, og vertu ekki vantrúaður, heldur trúaður.
28. Tómas svaraði og sagði við hann: Drottinn minn og Guð minn.
29. Jesús svaraði: af því þú sást mig, Tómas, trúðir þú; en sælir eru þeir, sem ekki sjá, en trúa þó.
30. ¶ En hèr að auki gjörði

Jesús mörg önnur teikn í augsýn lærisveina sinna, sem ekki eru skrifuð í þessari bók.

31. En þetta er skrifað, svo að þèr tryðuð, að Jesús er Kristur Sonur Guðs, og svo að þèr, sem trúið, hafið lífið í hans nafni.

## 21. KAPÍTULI.

*Jesús birtist lærisveinum sínum í Galílea; segir Pètri fyrir afdrif hans.*

EPTIR þetta birtist Jesús aptur lærisveinum sínum við Tíberíasvatn. En þannig birtist hann:

2. Símon Pètur og Tómas, sem þýðir: tvíburi, og Natanael frá Kana í Galílea og Sebedeusar synir og tveir aðrir af lærisveinum hans voru þar ásamt.

3. Símon Pètur segir við þá: eg vil fara að fiska. Þeir segja við hann: vèr komum líka með þèr. Þeir geingu út og stigu þegar á skip; en þá nóttina feingu þeir ekkert.

4. En er dagur var runninn, stóð Jesús við vatnið, samt vissu ekki lærisveinarnir, að það var Jesús.

5. Jesús sagði þá við þá: börn, hafið þèr nokkuð matarkyns? þeir sögðu: nei.

6. Hann sagði þá við þá: kastið netinu hægramegin við skipið, þá munuð þèr afla. Þeir köstuðu því nú, og gátu þá ekki dregið það fyrir fiskimergð.

7. Þá segir sá lærisveinn, sem Jesús elskaði, við Pètur: það er Drottinn. En er Símon Pètur heyrði, að það væri Drottinn, batt hann kyrtilinn að sèr, því hann var snöggklæddur og fleygði sèr í vatnið,

8. En hinir lærisveinarnir komu á skipinu (því þeir voru ekki lángt frá landi, heldur svo sem tvö hundruð álnir), og drógu netin að landi, með fiskinum í.

9. En er þeir voru geingnir á land, sjá þeir glæður og fisk lagðan á þær og brauð.

10. Jesús segir þá við þá: komið með nokkuð af fiskunum, sem þèr nú veidduð.

11. Símon Pètur fór til og dró netið á land, fult af stórum fiskum, hundrað fimmtíu og þremur: en þó þeir væru svo margir, rifnaði netið ekki.

12. Jesús segir við þá: komið og takið dagverð. En einginn af lærisveinunum rèðst til að spyrja hann: hver ertu? því þeir vissu, að það var Drottinn.

13. Þá kemur Jesús og tekur brauðið og gefur þeim, sömuleiðis fiskinn.

14. Þetta var í þriðja sinni,

sem Jesús birtist lærisveinum sínum, eptir að hann var upp risinn frá dauðum.

15. ¶ En er þeir höfðu matazt, segir Jesús við Símon Pètur: Símon Jónasson, elskar þú mig meir en þessir? hann svaraði honum: já, Herra, þú veizt, að eg elska þig. Jesús segir við hann: gæt þú lamba minna.

16. Hann segir aptur í annað sinn við hann: Símon Jónasson, elskar þú mig? hann svaraði honum: já, Herra, þú veizt, að eg elska þig. Jesús segir þá við hann: hirð þú sauði mína.

17. Hann segir í þriðja sinni við hann: Símon Jónasson, elskar þú mig? þá ángraðist Pètur, af því hann sagði í þriðja sinni við hann: elskar þú mig? og hann sagði við hann: Herra, þú veizt alt, þú veizt, að eg elska þig. Jesús segir við hann: geym þú sauða minna.

18. Sannlega, sannlega segi eg þèr: þegar þú varst ýngri, gyrtir þú þig og gekkst, hvert sem þú vildir, en þegar þú eldist, muntu útbreiða hendur þínar, og annar mun gyrða þig, og leiða þángað, sem þú vilt ekki.

19. En þetta sagði Jesús til að gefa að skilja, með hverjum dauðdaga hann skyldi vegsama Guð. Og þá hann hafði þetta talað, sagði hann við Pètur: fylg þú mèr eptir.

20. Pètur leit við, sá þann lærisvein, sem Jesús elskaði, koma á eptir, þann sama, sem um kvöldmáltíðina hafði hallað sèr upp að Jesú brjósti og spurt: Herra, hver er sá, sem mun svíkja þig?

21. Þegar Pètur sá þenna, segir hann við Jesúm: Herra, hvað verður um þenna?

22. Jesús svarar honum: ef eg vil, að hann bíði, þángað til eg kem, hvað kemur það við þig? fylg þú mèr eptir.

23. Því barst sú saga út meðal bræðranna, að þessi lærisveinn mundi ekki deya. Þó hafði Jesús ekki sagt við hann, að hann mundi ekki deya; heldur: ef eg vil hann bíði, þángað til eg kem, hvað kemur það við þig?

24. Þessi er sá lærisveinn, sem hefir vitnað um þetta og skrifað þetta, og vèr vitum, að hans vitnisburður er sannur.

25. Margt annað hefir Jesús gjört, og ef það alt, eitt og sèrhvað, ætti að skrásetjast, hugsa eg, að jafnvel heimurinn ekki mundi taka þær bækur, sem þá yrðu skrifaðar.

# POSTULANNA GJÖRNÍNGAR.

## 1. KAPÍTULI.

*Jesú himnaför; samlyndi lærisveinanna; ræða Pèturs; Mattías valinn til postula.*

FYRRI frásöguna samda eg, Teófílus! um alt sem Jesús gjörði og kendi,

2. Alt til þess dags, er hann var upp numinn, eptir að hann hafði fyrir Heilagan Anda boðorð gefið postulunum, sem hann hafði út valið;

3. Sem hann og birtist lifandi eptir písl sína með mörgum órækum kennimerkjum, þar eð hann lèt þá sjá sig í fjörutíu daga, og talaði við þá það sem heyrir til Guðs ríkis.

4. Nú er hann eitt sinn var saman við þá, skipaði hann þeim að fara ekki burtu úr Jerúsalem, heldur bíða eptir fyrirheiti Föðursins, sem þèr, sagði hann, hafið heyrt mig tala um.

5. Því Jóhannes skírði með vatni, en þèr skuluð skírðir verða með Heilögum Anda, ekki mörgum dögum eptir þenna.

6. Þegar þeir voru saman komnir, spurðu þeir hann og sögðu: ætlarðu, Herra, á þessum dögum að endurreisa Ísraelsríki?

7. Hann svaraði þeim: það er ekki yðar að vita tíðir eður tíma, sem Faðirinn hefir sett í sjálfs síns vald;

8. En þèr skuluð öðlast krapt Heilags Anda, sem yfir yður kemur, og þèr skuluð mínir vottar vera í Jerúsalem og í öllu Gyðíngalandi og í Samaría og til jarðarinnar endimarka.

9. Í því hann sagði þetta, varð hann uppnuminn, að þeim ásjáandi, og ský nam hann frá augum þeirra.

10. Nú sem þeir störðu til himins, þá hann fór frá þeim, sjá, þá stóðu tveir menn hjá þeim í hvítum klæðnaði;

11. Þeir sögðu: Galíleisku menn, hví standið þèr, og horfið til himins? þessi Jesús, sem upp numinn er frá yður til himins, mun koma á sama hátt, og þèr sáuð hann fara til himins.

12. Þeir snèru þá aptur til Jerúsalem frá fjallinu, sem kallað er olíufjall, er liggur í nánd við Jerúsalem eina helgidagsleið þaðan.

13. Og sem þeir komu í borgina, fóru þeir upp á lopt eitt, og hèldu þar kyrru fyrir, Pètur og Jakob og Jóhannes og Andrès og Tómas, Bartólómeus og Matteus, Jakob Alfeusson og Símon Selótes og Júdas, sonur Jakobs.

14. Þessir allir voru með eindrægni stöðugir í bæna ákalli, ásamt konunum og Maríu, móður Jesú, og bræðrum hans.

15. ¶ Um þessar mundir stóð Pètur upp á meðal lærisveinanna (viðstaddir voru þar hartnær hundrað og tuttugu manns) og mælti:

16. Góðir menn og bræður, rætast hlaut ritníng sú, er Heilagur Andi hafði fyrir sagt af Davíðs munni um Júdas, sem gjörðist leiðtogi þeirra, er gripu Jesúm.

17. Því hann var talinn með oss, og hafði hlotið þetta embætti.

18. Þessi aflaði (greftrunar-) reits fyrir verðlaun ódáðaverksins, steyptist á höfuðið, og brast sundur í miðju, svo öll innífiin fèllu út.

19. Og er þetta kunnugt orðið öllum, sem búa í Jerúsalem; svo að þessi reitur er kallaður á þeirra túngu Akeldama, það er: blóðs-reitur.

20. Því er svo skrifað í sálmabókinni: bústaður hans skal í eyði verða og einginn í honum búa; og á öðrum stað: við embætti hans taki annar.

21. Því hæfir, að einhver þeirra, sem alla tíð hafa með oss verið, frá því að Drottinn Jesús tók að gánga út og inn með oss,

22. Alt frá skírn Jóhannesar, til þess dags er hann var frá oss upp numinn, verði vottur upprisu hans meður oss.

23. Og þeir tóku tvo til, Jósep, kallaðan Barsabas, að auknafni Rèttvís, og Mattías,

24. Báðust fyrir og sögðu: Drottinn, þú sem þekkir hjörtu allra, sýndu, hvorn þessara tveggja þú hefir valið

25. Til að taka hlutdeild þessa embættis og postuladæmis, sem Júdas gekk úr, svo að hann færi til síns staðar.

26. Þeir vörpuðu þá hlutum um, og hluturinn fèll á Mattías; og hann var í einu hljóði kosinn til postula með þeim ellefu.

## 2. KAPÍTULI.

*Heilags Anda sendíng á hvítasunnuhátíðinni; ræða Pèturs um Krists pínu, upprisu, himnaför og sendíngu Heilags Anda; spurníngar fólksins, ráð og uppörfan Pèturs;* 3000 *kristnast; innbyrðis umgeingni hinna fyrstu kristnu.*

EN er hvítasunnudagurinn kom, voru þeir allir með einum huga til samans.
2. Og þar varð skyndilega þytur frá himni, eins og aðdynjanda sterkviðris, og fylti alt húsið, sem þeir sátu í.
3. Og þeir sáu túngur, eins og af eldi væru, er kvísluðust og settu sig yfir sèrhvern þeirra;
4. Og þeir urðu allir fullir af Heilögum Anda og tóku að tala annarlegum túngum, eins og Andinn gaf þeim að tala.
5. En í Jerúsalem bjuggu Gyðíngar, guðræknir menn, af als konar þjóðum undir himninum.
6. Þá nú þessi hvinur varð, kom mannfjöldinn saman, og honum brá mjög við, því hver einn heyrði þá tala hans mál;
7. Urðu þá allir svo sem frá sèr og undruðust, segjandi hver við annan: sjá, eru ekki allir þessir, sem tala, úr Galílea?
8. Og hverninn heyrir þá hver af oss sitt móðurmál?
9. Partar, Medar, Elamítar, vèr sem heima eigum í Mesopótamía, Júdea, Kappadosía, Pontus og Asía,
10. Í Frygía og Pamfilía, Egyptalandi og Lybíu-bygðum í nánd við Sýrene, vèr Rómverjar, hèr búsettir;
11. Gyðíngar, og vèr, sem Gyðíngar höfum gjörzt, Kretar, og Arabar, vèr heyrum þá tala á vorar túngur um Guðs stórmerki.
12. En allir urðu frá sèr numdir og efablandnir, og einn sagði við annan: hvað ætlar úr þessu að verða?
13. En aðrir hæddust að þessu, segjandi: þeir eru fullir af sætu víni.
14. ¶ Þá gekk Pètur fram ásamt þeim ellefu, hóf upp sína raust og talaði til þeirra: Þèr Gyðíngar, góðir menn, og þèr allir, sem í Jerúsalem búið, það sè yður vitanlegt, og látið yður orð mín í eyrum loða;
15. Því ekki er það, eins og þèr hugsið, að þessir sèu drukknir, því að nú er þriðja stund dags;
16. Heldur rætist hèr, það, sem spámaðurinn Jóel sagði:
17. "Það skal ske á síðustu dögum, segir Guð, eg vil úthella af Anda mínum yfir alt hold; synir yðar og dætur skulu spá, úngmenni yðar sjá sjónir, og öldúngar yðar fá draumvitranir;
18. Yfir þjóna mína og ambáttir mínar vil eg á þeim dögum úthella af mínum Anda, og þau skulu spá.
19. Og eg mun láta tákn ske á himnum uppi og fyrirburði

á jörðu, blóð, eld og reykjarsvælu.
20. Sólin skal snúast í myrk-
ur og túnglið í blóð, áður en
kemur hinn mikli dýrðlegi
dagur Drottins;
21. En það skal ske, að hver
sem nafn Drottins ákallar, sá
mun verða hólpinn."
22. Þèr Ísraelsmenn, heyrið
þessi orð: Jesúm frá Nazaret,
mann þann, er Guð auðkendi
fyrir yður með kraptaverkum,
táknum og stórmerkjum, sem
Guð lèt ske fyrir hans hönd
meðal yðar, eins og þèr vitið,
23. Hann hafið þèr eptir Guðs
ráðstöfun og fyrirætlun ofur-
seldan, tekið og með hönd-
um óguðlegra krossfest og
aflífað.
24. En þenna sama hefir Guð
uppvakið og leyst úr dauðans
böndum, því að ekki var það
mögulegt, að dauðinn gæti
haldið honum: því Davíð seg-
ir um hann:
25. "Ætíð hefi eg Drottinn
fyrir augum mèr, hann er mèr
til hægri hliðar, svo eg skelf-
ist ekki;
26. Því er mitt hjarta glað-
vært og túnga mín fagnar. Þar
fyrir skal og líkami minn hvíla
vonglaður,
27. Því þú munt ekki eptir-
skilja önd mína í ríki enna
dauðu, nè leyfa, að þinn Heilagi sjái rotnun.
28. Kunna gjörðir þú mèr
lífsins vegu, þú munt mig
með fögnuði fylla fyrir ásjónu
þinni."
29. Góðir menn og bræður,
leyft sè mèr einarðlega að tala
við yður um forföðurinn Da-
víð: hann dó og var grafinn,
og hans leiði er til hjá oss
enn í dag.
30. En af því hann var spá-
maður, og vissi, að Guð hafði
svarið honum, að einn hans
afkomenda skyldi sitja á hans
konúngs-stóli,
31. Talaði hann af forspá um
upprisu Krists; því ekki varð
hans sála í dauðra ríki eptir
skilin, og líkami hans sá ekki
heldur rotnun.
32. Þenna Jesúm uppvakti
Guð frá dauðum, þess erum
vèr allir vottar;
33. Þar fyrir, þá hann með
Guðs hægri hönd var upp haf-
inn, og hafði feingið fyrirheiti
af Föðurnum um Heilagan
Anda, úthelti hann honum,
eins og þèr sjáið og heyrið.
34. Því Davíð stè ekki til
himna, þó segir hann: "Drott-
inn sagði mínum Drottni: seztu
við mína hægri hönd,
35. Uns eg gjöri óvini þína að
fótaskör þinni."

36. Með óbrigðanlegri vissu
viti þá allur Israelslýður, að
Guð hefir gjört að Drottni og
að Kristi þenna Jesúm, sem
þèr krossfestuð.
37. ¶ En þá þeir heyrðu
þetta, skárust þeir í hjörtum
sínum, og sögðu við Pètur og
hina postulana: hvað eigum
vèr að gjöra, góðir menn og
bræður?
38. Pètur sagði þá við þá:
takið sinnaskipti, og hver yð-
ar láti skíra sig til nafns Jesú
Krists, til fyrirgefníngar synd-
anna, þá munuð þèr öðlast
gjöf Heilags Anda;
39. Því að yður tilheyrir fyrir-
heitið, og börnum yðar og öll-
um þeim, sem í fjærlægð eru,
hverja helzt Drottinn Guð vor
kallar hèr til.
40. Með öðrum fleiri orðum
færði hann þeim heim sanninn
og áminti þá, svo segjandi:
látið yður frelsa frá þessari
þverbrotnu kynslóð.
41. ¶ Þeir, sem nú fúslega
skipuðust við ræðu hans, lètu
skírast, og þar bættust við á
þeim degi nær þrjár þúsundir
manna;
42. Hèldu þeir sèr stöðug-
lega við postulanna kenníngu
í fèlagsskap, samnautn og
bænahaldi;
43. Og ótta sló yfir alla, því
mörg tákn og stórmerki gjörð-
ust af postulunum.
44. En allir, sem trúaðir urð-
u, hèldu saman og höfðu alt
sameiginlegt.
45. Eignir sínar og góz seldu
þeir, og úthlutuðu öllum þar
af, eins og hver hafði þörf á.
46. Daglega hèldu þeir sèr
samhuga í musterinu, brutu
brauð í heimahúsum, og nutu
fæðu sinnar með glaðværð og
hjartans einfaldleik,
47. Lofuðn Guð og höfðu
vinsæld af öllum lýð. En
Drottinn bætti daglega við
söfnuðinn, þeim sem hólpnir
urðu.

## 3. KAPÍTULI.

*Pètur læknar haltan mann; fólkið undrast ræðu Pèturs um dauða og upprisu Jesú; hann ræður til apturhvarfs.*

EITT sinn geingu þeir Pèt-
ur og Jóhannes saman
upp í musterið á venjulegri
bænatíð um níundu stund;
2. Þá var verið að bera þáng-
að mann, er haltur var frá
móðurlífi og daglega var sett-
ur við þær dyr musterisins, er
kölluðust hinar fögru, svo hann
bæði sèr ölmusu af þeim, er
inn geingu í musterið.
3. Þegar hann nú sá Pètur og
Jóhannes ætla að gánga þar
inn, beiddist hann ölmusu af
þeim.

4. Pètur starði á hann ásamt Jóhannesi, og sagði: líttu upp á okkur.

5. Hann leit til þeirra í von um, að hann mundi fá eitthvað hjá þeim;

6. En Pètur sagði: silfur og gull á eg ekki, en það sem eg hefi, það gef eg þèr. Í nafni Jesú Krists frá Nazaret, statt upp og gakk;

7. Tók í hans hægri hönd og reisti hann á fætur.

8. En jafnskjótt urðu iljar hans og öklar styrkvir, svo hann spratt upp og gekk um kríng, fylgdist með þeim inn í musterið, gekk, stökk upp og lofaði Guð.

9. Og alt fólk sá hann gánga og lofa Guð,

10. Líka þektu þeir hann, og vissu, að hann var sá sami, sem hafði beiðzt ölmusu við hinar fögru dyr musterisins; fyltust því af felmtri og undrun yfir þessum atburði.

11. Nú sem hinn halti er heilbrigður var orðinn, hèlt sèr til Pèturs og Jóhannesar, flyktist til þeirra allur lýðurinn í gángrúm það, sem kent er við Salómon, og var felmtsfullur.

12. ¶ Þegar Pètur sá þetta, mælti hann til fólksins: þèr, Ísraelsmenn, hví furðar yður á þessu, og hví starið þèr á okkur, eins og við hefðum af sjálfs krapti eður fyrir eigin guðhræðslu áorkað, að þessi geingur?

13. Guð Abrahams, Ísaaks og Jakobs, Guð feðra vorra hefir vegsamað sinn Son, Jesúm, sem þèr ofurselduð og afneituðuð fyrir Pílatusi, er ályktaði að láta hann lausan.

14. Hinum Heilaga og Rèttláta afneituðuð þèr, báðuð um morðíngjann,

15. En lètuð aflífa þann lífsins foríngja, sem Guð uppvakti frá dauðum, og að þessu erum vèr vottar.

16. En hann er það, sem hefir heilan gjört þenna, er þèr horfið á og þekkið, fyrir trúna á hans nafn; og trúin (sem er) fyrir hann er það, sem gaf hinum halta slíkan albata fyrir allra yðar augum.

17. Nú veit eg, bræður, að þèr, eins og yðrir höfðíngjar, gjörðuð það af vanþekkíngu;

18. En Guð lèt þannig rætast, það sem hann hafði fyrir sagt fyrir munn allra sinna spámanna, að Kristur skyldi pínast.

19. ¶ Takið því sinnaskipti og snúið yður, svo að syndir yðar verði fyrirgefnar,

20. Svo að endurlífgunar tím-

ar komi frá augliti Drottins,
og hann sendi þann yður fyrir-
hugaða Jesúm Krist,
21. Sem á að halda himnin-
um alt til þess tíma, að alt
endurskapast, sem Guð hefir
talað um fyrir munn allra
sinna heilögu spámanna frá
öndverðu.
22. Þannig hefir Móses sagt
til feðranna: "spámann mun
Drottinn Guð yðar uppvekja
yður af bræðrum yðar eins og
mig; gegnið honum í öllu, er
hann segir yður;
23. En það skal ske, að hver
sú sál, sem ekki gegnir þeim
spámanni, skal afmást úr tölu
þjóðarinnar."
24. Eins hafa allir spámenn-
irnir frá Samúel, hver eptir
annan, svo margir sem talað
hafa, einnig kunngjört þessa
daga.
25. Þèr eruð börn spámann-
anna og sáttmálans, sem Guð
gjörði við feður vora, þá hann
sagði við Abraham: "af af-
kvæmi þínu skulu allar jarð-
arinnar ættkvíslir blessun
hljóta."
26. Yður sendi Guð fyrstum
Son sinn, þá hann uppvakti
hann, til þess hann skyldi
yður blessa, með því að sèr-
hver yðar snèri sèr frá ilsku
sinni.

## 4. KAPÍTULI.

*Pètur og Jóhannes eru settir í fángelsi; Pètur forsvarar sig fyrir ráðinu; þeim er hótað og slept; þeir biðja Guð sameiginlega og verða bænheyrðir; ástand safnaðarins.*

MEDAN þeir voru enn að
tala til fólksins, komu
að þeim prestar, varðmanna-
foríngi musterisins og Sadú-
sear,
2. Sem gramdist það, að
postularnir kendu fólkinu og
boðuðu upprisu framliðinna í
Jesú;
3. Lögðu þeir þá hendur á
þá og settu í varðhald til
næsta morguns, því kvöld var
komið;
4. En margir þeirra, er heyrt
höfðu ræðuna, trúðu, svo að
tala þeirra manna var nær
fimm þúsundir.
5. ¶ Morguninn eptir skeði
það, að höfðíngjarnir, öldúng-
arnir og hinir skriptlærðu
komu saman í Jerúsalem, og
Hannas höfuðprestur,
6. Kaífas, Jóhannes, Alex-
ander og allir, sem voru af
höfuðpresta ætt.
7. Voru postularnir þá fram
leiddir og aðspurðir, af hvaða
myndugleika eður í hvers um-
boði þeir hefðu gjört þetta?
8. Pètur, fullur af Heilög-
um Anda, sagði þá við þá:
þèr höfðíngjar þjóðarinnar og
öldúngar Ísraels,

9. Með því vèr í dag eigum
að standa ransókn viðvíkjandi
góðverkinu við hruma mann-
inn, og því, af hvers völdum
hann sè heill orðinn,
10. Þá sè yður öllum vitan-
legt og öllum Ísraelslýð: að í
nafni Jesú Krists frá Nazaret,
sem þèr krossfestuð, en Guð
uppvakti frá dauðum, að af
hans völdum er það orðið, að
þessi stendur heilbrigður fyrir
yðar augum.
11. Hann er sá steinn, sem
þèr, byggíngarsmiðir einskis
möttuð, en er nú orðinn að
hyrníngar-steini;
12. Af eingum öðrum er
hjálpræðis að vænta, því meðal
manna gefst ekki nokkur ann-
ar undir himninum, fyrir hvers
fulltíngi oss sè ætlað hólpnum
að verða.
13. ¶ En er þeir sáu djörfúng
Pèturs og Jóhannesar, og
vissu, að þeir voru ölærðir og
leikmenn, undruðust þeir; líka
þektu þeir þá, að þeir höfðu
verið með Jesú.
14. Og nú, er þeir sáu mann-
inn, sem læknaður hafði verið,
standa hjá þeim, gátu þeir
eingu móti mælt,
15. Skipuðu þeim því að
gánga út frá ráðinu og tóku
ráð sín saman og sögðu:
16. Hvað eigum vèr að gjöra
við þessa menn? því það er
þekkjanlegt kraptaverk, sem
þeir hafa gjört og er augljóst
orðið öllum, sem búa í Jerú-
salem, og vèr getum ekki
neitað því.
17. En svo að fregnin um það
breiðist ekki meir út meðal
lýðsins, þá skulum vèr með
hótunum hræða þá frá, að tala
framar í þessu nafni til nokk-
urs manns.
18. Síðan kölluðu þeir þá fyr-
ir sig og bönnuðu þeim harð-
lega að tala eður kenna í Jesú
nafni.
19. En Pètur og Jóhannes
svöruðu þeim: dæmið sjálfir,
hvort það sè rètt fyrir augum
Guðs, að hlýðnast yður fremur
en Guði.
20. Vèr getum því ekki látið
vera að tala það, sem vèr höf-
um heyrt og sèð.
21. En hinir ógnuðu þeim
enn fremur, og sleptu þeim
svo, því þeim hugsaðist eing-
in átylla til að hegna þeim
vegna fólksins, þar allir lof-
uðu Guð fyrir það, sem skeð
var;
22. Því sá maður var yfir fer-
tugt, er með þessu dásemdar-
verki var læknaður.
23. ¶ Þá búið var að láta þá
lausa, koma þeir til sinna og
greindu þeim frá, hvað höf-

uð-prestarnir og öldúngarnir
höfðu sagt við þá.
24. En þegar þeir heyrðu það,
hófu þeir samhuga raust sína
til Guðs og sögðu: Drottinn,
þú ert sá Guð, sem gjört hefir
himininn og jörðina og sjóinn
og alt, sem í þeim er;
25. Þú sem hefir talað svo
fyrir munn Davíðs, þjóns þíns:
"hví æddu heiðíngjarnir, og
hví tóku þjóðirnar saman hè-
gómleg ráð?
26. Jarðarinnar konúngar
hèldu fund, og höfðíngjarnir
tóku sig saman móti Drottni
og hans smurða."
27. Því sannarlega risu upp í
borg þessari Heródes og Pon-
tíus Pílatus, ásamt heiðnum
þjóðum og Ísraelslýð, móti
þínu heilaga barni Jesú, sem
þú hafðir smurt,
28. Til að gjöra alt, sem þín
hönd og þitt ráð hafði til
ætlað að ske skyldi.
29. Og nú, Drottinn, lít á
þeirra hótanir og gef þínum
þjónum með fullri djörfúng að
tala þitt erindi;
30. Og útrèttu til þess þína
hönd svo að ske megi lækn-
íngar, tákn og stórmerki í
nafni þíns heilaga barns Jesú.
31. ¶ Og er þeir höfðu beðizt
fyrir, hrærðist staðurinn, þar
sem þeir voru saman komnir,
og þeir urðu allir fullir af
Heilögum Anda, og kendu
Guðs orð með djörfúng.
32. Í safnaði enna trúuðu var
eitt hjarta og ein sál; einginn
sagði það vera sitt, er hann
átti, heldur var þeim alt sam-
eiginlegt.
33. Og postularnir vitnuðu
um Herrans Jesú upprisu með
miklum krapti, og mikil náð
var með þeim öllum.
34. Meðal þeirra var einginn
þurfamaður, því hver, sem átti
fasteign eða hús, seldi það,
kom með andvirðið,
35. Og fèkk það postulunum;
og var sèrhverjum úthlutað,
eptir því sem hann hafði þörf
til.
36. Þannig seldi Levítinn Jó-
ses, ættaður frá Kýprus, sem
postularnir kölluðu að viður-
nefni Barnabas (það er: hugg-
unar sonur), akur, er hann
átti, kom með verðið og lagði
það fyrir fætur postulanna.

## 5. KAPÍTULI.

*Svik og hegníng Ananíasar og Saffíru; krapta-verk postulanna; margir taka trú; postul-arnir eru settir í varðhald, en frelsast þaðan af eingli; eru leiddir fyrir ráðið, sem vill ráða þá af dögum; Gamalíel afstýrir því; þeir eru húðstrýktir, látnir lausir, en halda samt áfram að kenna.*

EN maður nokkur að nafni
Ananías, með konu sinni
Saffíru, seldi fasteign,

2. Og dróg nokkuð undan af verðinu með vitund konu sinnar, en færði postulunum nokkuð og seldi þeim til umráða.

3. Pètur sagði þá: Ananías, hví lèztu Satan koma þèr til þess að ljúga að Heilögum Anda og draga af jarðarverðinu?

4. Var hún ekki þín, á meðan hún var óförguð? og áttirðu eins ráð á verði hennar eptir söluna? Hvernig gaztu þá látið þèr hugkvæmast slíkt tiltæki? ekki hefir þú logið að mönnum, heldur að Guði.

5. Undir eins og Ananías heyrði þessi orð, datt hann niður og gaf upp öndina, og miklum ótta sló yfir alla, sem þetta heyrðu;

6. En úngir menn bjuggu um líkið, báru það burt og jörðuðu.

7. Að liðnum svo sem þrem stundum bar svo til, að kona hans gekk þar inn, án þess að vita, hvað skeð var.

8. Pètur spurði hana: segðu mèr, selduð þèr akurinn fyrir þetta verð? hún svaraði: já, fyrir þetta verð.

9. Pètur mælti þá til hennar: hví urðuð þið samráða í að freista anda Drottins? sjá fætur þeirra, sem greptruðu mann þinn, eru við dyrnar og munu út bera þig.

10. En hún datt jafnskjótt niður fyrir fætur honum, og gaf upp öndina, svo þegar hinir úngu menn komu inn, fundu þeir hana dauða, báru hana út og grófu hjá manni sínum.

11. Og miklum ótta sló yfir allan söfnuðinn, og yfir alla, sem þetta heyrðu.

12. ¶ Framvegis skeðu fyrir hendur postulanna mörg tákn og stórmerki meðal fólksins; (og allir fyltu þeir einn flokk og hèldu til í stólpagöngum Salómons;

13. En aungvir aðrir dirfðust að samlagast þeim, heldur miklaði lýðurinn þá;

14. Og jafnan jukust fleiri við, sem tóku trú, mikill fjöldi karla og kvenna),

15. Svo að þeir báru vanfæra menn út á strætin og lögðu þá á bedda og lausarúm þannig, að þegar Pètur kæmi, fèlli að minnsta kosti skuggi hans á einhvern þeirra.

16. Fjöldi fólks kom og úr kríngum liggjandi borgum til Jerúsalem, flytjandi sjúka og þjáða af óhreinum öndum, sem allir urðu heilbrigðir.

17. ¶ Nú tók sig upp prestahöfðínginn og allir þeir, sem með honum hèldu, sem var flokkur Sadúseanna;

18. Fyltust þeir af vandlætíngu og lögðu hendur á postulana, og settu þá í alment fángahús.
19. En eingill Drottins opnaði um nótt dyr myrkvastofunnar, leiddi þá út og sagði:
20. Farið, gángið frjálslega fram og talið í musterinu öll þessi lífsins orð til fólksins.
21. En sem þeir heyrðu þetta, geingu þeir í birtíngu upp í musterið og kendu. En þá prestahöfðínginn og þeir, sem á hans máli voru, voru saman komnir, kölluðu þeir saman ráðið og alla öldúnga Ísraelslýðs, og sendu til myrkvastofunnar til að sækja þá.
22. En er þjónarnir komu og fundu þá ekki í dýflissunni, hvurfu þeir aptur og kunngjörðu það og mæltu:
23. Fángahúsið fundum vèr að sönnu vandlega læst og varðmennina standa fyrir dyrunum, en þá vèr lukum upp, fundum vèr eingan inni.
24. Þegar þeir heyrðu þessa sögu, prestahöfðínginn og foríngi varðmanna musterisins og höfuðprestarnir, urðu þeir efablandnir, hvað úr þessu ætlaði að verða.
25. En í því kom að maður, sem kunngjörði þeim: sjá, þeir menn, sem þèr settuð í dýflissu, standa í musterinu, og kenna þar fólkinu.
26. Þá fór varðmannaforínginn af stað með þjónunum, og sókti þá, þó án ofbeldis, því þeir óttuðust fólkið, að þeir mundu verða grýttir.
27. Nú sem þeir voru komnir með þá, leiddu þeir þá fram fyrir ráðið. Prestahöfðínginn spurði þá postulana:
28. Höfum vèr ekki lagt ríkt á við yður, að kenna ekki í þessu nafni? og sjá, samt hafið þèr fylt Jerúsalem með yðar kenníngu, og viljið leiða yfir oss þessa manns blóð.
29. ¶ Þá svaraði Pètur og postularnir: framar ber að hlýða Guði, en mönnum.
30. Guð feðra vorra hefir upp vakið Jesúm, sem þèr líflètuð og uppheingduð á trè.
31. Þenna foríngja og frelsara hefir Guð upphafið með sinni hægri hendi, svo hann veiti Ísrael apturhvarf og syndanna fyrirgefníngu;
32. Og vèr erum hans vottar að þessu, og sá Heilagi Andi, sem Guð gaf þeim, er hlýðnuðust honum.
33. ¶ En þegar þeir heyrðu þetta, skárust þeir innvortis og voru þegar alráðnir í að lífláta þá.
34. En í ráðinu stóð þá upp

Farísei nokkur, að nafni Ga-
malíel, lögfróður maður, vel
metinn af öllu fólki; hann
bauð, að postularnir væru látn-
ir víkja út snöggsinnis,
35. Og sagði við þá: þèr
Ísraelsmenn, athugið vel, hvað
þèr gjörið við þessa menn.
36. Fyrir stuttu reis upp
Tevdas, og lèt mikið yfir sèr.
Til hans hyltust nær fjögur
hundruð manns; en hann var
drepinn, og allir þeir, sem
hann þýddust, eru tvístraðir
og að eingu orðnir.
37. Eptir hann reis upp Júdas
hinn galverski, skattatekju-
árið, og laðaði til sín fjölda
fólks. Hann fyrirfórst líka, og
allir þeir, sem með honum
hèldu, sundur dreifðust.
38. Og nú segi eg yður:
hættið við þessa menn, og lát-
ið þá vera. Því ef þetta áform
eður fyrirtæki er af mönnum,
fellur það sjálfkrafa;
39. En sè það frá Guði, þá
megnið þèr ekki að kefja það;
svo þèr ekki verðið fundnir í
að vilja stríða gegn Guði.
40. Á þetta fèllust þeir, köll-
uðu á postulana, húðstrýktu
þá, fyrirbuðu þeim að tala í
Jesú nafni og lètu þá svo
lausa.
41. ¶ En þeir geingu glaðir
burt frá ráðsins augsýn yfir
því, að þeir sökum Jesú nafns
hefðu verið virtir háðúngar;
42. Og hættu ekki að kenna
hvern dag í musterinu, og að
boða í hverju húsi fagnaðar
lærdóminn, að Jesús væri
Kristur.

## 6. KAPÍTULI.

*Tala kristinna fjölgar, og sjö meðhjálparar eru kosnir; Stefán gjörir furðuverk; einginn getur mótstaðið hans speki, en ljúgvitni eru leidd gegn honum.*

UM þessar mundir, þá tala
lærisveinanna óx, kom
upp kurr hjá hinum Grísku
móti enum Hebresku, út af
því að ekkjur þeirra væru
settar hjá við hversdaglega
þjónustu.
2. Þeir tólf kölluðu þá alla
lærisveinana saman og sögðu:
ekki er gott, að vèr yfirgefum
Guðs orð, til að þjóna fyrir
borðum.
3. Skygnizt því, bræður, eptir
sjö mönnum vel ræmdum yðar
á meðal, sem fullir sèu af
Heilögum Anda og speki, svo
vèr getum falið þeim á hendur
þessa nauðsyn;
4. En vèr viljum vera stöðug-
ir við bænahaldið og orðsins
þjónustu.
5. ¶ Þessi ummæli fèllu vel
í geð öllum söfnuðinum, og
þeir kusu Stefán, mann full-
an af trú og Heilögum Anda;
Filippus, Prokórus, Níkanor,

Tímon, Parmenas og Nikolás frá Antíokkía, sem hafði gjörzt Gyðíngur.
6. Þessa fram leiddu þeir fyrir postulana, sem báðust fyrir og lögðu hendur yfir þá.
7. Nú útbreiddist óðum Guðs orð, tala lærisveinanna jókst harla mjög í Jerúsalem, og jafnvel fjöldi presta tók trú.
8. En Stefán, fullur af náð og krapti, gjörði tákn og stórmerki meðal fólksins.
9. ¶ Þá tóku sig til nokkrir af þeirri svo nefndu leysíngjasamkundu, og þeirra frá Sýrene, og Alexandría, Silísía og Asía, og þreyttu spurníngar við Stefán.
10. En þeir gátu ekki staðið gegn þeirri vizku og þeirri andagipt, sem hann talaði af.
11. Þá settu þeir út menn, er sögðu: vèr höfum heyrt hann tala smánarorð móti Mósi og Guði;
12. Æstu svo upp almúgann, öldúngana og hina skriptlærðu, veittust að honum og gripu hann og leiddu fyrir ráðið;
13. Lètu svo koma fram ljúgvitni, er sögðu: þessi maður lætur ekki af að tala guðlaus orð gegn þessum heilaga stað og lögmálinu, því vèr höfum heyrt hann segja:
14. Að Jesús frá Nazaret mundi eyðileggja þenna stað og umbreyta þeim siðum, sem Móses hefir oss fyrir lagt.
15. Öllum, sem í ráðinu sátu, varð starsýnt á Stefán, og virtist þeim hans ásjána vera sem eingils ásjána.

## 7. KAPÍTULI.

*Stefán upptelur Guðs velgjörnínga við hið vanþakkláta Gyðíngafólk, ávítar Gyðínga fyrir framhald þvermóðsku sinnar, og er grýttur.*

ÞÁ spurði prestahöfðínginn: er þessu svo varið? Stefán mælti:
2. Góðir menn, bræður og feður, hlustið til: Guð dýrðarinnar birtist föður vorum Abraham, meðan hann var í Mesópótamía, áður en hann bjó í Karran, og sagði við hann:
3. Far burt úr landi þínu og frá frændfólki þínu, og kom í það land, er eg mun vísa þèr á.
4. Þá fór Abraham úr Kaldealandi og tók sèr bólfestu í Karran. En eptir það að faðir hans var látinn, lèt Guð hann flytja sig yfir til þessa lands, sem þèr nú búið í.
5. Þó gaf Guð honum þar einga landeign, ekki svo mikið sem eitt fótmál, en hèt að gefa honum það til bústaðar, og hans afspreingi eptir hans dag, jafnvel þó hann ekkert barn ætti.

6. En Guð sagði við hann, að niðjar hans mundu búa sem útlendir í annarlegu landi, og að menn mundu þjá þá og fara illa með í fjögur hundruð ár;

7. En þjóð þeirri, sem þeir verða ánauðugir, mun eg refsa, sagði Guð. En eptir það munu þeir fara þaðan og dýrka mig í þessum stað.

8. Líka gaf hann honum sáttmála umskurnarinnar. Svo gat Abraham Ísaak og umskar hann á áttunda degi; en Isaak gat Jakob, en Jakob þá tólf ættfeður.

9. Og ættfeðurnir lögðu öfund á Jósep og seldu hann til Egyptalands; en Guð var með honum

10. Og frelsaði hann úr öllum hans þreingíngum, og gaf honum hylli og vizku fyrir augum Faraós Egyptalands konúngs, og setti hann til yfirmanns yfir Egyptaland og yfir alt hús konúngsins.

11. Nú kom hallæri yfir gjörvalt Egyptaland og Kanaansland, og megn húngurs-neyð, svo feður vorir fundu ekki atvinnu.

12. En þegar Jakob heyrði, að korn væri að fá í Egyptalandi, þá sendi hann feður vora í fyrsta sinni.

13. Í öðru sinni lèt Jósep bræður sína þekkja sig, og Faraó varð kunnug Jóseps ætt.

14. Síðan sendi Jósep eptir föður sínum Jakob og öllu frændfólki sínu, sjötíu og fimm als.

15. En Jakob fór þá niður til Egyptalands, og hann dó og feður vorir,

16. Og voru þeir fluttir til Sikkem og lagðir í þann legstað, er Abraham hafði keypt fyrir silfur af sonum Emors, föður Sikkems.

17. En er nálgaðist tími fyrirheitisins, sem Guð hafði svarið Abraham, óx fólkið og margfaldaðist í Egyptalandi,

18. Uns nýr konúngur kom til ríkis, sá er ekki þekti til Jóseps.

19. Hann beitti slægð við kyn vort og misþyrmdi feðrum vorum, og lèt bera út úngbörn þeirra, svo þau tortýndust.

20. Um þetta bil fæddist Móses og var frábærlega fríður; hann ólst upp þrjá mánuði í föðurhúsum.

21. En er hann var útborinn, tók dóttir Faraós hann upp og ól sèr fyrir son.

22. Og Móses var mentaður í allri speki egypzkra manna og varð máttugur í orðum og verkum.

23. En er hann hafði náð

fertugs aldri, kom honum í
hug að vitja bræðra sinna,
Ísraels niðja;
24. Og þá hann sá einn
verða fyrir ójöfnuði, rètti hann
hluta hans, hefndi þess, sem
misþyrmt var, og drap hinn
egypzka.
25. En hann hugsaði, að
bræður sínir mundu skynja,
að Guð ætlaði hann þeim til
frelsis, en þeir skynjuðu það
ekki;
26. Því næsta dag hitti hann
tvo í illdeilu, og fýsti þá til
friðar með þessum orðum:
góðir menn, þið eruð bræður,
því beitið þèr ójafnaði hvor
við annan?
27. En sá, sem órètt gjörði
náúnga sínum, hratt Móse frá
sèr, og sagði: hver hefir sett
þig til höfðíngja og dómara
yfir okkur?
28. Ellegar ætlar þú að drepa
mig, eins og þú drapst hinn
egypzka mann í gær?
29. Sökum þessara ummæla
flúði Móses og varð útlendur í
Midíanslandi, og átti þar tvo
syni.
30. Að fjörutíu árum liðnum
birtist honum í eyðimörku
Sínaí-fjalls eingill Drottins í
eldsloga á þyrnirunni.
31. Þegar Móses sá sýnina,
undraðist hann; en er hann
gekk nær til að athuga betur,
barst rödd Drottins til hans:
32. Eg em Guð feðra þinna,
Guð Abrahams, Guð Ísaaks
og Guð Jakobs. Nú varð Mó-
ses skelfdur og þorði ekki að
hyggja að.
33. Þá sagði, Drottinn við
hann: leys af þèr skó þína,
því staðurinn, sem þú stendur
á, er heilög jörð.
34. Glögglega hefi eg sèð
þjáníngu fólks míns í Egypta-
landi og heyrt þeirra andvarp-
anir, og em nú ofan kominn
til að frelsa þá. Kom, eg vil
senda þig til Egyptalands.
35. Þenna Móses, sem þeir
afsögðu svo segjandi: "hver
setti þig til höfðíngja og dóm-
ara," þann sama sendi Guð,
sem höfðíngja og lausnara,
fyrir milligaungu eingilsins, er
honum birtist í þyrnirunninum.
36. Þessi leiddi þá út, gjörði
tákn og furðuverk á Egypta-
landi og í hafinu rauða og í
eyðimörkinni um fjörutíu ár.
37. ¶ Þetta er sá Móses, sem
sagði Israels niðjum; "spá-
mann mun Drottinn Guð yðar
uppvekja yður af bræðrum
yðar, eins og mig, gegnið hon-
um."
38. Þessi er sá, sem í sam-
kundunni í eyðimörkinni gekk
milli eingilsins, er við hann

talaði á Sínaí, og feðra vorra,
sá eð tók við hinum lífkröpt-
ugu orðum til að gefa oss þau;
39. Sem feður vorir vildu ekki
hlýðnast, heldur burtskúfuðu
honum og snèru huga sínum
til Egyptalands, og sögðu við
Aron:
40. Gjör oss guði, er sèu vorir
leiðtogar, því vèr vitum ekki,
hvað um þenna Móses er orðið,
sem útleiddi oss úr Egypta-
landi.
41. Í sama sinn lètu þeir
smíða kálf, færðu fórnir goð-
inu og kættust yfir sínum
handaverkum.
42. Þá snèri Guð sèr frá þeim
og ofurgaf þá, svo að þeir
dýrkuðu himinsins her, eins
og skrifað er í spámannabók-
inni: "hafið þèr Ísraelsmenn
fórnað mèr slátrunarfè eða
öðrum fórnum í þau fjörutíu ár,
sem þèr dvölduð í eyðimörk-
inni?
43. Og þèr báruð Móloks
tjaldbúð og stjörnu Remfans,
yðar guðs, bílæti þau sem þèr
höfðuð smíðað til að tilbiðja;
hvar fyrir eg vil flytja yður út
fyrir Babylon."
44. Vitnisburðar tjaldbúðin,
sem feður vorir höfðu í eyði-
mörkinni, var eins og sá hafði
fyrirskipað, er mælti við Mó-
ses, að hann skyldi gjöra hana
eptir mynd þeirri, sem hann
hafði sèð.
45. Við henni tóku feður vor-
ir, hver af öðrum, og undir
Jósúa færðu þeir hana með
sèr í land heiðíngjanna, sem
Guð útrak frá augsýn feðra
vorra, alt fram á daga Davíðs,
46. Sem fann náð hjá Guði, og
beiddist að mega sjá Jakobs
Guði fyrir húsi;
47. En Salómon bygði hon-
um það.
48. En sá hinn Hæsti býr ekki
í (musterum), sem manna
hendur hafa gjört, eins og
spámaðurinn segir:
49. "Himininn er mitt hásæti
og jörðin mín fótskör, hvaða
hús skylduð þèr byggja mèr,
segir Drottinn, eða hver er sá
staður, hvar eg skyldi staðar
nema?
50. Hefir ekki mín hönd gjört
alt þetta?
51. ¶ Þèr harðsvíraðir og ó-
umskornir í hjarta og eyrum,
sífelt þverskallizt þèr gegn
Heilögum Anda, alt eins og
feður yðar, eins þèr.
52. Hvern spámannanna hafa
ekki feður yðar ofsókt? Þeir
líflètu þá, er fyrir fram boðuðu
tilkomu ens Rèttláta, sem þèr
ofurselduð, og myrtuð;
53. Þèr, sem meðtekið hafið
lögmálið fyrir tilskipan eingl-

anna, en hafið ekki haldið
það.
54. ¶ Þá þeir heyrðu þetta,
skárust þeir í hjörtum sínum
og gnístu tönnum yfir honum;
55. En hann, fullur af Heilög-
um Anda, horfði til himins
og leit Guðs dýrð og Jesúm
standa við Guðs hægri hönd.
56. Þá mælti hann: sjá, eg sè
himnana opna og Mannsins
Son standa til hægri handar
Guði.
57. Hinir hrópuðu þá upp
með hárri röddu, byrgðu fyrir
eyru sèr og rèðust á hann
samhuga, hneptu hann út af
borginni og grýttu hann.
58. En vottarnir lögðu skikkj-
ur sínar til fóta úngmennis, er
Sál hèt,
59. Og grýttu Stefán, sem
ákallaði og sagði: Herra Jesú,
meðtak þú minn anda.
60. Síðan fèll hann á knè og
hrópaði hástöfum: Drottinn,
lát þá ekki gjalda þessarar
syndar; og sem hann hafði
þetta sagt, sofnaði hann.

## 8. KAPÍTULI.

*Sál ofsækir söfnuðinn; Filippus snýr Samversk-um til kristni; postularnir leggja hendur yfir þá og þeir öðlast Heilagan Anda; Símon galdramaður vill kaupa vald til að útbýta Andans gáfum, og sætir hegníngu fyrir það; Filippus snýr til kristni hirðstjóra Kandase.*

SÁL lèt vel yfir lífláti hans,
og sama dag hófst mikil
ofsókn gegn söfnuðinum í Je-
rúsalem, og allir tvístruðust
víðs vegar um hèruð Gyðínga-
lands og Samaríu, nema post-
ularnir.
2. En guðhræddir menn
bjuggu um lík Stefáns, og
hörmuðu hann mikið.
3. En Sál æddi gegn söfnuð-
inum, með því hann gekk inn
í hvert hús og dró þaðan
menn og konur, er hann seldi
í varðhald.
4. En þeir, eð tvístrazt höfðu,
fóru víðs vegar, og boðuðu
náðarlærdóminn.
5. Þannig fór Filippus til
borgarinnar Samaría og boð-
aði þar Krist.
6. Fjöldi borgarmanna veittu
samhuga eptirtekt hans kenn-
íngum, þá þeir heyrðu og
sáu kraptaverkin, sem hann
gjörði,
7. Því frá mörgum, er höfðu
óhreina anda, viku þeir burtu
með ópi miklu, og margir
limafalls-sjúkir og haltir lækn-
uðust,
8. Svo mikil gleði varð i
borginni.
9. En maður nokkur, að nafni
Símon, var í borginni, sá eð
fór með fjölkyngi, og ærði
samversku þjóðina með því;
hann lèt mikið yfir sèr.
10. Til hans hnigu allir, smáir

og stórir, segjandi: þessi er Guðs kraptur sá hinn mikli.

11. En þess vegna hnigu þeir að honum, að hann hafði í lánga tíð ært þá með töfrum sínum.

12. Nú sem menn trúðu Filippusi, er boðaði þeim náðarlærdóminn um Guðs ríki og nafn Jesú Krists, lètu menn og konur skírast.

13. Sjálfur Símon tók líka trú, og er hann var skírður, hèlt hann sèr stöðugt til Filippusar; en er hann sá teikn og stórmerki ske, varð hann frá sèr numinn.

14. Þegar postularnir í Jerúsalem heyrðu, að Samaría hefði meðtekið Guðs orð, sendu þeir Pètur og Jóhannes þángað.

15. Þessir komu og báðu fyrir Samverskum, að þeir mættu öðlast Heilagan Anda;

16. Því hann var enn ekki kominn yfir neinn þeirra, einúngis voru þeir skírðir til nafns Drottins Jesú.

17. Þeir lögðu þá hendur yfir þá og meðtóku þeir Heilagan Anda.

18. En er Símon sá, að Heilagur Andi veittist fyrir handa uppáleggíngu postulanna, færði hann þeim fè og sagði:

19. Gefið mèr einnig þetta vald, að yfir hvern sem eg legg hendur, hann öðlist Heilagan Anda.

20. Pètur andsvaraði honum: þrífist aldrei silfur þitt nè þú, fyrst þú hugsar, að Guðs gjöf fáist fyrir fè.

21. Þú átt eingan þátt nè hlutdeild í þessum lærdómi, því þitt hjartalag er ekki rètt fyrir augum Guðs.

22. Aflegðu því þessa þína vonzku og bið Drottinn, ef þèr kynni fyrirgefast þetta þitt hugarfar;

23. Því eg sè, að þú býr yfir gallbeiskju og ert flæktur í fjötrum rángsleitninnar.

24. Símon svaraði: biðjið fyrir mèr til Drottins, að ekkert komi það yfir mig, sem þèr sögðuð.

25. Eptir að þeir höfðu örugglega vitnað og kent orð Drottins, snèru þeir aptur til Jerúsalem og boðuðu gleðiboðskapinn í mörgum þorpum Samverskra.

26. ¶ En eingill Drottins talaði við Filippus og sagði: statt upp og gakk suður á veg þann, sem liggur frá Jerúsalem til Gasa (hún er í eyði).

27. Hann stóð upp og fór. Og sjá, etíópiskur maður, geldíngur og stórhöfðíngi hjá Kandase drottníngu í Etíópíu, sem settur var yfir alla hennar

fjársjóðu, hafði farið til Jerú-
salem til að biðjast fyrir,
28. Og var á heimleið, sat í
vagni og las Esajas spámann.
29. Andinn sagði þá við Fil-
ippus: gakk að þessum vagni
og halt þèr hjá honum.
30. Filippus skundaði til,
heyrði manninn vera að lesa
spámanninn Esajas og spurði:
skilurðu það sem þú les?
31. Hinn svaraði: hvernig
ætti eg að geta það, fyrst
einginn leiðbeinir mèr? bað
hann svo að stíga upp í
vagninn og setjast hjá sèr.
32. En innihald greinar þeirr-
ar, er hann las, var þetta:
"eins og sauður var hann til
slátrunar leiddur, og sem
lambið þegir hjá þeim, er
klippir það, eins lýkur hann
ekki upp munni sínum.
33. Með lægíngu endaði hans
dómur; hver getur útmálað
aldur hans, því af jörðinni er
líf hans upprætt."
34. Geldíngurinn sagði við
Filippus: eg bið, seg mèr,
um hvern talar spámaðurinn
þetta? hvort um sjálfan sig
eður annan?
35. Þá lauk Filippus upp
sínum munni, tók til á á-
minztri ritníngargrein og boð-
aði honum fagnaðarlærdóm-
inn um Jesús.
36. En sem þeir fóru áfram
veginn, komu þeir að vatni
nokkru, þá mælti geldíngur-
inn: sjá vatnið, hvað hamlar
mèr að skírast?
37. Og hann bauð að stöðva
vagninn,
38. Og stigu þeir báðir niður
í vatnið, Filippus og geldíng-
urinn, og Filippus skírði hann.
39. En þá þeir voru stignir
upp úr vatninu, greip Andi
Drottins Filippus burt, og
geldíngurinn sá hann ekki
framar.
40. En hann (geldíngurinn)
fór glaður leið sína; en við
Filippus varð vart í Asdod;
þar gekk hann í kríng og
boðaði náðarboðskapinn í
hverri borg, uns hann kom
til Sesarea.

## 9. KAPÍTULI.

*Sál snýst til kristni, hann kennir, er ofsóktur, kemur til Jerúsalem, og verður aptur að flýja. Söfnuðurinn fær ró; Pètur læknar Eneas, uppvekur Tabítu.*

EN Sál blès enn ógnunum
og manndrápi gegn læri-
sveinum Drottins, og nú gekk
hann til prestahöfðíngjans,
2. Og óskaði af honum brèfa
til samkundanna í Damaskus,
svo að ef hann fyndi nokkra
menn eður konur, sem tekið
hefðu þessa trú, þá mætti
hann færa þá bundna til Je-
rúsalem.

3. Í þeirri ferð bar svo til, þegar hann nálgaðist Damaskus, að um hann leiptraði skyndilega ljós af himni;
4. Og sem hann datt til jarðar, heyrði hann rödd segja við sig: Sál, Sál, hví ofsækir þú mig?
5. En hann sagði: Herra, hver ert þú? Drottinn svaraði: eg er Jesús, sem þú ofsækir.
6. En statt upp og gakk inn í borgina, þar skal þèr verða sagt, hvað þèr ber að gjöra.
7. Förunautar hans stóðu eins og höggdofa, því þeir heyrðu raustina, en sáu eingan.
8. Þegar Sál komst á fætur og opnaði augun, sá hann eingan mann, en hinir leiddu hann við hönd sèr inn í borgina;
9. Þar var hann í þrjá daga sjónlaus, og át ekki nè drakk.
10. ¶ En í Damaskus var lærisveinn nokkur, sem hèt Ananías. Við hann sagði Drottinn í sýn: Ananías! En hann sagði: hèr em eg, Herra!
11. Drottinn sagði: statt upp og gakk í stræti það, sem kallast hið beina, og spurðu í húsi Júdasar eptir tarsiskum manni, sem heitir Sál,
12. Því sjá, hann biðst fyrir, og hefir í sýn sèð mann, að nafni Ananías, koma og leggja hendur yfir sig, svo hann yrði aptur sjáandi.
13. Ananías svaraði: Drottinn, eg hefi heyrt af mörgum um þenna mann, hversu mikið ilt hann hefir gjört þínum heilögum í Jerúsalem,
14. Og að hann hefir feingið vald frá prestahöfðíngjunum til að binda hèr alla þá, sem viðurkenna þitt nafn.
15. En Drottinn sagði við hann: farðu, því þessi er mèr útvalið verkfæri til að bera nafn mitt fram fyrir heiðnar þjóðir og konúnga og fyrir Ísraels börn;
16. Því eg mun sýna honum, hversu mikið ilt honum ber að þola vegna míns nafns.
17. Þá fór Ananías af stað, kom í húsið og lagði hendur yfir hann og mælti: Sál, bróðir, Drottinn sendi mig (Jesús, sem þèr birtist á vegi þeim, er þú komst híngað), svo þú feingir aptur sjón þína og fyltist Heilögum Anda.
18. Þá fèll jafnskjótt af augum hans eins og hreistur, og hann varð heilskygn.
19. Síðan stóð hann upp og var skírður, og er hann hafði neytt fæðu, styrktist hann. Sál dvaldi nokkra daga hjá lærisveinunum í Damaskus,

20. Og kendi þegar í samkunduhúsunum, að Jesús væri Guðs Sonur.
21. Allir þeir, sem heyrðu það, undruðust stórum og sögðu: er þessi ekki sá, sem í Jerúsalem eyddi þeim, er þetta nafn ákölluðu, og kom híngað til að flytja þá bundna til prestahöfðíngjanna?
22. En Sál efldist meir og meir, og hnekti þeim Gyðíngum, sem bjuggu í Damaskus, og sannaði, að Jesús væri Kristur.
23. ¶ Mörgum dögum þar eptir tóku Gyðíngar ráð sín saman að drepa hann,
24. En Sál fèkk vitneskju um þeirra ráðagjörð.
25. Þeir gættu portanna nótt og dag, svo þeir gætu ráðið hann af dögum, en lærisveinarnir tóku hann um nótt og lètu hann í körfu síga út fyrir múrinn.
26. Þá hann síðan kom til Jerúsalem, reyndi hann til að samlaga sig lærisveinunum, en öllum stóð geigur af honum, og trúðu því ekki, að hann væri lærisveinn.
27. En Barnabas tók hann að sèr, leiddi hann til postulanna, og skýrði frá, hvernig hann á veginum hefði sèð Drottinn og talað við hann og hversu einarðlega hann hefði kent í Jesú nafni í Damaskus.
28. Eptir það varð hann handgeinginn lærisveinunum í Jerúsalem og kendi með djörfúng í Drottins Jesú nafni.
29. Sèr í lagi átti hann þrætur og orðastað við Grikki, en þeir áformuðu að ráða hann af dögum;
30. En er bræðurnir urðu þess vísir, fylgdu þeir honum til Sesarea, og sendu hann þaðan til Tarsus.
31. Nú höfðu söfnuðirnir frið um alt Júdaland og Galílea og Samaría, efldust og geingu fram í ótta Drottins, fullir af huggun Heilags Anda.
32. ¶ Svo bar til, þá eð Pètur ferðaðist alstaðar um kríng, að hann kom einnig til hinna heilögu, sem bjuggu í Lydda.
33. Þar fann hann mann, að nafni Eneas, er í átta ár hafði legið rúmfastur af limafallssýki.
34. Pètur sagði við hann: Eneas, Jesús Kristur læknar þig; stattu upp og búðu um þig sjálfur; og jafnskjótt stóð hann upp.
35. Þenna mann sá alt fólk, sem heima átti í Lydda og í Saron, og snèri sèr til Drottins.
36. ¶ Meðal lærisveinanna í Joppe var stúlka nokkur, sem

hèt Tabíta, það er: Dorkas, auðug af góðum verkum og ölmusugjörðum.

37. Hún varð veik um sömu mundir og dó. En þegar búið var að þvo líkið, var það lagt upp á loptið.

38. Þar eð nú Lydda lá skamt frá Joppe, frèttu lærisveinarnir, að Pètur væri þar, og sendu tvo menn til hans með bón, að hann ekki vildi skorast undan að koma til þeirra.

39. Pètur brá við og fór með sendimönnunum, og var jafnskjótt, sem hann kom, leiddur upp á loptið, og flyktust allar ekkjurnar að honum grátandi, og sýndu honum kyrtla og yfirhafnir, sem Dorkas hafði gjört, meðan hún var hjá þeim.

40. Pètur bauð þeim öllum út að fara, beygði knè sín og baðst fyrir, snèrist svo að líkinu og sagði: Tabíta, stattu upp. Hún lauk þá upp augunum, sá Pètur og settist upp.

41. Hann rètti henni þá hönd sína og reisti hana á fætur, kallaði síðan á hina heilögu og ekkjurnar, og afhenti þeim hana lifandi.

42. En þetta varð hljóðbært um alla Joppe, og margir trúðu á Drottinn.

43. Pètur dvaldi marga daga í Joppe hjá sútara nokkrum, er Símon hèt.

## 10. KAPÍTULI.

*Eingill vitrast Korneliúsi, sem sendir til Pèturs; Pètur fær sýn, og fer til Sesarea, heldur ræðu um Krist fyrir Korneliúsi og öðrum heiðíngjum, er öðlast Heilagan Anda og láta skírast.*

MAÐUR nokkur var í Sesarea, að nafni Kornelíus, hundraðshöfðíngi í þeim herflokki, er kallaðist hinn Ítalski;

2. Hann var guðrækinn og óttaðist Guð, ásamt öllu húsi sínu, gaf og fólki miklar ölmusur og var jafnan á bæn til Guðs.

3. Hann sá í vitrun, nær níundu stundu dags, bersýnilega eingil Drottins gánga inn til sín og segja við sig: Kornelíus!

4. En hann starði felmtsfullur á eingilinn og spurði: herra, hvað viltu mèr? Eingillinn svaraði: bænir þínar og ölmusu-gjörðir eru uppstignar til minnis fram fyrir Guð;

5. Og send þú nú menn til Joppe að láta sækja Símon þann, er kallast Pètur,

6. Og gistir hjá sútara nokkrum Símoni, sem býr í húsi við sjóinn.

7. Þegar eingillinn, sem talaði við hann, var burt farinn, kallaði hann á tvo húskarla sína, og einn guðrækinn stríðsmann af þeim, er honum voru handgeingnastir,

8. Sagði þeim frá öllu og
sendi þá til Joppe.
9. ¶ Daginn eptir, þá þeir
voru á leiðinni og nálguðust
borgina, stè Pètur upp á hús-
þakið til að gjöra bæn sína,
um sjöttu stund;
10. En með því hann húngr-
aði, vildi hann matar neyta;
en meðan verið var að mat-
reiða, varð hann frá sèr num-
inn,
11. Og sá himininn opnast,
og ker eitt fara niður, líkt
stórum líndúk, uppbundnum í
fjórum hornum, er látið var
niður síga til jarðar.
12. Þar í voru alskonar fer-
fætt dýr, villidýr og skriðkvik-
indi og fuglar himins.
13. Jafnframt heyrði hann
raust segja til sín: statt upp,
Pètur, slátra og et,
14. Pètur svaraði: nei, Drott-
inn, eingan veginn, því aldrei
hefi eg etið neitt vanheilagt
eður óhreint.
15. Þá sagði röddin í annað
sinn við hann: það, sem Guð
hefir gjört hreint, skalt þú
ekki meta vanheilagt.
16. Þetta skeði þrem sinn-
um, og kerið varð numið apt-
ur til himins.
17. Meðan Pètur var nú að
ígrunda, hvað sýn þessi mundi
þýða, sjá, þá stóðu sendimenn
Kornelíusar, sem búnir voru
að upp spyrja Símonar hús,
við fordyrið og voru að kalla
og spyrja,
18. Hvort Símon, sem kall-
ast Pètur, væri þar ekki til
gistíngar.
19. ¶ En er Pètur hugleiddi
sýnina, sagði Andinn honum:
sjá, þrír menn leita þín,
20. Stattú þess vegna upp og
stíg ofan og far hiklaust með
þeim, því eg hefi sent þá.
21. Pètur gekk þá niður til
mannanna og sagði: sjáið, eg
er sá, sem þèr spyrjið að;
hvers erindis komið þèr?
22. Þeir svöruðu: hundraðs-
höfðínginn Kornelíus, maður
ráðvandur og guðhræddur og
orðsæll af allri Gyðínga þjóð,
fèkk vitran af heilögum eingli,
að senda eptir þèr til sín og
heyra þín orð.
23. Þá bauð Pètur þeim inn
og veitti þeim beina. Um
morguninn stóð hann upp og
fór með þeim, og nokkrir af
bræðrunum, sem heima áttu í
Joppe, fóru með honum.
24. Næsta dag komu þeir til
Sesarea. Kornelíus bjóst við
þeim og hafði boðið til sín
frændum og einka-vinum.
25. Í því Pètur gekk inn,
kom Kornelíus á móti honum,
og laut honum með knèfalli.

26. Pètur reisti hann upp, og sagði: stattu upp, eg em einnig maður;
27. Gaf sig á tal við hann, gekk síðan inn, og fann þar margmenni saman komið.
28. Hann sagði þá við þá: þèr vitið, hvílíkt ódæði það er Gyðíngi, að samlaga sig eður heimsækja útlendínga; en Guð er búinn að sýna mèr, að eg á eingan mann að kalla vanheilagan eður óhreinan, og þess vegna kom eg mótmælislaust, þá eptir mèr var sent.
29. En nú vilda eg spyrja, hverra orsaka vegna þèr hafið sent eptir mèr?
30. Kornelíus svaraði: frá fjórða degi hèr frá til þessarar stundar fastaði eg, og um níundu stundu baðst eg fyrir í húsi mínu; þá skeði það, að maður stóð frammi fyrir mèr í skínandi klæðum, og sagði:
31. Kornelíus, bæn þín er heyrð, og þinna ölmusugjörða er minzt fyrir Guði;
32. Sendu því til Joppe og láttu kalla híngað Símon, er kallast Pètur, er gistir í húsi Símonar sútara við sjóinn; þá hann kemur, mun hann fræða þig.
33. Þess vegna senda eg undireins til þín, og hefir þú gjört vel, að þú komst. Nú erum vèr hèr allir til staðar fyrir augsýn Guðs, til að heyra alt hvað þèr er af Guði um boðið.
34. ¶ Þá lauk Pètur upp munni sínum, og sagði: sannlega er eg kominn að raun um, að hjá Guði er ekkert manngreinarálit,
35. Heldur er hver sá, sem óttast hann og hagar sèr ráðvandlega, honum þóknanlegur, af hvaða þjóð sem hann er.
36. Þèr hafið heyrt um þann lærdóm, sem Guð hefir sent Ísraels börnum, þann er boðar frið fyrir Jesúm Krist, sem að er Drottinn allra.
37. Þèr þekkið þá atburði, sem skeð hafa um alt Gyðíngaland, og hófust í Galílea eptir þá skírn, sem Jóhannes boðaði,
38. Hversu Guð smurði Jesúm af Nazaret með Heilögum Anda og krapti, að hann gekk í kríng, gjörði gott og græddi alla, sem af djöflinum voru undirokaðir;
39. Því Guð var með honum, og vèr erum vottar að öllu, sem hann gjörði á Gyðíngalandi og í Jerúsalem. Þenna aflífuðu þeir og festu á trè;
40. En Guð upp vakti hann á þriðja degi, og lèt hann birtast,
41. Ekki öllu fólki, heldur þeim vottum, sem Guð hafði

áður útvalið, oss, sem átum og
drukkum með honum, eptir
að hann var upp risinn frá
dauðum;
42. Og hann bauð oss að
kunngjöra fólkinu og vitna, að
hann sè af Guði útvalinn dóm-
ari lifenda og dauðra.
43. Um þenna vitna allir
spámenn, að fyrir hans nafns
sakir fái hver, sem á hann
trúir, synda-kvittun.
44. ¶ Áður en Pètur hafði út
talað þessi orð, fèll Heilagur
Andi yfir alla þá, sem ræðuna
heyrðu.
45. Þá undruðust hinir trúuðu,
sem voru af umskurninni, og
sem komið höfðu með Pètri,
að yfir heiðíngja skyldi líka
úthellast gjöf Heilags Anda;
46. Því þeir heyrðu þá tala
túngum og vegsama Guð.
47. Pètur tók þá til orða:
getur nokkur varnað þeim
vatnsins, að þeir skírist ekki,
sem meðtekið hafa Heilagan
Anda, eins og vèr?
48. Og hann bauð að skíra þá
í nafni Drottins. Síðan báðu
þeir hann að dvelja hjá sèr
nokkra daga.

## 11. KAPÍTULI.

*Pètur ver samneyti sitt við heiðíngja; kristnir, sem tvístrazt höfðu, kenna víða; Páll og Barnabas prèdika í Antíokkía; Agapus spáir hallæri, og ölmusum er safnað.*

ÞAÐ kom til eyrna postul-
unum og bræðrunum í
Júdea, að einnig heiðíngjar
hefðu tekið við Guðs orði,
2. Og þegar Pètur kom heim
til Jerúsalem, átöldu hinir
umskornu hann svo segjandi:
3. Þú hefir heimsókt óum-
skorna og samneytt þeim.
4. En Pètur sagði þeim þá
alla söguna frá rótum, og
mælti:
5. Eg var í borginni Joppe á
bæn, og sá, frá mèr numinn, í
sýn ker koma frá himni, á-
sýndum sem líndúk, uppbund-
inn í fjórum hornum, og fara
að mèr;
6. Og er eg festi sjónir á því,
varð eg var við og sá í því als
konar ferfætt dýr, villidýr,
skriðkvikindi og fugla himins.
7. Svo heyrða eg og raust,
sem sagði við mig: stattu upp,
Pètur, slátra og et.
8. Eg svaraði: nei, Drottinn,
eingan veginn, því aldrei hefir
neitt vanheilagt eður óhreint
komið mèr í munn.
9. Þá sagði raustin af himni
í annað sinn; það, sem Guð
hefir gjört hreint, skaltu ekki
meta vanheilagt.
10. Þetta skeði þrisvar sinn-
um, síðan var alt aptur til
himins upp dregið;
11. Og sjá samstundis stóðu

þrír menn við húsið, sem vèr
vorum í, sendir frá Sesarea til
mín,
12. Og Andinn sagði mèr
að fylgjast með þeim hiklaust.
Samferða mèr urðu þessir sex
bræður, og vèr geingum inn í
hús mannsins.
13. Hann sagði okkur frá,
hvernig hann hefði sèð eingil
í húsi sínu, er stóð þar og
sagði við hann: sendu menn
til Joppe og láttu sækja Símon,
sem kallast Pètur;
14. Hann mun segja þèr þau
sannindi, sem munu gjöra þig
og alt þitt hús hólpið.
15. En undireins og eg fór að
tala, fèll Heilagur Andi yfir
þá, eins og yfir oss í öndverðu.
16. Eg mintist þá orða Drottins,
er hann sagði: Jóhannes
skírði með vatni, en þèr skuluð
skírast með Heilögum
Anda.
17. Fyrst Guð gaf þeim nú
sömu gjöf og oss, þá þeir
trúðu á Drottinn Jesúm Krist,
hvernig var eg þess þá umkominn
að aptra Guði?
18. Þegar þeir höfðu þetta
heyrt, þögnuðu þeir og vegsömuðu
Guð segjandi: Guð
hefir þá einnig unt heiðnum
þjóðum endurvitkunar til sáluhjálpar.
19. ¶ Þeir, sem tvístrazt höfðu
í ofsókninni gegn Stefáni, fóru
alt til Fönisía-lands, til Sýpruseyar
og til Antíokkía, en báru
ekki lærdóminn upp fyrir öðrum
en Gyðíngum einum.
20. Samt voru nokkrir meðal
þeirra, ættaðir úr Sýprus
og Sýrene, sem við komu
sína til Antíokkía töluðu fyrir
Grikkjum fagnaðar-boðskapinn
um Drottinn Jesús.
21. Og hönd Drottins var
með þeim, svo að mikill fjöldi
trúði og snèri sèr til Drottins.
22. ¶ Þegar fregnin hèr um
barst til eyrna safnaðarins í
Jerúsalem, sendi hann út Barnabas,
að hann færi til Antíokkía;
23. Og sem hann kom og sá
náð Guðs, gladdist hann, og
uppörfaði alla að halda sèr við
Drottinn með einlægu hjarta,
24. Því hann var góður maður,
fullur af Heilögum Anda
og trú; og mikill fjöldi bættist
Drottni.
25. Þaðan fór Barnabas til
Tarsus til að leita að Sál,
26. Og er hann hafði fundið
hann, fèkk hann hann með sèr
til Antíokkía, og varð það af,
að þeir voru saman alt árið hjá
þeim söfnuði, og kendu þar
fjölda fólks, svo að í Antíokkía
nefndust lærisveinarnir
fyrst kristnir.

27. ¶ Um sömu mundir komu
spámenn frá Jerúsalem til An-
tíokkía;
28. Meðal þeirra gekk einn
fram, að nafni Agapus, og
sagði fyrir af andagipt sinni,
að mikið hallæri mundi koma
yfir allan heim, sem og kom
fram á dögum Kládíusar
keisara.
29. Lærisveinarnir ályktuðu
því, hver eptir sínum efnum
að senda nokkuð til bjargar
bræðrunum, sem bjuggu í Jú-
dea,
30. Sem þeir og gjörðu, og
sendu Barnabas og Sál með
það til öldúnganna.

## 12. KAPÍTULI.

*Heródes lætur drepa Jakob og handtaka Pètur, sem frelsast af eingli; drambsemi Heródesar og dauði; trúin útbreiðist; Barnabas og Sál ferðast og taka Markús með sèr.*

Á ÞEIM sama tíma lagði
Heródes konúngur hend-
ur á nokkra af söfnuðinum til
að misþyrma þeim.
2. En hann lèt drepa Jakob,
bróður Jóhannesar, með sverði.
3. Og er hann sá, að þetta
geðjaðist Gyðíngum vel, hèlt
hann áfram og lèt einninn
handtaka Pètur, en það var
um daga hinna ósýrðu brauð-
anna.
4. Nú sem hann hafði hand-
tekið hann, lèt hann setja hann
í myrkvastofu, og fèkk hann í
hendur sextán stríðsmönnum,
er til skiptis, fjórir og fjórir
í senn, skyldu gæta hans, og
ætlaði sèr eptir páskana, að
framselja hann fólkinu.
5. Pètur var þannig geymdur
í myrkvastofu, en söfnuðurinn
bað án afláts fyrir honum til
Guðs.
6. Nóttina áður en Heródes
ætlaði að láta leiða hann fram,
svaf Pètur milli tveggja stríðs-
manna, bundinn með tveimur
viðjum, og varðmenn úti fyrir
dyrunum gættu myrkvastof-
unnar.
7. En sjá, þá stóð eingill
Drottins hjá honum, og ljós
leiptraði um húsið; hann laust
á síðu Pèturs, vakti hann og
sagði: stattu fljótt upp; þá
fèllu viðjurnar af höndum
hans.
8. Síðan sagði eingillinn við
hann: gyrð þú þig, og bind á
þig skó þína. Hann gjörði
svo. Eingillinn sagði enn frem-
ur: kasta yfir þig skikkju
þinni og fylg mèr.
9. Hann gekk út og fylgdi
honum, en ekki vissi hann, að
þetta, sem eingillinn gjörði,
væri svo í raun og veru, held-
ur hèlt hann, að hann sæi sýn.
10. Þá þeir höfðu geingið í
gegnum hið fyrsta og annað

varðhald, komu þeir til járnhliðsins, er liggur til borgarinnar, og lauk það sèr sjálft upp fyrir þeim. Og þá þeir voru komnir út um það, geingu þeir áfram um eitt stræti, og alt í einu skildi eingillinn við hann.

11. Þegar Pètur kom til sjálfs sín, sagði hann: nú veit eg sannlega, að Drottinn hefir sent eingil sinn og hrifið mig úr höndum Heródesar og frá allri eptirvæntíng Gyðíngalýðs.

12. En sem hann var búinn að koma þessu fyrir sig, gekk hann að húsi Maríu, móður Jóhannesar, er kallast Markús. Þar var fjölmenni fyrir, sem hafði safnazt þángað og voru á bæn.

13. Pètur drap á dyrahurðina, og stúlka gekk fram að nafni Róde, til að hlusta eptir;

14. En er hún þekti málróm Pèturs, varð fögnuðurinn svo mikill, að hún lauk ekki upp, heldur hljóp inn og sagði, að Pètur stæði úti.

15. Þeir sögðu við hana: þú ert frávita. En hún stóð fast á því, að svo væri. Þá sögðu þeir: það er þá eingill hans.

16. Pètur lèt ekki af að berja að dyrum, og er þeir luku upp og sáu hann, urðu þeir frá sèr.

17. Hann benti þeim með hendinni, að þeir þegðu, og sagði þeim ýtarlega frá, hverninn Drottinn hefði leitt sig út úr myrkvastofunni, bað þá líka að kunngjöra þetta Jakobi og hinum bræðrunum, en fór sjálfur þaðan og í annan stað.

18. Þegar dagaði, kom ekki lítið fát á stríðsmennina, hvað af Pètri væri orðið.

19. En er Heródes hafði leitað hans og fann hann ekki, lèt hann rannsókn gánga yfir varðmennina og bauð að leiða þá burt (til hegníngar), fór síðan burt úr Júdea til Sesarea, og settist þar um kyrt;

20. ¶ Því hann var missáttur við Týrus og Sídónsmenn; en þeim kom saman um að fara til hans, feingu svo í fylgi með sèr Blasíus, stallara konúngsins, og báðust friðar, af því land þeirra fèkk vistir frá (löndum) konúngsins.

21. Á tilteknum degi klæddist Heródes konúngs skrúða, settist í hásæti og hèlt ræðu til þeirra.

22. Almúginn hrópaði þá upp: Guðs rödd er þetta, en ekki manns.

23. Jafnsnart sló eingill Drottins hann, sökum þess hann gaf ekki Guði dýrðina, var hann etinn upp af ormum og dó.

24. ¶ En Guðs orð útbreiddist
og efldist.
25. Barnabas og Sál snèru
aptur frá Jerúsalem, að af-
loknu erindi sínu, og tóku með
sèr Jóhannes, að viðurnefni
Markús.

## 13. KAPÍTULI.

*Barnabas og Sál fá köllun að kenna heiðíngjum; Markús yrfigefur þá; Páll prédikar í Pisidía; Gyðíngar verða uppvægir; Páll og Barnabas fara til Íkonía.*

EN í söfnuðinum í Antí-
okkíu voru nokkrir spá-
menn og lærifeður, svo sem
Barnabas, Símon, að auknefni
Níger, Lúsíus frá Sýrene, Ma-
naen, samfóstri Heródesar
fjórðúngshöfðíngja, og Sál.
2. Eitt sinn er þeir þjónuðu
Drottni og föstuðu, sagði Heil-
agur Andi: takið frá handa
mèr Barnabas og Sál, til þess
verks, sem eg hefi þeim ætlað.
3. Þeir föstuðu þá og báðust
fyrir, lögðu hendur yfir þá, og
lètu þá svo fara.
4. ¶ Þessir, sem af Heilögum
Anda voru út sendir, fóru til
Selevsíu og sigldu þaðan til
Sýprus.
5. En meðan þeir voru í Sa-
lamis, boðuðu þeir Guðs erindi
í samkunduhúsum Gyðínga.
En þeir höfðu líka Jóhannes
fyrir meðhjálpara.
6. En sem þeir fóru um alla
eyuna til Pafus, fundu þeir
þar töframann nokkurn, fals-
spámann, Gyðínga-kyns, að
nafni Bar-Jesús;
7. Hann var með landstjóran-
um Sergíusi Páli, manni hyggn-
um, sem bauð til sín Barna-
basi og Sáli, og óskaði að
heyra Guðs orð.
8. Þá stóð móti þeim Elímas,
töfravitríngurinn (því svo þýð-
ir nafn þetta), hann reyndi
til að snúa landstjóranum frá
trúnni.
9. En Sál, sem og hèt Páll,
varð fullur af Heilögum Anda,
hvesti á hann augun og sagði:
10. Ó þú djöfuls sonur, full-
ur als fals og fláræðis, óvinur
allrar rèttvísi, lætur þú aldrei
af að rángsnúa rèttum vegum
Drottins?
11. Vit nú, að hönd Drottins
mun hitta þig, og blindur munt
þú verða og ekki sjá sól um
tíma. Jafnsnart fèll yfir hann
þoka og myrkur, svo að hann
ráfaði um kríng, og leitaði ein-
hvers, er leiddi hann.
12. Þegar landstjórinn leit
þenna atburð, trúði hann og
undraðist kenníngu Drottins.
13. Páll og þeir, sem með
honum voru, sigldu nú frá
Pafus, og komu til Perge í
Pamfilíu, en Jóhannes skildi
við þá og snèri aptur til Jerú-
salem.

14. ¶ Hinir hèldu áfram frá Perge, og komu til Antíokkíu í Pisidíalandi, geingu inn í samkunduhúsið á hvíldardegi og settust niður.

15. En eptir að lesið hafði verið í lögmálinu og spámönnunum, sendu samkunduforstjórarnir til þeirra og lètu segja þeim: góðir menn og bræður, ef þèr hafið nokkuð að mæla fólkinu til, uppbyggíngar þá talið.

16. Páll stóð þá upp, og eptir að hafa beðið sèr hljóðs með hendinni, ræddi svo: þèr, Ísraelsmenn, og þèr, sem óttist Guð, heyrið.

17. Guð þessa fólks útvaldi feður vora og efldi fólkið, meðan það var útlent í Egyptalandi; þaðan útleiddi hann það með voldugum armlegg,

18. Og annaðist í eyðimörkinni nærri fjörutíu ár.

19. Síðan afmáði hann sjö þjóðir í Kanaan, og skipti með þeim þeirra landi.

20. Eptir það, um nærri því fjögur hundruð og fimmtíu ár, gaf hann þeim dómara, alt til Samúels spámanns.

21. Þá beiddust þeir konúngs, og Guð gaf þeim Sál Kísson, mann af Benjamíns ætt, í fjörutíu ár.

22. En er hann hafði felt hann, hóf hann Davíð þeim til konúngs, sem hann og vitnaði um: "eg hefi fundið Davíð, son Jesse, sem mèr geðjast, og framkvæma mun allan vilja minn."

23. Af þessa manns afspreingi lèt Guð, eptir sínu fyrirheiti, koma Ísraels frelsara Jesúm.

24. Og rètt á undan hans komu boðaði Jóhannes iðrunarskírn öllum Ísraelslýð.

25. En er Jóhannes hafði endað sitt skeið, sagði hann: hver haldið þèr, að eg sè? Eg er ekki hann, heldur sjáið, sá kemur eptir mig, hvers skóþveingi eg em ekki verðugur að leysa.

26. Góðir menn og bræður, þèr niðjar Abrahams, og þeir yðar á meðal, sem óttast Guð, yður er sent orð þessa hjálpræðis;

27. Því Jerúsalems borgarmenn og þeirra höfðíngjar hafa með vanþekkíngu sinni á honum einnig, með því að sakfella hann, uppfyllt orð spámannanna, sem hvern helgan dag eru lesin.

28. Því jafnvel þótt þeir einga dauðasök fyndi, kröfðu þeir samt af Pílatusi, að hann yrði líflátinn.

29. Eptir að þeir þannig höfðu uppfylt alt, sem um hann var

ritað, var hann tekinn niður af
trènu og lagður í gröf.
30. En Guð reisti hann frá
dauðum,
31. Svo hann sást marga daga
af þeim, sem höfðu farið með
honum úr Galílea upp til Jerú-
salem, sem eru nú vottar hans
hjá fólkinu.
32. Og vèr berum yður þessa
gleðifregn um fyrirheitið, sem
gefið var feðrunum, að Guð er
búinn að efna það við oss, börn
þeirra,
33. Með því, að láta Jesúm
upprísa, eins og skrifað er í
sálminum: "þú ert minn Son-
ur, í dag hefi eg þig getið."
34. En að hann hafi reist
hann frá dauðum, svo að hann
aldrei framar skyldi hverfa til
rotnunar, þar um talaði hann
þanninn: "eg mun efna við
yður þann heilaga sáttmála,
sem eg gjörði við Davíð;"
35. Hvers vegna hann segir á
öðrum stað: "þú munt ekki
leyfa, að þinn heilagi kenni
rotnunar."
36. Nú er Davíð, eptir að hafa
þjónað að Guðs tilgángi sína
lífstíð, dáinn og lagður hjá
feðrum sínum og kendi rotn-
unar;
37. En sá, sem Guð uppreisti,
kendi ekki rotnunar.
38. ¶ Því sè yður vitanlegt,
góðir menn og bræður, að
fyrir hann boðast yður synda
fyrirgefníng.
39. Og það, sem þèr eptir
Mósis lögmáli ekki gátuð
feingið lausn frá, við það alt
skuluð þèr, hver og einn, sem
á hann trúið, kvittir verða hans
vegna.
40. Sjáið því til, að ekki ræt-
ist á yður ummæli spámann-
anna: "gefið gætur að, þèr
smánarar,
41. Undrizt og verðið að eing-
ú; því gjörníng mun eg gjöra
á yðar dögum, gjörníng, sem
þèr ekki munuð trúa, þó ein-
hver segði yður hann."
42. En þegar þeir geingu út,
báðu menn þá að tala sama
erindi næsta helgan dag.
43. Og er samkoman skildist
að, fylgdu margir Gyðíngar og
guðræknir menn, er til Gyðínga
trúar höfðu snúizt, Páli og
Barnabasi, sem með umtölum
sínum hvöttu þá til að halda
sèr föstum við Guðs náð.
44. ¶ Helgina næst eptir kom
næstum gjörvöll borgin saman
til að heyra Guðs orð.
45. En er Gyðíngar litu mann-
mergðina, fyltust þeir vand-
lætíngar og töluðu með mót-
mælum og lastyrðum gegn því,
sem Páll kendi.
46. En Páll og Barnabas

töluðu þá einarðlega og sögðu: Guðs orð hlaut fyrst að berast upp fyrir yður, en þar þèr burtskúfið því og metið yður sjálfa ekki verðuga eilífs lífs, sjáið, þá snúum vèr oss til heiðinna manna,

47. Því svo hefir Drottinn boðið oss: "Eg hefi sett þig til ljóss heiðnum þjóðum, svo að þú sèrt til hjálpræðis til jarðarinnar yztu endimarka."

48. En þegar heiðíngjarnir heyrðu þetta, glöddust þeir og vegsömuðu orð Drottins, og svo margir, sem til eilífs lífs voru ætlaðir, urðu trúaðir.

49. Nú útbreiddist orð Drottins um alt bygðarlagið;

50. En Gyðíngar æstu upp guðræknar og heiðvirðar konur, og fyrirmenn borgarinnar, og vöktu ofsókn gegn Páli og Barnabasi, og ráku þá burt úr sínu hèraði.

51. En þeir hristu duptið af fótum sèr á þá, og fóru til Íkoníu.

52. En lærisveinarnir fyltust fögnuði og Heilögum Anda.

## 14. KAPÍTULI.

*Páll og Barnabas kenna í Íkonía og Lystra; Páll læknar haltan mann; þeir eru haldnir vera guðir; Páll er grýttur, en kemst til Derbe. Þeir Barnabas snúa aptur til Antíokkía.*

EN svo bar við í Íkoníaborg, þá þeir geingu saman inn í samkunduhús, að þeir kendu svo, að mikill fjöldi Gyðínga og Grikkja tók trú.

2. En þvermóðskufullir Gyðíngar risu á móti og spiltu hugarþeli heiðíngjanna við bræðurna.

3. Samt dvöldu þeir þar lángan tíma og prèdikuðu sköruglega í Drottni, sem veitti meðvitni orði sinnar náðar og lèt jarteiknir og stórmerki gjörast fyrir hendur þeirra.

4. Tvískiptist þá borgarmúgurinn svo, að nokkrir hèldu með Gyðíngum, en aðrir með postulunum.

5. En er hugur heiðíngja og Gyðínga og yfirmanna þeirra hneigðist til að smána þá og grýta, og þeir urðu þessa varir,

6. Flúðu þeir burt til borga Lýkaoníu-lands, Lystru og Derbe, og hèraðsins í kríng,

7. Og boðuðu þar náðarboðskapinn.

8. ¶ Í Lystru var maður fóthrumur, sem sat, af því hann var haltur frá móðurlífi og hafði aldrei getað geingið.

9. Hann hlustaði á ræðu Páls, og er þessi festi auga á honum, og varð var við trú hans, að sèr yrði lækníngar auðið, sagði hann með hárri raustu:

10. Stattu upprèttur á fætur

þína; og hann stökk upp og gekk.

11. Þegar múgurinn sá, hvað Páll gjörði, hóf hann sína raust og sagði á lýkaónisku: guðirnir eru í manna líki niðurstignir til vor.

12. Barnabas nefndu þeir Seif, en Pál Hermes, af því hann frambar orðið;

13. En prestur í hofi Seifs, sem stóð fyrir framan borgina, kom með naut og kransa til dyranna og vildi fórnfæra ásamt fólkinu.

14. Þegar postularnir, Barnabas og Páll, feingu þetta að heyra, rifu þeir klæði sín og stukku fram í mannþraungina, kölluðu og sögðu:

15. Góðir menn, hví gjörið þèr slíkt? Vèr erum og menn breyskir, eins og þèr, en boðum yður þann fagnaðarsið, að þèr snúizt frá þessum fánýtu guðum til lifanda Guðs, sem gjört hefir himin, jörð og sjó, og alt sem í þeim er;

16. Sá eð um liðnar aldir hefir leyft, að sèrhver þjóð geingi sína vegu,

17. Þó hann aldrei hafi látið sig án vitnisburðar, þar eð hann hvervetna gjörði yður gott, veitti regn af himnum og frjófsamar árstíðir, og saddi yður með fæðu og fögnuði.

18. Að svo mæltu gátu þeir naumast stilt fólkið, að það færði þeim ekki fórnir.

19.¶ Síðan komu frá Antíokkíu og Íkoníu Gyðíngar, þeir er feingu lýðinn á sitt mál, svo hann þeytti steinum á Pál og dró hann út úr borginni og ætlaði hann dauðan vera,

20. En er lærisveinarnir þyrptust kríngum hann, stóð hann upp og gekk í borgina. Um morguninn eptir fór hann með Barnabasi til Derbe.

21. Og sem þeir höfðu boðað fagnaðarerindið í þeirri borg og feingið þar marga lærisveina, snèru þeir aptur til Lystru, Íkoníu og Antíokkíu,

22. Styrktu sálir lærisveinanna og ámintu þá að standa stöðugt í trúnni, og að oss byrjaði fyrir margfaldar þrautir að komast í Guðs ríki.

23. En er þeir höfðu út valið þeim öldúnga í hverjum söfnuði, báðust þeir fyrir og föstuðu, og fólu þá síðan Drottni, sem þeir höfðu trúað á.

24. Þegar þeir höfðu yfirfarið Pisidíu, komu þeir til Pamfilíu,

25. Og prèdikuðu orðið í Perge;

26. Þá fóru þeir niður til Attalíu og sigldu þaðan til Antíokkíu, hvaðan þeir höfðu verið faldir Guðs náð á hendur

til þess verks, sem þeir nú voru búnir að afljúka.

27. Þegar þeir voru þángað komnir, kölluðu þeir söfnuðinn saman og sögðu frá, hvílíka hluti Guð hefði framkvæmt fyrir þeirra hönd, og að hann hefði opnað heiðíngjunum dyr trúarinnar,

28. Og dvöldu ekki allstutta tíð hjá lærisveinunum.

## 15. KAPÍTULI.

*Páll og Barnabas eru sendir til Jerúsalem til að spyrja, hvort kristnir þyrftu að halda Mósis lögmál, og fá svar; þeir koma til Antíokkíu aptur ásamt Júdasi og Sílasi; Barnabas og Páll skilja.*

NÚ komu nokkrir ofan frá Júdea, sem kendu bræðrunum svo: ef þèr ekki umskerizt að sið Mósis, þá getið þèr ekki orðið hólpnir.

2. Þegar úr þessu varð ekki lítil misklíð og þrætni milli Páls og Barnabasar og þeirra, var það afráðið, að Páll og Barnabas og nokkrir aðrir af hinum færu til postulanna og öldúnganna upp til Jerúsalem, áhrærandi þenna ágreiníng.

3. Söfnuðurinn fylgdi þeim á veg. Síðan ferðuðust þeir um Fönisía og Samaría lönd og sögðu frá siðaskiptum heiðíngjanna, og olli það öllum bræðrunum mikils fagnaðar.

4. En þegar þeir komu til Jerúsalem, var þeim vel tekið af söfnuðinum og postulunum og öldúngunum, og skýrðu þeir frá, hversu miklu Guð hefði til leiðar komið fyrir þeirra hönd.

5. En nokkrir trúaðir af Faríseanna flokki risu þá upp, og sögðu: ekki má annað, en að þeir umskerist, og þeim sè boðið að halda Mósis lög.

6. ¶ En postularnir og öldúngarnir söfnuðust saman til að líta á þetta mál.

7. Eptir lánga umræðu stóð Pètur upp og sagði við þá: Góðir menn og bræður, þèr vitið, að Guð fyrir laungu hefir kjörið mig meðal vor til þess, að heiðíngjar skyldu fyrir minn munn heyra náðarboðskapinn og trúa;

8. Og að Guð, sem þekkir allra hjörtu, vitnaði þá þeim í vil, gefandi þeim Heilagan Anda, eins og oss,

9. Og gjörði eingan greinarmun vor og þeirra, þar hann hreinsaði með trúnni þeirra hjörtu.

10. Hví freistið þèr þá Guðs, með því að leggja það ok á lærisveinanna háls, er hvorki feður vorir nè vèr megnuðum að bera?

11. Vèr trúum þó því, að vèr verðum hólpnir fyrir náð Drottins Jesú, eins og þeir.

12. ¶ Nú þagnaði múgurinn, og hlustaði á frásögu Barnabasar og Páls um það, hversu mikil tákn og stórmerki Guð hefði látið þá framkvæma meðal heiðinna þjóða.

13. ¶ Eptir að þeir voru þagnaðir, tók Jakob til máls og sagði:

14. Góðir menn og bræður, heyrið mig. Símon hefir skýrt frá, hvernig Guð í fyrstu vitjaði heiðíngjanna, til að velja úr þeim fólk til sinnar viðurkenníngar,

15. Og þessu samhljóða eru ummæli spámannanna, því svo stendur skrifað:

16. "Eptir þetta mun eg koma aptur og endurbyggja þá föllnu tjaldbúð Davíðs; það, sem hrunið er af henni, vil eg uppbyggja og reisa hana við aptur,

17. Svo að hinir aðrir menn leiti Drottins, og allar þær þjóðir, yfir hverjum mitt nafn nefnist."

18. Þetta segir Drottinn, sem hefir framkvæmt þetta.

19. Því álykta eg, að ekki skuli íþýngja þeim, er frá heiðni snúast til Guðs;

20. Heldur skrifa þeim til, að þeir haldi sèr frá allri flekkan af skurðgoðum, og frá frillulífi og frá köfnuðu og frá blóði.

21. Því frá fornri tíð hefir Móses haft sína prèdikara í hverri borg, og er lesinn í samkundunum alla helgidaga.

22. Þá leizt það postulunum og öldúngunum og öllum söfnuðinum, að kjósa menn af sèr og senda þá með Páli og Barnabasi til Antíokkíu, Júdas, kallaðan Barsabas, og Sílas, sem vóru í miklu áliti hjá bræðrunum,

23. Og skrifuðu með þeim svo látandi brèf: Vèr, postular, öldúngar og bræður, heilsum bræðrunum, er frá heiðni hafa snúizt í Antíokkíu, Syríu og Silisíu.

24. Þar eð vèr höfum heyrt, að nokkrir, er frá oss hafa farið, hafi óróað yður með orðum sínum og truflað sálir yðar, með því að segja, að þèr eigið að umskerast og halda lögmálið, þar sem vèr þó ekki höfum boðið þeim slíkt;

25. Þá hefir oss litizt, sammála orðnum um þetta efni, að velja og senda til yðar nokkra menn, með vorum elskulega Barnabasi og Páli,

26. Mönnum, er lagt hafa líf sitt í hættu fyrir nafn Drottins vors Jesú Krists.

27. Vèr höfum því sent Júdas og Sílas, til þess að birta yður munnlega hið sama.

28. En það er atkvæði Heilags Anda og vort: að eingin þýngsli skuli yður uppáleggjast umfram þessi, sem nauðsynleg eru,

29. Að þèr haldið yður frá skurðgoðafórnum og frá blóði og frá köfnuðu og frá frillulífi. Ef þèr varizt þetta, gjörið þèr vel. Verið sælir!

30. Þeir fóru af stað, komu til Antíokkía, saman kölluðu söfnuðinn og skiluðu brèfinu.

31. En er menn lásu það, urðu þeir glaðir af slíkri huggun.

32. Júdas og Sílas, er sjálfir voru einnig spámenn, ámintu bræðurna munnlega með mörgum orðum og styrktu þá.

33. Og er þeir höfðu dvalið þar um tíma, lètu bræðurnir þá fara í friði til postulanna.

34. En Sílasi leizt að vera þar eptir.

35. Páll og Barnabas hèldu nú kyrru fyrir í Antíokkía, kendu, og boðuðu orð Drottins ásamt mörgum öðrum.

36. ¶ Eptir nokkra daga sagði Páll við Barnabas: förum aptur til að vita, hvernig bræðrunum líður í öllum borgum, þar sem vèr höfum boðað Drottins orð.

37. Barnabas lagði þá til, að þeir tækju með sèr Jóhannes, kallaðan Markús,

38. En Páli leizt að taka ekki þann mann með sèr, er hljóp frá þeim í Pamfilíu, og hafði ekki viljað gánga í verkið með þeim.

39. Út af þessu sinnaðist þeim, svo að hvor skildi við annan; tók Barnabas með sèr Markús og sigldi til Sýprus.

40. En Páll valdi sèr Sílas og fór af stað, falinn Guðs náð af bræðrunum.

41. Hann tók leið sína um Sýrland og Silisía, og styrkti söfnuðina.

## 16. KAPÍTULI.

*Páll umsker Tímóteus, vitjar safnaðanna og kemur til Tróas; fær vitrun; fer til Masedónía og snýr Lydíu til Kristni; rekur út spásagnar-anda; er húðstrýktur og settur í fángelsi; fángelsið opnast sjálfkrafa; dýflissuvörðurinn tekur trú; Páll er látinn laus.*

EN er hann kom til Derbe og Lystra, hitti hann þar einn lærisvein að nafni Tímóteus; móðir hans var Gyðínga ættar og hafði tekið trú, en faðirinn var grískur.

2. Hann hafði góðan orðstír af bræðrunum í Lystru og Íkoníu.

3. Páll vildi hafa þenna með sèr, og umskar hann sökum Gyðínga, er voru í þeim stöðum, því allir vissu, að faðir hans var grískur.

4. Þegar þeir nú fóru um borgirnar, buðu þeir mönnum

að halda þá setnínga, sem á-
lyktaðir voru af postulunum
og öldúngunum í Jerúsalem.
5. En söfnuðirnir styrktust í
trúnni og fjölguðu dag frá
degi.
6. Á ferð þeirra um Frygíu
og Galataland var þeim bann-
að af Heilögum Anda að kenna
orðið í Asíu;
7. Og sem þeir voru komnir
að Mysíu, áformuðu þeir að
fara til Bityníu, en Andinn
leyfði þeim það eigi.
8. Þeir fóru þá fram hjá My-
síu og niður til Tróas.
9. Páli vitraðist þá sú sjón
um nóttina, að maður mase-
doniskur stóð hjá honum, og
bað hann svo segjandi: kom
yfir til Masedoníu og hjálpaðu
oss.
10. En þegar hann hafði
sèð þessa sýn, leituðumst vèr
jafnskjótt við að komast yfir
til Masedoníu, fullvissir um,
að Drottinn hefði kallað oss
þángað, til að boða þar náðar-
boðskapinn.
11. Nú lögðum vèr út frá
Tróas og sigldum beinleiðis
til Samótrasíu,
12. En næsta dag til Neapó-
lis og þaðan til Filippí, sem
er höfuðborg í þeim hluta
Masedoníu, og er (rómversk)
nýlenda.
13. Í þessari borg dvöldum
vèr nokkra daga, og einn
helgan dag geingum vèr út
fyrir borgarhliðið til árinnar,
þar sem vant var að biðjast
fyrir, settumst þar niður og
töluðum við konur þær, sem
þar voru saman komnar.
14. ¶ Og kona nokkur guð-
hrædd úr Týatíra-borg, að
nafni Lydía, er seldi purpura,
heyrði til. Hennar hjarta
opnaði Drottinn, svo að hún
gaf gaum að Páls ræðu.
15. Og sem hún og hennar
hús var skírt, bað hún oss svo
feldum orðum: ef þið álítið
mig trúa Drottni, þá komið í
mitt hús og staðnæmizt þar;
og hún neyddi oss til þess.
16. ¶ En svo bar við, er vèr
geingum til bæna, að oss mætti
þerna nokkur, sem hafði spá-
sagnar-anda, og ávann hús-
bændum sínum mikið fè með
því að spá.
17. Hún hljóp eptir Páli og
oss, og hrópaði: þessir menn
eru þjónar Guðs ens hæsta,
sem boða oss hjálpræðisins veg.
18. En þetta gjörði hún marga
daga. Páli fèll það illa, snèri
sèr við og sagði við andann:
eg skipa þèr í nafni Jesú
Krists, að þú farir út af
henni; og hann fór út á samri
stundu.

19. ¶ Nú sem húsbændur hennar sáu, að sín ábatavon var úti, gripu þeir Pál og Sílas, og drógu þá á torgið til yfirvaldanna; færðu þá síðan höfuðsmönnum og sögðu:
20. Þessir menn, sem eru Gyðíngar, óróa borg vora,
21. Og boða oss siðu þá, sem oss, rómverskum mönnum, leyfist hvorki að þýðast, nè fylgja.
22. Múgurinn æstist og gegn þeim, en höfuðsmennirnir lètu fletta þá klæðum og skipuðu að húðstrýkja þá.
23. Og eptir að þeir höfðu lostið þá mörgum höggum, var þeim kastað í myrkvastofu og myrkvastofuverðinum boðið að gæta þeirra vandlega.
24. Samkvæmt skipuninni kastaði hann þeim í hið innsta varðhald, og setti fætur þeirra í stokk.
25. ¶ Um miðnætti báðust þeir fyrir, Páll og Sílas, og lofsúngu Guði, en (hinir) bandíngjarnir klustuðu á.
26. Þá varð skyndilega jarðskjálfti mikill, svo að hristist grundvöllur fángelsisins; jafnskjótt opnuðust allar dyr og fjötrarnir duttu af öllum;
27. En þegar myrkvastofuvörðurinn vaknaði og sá myrkvastofudyrnar opnar, dró hann sverðið og vildi fyrirfara sèr, því hann hèlt bandíngjana burtflúna.
28. En Páll hrópaði þá upp og sagði: gjör þú sjálfum þèr ekkert mein, því vèr erum hèr allir.
29. Hann heimti þá ljós, stökk inn og fèll felmtsfullur til fóta Páli og Sílasi, leiddi þá út og sagði:
30. Herrar, hvað á eg að gjöra, svo eg verði hólpinn?
31. Þeir sögðu: trúðu á Drottinn Jesúm Krist, þá verður þú hólpinn og þitt hús.
32. Síðan fluttu þeir honum orð Drottins og öllum þeim, er í hans húsi voru;
33. Og samstundis um nóttina tók hann þá með sèr og þvoði benjar þeirra, og var hann tafarlaust skírður og allir hans menn.
34. Og sem hann hafði leitt þá í hús sitt, setti hann borð fyrir þá, og var glaður ásamt öllu sínu heimafólki yfir því, að hann trúði á Guð.
35. Þegar bjart var orðið, sendu höfuðsmennirnir þjóna staðarins með svo látandi skilaboð: láttu þessa menn lausa.
36. En myrkvastofuvörðurinn kunngjörði Páli þessi orð: höfuðsmennirnir sendu híngað, að þèr skylduð lausir látast.

Gángið því nú út, og farið í friði.

37. En Páll sagði við þá: þeir hafa opinberlega látið húðstrýkja oss, sem erum rómverskir menn, án dóms, og setja í myrkvastofu, og nú ætla þeir leynilega að reka oss á burt. Ekki skal svo vera, heldur komi þeir sjálfir og leiði oss út.

38. En þjónar staðarins kunngjörðu þessi orð höfuðsmönnunum. Þeir urðu hræddir, þá þeir heyrðu, að það væru rómverskir menn,

39. Komu og fóru vel að þeim, og er þeir höfðu leitt þá út, báðu þeir þá að fara úr borginni.

40. Eptir að nú Páll og Sílas voru sloppnir úr þessu varðhaldi, fóru þeir til Lydíu, fundu þar bræðurna, upphvöttu þá, og fóru svo burt.

## 17. KAPÍTULI.

*Páll kennir, en mætir ofsókn í Tessaloníku og Beróaborg: fer til Atenuborgar, prèdikar mót skurðgoðadýrkun og um Jesúm; snýr nokkrum.*

EN er þeir höfðu farið um Amfípólis og Appollóníu, komu þeir til Tessaloníku, þar sem var samkunduhús Gyðínga.

2. En Páll gekk þar inn til þeirra eptir venju sinni, og þrjá helgidaga átti hann tal við þá, útlagði fyrir þeim ritníngarnar, og setti þeim fyrir sjónir,

3. Að Kristur hefði átt að líða píslir og rísa upp frá dauðum; og þessi er sá Jesús Kristur (sagði hann), sem eg boða yður.

4. Nokkrir af þeim lètu sèr segjast, og samlöguðu sig Páli og Sílasi, svo og mikill fjöldi guðrækinna Grikkja og mikilsháttar konur ekki allfáar.

5. ¶ En Gyðíngarnir tóku með sèr nokkra vonda menn af þorparalýðnum, drógu flokk saman og gjörðu upphlaup í borginni, þustu svo að húsi Jasons og leituðu að þeim, til að færa þá fyrir lýðinn.

6. En er þeir fundu þá ekki, drógu þeir Jason og nokkra bræður fyrir yfirvöld borgarinnar, og hrópuðu: þeir menn, sem vakið hafa óeirðir um allan heim, eru hèr komnir,

7. Jason hýsir þá, og allir þessir breyta á móti keisarans boðum, því þeir segja, að annar sè konúngur, og það sè Jesús.

8. Þá varð almúginn uppvægur og yfirmenn borgarinnar, er þeir heyrðu þetta,

9. Og lètu Jason og hina aðra setja vörzlur fyrir sig, og sleptu þeim svo;

10. ¶ En bræðurnir komu Páli og Sílasi undan þegar um nóttina til Beróeu. Þegar þar var komið, geingu þeir inn í samkunduhús Gyðínga,

11. Sem voru betur sinnaðir, en þeir í Tessaloníku, svo þeir meðtóku lærdóminn með fúsu geði og rannsökuðu hvern dag ritníngarnar, hvort svo væri (sem þeim var kent);

12. Margir urðu því trúaðir af þeim, og ekki allfátt af grískum konum í betri röð, og karlmönnum.

13. En er Júdarnir í Tessaloníku frèttu, að í Beróea væri einnig boðað Guðs orð af Páli, komu þeir og uppæstu lýðinn einnig þar.

14. En jafnskjótt skutu bræðurnir Páli undan, svo hann færi út að sjó, en Sílas og Tímóteus urðu þar eptir.

15. Leiðsögumenn Páls fylgdu honum alt til Atenuborgar og báru aptur þau skilaboð til Sílasar og Tímóteusar, að þeir hið bráðasta kæmu til hans.

16. ¶ En meðan Páll beið þeirra í Atenuborg, gramdist honum hugur að sjá, hvílíkt skurðgoða bæli sú borg var;

17. Þessvegna kendi hann í samkunduhúsinu, bæði Gyðíngum og öðrum guðhræddum, líka hvern dag á torginu þeim, sem hann þar hitti;

18. En nokkrir epíkúriskir og stóiskir spekíngar gáfu sig í orðakast við hann. Nokkrir sögðu: hvað mun skraffinnur sá ætla sèr? Aðrir sögðu: ókenda guði sýnist hann boða; af því Páll boðaði Jesúm og upprisuna.

19. Þeir leiddu hann nú upp á Areópagus og sögðu: megum vèr fá að vita, hver sá nýi lærdómur er, sem þú ferð með?

20. Því eitthvað nýstárlegt flytur þú oss til eyrna, og oss fýsir að vita, hvað þetta er.

21. En öllum Atenumönnum, eins þeim, er dvöldu þar sem aðkomandi, var um ekkert svo títt, sem að segja eður heyra eitthvað nýstárlegt.

22. ¶ Þegar Páll þannig stóð mitt á Areópagus, mælti hann: Atenumenn, það sè eg hvervetna, að þèr eruð miklir trúmenn;

23. Því þá er eg gekk hèr um og skygndist eptir yðar helgidómum, fann eg meðal annars eitt altari, sem skrifað var á: "hinum ókunna Guði." Þenna, er þèr óvitandi dýrkið, boða eg yður.

24. Sá Guð, sem gjörði heiminn og alt, sem í honum er, hann, sem er Herra himins og

jarðar, býr ekki í musterum, sem með höndum eru gjörð,

25. Ekki heldur verður honum þjónað með mannahöndum, eins og hann þyrfti nokkurs við, þar hann sjálfur gefur öllu líf og andardrátt og sèrhvað annað.

26. Hann lèt af einum ættstofni allra manna kynþætti útkvíslast um gjörvalla jarðarkríngluna, og hann hefir fastsett ákvörðuð tímabil og takmörk fyrir þjóðanna bústaði,

27. Svo þær skyldu leita Guðs, ef verða mætti þær þreifuðu á honum og fyndu hann, jafnvel þó hann sè nálægur hverjum einum af oss;

28. Því í honum lifum, hrærumst og erum vèr, eins og nokkur skáld yðar hafa sagt: "Vèr erum hans ættar."

29. Fyrst vèr erum nú Guðs ættar, megum vèr ekki hugsa, að guðdómurinn sè líkur gulli, silfri, eður steini, mynduðu með hagleik af hugviti manna.

30. Að sönnu hefir Guð sèð í gegnum fíngur við vanvizkunnar tíðir, en nú lætur hann öllum mönnum allstaðar bjóða, að þeir taki sinnaskipti;

31. Því hann hefir fastsett dag, á hverjum hann ætlar að dæma heimsbygðina með rèttvísi af manni, er hann hefir þar til kjörið, og gaf öllum fullvissu um það, með því að reisa hann frá dauðum.

32. ¶ En er þeir heyrðu nefnda upprisu framliðinna, gjörðu sumir gys að, en aðrir sögðu: vèr viljum heyra þig öðru sinni tala um þetta.

33. Þannig skildi Páll við þá.

34. Nokkrir menn, sem hèldu sèr til hans, urðu trúaðir, meðal þeirra var Díonysíus, einn af æðstu dómherrunum, og kona nokkur, að nafni Damaris, og aðrir fleiri.

## 18. KAPÍTULI.

*Páll kennir í Korintuborg; Gyðíngar standa í gegn honum, en Guð hughreystir hann; Páll kemur til Efesus og fleiri staða; Apollós uppfræðist af Akvíla og fer til Akkea.*

EN eptir þetta fór Páll úr Atenuborg og kom til Korintuborgar;

2. Þar hitti hann Gyðíng, ættaðan frá Pontus, að nafni Akvílas, og konu hans Priskillu. Hann var nýlega kominn úr Ítalíu, því Kládíus keisari hafði skipað, að allir Gyðíngar skyldu fara burt úr Róm.

3. Páll fór til þeirra og settist að hjá þeim, því báðir höfðu sömu iðn og voru tjaldgjörðarmenn, og tók til vinnu,

4. En kendi hvern helgan dag

í samkunduhúsinu, og sannfærði bæði Gyðínga og Grikki.

5. En er Sílas og Tímóteus komu frá Masedoníu, var Páll stöðugt við kennínguna og vitnaði fyrir Gyðíngum, að Jesús væri Kristur.

6. En er þeir urðu uppvægir móti honum og smányrtu hann, hristi hann duptið af klæðum sínum, og sagði við þá: yðvart blóð sè yfir yðar höfði, eg em hreinn; hèr eptir fer eg til heiðíngja.

7. ¶ Síðan fór hann þaðan og kom í hús þess manns, er hèt Jústus, sem dýrkaði Guð og átti hús áfast við samkunduna.

8. En Krispus, samkunduhöfðínginn, trúði á Drottinn, og alt hans heimafólk; líka tóku margir Korintumenn trú, þeir sem höfðu heyrt lærdóminn, og voru þar skírðir.

9. Eina nótt sagði Drottinn í sýn við Pál: óttast ekki, heldur tala og þeg ekki;

10. Því eg em með þèr, og einginn skal festa hönd á þèr til að gjöra þèr ilt, því eg á margt fólk í þessari borg.

11. Hann hèlt þar kyrru fyrir í þrjú missiri og kendi þeim Guðs orð.

12. ¶ En þegar Gallíon var landstjóri í Akkea, tóku Gyðíngar sig upp með einu samheldi á móti Páli og drógu hann fyrir dómstólinn og sögðu:

13. Þessi ræður mönnum til þeirrar guðsdýrkunar, sem gagnstæð er lögmálinu.

14. Í því Páll ætlaði að gegna til, svaraði Gallíon Gyðíngum: ef hèr væri að gjöra um órèttindi einhver eður illvirki, þá skyldi eg, Gyðíngar, veita yður tilhlýðilega áheyrn;

15. En fyrst það er þræta um lærdóm og nöfn og yðar eigin lög, þá sjáið um það sjálfir, því eg vil ekki leggja dóm á slíka hluti;

16. Og hann rak þá frá dómstólnum.

17. Allir hinir grísku tóku þá Sóstenes, samkunduhúss-höfðíngjann, og börðu hann fyrir dómstólnum, en Gallíon skipti sèr ekki af því.

18. ¶ En Páll beið þar enn marga daga, síðan kvaddi hann bræðurna, og sigldi til Sýrlands, ásamt Priskillu og Akvílas, þá hann var búinn að raka höfuð sitt í Kenkreu, því hann hafði heitbundið sig.

19. Þar eptir fór hann til Efesus, og skildi þau þar eptir, en gekk sjálfur inn í samkunduhúsið og talaði fyrir Gyðíngum;

20. Báðu þeir hann að tefja hjá sèr um hríð, en hann sam-

sinti því ekki, heldur kvaddi
þá og sagði:
21. Mèr ber að halda hátíðina,
sem í hönd fer, í Jerúsalem, en
eg skal koma til yðar aptur, ef
Guð vill.
22. Svo fór hann frá Efesus
og kom niður til Sesareu, og
þaðan fór hann upp til Jerú-
salem, og þá hann hafði heils-
að söfnuðinum, fór hann niður
til Antíokkíu.
23. Hèr dvaldi hann nokkra
stund, en fór svo um alt Ga-
lataland og Frygíu, og styrkti
alla lærisveinana.
24. ¶ En til Efesus kom Gyð-
íngur nokkur, Appollós að
nafni, ættaður frá Alexandríu,
tölugur maður og vel að sèr í
ritníngunum.
25. Hann hafði feingið tilsögn
í lærdómi Drottins, og þar eð
hann hafði brennandi andagipt,
talaði hann og kendi nákvæm-
lega um Jesúm, þekti þó ekki
nema skírn Jóhannesar.
26. Þessi tók sköruglega að
prèdika í samkunduhúsinu, og
er Akvílas og Priskilla heyrðu
það, tóku þau hann að sèr og
útlistuðu ýtarlega fyrir honum
Guðs veg.
27. En er hann fýsti að fara
yfir um til Akkeu, hvöttu
bræðurnir hann til þess, og
skrifuðu lærisveinunum að
taka honum vel. Þegar hann
var þángað kominn, varð hann
hinum trúuðu til mikillar nyt-
semi fyrir (Guðs náð);
28. Því sköruglega hrakti
hann Gyðínga opinberlega í
orða viðskiptum, og sannaði
af ritníngunum, að Jesús væri
Kristur.

## 19. KAPÍTULI.

*Páll leggur hendur yfir nokkra í Efesus; kennir þar í tvö ár, og gjörir furðuverk. Særíngamönnum er misþyrmt af djöfulóðum manni; margir snúa sèr til kristni; þegar Páll ætlar til Grikklands, vekur Demetríus upphlaup.*

EN svo bar við, meðan Ap-
pollós var í Korintu, að
Páll, eptir ferð sína um Asíu
upplönd, kom til Efesus, og
hitti fyrir nokkra lærisveina,
sem hann sagði við:
2. Hafið þèr meðtekið Heil-
agan Anda, þegar þèr tókuð
trú? Þeir svöruðu nei, vèr
höfum ekki svo mikið sem
heyrt, að Heilagur Andi sè til.
3. Hann spurði þá: upp á
hvað eruð þèr þá skírðir?
Þeir sögðu: upp á Jóhann-
esar skírn.
4. Páll svaraði: að vísu skírði
Jóhannes með iðrunar skírn,
því hann sagði fólkinu að trúa
á þann, sem eptir sig kæmi,
það er á Jesú Krist.
5. Þegar þeir heyrðu það,
lètu þeir sig skíra í nafni
Drottins Jesú.

6. Og sem Páll hafði lagt hendur yfir þá, kom yfir þá Heilagur Andi, svo þeir töluðu túngum og spáðu.
7. Als voru þessir hèr um bil tólf karlmenn að tölu.
8. Nú gekk hann í samkunduhúsið og kendi einarðlega um þrjá mánuði, og leiddi til sannfæríngar um það, sem heyrir til Guðs ríkis.
9. En er nokkrir sýndu þverúð og lètu ekki skipast, heldur hallmæltu lærdóminum í fólksins áheyrn, hætti hann við þá, skildi lærisveinana frá, og kendi hvern dag í skóla manns nokkurs, er Týrannus hèt.
10. Þessu fór fram tvö ár, svo allir, sem bjuggu í Asíu, bæði Gyðíngar og Grikkir, heyrðu lærdóm Drottins;
11. Einnig gjörði Guð óvenjuleg kraptaverk fyrir hendur Páls,
12. Svo að jafnvel þegar sveitadúkar, sem Páll bar næst sèr, og fyrirskyrtur voru lagðar yfir sjúka, þá yfirgáfu sjúkdómarnir þá, og illir andar fóru út af þeim.
13. ¶ Þá tóku nokkrir umrennandi Gyðíngar, sem vóru særíngamenn, sèr fyrir, að nefna yfir þeim, er þjáðust af illum öndum, nafn Drottins Jesú, segjandi: eg særi yður við Jesúm, sem Páll prèdikar.
14. Meðal þeirra, er þetta gjörðu, voru sjö synir Skevu, eins Gyðínga höfuðprests.
15. Þá svaraði hinn vondi andi: Jesúm þekki eg, og við Pál kannast eg, en hverjir eruð þèr?
16. Og maðurinn, sem sá vondi andi var í, flaug á þá, varð þeim yfirsterkari og lèt þá finna til afls síns, svo að þeir flúðu naktir og særðir úr húsinu.
17. En þetta varð kunnugt öllum Gyðíngum og Grikkjum, er bjuggu í Efesus, og ótta sló yfir alla, og nafn Drottins Jesú miklaðist.
18. Margir sem við trú höfðu tekið komu nú, játuðust og sögðu frá athæfi sínu.
19. Líka komu margir, er farið höfðu með kukl, með bækur, og brendu þær öllum ásjáandi. Verð þeirra var reiknað saman og var upphæð þess fimmtíu þúsund silfurpeníngar.
20. Orð Drottins vóx þannig og efldist kröptuglega.
21. ¶ En er þessu var orðið framgengt, ásetti Páll sèr í anda, að ferðast um Masedóníu og Akkeu til Jerúsalem og sagði: þegar eg er

búinn að vera þar, ber mèr
að sjá Róm.
22. Nú sendi hann tvo, sem
voru honum við hönd, Tímóteus
og Erastus, til Masedóníu, en
dvaldi sjálfur um tíma í Asíu.
23. En um sama leiti reis ekki
all-lítill órói út af lærdóminum,
24. Því silfursmiður nokkur,
að nafni Demetríus, sem bjó
til silfurmusteri Díönu, aflaði
öðrum smiðum stórkostlegs
ábata.
25. Þessa kallaði hann saman,
og aðra, er unnu að þess hátt-
ar, og sagði: Góðir menn, þèr
vitið, að á þessu verki stendur
okkar velmegan;
26. Einnig sjáið þèr og heyr-
ið, að ekki einúngis í Efesus-
borg, heldur nær um gjörvalla
Asíu, hefir Páll þessi talið trú
um og feingið á sitt mál fjölda
fólks, með því að segja, að það
sèu ekki guðir, sem með hönd-
um eru smíðaðir.
27. Nú horfir þetta ekki ein-
úngis iðn vorri til smánar,
heldur einnig, að musteri
hinnar miklu Díönu verði
einskis virt, já, jafnvel að tign
hennar gjöreyðist, sem öll Asía
og jarðarkrínglan dýrkar.
28. Þá þeir heyrðu þetta,
urðu þeir afarreiðir, æptu upp
og sögðu: mikil er Díana Ef-
esusmanna!
29. Öll borgin varð nú upp-
væg, og allir æddu samhuga
til sjónarplázins, og hrifu með
sèr Masedónana, Kajus og
Aristarkus, förunauta Páls.
30. En er Páll vildi gánga
fram í mannþraungina, leyfðu
lærisveinarnir honum það ekki;
31. Einnig sendu nokkrir
Austurálfu höfðíngjar, sem
voru honum vinveittir, honum
boð, og rèðu honum frá að
koma á sjónarplázið.
32. Aðrir hrópuðu nú svo, en
aðrir öðruvísi, því mannsöfn-
uðurinn var uppvægur, og
fæstir vissu, hvers vegna þeir
voru þar saman komnir.
33. Nú var togaður fram úr
mannþraunginni Alexander,
sem Gyðíngar ýttu fram; hann
bandaði með hendinni sèr til
hljóðs og vildi verja mál sitt
fyrir fólkinu.
34. En er þeir vissu, að hann
var Gyðíngur, æptu allir ein-
um munni og hrópuðu nærri
tvær stundir; mikil er Díana
í Efesus.
35. En þegar staðarskrifar-
inn gat stöðvað fólkið mælti
hann: Efesusmenn, hver er sá,
er ekki viti, að Efesusborg
geymir musteri hinnar miklu
Díönu og líkneski það, sem af
himni er fallið.
36. Nú, þar þetta er ómót-

mælanlegt, þá ber yður að
vera stiltum og ekki hrapa að
neinu.
37. Því þèr hafið dregið þessa
menn híngað, sem hvorki hafa
rænt hofin, nè lastað gyðju
yðar.
38. Hafi Demetríus og smið-
irnir, lagsmenn hans, kærumál
móti nokkrum, þá eru þíng-
höld að fá, og landstjórar til,
eigist þeir lög við;
39. En ef þèr hafið nokkur
önnur mál að kæra, þá má
gjöra út um þau á löglegri
samkomu.
40. Því oss er búin hætta að
verða sakaðir um upphlaup
sökum óróans í dag, þar ekk-
ert verður borið fyrir, sem vèr
getum mælt slíku uppþoti bót
með. Að svo mæltu lèt hann
mannsöfnuðinn skiljast að.

## 20. KAPÍTULI.

*Páll fer til Masedóníu og Grikklands og þaðan aptur til Tróas, og kennir þar og endurlífgar Evtýkus; heldur áfram til Assus og Míletus; hèr kveður hann öldúnguna í Efesus með hrærðu hjarta.*

EN eptir að þessi órói var
stöðvaður, kallaði Páll
lærisveinana saman, kvaddi þá
og fór af stað til Masedóníu.
2. Og er hann hafði farið um
þau landspláz og með mörgum
orðum ámint bræðurna, kom
hann til Grikklands.
3. Þar dvaldi hann þrjá mán-
uði; en er honum voru veitt
umsátur af Gyðíngum, þá hann
ætlaði tíl Sýrlands, varð hann
þess sinnis að snúa aptur um
Masedóníu.
4. Fylgdu honum þá á veg
alt til Asíu, Sópater frá Be-
róeu, Aristarkus og Sekúndus
frá Tessaloníku, Gajus frá
Derbe og Tímóteus; en af
Austurálfumönnum Týkíkus
og Trófímus.
5. Þessir fóru á undan oss og
biðu vor í Tróas.
6. En vèr sigldum eptir daga
hinna ósýrðu brauðanna frá
Filippí, og hittum þá á fimta
degi í Tróas, og töfðum þar
sjö daga.
7. En á fyrsta degi vikunnar,
þá vèr vorum samankomnir til
að brjóta brauðið, hèlt Páll
ræðu því hann ætlaði að ferð-
ast morguninn eptir, og teygði
ræðuna til miðnættis.
8. En mörg ljós brunnu á
loptsalnum þar sem vèr vorum
saman komnir;
9. En í glugganum sat eitt
úngmenni að Nafni Evtýkus;
á hann fèll þúngur svefn, þá
Páll ræddi svo leingi, og yfir-
kominn af svefninum datt hann
ofan úr þriðja lopti niður á
á jafnslèttu og var tekinn upp
andvana.

10. Páll gekk þá ofan, lagðist
niður að honum, umfaðmaði
hann, og sagði: gjörið eingan
hávaða. Hann er með lífi;
11. Stè síðan upp aptur,
braut brauðið og neytti, tal-
aði við þá leingi, alt þar til
dagur ljómaði, og fór svo
leiðar sinnar;
12. En þeir fóru burt með
sveininn lifanda, og urðu næsta
glaðir.
13. ¶ En vèr, sem á undan
vorum gengnir til skips, fórum
til Assus þar sem vèr ætluð-
um að taka Pál á skip, því svo
hafði hann ráð fyrir gjört, en
ætlaði að fara þángað fótgáng-
andi.
14. Þá fundum vorum hafði
borið saman í Assus og vèr
höfðum tekið við honum, kom-
um vèr til Mitýlene.
15. Þaðan sigldum vèr og
komumst annars dags gagn-
vart Kíos. En daginn eptir
lögðum vèr að Samus, og
stöldruðum við í Trógillíon,
og komum næsta dag til
Míletus.
16. Því Páll ætlaði að sigla
fram hjá Efesus, svo hann tefði
sem skemmst í Asíu, því hann
flýtti sèr, svo að hann, ef mögu-
legt yrði, gæti verið á hvíta-
sunnu hátíðinni í Jerúsalem.
17. ¶ En frá Míletus sendi
hann til Efesus, og boðaði til
sín öldúnga safnaðarins;
18. Og sem þeir voru til hans
komnir, ávarpaði hann þá
þannig: Þèr vitið, hvernig eg,
einlægt frá þeim fyrsta degi
eg kom í Asíu, hefi hagað mèr
meðal yðar,
19. Að eg hefi þjónað Drottni
með allri auðmýkt, opt með
tárum og í freistíngum, sem
Gyðínganna vèlræði hafa bak-
að mèr;
20. Hversu eg hefi ekkert
undanfelt, það yður væri til
nytsemdar, heldur birt það
og kent, bæði opinberlega og
í heimahúsum,
21. Áminnandi bæði Gyðínga
og Grikki, að snúa sèr til Guðs
og til trúarinnar á Drottinn
vorn Jesúm Krist;
22. Og sjáið, nú em eg bund-
inn í anda að fara upp til Je-
rúsalem, óviss um, hvað þar
muni mæta mèr,
23. Nema hvað Heilagur Andi
í sèrhverri borg birtir mèr og
segir mèr, að fjötur og harm-
kvæli bíði mín.
24. En eg set það ekkert fyrir
mig, met og ekki dýrt líf mitt,
svo að eg með gleði fullendi
mitt skeið og embætti, sem eg
hefi tekið við af Drottni Jesú,
að auglýsa hátíðlega fagnaðar-
boðskap guðlegrar náðar.

25. Og takið nú eptir, eg veit, að einginn yðar allra, sem eg hefi gengið á meðal og boðað Guðs ríki, muni framar sjá auglit mitt.

26. Því vitna eg nú fyrir yður í dag, að eg em hreinn af blóði allra;

27. Því eg hefi ekki hlífzt við að opinbera yður alt Guðs ráð.

28. ¶ Hafið nú gát á sjálfum yður og á allri hjörðinni, sem Heilagur Andi setti yður tilsjónarmenn yfir, að annast söfnuð Drottins, sem hann hefir útvegað með sjálfs síns blóði;

29. Því þetta veit eg, að eptir burtför mína munu grimmir vargar smeygja sèr inn á milli yðar, sem ekki munu þyrma hjörðinni;

30. Og meðal sjálfra yðar munu rísa upp menn, og fara með rángsnúna lærdóma, til að leiða lærisveinana afvega með sèr.

31. Vakið þess vegna og verið þess minnugir, að eg hefi í þrjú ár, nótt og dag, ekki aflátið, með grátandi tárum að áminna hvern og einn.

32. Og nú fel eg yður, bræður, Guði og orði hans náðar, sem máttugt er enn betur að efla yður og veita yður arftöku meðal allra helgaðra.

33. Einkis silfur eða gull eður klæði hefi eg girnzt.

34. Sjálfir vitið þèr, að hendur þessar hafa unnið fyrir nauðsynjum mínum og þeirra, sem með mèr voru.

35. Í öllu sýndi eg yður, að oss byrjaði þannig að vinna, og aðstoða hjálparþurfendur, og minnast orða Drottins Jesú, því hann sagði: "Sælla er að gefa, en að þiggja."

36. ¶ Að svo mæltu fèll hann á knè og baðst fyrir, ásamt þeim öllum,

37. Og þeir grètu allir hástöfum, lögðu hendur um háls Páli og kystu hann,

38. Mest sorgbitnir af því orði, er hann hafði sagt, að þeir aldrei framar mundu sjá hans auglit; og þeir fylgdu honum til skips.

## 21. KAPÍTULI.

*Páll kemur til Týrus, Tólemais og Sesareu, og þar spá dætur Filippusar, og Agapus fyrir segir Páli fángelsi; Páli er tekið vel í Jerúsalem; hann segir frá framkvæmdum sínum; honum er ráðið, sökum Gyðínga, að láta hreinsa sig í musterinu, og þar er hann handtekinn; yfirmaður kastalans frelsar hann og leyfir honum að verja sig.*

EPTIR að vèr höfðum slitið oss frá þeim og vorum komnir í rúmsjó, sigldum vèr beinleiðis til Kós, og næsta dag til Ródus, og þaðan til Patara.

2. Þar fundum vèr skip, er

var ferðbúið til Fönisíu, stig-
um á það og sigldum burt.
3. En sem vèr feingum land-
sjón af Kýpur, lètum vèr hana
á bakborða og sigldum svo til
Sýrlands og tókum höfn í Týr-
us, því skipið átti að leggja
þar upp farminn.
4. Þar fundum vèr lærisvein-
ana og dvöldum hjá þeim sjö
daga. Þeir sögðu Páli af anda-
gipt, að hann ekki skyldi fara
upp til Jerúsalem.
5. En þó fórum vèr að þess-
um sjö dögum liðnum á stað,
og fylgdu þeir oss allir, ásamt
konum og börnum, út fyrir
staðinn; þar fèllum vèr á knè
í fjörunni og báðumst fyrir.
6. Og eptir að vèr höfðum
kvatt hverjir aðra, stigum vèr
á skip, en þeir snèru heim
til sín,
7. En vèr enduðum siglínguna,
fórum frá Týrus og komum til
Tólemais, heilsuðum bræðrun-
um og töfðum hjá þeim einn
dag.
8. Daginn eptir fórum vær á
burt og komum til Sesareu,
þar geingum vèr inn í hús Fi-
lippusar guðspjallamanns, sem
var einn af þeim sjö, og sett-
umst að hjá honum.
9. Hann átti fjórar ógiptar
dætur, er spáðu;
10. Og sem vèr dvöldum þar
ekki allfáa daga, kom spámað-
ur nokkur ofan frá Júdeu,
Agapus að nafni;
11. Hann kom til vor, tók upp
linda Páls, batt hendur sínar
og fætur og mælti: svo segir
Andinn sá hinn Heilagi: þann
mann, er þetta belti á, munu
Gyðíngar þannig binda í Jerú-
salem og ofurselja í heiðíngja
hendur.
12. Þegar vèr heyrðum slíkt,
báðum vèr og þeir, sem þar-
lendir voru, Pál, að fara ekki
upp til Jerúsalem; en hann
svaraði:
13. Hví grátið þèr og hrellið
huga minn? Því eg em reiðu-
búinn, ekki einúngis að láta
mig binda, heldur og að deya
í Jerúsalem, sökum nafns
Drottins Jesú.
14. Þar hann ekki vildi fallast
á ráð vort, þögnuðum vèr og
sögðum: verði Drottins vilji!
15. Þegar alt var nú tilbúið
til ferðarinnar, fórum vèr upp
til Jerúsalem.
16. Nokkrir af lærisveinunum
frá Sesareu fóru með og höfðu
með sèr Mnason frá Kýpur,
sem var gamall lærisveinn; hjá
honum skyldum vèr gista.
17. En þegar vèr komum til
Jerúsalem, tóku bræðurnir oss
feginsamlega,
18. Og næsta dag gekk Páll

með oss til Jakobs, og allir öldúngarnir komu þangað.

19. Eptir að hann hafði heilsað þeim, inti hann þeim skilmerkilega sèrkvað eina, sem Guð hafði framkvæmt fyrir hans þjónustu, meðal heiðinna þjóða.

20. Við þessar fregnir vegsömuðu þeir Drottinn, og sögðu við hann: Þú sèr, bróðir, hversu margar þúsundir Gyðínga hafa tekið trú. Allir þeir eru vandir að því, að lögmálið sè haldið,

21. En þeim er sagt um þig, að þú kennir öllum Gyðíngum, er búa meðal heiðíngja, fráhvarf frá Móse með þeim ummælum, að þeir eigi hvorki að umskera börn sín, nè fylgja hans setníngum.

22. Hvað er hèr við að gjöra? Vafalaust hlýtur almenníngur að koma saman, því menn munn heyra, að þú sèrt kominn.

23. Gjör nú það, sem vèr segjum þèr; hjá oss eru fjórir menn, sem bundnir eru heiti;

24. Tak þá til þín, hreinsa þig með þeim og kosta upp á þá, að þeir fái rakað höfuð sín, þá mega allir sjá, að ekkert er til í því, sem um þig er talað, heldur að þú sjálfur haldir lögmálið.

25. En að því er heiðíngjana áhrærir, sem við trú hafa tekið, þá erum vèr búnir að gefa út brèf og höfum úrskurðað, að þeir þurfi ekkert slíkt að halda, utan að sneiða hjá skurðgoða-fórn og blóði og köfnuðu og frillulífi.

26. Þá tók Páll mennina til sín, og daginn eptir, þá hann hafði hreinsað sig, gekk hann með þeim i musterið, og lýsti því, að hann ætlaði að útenda hreinsunar dagana þángað til hvers eins þeirra fórn væri framborin.

27. En undir það þeir sjö dagar voru að enda, þá Júdar frá Asíu sáu Pál í musterinu, æstu þeir allan lýðinn upp og lögðu á hann hendur, og hrópuðu:

28. Góðir Ísraelsmenn, hjálpið, hèr er maðurinn, sem allstaðar er að kenna öllum, í móti þjóð, lögmáli og stað þessum. Þar á ofan hefir hann innleitt Grikki í musterið og saurgað þenna heilaga stað.

29. Því þeir höfðu sèð áður Trófímus frá Efesus með honum í borginni, og hugsuðu, að Páll hefði leitt hann í musterið.

30. Öll borgin varð nú uppvæg, og múgurinn flyktist saman, greip Pál og dró hann út

úr musterinu, og jafnskjótt var
dyrunum læst.
31. En í því þeir leituðust við
að lífláta hann, barst sú saga
upp til foríngja herflokksins,
að öll Jerúsalem væri í upp-
námi.
32. Hann tók þá í skyndi
hermenn og hundraðshöfðíngj-
a, og hljóp niður til þeirra;
en þegar hinir sáu hermanna
foríngjann og stríðsmennina,
hættu þeir að lemja Pál.
33. Hershöfðínginn kom nú
að, tók Pál og skipaði að
binda hann með tveimur viðj-
um, spurði svo, hver hann
væri og hvað hann hefði að-
hafzt;
34. En sitt kallaði hver úr
mannfjöldanum, og er hann
gat ekkert áreiðanlegt uppgötv-
að sökum óróans, bauð hann
að leiða hann í herbúðirnar.
35. Þá komið var að tröppun-
um, hlutu stríðsmennirnir að
bera Pál, sökum áfergju mann-
fjöldans;
36. Því þorri fólksins flykt-
ist með, og hrópaði: lát hann
ekki lifa.
37. Og þegar átti að fara með
Pál inn í herbúðirnar, sagði
hann við herforíngjann: leyfist
mèr að tala nokkur orð við
þig? En hann svaraði: kantu
grísku?
38. Ertu ekki sá egypzki mað-
ur, sem fyrir skemstu vaktir
styrjöld og færðir út á eyði-
mörk fjögur þúsund morð-
íngja?
39. Páll svaraði: eg em Gyð-
íngur, ættaður frá Tarsus, og
borgari þessa nafnkenda stað-
ar í Silisíu: eg bið því, leyf
mèr að tala til fólksins.
40. Að því leyfi feingnu nam
Páll staðar á tröppunum og
bandaði hendinni til fólksins,
og er gott hljóð fèkkst, talaði
hann til þeirra á hebreska
túngu og sagði:

## 22. KAPÍTULI.

*Páll segir frá hvernig hann snèrist til kristni og fèkk köllun til að kenna heiðnum þjóðum; Gyðínga óhljóð móti honum; herstjórinn ætlar að láta húðstrýkja hann, en vogar ekki, þar eð Páll var rómverskur borgari; leiðir hann fyrir ráðið.*

GÓÐIR menn, bræður og
feður, hlustið nú á máls-
vörn mína fyrir yður.
2. En er þeir heyrðu hann
ávarpa sig á hebresku, urðu
þeir enn hljóðari.
3. Eg em, sagði hann, Gyð-
íngur, fæddur í Tarsus í Silisíu,
en uppalinn í þessari borg við
fætur Gamalíels, mentaður í
allri nákvæmni feðranna lög-
máls, og var vandlætari vegna
Guðs, eins og þèr allir eruð
enn í dag,
4. Og ofsókti þenna lærdóm

fram í dauðann, batt menn og konur og seldi í fángelsi,
5. Einsog æðsti presturinn og alt öldúngaráðið mun bera mèr vitni, því af þeim tók eg og brèf til bræðranna, og fór til Damaskus í þeim tilgángi að flytja þá, er þar væru, bundna til Jerúsalem, svo þeim yrði hegnt.
6. Þegar eg var á þeirri ferð og nálgaðist Damaskus, bar svo til, nær miðjum degi, að um mig leiptraði skyndilega ljós mikið af himni.
7. Eg fèll til jarðar og heyrði raust, er sagði við mig: Sál, Sál, því ofsækir þú mig?
8. En eg svaraði: hver ertu, Herra? Hann sagði við mig: eg em Jesús af Nazaret, sem þú ofsækir.
9. Mennirnir, sem með mèr voru, sáu ljósið og urðu felmtsfullir, en raust þess, er við mig talaði, heyrðu þeir ekki.
10. Þá sagða eg: Herra, hvað á eg að gjöra? Drottinn svaraði mèr: stattu upp og gakk til Damaskus, þar verður þèr kunngjört alt, sem þèr er ætlað að gjöra.
11. En af því ofbirta ljóssins hafði gjört mig sjónlausan, leiddu samferðamennirnir mig, sèr við hönd svo eg komst til Damaskus.
12. Þar var einn guðrækinn maður eptir lögmálinu, Ananías að nafni, velþokkaður af öllum Gyðíngum, er þar bjuggu;
13. Hann kom til mín, stóð yfir mèr og sagði við mig: Sál bróðir, lít þú upp; og samstundis leit eg upp á hann.
14. Hann sagði þá: Guð feðra vorra hefir fyrirhugað þèr að þekkja sinn vilja og að sjá hinn Rèttláta og að heyra raust af hans munni;
15. Því þú átt að verða hans vottur til allra manna, um það sem þú hefir sèð og heyrt, og hvað hikar þú nú?
16. Stattu upp, lát skíra þig, og afþvo syndir þínar, og ákalla hans nafn.
17. En svo bar og við, eptir að eg hafði snúið aptur til Jerúsalem og baðst fyrir í musterinu, að eg varð frá mèr numinn,
18. Og sá hann sjálfan og hann sagði við mig: flýt þèr og far sem skjótast burt úr Jerúsalem, því að ekki munu þeir meðtaka þinn vitnisburð um mig.
19. Þá svaraði eg: Herra, þeir vita sjálfir, að eg kastaði í fángelsi og húðfletti í samkundunum þá, sem trúðu á þig,
20. Og þegar blóði Stefáns, vitnis þíns, var úthelt, stóð eg

sjálfur hjá, samþykti því og
geymdi föt þeirra, sem deyddu
hann.
21. En hann sagði við mig:
farðu, því eg vil senda þig
lánga leið til heiðíngja.
22. Alt að þessu orði hlýddu
þeir á, en nú hófu þeir upp
raust sína og sögðu: burt með
þvílíkan mann af jörðunni, því
það hæfir ekki, að hann lifi.
23. Nú sem þeir hrópuðn og
fleygðu klæðum sínum og jusu
mold í lopt upp.
24. Skipaði herforínginn að
leiða hann inn í herbúðirnar
og með svipum að kúga hann
til sagna, svo hann feingi að
vita, fyrir hverja sök þeir
hrópuðu svo gegn honum.
25. Þegar þeir fóru þá að
streingja hann með taugum,
segir Páll við hundraðshöfð-
íngjann, er hjá stóð: er yður
leyft að húðstrýkja rómversk-
an mann, og það ódæmdan?
26. En sem hundraðshöfðíng-
inn heyrði það, gekk hann til
herforíngjans, inti honum frá,
og sagði: hvað ætlarðu að
gjöra? Því þessi maður er
rómverskur.
27. Herforínginn kom þá og
talaði til Páls: seg mèr, ertu
maður rómverskur? Hann svar-
aði: já.
28. Herforínginn svaraði: fyr-
ir ærið fè mátti eg kaupa
þenna borgararètt. En Páll
svaraði: en eg em svo fæddur.
29. Jafnskjótt hvurfu þeir frá,
er áttu að kúga hann til sagna,
og herforínginn varð hræddur,
þá hann varð þess vís, að hann
var rómverskur, af því hann
hafði látið binda hann.
30. Daginn eptir vildi hann
vita með vissu, hvað Gyðíngar
hefðu að kæra Pál um, leysti
hann, bauð, að höfuðprestarn-
ir og alt ráðið skyldi koma
saman, og lèt leiða Pál fram
fyri þá.

## 23. KAPÍTULI.

*Páll vitnar um sína góðu samvizku, en er barinn; talar um upprisuna, út af því verða Gyðíngar sundurþykkir; herstjórinn setur hann í kastalann; Guð hughreystir hann; Gyðínga ráðabrugg gegn Páli verður uppvíst; herstjórinn sendir hann til Felix, landstjórans í Sesareu.*

EN Páll hvesti augun á ráð-
ið og mælti: bræður, eg
hefi hvervetna með góðri sam-
vizku hegðað mèr fyrir Guði,
alt til þessa dags.
2. Æðsti presturinn Ananías
skipaði þeim, er hjá Páli stóðu,
að ljósta hann á munninn.
3. Páll sagði þá við hann:
Guð mun ljósta þig, þú kalk-
aði veggur, þú situr hèr sem
dómari minn samkvæmt lög-
málinu, en skipar móti lögum
að slá mig.

4. Þá sögðu þeir, sem hjá stóðu: atyrðir þú ypparsta prest Guðs?

5. Ekki vissa eg bræður, svaraði, Páll, að það væri prestahöfðínginn; því skrifað er: þú skalt ekki illmæla höfðíngja þíns fólks.

6. En þar eð Páll vissi, að nokkrir voru Sadúsear, en nokkrir Farísear, þá sagði hann hátt í ráðinu: góðir menn og bræður, eg em Farísei og Farísea sonur.

7. Fyrir vonina og upprisu dauðra lögsækist eg. En er hann sagði þetta, varð sundurþykki milli Fariseanna og Sadúseanna, og þíngheimurinn sundraðist;

8. Því Sadúsear segja, að ekki sè til upprisa framliðinna, nè eingill, nè andi, en Farísearnir viðurkenna hvortveggja.

9. Nú varð hávaði mikill; þeir skriptlærðu af Fariseanna flokki gáfu sig fram, fluttu mál sitt með kappi, og sögðu: ekkert ilt finnum vèr hjá þessum manni, þó hann beri fram, að andi hafi talað við sig eður eingill.

10. En er sundurlyndið varð svo mikið, að herforínginn óttaðist, að þeir mundu sundurslíta Pál skipaði hann herliðinu að fara niður, til að hrífa hann frá þeim og flytja í herbúðirnar.

11. En nóttina eptir stóð Drottinn hjá honum, og sagði: vertu hughraustur, því einsog þú hefir vitnað um mig í Jerúsalem, eins ber þèr einnig að vitna í Róm.

12. Þegar dagaði, gjörðu Gyðíngar samtök og heitstreingdu með dýrasta eiði, að þeir skyldu ekki eta nè drekka, fyrr en þeir hefðu Pál af dögum ráðið,

13. Og voru þeir yfir fjörutíu, sem bundizt höfðu í þenna svardaga.

14. Þessir fóru á fund prestahöfðíngjanna og öldúnganna, og sögðu: vèr höfum svarið dýran eið, að neyta einskis, fyrri en vèr höfum Pál af lífi tekið.

15. Beiðizt nú ásamt með ráðinu opinberlega af herforíngjanum, að hann láti leiða Pál niður fyrir yður á morgun, þar eð þèr ætlið greinilegar að rannsaka mál hans; en vèr erum reiðubúnir að ráða hann af dögum, áður en hann kemst til yðar.

16. En systursonur Páls heyrði þetta svikræði, tók sig því til og fór í herbúðirnar, að segja Páli frá.

17. En Páll kallaði á einn

hundraðshöfðíngjanna og mælti: fylg þessu úngmenni til herforíngjans, því hann hefir nokkuð að segja honum.

18. Hundraðshöfðínginn tók úngmennið með sèr, fór með hann til herforíngjans og sagði: bandínginn Páll kallaði mig til sín og bað mig færa þèr þenna svein, er hefði nokkuð að segja þèr.

19. Herforínginn tók þá sveininn við hönd vèk honum afsíðis og spurði: hvað er það, sem þú hefir að auglýsa mèr?

20. Hinn svaraði: Gyðíngar hafa komið sèr saman um að biðja þig að færa Pál á morgun fyrir ráðið, þar eð þeir ætli ýtarlegar að yfirheyra hann;

21. En lát þú ekki að orðum þeirra, því af þeim sitja um Pál yfir fjörutíu manns, sem hafa svarið dýran eið, að eta hvorki nè drekka, fyrr en þeir hafi fyrirkomið honum, og þeir eru þegar, reiðubúnir, og bíða eptir boðum frá þèr.

22. Herforínginn lèt hinn únga mann fara, en bannaði honum að segja nokkrum manni frá, að hann hefði opinberað sèr þetta.

23. Kallaði svo á einhverja tvo hundraðshöfðíngja og sagði: búið tvö hundruð stríðsmenn, að þeir fari til Sesareu, sjötíu riddara og tvö hundruð skotmenn, eptir fyrstu eykt nætur;

24. Hafið og til reiðu fararskjóta handa Páli, svo hann komist heill til Felix landstjóra.

25. Hann skrifaði og brèf þessa innihalds:

26. "Kládíus Lysías heilsar enum volduga landstjóra Felix.

27. Þenna mann höfðu Gyðíngar handtekið og ætluðu að lífláta, en eg kom þá með stríðsfólkinu, og sleit hann af þeim, eptir að eg varð þess vís, að hann væri rómverskur.

28. En þar eð eg vildi vita, fyrir hverja sök þeir ákærðu hann,

29. Leidda eg hann fyrir þeirra ráð, og fann þá, að sakargiptin áhrærði vafaspurníngar í þeirra lögum, en eingan misverknað, sem dauða væri verður eður banda.

30. En þegar eg fèkk vísbendíng um, að Gyðíngar sætu á svikráðum við mann þenna, senda eg hann tafarlaust til þín, og hefi boðið ákærendum hans, að framfæra fyrir þèr það sem þeir hefðu á móti honum. Vegni þèr vel!"

31. Stríðsmennirnir tóku nú Pál, eins og þeim var sagt, og

fluttu hann um nóttina til Antípatris.

32. Daginn eptir lètu þeir riddaraliðið fara með honum, en sneru aptur til kastalans.

33. Hinir hèldu áfram til Sesarea og fengu landstjóranum Pál í hendur, ásamt brèfinu.

34. Felix las brèfið, spurði Pál, úr hverju landshöfðíngjadæmi hann væri; og fèkk að vita, að hann var frá Silisía;

35. Sagði hann þá: eg skal yfirheyra þig, þegar ákærendur þínir mæta; og hann skipaði, að varðveita hann í höll Heródesar.

## 24. KAPÍTULI.

*Gyðíngar áklaga Pál, en hann ver mál sitt kröptuglega; Felix skelfist við ræðu Páls, og skilur hann loks eptir í böndum.*

EN fimm dögum síðar fór af stað æðsti presturinn Ananías með öldúngunum og mælskumanni nokkrum, er hèt Tertúllus, og þessir mættu fyrir landshöfðíngjanum gegn Páli.

2. Þá búið var að kalla hann fyrir, byrjaði Tertúllus ákæru sína og sagði:

3. Mikils friðar erum vèr orðnir aðnjótandi fyrir þína tilstilli, og margar góðar tilskipanir á þessi þjóð þinni umsjá að þakka, voldugasti Felix. Þetta játum vèr á hverjum stað og stundu þakklátlega;

4. En svo að eg tefji þig sem skemmst, bið eg, að þú eptir mildi þinni viljir heyra oss stuttlega.

5. Þar eð vèr höfum fundið þenna mann skaðvænan, sem drepsótt, því hann vekur óróa meðal allra Gyðínga um alla víða veröld, og er oddviti hins naðverska villuflokks,

6. Og hefir jafnvel ráðizt í að vanhelga musterið: þá tókum vèr hann fastan, og vildum hafa dæmt hann samkvæmt vorum lögum;

7. En herforínginn Lysías kom þá að, og með miklu ofríki þreif hann úr vorum höndum,

8. Og skipaði ákærendum hans að fara til þín, og af honum getur þú, þegar þú spyr hann, feingið sjálfur að vita alt það, sem vèr ákærum hann um.

9. En Gyðíngarnir ákærðu Pál líka með honum, og sögðu þetta svo vera.

10. En Páll svaraði, þá landshöfðínginn hafði bent honum að tala: Þar eg veit, að þú í mörg ár hefir verið dómari þessarar þjóðar, mun eg þess öruggar verja mál mitt;

11. Með því þú getur feingið að vita, að það eru ekki meir

en tólf dagar, síðan eg kom til
Jerúsalem að biðjast fyrir,
12. Og þá hittu þeir mig
hvorki í orðaþrætu við nokk-
urn mann, nè æsandi fólk til
óspekta, hvorki í musterinu,
nè í samkunduhúsunum, nè
annarstaðar í borginni,
13. Og ekki heldur geta þeir
sannað það, sem þeir nú ákæra
mig um.
14. En þetta játa eg þèr, að
eg þjóna Guði feðra minna,
samkvæmt þeirri trú, sem þeir
kalla villudóm, og trúi öllu,
sem skrifað stendur í lögmál-
inu og spámönnunum,
15. Og hefi þá von til Guðs,
sem þeir og sjálfir hafa, að
framliðnir muni upprísa, bæði
vondir menn og góðir.
16. Því æfi eg líka sjálfan mig
í því að hafa jafnan óflekkaða
samvizku bæði fyrir Guði og
mönnum.
17. Eg kom eptir margra ára
burtuveru með ölmusugjafir
handa þjóð minni.
18. Meðan eg var að þessu,
og var nýbúinn að hreinsa mig
í musterinu, hittu mig ekki
með mannmergð nè óróa
nokkrir Gyðíngar frá Asíu,
19. Sem hefðu átt að mæta
hjá þèr, og ákæra, ef þeir
hefðu haft nokkuð ámóti mèr.
20. Eður segi þessir sjálfir til,
hvað þeir hafi fundið saknæmt
hjá mèr, þegar eg stóð fyrir
ráðinu,
21. Nema það sè þetta eina
orð, er eg kvað upp með,
þegar eg stóð milli þeirra:
eg lögsækist í dag af yður,
sökum upprisu framliðinna.
22. Felix skaut nú málinu á
frest, uns hann þekti gjörr
þenna lærdóm, og sagði: þeg-
ar herforínginn Lysías kemur,
skal eg skera úr máli yðar.
23. Og undir eins bauð hann
hundraðshöfðíngjanum að
varðveita Pál, en fara vægðar-
lega með hann, og banna eing-
um hans, að þjóna honum eður
koma til hans.
24. En nokkrum dögum
seinna kom Felix með konu
sinni Drúsillu, sem var Gyð-
ínga ættar, og lèt sækja Pál,
og heyrði hann um trúna á
Krist.
25. En er Páll kom á tal um
rèttlæti, bindindi og tilvonandi
dóm, skelfdist Felix og mælti:
far burt að sinni; en þegar eg
fæ tóm, mun eg láta kalla þig
aptur.
26. Með fram vænti hann, að
Páll mundi gefa sèr fè til að
losast, þess vegna lèt hann og
opt kalla á hann, og átti við
hann samræður.
27. Að liðnum tveim árum,

kom Porsíus Festus í stað Felix til valda, og til að þóknast Gyðíngum, eptirskildi Felix Pál fjötraðan.

## 25. KAPÍTULI.

*Festus boðar Gyðínga til Sesarea; en Páll skýtur máli sínu til keisarans, og Festus úrskurðar, að málið gángi þángað; Festus talar um Pál við Agrippa konúng, er sjálfur vill heyra hann.*

ÞREMUR dögum eptir að Festus hafði tekið við sýslu sinni, fór hann frá Sesarea upp til Jerúsalem.

2. Þá mættu fyrir honum æðsti presturinn og helztu menn Gyðínga gegn Páli, gjörðu sèr far um að fá hann á sitt mál,

3. Og beiddust þeirrar náðar, að Festus lèti senda hann til Jerúsalem; því þeir sátu um að drepa hann á leiðinni.

4. Festus svaraði, að Páll væri í varðhaldi í Sesarea, en sjálfur ætlaði hann bráðum þángað.

5. Látið því, sagði hann, þá, sem færir eru um það af yðar hálfu, fara þángað með mèr, til að ákæra hann, sè nokkuð saknæmt í hans fari.

6. En sem hann hafði dvalið hjá þeim, mest átta eður tíu daga, snèri hann aptur til Sesarea, og daginn eptir settist hann á dómstólinn og skipaði að leiða Pál fram.

7. En er Páll var þar kominn, umkríngdu hann Gyðíngarnir, sem niður höfðu farið frá Jerúsalem, og báru upp á hann margar og þúngar sakargiptir, sem þeir þó ekki gátu sannað,

8. Því hann kom fyrir sig þeirri vörn, að hann ekkert hefði misbrotið, hvorki móti lögum Gyðínga, nè musterinu, ekki heldur keisaranum.

9. Þá spurði Festus Pál, til að ívilna Gyðíngum; viltu, segir hann, fara upp til Jerúsalem, svo að eg þar dæmi þetta mál þitt?

10. Páll svaraði: eg stend fyrir keisarans dómi, þar á eg að dæmast. Gyðíngum hefi eg eingan órètt gjört, eins og þú gjörla veizt.

11. Þar fyrir, sè eg brotlegur, eður hafi framið nokkuð dauða vert, þá skora eg mig ekki undan lífláti; en ef ekkert er til hæft í því, sem þessir skulda mig fyrir, svo á einginn með að gefa þeim líf mitt. Eg skýt máli mínu til keisarans.

12. Eptir að Festus hafði talað við sitt ráðaneyti, varð þetta hans atkvæði: "Fyrir keisarann hefir þú skotið málefni þínu, til keisarans skaltu fara."

13. Að nokkrum dögum liðnum kom Agrippa konúngur og Bernike til Sesarea, til að heilsa Festusi;

14. Og þar þau dvöldu þar um hríð, inti Festus konúnginum frá málefni Páls og sagði: Felix hefir skilið eptir bandíngja nokkurn,

15. Sem prestahöfðíngjar og öldúngar Gyðínga ákærðu þegar eg var í Jerúsalem, og æsktu dómsatkvæðis yfir honum.

16. Eg svaraði þeim, að það væri ekki háttur Rómverja, að ofurselja í dauða nokkurn mann öðrum í vil, fyrri en ákærendur og hinn ákærði væru báðir nálægir, og þessi feingi tækifæri til að bera af sèr sakargiptina.

17. En er þeir komu með mèr híngað, gjörði eg eingan drátt, heldur settist í dómstólinn daginn eptir, og skipaði að leiða manninn fram.

18. Ákærendurnir, sem mættu gegn honum, báru nú einga þess háttar sök fram, er eg hafði ætlað,

19. Heldur höfðu þeir einhver þrætuspursmál gegn honum um sjálfra þeirra átrúnað, og um einhvern dáinn Jesús, sem Páll sagði lifa.

20. Þar eg nú vantreysti mèr til að skera úr þess konar þrætu, leiddi eg í tal, hvort Páll vildi fara upp til Jerúsalem og láta þar dæma í þessu máli.

21. En með því Páll æskti, að hann geymdist til keisarans úrskurðar, skipaði eg að varðveita hann, uns eg sendi hann keisaranum.

22. Agrippa sagði þá við Festus: mig fýsir að heyra manninn sjálfur. Hinn svaraði: á morgun skaltu heyra hann.

23. Daginn eptir kom Agrippa og Berníke, með miklu skrauti, og geingu ásamt herforíngjunum og enum æðstu mönnum borgarinnar í dómhúsið; var svo Páll að boði Festusar fram leiddur.

24. Þá mælti Festus: Agrippa konúngur, og þèr allir, sem með oss eruð nærstaddir, þar sjáið þèr þann mann, sem gjörvallur Gyðíngamúgur hefir ákært fyrir mèr, bæði í Jerúsalem og hèr, og hástöfum sagt að ekki ætti leingur að lifa.

25. Eg er kominn að raun um, að hann ekkert hefir aðhafzt, er sè dauðasök, og þar eð hann sjálfur hefir skotið máli sínu til keisarans, þá hefi eg ályktað, að hann skyldi sendast þángað.

26. En með því eg hefi ekkert áreiðanlegt að skrifa herra (keisaranum) um hann, þá hefi eg fram leitt hann fyrir yður,

og einkum fyrir þig, Agrippa konúngur, svo eg, að lokinni ransókn, hefði eitthvað að skrifa; því mèr lízt óskynsamlegt að senda bandíngja, án þess sakargipt hans sè tilgreind.

## 26. KAPÍTULI.

*Páll segir lífssögu sína, frá því hann snèrist til kristni; Festus og Agrippa viðurkenna sakleysi Páls.*

AGRIPPA sagði nú við Pál: þèr leyfist að tala fyrir þig. Páll rètti þá út höndina og varði sig þannig:

2. Heppinn tel eg mig, Agrippa konúngur, að mega í dag afsaka mig fyrir þèr, áhrærandi alt sem Gyðíngar ásaka mig um;

3. Helzt af því þú ert kunnugur öllum Gyðínga siðvenjum og vafaspurníngum, þess vegna bið eg þig þolinmóðlega að heyra mig.

4. Líf mitt og dagfar frá barnæsku, þar eð eg hefi frá önd-verðu alizt upp hjá þjóð minni í Jerúsalem, er öllum Gyðíngum kunnugt,

5. Því þeir hafa frá upphafi þekt mig að því (vildu þeir að eins unna mèr sannmælis), að eg hefi sem Farísei lifað eptir reglum strángasta flokks vorrar trúar.

6. Og nú stend eg undir lögsókn vegna vonar á því fyrirheiti, er Guð gaf feðrum vorum,

7. Sem vorir tólf kynþættir með kappsamri þjónustu Guðs, nótt og dag, vænta að hreppa. Fyrir þessa von ákærist eg, Agrippa konúngur, af Gyðíngum.

8. Hvernig getur það álitizt ótrúlegt hjá yður, að Guð uppveki dauða?

9. Að sönnu áleit eg það sjálfur skyldu mína, að ráðast í margt gegn nafni Jesú frá Nazaret;

10. Það gjörða eg og í Jerúsalem, því eg hnepti í myrkvastofur marga kristna, með því eg hafði fengið fullmakt til þess frá prestahöfðíngjunum, og gaf mitt jákvæði til, þegar þeir voru líflátnir,

11. Og í öllum samkunduhúsum lèt eg þeim þrásinnis refsa, og neyddi þá til að tala illa um (Jesúm). Já, svo frekt ædda eg gegn þeim, að eg elti þá til framandi borga.

12. Þegar eg þessa erindis var á ferð til Damaskus, með fullri makt og leyfi frá hinum æðstu prestum,

13. Sá eg, konúngur, á veginum, um miðjan dag, ljós af himni, hverju sólskini bjartara, leiptra um mig og þá, sem mèr voru samferða.

14. Vèr duttum þá allir til jarðar, og þá heyrða eg rödd, er við mig talaði og sagði á hebresku: Sál, Sál, hví ofsækir þú mig? Erfitt verður þèr að spyrna móti broddunum.

15. En eg sagði: hver ertu, Herra? Hann svaraði: eg em Jesús, sem þú ofsækir.

16. En rís þú upp og statt á fætur, því til þess vitraðist eg þèr, að eg setti þig til að vera þjón og vott að því sem þú sást, og að því, sem eg enn mun láta þig sjá.

17. Eg skal hrífa þig frá fólki þínu og frá heiðíngjunum, sem eg nú sendi þig til,

18. Til að opna augu þeirra, svo þeir snúist frá myrkri til ljóss, frá Satans valdi til Guðs, og öðlist fyrirgefníngu syndanna, og hlutdeild með þeim, er helgaðir eru fyrir trúna á mig.

19. Þess vegna vilda eg ekki, Agrippa konúngur, þverskallast gegn slíkri himneskri opinberun,

20. Heldur boðaði eg fyrst þeim í Damaskus og síðan í Jerúsalem og um bygðarlög Gyðíngalands, og heiðíngjum, að menn skyldu taka sinnaskipti og snúa sèr til Guðs og vinna verk samboðin iðruninni.

21. Fyrir þessara hluta skuld gripu Gyðíngar mig í musterinu, og leituðust við að svipta mig lífi;

22. En fyrir Guðs fulltíngi hefir mèr auðnazt að standa heill alt til þessa dags, og vitna bæði fyrir smáum og stórum, án þess eg kenni annað en það, sem spámennirnir og Móses höfðu sagt að fram koma mundi:

23. Að Kristur mundi pínast, að hann mundi verða sá fyrsti, er frá dauðum risi, og að hann mundi boða ljós Gyðínga lýð og heiðnum þjóðum.

24. En er Páll hafði svarað þessu fyrir sig, kallaði Festus hástöfum: óður ertu orðinn, Páll; sá mikli lærdómur gjörir þig ærðan.

25. Hann svaraði: ekki em eg óður, voldugi Festus, heldur tala eg sönn og gætileg orð.

26. Því konúngurinn skilur þetta, og við hann tala eg því einarðlega, af því eg þykist vita, að honum sè ekkert af þessu hulið, því það er ekki í afkima skeð.

27. Trúir þú, Agrippa konúngur, spámönnunum? Eg veit þú trúir þeim.

28. En Agrippa sagði við Pál: lítið vantar á, að þú fáir mig til að verða kristinn.

29. Páll svaraði: þess bið eg Guð, hvort sem það vantar mikið eða lítið, að ekki einúngis þú, heldur og allir, sem til mín heyra í dag, verði þvílíkir sem eg, að undan teknum þessum fjötrum.

30. Nú stóð konúngurinn upp og landstjórinn og Berníke og þeir, eð hjá þeim sátu;

31. Og þá þeir voru burt geingnir, töluðu þeir sín á milli og sögðu: þessi maður hefir ekkert framið, sem dauða sè vert eður banda.

32. En Agrippa sagði við Festus: þessum manni hefði mátt sleppa, ef hann hefði ekki skotið máli sínu til keisarans.

## 27. KAPÍTULI.

*Páll er sendur til Róm; siglíngin verður hættuleg, svo Páll ræður til að fara ekki frá Krít, en getur ekki aptrað því; skipverjarnir komast í mesta lífsháska, en Páll hughreystir þá; þeir líða skipbrot við eyuna Melíte, en komast þó heilir í land.*

EN þegar úrskurðað var, að vèr skyldum sigla til Ítalíu, og búið var að selja Pál og nokkra bandíngja í hendur hundraðshöfðíngja nokkrum úr keisara-herflokknum, er Júlíus hèt,

2. Stigum vèr á eitt adramýtiskt skip, er koma átti við í nokkrum sjóstöðum í Asíu, og lètum í haf; og Aristarkus, masedóniskur maður frá Tessaloníku, var oss samferða.

3. Næsta dag náðum vèr Sídon. Júlíus var mannúðlegur við Pál og lofaði honum að fara á fund vina sinna og þiggja þeirra greiðvikni.

4. Þaðan fórum vèr og sigldum undir Kípur, því mótvindur var;

5. Komum svo yfir hafið fyrir framan Silisíu og Pamfilíu og náðum Mýru í Lysíu.

6. Þar fann hundraðshöfðínginn skip frá Alexandríu, er sigla átti til Ítalíu og kom oss á það.

7. Nú gekk marga daga siglíngin tregt, svo vèr náðum með þraut Knídus, sökum andviðris, sigldum því undir Krít, við Solmóne.

8. Eptir þrábeitíng fram með eyunni, komumst vèr á stað einn, sem kallast Góðhafnir, í grend við borgina Lasea.

9. Enn leið drjúgur tími, og sjóferðir tóku þegar að verða hættulegar, því þá var og fastan þegar liðin. Þess vegna gaf Páll þeim svo látandi viðvörun:

10. Góðir menn, eg sè, að siglíngu vorri muni verða samfara bæði óveður og tjón, ekki einúngis fyrir farminn og skipið, heldur og fyrir líf vort.

11. En hundraðshöfðínginn trúði betur stýrimanninum og skipseigandanum, en Páls tillögum.
12. Og þar höfnin var óhentug til vetrarlegu, þá varð það flestra ráð að halda þaðan, í von um að sèr tækist að ná til vetrarlegu í þeirri höfn í Krít, er kallast Feníka og snýr til útsuðurs og útnorðurs.
13. En þar eð vindurinn blès hægt á sunnan, þá hèldu þeir ætlan sín væri svo að segja sèr í hendi; drógu því upp akker og sigldu fram með Krít nálægt landi.
14. En skömmu síðar datt á það ofviðri, sem kallað er ölduæsir,
15. Og hreif skipið með sèr, svo ekki varð beitt í vindinn; urðum vèr því að gefa upp stjórn og láta reka, sem vildi.
16. Þá bar oss að lítilli eyu, sem hèt Klade, og gátum vèr naumast náð bátnum.
17. Þegar vèr höfðum tekið bátinn upp í skipið, gripum vèr til als þess, sem til bjargar gat orðið, og vöfðum skipið; og þar eð þeir óttuðust, að skipið mundi berast á grynníngar, feldu þeir seglið og lètu svo reka.
18. Þegar vèr þannig hröktumst af ofsaveðri, var skipið rutt um daginn eptir,
19. Og á þriðja degi fleygðum vèr með eigin höndum út áhöldum skipsins.
20. Með því að í marga daga sást ekki sól nè stjörnur, og illviðrið, sem á lá, var ekki lítið, mistum vèr loksins alla von um að komast lífs af.
21. En þá menn höfðu leingi einskis matar neytt, gekk Páll fram millum þeirra, og sagði: Góðir menn, þèr hefðuð átt að gegna mèr og leggja ekki út frá Krít, og komast þannig hjá þessari armæðu og tjóni;
22. En nú áfýsi eg yður að hressa upp geðið, þar einkis okkar líf mun týnast, heldur einúngis skipið.
23. Því í nótt stóð hjá mèr eingill Guðs, sem eg tilheyri og þjóna, segjandi:
24. Óttastu ekki, Páll, fyrir keisarann áttu að koma, og vit, að Guð hefir gefið þèr alla, sem eru á skipinu með þèr.
25. Verið þess vegna, góðir menn, með glöðu geði; því eg treysti Guði, að það muni efnast, sem mèr var sagt.
26. En að einhverri eyu hljótum við að hrekjast.
27. En þegar hin fjórtánda nótt var komin, og oss var að hrekja í Adría-hafi, grunaði skipverjana um miðnættis leyti, að land mundi vera í nánd.

28. Þeir könnuðu þá djúpið, og fundu tuttugu faðma djúp. Og eptir að litlu hafði þokað áfram, könnuðu þeir það aptur, og fundu, að það var fimmtán faðma.

29. Nú óttuðust þeir, að oss mundi bera upp á sker, köstuðu því fjórum akkerum úr skutnum, og óskuðu, að dagur væri kominn.

30. En sem hásetarnir leituðust við að flýa úr skipinu og lètu bátinn niður síga undir því yfirskyni, að þeir vildu fá akkerum út komið úr framstafninum,

31. Sagði Páll við hundraðshöfðíngjann og stríðsmennina: sèu þessir ekki kyrrir í skipinu, þá getið þèr ekki lífs af komizt.

32. Stríðsfólkið hjó þá á festar bátsins og sleptu honum.

33. En þángað til birta færi, hvatti Páll alla að matast, segjandi: þèr hafið nú þegar beðið fastandi fjórtán daga, án þess að taka yður fæðu.

34. Nú ræð eg yður að taka fæðslu, því það verður yður til bjargar; en ekki eitt hár mun falla af yðar höfðum.

35. Að svo mæltu tók hann brauð, gjörði Guði þakkir í allra augsýn, braut það og fór að eta.

36. Þá hrestust allir og fóru að matast líka;

37. En á skipinu voru als tvö hundruð sjötíu og sex manns.

38. Þegar menn voru mettir, var lètt á skipinu og matvælunum kastað í sjóinn.

39. Eptir dögunina sáu menn land, en þektu ekki. Þeir urðu varir við vík eina með slèttri fjöru, og vildu halda þángað skipinu, ef kostur væri.

40. Þeir losuðu þá akkerin og hleyptu þeim í sjóinn, leystu um leið stýristaumana, drógu upp seglið (og snèru því) eptir vindinum, hèldu svo til lands.

41. En þar eð fyrir þeim varð rif, steytti skipið, svo framstafninn festist og varð óhræranlegur, en skutinn leysti í sundur af ofurefli bylgnanna.

42. Stríðsmennirnir rèðu þá til, að fángarnir væru drepnir, svo einginn synti í land og kæmist undan.

43. En hundraðshöfðínginn, sem vildi forða Páli, aptraði því fyrirtæki, og skipaði, að þeir, sem syndir væru, skyldu fyrst kasta sèr útbyrðis og leita lands,

44. En hinir, sumpart á fjölum, sumpart á einhverjum flekum skipsins. Og þannig tókst það, að allir komust heilir til lands.

## 28. KAPÍTULI.

*Fólkið á Melíte tekur Páli vinsamlega; naðra gjörir honum ekki mein; hann læknar föður Públíusar og fleiri; siglir þaðan til Sýrakúsu og Púteólí og kemur til Róm; heldur ræðu fyrir Gyðíngunum í Róm; kennir þar hindrunarlaust í tvö ár.*

ÞÁ menn þannig höfðu af komizt, feingu þeir að vita, að eyan hèt Melíte.

2. En eyar-menn auðsýndu oss einstaka mannelsku, kveiktu eld og tóku móti oss öllum, því óveður var og kuldi.

3. En er Páll hafði safnað sèr hrísvendli og lagt á eldinn, þá skreið naðra undan hitanum og festi sig á hendi hans.

4. Þegar eyar-mennirnir sáu þetta illyrmi loða við hönd hans, sögðu þeir sín á milli: vissulega er þessi maður manndrápari, fyrst hefndin lofar honum ekki að lifa, úr því hann hefur sloppið úr sjáfarháskanum.

5. Páll hristi þá af sèr kvikindið út í eldinn, og varð ekkert meint við.

6. En þeir væntu eptir, að hann mundi þrútna upp eður detta sviplega dauður niður. En er þeir höfðu biðleikað leingi og sáu ekkert frábrugðið á honum, breyttu þeir meiníngu sinni, og sögðu hann Guð vera.

7. Í grend við þetta pláz átti helzti maður á eyunni, að nafni Públíus, búgarð. Hann bauð oss heim og hýsti oss í þrjá daga vingjarnlega.

8. En það vildi svo til, að faðir hans lá þúnglega haldinn af sóttveiki og niðurgángi. Páll gekk til hans, baðst fyrir, lagði hendur sínar yfir hann og læknaði hann.

9. Eptir þenna viðburð komu aðrir eyarmenn, þeir eð kránkir voru, og urðu læknaðir.

10. Þeir höfðu oss líka í hávegum, og veittu oss að skilnaði, það sem vèr með þurftum á ferðinni.

11. Eptir þrjá mánuði hèldum vèr þaðan á skipi frá Alexandríu, sem legið hafði þar um veturinn og markað var Tvíburunum.

12. Vèr sigldum nú til Sýrakúsu og dvöldum þar þrjá daga.

13. Þaðan sigldum vèr í kríng og komum yfir til Regíum; feingum þá eptir einn dag byr á sunnan og komum næsta dag til Púteólí.

14. Þar fundum vèr bræðurna, sem báðu oss að dvelja hjá sèr sjö daga, og svo komumst vèr til Róm.

15. Undir eins og bræðurnir þar heyrðu vor getið, geingu þeir út á móti oss til Appíí-

torgs og svo nefndra þriggja búða. Þegar Páll sá þá, gjörði hann Guði þakkir og hrestist í huga.

16. En er vèr komum til Rómaborgar, seldi hundraðshöfðínginn bandíngjana höfuðvarða-foríngjanum í hendur, en Páli var leyft að vera í húsi sèr ásamt hermanni, sem gætti hans.

17. En svo bar við eptir þrjá daga, að Páll samankallaði helztu menn Gyðínga, og þá þeir voru komnir, sagði hann við þá: Góðir menn og bræður, jafnvel þótt eg ekkert bryti móti þjóð vorri, eður siðum feðra vorra, var eg (samt) í Jerúsalem bundinn og ofurseldur Rómverjum,

18. Sem, er þeir höfðu rannsakað mál mitt, vildu láta mig lausan, þar eð eingin misgjörð, sem dauða væri verð, fannst hjá mèr.

19. En er Gyðíngar þvertóku það, neyddist eg til að skjóta máli mínu til keisarans, þó ekki í þeirri veru, að eg hefði nokkuð að ákæra þjóð mína fyrir.

20. Af þessari orsök hefi eg látið kalla yður, svo eg mætti sjá og tala við yður; því sökum Ísraels vonar ber eg þessa hlekki.

21. En þeir svöruðu honum: eingin brèf höfum vèr feingið frá Gyðíngalandi þig áhrærandi, og einginn bræðranna er kominn, sem borið hafi eður talað nokkuð ilt um þig.

22. Alt að einu óskum vèr að heyra, hvað þèr sýnist; því það er oss kunnugt, að þessi trúar flokkur fær allstaðar mótmæli.

23. Á tilteknum degi, sem þeir höfðu ákveðið við hann, komu mjög margir í herbergi hans, og frá því árla um morguninn til kvölds, setti hann þeim fyrir sjónir og útþýddi þeim lærdóminn um Guðs ríki, og leitaðist við af Mósis lögmáli og spámönnunum að sanna það alt, er snerti Jesúm.

24. Nokkrir fèllust á það, sem hann sagði, en sumir lètu sig ekki sannfæra.

25. Þá þeir nú skildust að sundurþykkir sín á milli, bætti Páll þessu eina við: Ágætlega hefir Heilagur Andi fyrir munn Esajasar spámanns að orði kveðið við feður vora:

26. "Far til þessa fólks og seg: með eyrunum munuð þèr heyra og ekki skilja; sjáandi munuð þèr horfa á og samt ekki sjá;

27. Því tilfinníngarlaust er

orðið hjarta þessa fólks; þúngheyrðar eru hlustir þess; augunum heldur það fast aptur, svo það fái ekki sèð með augunum, nè heyrt með eyrunum, nè skynjað með hjartanu, eður snúi sèr, svo eg geti læknað það."

28. Yður sè því vitanlegt, að Guðs hjálpræði er burt sent til heiðinna þjóða, sem því munu sinna.

29. Þegar hann hafði svo talað, geingu Gyðíngarnir burtu og höfðu mikla þráttun innbyrðis.

30. En Páll bjó full tvö ár í herbergi því, er hann hafði til leigu, tók á móti öllum, er til hans komu, boðaði Guðs ríki og kendi um Drottinn Jesúm með allri djörfúng, og bannaði honum það einginn.

---

# SÁNKTI PÁLS PISTILL
## TIL
# RÓMVERJA.

## 1. KAPÍTULI.

*Postulinn heilsar kristnum mönnum í Rómaborg; vitnar um laungun sína eptir að koma til þeirra og að boða þeim Krists lærdóm. Talar um heiðíngjanna raungu guðsdýrkun, ilt athæfi þeirra og verðskuldaða hegníngu.*

PÁLL, þjón Jesú Krists, kallaður til postula, kjörinn til (að boða) Guðs fagnaðar-erindi,

2. Sem hann hafði áður heitið fyrir spámenn sína í heilögum ritníngum,

3. Um Son hans, fæddan af sæði Davíðs eptir holdinu,

4. Kröptuglega auglýstan Guðs Son eptir anda heilagleikans, með upprisunni frá dauðum, Jesúm Krist Drottinn vorn,

5. Af hverjum vèr höfum þegið náð og postuladæmi, til þess hlýtt yrði trúnni, honum til dýrðar, meðal allra heiðinna þjóða,

6. Meðal hverra þèr einnig eruð kallaðir af Jesú Kristi,

7. (Óskar) öllum, sem eru í Róm, ástvinum Guðs, kölluðum heilögum: náð sè með yður og friður af Guði föður vorum og Drottni Jesú Kristi.

8. Fyrst þakka eg Guði mínum sökum Jesú Krists fyrir yður alla, að trú yðar berst út um allan heiminn;

9. Því að vitni mitt er Guð, sem eg þjóna í anda mínum, í

(að boða) fagnaðar-erindi Sonar hans, hversu eg án afláts minnist yðar,

10. Jafnan í bænum mínum biðjandi, að mèr þó einhverntíma auðnaðist, að vilja Guðs, að koma til yðar;

11. Því að mig lángar til að sjá yður, svo að eg gefi yður einhverja andlega gjöf, til þess að þèr styrkizt;

12. Það er: að hver af oss hughreysti annan hjá yður með sameiginlegri trú, yðvarri og minni.

13. En eg vil ekki dylja fyrir yður, bræður, að eg optsinnis ásetti mèr að koma til yðar (en eg hefi hindrazt alt til þessa), svo að eg fengi einhvern ávöxt einnig meðal yðar, eins og meðal annara heiðíngja.

14. Eg er í skuld bæði við Grikki og ekki-Grikki, bæði vitra og fáfróða,

15. Eins er eg fús á að flytja fagnaðarboðskapinn einnig yður, sem eruð í Róm,

16. Því eg fyrirverð mig ekki fyrir Krists fagnaðar-erindi; því það er kraptur Guðs til sáluhjálpar sèrhverjum, sem trúir, Gyðíngum fyrst og Grikkjum einninn:

17. Því að rèttlæti Guðs opinberast í því af trú til trúar, eins og skrifað er: en hinn rèttláti af trú, mun lifa.

18. Því reiði Guðs birtist af himni yfir öllum óguðlegleika og órèttvísi manna, þeirra sem með rángsleitni drepa niður sannleikanum;

19. Þar eð það, sem vitað verður um Guð, er þeim augljóst, því að Guð hefir þeim það auglýst,

20. Með því að hans ósýnilegu eiginlegleikar, frá sköpun heimsins skiljanlegir af verkunum, eru bersýnilegir, hans eilífi máttur og guðdómur, svo að mennirnir hafa einga afsökun;

21. Því þótt þeir vissu af Guði, þá vegsömuðu þeir hann ekki, einsog Guð, nè þökkuðu honum, heldur urðu hègómlegir í hugsunum sínum, og þeirra skynlausa hjarta formyrkvaðist;

22. Þeir þóktust vera vitrir, en urðu heimskíngjar,

23. Og snèru dýrð ens ódauðlega Guðs í mynd og líkneski dauðlegs manns, fugla og ferfætlínga og skriðkvikinda;

24. Þess vegna hefir og Guð gefið þá á vald girndum hjarta þeirra til saurlifnaðar, svo að þeir innbyrðis smánuðu sína líkami:

25. Þeir hafa um snúið sannleika Guðs í lýgi, göfgað og

dýrkað skepnuna í stað skap-
arans, sem er blessaður um
aldir, amen.
26. Þar fyrir hefir Guð selt
þá á vald svívirðu fýsnum,
því að bæði breytti kvennfólk
þeirra náttúrlegri hegðun í ó-
náttúru,
27. Og líka hættu karlmenn-
irnir náttúrlegum samförum
við konur og brunnu af losta-
girnd hver til annars, svo karl-
menn frömdu skömm með
karlmönnum, og tóku svo út á
sjálfum sèr makleg málagjöld
villu sinnar;
28. Og eins og þeir sintu því
ekki að hafa Guð þektan, svo
hefir Guð slept þeim í fásinnu,
svo að þeir aðhöfðust óhæfu,
29. Fullir als konar órèttvísi,
saurlífis,vonzku,ágirndar,ilsku,
fullir öfundar, manndrápa,
þrætugirni, svika, illmennsku;
30. Illkvitnir, bakmálug-
ir, Guðs hatarar, smánar-
ar, drambsamir, sjálfhælnir,
hrekkvísir, foreldrum óhlýðn-
ir, samvizkulausir,
31. Trygðrofar, ræktarlausir,
ósáttgjarnir, ómiskunsamir;
32. Sem, þótt þeir þekki þá
tilskipun Guðs, að þeir, sem
þvílíkt gjöra, sèu dauða verðir,
ekki einúngis gjöra það, held-
ur hafa og mætur á þeim, sem
það gjöra.

## 2. KAPÍTULI.

*Gyðíngar, sem dæma aðra, munu ekki umflýa dóm Guðs, sem án manngreinar-álits dæmir sèrhvern eptir hans verkum. Það er til einskis fyrir þá, að hrósa sèr af Mósis lögmáli og umskurninni, þegar þeir ekki færa sèr þau rèttilega í nyt.*

ÞESSVEGNA ertu óafsak-
anlegur, ó maður, hver
helzt þú ert, sem dæmir, því
að með því þú dæmir annan,
fordæmir þú sjálfan þig, því þú,
sem dæmir, gjörir hið sama.
2. En vèr vitum, að Guðs
dómur er samkvæmur sann-
leikanum yfir þeim, sem því-
líkt gjöra.
3. En hugsar þú það, ó maður,
þú sem dæmir þá, er þvílíkt
gjöra, og gjörir hið sama, að
þú munir umflýa Guðs dóm?
4. Eða fyrirlítur þú ríkdóm
hans gæzku, þolinmæði og
lánglundargeðs, og veiztu ekki,
að góðgirni Guðs leiðir þig til
yfirbótar?
5. En eptir harðúð þinni og
iðrunarlausu hjart asafnar þú
þèr sjálfum reiði á degi reið-
innar og opinberunar Guðs
rèttdæmis,
6. Er sèrhverjum mun endur-
gjalda eptir hans verkum;
7. Þeim, sem með stöðugleika
í góðu verki leita vegsemdar
og heiðurs og ódauðlegleika,
eilíft líf,
8. En hinum, sem þverúðar-

fullir eru og ekki trúa sannleikanum, heldur hlýðnast ránglætinu, reiði og bræði;

9. Þjáníng og þreingíng (mun koma) yfir sèrhvers manns sál, er ilt fremur, fyrst Gyðíngs, svo og hins Gríska.

10. En vegsemd og heiður og friður (mun hlotnast) sèrhverjum, er gott gjörir, fyrst Gyðíngi, svo og Grískum;

11. Því að ekki er manngreinar-álit hjá Guði;

12. Því hverjir sem án lögmáls syndguðu, munu og án lögmáls glatast, og þeir, sem undir lögmálinu syndguðu, munu eptir lögmálinu dæmast

13. (Því að ekki eru heyrendur lögmálsins rèttlátir fyrir Guði, heldur munu gjörendur lögmálsins rèttlætast;

14. Því þegar heiðíngjarnir, sem ekki hafa lögmálið, gjöra af náttúrunni, það sem samkvæmt er lögmálinu, þá eru þeir, þótt ekki hafi þeir lögmálið, sjálfum sèr lögmál;

15. Sem sýna, að verk lögmálsins sè ritað í hjörtum þeirra, með því líka samvizka þeirra vitnar það og hugrenníngar, er innbyrðis ýmist ásaka eða afsaka),

16. Á þeim degi, þegar Guð mun dæma hið hulda hjá mönnunum eptir minni náðarboðskapar kenníngu fyrir Jesúm Krist.

17. Ef þú kallar þig Gyðíng og lætur fyrirberast í lögmálinu, og stærir þig af Guði,

18. Og veizt hans vilja og þekkir, hvað betra er, uppfræddur af lögmálinu,

19. Og treystir því, að þú sèrt leiðtogi blindra, ljós þeirra, sem eru í myrkri,

20. Kennari fávísra, fræðari óvita, sem hafir mynd þekkíngarinnar og sannleikans í lögmálinu;

21. Þú, sem aðra fræðir, fræðir þá ekki sjálfan þig; þú, sem prèdikar, að ekki skuli stela, þú stelur;

22. Þú, sem segir, að ekki skuli hórdóm drýgja, þú drýgir hór; þú, sem hefir andstygð á skurðgoðum, þú rænir helgidómum;

23. Þú, sem stærir þig af lögmálinu, þú vanvirðir Guð með yfirtroðslu lögmálsins:

24. Því að fyrir yðar skuld verður nafnið Guðs lastað meðal heiðíngjanna, einsog skrifað er.

25. Að sönnu er umskurn nytsamleg, ef þú heldur lögmálið, en ef þú ert yfirtroðslumaður lögmálsins, þá er umskurnin þín orðin að yfirhúð.

26. Ef því yfirhúðin gætir

boðorða lögmálsins, mun ekki
yfirhúð hans verða talin hon-
um til umskurnar?
27. Og náttúrleg yfirhúð, sem
heldur lögmálið, mun dæma
þig, sem brýtur lögmálið, þó
þú hafir rit og umskurn;
28. Því að ekki er sá Gyðíng-
ur, sem er það opinberlega,
ekki heldur það umskurn, sem
er opinberleg á holdinu,
29. Heldur sá, sem heimug-
lega er Gyðíngur, og umskurn
hjartans í anda, en ekki bók-
staf, og hans lofstír er ekki
af mönnum, heldur af Guði.

## 3. KAPÍTULI.

*Yfirburðir Gyðínga, og þeirra syndir. Þess vegna rèttlætist einginn af lögmálinu, heldur vegna trúarinnar á Jesúm Krist.*

HVERJIR eru þá yfirburðir
Gyðíngsins, eða hver nyt-
semi umskurnarinnar?
2. Miklir á allan hátt; einkan-
lega að sönnu þeir, að þeim
var trúað fyrir Guðs orðum.
3. Hvað þá? þó nokkrir hafi
verið vantrúaðir, mun vantrú
þeirra ónýta Guðs trúfesti?
4. Fjærri sè það. Guð er sann-
orður, en sèrhver maður lyg-
ari, eins og skrifað er: svo að
þú reynist áreiðanlegur í orð-
um þínum og vinnir, þegar um
þig er dæmt.
5. En ef ránglæti vort sannar
Guðs rèttlæti, hvað eigum vèr
þá að segja? Mun Guð vera
ránglátur, að hann lætur reið-
ina yfir dynja? (Eg mæli á
mannlegan hátt).
6. Fjærri fer því; því að
hvernig ætti Guð þá að dæma
heiminn?
7. Því ef sannleiki Guðs hefir
fyrir mína lygð eflst honum til
dýrðar, því dæmist eg þá enn
þá eins og syndari?
8. Og eigum vèr ekki (eins
og oss er borið á brýn og
sumir segja að vèr kennum),
að gjöra hið illa, svo gott af
leiði? Slíkra fyrirdæmíng er
rètt.
9. Hvað þá? Erum vèr fremri?
Öldúngis ekki; því að vèr höf-
um áður með rökum sýnt, að
bæði Gyðíngar og Grikkir eru
allir undir synd,
10. Eins og skrifað er: eing-
inn er rèttlátur, og ekki einn,
einginn er skynugur,
11. Og ekki neinn, sem leiti
að Guði;
12. Allir eru frá snúnir og
sameiginlega orðnir spiltir,
ekki er neinn, sem gott gjöri,
ekki einn einasti.
13. Opnuð gröf er gin þeirra,
með túngum sínum táldraga
þeir. Höggorma eitur er und-
ir vörum þeirra.
14. Og munnur þeirra er full-
ur af bölvun og beiskju.

15. Fljótir eru fætur þeirra
til að úthella blóði.
16. Tjón eg eymd er á vegum
þeirra,
17. Og veg friðarins þekkja
þeir ekki.
18. Ekki er ótti Guðs fyrir
augum þeirra.
19. En vèr vitum, að það sem
lögmálið segir, það talar það
til þeirra, sem undir lögmál-
inu eru, svo að sèrhver munn-
ur þagni, og allur heimurinn
(verði) sakfallinn við Guð.
20. Þess vegna mun af verk-
um lögmálsins als ekkert hold
rèttlætast fyrir honum; því
að af lögmáli leiðir þekkíng
syndar.
21. En nú er án lögmáls
rèttlæti Guðs opinberað, sem
vitnað er um af lögmálinu og
spámönnunum,
22. Það er: rèttlæti Guðs fyr-
ir trú á Jesúm Krist til allra
og yfir alla, sem trúa, því að
ekki er greinarmunur:
23. Því að allir hafa syndgað,
og hafa skort á Guðs dýrð;
24. Og verða rèttlættir án
verðskuldunar af hans náð
fyrir endurlausnina sem er í
Kristó Jesú,
25. Sem Guð fram setti for-
líkunar fórn, fyrir trúna á hans
blóð, til auglýsíngar síns rètt-
lætis vegna hjáhliðrunar við
áður drýgðar syndir undir
Guðs þolinmæði;
26. Til auglýsíngar síns rètt-
lætis á yfirstandandi tíma, til
þess að hann reynist rèttlátur,
og rèttlætandi þann, sem er af
Jesú trú.
27. Hvar er þá hrósunin?
Hún er útilokuð. Fyrir hvaða
lögmál? Verkanna? Nei, held-
ur fyrir lögmál trúarinnar.
28. Því vèr ætlum, að maður-
inn rèttlætist af trú án verka
lögmálsins.
29. Eða er Guð einúngis Guð
Gyðínga, en ekki líka heiðíngja?
30. Vissulega líka heiðíngja,
því að einn er Guð, sem rètt-
læta mun umskurn af trú, og
yfirhúð vegna trúarinnar.
31. Ónýtum vèr þá lögmálið
með trúnni? Fjærri fer því,
heldur staðfestum vèr lögmál-
ið.

## 4. KAPÍTULI.

*Abraham rèttlættist af trúnni.*

HVAÐ eigum vèr þá að
segja að Abraham faðir
vor hafi úr býtum borið eptir
holdinu?
2. Því að ef Abraham rètt-
lættist af verkum, þá hefir hann
lofstír, en ekki hjá Guði;
3. Því hvað segir ritníngin?
En Abraham trúði Guði, og
það var honum reiknað til rètt-
lætis.

4. En þeim, sem verk vinnur, eru launin tilreiknuð, ekki af náð, heldur eptir skyldu;
5. En þeim, er ekki verk vinnur, en trúir á hann, sem rèttlætir óguðlegan, verður trú sín reiknuð til rèttlætis;
6. Eins og líka Davíð lofar sælu þess manns, sem Guð tilreiknar rèttlætið án verka.
7. Sælir eru þeir, sem afbrot eru fyrirgefin, og syndir þeirra huldar.
8. Sæll er sá maður, sem Drottinn tilreiknar ekki synd.
9. Er þá sæla þessi (komin) yfir umskurnina eður og yfir yfirhúðina? Því að vèr segjum, að Abraham hafi trúin verið reiknuð til rèttlætis;
10. Hvernig er hún þá honum tilreiknuð? Þegar hann var í umskurn eða með yfirhúð? Ekki í umskurn, heldur með yfirhuð;
11. Og hann fèkk umskurnar teiknið, sem innsigli rèttlætíngarinnar af trú þeirri, er hann hafði í yfirhúðinni, svo að hann væri faðir allra þeirra, sem trúa og eru með yfirhúðinni, (svo að þeim einnig yrði rèttlætið tilreiknað,)
12. Og líka faðir umskurnar ekki einúngis þeirra, sem eru af umskurninni, heldur og hinna, sem feta í fótspor trúar þeirrar, er faðir vor Abraham hafði með yfirhúðinni;
13. Því það var ekki fyrir lögmálið, að Abraham og sæði hans var gefið það fyrirheit, að hann skyldi veraldarinnar erfíngi verða, heldur fyrir rèttlæti trúarinnar;
14. Því að ef lögmálsmenn eru erfíngjar, þá er ekkert orðið úr trúnni og fyrirheitið er ónýtt;
15. Því að lögmálið verkar reiði, og þar sem ekki er lögmál, þar er ekki heldur yfirtroðsla.
16. Þar fyrir vegna trúarinnar, svo það sè af náð, til þess að fyrirheitið væri stöðugt handa öllu sæðinu, ekki einúngis því, sem er af lögmálinu, heldur einnig því, sem er af trú Abrahams, sem er faðir vor allra,
17. (Eins og skrifað er: þig hefi eg sett föður margra þjóða) frammi fyrir Guði, sem hann trúði, sem lífgar hina dauðu og kallar það, sem ekki er til, eins og það væri til.
18. Hann trúði vonum fremur með von, að hann mundi verða faðir margra þjóða, eptir því sem sagt var: svo skal sæði þitt verða;
19. Og án þess að veiklast í trúnni, fór hann ekki eptir líkama sjálfs sín, þá þegar út-

af dauðum, er hann var hartnær hundrað ára gamall, eða að Sara var úr barneign;

20. Hann efaðist ekki með vantrú um Guðs fyrirheiti, heldur styrktist hann í trúnni, gefandi Guði dýrðina,

21. Fullviss um, að það sem hann hafði lofað, það megnar hann að efna;

22. Þessvegna var honum það og til rèttlætis reiknað.

23. En það er ekki skrifað einúngis hans vegna, að það var honum tilreiknað,

24. Heldur og vor vegna, sem það mun verða tilreiknað, þegar vèr trúum á hann, sem uppvakti Jesúm Drottinn vorn frá dauðum,

25. Sem framseldur er fyrir vorar misgjörðir, og uppvakinn til vorrar rèttlætíngar.

## 5. KAPÍTULI.

*Um ávexti rèttlætisins. Adam og Kristur, dauðinn og lífið, lögmálið og náðarboðskapurinn, sett hvað á móti öðru.*

RÈTTLÆTTIR af trúnni höfum vèr því, frið við Guð fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist,

2. Fyrir hvern vèr einnig höfum aðgáng með trúnni til þeirrar náðar, sem vèr stöndum í, og vèr hrósum oss af von um dýrð hjá Guði;

3. En ekki einúngis það, heldur hrósum vèr oss einnig af hörmúngunum, vitandi, að hörmúngin verkar þolinmæði,

4. En þolinmæðin reynslu, en reynslan von,

5. En vonin bregzt ekki; því að elsku Guðs er úthelt í hjörtum vorum fyrir Heilagan Anda, sem oss er gefinn;

6. Því þegar vèr enn þá vorum breyskir, dó Kristur á tilteknum tíma fyrir rángláta;

7. Því að fyrir rèttlátan mun varla nokkur deya, en fyrir góðan áræddi, ef til vill, einhver að deya.

8. En Guð sýnir elsku sína til vor í því, að þegar vèr enn þá vorum syndarar, er Kristur fyrir oss dáinn,

9. Miklu heldur munum vèr því nú, rèttlættir í hans blóði, frelsast fyrir hann frá reiðinni,

10. Því ef vèr, þegar vèr vorum óvinir, urðum sættir við Guð fyrir dauða Sonar hans, munum vèr miklu fremur, þá vèr erum í sátt teknir, fyrir líf hans frelsaðir verða;

11. Og ekki það einúngis, heldur og hrósum vèr oss einnig af Guði fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist, fyrir hvern vèr höfum forlíkunina feingið.

12. Eins og syndin þess vegna kom fyrir einn mann inn í heiminn, og dauðinn fyrir synd-

ina, þannig er og dauðinn
runninn til allra manna, af því
að allir hafa syndgað;
13. Því alt fram að lögmálinu
var synd í heiminum, en synd
tilreiknast ekki, nema lögmál
sè til.
14. Samt ríkti dauðinn frá
Adam til Móses, einnig yfir
þeim, er ekki syndguðu með
líkri yfirtroðslu og Adam, sem
er fyrirmynd hins tilkomanda.
15. En eins og fallið var, er
ekki náðargjöfinni háttað; því
ef hinir mörgu dóu við fall hins
eina, þá hefir miklu fremur
náð Guðs og gjöf náðarinnar
hins eina manns Jesú Krists
yfirgnæfanlega breiðzt út til
hinna mörgu;
16. Og ekki er gjöfin eins og
(það, er kom) vegna þess eina,
er syndgaði; því að dómur-
inn varð vegna eins (falls) að
fyrirdæmíngu, en náðargjöfin
vegna margra falla að rèttlæt-
íngu;
17. Því að ef dauðinn drottn-
aði af falli hins eina vegna hins
eina, þá munu miklu fremur
þeir, sem fengið hafa gnægð
náðarinnar og rèttlætis gjafar-
innar, ríkja í lífi fyrir þann
eina Jesúm Krist.
18. Eins og því vegna eins
falls (dómur er fallinn) á alla
menn til fordæmíngar, eins er
og vegna eins rèttlætis náðar-
gjöfin veitt öllum mönnum til
rèttlætíngar lífsins;
19. Því eins og hinir mörgu
urðu syndugir fyrir óhlýðni
hins eina manns, eins munu
líka hinir mörgu fyrir hlýðni
hins eina verða rèttlættir.
20. En lögmálið inn kom að
auk, svo fallið yfirgnæfði, en
þar sem syndin yfirgnæfði, yfir-
gnæfði náðin enn meir,
21. Til þess að eins og syndin
ríkti í dauðanum, eins skyldi
og náðin ríkja fyrir rèttlætið
til eilífs lífs, fyrir Jesúm Krist
Drottin vorn.

## 6. KAPÍTULI.

*Krists náð leyfir oss ekki að syndga. Því að þótt vèr sèum ekki undir lögmálinu, megum vèr samt ekki gefa oss í syndarinnar þjónustu; með því líka verðlaun hennar eru dauði og fyrirdæmíng.*

HVAÐ eigum vèr þá að
segja? Eigum vèr að
liggja í syndinni, svo að náðin
yfirgnæfi?
2. Fjærri sè það. Vèr, sem
erum dauðir syndinni, hvern-
ig skyldum vèr framar lifa í
henni?
3. Eða vitið þèr ekki, að vèr,
svo margir sem skírðir erum til
Jesú Krists, vèr erum skírðir
til hans dauða?
4. Vèr erum því greptraðir
með honum fyrir skírnina til
dauðans, svo að eins og Krist-

ur uppreis frá dauðum fyrir dýrð Föðursins, svo eigum vèr einnig að gánga í endurnýúngu lífsins.

5. Því sèum vèr orðnir samgrónir líkíngu dauða hans, munum vèr einnig verða (samgrónir líkíngu) upprisu hans;

6. Því að vèr vitum þetta, að vor gamli maður er með honum krossfestur, svo að líkami syndarinnar eyddist og vèr þjónum ekki syndinni framar,

7. Því sá sem dauður er, hann er rèttlættur frá syndinni.

8. En ef vèr erum dauðir með Kristó, þá trúum vèr því, að vèr munum einnig með honum lifa,

9. Vitandi það, að Kristur, sem er uppvakinn frá dauðum, deyr ekki framar; dauði drottnar ekki framar yfir honum;

10. Því að það hann dó, það dó hann syndinni einu sinni, en það hann lifir, lifir hann Guði.

11. Álítið svoleiðis einnig, að þèr sjálfir sèuð dauðir syndinni, en lifið Guði í Kristó Jesú vorum Drottni.

12. Þessvegna drottni ekki syndin í dauðlegum líkama yðar, til að hlýðnast girndum hans.

13. Ljáið ekki limi yðar syndinni fyrir ránglætis vopn, heldur fram berið Guði sjálfa yður, eins og lifnaða frá dauðum, og limi yðar Guði fyrir rèttlætis vopn;

14. Því að syndin skal ekki drottna yfir yður, þar eð þèr eruð ekki undir lögmáli, heldur undir náð.

15. Hvað þá? Eigum vèr að syndga, fyrst vèr erum ekki undir lögmáli, heldur undir náð? Fjærri sè það.

16. Vitið þèr ekki, að þeim, sem þèr ljáið yður sjálfa fyrir þjóna til hlýðni, þá eruð þèr þess þjónar, sem þèr hlýðið, hvort heldur það er syndar til dauða, eða hlýðni til rèttlætis.

17. En þökk sè Guði, að þèr, sem voruð syndarinnar þjónar, hlýðnist nú af hjarta þeirri lærdóms fyrirmynd, sem yður hefir verið kend,

18. Og leystir frá syndinni, þjónið þèr rèttlætinu.

19. Eg tala á mannlegan hátt, sakir veikleika holds yðvars; því einsog þèr hafið lèð limu yðar fyrir þjóna óhreinleikanum og ránglætinu til ránglætis, svo ljáið nú limi yðar fyrir þjóna rèttlætinu til helgunar;

20. Því þegar þèr voruð þjónar syndarinnar, þá voruð þèr lausir við rèttlætið.

21. Hvern ávöxt höfðuð þèr þá? Það sem þèr nú skammizt

yðar fyrir; því að endalok
þess er dauði.
22. En nú, með því þèr eruð
leystir frá syndinni en þjónið
Guði, þá hafið þèr ávöxt yð-
ar til helgunar, en endalokin
eilíft líf;
23. Því að laun syndarinnar
er dauði, en náðargjöf Guðs er
eilíft líf í Jesú Kristó Drottni
vorum.

## 7. KAPÍTULI.

*Um dauða trúaðra frá lögmálinu vegna Krists dauða. Verkun og gagn lögmálsins Stríð holdsins og andans hjá hinum rèttlættu.*

VITIÐ þèr ekki, bræður
(því eg tala við þá, sem
þekkja lögmálið), að lögmálið
drottnar yfir manninum, á
meðan hann lifir?
2. Því að gipt kona er að
lögum bundin við manninn,
meðan hann lifir, en deyi mað-
urinn, þá er hún laus við lög-
mál mannsins.
3. Þess vegna mun hún hór-
kona kallast, ef hún verður
annars manns (kona) að mann-
inum lifanda, en deyi maðurinn,
þá er hún laus við lögmálið,
svo að hún er ei hórkona, þótt
hún verði annars manns.
4. Þessvegna eruð og þèr,
bræður mínir, dauðir lögmál-
inu fyrir líkama Krists, svo
þèr yrðuð annars, (það er:)
hans sem frá dauðum er upp-
risinn, til þess að vèr bærum
Guði ávöxt;
5. Því þá vèr vorum í holdinu,
verkuðu syndsamlegar girndir,
sem lögmálið vakti, í vorum
limum, svo vèr bærum dauðan-
um ávöxt.
6. En með því vèr erum dauð-
ir, erum vèr nú lausir við lög-
málið, sem oss var haldið í, svo
að vèr þjónum í nýúngu andans,
en ekki í fyrnsku bókstafsins.
7. Hvað eigum vèr þá að segja?
Er lögmálið synd? Fjærri sè
það; heldur þekta eg ekki synd-
ina, nema af lögmálinu; því
að eg hefði ekki vitað af girnd-
inni, hefði ekki lögmálið sagt:
þú skalt ekki girnast.
8. En syndin fèkk sèr tilefni
af boðorðinu og ól upp í mèr
als konar girnd; því að án lög-
máls er syndin dauð.
9. Eg lifði eitt skipti án lög-
máls, en þegar boðorðið kom,
lifnaði syndin við;
10. En eg dó, og reyndist mèr
það boðorð til dauða, sem gefið
var til lífs;
11. Því að syndin, sem fèkk
sèr tilefni af boðorðinu, dróg
mig á tálar og deyddi með því.
12. Þessvegna er að vísu lög-
málið heilagt, og boðorðið
heilagt og rèttvíst og gott.
13. Er þá hið góða (boðorð)
orðið mèr dauði? Fjærri sè

það, heldur syndin; svo að syndin birtist, sem olli mèr dauða með hinu góða, til þess, að syndin yrði ákaflega syndug fyrir boðorðið.

14. Því vèr vitum, að lögmálið er andlegt, en eg er holdlegur, seldur undir syndina;

15. Því eg veit ekki, hvað eg aðhefst, því það, sem eg vil, gjöri eg ekki, en það, sem eg hata, gjöri eg;

16. En ef eg gjöri það, sem eg ekki vil, þá samsinni eg lögmálinu, að það sè gott.

17. En nú aðhefst eg þetta ekki framar, heldur sú synd, sem í mèr býr;

18. Því eg veit, að ekki býr gott í mèr, það er, í holdi mínu; því að vilja veitir mèr hægt, en að framkvæma hið góða, finn og ekki (hægt),

19. Því hið góða, sem eg vil, gjöri eg ekki, en hið vonda, sem eg vil ekki, það gjöri eg.

20. En ef eg gjöri það sem eg vil ekki, þá gjöri eg það ekki framar, heldur syndin, sem í mèr býr.

21. Svoleiðis finn eg þá það lögmál hjá mèr, að nær eg vil gjöra hið góða, þá er hið illa fyrir hjá mèr;

22. Því að eg hefi mætur á lögmáli Guðs eptir enum innra manni,

23. En eg sè annað lögmál í mínum limum, sem stríðir í móti lögmáli míns hugskots, og hertekur mig undir lögmál syndarinnar, sem er í mínum limum.

24. Eg vesæll maður, hver mun frelsa mig frá þessum dauðans líkama?

25. Eg þakka Guði fyrir Jesúm Krist vorn Drottinn. Svo þjóna eg þá að sönnu, sami (maðurinn), með hugskotinu lögmáli Guðs, en með holdinu lögmáli syndarinnar.

## 8. KAPÍTULI.

*Forðæmíngin nær ekki til kristinna, ef Krists andi stjórnar þeim, en ekki holdið. Sá sami andi gjörir þá vissa um barna-rèttinn, veitir þeim gleði í mótlæti, hughreystir þá með Guðs elsku, sem ekkert getur skilið þá við.*

SVO er nú eingin fyrirdæmíng yfir þeim, sem eru í Kristó Jesú, sem ekki gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum;

2. Því að lögmálið lífgunar andans í Kristó hefir frelsað mig frá lögmáli syndarinnar og dauðans;

3. Því það sem lögmálinu var ómögulegt, af því það varð vanmáttugt vegna holdsins, það gjörði Guð, þegar hann, með að senda sinn Son í líkíngu syndugs holds og vegna syndarinnar, fordæmdi syndina á holdinu,

4. Svo að krafa lögmálsins uppfyltist á oss, sem ekki gaungum eptir holdinu, heldur eptir andanum;

5. Því að þeir, sem eru eptir holdinu, sinna holdlegum hlutum, en hinir, sem eru eptir andanum, því sem andlegt er;

6. Því hyggja holdsins er dauði, en hyggja andans er líf og friður;

7. Vegna þess að hyggja holdsins er fjandskapur í gegn Guði, með því hún hlýðnast ekki Guðs lögmáli, af því hún getur það ekki.

8. En þeir, sem eru holdlegir, geta ekki þóknast Guði.

9. En þèr eruð ekki holdlegir, heldur andlegir, svo framarlega sem Guðs Andi býr í yður; en hafi einhver ekki Krists anda, þá er sá ekki hans.

10. En ef Kristur er í yður, þá er að sönnu líkaminn dauður vegna syndarinnar, en andinn er líf vegna rèttlætisins;

11. En ef Andi hans, sem uppvakti Jesúm frá dauðum, býr í yður, þá mun hann, sem uppvakti Krist frá dauðum, einnig lífga dauðlega líkami yðar fyrir anda hans, sem býr í yður.

12. Þessvegna, bræður, erum vèr ekki skuldunautar holdsins, til að lifa eptir holdinu;

13. Því að ef þèr lifið eptir holdinu, munuð þèr deya, en ef þèr deyðið með andanum gjörðir líkamans, munuð þèr lifa.

14. Því, allir þeir sem leiðast af Guðs Anda, þeir eru Guðs börn;

15. Því að þèr hafið ekki fengið þrældóms anda aptur til hræðslu, heldur hafið þèr fengið sonarlegan útvalníngar anda, sem vèr köllum í: Abba, Faðir!

16. Sá sami andi vitnar með vorum anda, að vèr erum Guðs börn;

17. En ef vèr erum börn, þá erum vèr líka erfíngjar, og það, erfíngjar Guðs, en samarfar Krists, ef vèr líðum með honum, að vèr einnig verðum gjörðir vegsamlegir með honum.

18. Því eg hygg, að mótlætíngar þessa tíma sèu ekki jafnvægi þeirrar dýrðar, sem við oss mun opinber verða;

19. Því eptirvæntíng skepnunnar þráir opinberun Guðs barna.

20. (Því að skepnan er undirorpin hègómanum, ekki viljug, heldur vegna hans, sem varp henni undir hann),

21. Í von um, að jafnvel sjálf skepnan muni verða leyst úr ánauð forgengilegleikans til dýrðlegs frelsis Guðs barna.

22. Því vèr vitum, að öll skepnan til samans stynur og hefur fæðíngar hríðir alt til þessa;

23. Og ekki einúngis hún, heldur og þeir, sem hafa frumgróða Andans, og vèr sjálfir stynjum með oss, bíðandi eptir sona útvalníngunni, endurlausn vors líkama.

24. Því að í voninni erum vèr frelsaðir, en sú von, er sèst, er ekki von; því það sem einhver sèr, hvernig þyrfti hann líka að vænta þess?

25. En ef vèr væntum þess, sem vèr ekki sjáum, þá bíðum vèr þess með þolinmæði.

26. En sömuleiðis hjálpar og Andinn veikleika vorum, því vèr vitum ekki, hvers vèr eigum að biðja eins og vera ber; en hinn sami Andi biður fyrir oss með óumræðilegum andvörpunum;

27. En hann, sem rannsakar hjörtun, þekkir hyggju Andans, með því hann talar máli heilagra eptir Guðs vilja.

28. En vèr vitum, að þeim, sem Guð elska, verður alt til góðs, þeim, sem eru kallaðir eptir fyrirhugun;

29. Því þeim, sem hann fyrir fram þekti, hefir hann og fyrirhugað, að líkjast mynd Sonar síns, svo að hann sè frumburður meðal margra bræðra.

30. En þá, sem hann fyrirhugaði, þá hefir hann og kallað, en þá, sem hann kallaði, hefir hann og rèttlætt, en þá sem hann rèttlætti, hefir hann einnig vegsamlega gjört.

31. Hvað eigum vèr þá að segja til þessa? Ef Guð er með oss, hver er þá móti oss?

32. Hann, sem ekki þyrmdi sínum eigin Syni, heldur framseldi hann fyrir oss alla, því skyldi hann ekki líka gefa oss alt með honum?

33. Hver vill ásaka Guðs útvalda? Mun Guð gjöra það, sem rèttlætir?

34. Hver er sá, sem fordæmir? Mun Kristur gjöra það, sem dáinn er, og það sem meira er, líka upprisinn, sem og er á hægri hönd Guði, og sem einnig biður fyrir oss?

35. Hver mun skilja oss við kærleika Krists? Þjáníng, eða þreingíng, eða ofsókn, eða húngur, eða nekt, eða háski, eða sverð?

36. Einsog skrifað er: þín vegna verðum vèr deyddir allan daginn, og með oss er farið eins og sláturfè.

37. En í öllu þessu vinnum vèr frægan sigur fyrir aðstoð hans, sem elskaði oss.

38. Því eg er þess fullviss, að hvorki dauði nè líf, hvorki

einglar nè höfðíngjadæmi nè
völd, hvorki hið yfirstandanda,
nè hið ókomna,
39. Hvorki hæð nè dýpt eða
nokkur önnur skepna muni
geta skilið oss við Guðs kær-
leika, sem er í Kristó Jesú
Drottni vorum.

## 9. KAPÍTULI.

*Guðs náðarköllun, upplýst með dæmum.*

EG segi satt í Kristó og lýg
ekki (samvizka mín vitn-
ar það með mèr í Heilögum
Anda),
2. Að eg hefi hrygð mikla og
sífeldan harm í hjarta mínu;
3. Því að eg vildi óska, að
vera sjálfur útskúfaður frá
Kristó fyrir bræður mína, ætt-
menn mína eptir holdinu,
4. Sem eru Ísraelsmenn, sem
hafa sona-útvalnínguna, dýrð-
ina og sáttmálana og löggjöf-
ina og helgihaldið og fyrir-
heitin,
5. Sem eru komnir af ættfeðr-
unum, og sem Kristur er kom-
inn af, að holdinu til, hann sem
er yfir öllu, Guð blessaður um
aldir, amen.
6. Það er ekki þvílíkt, að
Guðs orð hafi brugðizt, því að
það eru ekki alt Ísraelsmenn,
sem af Ísrael eru komnir,
7. Nè heldur allir börn Abra-
hams, þó þeir sèu sæði hans,
heldur (segir ritníngin): í Í-
saak skal þèr sæði kallast,
8. Það er: ekki eru holdsins
börn Guðs börn, heldur eru
börn fyrirheitisins talin sæði;
9. Því að orð fyrirheitisins er
þetta: að ári um þetta leiti
mun eg aptur koma, og þá
skal Sara son ala;
10. En ekki fèkk einúngis
Sara, heldur og Rebekka fyrir-
heit, þegar hún var þúnguð
af eins manns völdum, Ísaaks
föður vors,
11. Því áður en tvíburarnir
fæddust og höfðu gjört nokk-
uð gott eður ilt, svo að fyrir-
ætlan Guðs eptir útvalníngu
stæði stöðug, ekki vegna verk-
anna, heldur eptir vilja hans,
sem kallaði,
12. Þá var henni sagt: hinn
eldri skal þjóna hinum ýngra.
13. Eins og skrifað er: Jakob
elskaði eg, en Esaú hataði eg.
14. Hvað eigum vèr þá að
segja? Er órèttvísi hjá Guði?
Fjærri fer því.
15. Því hann segir við Mó-
ses: eg mun miskuna þeim,
er eg vil miskuna, eg mun
aumkast yfir þann, er eg vil
aumkast yfir.
16. Það er því ekki komið
undir þeim, sem vill, nè hin-
um, sem hleypur, heldur misk-
unanda Guði;

17. Því ritníngin segir við
Faraó: einmitt til þess reisti
eg þig upp, að eg sýndi veldi
mitt á þèr, og svo að nafn mitt
víðfrægðist um alla jörðina.
18. Svo miskunar hann þá
þeim, sem hann vill, en for-
herðir þann, sem hann vill.
19. Þú munt þá vilja svara
mèr: hvað getur hann þá gefið
að sök? Því að hver fær staðið
gegn vilja hans?
20. En hver ertu, ó maður,
sem yrðist við Guð? Mun leir-
kerið segja við þann, sem bjó
það til: því bjóstu mig svona
til?
21. Eða á ekki leirsmiðurinn
ráð á leirnum, svo hann megi
gjöra úr sama deigi annað
kerið til sæmdar og hitt til
vansæmdar?
22. Þó Guð, þegar hann vildi
sýna reiðina og auglýsa veldi
sitt, hafi umborið með miklu
lánglundargeði ker reiðinnar,
búin til glötunar,
23. Og ætlað sèr að birta
ríkdóm dýrðar sinnar á ker-
um miskunarinnar, sem hann
hafði áður búið til dýrðar;
24. Oss, sem hann hefur og
kallað, ekki einúngis af Gyð-
íngum, heldur og af heiðíngj-
um,
25. Eins og hann líka segir
hjá Hósea: Eg mun kalla það
mína þjóð, sem ekki var mín
þjóð, og þá ástkæra, sem ekki
var ástkær,
26. Og það mun fara svo, að
á þeim stað, þar sem við þá
var sagt: þèr eruð ekki mín
þjóð, þar munu þeir verða
kallaðir synir Guðs lifanda.
27. En Esajas kallar yfir Ís-
rael: þótt tala Ísraels sona
væri eins og sjáfar sandur,
þá skulu leifar einar (fáeinir)
frelsaðir verða;
28. Því að sá er, sem bindur
enda á orð og sker fljótt úr
með rèttvísi; fljótan úrskurð
mun Drottinn gjöra á jörð-
unni;
29. Og eins og Esajas sagði
fyrrum: nema Drottinn Se-
baot hefði skilið oss eptir
sæði, værum vèr orðnir eins
og Sódóma, og Gommorra
værum vèr líkir orðnir.
30. Hvað eigum vèr þá að
segja? Að heiðíngjarnir, sem
ekki sóktust eptir rèttlætinu,
hafa náð rèttlætinu, en því
rèttlæti, sem er af trúnni.
31. En Ísrael, sem sóktist
eptir rèttlætis lögmáli, komst
ekki að lögmáli rèttlætisins.
32. Hvers vegna? Af því þess
var ekki leitað af trú, heldur
eins og af lögmáls verkum,
því að þeir hafa rekið sig á
ásteytingar-steininn,

33. Eins og skrifað er: sjá, eg set í Síon ásteytíngar-stein og hrösunar hellu, og sèrhver, sem á hann trúir, mun ekki til skammar verða.

## 10. KAPÍTULI.

*Gyðíngar leita árángurslaust eptir rèttlæti af lögmálinu, því það veitist í Jesú fyrir trúna. Þessi náð er Gyðíngum árángurslaust fram boðin.*

BRÆÐUR, ósk hjarta míns og bæn til Guðs er fyrir Ísrael um frelsi;

2. Því eg ber það með þeim, að þeir hafa vandlætíng Guðs vegna, en ekki með skynsemd,

3. Því vegna þess þeir þektu ekki Guðs rèttlæti, en leituðust við að efla sitt eigið rèttlæti, hlýðnuðust þeir ekki Guðs rèttlæti.

4. Því að endir lögmálsins er Kristur, til rèttlætis sèrhverjum, sem trúir.

5. Því að Móses skrifar um það rèttlæti, sem er af lögmálinu, að sá, sem gjöri þessa hluti, muni af þeim lifa.

6. En það rèttlæti, sem er af trúnni, mælir þannig: seg þú ekki í hjarta þínu: hver mun fara upp í himininn? það er: til að sækja Krist,

7. Eða hver mun fara niður í undirdjúpið? það er: til að sækja Krist frá dauðum.

8. En hvað segir það þá? Nálægt þèr er orðið í munni þínum og í hjarta þínu. Þetta er orð trúarinnar, sem vèr prèdikum;

9. Því ef þú viðurkennir með munni þínum Drottinn Jesúm, og trúir í hjarta þínu, að Guð hafi uppvakið hann frá dauðum, muntu hólpinn verða,

10. Því að með hjartanu er trúað, til rèttlætis, en með munninum viðurkent til hjálpræðis;

11. Því að ritníngin segir: hver, sem trúir á hann, mun ekki til skammar verða.

12. Því að ekki er greinarmunur á Gyðíngi og Grískum; því sá sami er Drottinn allra, ríkur (náðar) við alla þá, sem hann ákalla;

13. Því að hver sem ákallar nafnið Drottins, mun hólpinn verða.

14. Hvernig eiga þeir þá að ákalla þann, sem þeir trúðu ekki á? En hvernig eiga þeir að trúa á þann, sem þeir hafa ekkert um heyrt? En hvernig eiga þeir að heyra án prèdikara?

15. En hvernig eiga þeir að prèdika, nema þeir sèu sendir? Eins og skrifað er: hversu fagrir eru fætur þeirra, sem friðinn boða, þeirra, sem boða hið góða.

16. En þeir hlýddu ekki allir fagnaðar erindinu, því að Esajas segir: Drottinn, hver trúði prèdikun vorri?

17. Svo kemur þá trúin af heyrninni, en heyrnin fyrir Guðs orð.

18. En eg spyr: hafa þeir ekki heyrt? Jú, vissulega er út um alla jörðina farinn hljómur þeirra, og orð þeirra til endimarka heimsbygðarinnar.

19. En eg spyr: vissi Ísrael ekki af? Fyrst segir Móses: eg mun láta yður metast við óþjóð, og erta yður til reiði við skynlausa þjóð.

20. En Esajas segir líka hiklaust: eg er fundinn af þeim, sem ekki leituðu mín, og augljós orðinn þeim, sem ekki spurðu að mèr.

21. En við Ísrael segir hann: allan daginn breiði eg út hendur mínar móti óhlýðinni og svörulli þjóð.

## 11. KAPÍTULI.

*Gyðíngum er ekki útskúfað; þeir, sem náðina þiggja, eru útvaldir, hinir forhertir. Forherðíng þeirra varð tilefni til, að heiðíngjar tóku Kristna trú, sem mætti uppörfa Gyðínga til að fylgja þeirra dæmi. Postulinn vegsamar Guðs speki.*

EG spyr þá: hefir Guð útskúfað lýð sínum? Fjærri fer því; því eg er líka Ísraels maður, af sæði Abrahams, ættkvísl Benjamíns.

2. Ekki hefir Guð útskúfað lýð sínum, sem hann fyrir fram þekti; eða vitið þèr ekki, hvað ritníngin segir um Elías, hvernig hann hallmælti Ísrael við Guð, segjandi:

3. Drottinn, spámenn þína hafa þeir drepið og velt um ölturum þínum, og eg er einn skilinn eptir, og sitja þeir um líf mitt?

4. En hvað segir guðlegt andsvar honum? Eg hefi mèr sjálfum eptirskilið sjö þúsundir manna, sem ekki hafa beygt knè sín fyrir Baal.

5. Þannig eru þá líka á yfirstandandi tíma orðnar eptir leifar samkvæmt náðar útvalníngu.

6. En ef það er af náð, þá er það ekki framar af verkum, annars verður náðin þá ekki framar náð; en ef það er af verkunum, þá er það ekki framar náð, ellegar verkið verður þá ekki verk framar.

7. Hvað þá? Það, sem Ísraelsmenn sækjast eptir, hlotnaðist þeim ekki, en hinum útvöldu hlotnaðist það, en hinir aðrir urðu forhertir.

8. Eins og skrifað er: Guð gaf þeim deyfðar anda, augu til þess þeir ekki sjái og eyru til þess ekki að heyra alt fram á þenna dag;

9. Og Davíð segir: verði borð
þeirra að snöru og að gildru
og til falls, og þeim til hegn-
íngar!
10. Blindist augu þeirra, svo
þeir sjái ekki, og síbeygðu
bak þeirra!
11. Eg spyr þess vegna: hrös-
uðu þeir, til þess að þeir
skyldu falla? Fjærri fer því,
heldur hefir af falli þeirra
staðið heill heiðíngjum, svo
þeir vekji kapp hjá þeim.
12. En ef fall þeirra er heim-
inum til fjár og fæð þeirra
heiðíngjum til fjár, hve miklu
framar fyllíng þeirra?
13. Því að við yður, heiðíngj-
ar, tala eg; að því leyti sem
eg er heiðíngja postuli, vil eg
heiðra embætti mitt,
14. Ef eg gæti hvatt mitt hold
(mína ættmenn) til metnaðar
og frelsað einhverja þeirra;
15. Því ef útskúfan þeirra er
friðþægíng heimsins (við Guð),
hvað mun þá móttaka þeirra
verða, annað en lífgun frá
dauðum?
16. En ef frumgróðinn er heil-
agur, þá einnig deigið; og ef
rótin er heilög, þá einnig
kvistirnir.
17. En þótt sumir kvistirnir
sèu brotnir af, en þú, sem
varst villi-viðsmjörsviður, sèrt
græddur við í þeirra stað og
sèrt orðinn hluttakandi í rót
og fitu olíutrèsins,
18. Þá stær þig ekki yfir
kvistunum; en ef þú stærir
þig, þá gættu þess, að þú ber
ekki rótina, heldur rótin þig.
19. Þú munt þá segja: kvist-
irnir eru brotnir af, svo eg
yrði græddur við?
20. Að vísu; fyrir vantrúar
sakir eru þeir af brotnir, en
vegna trúarinnar stendur þú,
stærðu þig ekki, heldur óttast.
21. Því að hafi Guð ekki
þyrmt enum náttúrlegu kvist-
um, þá er hætt við, að hann
muni ekki heldur þyrma þèr.
22. Gættu því að gæzku og
vandlæti Guðs: vandlæti við
þá, sem fallnir eru, en gæzku
við þig, ef þú stendur stöðug-
ur í gæzkunni, annars verður
þú einnig af höggvinn.
23. En hinir (föllnu) munu
líka verða græddir við, ef þeir
ekki halda áfram í vantrúnni,
því að máttugur er Guð að
græða þá aptur við;
24. Því að ef þú ert höggvinn
af því olíutrè, sem eptir eðli
sínu var villiviður, og ert mót
eðli þínu græddur við gott
olíutrè, hve miklu heldur
munu þessir eðlilegu kvist-
ir verða græddir við olíutrè
sjálfra þeirra?
25. Því að eg vil ekki, bræð-

ur, að yður sè ókunnur þessi leyndardómur, svo að þèr varizt sjálfsþótta, að Ísrael hefur að nokkru leyti orðið fyrir forherðíngu alt þángað til að fyllíng heiðíngjanna er komin inn;
26. Og þannig mun allur Ísraelslýður frelsaður verða, eins og skrifað er: frá Síon mun frelsarinn koma og útrýma guðleysi frá Jakob.
27. Og þetta er hjá mèr sáttmálinn við þá, þegar eg hefi tekið burt syndir þeirra.
28. Eptir náðarboðskapnum eru þeir að sönnu óvinir (Guðs) fyrir yðar sakir, en eptir útvalníngunni ástkærir fyrir feðranna sakir;
29. Því ekki getur Guð iðrast ástgjafa sinna og köllunar;
30. Því eins og þèr (heiðíngjar) forðum voruð óhlýðnir Guði, en hafið nú hlotið miskun vegna óhlýðni þeirra (Gyðínga),
31. Eins hafa þeir nú líka orðið óhlýðnir yður til miskunar, svo að þeim einnig yrði miskunað;
32. Því að Guð hefir alla innilukt undir óhlýðnina, til þess að hann miskunaði öllum.
33. Ó þá dýpt ríkdóms, speki og þekkíngar Guðs! Hversu óskiljanlegir eru dómar hans og órekjandi vegir hans!
34. Því að hver hefir þekt sinni Drottins? eða hver hefir verið hans ráðgjafi?
35. Eða hver hefir að fyrra bragði gefið honum svo að hann eigi laun skilin?
36. Því að frá honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir. Honum sè dýrð um aldir, amen.

## 12. KAPÍTULI.

*Postulinn áminnir hina trúuðu til heilags framferðis: að sèrhver eins og limur á Krists líkama, hegði sèr rèttilega, einkum í því, að auðsýna kærleikann.*

SVO áminni eg yður, bræður, í Guðs náðar nafni, að þèr framseljið líkami yðar eins og fórn, lifandi, helga, Guði þóknanlega, (sem er) skynsamleg guðsdýrkun yðar,
2. Og lagið yður ei eptir öld þessari, heldur takið háttaskipti með endurnýúngu hugarfars yðvars, svo að þèr fáið að reyna, hver sè vilji Guðs, hvað hann er góður, velþóknanlegur og fullkominn;
3. Því að eptir þeirri náð, sem mèr er gefin, segi eg sèrhverjum, sem á meðal yðar er, að hugsa ekki hærra, en hugsa ber, heldur hugsa svo, að hann hugsi hyggilega, eptir því sem Guð hefir sèrhverjum útbýtt mæli trúarinnar.

4. Því eins og vèr höfum á
einum líkama marga limi, en
allir limirnir hafa ekki sama
starfa,
5. Þannig erum vèr og marg-
ir einn líkami í Kristi, en hver
um sig annars limur;
6. En þareð vèr höfum
margvíslegar náðargjafir, eptir
þeirri náð sem oss er gefin,
7. (Þá verjum þeim vel), hvert
heldur það er spádómur, eptir
reglu trúarinnar, eða embætti,
í embættinu, eða kennandi, í
kenníngunni,
8. Eða áminnandi, í áminn-
íngunni; sá útbýtandi, í hrein-
skilni; forstöðumaðurinn, í
kostgæfni; sá líknandi, með
glöðu bragði.
9. Elskan sè flærðarlaus; hat-
ið hið vonda, en haldið fast
við hið góða.
10. Verið í bróðurlegum kær-
leika ástúðlegir innbyrðis og
verðið hver öðrum fyrri til að
veita hinum virðíngu.
11. Í iðninni ólatir, í andan-
um brennandi, Drottni þjón-
andi,
12. Í voninni glaðir, í þjáníng-
unni þólinmóðir, í bæninni
staðfastir.
13. Takið þátt í nauðsynjum
heilagra, stundið gestrisnina,
14. Blessið þá, er ofsækja yð-
ur, blessið, en bölvið ekki;
15. Fagnið með fagnendum
og grátið með grátendum;
16. Verið samlyndir innbyrð-
is, hugsið eigi hátt, heldur
haldið yður við hið lága; verið
eigi sèrvitrir.
17. Gjaldið eingum ilt fyrir
ilt; stundið það, sem fyrir allra
manna sjónum er sómasamlegt;
18. Ef mögulegt er, þá hafið
frið við alla menn að því leyti
sem í yðar valdi stendur;
19. Hefnið yðar ekki sjálfir,
elskanlegir, heldur gefið rúm
reiðinni; því að skrifað er:
mín er hefndin, eg mun endur-
gjalda, segir Drottinn.
20. Ef óvin þinn þessvegna
húngrar, þá gef honum að eta,
ef hann þyrstir, þá gef honum
að drekka, því með því að
gjöra þetta, safnar þú glóðum
elds yfir höfuð honum.
21. Lát ekki hið vonda yfir-
buga þig, heldur sigra þú hið
vonda með hinu góða.

## 13. KAPÍTULI.

*Trúaðir eiga að vera yfirvaldinu hlýðnir, auð-
sýna öllum kærleika, afleggja verk myrkranna.*

SÈRHVER maður sè yfir-
boðnum valdstèttum hlýð-
inn; því að ekki er nein vald-
stètt til, nema frá Guði, og
þær, sem til eru, þær eru skip-
aðar af Guði;
2. Svo að hver sá, sem veitir
valdstèttinni mótstöðu, hann

veitir Guðs tilskipun mótstöðu; en þeir, sem veita mótstöðu, munu baka sjálfum sèr dóm;

3. Því að valdsmennirnir eru eigi óttalegir góðum verkum, heldur vondum. En ef þú vilt eigi óttast valdstèttina, þá gjör það sem gott er, og muntu fá lofstír af henni,

4. Því hún er þjón Guðs þèr til góðs; en ef þú gjörir það, sem ilt er, máttu óttast, því hún ber ekki sverðið til einskis, með því hún er Guðs þjón, hegnari til refsíngar, þeim sem aðhefst hið illa.

5. Þess vegna er nauðsynlegt, að hlýðnast henni, ekki einúngis vegna hegníngarinnar, heldur og vegna samvizkunnar.

6. Þess vegna gjaldið þèr og skatt, því að þeir eru Guðs þjónar, sem sífelt starfa að þessu sama.

7. Gjaldið því öllum það sem skylt er, þeim skattinn, sem skatturinn ber, þeim tollinn, sem tollurinn ber, þeim óttann, sem óttinn ber; virðíngu þeim, sem virðíng ber.

8. Skuldið ekki neinum neitt nema það að elska hver annan; því sá, sem annan elskar, hefur þegar uppfylt lögmálið;

9. Því þetta, þú átt ekki að drýgja hór, þú átt ekki að vega mann, þú átt ekki að stela, þú átt ekki að bera ljúgvitni, þú átt ekki að girnast, og hvert annað boðorð er í þessari grein innibundið, það er að skilja í þessari: þú átt að elska náúnga þinn, eins og sjálfan þig.

10. Elskan gjörir ekki náúnganum mein; þess vegna er elskan uppfyllíng lögmálsins.

11. Og þetta því heldur, sem vèr þekkjum tímann, að oss er mál að rísa upp af svefni, því að nú er oss hjálpræðið nær, en þegar vèr tókum trú.

12. Nóttin er umliðin, en dagurinn í nánd, leggjum því af verk myrkursins og íklæðumst herklæðum ljóssins.

13. Fram gaungum sómasamlega eins og á degi, ekki í ofáti eða ofdrykkju, ekki í saurlifnaði nè munaðarlífi, ekki í prætu nè öfund,

14. Heldur íklæðizt Drottni Jesú Kristi; og alið ekki önn fyrir holdinu til að æsa girndir.

## 14. KAPÍTULI.

*Sá styrkari taki að sèr hinn veikari, og þessi fordæmi ekki hinn; sèrhver leiti dýrðar Guðs, sem vèr eigum allir reikníng að standa. Eingínn hneyksli bróður sinn eða gjöri neitt með efablendni.*

TAKIÐ að yður hinn trúarveika, án dóma um hans meiníngar.

2. Einn heldur, að als megi

neyta, en hinn, sem er trúar
veikur, neytir einúngis jarðar-
ávaxta.
3. Sá, sem als neytir fyrir-
líti ekki hinn, sem ekki neytir
als, og sá, sem ekki neytir
als, dæmi ekki þann, sem als
neytir; því að Guð hefir tekið
hann að sèr.
4. Hver ertu, sem annarleg-
an þjón dæmir? Hann stend-
ur eða fellur sínum herra; en
hann mun standa, því mátt-
ugur er Guð að láta hann
standa.
5. Sumir gjöra sèr daga mun,
en sumir dæma eins um alla
daga. Sèrhver haldi sannfær-
íngu í huga sínum.
6. Sá, sem af deginum heldur,
heldur af honum vegna Drott-
ins, og sá, sem ekki gjörir sèr
dagamun, gjörir hann ekki
vegna Drottins. Sá, sem etur
(alla fæðu), etur Drottni, því
að hann gjörir Guði þakkir;
sá, sem ekki etur, hann etur
ekki, Drottni til dýrðar, og
gjörir Guði þakkir.
7. Því að einginn af oss lifir
sjálfum sèr, og einginn deyr
sjálfum sèr;
8. Því að ef vèr lifum, lifum
vèr Drottni, ef vèr deyum,
deyum vèr Drottni; hvort sem
vèr þess vegna lifum eða dey-
um, þá erum vèr Drottins;
9. Því að til þess er Kristur
bæði dáinn og upp aptur ris-
inn og endurlifnaður, að hann
skyldi drottna bæði yfir dauð-
um og lifendum.
10. En þú, því dæmir þú
bróður þinn? Eða þá þú, hví
fyrir lítur þú bróður þinn? því
að allir munum vèr verða
látnir mæta fyrir dómstóli
Krists.
11. Því að skrifað er: svo
sannarlega sem eg lifi, segir
Drottinn, fyrir mèr skulu öll
knê sig beygja og allar túngur
vegsama Guð.
12. Þess vegna mun sèrhver
af oss standa Guði reiknings-
skap af sjálfum sèr.
13. Dæmum því ekki framar
hver annan, en ásetjið yður
heldur, að setja ekki ásteyt-
íngu eður hneyksli fyrir bróð-
ur yðar.
14. Eg veit það, og em þess
fullviss í Drottni Jesú, að ekk-
ert er óhreint í sjálfu sèr,
nema þeim sem heldur eitt-
hvað sè óhreint, honum er það
óhreint.
15. En ef bróðir þinn sturlast
fyrir fæðunnar sakir, þá geing-
ur þú ekki framar eptir kær-
leikanum; tortýn honum ekki
með matar tekju þinni, þeim,
sem Kristur lèt lífið fyrir.
16. Látið því ekki ilt orð

komast á hið góða (hnoss) yðar.
17. Því að Guðs ríki er ekki matur og drykkur, heldur rèttlæti og friður og fögnuður í Heilögum Anda;
18. Því að hver sem þjónar Kristi í þessu, hann er geðþekkur Guði og vel metinn af mönnum.
19. Stundum þá það, sem eflir eindrægni og sameiginlega uppbyggíngu.
20. Brjóttu ekki niður verk Guðs vegna fæðunnar! Alt er að sönnu hreint, en er þó ilt þeim manni, sem etur til ásteytíngar;
21. Það er gott hvorki að eta kjöt, nè drekka vín, eða (gjöra) neitt, sem bróðir þinn steytir sig á eða hneykslast, eða veiklast af.
22. Þú hefir trú, haf hana hjá sjálfum þèr fyrir Guði. Sæll er sá, sem áfellir sig ekki fyrir það, sem honum þykir gott;
23. En sá sem er efablandinn og etur þó, hann er sakfallinn, af því það er ekki af trú; en það er alt synd, sem ekki sprettur af trú.

## 15. KAPÍTULI.

*Sèrhver á að vera náúnga sínum til fyrirmyndar í hinu góða að Krists dæmi; Páll, sem heiðinna postuli, leyfir sèr að áminna Rómverja; segist vilja heimsækja þá þeim til uppbyggíngar; á meðan skuli þeir biðja fyrir honum.*

EN vèr, sem styrkvir erum, eigum að umbera breyskleika hinna óstyrku og þóknast ekki sjálfum oss;
2. Heldur þóknist sèrhver af oss náúnganum í því, sem gott er til uppbyggíngar;
3. Því Kristur leitaðist ekki við að þóknast sjálfum sèr, heldur eins og skrifað er: lastyrði þeirra, sem löstuðu þig, lentu á mèr.
4. Því alt sem áður er skrifað, það er áður skrifað oss til uppfræðíngar, svo að vèr fyrir þolinmæðina og huggun ritnínganna hefðum vonina.
5. En Guð þolinmæðinnar og huggunarinnar gefi yður, að vera samlyndum, innbyrðis eptir Kristó Jesú,
6. Svo að þèr samhuga með einum munni dýrkið Guð og Föður Drottins vors Jesú Krists.
7. Takið því hver annan að yður, eins og líka Kristur tók yður að sèr, Guði til dýrðar.
8. En eg segi að Jesús Kristur hafi verið þjón umskurnarinnar, vegna Guðs trúfesti, til að staðfesta fyrirheitin, sem feðrunum voru gefin;
9. En að heiðíngjar dýrki Guð af miskun, eins og skrifað er:

þess vegna skal eg vegsama
þig meðal heiðíngjanna og lof
sýngja þínu nafni.
10. Og aptur segir ritníngin:
fagnið, þèr heiðíngjar, með
hans fólki; og aptur:
11. Lofið Drottin, allar þjóð-
ir og vegsamið hann, allir lýðir;
12. Og enn aptur segir Esajas:
rót Jessai mun haldast við og
á þann, sem rís upp til að
stjórna heiðíngjum, munu heið-
íngjar vona.
13. En Guð vonarinnar fylli
yður öllum fagnaði og friði í
trúnni, svo að þèr sèuð auðug-
ir að von fyrir krapt Heilags
Anda.
14. En eg er líka sjálfur sann-
færður um yður, bræður mínir,
að þèr og sjálfir eruð fullir
góðgirni, uppfyltir af als kon-
ar þekkíngu og færir um að
áminna hver annan.
15. En djarflega skrifaði eg
yður, bræður mínir, að nokkru
leyti eins og minnandi yður á,
eptir þeirri náð, sem mèr er af
Guði gefin,
16. Að eg væri erindsreki
Jesú Krists til heiðíngjanna,
starfandi að Guðs náðarboð-
skap, til þess að fórn heiðíngj-
anna yrði velþóknanleg og
helguð í Heilögum Anda;
17. Þess vegna hefi eg hrósun í
Kristó Jesú í guðlegum efnum;
18. Því að ekki mundi eg
dirfast að tala nokkuð það, er
Kristur hefur ekki framkvæmt
fyrir mig, að koma heiðíngj-
um til hlýðni með orði og
verki,
19. Með krapti tákna og stór-
merkja, með krapti Heilags
Anda, svo að eg frá Jerúsalem
og alt í kríng til Illyríkum
hefi flutt til fulls Krists náðar-
boðskap,
20. En svoleiðis, að eg kapp-
kostaði, að boða náðarboð-
skapinn þar, sem Krists var
ekki (áður) getið, svo að eg
bygði ekki ofan á annarlegan
grundvöll;
21. Heldur eins og skrifað er:
þeir, sem ekkert var um hann
sagt, skulu sjá, og þeir, sem
ekki hafa heyrt, skulu skilja.
22. Þess vegna hefi eg líka opt
hindrazt frá, að koma til yðar;
23. En með því eg hefi nú,
eigi leingur rúm í þessum lönd-
um, en hefi haft laungun að
koma til yðar í mörg ár,
24. Þá býst eg við, þegar eg
ferðast til Spánar, að koma
um leið við hjá yður og sjá
yður og að þèr munið fylgja
mèr áleiðis þángað, þegar eg
er búinn að nokkru leyti að
svala mèr hjá yður;
25. En nú fer eg til Jerúsalem,
til að þjóna heilögum;

26. Því að Masedóníu og
Akkaju hefir þóknazt að skjóta
saman gjöfum handa fátækum
meðal heilagra í Jerúsalem.
27. Þeim þóknaðist það, enda
eru þeir í skuld við þá, því fyrst
heiðíngjarnir hafa feingið hlut-
deild í andlegum gæðum þeirra,
þá eiga þeir og að vera þeim
hjálplegir í líkamlegum efnum.
28. En þegar eg hefi lokið
þessu og innsiglað þeim þenna
ávöxt, mun eg fara um hjá
yður til Spánar.
29. En eg veit, að þegar eg
kem til yðar, mun eg koma
með fullri blessun Krists náð-
arboðskapar.
30. En eg bið yður, bræður,
vegna Drottins vors Jesú
Krists, og sökum Andans kær-
leika, að stríða með mèr í
bænum til Guðs fyrir mèr,
31. Að eg verði frelsaður frá
hinum vantrúuðu í Júdea, og að
erindi mitt til Jerúsalem verði
af hinum heilögu vel þegið,
32. Svo að eg með fögnuði
mætti til yðar koma, að vilja
Guðs, og hressast ásamt yður.
33. En Guð friðarins sè með
yður öllum, amen.

## 16. KAPÍTULI.

*Páll mælir fram með Febe, og sendir kveðju sína mörgum nafngreindum kristnum og öllum söfnuðinum; varar við villumönnum; ber kveðju frá ýmsum; endar brèfið með ósk fyrir söfnuðinum og lofgjörð til Guðs.*

EG fel yður á hendur Febe,
systur vora, sem er þjón-
usta safnaðarins í Kenkreis,
2. Svo þèr veitið henni við-
töku í Drottni, eins og heilög-
um hæfir, og liðsinnið henni, í
hverjum helzt hlut, sem hún
yðar við þarf, því hún hefir
verið máttarstoð margra og
mín líka.
3. Heilsið Priskillu og Akvílas,
verkanautum mínum í Kristó
Jesú.
4. (Sem vegna lífs míns hafa
vogað lífi sínu), sem ekki ein-
úngis eg votta þakkir, heldur
og allir safnaðir heiðíngjanna;
5. Heilsið einnig þeim safn-
aði, sem er í þeirra húsi; heils-
ið mínum hjartkæra Epenetus,
sem er frumgróði Asíu Kristi
til handa;
6. Heilsið Maríu, sem mikið
hefir unnið fyrir oss;
7. Heilsið Andrónikus og
Júnías, ættmönnum mínum og
sambandíngjum, sem eru í
metum hjá postulunum og
sem á undan mèr gengu á hönd
Kristi;
8. Heilsið Ampleas, ástvini
mínum í Drottni;
9. Heilsið Úrbanus, verkanaut
vorum í Kristó, og Stakkýs,
mínum elskulegum;
10. Heilsið Apelles, sem er
reyndur að góðu í Kristó;

11. Heilsið heimilismönnum Aristóbúli; heilsið Heródíon, frænda mínum; heilsið þeim hjúum Markissi, sem eru í Drottni;
12. Heilsið Trýfenu og Trýfósu, sem hafa unnið í Drottni; heilsið Persis, hinni elskulegu, sem mikið hefir starfað í Drottni;
13. Heilsið Rúfus, enum útvalda í Drottni, og móður hans og minni;
14. Heilsið Asýnkrítus, Flegon, Hermas, Patróbas, Hermes og bræðrunum, sem hjá þeim eru;
15. Heilsið Fílólógus og Júlías, Nereus og systur hans, og Ólympu og öllum heilögum, sem með þeim eru.
16. Heilsizt innbyrðis með heilögum kossi; yður heilsa allir Krists safnaðir.
17. En eg áminni yður, bræður, að þèr varið yður á þeim, er vekja sundurþykkju og hneyksli á móti þeim lærdómi, sem yður hefir verið kendur, og að þèr sneiðið yður hjá þeim;
18. Því að þess háttar menn þjóna ekki Drottni vorum Jesú Kristi, heldur maga sjálfra þeirra, og með blíðmælum og fagurgala tæla þeir hjörtu meinlausra.
19. Af því hlýðni yðar er alkunnug orðin, þá gleðst eg af yður, en eg vil, að þèr sèuð vitrir til ens góða, en einfaldir til ens illa.
20. En Guð friðarins mun bráðlega sundur troða Satan undir yðar fætur. Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yður, amen.
21. Yður heilsa: Tímóteus, samþjón minn, Lúkíus og Jason og Sósípater, ættmenn mínir.
22. Eg Tertíus, sem hefi skrifað brèfið, heilsa yður í Drottni.
23. Yður heilsar Gajus, hússbóndi minn og als safnaðarins. Yður heilsar Erastus, gjaldkeri borgarinnar, og Kvartus bróðir.
24. Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yður öllum, amen.
25. En honum, sem megnar að styrkja yður eptir mínu evangelíó og prèdikun Jesú Krists, eptir auglýsíngu þess leyndardóms, sem frá eilífð hefur legið í þögn,
26 En nú er opinberaður fyrir spámannlegar ritníngar, eptir skipun eilífs Guðs til hlýðni við trúna, sem auglýst er öllum þjóðum;
27. Einum alvitrum Guði sè, fyrir Jesúm Krist, dýrð um aldir, amen.

# SÁNKTI PÁLS FYRRI PISTILL

TIL

# KORINTUMANNA.

---

## 1. KAPÍTULI.

*Páll óskar kristnum mönnum í Korintu Guðs náðar; þakkar Guði fyrir, að Krists lærdómur hafi fest rætur hjá þeim, og vonar, að þekkíng hans og hlýðni við hann muni fara vaxandi; lastar ósamlyndi þeirra; varar þá við, að láta sig af heimsins vitríngum fleka frá Krists einfalda lærdómi, sem heiminum að sönnu þyki heimskulegur, en innihaldi þó guðlega speki og krapt; Guð hafi ena lítilmótlegu útvalið, svo menn verði alt náð Guðs að þakka.*

PÁLL, kallaður, að Guðs
vilja, til að vera postuli
Jesú Krists, og bróðir Sóstenes,
2. Óskar náðar og friðar af
Guði, föður vorum, og Drottni
Jesú Kristi, Guðs söfnuði í
Korintuborg, yður, sem fyrir
Jesúm Krist eruð helgaðir,
kallaðir og heilagir,
3. Ásamt öllum þeim, hvar
helzt sem þeir eru, sem ákalla
nafn Jesú Krists, vors og þeirra
Drottins.
4. Eg þakka Guði mínum
jafnan yðar vegna fyrir þá
Guðs náð, sem yður er gefin
fyrir Jesúm Krist;
5. Því að þèr eruð fyrir hann
í öllu auðgaðir í als konar
lærdómi og þekkíngu,
6. Með því lærdómur Krists
er orðinn hjá yður rótfestur,
7. Og það svo, að þèr eruð
ekki farnir varhluta af nokkurri náðargjöf, og væntið opinberunar Drottins vors Jesú
Krists,
8. Er og mun styrkja yður
alt til enda, svo að þèr sèuð
óásakanlegir á degi Drottins
vors Jesú Krists.
9. Trúr er Guð, sem hefir
kallað yður til samfèlags Sonar síns, Drottins vors Jesú
Krists.
10. En eg áminni yður, bræður,
í nafni Drottins Jesú Krists,
að þèr sèuð allir á einu máli,
og ekki sèu flokkadrættir yðar
á milli, heldur sèuð samlyndir
og samdóma;
11. Því mèr er sagt af heimilismönnum Klóe, bræður mínir,
að deilur sèu yðar á milli.
12. Eg meina þetta, að einn
af yður segir: eg er Páls:
annar: eg er Apollós; þriðji:
eg er Kefasar; fjórði: eg er
Krists.
13. Er þá búið að skipta

Kristi í sundur? Mun Páll hafa verið krossfestur yðar vegna? Eða eruð þèr skírðir í Páls nafni?

14. Guði sè lof, að eg eingan yðar hefi skírt, nema Krispus og Kajus,

15. Svo að einginn geti sagt, að eg hafi skírt í mínu nafni.

16. Eg skírði líka Stefáns heimilismenn; fleiri veit eg ekki til að eg hafi skírt;

17. Því Kristur sendi mig ekki til að skíra, heldur til að boða náðarboðskapinn, ekki með orðspeki, svo að lærdómurinn um hinn krossfesta misti ekki krapt sinn.

18. Því lærdómurinn um hinn krossfesta er þeim heimska, er sælunnar missa, en oss, sem hólpnir erum, kraptur Guðs;

19. Því skrifað er: eg vil að eingu gjöra spekínganna speki og ónýta viturleik hinna vitru.

20. Hvar stendur nú spekíngurinn? hvar hinn löglærði? hvar þessarar aldar vitríngar? Hefir Guð ekki gjört speki þessa heims að heimsku?

21. Því þar eð heimurinn með sinni speki ekki þekti Guð í hans speki, þá þóknaðist Guði að gjöra þá með einfaldlegri kenníngu hólpna, er henni vildu trúa.

22. Með því Gyðíngar heimta tákn og Grískir leita að speki, en vèr boðum Krist hinn krossfesta;

23. Þá er Gyðíngum vor kenníng til ásteytíngar, en heiðíngjum sýnist hún vera heimska.

24. En þeim, sem kallaðir eru, bæði Gyðíngum og Grikkjum, prèdikum vèr Krist, krapt Guðs og speki;

25. Því hið fávíslega Guðs er mönnum vitrara, og hið veika Guðs mönnum kröptugra.

26. Því lítið til köllunar yðar, bræður mínir, að margir yðar eru ekki, eptir holdinu, spekíngar, ekki margir voldugir, ekki margir stórættaðir; heldur hefir Guð útvalið hina fávísu heimsins,

27. Svo hinum vitru gjörðist kinnroði, og þá ena lítilmótlegu í heimsins augum hefir Guð útvalið, svo að hinum voldugu gjörðist kinnroði;

28. Þá ena ógöfugu í heiminum og fyrirlitnu hefir Guð útvalið, og þá, sem ekkert þókti í varið, til þess að gjöra ekkert úr þeim, sem nokkuð þókti í varið,

29. Svo að ekkert hold skuli hrósa sèr fyrir Guði.

30. En honum er það að þakka, að þèr eruð komnir í samfèlag við Jesúm Krist, sem oss er orðinn speki frá Guði til

rèttlætis, helgunar og endurlausnar;
31. Því skrifað er: sá sem hrósar sèr, hann hrósi sèr í Drottni.

## 2. KAPÍTULI.

*Páll gjörir grein fyrir kristniboði sínu; segist málsnildarlaust hafa kent krossins lærdóm, svo kraptur hans sè tileinkaður lærdóminum einum, sem innihaldi þvílíka speki, sem heimsins vitríngum hafi verið of há, nema þeir upplýstust af Guðs Anda.*

OG þegar eg kom til yðar, bræður, kom eg með einga frammúrskarandi orðsnild eður speki, til að boða yður vitnisburð Guðs;
2. Því eg ásetti mèr, að vita ekki annað, en lærdóminn um Jesúm Krist og hann krossfestan.
3. Og eg var hjá yður með veikleika og ótta og mikilli hræðslu.
4. Og lærdómur minn og kenníng var ekki inni falin í fortölum spaklegrar málsnildar, heldur í auglýsíngu anda og kraptar,
5. Svo yðar trú væri ekki bygð á mannlegri speki, heldur á Guðs krapti.
6. En vèr tölum speki meðal hinna fullkomnu, en þó ekki speki þessarar aldar, eður þessarar aldar höfðíngja, sem að eingu munu verða,
7. Heldur kennum vèr speki Guðs leyndarráðs, er áður var hulin, sem Guð hafði frá eilífð fyrirhugað oss til dýrðar.
8. Af þessari speki vissi einginn þessarar aldar höfðíngja, því ef þeir hefðu þekt hana, hefðu þeir ekki krossfest Drottinn dýrðarinnar,
9. Heldur, eins og skrifað stendur: auga hefir ekki sèð, ekki eyra heyrt og í einskis huga komið, það, sem Guð hefir þeim fyrirbúið, sem hann elska.
10. En oss hefir Guð opinberað hana fyrir sinn Anda, því Andinn rannsakar alt, og jafnvel Guðs leyndar-ráð.
11. Því hver veit, hvað í manninum býr, nema mannsins andi, sem í honum er? eins veit einginn, hvað í Guði býr, nema Guðs Andi.
12. En vèr höfum ekki meðtekið heimsins anda, heldur þann Anda, sem frá Guði er, svo vèr þekkjum þá náð, sem hann hefir oss veitta.
13. Þetta kennum vèr, ekki með orðum, sem mannleg speki hefir oss kent, heldur með orðum, er Andinn kennir, og útlistum hið andlega fyrir andlega sinnuðum.
14. En holdlega sinnaður maður skilur ekki það, sem Guðs Anda til heyrir, því það er heimska fyrir honum, og hann

getur ekki skilið það, því það
hlýtur andlega að dæmast.
15. En hinn andlega sinnaði
dæmir um alt, en verður af
eingum dæmdur;
16. "Því hver hefir þekt sinni
Drottins, að hann geti frætt
hann?" En vèr höfum Krists
sinni.

## 3. KAPÍTULI.

*Postulinn sýnir, að Korintumenn hafi einga orsök til að stæra sig af, hvað vel kristnir þeir sèu. Flokkadráttur þeirra á milli lýsir því, og að þeir byggja trú sína á lærdómi manna, sem þó eru ekki annað en Guðs þjónar; því að Kristur er grundvöllurinn, sem hver kennari á að byggja ofan á, sem hann hefir vit til; en ekki er sama, hvernig ofan á er bygt, og hættulegt, að reiða sig á annara manna vit, að menn ekki spilli Guðs musteri.*

SANNLEGA gat eg ekki
talað við yður, bræður
mínir, eins og andlega, held-
ur eins og holdlega, eins og
við börn í Kristi.
2. Eg gaf yður mjólk, en ekki
megna fæðu, því þèr þolduð
hana ekki; já, þèr þolið hana
ekki enn, því enn þá eruð þèr
holdlegir;
3. Metníngur, deilur og tví-
drægni eru á meðal yðar. Eruð
þèr þá ekki holdlegir og hegð-
ið yður eptir almennings sið?
4. Þegar einn segir: eg er
Páls; en annar: eg er Apoll-
ós, eruð þèr þá ekki holdlegir?
5. Því hvað er Páll, hvað er
Apolló, annað en þjónar, sem
hafa leitt yður til kristni, hver
eptir því sem Drottinn hefir
veitt hverjum fyrir sig?
6. Eg plantaði, Apolló vökv-
aði, en Guð gaf frjófgunina;
7. Svo að sá er ekki neitt,
sem gróðursetur eður vökvar,
heldur Guð, sem frjófgunina
gefur.
8. Sá, sem plantar, og sá,
sem vökvar, eru eitt, og hver
þeirra mun fá þau laun, sem
hann vinnur til.
9. Vèr erum Guðs þjónar, þèr
eruð Guðs akur, Guðs hús.
10. Sem vitur byggíngar-
meistari hefi eg grundvöllinn
lagt, eptir þeirri náð, sem mèr
er af Guði gefin, en annar hefir
bygt ofan á; sèr hver hafi gát
á, hvernig hann gjörir það.
11. Einginn getur annan
grundvöll lagt en þann, sem
lagður er, sem er Jesús
Kristur.
12. Byggi menn ofan á þenna
grundvöll gull, silfur, dýrmæta
steina, trè, hey, hálm,
13. Þá mun verða opinbert,
hvílíkt hvers eins verk er,
dagurinn mun gjöra það aug-
ljóst, því hann mun opinberast
í eldi og hann mun prófa,
hvílíkt hvers eins verk er.
14. Ef það stendur, sem ein-
hver hefir ofan á bygt, mun
hann fá laun;
15. En brenni það upp, bíður

hann þar af skaða, en sjálfur mun hann komast af, en þó líka sem úr eldi.

16. Vitið þèr ekki, að þèr eruð Guðs musteri, og að Guðs Andi býr í yður?

17. Hver sem skemmir Guðs musteri, þeim mun Guð hegna, því að Guðs musteri er heilagt, og þetta musteri eruð þèr.

18. Einginn dragi sig sjálfan á tálar; ef nokkur á meðal yðar þykist vera vitríngur á þessari öld, hann verði fávís, svo hann verði vís;

19. Því speki þessa heims er heimska hjá Guði; því svo stendur skrifað: hann grípur þá vitru í þeirra slægð;

20. Og á öðrum stað: Drottinn þekkir hugsanir hinna vitru, að þær eru hègómlegar.

21. Einginn stæri sig því af mönnum,

22. Því alt er yðvart, hvort heldur það er Páll eður Apolló, eður Kefas, eður heimur, eður líf, eður dauði, hið yfirstandandi eður tilkomandi.

23. Alt er yðvart; þèr eruð Krists, en Kristur er Guðs.

## 4. KAPÍTULI.

*Kennarar eru Guðs ráðsmenn, sem eiga honum reikníng að standa, en ekki hverjum, sem lastar þá. Páll finnur að við þá, sem vilja rýra hans postula-embætti og taka sjálfhælna kennara fram yfir hann; áminnir, að breyta eptir sèr og forðast hroka.*

ÞANNIG álíti sèrhver oss, sem Krists þjóna og umboðsmenn Guðs leyndardóma.

2. En það krefst af sèrhverjum umboðsmanni, að hann sè trúr.

3. Það er mèr fyrir minnstu, hvern dóm þèr eður aðrir menn leggja á mig; eg dæmi mig ekki sjálfur.

4. Einskis ils er eg mèr að sönnu meðvitandi; en fyrir það er eg þó ekki rèttlættur; Drottinn er sá, sem dæmir mig.

5. Dæmið því ekki fyri tímann, fyrri en Drottinn kemur, sem í ljós mun leiða það í myrkrunum er hulið, og opinberar gjöra hjartnanna hugsanir, og þá mun sèrhver fá sín laun af Guði.

6. En þetta hefi eg yðar vegna heimfært til mín og Apollós, svo að þèr af okkur getið lært að hugsa ekki hærra, en skrifað er, að einginn stæri sig af nokkrum manni gegn öðrum.

7. Því hver hefir gefið þèr yfirburði yfir aðra? Eður hvað hefir þú, sem þú hafir ekki þegið? En ef að þú hefir þegið það, því hrósar þú þèr þá, eins og þú hefðir það ekki þegið?

8. Þèr eruð þá þegar mettir orðnir, þèr eruð orðnir auðug-

ir, þèr ríkið án mín. Eg vildi,
að svo væri, því þá gæti eg
ríkt með yður.
9. Mèr sýnist, sem Guð láti
oss postulana vera auðvirðu-
legasta allra manna, svo sem
ætlaða til dauða, því vèr erum
orðnir skoðunarspil heiminum,
einglum og mönnum.
10. Vèr erum (álitnir) heimsk-
ir vegna Krists, en þèr vel
fróðir í Kristi, vèr veikir, þèr
styrkvir, þèr eruð virtir, vèr
vanvirtir.
11. Alt til þessarar stundar
líðum vèr húngur, þorsta,
klæðleysi og högg, og höfum
eingan samastað.
12. Vèr vinnum með vorum
eigin höndum; þegar oss er
óskað ils, óskum vèr góðs;
þegar vèr erum ofsóktir, um-
berum vèr það.
13. Þegar vèr erum lastaðir,
áminnum vèr. Vèr erum orðn-
ir eins og sorp veraldar og
afhrak allra alt til þessa tíma.
14. Þetta skrifa eg ekki til
að gjöra yður kinnroða, held-
ur áminni eg yður, eins og
elskuleg börn;
15. Því þótt þèr hafið ótal
lærimeistara í kristilegri trú,
þá hafið þèr samt ekki marga
feður, því eg er sá, sem hefi
getið yður í Kristi fyrir náðar-
boðskapinn.
16. Eg bið yður því: breytið
eptir mèr.
17. Þess vegna sendi eg til
yðar Tímóteum, minn elsku-
legan son og trúan í Drottins
þjónustu; hann mun segja
yður hvernig eg rek Krists
erindi allstaðar, þar sem eg
kenni kristni.
18. En nokkrir eru orðnir
hróðugir yfir því, að eg aldrei
muni koma til yðar;
19. En eg mun bráðum koma
til yðar, ef Drottinn vill, og þá
mun eg reyna, ekki orð sjálf-
byrgínganna, heldur krapt;
20. Því Guðs ríki er ekki
fólgið í orðum, heldur krapti.
21. Hvað viljið þèr? Á eg að
koma til yðar með vendi, eður
með kærleika og í hógværum
anda?

## 5. KAPÍTULI.

*Postulinn varar við lauslæti og frillulifnaði.*

ALRÆMT er, að lauslæti
sè hjá yður drottnandi,
og þvílíkt lauslæti, að ekki
eru dæmi til slíks meðal heið-
inna, að nokkur skuli halda
við konu föður síns.
2. Og þó eruð þèr hrokafullir,
og látið yður ekki miklu held-
ur vera ant um það, að sá,
sem þetta verk hefir drýgt, sè
rekinn burt frá yður.
3. Eg fyrir mitt leyti, þótt eg

sè fráverandi að líkamanum til, samt nálægur í huga,
4. Hefi í nafni Drottins vors Jesú Krists og eptir þeim myndugleika, sem hann hefir mèr gefið, svo sem nálægur úrskurðað (að ykkur samankölluðum ásamt mínum anda),
5. Að gefa þann, er þvílíkt hefir drýgt, í Satans vald til deyðíngar holdsins, svo sálin mætti hólpin verða á degi Drottins vors Jesú Krists.
6. Ekki er yðar stærilæti fagurt. Vitið þèr ekki, að lítið súrdeig getur sýrt alt deigið?
7. Takið burt hið gamla súrdeigið, svo að þèr framvegis getið verið nýtt deig, eins og þèr nú eruð ósýrðir; því vort páskalamb er og vor vegna slátrað, sem er Kristur.
8. Höldum því hátíð, ekki með hinu gamla súrdeiginu, eður með súrdeigi vonzkunnar og prettvísinnar, heldur með ósýrðu brauði hreinskilninnar og sannleikans.
9. Eg skrifaði yður í brèfi mínu, að þèr skylduð ekki hafa afskipti af frillulífismönnum;
10. En eg meinti öldúngis ekki til frillulífismanna út um heiminn, eður til ásælinna, eður ránsmanna, eður skurðgoðadýrkara þar, því þá yrðuð þèr að fara út úr heiminum.
11. En nú skrifa eg yður, að þèr skuluð ekki samlaga yður þeim bróður, sem er frillulífismaður, eður ásælinn, eður skurðgoðadýrkari, eður orðhákur, eður drykkjumaður, eður ránsmaður; með þvílíkum skuluð þèr ekki hafa mötuneyti.
12. Því hvað kemur það mèr við, að dæma um þá, sem fyrir utan söfnuðinn eru? Dæmið þèr ekki þá, sem í söfnuðinum eru?
13. En hina, sem fyrir utan hann eru, mun Guð dæma. Rekið glæpamanninn burt frá yður.

## 6. KAPÍTULI.

*Lastar, að klögumál kristinna á milli sèu borin undir heiðna dómendur, og yfir höfuð, að lestir skuli við gángast meðal kristinna. Setur ofaní við þá, sem taka lauslæti í forsvar.*

HVER yðar getur feingið það af sèr, ef hann hefur mál öðrum á móti, að láta það koma undir dóm heiðinna, en ekki heldur undir dóm heilagra?
2. Eður vitið þèr ekki, að hinir heilögu munu heiminn dæma? En ef heimurinn verður af yður dæmdur, eruð þèr þá óverðugir að dæma í minnstu málum?
3. Vitið þèr ekki, að vèr munum einglana dæma, því þá ekki hið tímanlega?
4. Ef að þèr hafið mál um

hið tímanlega, þá setjið þèr
þá til dómara, sem í fyrirlitn-
íngu eru í söfnuðinum.
5. Þetta segi eg yður til
blygðunar. Er þá ekki einn
einasti svo vitur á meðal yðar,
að hann geti skorið úr málum
milli bræðra sinna,
6. Heldur geingur bróðir í
rètt á móti bróður og það fyr-
ir dómstóli vantrúaðra?
7. Yfir höfuð að tala er það
yður til smánar, að þèr hafið
lagadeilur hver við annan.
8. Því líðið þèr ekki heldur
órètt, og því látið þèr ekki
heldur ásælast yður? En þèr
gjörið sjálfir órètt og ásælizt
aðra, og það yðar bræður.
9. Vitið þèr ekki, að órètt-
vísir munu ekki Guðs ríki
erfa? Dragið yður ekki sjálfa
á tálar; hvorki frillulífsmenn,
nè skurðgoða-dýrkarar, nè hór-
dómsmenn, nè mannbleyður,
eður þeir, sem leggjast með
karlmönnum,
10. Nè þjófar, nè ásælnir, nè
drykkjumenn, nè orðhákar, nè
ránsmenn, munu Guðs ríki
erfa.
11. Þvílíkir voru nokkrir af
yður áður, en nú eruð þèr
þvegnir, helgaðir og rèttlættir
fyrir Jesúm Krist og Anda
Guðs vors.
12. Alt er mèr leyfilegt, en
alt er samt ekki nytsamlegt.
Alt er mèr leyfilegt, en eg má
ekki láta nokkurn hlut fá vald
yfir mèr.
13. Fæðan er fyrir magann,
og maginn fyrir fæðuna, en
Guð mun gjöra enda á, bæði
henni og honum.
14. En líkaminn er ekki
(gefinn) til frillulífis, heldur
Drottni til þjónustu, og Drott-
inn er fyrir líkamann; því Guð,
sem uppvakti Drottinn, mun
og uppvekja oss fyrir krapt
sinn.
15. Vitið þèr ekki, að yðar
líkamir eru Krists limir? Ætti
eg þá að taka Krists limi og
gjöra þá að limum skækjunn-
ar? Fjærri fer því.
16. Eður vitið þèr ekki, að
sá, sem samlagar sig skækj-
unni, er einn líkami með
henni? Því þau tvö munu
verða einn líkami, segir ritn-
íngin.
17. En sá, sem samlagar sig
Drottni, er einn andi með
honum.
18. Forðizt frillulifnað; sèr-
hver önnur synd, sem maður-
inn drýgir, er fyrir utan líkam-
ann, en sá, sem saurlífi drýg-
ir, syndgar á móti sínum eigin
líkama.
19. Eður vitið þèr ekki, að
yðar líkami er musteri Heilags

Anda, sem í yður býr, sem þèr hafið frá Guði, og að þèr eruð ekki yðar eigin (eign);
20. Því fyrir verð eruð þèr keyptir; vegsamið því Guð með yðar líkama.

## 7. KAPÍTULI.

*Hvernig hjón skuli hegða sèr hvort við annað. Ræður meyum og ekkjum að lifa ógiptum. Bannar hjónaskilnað. Hver lifi í þeirri stètt og stöðu, sem hann er kallaður í. Orsakir, hversvegna ógipt staða sè betri.*

HVAÐ það áhrærir, er þèr skrifuðuð mèr um, þá er það gott, að vera ekki við konu kendur;
2. En fyrir frillulífis sakir, þá haldi hver við sína eigin konu, og hver kona við sinn eiginn mann.
3. Maðurinn gæti sinnar skyldu við konuna, og sömuleiðis konan við manninn.
4. Konan hefir ekki vald yfir sínum eigin líkama, heldur maðurinn; sömuleiðis hefir maðurinn ekki vald yfir sínum líkama, heldur konan.
5. Hvorugt haldi sèr frá öðru, nema það skildi vera eptir samkomulagi um tíma, svo þèr getið stundað bænahald; en takið síðan saman aptur, svo að Satan ekki freisti yðar vegna yðar bindindisleysis.
6. En þetta segi eg sem ráðleggíngu, en býð það ekki;
7. Því eg vildi, að allir væru eins og eg, en hver hefir sína náðargjöf þegið af Guði, einn þessa, annar hina.
8. En ógiptum og ekkjum segi eg, að þeim er betra, að vera eins og eg er;
9. En vanti þau bindindi, þá giptist þau; því betra er að giptast, en brenna (af losta).
10. En hinum giptu skipa eg, þó ekki eg, heldur Drottinn, að konan skuli ekki skilja við mann sinn;
11. En ef hún er skilin við hann, þá sè hún ógipt, ellegar taki aptur saman við manninn; ekki heldur skilji maðurinn við konuna.
12. Hinum öðrum býð eg, ekki Drottinn, að ef nokkur bróðir á vantrúaða konu, og hún vill búa saman við hann, þá skilji hann sig ekki við hana;
13. Og ef kona nokkur á vantrúaðan mann, og hann vill búa saman við hana, þá skilji hún ekki við hann.
14. Því hinn vantrúaði maður helgast af konunni, og hin vantrúaða kona helgast af manninum, því annars væru börn yðar vanheilög, en nú eru þau heilög.
15. En ef að hinn vantrúaði vill skilja við konuna, þá gjöri hann það; því, þegar svo á

stendur, þá er einginn bróðir eða systir þrælbundin, en Guð hefir kallað oss til friðar.

16. Því hvað veiztu, kona, hvort þú munir geta gjört manninn hólpinn? Eður hvað veiztu, maður, hvort þú munir geta gjört konuna hólpna?

17. En sèrhver sè í því ástandi, sem Drottinn hefir úthlutað honum, sèrhver eins og hann var, þá Guð kallaði hann; svo býð eg í öllum söfnuðum.

18. Ef hann var umskorinn, þegar hann var kallaður, þá dragi hann ekki yfirhúðina yfir aptur; ef hann þá var óumskorinn, láti hann sig ekki umskera.

19. Umskurnin er ekkert, og yfirhúðin ekkert, heldur varðveizla Guðs boðorða.

20. Sèrhver veri í þeirri stètt, sem hann var í, þegar hann var kallaður.

21. Hafir þú verið þræll, þá þú varst kallaður, láttu þig einu gilda; en ef þú getur frjáls orðið, þá vel það heldur.

22. Því sá, sem var þræll, þá hann var kallaður, er Drottins frelsíngi; sá, sem þá var frjáls, er Krists þræll.

23. Þèr eruð dýru verði keyptir, verið ekki manna þrælar.

24. Góðir bræður, sèrhver þjóni Guði í þeirri stètt, sem hann er í kallaður.

25. En um meyar hefi eg ekkert boðorð af Drottni, en segi mína meiníngu, eins og sá, er þá miskun hefir öðlazt af Guði, að vera trúr.

26. Það er þá mín meiníng, að það sè gott fyrir manninn vegna yfirstandandi neyðar, að vera ógiptur;

27. Sèrtu við konu bundinn, þá leita ekki skilnaðar, en sèrt þú konulaus, þá leita ekki kvonfángs.

28. En þótt þú giptist, syndgar þú ekki, og þó að mey giptist, syndgar hún ekki; en þvílíkir munu í líkamlega þreingíngu komast, en eg vil hlífa yður við henni.

29. Því það segi eg yður, bræður, að skamt muni þess að bíða, að þeir, sem konur hafa, verði sem þeir einga hefðu;

30. Þeir, sem gráta, eins og þeir, sem ekki gráta; þeir, sem gleðjast, eins og þeir, sem af eingu hafa að gleðjast; þeir, sem kaupa, eins og þeir, sem ekkert eiga;

31. Þeir, sem njóta heimsins gæða, eins og þeir, sem ekki hafa þeim að fagna; því útlit þessa heims hverfur.

32. En eg vil, að þèr sèuð áhyggjulausir. Hinn ókvænti

hyggur að Drottins vilja, hvernig hann megi Drottni þóknast;
33. En hinn, sem kvæntur er, ber áhyggju fyrir því veraldlega, hvernig hann megi konunni þóknast.
34. Það er og mismunur á konu og ógiptri stúlku: sú hin ógipta hugsar um það, sem Drottni viðkemur, að hún sè heilög bæði á sálu og líkama; en sú gipta hugsar um það veraldlega, hvernig hún geti manninum þóknazt.
35. En þetta segi eg yður sjálfum til góðs, en ekki til að leggja fyrir yður fótakefli, heldur svo að þèr í siðsemi, stöðugleika og hindrunarlaust getið tilheyrt Drottni.
36. En ef einhver þykist hafa vansa af því, að mey hans ekki giptist í tíma, og hjá því verði ekki komizt, þá gjöri hann, sem honum líkar, hann syndgar ekki; giptist þau.
37. En sá, sem stendur stöðugur í sínum ásetníngi, og eingin nauðsyn þreingir til, heldur er sjálfráður, að gjöra það sem hann vill, og hefir ásett sèr að geyma mey sína, hann gjörir vel.
38. Þessvegna gjörir sá vel, sem giptir hana; en sá, sem ekki giptir hana, gjörir enn betur.
39. Konan er bundin, meðan ektamaður hennar lifir; en þegar hann er dáinn, er henni frjálst, að giptast hverjum sem hún vill, einúngis að það sè í Drottni.
40. En betur er hún farin, ef hún ekki giptir sig, eptir minni meiníngu, og þykist eg líka hafa Guðs Anda.

## 8. KAPÍTULI.

*Einginn láti þekkíngu sína verða öðrum til ásteytíngar. Skurðgoð eru að sönnu ekkert, en þó má ekki eta skurðgoða fórnir, svo hinn veiktrúaði ekki hneykslist.*

HVAÐ það kjöt áhrærir, sem skurðgoðum er fórnfært, vitum vèr, að allir höfum vèr þekkíngu (þekkíngin gjörir stærilátan, en kærleikurinn uppbyggir;
2. Svo ef einhver þykist mikill af þekkíngu sinni, hann þekkir ekkert, eins og þekkja ber;
3. En sá, sem elskar Guð, hann þekkir Guð).
4. Hvað áhrærir nautn þess, sem skurðgoðum hefir fórnfært verið, þá vitum vèr, að skurðgoð er ekkert, og einginn Guð til, nema sá eini.
5. Því jafnvel þó guðir sèu kallaðir, svo vel á himni, sem á jörðu (eins og sagt er: margir eru guðir og margir drottnar),
6. Þá höfum vèr ekki nema

einn Guð, Föðurinn, frá hverj-
um alt er, og vèr honum (til
dýrðar), og einn Drottinn Jes-
úm Krist, fyrir hvern alt er,
vèr einnig.
7. En allir hafa ekki þessa
þekkíngu, heldur eta sumir
það enn nú af skurðgoða-
trú, sem skurðgoðafórn, og
saurgast svo samvizka þeirra,
sem er veik.
8. Fæðan mælir ekki fram
með oss hjá Guði, því vèr er-
um hvorki betri, þótt vèr etum,
nè verri, þótt vèr ekki etum.
9. En gætið þess, að yðar
frjálsræði í þessu verði ekki
hinum veiku ásteytíngar-efni;
10. Því sæi einhver breyskur
þig, sem hefur þekkíngu, sitja
til borðs í skurðgoða hofi,
mundi ekki samvizka þess,
sem veikur er, stælast svo, að
hann æti skurðgoða fórnir?
11. Og hinn veiki bróðir, sem
Kristur er dáinn fyrir, mun
tortýnast sökum þekkíngar
þinnar.
12. En þegar þèr þannig
syndgið móti yðar bræðrum
og meiðið þeirra reikandi sam-
vizku, þá syndgið þèr á móti
Kristi.
13. Þessvegna, ef eg með nautn-
inni hneyksla bróður minn,
skal eg aldrei að eilífu kjöt
eta, svo eg ekki hneyksli hann.

## 9. KAPÍTULI.

*Postulinn sýnir, að hann hafi rètt til, að lifa á kostnað safnaðanna; en eins í þessu, sem fleiru, takmarki hann frelsi sitt, til þess að geta áunnið sem flesta. Hvetur til, að menn, að hans dæmi, skuli með stríði og bindindi gjöra sig verðuga þeirra launa, er sannkristnum þar fyrir eru heitin.*

ER eg ekki frjáls maður?
Er eg ekki postuli? Hefi
eg ekki sèð Jesúm Krist Drott-
inn vorn? Eruð þèr ekki ávöxt-
ur vinnu minnar í Drottni?
2. Þó eg sè ekki annara, þá er
eg samt vissulega yðar postuli;
því að þèr eruð innsigli míns
postula-embættis í Drottni;
3. Þetta er vörn mín gegn
þeim, sem hniðra mèr.
4. Höfum vèr ekki rètt til, að
eta og drekka?
5. Er oss ekki leyfilegt, að
hafa með oss kristna konu,
eins og hinum postulunum,
bræðrum Drottins og Kefasi?
6. Munum við Barnabas einir
ekki hafa leyfi til, að vera laus-
ir við vinnu?
7. Hver fer nokkru sinni í
stríð á eigin kostnað? Hver
plantar víngarð, og neytir ekki
af hans ávexti? Eður hver
gætir hjarðar, og neytir ekki
af mjólk hjarðarinnar?
8. Tala eg þetta eptir mann-
legri háttsemi? Segir ekki
lögmálið hið sama?
9. Því í Mósis lögmáli stendur
skrifað: mýldu ekki nautið,

sem þreskir. Mun Guð bera umhyggju fyrir nautunum?
10. Vissulega segir hann það vor vegna; því vor vegna er það ritað, að sá sem plægir, á að plægja í voninni, og sá sem þreskir, verða hluttakandi þess, sem hann vonar.
11. Ef vèr höfum sáð niður hjá yður andlegum hlutum, er það þá of mikið, þó vèr uppskerum hjá yður líkamlega hluti?
12. Ef aðrir hafa þetta vald yfir yður, hversu framar þá ekki vèr? En vèr höfum ekki hagnýtt oss það, heldur umberum vèr alt, svo að vèr gjörum lærdómi Krists einga hindrun.
13. Vitið þèr ekki, að þeir, sem að fórnfæríngunum þjóna, eta af fórninni, og þeir, sem altarinu þjóna, taka hlut með því?
14. Eins hefir og Drottinn tilskipað, að þeir, sem náðarlærdóminn boða, skuli lifa af því.
15. En eg hefi ekki hagnýtt mèr neitt af þessu. Eg skrifa þetta ekki heldur til þess, að svo skuli vera gjört við mig, því mèr er betra að deya, en að nokkur ónýti þetta hrós.
16. Því þó eg boði náðarlærdóminn, er það ekkert hrós fyrir mig, því nauðsyn rekur mig til þess. Vei mèr, ef eg gjöri það ekki.
17. Því ef eg gjöri það fúslega, fæ eg laun; en gjöri eg það með nauðúng, er mèr þó þetta embætti á hendur falið.
18. Hver eru þá mín laun? Að þegar eg flyt náðarboðskap Krists skuli eg gjöra það kauplaust svo eg misbrúki ekki það leyfi, sem boðan náðarlærdómsins gefur mèr.
19. Því þó að eg sè eingum manni háður, hefi eg samt gjört mig sjálfan að hvers manns þjóni, svo eg áynni þess fleiri.
20. Á meðal Gyðínga hefi eg verið Gyðíngur, svo eg áynni Gyðínga; hjá þeim, sem undir lögmálinu eru, hefi eg verið eins og undir lögmálinu, þó eg sè ekki undir því, til þess eg áynni þá, sem undir lögmálinu eru.
21. Hjá hinum lögmálslausu, sem lögmálslaus (ekki samt lögmálslaus fyrir Guði, heldur lögbundinn Kristi), svo eg áynni hina lögmálslausu.
22. Meðal hinna óstyrku hegðaði eg mèr sem óstyrkur, svo eg áynni þá. Eg hefi verið öllum alt, svo að eg að minnsta kosti gæti frelsað nokkra.
23. En þetta gjöri eg vegna náðarboðskaparins, svo eg

verði hluttakandi í hans gæðum.

24. Vitið þèr ekki, að þeir, sem á skeiðvellinum hlaupa, hlaupa að sönnu allir, en ekki fær samt nema einn hnossið? Hlaupið þannig, að þèr höndlið það.

25. En hver, sem fer í kappleik, leggur hart á sig; þeir, til að vinna forgeingilega kórónu, en vèr, óforgeingilega.

26. Þess vegna hleyp eg ekki svo sem upp á óvissu, berst ekki sem sá, er í vindinn slær;

27. Heldur tem eg líkama minn og þjái hann, svo að eg, sem kenni öðrum, verði ekki sjálfur rækur.

## 10. KAPÍTULI.

*Hegníngardómar Guðs yfir Gyðíngum eiga að vera öðrum til aðvörunar. Kristnum sæmir ekki, að sitja að blótveizlum; eiga jafnvel að halda sèr frá leyfilegum hlutum, t. a. m. leifum skurðgoða fórna, til þess að hneyklsa ekki aðra.*

ÞVÍ eg vil ekki dylja fyrir yður, bræður, að feður vorir voru allir undir skýinu, og að þeir allir fóru yfir um hafið,

2. Og voru til fylgdar við Móses, allrir skírðir í skýinu og hafinu,

3. Og þeir neyttu allir hinnar sömu andlegu fæðu, og drukku allir sama andlega drykk;

4. Því þeir drukku af hinni andlegu hellu, sem þeim fylgdi; en þessi hella var Kristur.

5. Samt voru fæstir af þeim Guði þóknanlegir; með því þeir fèllu í eyðimörkinni.

6. Þetta er skeð oss til viðvörunar, svo að vèr girnumst ekki hið vonda, eins og þeir girntust.

7. Verið ekki blótmenn (skurðgoða), eins og nokkrir þeirra voru; því skrifað er: þeir settust niður að eta og drekka, og stóðu upp til leika.

8. Hórizt ekki, eins og nokkrir þeirra, og 23 þúsundir dóu á einum degi.

9. Freistum ekki heldur Krists, eins og sumir af þeim gjörðu, og fyrirfórust af höggormabiti.

10. Möglið ekki, eins og nokkrir þeirra mögluðu, sem eyðandinn fyrirfór.

11. En alt þetta kom yfir þá þeim til bendíngar, og er ritað oss til víðvörunar, sem endir aldanna er kominn yfir.

12. Sá, sem því þykist standa, gæti að sèr, að hann ekki falli.

13. Þèr hafið ekki reynt nema mannlega freistni; en Guð er trúr, er ekki mun láta yður freistast fram yfir megn, heldur gjöra þann endir á freistíngunni, að þèr getið staðizt hana.

14. Forðizt þess vegna skurðgoðadýrkun, mínir elskanlegir.

15. Eg tala til yðar, sem hygginna manna; rannsakið þèr orð mín.

16. Sá blessunar-kaleikur, sem vèr blessum, er hann ekki hluttekníng í Krists blóði? Og brauðið, sem vèr brjótum, er það ekki hluttekníng í Krists líkama?

17. Af því það er eitt brauð, þá erum vèr hinir mörgu einn líkami; því vèr erum allir hluttakandi í þessu eina brauði.

18. Lítið til þeirra, sem Gyðíngar eru eptir holdinu; koma þeir, sem fórnirnar eta, ekki í samfèlag við altarið?

19. Hvað segi eg? að skurðgoð sè nokkuð? eður það, sem því er fórnað, nokkuð?

20. En því sem heiðíngjarnir fórnfæra, því fórnfæra þeir samt djöflum, en ekki Guði; en eg vil ekki, að þèr hafið samnautn með djöflunum.

21. Þèr getið ekki undireins drukkið kaleik Drottins og djöflanna; þèr getið ekki undireins verið borðgestir Drottins og djöflanna.

22. Eður eigum vèr að reita Drottin til reiði? Munum vèr vera máttugri, en hann?

23. Alt er leyfilegt; en alt er þó ekki nytsamlegt. Alt er leyfilegt; en alt er þó ekki til uppbyggíngar.

24. Einginn leiti síns gagns, heldur annara.

25. Etið alt það, sem á torginu er selt, og spyrjið ekkert um það, fyrir samvizkunnar sakir;

26. Því Drottni, tilheyrir jörðin, og alt, sem á henni er.

27. Ef einhver, sem ekki er kristinn, býður yður, og þèr viljið fara, þá etið alt, sem fyrir yður verður sett, og rannsakið það ekki, fyrir samvizkunnar sakir.

28. En ef einhver segir við yður: þetta eru skurðgoðafórnir, þá etið ekki, fyrir þess manns sakir, sem aðvaraði yður, og samvizkunnar vegna.

29. Eg segi, samvizkunnar vegna, ekki yðar eigin, heldur hins; því hvers vegna ætti frelsi mitt að dæmast eptir annars manns samvizku?

30. Ef eg neyti fæðunnar með þakklæti, því er mèr hallmælt fyrir það, er eg gjöri Guði þakkir fyrir?

31. Hvort heldur þèr því etið, eður drekkið, eður hvað helzt þèr gjörið, gjörið það alt Guði til dýrðar.

32. Gefið eingum, hvorki Gyðíngi nè Grikkja, nè Guðs söfnuði, nokkra orsök til ásteytíngar,

33. Eins og eg leitast við, að

þóknast öllum í öllu, og leita ekki míns hagnaðar, heldur margra, svo að þeir verði hólpnir.

## 11. KAPÍTULI.

*Postulinn varar við ýmsum ósiðum við guðsþjónustugjörðina. Áminnir, um að sýna bróðurlegan kærleika við kvöldmáltíðina og forðast manngreinar-álit og alla ósæmilega hegðun, svo menn baki sèr ekki hegníngu.*

BREYTIÐ eptir mèr, eins og eg breyti eptir Kristi.
2. En eg hrósa yður, bræður, fyrir það, að þèr minnist mín í öllu, og haldið þær reglugjörðir, sem eg hefi sett.
3. En vitið það, að Kristur er hvers karlmanns höfuð, en karlmaðurinn konunnar höfuð, en Guð Krists höfuð.
4. Hver sá karlmaður, sem biður eður spáir með höfuðfati á höfði, óvirðir höfuð sitt.
5. En hver kona þar á móti, sem biður eður spáir með beru höfði, óvirðir höfuð sitt, því það er, eins og höfuðhár hennar væri rakað.
6. Því ef konan vill ekki hylja sig, þá láti hún raka höfuðhár sitt; en ef það er konu vansi, að klippast eður rakast, þá hylji hún höfuð sitt.
7. Karlmaðurinn á ekki að hylja höfuðið, því hann er ímynd og vegsemd Guðs, en konan er vegsemd mannsins.
8. Því maðurinn er ekki af konunni, heldur konan af manninum;
9. Því ekki er heldur maðurinn skapaður vegna konunnar, heldur konan vegna mannsins.
10. Þess vegna ber konunni að bera lotníngarmerki á höfði sèr, sakir einglanna.
11. Samt er hvorki maðurinn án konunnar, nè konan án mannsins, eptir Drottins tilætlun.
12. Því eins og konan er af manninum, eins er og maðurinn af konunni; en alt er af Guði.
13. Hugsið eptir með sjálfum yður, hvort það sómir konu, að biðja til Guðs berhöfðaðri?
14. Eður segir ekki yðar eigin náttúra yður, að karlmanni er það til vanvirðu, að láta hár sitt vaxa,
15. En aptur á mót konu sæmd, að láta hár sitt vaxa, því henni er hárið gefið í skýlustað?
16. En vilji nokkur þrátta um þetta, þá viti hann, að vèr höfum ekki slíka venju, og ekki heldur Guðs söfnuðir.
17. En um leið og eg áminni um þetta, vil eg ekki hrósa því, að þèr komið saman, ekki til ens betra, heldur til ens verra.
18. Því fyrst heyri eg, að þeg-

ar þèr komið saman í söfnuðinum, sè sundurlyndi yðar á milli, og að nokkru leyti trúi eg því.
19. Því flokkadrættir verða að vera yðar á milli, svo að þeir þekkist úr, sem góðir eru.
20. Þegar þèr komið saman, er það ekki til að halda Drottins kvöldmáltíð;
21. Því hver tekur sína fæðu fyrir fram fyrir sig, þegar til borðhaldsins kemur, svo einn er svángur, en annar neytir í óhófi.
22. Hafið þèr ekki heimili, þar sem þèr getið etið og drukkið? Eður fyrirlítið þèr Guðs söfnuð og forsmáið þá, sem fátækir eru? Hvað á eg að segja yður? Á eg að hrósa yður? Fyrir þetta hrósa eg yður ekki.
23. Því eg hefi meðtekið af Drottni, það sem eg hefi kent yður, að Drottinn Jesús, á þeirri nótt sem hann var svikinn, tók brauðið, gjörði þakkir, braut það og sagði:
24. Þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður brotinn; gjörið þetta í mína minníngu.
25. Sömuleiðis einnig kaleikinn eptir kvöldmáltíðina, segjandi: þessi kaleikur er nýr sáttmáli í mínu blóði; gjörið þetta, svo opt sem þèr drekkið, í mína minníngu.
26. Því svo opt sem þèr etið þetta brauð, og drekkið af þessum kaleik, þá boðið þèr dauða Drottins, þángað til hann kemur.
27. Hver sem því, etur þetta brauð og drekkur af kaleik Drottins óverðuglega, sá verður sekur við Drottins líkama og blóð.
28. En sèrhver prófi sig sjálfan, og eti síðan af brauðinu og drekki af kaleiknum;
29. Því sá sem óverðuglega, etur og drekkur, hann etur og drekkur sèr til dómsáfellis, þar eð hann ekki gjörir greinarmun á Drottins líkama.
30. Þar fyrir eru svo margir á meðal yðar veikir, vanmáttugir, og margir dánir.
31. Því ef vèr dæmdum oss sjálfa, þá yrðum vèr ekki dæmdir.
32. En þegar Drottinn dæmir, þá er það til að aga oss, svo vèr ekki skulum fordæmast með heiminum.
33. Þar fyrir, bræður mínir, þegar þèr komið saman til máltíðar, þá bíðið hver eptir öðrum.
34. Ef einhvern húngrar, eti hann heima, svo að þèr ekki komið saman yður til dóms. En eg mun skipa til um hitt annað, þegar eg kem.

## 12. KAPÍTULI.

*Heilagur Andi útbýtir gjöfum sínum, hverjum eptir sinni vild, en sèrhver verji þeim til sameiginlegs gagns.*

EN eg vil ekki láta yður, bræður mínir, vera ókunnugt um hinar andlegu gjafir.
2. Þèr vitið, að þèr voruð heiðíngjar, og geinguð til mállausra skurðgoða, eptir því sem þèr voruð leiddir.
3. Þess vegna læt eg yður vita, að eingi sá, sem talar af Guðs Anda, formælir Jesú, og að eingi getur kallað Jesúm Drottin, nema Heilagur Andi sè með honum.
4. Mismunur er á náðargáfum, en sami er Andinn;
5. Mismunur er á embættum, en sami er Drottinn;
6. Mismunur er á framkvæmdum, en Guð er hinn sami, er framkvæmir alt í öllum.
7. En sèrhverjum er gefið að sýna Andans gjöf öðrum til gagns;
8. Því að einum er af Andanum gefið að mæla af vísdómi; en öðrum djúpsæ þekkíng, af hinum sama Anda;
9. En öðrum trú, af sama Anda; öðrum læknisgáfa, af hinum sama Anda;
10. Öðrum framkvæmdir kraptaverka; öðrum spádóms gáfa; öðrum greind á að dæma um andana; öðrum margháttaðar túngur;
11. Öðrum útleggíng túngnanna. En alt þetta framkvæmir einn og hinn sami Andi, sem útbýtir hverjum einum eptir sinni vild;
12. Því eins og líkaminn er ekki nema einn, þó hann hafi marga limu, en allir limir þess eina líkama, sem eru margir, eru einn líkami:
13. Eins er Kristur; því að vèr erum allir með einum Anda skírðir til að vera einn líkami, hvort sem vèr erum Gyðíngar, eður Grikkir, þrælar eður frjálsir menn, og allir erum vèr drykkjaðir, svo vèr sèum einn andi;
14. Því að líkaminn er ekki einn limur, heldur margir.
15. Þó fóturinn segði: fyrst eg er ekki hönd, er eg ekki partur líkamans; mundi hann ekki vera það eins fyrir það?
16. Og þó eyrað segði: fyrst eg er ekki auga, er eg ekki partur líkamans; mundi það ekki þar fyrir vera líkamans limur?
17. Ef allur líkaminn væri auga, hvar væri þá heyrnin? Ef hann allur væri eyra, hvar væri þá ilmanin?

18. En nú hefir Guð sett limina á líkamanum, hvern einn, þar sem honum leizt.

19. En ef allir limirnir væru einn limur, hvar væri þá líkaminn?

20. En nú eru limirnir margir, en líkaminn einn.

21. Augað má því ekki segja við höndina: eg þarf þín ekki við; eður höfuðið við fæturna: eg þarf ykkar ekki við;

22. Heldur eru miklu fremur þeir limir nauðsynlegir, sem auðvirðilegastir sýnast;

23. Og þeim limum líkamans sýnum vèr mestan sóma, sem vèr höldum óálitlegasta, og þeir, sem óvirðuglegastir þykja, prýðast mest,

24. En þeir, sem álitlegir eru, hafa þess ekki þörf; heldur hefir Guð þannig hagað líkamans samteingíngu, að sá, sem miður er, sè mest verður,

25. Svo ekki verði ágreiníngur milli líkamans lima, heldur að hver limurinn beri umhyggju fyrir öðrum.

26. Þar af er það, að hvort sem einn limurinn finnur til, finna allir limirnir til með honum, eður einum vegnar vel, þá samgleðjast allir hinir limirnir.

27. En þèr eruð Krists líkami og limir, hver fyrir sig.

28. Og suma setti Guð í söfnuðinum, fyrst postula, þar næst spámenn, svo kennara, þar næst þá, sem hafa gáfu til að gjöra kraptaverk; gáfu til að lækna, til að aðstoða, stjórna og að tala margháttuðum túngum.

29. Eru allir postular? allir spámenn? allir lærifeður? Er öllum gefið að gjöra kraptaverk? Hafa allir læknisgáfu?

30. Tala allir túngum, eður geta allir útlagt þær?

31. Sækizt eptir hinum beztu gáfum, og enn fremur vil eg vísa yður hinn bezta veg.

## 13. KAPÍTULI.

*Ef kærleikann vantar, gagna ekki hinar gáfurnar. Elskunnar eiginlegleikar. Allar aðrar gáfur þverra loksins; elskan ein er varanleg.*

ÞÓ að eg talaði bæði eingla og manna túngum, en hefði ekki kærleikann, þá væri eg eins og hljómandi málmur eða hvellandi bjalla;

2. Og þó eg hefði spádómsgáfu, vissi alla leyndardóma og hefði als háttar þekkíngu, hefði trú svo mikla, að eg gæti flutt fjöll, en hefði ekki kærleikann, þá væri eg einskis verður.

3. Og þó eg bitaði niður allar eigur mínar og lèti jafnvel brenna mig, en hefði ekki

kærleikann, væri það mèr til
einskis gagns.
4. Kærleikurinn er umburðar-
lyndur, góðviljaður, ekki öfund-
sjúkur, ekki raupsamur,
5. Ekki hrokafullur, gjörir
ekkert ósæmilegt, er ekki
sèrplæginn, ekki reiðigjarn,
tilreiknar ekki ilt,
6. Gleður sig ekki af órètt-
vísi, en samgleðst sannleik-
anum,
7. Er þagmælskur, trúir öllu,
vonar alt, umber alt.
8. Kærleikurinn fellur aldrei
úr gildi; en hvort heldur það
eru spádómsgáfur, þá munu
þær þverra, eður túngur, þá
mun þeim linna, eður þekk-
íng, þá mun hún þrjóta.
9. Því vèr þekkjum ekki
nema að nokkru leyti og
spáum ekki nema að nokkru
leyti;
10. En þegar hið fullkomna
kemur, þá þverrar það, sem
ekki er nema að nokkru
leyti.
11. Þegar eg var barn, talaði
eg sem barn, var lyndur eins
og barn og hugsaði sem barn;
en þegar eg varð fullorðinn,
lagði eg af bernskuna.
12. Því nú sjáum vèr gegnum
gler í ráðgátu, en á síðan aug-
liti til auglitis; nú þekki eg
að nokkru leyti, en þá mun
eg sjálfur þekkja, eins og eg
er sjálfur þektur.
13. En þá er þetta þrent,
trúin, vonin og kærleikurinn,
varanlegt, en af þessu er
kærleikurinn mestur.

## 14. KAPÍTULI.

*Að tala túngum, þegar einginn útleggur, gagnar ekkert; en að tala af spámannlegri andagipt, er uppbyggilegra. Konur tali ekki opinberlega í söfnuðinum. Alt framfari þar sómasamlega og með reglu.*

LEGGIÐ stund á kærleik-
ann; sækizt eptir enum
andlegu gáfunum, en allra
helzt, eptir spámannlegri anda-
gipt.
2. Því sá, sem talar túngum,
talar ekki við menn, heldur
við Guð; því einginn skilur
hann, en hann talar í anda
hulda lærdóma.
3. En sá, sem talar af
spámannlegri andagipt, talar
mönnum til uppbyggíngar, á-
minníngar og huggunar.
4. Sá, sem talar túngu, upp-
byggir sjálfan sig; en sá, sem
talar af spámannlegri anda-
gipt, uppbyggir söfnuðinn.
5. En eg vildi, að þèr allir
gætuð túngum talað, en þó
heldur, að þèr töluðuð af spá-
mannlegri andagipt, því það
er meira vert, en að tala túng-
um, nema hann undir eins út-
leggi, svo að söfnuðurinn hafi
af því uppbyggíngu.

6. Hvað mundi eg gagna yður, bræður, þó eg kæmi til yðar og talaði túngum, nema eg undir eins talaði til yðar fyrir opinberun eða þekkíngu eður spámannlega andagipt eður lærdóm?

7. Því er eins varið og dauðum hlutum, er hljóð hafa, hvort heldur það er hljóðpípa, eður harpa, ef hún gefur ekki aðgreiníng hljóðunum, hvernig geta menn þá vitað, hvað það er, sem leikið er á pípuna eður hörpuna?

8. Sömuleiðis, ef lúðurinn gæfi óskilmerkilegt hljóð, hver mundi þá búa sig til bardaga?

9. Þannig og þèr; nema mál yðar sè skiljanlegt, hver veit þá, hvað þèr talið? Þèr talið út í loptið.

10. Ef til vill eru svo og svo margar túngur til í heiminum, en eingin, sem er merkíngarlaus.

11. Ef eg skil ekki merkíngu málsins, er eg fyrir þeim, er talar, sem útlendíngur, og hann eins fyrir mèr.

12. Sömuleiðis og þèr; þar eð þèr sækizt eptir Andans gáfum, þá kappkostið að vera sem fullkomnastir, söfnuðinum til uppbyggíngar.

13. Sá sem þar fyrir túngu talar, biðji, að hann geti það útlagt.

14. Því ef eg bið á útlenda túngu, biður að sönnu andi minn, en skilníngur minn verður ávaxtarlaus. Hvernig á það þá að vera?

15. Eg vil biðja með andanum, en biðja undir eins með skilníngnum; eg vil sýngja með andanum, en sýngja, einnig með skilníngnum;

16. Því þó þú lofir Guð í anda, hvernig á hinn fáfróði að segja amen til þinnar lofgjörðar, þar eð hann veit ekki, hvað þú segir?

17. Því að vísu getur lofgjörð þín verið fögur, en hinn hefir ekki uppbyggíngu af því.

18. Guði mínum sè lof, að eg tala betur túngum, en þèr allir;

19. En heldur vil eg í söfnuðinum tala fimm orð svo skiljanleg, að eg geti öðrum kent, heldur en tíu þúsund á framandi túngu.

20. Bræður, verið ekki börn í skilníngi, heldur eins og börn í hrekkvísi, en verið fullorðnir í skilníngi.

21. Í lögmálinu stendur skrifað: í útlendum túngum og með annarlegum vörum vil eg tala til þessa lýðs, en samt

mun hann ekki hlýða mèr,
segir Drottinn.
22. Framandi túngur eru því
teikn, ekki hinum trúuðu,
heldur vantrúuðu; en hin
spámannlega andagipt ekki
hinum vantrúuðu, heldur hin-
um trúuðu.
23. Ef því allur söfnuðurinn
væri saman kominn og allir
töluðu túngum, og einhver
vantrúaður, eður sá, sem ekki
skildi túngurnar, kæmi þar
inn, mundi hann ekki segja,
að þèr væruð vitstola?
24. En ef allir tala með spá-
mannlegri andagipt, og ein-
hver vantrúaður eður fáfróður
kemur inn, þá sannfærist hann
og dæmist af öllum;
25. Það sem í hjarta hans er
hulið, verður opinbert, svo að
hann mun falla fram á ásjónu
sína og tilbiðja Guð, og með-
kenna, að Guð sè sannarlega
með yður.
26. Hvað leiðir þá af þessu,
bræður? Að þegar þèr í söfn-
uðinum saman komið, og sèr-
hver yðar hefir sálm fram að
færa, eður einhvern lærdóm,
eður eitthvað í framandi túng-
u, eður opinberun eður útlegg-
íngu, þá sè það alt til upp-
byggíngar.
27. Ef einhver talar túngu,
þá sèu það tveir, mest þrír,
og það til skiptis, en einn
leggi út.
28. En ef eingi er, sem getur
útlagt, þá þegi sá í söfnuðinum
(sem á framandi túngu talar),
en tali við sjálfan sig og Guð.
29. En tveir eður þrír spá-
menn mega tala, en aðrir
dæmi um.
30. En ef annar, sem situr,
fær opinberun, þá þegi sá
fyrri.
31. Því allir getið þèr, hver
eptir annan, talað af spámann-
legri andagipt, svo að allir
læri og allir huggist,
32. Því spámanna andar eru
spámönnum undirgefnir,
33. Með því Guð er ekki ó-
eirðar, heldur friðarins Guð.
Eins og við geingst í öllum
söfnuðum kristinna manna,
34. Ber konum yðrum að
þegja í söfnuðunum, því þeim
er ekki leyft að tala, heldur
að hlýða, eins og líka lögmál-
ið býður.
35. En ef þær vilja fræðast í
einhverju, spyrji þær menn
sína heima, því konum sæmir
það ekki, að tala í söfnuðin-
um.
36. Eður hefir Guðs lærdóm-
ur frá yður út geingið? eða
eruð þèr þeir einustu, er hann
er kominn til?
37. Ef nokkur þykist spá-

maður vera, eða gæddur Andans gáfu, þá viti hann, að það, sem eg hèr skrifa yður, er Drottins boð.
38. Ef nokkur vill ekki við þetta kannast, ráði hann því.
39. Kappkostið því, bræður, að öðlast spámannlega andagipt; og bannið ekki að tala túngum; en alt framfari siðsamlega og með reglu.

## 15. KAPÍTULI.

*Páll vitnar um Krists upprisu. Hrekur þá, sem neita henni. Kennir, hvernig framliðnir muni upprísa. Huggar trúaða með því.*

EN eg vil minna yður, bræður, á náðarboðskap þann, er eg áður hefi boðað yður og þèr veittuð viðtöku,
2. Sem þèr einnig hafið stöðuglega haldið við, og sem líka mun yður hólpna gjöra, ef þèr geymið hans, eins og eg kendi yður hann, nema svo sè, að þèr hafið ófyrirsynju trúna tekið.
3. Því eg kendi yður fyrst og fremst þann lærdóm, sem eg hefi meðtekið; að Kristur væri dáinn vegna vorra synda eptir ritníngunum,
4. Og grafinn og upprisinn á þriðja degi eptir ritníngunum,
5. Og sè sèður af Kefasi, og þar eptir af þeim tólf.
6. Síðan var hann sèður í einu af meir en fimm hundruð bræðrum, er flestir lifa alt til þessa dags, en sumir eru dánir.
7. Þar eptir birtist hann Jakobi, síðan öllum postulunum.
8. Síðast allra opinberaðist hann einnig mèr, eins og ótímabærum burði;
9. Því eg er síztur postulanna, og ekki verður að kallast postuli, því að eg hefi ofsókt Guðs söfnuð;
10. En af náð Guðs er eg, það eg er, og náð hans við mig hefir ekki verið til ónýtis, heldur hefi eg unnið meira en allir hinir, þó ekki eg, heldur Guðs náð, sem með mèr er.
11. Hvort sem það þá er eg, eður þeir, þá kennum vèr þannig, og þannig hafið þèr trúað.
12. En ef það er kent, að Kristur sè upp risinn frá dauðum, hvernig geta þá nokkrir af yður sagt, að upprisa framliðinna sè ekki til?
13. En sè upprisa framliðinna ekki til, þá er Kristur heldur ekki upp risinn;
14. En ef Kristur er ekki upp risinn, þá er vor kenníng ónýt, og trú yðar líka ónýt.
15. En vèr reynumst þá og ljúgvottar Guðs, þar eð vèr höfum vitnað um Guð, að hann hafi upp vakið Krist, er

hann hefir ekki upp vakið,
svo framarlega sem framliðnir
ekki upp rísa;
16. Því ef dauðir ekki upp
rísa, þá er Kristur ekki upp
risinn;
17. En ef Kristur er ekki upp
risinn, þá er trú yðar ónýt,
18. Þèr eruð þá enn þá í yðar
syndum, og þeir, sem sofnaðir
eru í Kristi, glataðir.
19. Ef vèr einúngis í þessu
lífi settum vora von til Krists,
þá værum vèr hinir vesælustu
allra manna.
20. En nú er Kristur upp
risinn frá dauðum, frumgróði
allra þeirra, sem dánir eru;
21. Því þar eð dauðinn kom
fyrir einn mann, kom og upp-
risa dauðra fyrir einn mann.
22. Því að eins og allir deya
í Adam, eins munu og allir
lífgast í Kristi,
23. En sèrhver í sinni röð;
Kristur er frumgróðinn, þar
næst munu þeir, sem Kristi
tilheyra, upp rísa í hans til-
komu.
24. Þar eptir kemur endir-
inn, þegar hann selur Guði og
Föður ríkið í hendur, þá hann
er búinn að afmá alt veldi,
herradæmi og makt;
25. Því að honum ber að
ríkja, þángað til hann hefir
lagt alla óvini undir sína fætur.
26. Sá síðasti óvinur, sem
afmáist, er dauðinn;
27. Því alt hefir hann undir
hans fætur lagt. En þegar
hann segir að alt sè undir
hann gefið, þá er það auðsætt,
að sá er þar frá undan skilinn,
er lagði alt í hans vald.
28. En þegar hann er búinn
að leggja alt undir hans veldi,
þá mun sjálfur Sonurinn leggja
sig undir þess veldi, er áður
hafði lagt alt undir hans vald,
svo að Guð sè alt í öllu.
29. En hvað gjöra þeir, er
láta skírast fyrir hina dauðu,
ef dauðir öldúngis ekki upp
rísa? og því láta þeir skíra
sig fyrir þá?
30. Og því erum vèr í sífeld-
um háska?
31. Daglega er eg í dauðans
hættu; það vitna eg hátíðlega
við lofstír þann, sem eg af yð-
ur hefi í Drottni vorum Jesú
Kristi.
32. Hvert gagn hefði eg af
því, að eg hefi við óargadýr
(að eg kveði svo að orði) bar-
izt í Efesus, ef að dauðir ekki
upp rísa?
33. Látum oss (þá) eta og
drekka, því á morgun deyum
vèr.
34. Látið ekki villa yður;
vont samfèlag spillir góðum
siðum. Vaknið fyrir alvöru

og syndgið ekki; því sumir
þekkja ekki Guð. Eg segi
þetta yður til blygðunar.
35. En einhver kynni að segja:
hvernig geta dauðir upp risið?
Með hvílíkum líkama munu
þeir fram koma?
36. Þú heimskíngi, það, sem
þú sáir, lifnar ekki aptur,
nema það deyi;
37. Og það, sem þú sáir, er
ekki sá líkami, er það síðar
verður, heldur einbert fræ-
korn, til dæmis: hveitis, eður
einhvers annars;
38. En Guð gefur því líkama,
eins og hann vill, og sèrhverju
frækorni sinn eiginlegan lík-
ama.
39. Ekki er alt hold sama
hold; heldur er annað mann-
anna, annað hold dýranna,
annað fiskanna, annað fugl-
anna.
40. Til eru bæði himneskir
líkamir og jarðneskir líkamir,
en önnur er fegurð hinna
himnesku, önnur hinna jarð-
nesku.
41. Öðruvísi er birta sólar-
innar, öðruvísi túnglsins, og
enn öðruvísi stjarnanna (því
stjarna er stjörnu bjartari).
42. Þannig er og varið upp-
risu hinna dauðu. Hèr er nið-
ur sáð forgeingilegum líkama,
en upp rís óforgeingilegur;
43. Hèr er niður sáð óásjá-
legum líkama, en upp rís veg-
samlegur;
44. Það er niður sáð veikum,
en upp rís máttugur; náttúr-
legum líkama er niður sáð, en
upp rís andlegur líkami. Til
er náttúrlegur líkami og til er
andlegur líkami.
45. Svo stendur og skrifað:
hinn fyrsti maður Adam varð
að lifandi sálu, hinn síðari
Adam að lífgandi anda.
46. En ekki kom hinn andlegi
fyrst, heldur hinn náttúrlegi,
þar eptir hinn andlegi.
47. Hinn fyrri maður var
mold af jörðu, hinn síðari
maður er Drottinn af himni.
48. Eins og sá jarðneski var,
þannig eru hinir jarðnesku, og
eins og sá himneski var, þann-
ig og hinir himnesku;
49. Og eins og vèr höfum
borið líkíng þess jarðneska,
eins munum vèr og bera lík-
íng þess himneska.
50. En þetta segi eg, bræður,
að hold og blóð getur ekki
erft Guðs ríki, nè hið forgeingi-
lega óforgeingilegleikann.
51. Sjá, eg segi yður leyndar-
dóm: vèr munum ekki allir
sofna,
52. En allir umbreytast í vet-
fángi, í einu augnabliki, við
hinn síðasta lúðurs þyt (því

lúðurinn mun gella, og hinir
dauðu upp rísa óforgeingileg-
ir, en vèr umbreytast);
53. Því hið forgeingilega verð-
ur að íklæðast óforgeingileg-
leikanum, og hið dauðlega ó-
dauðlegleikanum.
54. En þegar hið forgeingi-
lega íklæðist óforgeingileg-
leikanum, og hið dauðlega
ódauðlegleikanum, þá rætist
það, sem skrifað er: dauðinn
er uppsvelgdur í sigur.
55. Dauði, hvar er þinn brodd-
ur? Helvíti, hvar er þinn sig-
ur?
56. En broddur dauðans er
syndin, en afl syndarinnar er
lögmálið.
57. En Guði sèu þakkir, sem
oss hefir sigurinn gefið fyrir
Drottin vorn Jesúm Krist!
58. Bræður mínir elskanlegir,
verið þess vegna stöðugir, ó-
bifanlegir, ætíð ávaxtarsamir í
verki Drottins, með því þèr
vitið, að erviði yðar í Drottni
mun ekki verða til ónýtis.

## 16. KAPÍTULI.

*Niðurlag brèfsins.*

AÐ því er snertir ölmusu-
safn yðar handa enum
kristnu, þá hegðið yður með
það, eins og eg hefi boðið
söfnuðinum í Galatalandi.
2. Hver yðar leggi afsíðis
heima hjá sèr á fyrsta degi
vikunnar, og geymi í einum
sjóð, það sem honum heppn-
azt (að spara) svo að safnið
þurfi ekki þá fyrst fram að
fara, þegar eg kem.
3. En þegar eg kem, mun eg
senda þá, sem þèr álítið hæfa,
með gáfu yðar til Jerúsalems
og skrifa með þeim;
4. Og ef eg finn það ómaks
vert, að eg sjálfur fari, þá læt
eg þá fara með mèr.
5. En eg mun koma til yðar,
þegar eg fer um Masedóníu
(því um hana fer eg), og dvel,
ef til vill, hjá yður,
6. Jafnvel verð kyrr vetrar-
lángt; þèr getið þá leiðbeint
mèr, hvert sem eg fer.
7. Því nú vil eg ekki koma
við hjá yður, en eg vona, ef
Guð lofar, að dvelja nokkra
stund hjá yður.
8. En alt til hvítasunnu verð
eg kyrr í Efesus,
9. Því mèr hefir þar mikið
og kröptugt tækifæri gefizt,
þó mótstöðumennirnir sèu
margir.
10. En ef Tímóteus kemur til
yðar, þá sjáið svo til, að hann
geti óttalaus hjá yður verið,
því að hann vinnur að Drott-
ins verki, eins og eg.
11. Einginn fyrirlíti hann,
greiðið heldur ferð hans með
friði, svo að hann komist til

mín, því eg vænti hans með bræðrunum.
12. Bróður Appolló hefi eg mikillega beðið, að hann fylgdist með bræðrunum til yðar, en hann vildi ekki fara nú þegar, en mun koma, þegar hann fær hentugleika til þess.
13. Vakið, haldið fast við trúna, sýnið yður karlmannlega og verið styrkvir,
14. Auðsýnið kærleika í öllu.
15. En eg áminni yður, bræður: þèr vitið, að Stefáns heimilisfólk var frumgróði Akkeu og hefir helgað sig þjónustu kristinna;
16. Sýnið þvílíkum virðíngu, og öllum þeim, sem eru tilhjálpandi og vinna þar að.
17. En eg gleðst við komu Stefáns, Fortúnatí og Akkaisí; því þeir hafa bætt mèr yðar söknuð; þeir hafa bæði glatt mig og yður.
18. Hafið mætur á slíkum mönnum.
19. Yður heilsa söfnuðirnir í Asíu. Akvílas og Priskilla biðja mikillega að heilsa yður í Drottni, ásamt söfnuði þeim, sem saman kemur í þeirra húsi.
20. Allir bræðurnir heilsa yður. Berið þessa kveðju, hver til annars, með heilögum kossi.
21. Kveðjan er skrifuð með minni, Páls, hendi.
22. Ef nokkur er sá, sem ekki elskar Drottinn Jesúm Krist, sá sè bölvaður. Drottinn kemur.
23. Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yður.
24. Kærleiki minn sè með yður öllum í Jesú Kristi, amen.

---

# SÁNKTI PÁLS SÍÐARI PISTILL

TIL

# KORINTUMANNA.

## 1. KAPÍTULI.

*Huggun og þolinmæði Páls í als konar andstreymi. Tilgreinir, hvers vegna hann hafi ekki komið til Korintu.*

PÁLL, að Guðs vilja postuli Jesú Krists, og bróðir Tímóteus, heilsa söfnuði Guðs í Korintuborg og öllum kristnum í Akkeu.
2. Náð sè með yður og friður af Guði vorum Föður og Drottni Jesú Kristi.
3. Lofaður veri Guð og Faðir Drottins vors Jesú Krists,

miskunsemdanna Faðir og
Guð allrar huggunar,
4. Sem huggar oss svo í öll-
um vorum þjáníngum, að vèr
getum aptur huggað aðra í
als konar þjáníngu með sömu
huggun, er Guð huggar oss
með;
5. Því eins og vèr höfum
fyrir mörgum þjáníngum orðið
vegna Krists, eins veitir hann
oss og fyrir Krist yfirgnæfan-
lega huggun;
6. Því hvort heldur vèr líð-
um þjáníngar, þá er það yður
til huggunar og sáluhjálpar,
eður vèr öðlumst huggun, er
það yður til huggunar, sem
sýnir sig kröptuga til þolin-
mæði í sömu þjáníngum, sem
vèr líðum.
7. Og þessi vor von um yður
er staðföst, þar eð vèr vitum,
að eins og þèr eruð hluttak-
andi orðnir í þjáníngunum,
eins munuð þèr verða það í
hugguninni.
8. Því vèr viljum ekki dylja
fyrir yður, bræður, að þjáníng-
ar þær, sem vèr urðum fyrir í
Asíu, voru ákaflega þúngar,
og þýngri, en vèr gætum þær
borið, svo vèr örvæntum jafn-
vel um líf vort.
9. Já, oss sýndist með sjálf-
um oss, að vèr þegar hefðum
feingið vorn dauðadóm, svo
vèr ekkert traust settum til
sjálfra vor, heldur til Guðs,
sem upp vekur hina dauðu.
10. Hann frelsaði oss frá
þessari miklu dauðans hættu,
og frelsar,
11. Og honum treystum vèr
til þess, að hann eins hèr
eptir muni frelsa oss, ef þèr
einnig hjálpið til þess með
yðar bænum fyrir oss, svo
að sú náð, sem oss veitist
fyrir margra bænir, vegsam-
ist vor vegna af mörgum með
þakkargjörð.
12. Því þetta er hrósun vor,
vitnisburður samvizku vorrar,
að vèr höfum hegðað oss fals-
laust í heiminum og með
grandvarlegleika fyrir Guði,
ekki fyrir aðstoð holdlegrar
speki, heldur Guðs náðar, allra
helzt hjá yður;
13. Því ekki skrifa eg yður
annað en það, sem þèr lesið
og líka þekkið, og eg vona þèr
munið og þekkja það alt til
enda,
14. Eins og þèr eruð búnir
að þekkja oss að nokkru leyti,
að vèr munum verða yður til
sóma, eins og þèr oss, á degi
Drottins Jesú.
15. Og í þessu trausti ásetta
eg mèr fyrri að koma til yðar,
svo að þèr í annað sinn hefð-
uð gott af því.

16. Og að fara um hjá yður til Masedóníu, og koma aptur þaðan til yðar, og fá yðar fylgd til Gyðíngalands.
17. Sýnda eg nokkurt lauslyndi í því, að eg ásetti mèr þetta? Eður sýndi þessi ásetníngur minn holdlegt ráðlag, svo að (fyrst) sè hjá mèr já, já, og (síðan) nei, nei?
18. Sá sannorði Guð sè mitt vitni, að lærdómur vor hjá yður var ekki já og nei!
19. Því Guðs Sonur Jesús Kristur, sem vèr kendum yður, eg, Sylvanus og Tímóteus, var ekki já og nei, heldur var alt í honum já;
20. Því svo mörg sem Guðs fyrirheit eru, þá eru þau í honum já og amen, Guði til dýrðar fyrir vora kenníngu.
21. En sá, sem heldur oss ásamt yður fast við Krist og hefir smurt oss,
22. Er Guð, sem einnig hefir innsiglað oss og gefið pant Andans í vor hjörtu.
23. En eg kalla Guð mèr til vitnis um það, að eg af hlífð við yður ekki hefi komið til Korintuborgar.
24. Ekki þess vegna, að vèr viljum Drottna yfir trú yðar, heldur erum vèr samvinnandi að fögnuði yðrum; því þèr standið stöðugir í trúnni.

## 2. KAPÍTULI.

*Sama efni. Biður að taka þann aptur í söfnuðinn, sem hafði bætt ráð sitt. Þakkar Guði, sem blessar hans embætti.*

EN með sjálfum mèr hefi eg ásett að koma ekki aptur til yðar með hrygð;
2. Því ef eg hryggi yður, hver gleður mig þá, nema sá, er eg áður hafði hrygt?
3. Og þetta skrifaði eg yður til þess, að þegar eg kem, hafi eg ekki hrygð af þeim, er eiga að gleðja mig, með því eg hefi það traust til yðar allra, að yður öllum sè það til gleði, sem mèr er til gleði.
4. Því með mikilli hrygð og harmþrúngnu hjarta og mörgum tárum skrifaði eg yður, ekki til þess að hryggja yður, heldur til þess þèr þar af sæuð þá miklu elsku, er eg hefi til yðar.
5. En ef einhver er sá, sem hefir hrygðar ollað, þá hefir hann ekki hrygt mig, heldur að nokkru leyti yður alla, eg vil ekki segja annað þýngra.
6. Látið honum nægja þá refsíngu, sem á hann er lögð af mörgum,
7. Svo þèr ættuð nú því heldur að fyrirgefa honum og hugga hann, svo að of mikil sorg ekki gjöri út af við hann.

8. Þess vegna bið eg yður að sýna honum elsku;

9. Því til þess skrifaði eg yður, að eg feingi að vita, hvernig þèr reynduzt, hvort þèr eruð hlýðnir í öllu.

10. En ef þèr fyrirgefið þessum, þá eg sömuleiðis; því einnig eg, ef eg hefi fyrirgefið nokkuð, þá hefi eg fyrirgefið það yðar vegna fyrir Krists augliti,

11. Svo vèr ekki verðum vèlaðir af Satan, því oss eru ekki ókunn hans vèlabrögð.

12. En þegar eg kom til Tróas til að kenna náðarlærdóm Krists, og mèr opnaðist vegur til þess í Drottni, þá hafði eg þó ekki eyrð í anda mínum, af því eg hitti ekki bróður minn Títum;

13. Heldur kvaddi þá, og fór til Masedóníu.

14. En þakkir sèu Guði, sem ávalt gefur oss sigur í Krists erindi og lætur hans þekkíngar ilm allstaðar af oss útbreiðast.

15. Því vèr erum fyrir Guði Krists ilmur, bæði fyrir ena hólpnu og hina glötuðu;

16. Þessum, banvænn eimur til dauða, hinum, lífgandi ilmur til lífs; en hver er til þess hæfur?

17. Því ekki erum vèr eins og margir, sem falsa Guðs orð, heldur kennum vèr fyrir augsýn Guðs hreinskilnislega Krists lærdóm, eins og frá Guði kominn.

## 3. KAPÍTULI.

*Páll talar um vegsemd kristniboðara-embættisins, og um þá djörfúng, er því fylgi.*

MUNUM vèr aptur vera farnir að hæla oss sjálfum? eður munum vèr þess við þurfa, eins og sumir, að fá meðmælíngarbrèf til yðar eður frá yður til annara?

2. Þèr eruð vort brèf, skrifað í vor hjörtu, kunnugt öllum mönnum og af þeim lesið;

3. Því alkunnugt er, að þèr eruð Krists brèf af oss ritað, ekki með bleki, heldur Anda lifanda Guðs, ekki á steinspjöld, heldur hjartans holdspjöld.

4. En þetta traust höfum vèr til Guðs vegna Krists.

5. Ekki svo, að vèr af sjálfum oss sèum hæfir til að hugleiða nokkuð eins og af sjálfum oss, heldur er vor hæfilegleiki frá Guði;

6. Sem og hefir gjört oss hæfa til að vera þjóna hins nýa sáttmála, ekki bókstafsins, heldur andans; því bókstafurinn deyðir, en andinn lífgar.

7. En ef þjónusta dauðans, sem á steina var klöppuð, var

svo dýrðleg, að Ísraelssynir ekki þoldu að horfa á Mósis andlit fyrir bjartleiks sakir, er þó átti að þverra;

8. Hversu miklu dýrðlegri mun þá verða þjónusta andans?

9. Því ef þjónusta fyrirdæmíngarinnar var svona dýrðleg, þá mun þjónusta rèttlætíngarinnar vera miklu dýrðlegri,

10. Svo að það, sem var dýrðlegt, er að þessu leyti ekki dýrðlegt í samanburði við hins yfirgnæfandi dýrð.

11. Því ef það, sem afmást átti, var dýrðlegt, þá mun miklu fremur hið varanlega vera dýrðlegt.

12. Með því vèr höfum þessa von, svo tölum vèr all-djarflega,

13. Og ekki eins og Móses, er heingdi skýlu fyrir andlit sitt, svo að Ísraelssynir skyldu ekki sjá endalok ens forgeingilega.

14. Enda hefir hugskot þeirra hart verið, því alt til þessa dags við varir hin sama skýla óburttekin undir gamla sáttmálans lestri, því einúngis í Kristi verður hún burt tekin.

15. En alt til þessa dags hvílir skýla yfir hjarta þeirra, þegar Móses lögmál er lesið;

16. En hvenær sem þeir snúa sèr til Drottins, þá mun skýlan verða burt tekin.

17. Drottinn er Andi, en þar sem hans Andi er, þar er frelsi.

18. En vèr allir, er skoðum, eins og í spegli, með beru andliti dýrð Drottins, ummyndumst, eins og af Drottins Anda, eptir þessari sömu mynd til meiri og meiri dýrðar.

## 4. KAPÍTULI.

*Páll ver kennsluaðferð sína. Talar um sínar þrautir og huggun.*

MEÐ því vèr höfum þvílíka þjónnstu á hendi, eptir þeirri náð, sem oss er veitt, þá letjumst vèr ekki,

2. Heldur höfum afneitað allri leynilegri svívirðíngu, förum hvorki með fláttskap, nè fölsum Guðs orð, heldur mælum fram með oss fyrir hvers manns samvizku, með sannleikans auglýsíngu fyrir Guðs augliti.

3. En ef nokkrum er kenníng vor hulin, þá er það glötuðum, það er að skilja: vantrúuðum,

4. Hverra hugskot guð þessarar aldar hefir svo blindað, að þeir ekki sjá birtu hins dýrðlega náðarlærdóms Krists, sem er Guðs ímynd.

5. Því ekki prèdikum vèr oss sjálfa, heldur Drottin Jesúm Krist, en oss, yðar þjóna, vegna Jesú;

6. Því Guð, sem bauð, að ljós skyldi skína úr myrkri, hefir látið ljós skína í vor hjörtu, svo þekkíng Guðs dýrðar í Kristi Jesú skyldi augljós verða.

7. En þenna fjársjóð berum vèr í leirkerum, svo að kraptarins stærð sè Guðs, en ekki af oss.

8. Í öllu þjökumst vèr, en látum þó ekki hugfallast; erum vonlitlir, en örvínglumst þó ekki; ofsóktir, en þó ekki hjálparlausir;

9. Feldir til jarðar, en tortýnumst þó ekki.

10. Jafnan berum vèr deyðíngu Jesú á líkamanum, svo að Jesú líf auglýsist á vorum líkama;

11. Því þótt vèr lifum, erum vèr jafnan til dauðu seldir vegna Jesú, svo að hans líf einnig augljóst verði í vorum dauðlega líkama.

12. Dauðinn sýnir því krapt sinn í oss, en lífið á yður.

13. En með því vèr höfum hinn sama anda trúarinnar, eins og skrifað stendur: "eg trúði, þess vegna talaði eg," þannig trúum vèr einnig, og þess vegna tölum vèr einnig,

14. Þar eð vèr vitum, að sá, sem upp vakti Drottinn Jesúm, muni fyrir Jesúm upp vekja oss og fram leiða ásamt yður.

15. Því alt þetta er yðar vegna, svo að hin mikla náð, vegna margra þakkargjörðar, yfir gnæfi Guði til dýrðar.

16. Fyrir því letjumst vèr ekki, því jafnvel þó vor ytri maður hrörni, endurnýast samt vor innri maður dag eptir dag;

17. Því vor þreyngíng, sem skammvinn er og lèttbær, aflar oss yfirgnæfanlegrar eilífrar dýrðar;

18. Oss, sem ekki höfum hið sýnilega fyrir augum, heldur hið ósýnilega; því hið sýnilega er tímanlegt, en hið ósýnilega eilíft.

## 5. KAPÍTULI.

*Sama efni. Talar um arfleifð trúaðra, bygða á Krists endurlausn.*

ÞVÍ vèr vitum, að jafnvel þó þessi vor jarðneska tjaldbúð verði niður brotin, höfum vèr samt hús af Guði, ekki með höndum gjört, eilíft á himni.

2. Því að í þessu andvörpum vèr með því oss lángar til að fá yfir oss hið himneska húsið

3. (Því klæddir, en ekki naktir, munum vèr þá fundnir verða).

4. Því á meðan vèr erum í þessari tjaldbúð, stynjum vèr undir byrði vorri, þar eð vèr

viljum ekki afklæðast, heldur yfirklæðast, svo að hið dauðlega uppsvelgist af lífinu.
5. En sá, sem þetta hefir oss fyrirbúið, er Guð, sem hefir og gefið oss Anda sinn sem pant.
6. Vèr erum því jafnan hughraustir, og vitum, að á meðan vèr búum í líkamanum, erum vèr fjarlægir Drottni.
7. Því vèr lifum í trú, en ekki skoðun,
8. En erum samt öruggir, jafnvel þó vèr heldur viljum losast við líkamann og vera heima hjá Drottni;
9. Þess vegna kappkostum vèr líka, að þóknast Drottni, hvort heldur vèr erum heima eða fjarlægir;
10. Því allir hljótum vèr að birtast fyrir Krists dómstóli, svo sèrhver úr býtum beri það sem hann hefur aðhafzt í líkamans lífi, hvert sem það hefur verið gott eða ilt.
11. Með því vèr nú þekkjum ótta Drottins, leitumst vèr við að ávinna menn. En Guði erum vèr augljósir,
12. En eg vona, að eg og sè þektur orðinn af yðar samvizkum; því ekki erum vèr aptur farnir að mæla fram með oss við yður, heldur gefum vèr yður tilefni til að hrósa yður af oss, svo að þèr hafið eitthvað til að svara þeim, sem stæra sig af hinu ytra, en ekki af hjartalaginu.
13. Því hvort sem vèr hrífumst af hrósuninni, þá er það Guðs vegna, eður vèr erum hóglátir, er það yðar vegna.
14. Því kærleiki Krists þvíngar oss,
15. Með því vèr ályktum svo, að ef einn er dáinn fyrir alla, þá sèu þeir allir dánir; og hann dó fyrir alla, til þess að þeir, sem lifa, ekki framar lifi sèr, heldur þeim, sem fyrir þá er dáinn og upp risinn.
16. Fyrir því metum vèr nú hèðan í frá eingan eptir holdinu, því þótt vèr þektum Krist eptir holdinu áður, þá gjörum vèr það ekki framar.
17. Því hver, sem er í Kristó, hann er orðinn ný skepna; hið gamla er afmáð: sjá, alt er orðið nýtt,
18. En það er alt af Guði, er friðþægði oss fyrir Jesúm Krist við sjálfan sig og hefir gefið oss það embætti, að boða friðþægínguna;
19. Með því Guð í Kristi friðþægði heiminn við sjálfan sig, og tilreiknar ekki mönnunum afbrot þeirra, og hefir sett oss til að boða friðþægínguna.
20. Vèr erum því Krists erindsrekar; með því Guð

áminnir fyrir vorn munn. Vèr
biðjum því vegna Krists: látið
yður sætta við Guð;
21. Því hann, sem ekki þekti
synd, gjörði Guð að syndafórn
vor vegna, svo að vèr fyrir
hann yrðum rèttlættir fyrir
Guði.

## 6. KAPÍTULI.

*Sama efni. Varar Korintumenn við, að hafa mök við vantrúaða.*

EN sem samverkamenn á-
minnum vèr einnig, svo,
að þèr ekki hafið þegið Guðs
náð til einskis.
2. (Því ritníngin segir: á hag-
kvæmri tíð bænheyrða eg þig,
og á hjálpræðisins degi hjálp-
aði eg þèr. Sjá, nú er sú
æskilega tíð; sjá, nú er dagur
hjálpræðisins).
3. Vèr gefum í engu nokkurt
ásteytíngar-efni, svo embættið
verði ekki fyrir lasti,
4. Heldur tjáum oss í öllu
sem Guðs þjónustumenn, með
mikilli þolinmæði í þreyngíng-
um, í nauðum, í ángist,
5. Undir höggum, í dýflissum,
í upphlaupum, í þrautum, í
vökum, í föstum;
6. Með grandvöru líferni,
þekkíngu, umburðarlyndi, blíð-
lyndi, heilögu hugarfari, fals-
lausum kærleika,
7. Með sannleikans kenníngu
og Guðs krapti; sem útbúna
með vopnum rèttlætisins til
sóknar og varnar,
8. Í heiðri og vanheiðri, hvort
vel er talað um oss eður illa.
Vèr álítumst svikarar, en finn-
umst þó sannorðir;
9. Erum lítils virtir, en þó
nafnkunnugir; erum nærri
dauða, en sjá, vèr lifum samt;
oss er refsað, en vèr erum þó
ekki deyddir;
10. Erum hryggvir, en þó
jafnan glaðir; fátækir, en auðg-
um þó marga; eigum ekkert,
en höfum þó alt.
11. Korintumenn! eg hefi
opnað munn minn við yður, eg
hefi útbreitt fyrir yður hjarta
mitt, það er ekki þraungt um
yður í því,
12. En lítið rúm ætlið þèr
mèr í yðrum hjörtum.
13. En til umbunar (eg tala
til yðar, sem barna minna)
rýmkið einnig yðar hjörtu.
14. Dragið ekki ok með van-
trúuðum. Því hvert samfèlag
hefir rèttlætið við ránglætið,
ljósið við myrkrið,
15. Kristur við Belíal? Hverja
hlutdeild hefir hinn trúaði
með hinum vantrúaða?
16. Hvað á Guðs musteri
skylt við musteri skurðgoð-
anna? Þèr eruð musteri ens
lifanda Guðs, eins og Guð hef-
ir sagt: eg vil búa á meðal

þeirra og dvelja hjá þeim, og eg vil vera þeirra Guð, og þeir skulu vera mitt fólk.

17. Farið því burtu frá þeim og skiljið yður við þá, segir Drottinn,

18. Og snertið ekki það, sem vanheilagt er, þá skal eg taka yður að mèr, og eg mun verða yðar faðir, og þèr skuluð vera mínir synir og dætur, segir Drottinn almáttugur.

## 7. KAPÍTULI.

*Páll leggur niður fyrir Korintumönnum tilgáng síns fyrra brèfs; talar um Títus.*

ELSKANLEGIR, þar eð vèr höfum þvílíkt fyrirheiti, þá hreinsum oss frá allri saurgun holdsins og andans, og fullkomnum helgun vora í Guðs ótta.

2. Gefið mèr rúm hjá yður, eingum hefi eg órètt gjört, eingum spilt, eingan ásælzt.

3. Eg segi ekki þetta yður til áfellis, því eg hefi áður sagt, að eg elskaði yður svo, að eg vildi lifa og deya með yður.

4. Eg er því djarfmæltur við yður; mikinn sóma hefi eg af yður; eg hefi nóga huggun og yfirgnæfanlega gleði í öllum mínum þreyngíngum.

5. Því þegar vèr komum til Masedóníu, hafði hold vort einga ró, en vorum alla vega aðþreyngdir; útvortis var barátta, innvortis ótti;

6. En Guð, sem huggar hina aumu, hann gaf oss huggun með Títusar tilkomu.

7. En vèr glöddumst ekki einúngis af komu hans, heldur og af þeirri huggun, sem þèr hugguðuð hann með; því hann skýrði oss frá yðar söknuði, sorg og vandlætíngu mín vegna, svo eg varð við það enn þá glaðari.

8. Því þó eg hafi hrygt yður með brèfinu, iðrast eg þess ekki, þó eg áður iðraðist þess; því eg sje, að þetta brèf hrygði yður einúngis um stundar sakir.

9. Nú gleðst eg, ekki af því að þèr hrygðuzt, heldur af því að þèr hrygðuzt til betrunar; því yðar hrygð var eptir Guðs vilja, svo að þèr hafið eingan skaða af oss haft.

10. Því sú hrygð, sem er eptir Guði, aflar sáluhjálplegrar betrunar, sem einginn iðrast eptir, en veraldleg hrygð veldur dauða.

11. Því sjáið, það, að þèr hrygðuzt eptir Guði, hvílíkt kapp vakti það hjá yður! já, enn framar, afsakanir, þykkju, ótta, eptirlángan, vandlætíngu, refsíng; í öllu sönnuðuð þèr, að þèr hreinir væruð í þessu efni.

12. Þó eg því skrifaði yður, þá var það hvorki hans vegna, sem órèttinn gjörði, nè hans vegna, sem órèttinn leið, heldur svo yður yrði af því augljós umhyggja mín fyrir yður í Guðs augliti.

13. Þess vegna huggast eg af yðar huggun, en allra mest gladdi mig, hvað Títus var ánægður, því hugur hans hefir endurnærzt af yður öllum.

14. Því eg þurfti ekki að líða kinnroða fyrir það, þó eg hefði stært mig nokkuð af yður fyrir honum, heldur eins og alt það var sannleiki, sem eg kenda yður, eins reyndist mín hrósan við Títus sönn;

15. Og honum er líka hjartanlega vel til yðar, því honum er minnisföst allra yðar hlýðni, med hversu miklum ótta og lotníngu þèr tókuð á móti honum.

16. Eg er þess vegna glaður, að eg get í öllu borið traust til yðar.

## 8. KAPÍTULI.

*Páll hrósar örlæti enna kristnu í Masedóníu og upphvetur Korintumenn til að feta í þeirra fótspor. Hrósar Títus og biður Korintumenn að taka vel á móti honum og brædrum þeim, sem með honum sèu sendir.*

EN eg læt yður vita, bræður, þá náð Guðs, sem sýnt hefir sig í söfnuðunum í Masedóníu,

2. Að þeir, þrátt fyrir þær miklu þreyngíngar, sem þeir hafa verið reyndir með, hafa mikla góðvild sýnt, og í sinni miklu fátækt tekið öðrum fram í gnægu örlæti.

3. Því eg gef þeim þann vitnisburð, að þeir hafa gjört það af sjálfs dáðum, eptir efnum, já, fram yfir efni sín.

4. Þeir báðu oss innilega fyrir gáfu þeirra og samlagsgjöf handa kristnum, og þeir gjörðu betur, en vèr höfðum vænt:

5. Þeir gáfu sjálfa sig, fyrst Drottni, og þar næst oss, eptir Guðs vilja;

6. Svo að eg bað Títus, að hann, eins og hann hafði byrjað, fullkomnaði einnig hjá yður þessa gjöf;

7. En eins og þèr eruð afbragð í öllu, í trú, lærdómi og þekkíngu, als konar ástundun og elsku til vor, þá sèuð þèr líka öðrum fremri í þessari gjafmildi;

8. Eg segi þetta ekki sem skipun, heldur segi eg það vegna þess, að aðrir eru kappsamir, og til þess að reyna, hvort elska yðar er einlæg.

9. Því þèr þekkið náð Drottins vors Jesú Krists, að hann gjörðist fátækur yðar vegna, þó hann ríkur væri, svo að

þèr auðguðuzt af hans fátækt.

10. Og eg gef ráð mitt í þessu, því það er nytsamlegt fyrir yður, sem þegar í fyrra byrjuðuð, ekki einúngis að gjöra, heldur og að vilja.

11. En fullkomnið nú og verkið sjálft, svo að eins og viljinn er fús, eins sè og framkvæmdin eptir efnunum;

12. Því ef viljinn er góður, þá er hver þóknanlegur eptir því, sem efni hans leyfa, en ekki fram yfir það.

13. Því það er ekki meiníng mín, að aðrir skuli hafa hægð, en þèr þraung,

14. Heldur að jöfnuður á verði, og gnægð yðar nú sem stendur bæti úr hinna skorti, svo hinna gnægð aptur bæti úr yðar skorti, og þannig verði jöfnuður,

15. Eins og skrifað er: sá, sem miklu safnaði, hafði ekki afgángs, og sá, sem litlu safnaði, hafði ekki skort.

16. En þökk sè Guði, er gefið hefir Títí hjarta þvílíka umhyggju fyrir yður,

17. Því hann lèt ekki einúngis eptir vorum tilmælum, heldur er sjálfur mjög ákafur og fór eptir eigin vilja til yðar.

18. En með honum sendum vèr þann bróður, er víðfrægur er í öllum söfnuðum fyrir náðarboðskapinn;

19. En ekki einúngis það, heldur er hann og kosinn af söfnuðunum, til að fara með oss með þessa gáfu, er vèr höfum saman dregið, Drottni sjálfum til dýrðar og til merkis upp á vorn fúsa vilja til þess.

20. Vèr högum því svo, til þess einginn geti lastað meðferð vora á þessari ríkuglegu gjöf, er vèr höfum komið til leiðar;

21. Með því vèr stundum það, sem gott er, ekki einúngis fyrir Drottni, heldur og fyrir mönnum.

22. En með þessum sendum vèr annan bróður vorn, er vèr í mörgu og optsinnis höfum reynt kostgæfinn, en nú enn þá kostgæfnari vegna þess mikla trausts, er hann hefir til yðar.

23. Að því er Títus áhrærir, er hann vor með-bróðir og meðhjálpari hjá yður, og að því er hina bræður vora snertir, þá eru þeir postular safnaðanna og vegsemd Krists.

24. Auðsýnið því þessum fyrir safnaðanna augsýn merki upp á elsku yðar og þann lofstír, er vèr höfum gefið yður.

## 9. KAPÍTULI.

*Páll hrósar Korintumönnum og upphvetur til að gefa ríkuglega.*

ÞVÍ ekki er þörf á, að eg skrifi yður um hjálpina til hinna heilögu;

2. Því eg þekki yðar góða vilja og hrósa yður fyrir hann hjá Masedóníu mönnum, (og segi) að Akkea hafi verið reiðubúin fyrir ári síðan, og að yðar alúð hafi upphvatt marga.

3. En eg sendi þessa bræður, svo að sá lofstír, sem vèr höfum gefið yður í þessu tilliti, verði ekki að eingu, og að þèr sèuð undirbúnir, eins og eg hefi sagt,

4. Svo að eg þurfi ekki að líða kinnroða (eg vil ekki segja sjálfir þèr) fyrir þetta traust mitt, ef nokkrir frá Masedóníu koma með mèr og finna yður óviðbúna.

5. Vèr hèldum þess vegna nauðsynlegt, að biðja bræðurna að fara á undan til yðar, og undirbúa yðar áður lofaða velgjörníng, svo að hann sè á reiðum höndum, eins og örlátleg gjöf, en ekki sem dregin undan neglum yðar.

6. Því það segi eg, að sá, sem sparlega sáir, muni og sparlega upp skera, og sá, sem örlátlega sáir, muni og örlátlega upp skera.

7. Hver gefi eptir sinni hugarlund, ekki með hryggu geði eður nauðúng, því Guð elskar glaðan gjafara;

8. En megnugur er Guð að veita yður alla náðar nægð, svo að þèr ætíð í öllum hlutum hafið alt, sem þèr þurfið og hafið gnægð til allra góðra verka;

9. Eins og skrifað er: hann útbýtti, gaf hinum snauðu, hans gæzka varir að eilífu.

10. En sá sem sáðmanninum gefur sæði og brauð til fæðslu, hann mun og gefa yður sáð og margfalda það, og auka ávöxt góðsemdar yðar,

11. Svo að þèr auðugir verðið til als konar örlætis, sem kemur því til leiðar, að Guði er þakkað fyrir oss;

12. Því þjónusta að þessu verki bætir ekki einúngis úr þörfum heilagra, heldur verður og orsök til, að margir innilega þakka Guði,

13. Og, vegna þess votts yðar góðsemdar, lofa þeir Guð fyrir yðar hlýðni við játníngu Krists náðarlærdóms, og fyrir yðar einlæga örlæti við þá og alla,

14. Og biðja fyrir yður og elska yður hjartanlega fyrir Guðs yfirgnæfanlegu náð við yður.

15. En þökk sè Guði fyrir sína óumræðilegu náðargjöf.

## 10. KAPÍTULI.

*Páll óskar, að hann þurfi ekki að beita postula valdi sínu ; hann vill ekki hrósa sèr af annara verkum, heldur í Drottni.*

EG, hinn sami Páll, sem sagður er lítillátur þegar eg er hjá yður, en ráðríkur í fjærlægð, áminni yður með blíðlyndi og hógværð Krists.

2. En eg bið yður að láta mig ekki nálægan þurfa að beita þeim myndugleika, sem eg hefi ásett mèr að beita við nokkra, sem halda, að vèr gaungum eptir holdinu.

3. Því vèr gaungum að sönnu í holdinu, en vèr stríðum þó ekki eptir holdinu;

4. Því hervopn vor eru ekki holdleg, heldur fyrir Guðs hjálp kröptug til að niðurbrjóta hervirkin;

5. Vèr ónýtum vèlabrögð og hverja hæð, sem hefur sig upp á móti Guðs þekkíngu, og hertökum hverja hugsun undir Krists hlýðni,

6. Og erum reiðubúnir að refsa als konar óhlýðni, þegar yðar hlýðni er orðin fullkomin.

7. Lítið þèr á hið ytra? Ef nokkur treystir því með sjálfum sèr, að hann sè Krists, hann ráði aptur af því, að eins og hann er Krists, eins erum vèr og einnig Krists.

8. Því, þó eg vildi enn fremur stæra mig af því valdi, er Drottinn hefir oss gefið yður til uppbyggíngar, en ekki til tjóns, þá mundi eg ekki fyrir það verða til skammar.

9. En svo líti ekki svo út, sem eg vilji hræða yður með brèfunum

10. (Því brèfin, segja menn, eru þúng og kröptug, en nálægð líkamans veik, og ræðan fyrirlitleg),

11. Þá hugleiði þvílíkir, að eins og vèr erum fjærverandi í brèfunum í orði, eins munum vèr verða nálægir í verki.

12. Því ekki get eg feingið það af mèr, að telja mig með þeim eður samjafna mèr við þá, sem gorta af sjálfum sèr; en þessa, sem mæla sig sjálfa við sjálfa sig og bera sig saman við sjálfa sig, skortir skilníng.

13. En vèr stærum oss ekki af því, sem oss er ekki útmælt, heldur af því, að vèr, samkvæmt þeim takmörkum, sem oss eru af Guði útmæld, erum komnir alt til yðar.

14. Því ekki teygjum vèr oss út fyrir vor takmörk, eins og þeir, er ekki hafa til yðar komið, því að vèr höfum sannarlega til yðar komið með Krists náðarboðskap.

15. Ekki stærum vèr oss af því, sem oss er ekki útmælt,

af annara vinnu; en höfum þá von, að þegar trú yðar eflist, munum vèr, með yðar aðstoð, enn víðfrægari verða innan oss fyrirsettra takmarka,

16. Og geta boðað þeim náðarlærdóminn, sem búa hinumeginn við yður; en ekki ætlum vèr að hrósa oss í annara umdæmi af því, sem áður er fullkomnað.

17. En sá, sem hrósar sèr, hann hrósi sèr í Drottni;

18. Því einginn reynist vel fyrir það þó hann lofi sjálfan sig, heldur sá, sem lofstír fær af Drottni.

## 11. KAPÍTULI.

*Páll ver álit sitt og varar Korintumenn við villukennurum. Segist hafa kent lærdóminn ókeypis, til að gjöra kinnroða falspostulunum, og sýnir, að hann hafi meira unnið og þolað fyrir lærdómsins sakir, en þeir.*

EG vildi, að þèr umbæruð dálítið bernsku mína; sannlega munuð þèr líka umbera hana.

2. Því með guðlegri vandlætíngu er eg vandlátur yðar vegna, því eg hefi fastnað yður manni, til að leiða yður til Krists eins og óflekkaða mey.

3. En eg óttast, að eins og höggormurinn tældi Evu með fláræði sínu, eins muni yðar hugskot dragast frá einlægni við Krist.

4. Því ef einhver kæmi, og boðaði annan Jesúm, en vèr höfum boðað, eður þèr meðtækuð annan anda, en þèr hafið meðtekið, eður annan náðarlærdóm, en yður hefir kendur verið, munduð þèr umbera það vel.

5. Eg held mig vera eingu minni en hina ágætu postula;

6. Þó mig bresti mælsku, brestur mig samt ekki þekkíngu, en ávalt og í öllu hefi eg sýnt mig yður, eins og eg er.

7. Eður hefi eg kannske syndgað í því, að eg lítillækkaði mig, svo að þèr upphefðuzt? að eg ókeypis kendi yður Guðs náðarlærdóm?

8. Aðra söfnuði ruplaði eg og tók af þeim kaup til að þjóna yður, og þó að mig brysti, á meðan eg var hjá yður, þá var eg samt eingum til byrði.

9. Því bræður þeir, sem komu frá Masedóníu, bættu úr mínum skorti. Í öllu varaðist eg að vera yður til þýngsla, og mun varast.

10. Svo sannarlega sem Krists sannsögli er í mèr, skal þessi mín hrósan ekki niðurþögguð verða í Akkeu hèruðum.

11. Hvers vegna? Mun þess vegna, að eg ekki elska yður? Guð veit það.

12. En eg gjöri það og mun gjöra, til að svipta þá tækifæri,

er tækifæris leita að verða oss líkir í því, sem þeir stæra sig af.

13. Því slíkir falspostular eru svikafullir verkamenn, og taka á sig mynd Krists postula,

14. Og það eru ekki undur, því Satan sjálfur tekur á sig ljósseingils mynd;

15. Það er því ekki kyn, þótt þjónar hans taki á sig mynd rèttlætisins þjóna. Endalok þeirra verða líka samboðin verkunum.

16. Enn aptur bið eg, að einginn álíti mig heimskíngja; en ef þèr getið ekki annað, þá meðtakið mig sem heimskíngja, svo eg geti líka dálítið hrósað mèr.

17. Það, sem eg nú tala, tala eg ekki eptir Drottni, heldur er það talað í heimsku, í trausti sjálfshróssins;

18. Með því margir stæra sig af því, sem holdlegt er, hlýt eg og að stæra mig.

19. Því þèr umberið fúslega hina fávísu, því þèr eruð sjálfir hyggnir;

20. Því þèr umberið það, þó einhver hneppi yður í þrældóm, þó einhver uppeti yður, hafi af yður, hefji sig upp yfir yður, slái í yðar ásjónu.

21. Eg segi þetta með blygðun, því í þessu höfum vèr sýnt oss veika, en af því, sem aðrir geta hrósað sèr (fávíslega er talað), af því get eg hrósað mèr líka.

22. Eru þeir ebreskir? þá er eg það og. Eru þeir Ísraelítar? þá er eg það og;

23. Eru þeir Abrahams niðjar? Þá er eg það og. Eru þeir þjónar Krists? (heimskulega tala eg), þá er eg það enn framar. Meira hefi eg unnið, fleiri högg þolað, optar verið í fángelsi og opt í dauðans hættu.

24. Af Júdum hefi eg fimm sinnum verið sleginn 40 höggum, einu fátt í.

25. Þrisvar sinnum hefi eg húðstrýktur verið, einusinni verið grýttur, þrisvar sinnum liðið skipbrot, sólarhríng hefi eg dvalið í sjáardjúpi.

26. Opt hefi eg á ferðum verið, opt komizt í hættu í ám, opt í háska af ræníngjum, í háska af löndum mínum, í háska af heiðnum mönnum; verið í háska í borgum og í eyðimörkum, í háska á sjó, í háska af fláráðum bræðrum;

27. Opt haft strit og mæðu, vökur, sult, þorsta og föstur, kulda og klæðleysi;

28. Auk annars: daglegt ónæði og átroðníng og áhyggju fyrir öllum söfnuðum.

29. Hver er svo veikur, að eg sè ekki líka veikur? hver hrasar, svo eg ekki stikni?

30. Ef eg mætti hrósa mèr, vilda eg hrósa mèr af bágindum mínum.

31. Guð og Faðir Drottins vors Jesú Krists, sem að eilífu sè vegsamaður, veit, að eg lýg ekki.

32. Í Damaskus ætlaði landshöfðíngi Aretas konúngs að grípa mig og hafði sett vörð um borgina,

33. En eg var látinn niður síga í körfu í gegnum glugga á borgarveggnum, og komst þannig úr höndum hans.

## 12. KAPÍTULI.

*Páll hrósar sèr af vitrunum sínum, kraptaverkum, og að hann hafi ekki verið söfnuðinum til þýngsla. Segist segja þetta þeim til uppbyggíngar, og svo að hann þurfi ekki beita hörku, þegar hann kemur.*

SANNLEGA er mèr það ekki nytsamlegt, að eg hrósi mèr; því eg vil minnast á sjónir og opinberanir Drottins.

2. Eg þekki mann í Kristó, er fyrir 14 árum var upp numinn alt upp í þriðja himin (hvort hann var í líkamanum, eður utan líkama, það veit eg ekki, Guð veit það).

3. Eg veit, að þessum manni var upp rykt í Paradís (hvort í líkama, eður utan líkama, það veit eg ekki, Guð veit það),

4. Og að hann heyrði óumræðanleg orð, sem eingum manni er unt að tala.

5. Af þessu vil eg hrósa mèr, en af sjálfum mèr vil eg ekki hrósa mèr, nema það væri af bágindum mínum.

6. Því enda þótt eg vildi hrósa mèr, væri það ekki fásinna, því eg segði sannleika, en eg skirrist við það, svo að einginn skuli hugsa hærra um mig, en hann sèr, eður heyrir af mèr.

7. En til þess að eg ekki skuli upphrokast af mikilleik opinberananna, er mèr fleinn gefinn í holdið, Satans eingill, til að slá mig, svo að eg skuli ekki verða stærilátur.

8. Þess vegna hefi eg þrisvar beðið Drottinn um, að hann færi frá mèr;

9. En hann hefir svarað mèr: lát þèr nægja mína náð, því minn kraptur sýnir sig fullkominn í veikleikanum; þess vegna vil eg helzt hrósa mèr af bágindum mínum, svo að kraptur Krists taki sèr bústað yfir mèr.

10. Þess vegna er eg með glöðu geði í veikleika, fyrirlitníngu, neyð, ofsóknum og þreyngíngum vegna Krists, því mitt í veikleikanum er eg máttugur.

11. Heimskulega hefi eg nú

talað, en þèr hafið neytt mig
til þess, því þèr áttuð að lofa
mig; því í eingu er eg minni
en hinir ágætu postular, þó
eg sè ekkert.
12. Postula teikn eru gjörð
meðal yðar í allri þolinmæði
með táknum og stórmerkjum
og kraptaverkum.
13. Í hverju voruð þèr þá
minni en aðrir söfnuðir, nema
í því, að eg hefi ekki verið yð-
ur til byrði; fyrirgefið mèr
þenna órètt!
14. Sjá, nú í þriðja sinni er
eg ferðbúinn að koma til yðar,
en ekki mun eg verða yður til
byrði, því ekki sækist eg eptir
eigum yðar, heldur yður sjálf-
um, því ekki eiga börnin að
draga saman fyrir foreldrana,
heldur foreldrarnir fyrir börn-
in.
15. En fús er eg til að verja
mínu, já, leggja mig sjálfan í
sölurnar fyrir sálir yðar, því
eg elska yður innilega, þó þèr
elskið mig lítið.
16. En látum svo vera, að eg
hafi ekki sjálfur verið yður til
byrði en verið slægur og veitt
yður með brögðum?
17. Hefi eg látið einhvern,
sem eg sendi til yðar, hafa af
yður?
18. Eg bað Títum að fara, og
sendi annan bróður með hon-
um; mun Títus hafa fèflett
yður? Leiddi ekki sami andi
oss báða, og fetuðum vèr ekki
í sömu fótspor?
19. Haldið þèr, að eg sè apt-
ur farinn að verja mig fyrir
yður? Fyrir augliti Guðs, í
Kristi, tala eg alt þetta, elskan-
legir, yður til uppbyggíngar;
20. Því eg óttast, að þegar eg
kem, muni eg ekki finna yður
þvílíka, sem eg vil, og að yður
muni finnast eg sè ekki eins
og þèr viljið; að meðal yðar
sèu deilur, metníngur, ofstopi,
þráttanir, bakmælgi, rógur,
hroki, órói;
21. Eg óttast, að Guð muni
auðmýkja mig hjá yður, þá eg
kem aptur, og að eg hryggi
marga, sem áður syndguðu og
ekki hafa snúið huga sínum
frá saurlífi, frillulífi og óstjórn-
legu athæfi, sem þeir áður
drýgðu.

## 13. KAPÍTULI.

*Páll gjörir ráð fyrir að koma enn á ný til Korintu. Áminnir til betrunar, svo að hann þá ekki þurfi að sýna hörku. Góðar óskir.*

Í ÞRIÐJA sinni kem eg nú
til yðar; þá skal sèrhvert
mál verða staðfest með tveggja
eður þriggja manna vitnisburði.
2. Eg hefi sagt það áður, og
segi það nú í annað sinn eins
og viðstaddur, þó eg nú sè
fjærstaddur, þeim, sem áður

hafa syndgað, og öllum öðrum, að eg muni ekki hlífa þeim, þegar eg kem aptur.

3. Með því þèr krefjið röksemd fyrir því, að Kristur tali í mèr, (hann hefir þó ekki sýnt sig ómáttugan meðal yðar, heldur máttugan;

4. Því jafnvel þó hann væri krossfestur í veikleika, lifir hann nú fyrir Guðs krapt, sömuleiðis og, þó að vèr veikir sèum hans vegna, munum vèr fyrir Guðs krapt ásamt honum lifa hjá yður).

5. Reynið yður sjálfa, hvort þèr eruð í trúnni, prófið yður sjálfa; eður þekkið þèr yður ekki sjálfa, að Jesús Kristur er í yður, nema svo sè, að þèr sèuð óhæfilegir?

6. En eg vona, að þèr munið komast að raun um, að vèr sèum ekki óhæfilegir.

7. En þess bið eg Guð, að eg þurfi ekkert ilt að gjöra yður; ekki til þess, að á því skuli bera, að vèr sèum hæfilegir, heldur til þess, að þèr gjörið það, sem gott er, en vèr sèum eins og óhæfilegir.

8. Því ekkert megnum vèr gegn sannleikanum, heldur einúngis með honum.

9. Því vèr gleðjumst þó að vèr sèum veikir, ef þèr eruð sterkir; yðar fullkomnun er það, sem vèr biðjum Guð um.

10. Þess vegna skrifa eg þetta í fjærveru, svo að eg nálægur þurfi ekki að beita hörku, eptir þeim myndugleika, sem Drottinn hefir gefið mèr yður til uppbyggíngar, en ekki til skaða.

11. Að öðru leyti bræður, verið glaðir, fullkomnir, upphvetjið hver annan, verið samhuga og friðsamir, þá mun kærleikans og friðarins Guð vera með yður.

12. Heilsið hver öðrum með heilögum kossi; yður heilsa allir heilagir.

13. Náð Drottins Jesú Krists, kærleiki Guðs og sameiníng Heilags Anda, sè með yður öllum!

---

# SÁNKTI PÁLS PISTILL
TIL
# GALATAMANNA.

---

## 1. KAPÍTULI.

*Páll furðar sig á, að Galatamenn hafi látið sig leiða frá rèttum lærdómi Krists. Segist vera kallaður af Guði til postula embættisins.*

PÁLL, kjörinn postuli, hvorki af mönnum, nè að nokkurs manns tilhlutun, heldur af Jesú Kristi og Guði Föður, sem uppvakti hann frá dauðum,

2. Og allir bræðurnir, sem hjá mèr eru,

3. Óskum söfnuðunum í Galatalandi náðar og friðar af Guði Föður og Drottni vorum Jesú Kristi,

4. Sem vegna vorra synda framseldi sjálfan sig, að vilja Guðs og vors Föður, svo að hann frelsaði oss frá þessari yfirstandandi vondu öld.

5. Honum sè dýrð frá eilífð til eilífðar, amen.

6. Mig furðar, að þèr svo fljótt skylduð láta snúa yður frá þeim, sem kallaði yður með Krists náð, til annars fagnaðarerindis,

7. Sem þó er ekki annað til; heldur eru nokkrir, sem trufla yður og vilja rángfæra Krists náðarlærdóm;

8. En þó að vèr, eður eingill frá himni boðaði yður náðarlærdóminn öðruvísi, en eg hefi kent yður, hann sè bölvaður.

9. Já, eins og eg hefi áður sagt, eins segi eg nú aptur: ef nokkur kennir yður annan náðarlærdóm, en þann, sem þèr hafið numið, sá sè bölvaður.

10. Því mun eg nú vera að tala eptir manna vild eða Guðs; eður leitast við að þóknast mönnum? Ef eg enn þá væri að leitast við að þóknast þeim, þá væri eg ekki Krists þjón.

11. En það læt eg yður vita, bræður, að sá lærdómur, sem eg kendi, er ekki af mönnum;

12. Því hvorki hefi eg numið nè lært hann af mönnum, heldur fyrir opinberun Jesú Krists;

13. Því þèr hafið haft fregn af hegðun minni forðum, á meðan eg hèlt við Gyðínga-trúna, að eg ákaflega ofsókti og eyðilagði Guðs söfnuð.

14. Og var fremri flestum löndum mínum mèr samtíða

í fastheldni við Gyðíngatrúna og í að vandlæta um forfeðranna setnínga.

15. En þegar Guði (sem útvaldi mig frá móðurlífi og af náð sinni kallaði) þóknaðist að opinbera Son sinn í mèr,

16. Svo að eg boðaði hann meðal heiðinna þjóða, þá tók eg ekki hold og blóð jafnskjótt í ráð með mèr;

17. Ekki heldur fór eg upp til Jerúsalem, til þeirra, sem á undan mèr voru orðnir postular, heldur fór eg til Arabíu, og þaðan snèri eg aptur til Damaskus.

18. Síðar, að þrem árum liðnum, fór eg upp til Jerúsalem, til að kynnast við Pètur, og dvaldi hjá honum í 15 daga,

19. En eingan fann eg annan af postulunum, nema Jakob, bróður Drottins.

20. Guð veit, að eg lýg það ekki, sem eg nú skrifa.

21. Eptir þetta kom eg í landsálfur Sýrlands og Silisíu.

22. En eg var þá enn að ásýndum ókunnugur hinum kristnu söfnuðum í Gyðíngalandi;

23. En þeir höfðu einúngis frètt, að sá, sem áður hafði ofsókt þá, kendi nú þá trú, sem hann áður eyddi, og vegsömuðu Guð fyrir mig.

## 2. KAPÍTULI.

*Páll segir frá viðkynníngu sinni við postulana og einkum við Pètur. Kennir, að rèttlætíngin komi af trúnni.*

FJÓRTÁN árum síðar fór eg aptur upp til Jerúsalem með Barnabas, og tók líka Títum með mèr.

2. En þá ferð fór eg eptir opinberun, og skýrði þeim þar frá, en sèr í lagi hinum helztu, hvílíkur sá lærdómur væri, sem eg kendi heiðnum þjóðum, að eg eingan veginn hlypi til ónýtis, eður hefði hlaupið;

3. En ekki var jafnvel Títusi, Grískum manni, sem var með mèr, þreyngt til að láta umskera sig.

4. En (það var) sökum falsbræðra, er smeygt höfðu sèr inn, til að njósna um það frelsi, sem vèr höfum í Jesú Kristi, svo að þeir gætu hnept oss í þrældóm.

5. Undan þessum vilda eg ekki láta, ekki einu sinni um stundar sakir, svo að sannleiki lærdómsins viðhèldist hjá yður.

6. Mig skiptir eingu, í hversu miklu áliti þeir eru, sem helztir eru haldnir (Guð fer ekki að mannvirðíngum), en hinir helztu hafa eingu við minn lærdóm bætt;

7. Heldur þvertámóti, þegar

þeir sáu, að mèr var trúað fyrir að boða náðarlærdóminn enum óumskornu, eins og Pètri enum umskornu

8. (Því sá, sem hafði eflt Pètur til hans postula-embættis meðal enna umskornu, hefir eins eflt mig meðal heiðinna þjóða),

9. Og lærðu að þekkja, hvílík náð mèr var veitt, þá rèttu þeir Jakob, Kefas, og Jóhannes, sem eru haldnir máttarstólpar, bróðurlega að mèr og Barnabasi hönd sína, upp á það, að vèr skyldum vera postular heiðinna þjóða, en þeir hinna umskornu.

10. Einúngis beiddu þeir oss, að eg mintist fátækra, og það hefi eg líka kappkostað að gjöra.

11. En þegar Pètur kom til Antíokkíu, fann eg að við hann upp í opin augun, því hann var aðfinníngarverður.

12. Því áður en nokkrir komu frá Jakob, hafði hann samneyti við heiðna menn, en eptir það að þeir voru komnir, dróg hann sig í hlè og skildi sig frá þeim, því hann óttaðist hina umskornu;

13. Aðrir Gyðíngar fóru þá og að hræsna með honum, svo að jafnvel Barnabas flæktist með í sömu hræsni.

14. En þegar eg sá, að þeir geingu ekki beint eptir sannleika lærdómsins, sagði eg við Pètur í allra áheyrn: úr því þú, sem ert Gyðíngur, fylgir ekki Gyðínga, heldur heiðíngja háttum, því neyðir þú þá heiðíngja að lifa eptir Gyðínga siðum?

15. Vèr erum að ætterni Gyðíngar, en ekki bersyndugir heiðíngjar.

16. En með því vèr vitum, að maðurinn rèttlætist ekki af verkum lögmálsins, heldur fyrir trú Jesú Krists, þá höfum vèr trúað á Jesúm Krist, svo vèr rèttlættumst af trú Krists, en ekki verkum lögmálsins, "því einginn maður mun rèttlætast af verkum lögmálsins."

17. En ef vèr, sem kappkostum að rèttlætast í Kristi, reynumst líka sjálfir syndarar, er þá Kristur þjón syndarinnar? Fjærri fer því.

18. Því færi eg aptur að uppbyggja það, sem eg áður niðurbraut, þá sannaði eg með því, að eg væri yfirtroðslumaður.

19. Því eg er vegna lögmáls lögmálinu dáinn, svo eg lifi Guði.

20. Eg er með Kristi krossfestur. Eg lifi, þó ekki framar eg, heldur lifir Kristur í mèr,

en það sem eg nú lifi í holdinu, það lifi eg í trú Guðs Sonar, sem elskaði mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig.
21. Ekki ónýti eg Guðs náð; því ef rèttlætíngin fæst fyrir lögmálið, þá er Kristur til einskis dáinn.

## 3. KAPÍTULI.

*Páll ávítar Galatamenn fyrir, að þeir aptur hafi snúið til hlýðni við lögmálið, og sannar af Abrahams dæmi, að Guðs náð öðlist fyrir trú, en hvorki fyrirheitið, nè löggjöfin hafi ónýzt fyrir það.*

Ó ÞÈR fávísu Galatar, hver hefir vilt sjónir fyrir yður, þar sem þó Jesús Kristur er svo skýrlega afmálaður fyrir augum yðar, eins og hann væri meðal yðar krossfestur.
2. Um það vil eg einúngis fræðast af yður, hvort þèr hafið öðlazt Andann fyrir verk lögmálsins, ellegar fyrir boðskap trúarinnar?
3. Eruð þèr svo fávísir? þèr, sem byrjuðuð í Andanum, ætlið þèr nú að enda í holdinu?
4. Á þvílíkt að hafa komið fram við yður til einskis, ef það er til einskis?
5. Sá, sem yður veitir Andann og framkvæmir kraptaverk meðal yðar, (gjörir hann það) með lögmáls verkum, eða fyrir boðun trúarinnar?
6. Það, að "Abraham treysti Guði, var honum til rèttlætis reiknað;"
7. Eins megið þèr vita, að þeir eru rèttir Abrahams synir, sem trúaðir eru.
8. En ritníngin, sem fyrir sá, að Guð mundi rèttlæta þjóðirnar fyrir trúna, gaf forðum Abraham það fyrirheiti: allar þjóðir skulu af þèr blessun hljóta.
9. Allir trúaðir menn munu því blessun öðlast með þeim trúaða Abraham.
10. Því svo margir sem binda sig við lögmáls-verkin, þeir eru undir bölvun, því skrifað er: "bölvaður sè hver sá, sem ekki heldur sèr fast við alt það, sem í lögmáls-bókinni er skrifað til að breyta eptir því."
11. En það er bert, að eing.inn getur fyrir Guði rèttlátur orðið af lögmálinu, "því hinn rèttláti mun af trúnni lifa."
12. En lögmálið á ekki skylt við trúna, heldur (er kveðið svo að orði) "sá, sem gjörir það, mun af því lifa."
13. Kristur hefir keypt oss undan bölvun lögmálsins, með því hann varð bölvan fyrir oss, því skrifað er: "bölvaður sè sá, sem á trè hángir,"
14. Til þess að heiðnum þjóðum hlotnast skyldi með Jesú Kristi blessan Abrahams, svo

að vèr öðlast skyldum fyrirheit Andans fyrir trúna.

15. Bræður mínir, eg tek dæmi af mannlegri venju: einginn ónýtir eður bætir við þá ráðstöfun manns, sem staðfest er;

16. En Abraham voru fyrirheitin gefin og hans afkvæmi; ekki stendur þar "afkvæmum," eins og til margra væri meint, heldur eins og til eins, "og þínu afkvæmi," sem er Kristur.

17. Með þessu vil eg sagt hafa, að lögmálið, sem út var gefið fjögur hundruð og þrjátíu árum síðar, ekki hafi getað gjört ógildan og afmáð þann sáttmála um Krist, sem Guð hafði áður staðfest;

18. Því ef arfleifðin fæst með lögmálinu, þá fæst hún ekki lengur vegna fyrirheitisins; Guð veitti Abraham hana af náð með fyrirheiti.

19. Til hvers var þá lögmálið? Það var gefið vegna afbrotanna, þángað til afkvæmið kæmi, sem fyrirheitið hljóðaði um, og boðað af einglunum fyrir hönd meðalgaungumannsins.

20. En meðalgángarinn er ekki eins, en Guð er einn.

21. Skyldi þá lögmálið vera gegn Guðs fyrirheitum? Fjærri fer því. Því ef þvílíkt lögmál hefði verið gefið, sem hefði getað lífgað, þá er það víst, að rèttlætið hefði fengizt af lögmálinu.

22. En ritníngin hefur innilokað alt undir synd, svo að fyrirheitið veitist þeim fyrir trúna á Jesúm Krist.

23. En áður en trúin kom, stóðum vèr undir gæzlu lögmálsins, og vorum við það bundnir, þángað til sú trú, sem var í vændum, opinberaðist.

24. Þannig var lögmálið vor typtunarmeistari, þángað til Kristur kom, svo að vèr rèttlættumst af trúnni.

25. En nú, þegar trúin er komin, stöndum vèr ekki leingur undir typtunarmeistaranum,

26. Því að þèr eruð allir orðnir Guðs börn fyrir trúna á Jesúm Krist;

27. Því svo margir af yður, sem eruð skírðir til Krists, þèr hafið íklæðzt Kristi.

28. Hèr er ekki Gyðíngur nè Grískur, ekki þræll nè frelsíngi, ekki karl nè kona, því þèr eruð allir eitt í Jesú Kristi.

29. En ef þèr eruð Krists, þá eruð þèr og Abrahams niðjar og erfíngjar eptir fyrirheitinu.

## 4. KAPÍTULI.

*Kristnir menn eru ekki þrælar undir lögmálinu, heldur börn. Postulinn ræður því frá, að hverfa aptur til lögmálsins. Eptirlíking, dregin af Agar og Sara.*

HÈR með vil eg sagt hafa,
að það sè einginn munur
á þrælnum og erfíngjanum á
meðan erfínginn er barn, þó
hann eigi allar eigurnar,
2. Því hann er undir fjárhalds-
mönnum og ráðsmönnum, þar
til sá af föðurnum tiltekni tími
er kominn.
3. Þannig vorum vèr einnig,
meðan vèr vorum börn, þræl-
bundnir við heimsins stafróf;
4. En þegar fyllíng tímans var
komin, sendi Guð Son sinn
fæddan af konu, lögmálinu
undirgefinn,
5. Svo að hann keypti þeim
lausn, sem undir lögmálinu
stóðu, og vèr feingjum barna
rètt.
6. En með því þèr eruð orðnir
synir, þá hefir Guð sent síns
Sonar Anda í yðar hjörtu, sem
hrópar: Abba, Faðir.
7. Þú ert þess vegna ekki
framar þræll, heldur sonur;
en ef þú ert sonur, þá ertu
líka erfíngi Guðs, vegna Krists.
8. Forðum dýrkuðuð þèr að
vísu, á meðan þèr þektuð ekki
Guð, þá sem í raun og veru
ekki eru guðir;
9. En hvernig getið þèr nú,
eptir það þèr þekkið Guð,
já, eruð af Guði þektir, snú-
ið aptur til þess kraptlitla
og fátæklega barna-stafrófs,
sem þèr á ný viljið þrælka
undir?
10. Þèr haldið upp á vissa
daga, mánuði, vissa tíma og ár.
11. Eg er hræddur um, að
eg hafi unnið hjá yður til
ónýtis.
12. Verið eins og eg, því eg
er eins og þèr; um þetta bið
eg yður, bræður; í engu hafið
þèr gjört á hluta minn.
13. En þèr vitið, að eg í veik-
leika holdsins í hið fyrra sinn
boðaði yður náðarlærdóminn;
14. Samt fyrirlituð þèr ekki
þessa mína líkamlegu raun nè
óvirtuð hana, heldur tókuð við
mèr eins og eingli Guðs, eða
Jesú Krists sjálfum.
15. Hversu sælir þóktuzt þèr
þá! Því eg get borið yður
það, að hefðuð þèr getað, þá
hefðuð þèr rifið augun úr
höfðum yðar og gefið mèr.
16. Er eg þá orðinn óvinur
yðar, vegna þess eg kenni yð-
ur sannleikann?
17. Hinir sýna vandlætíngu
yðar vegna, en ekki af góðu,
heldur vilja útiloka yður, svo
að þèr leggið rækt við þá.
18. Að vísu er það loflegt,
ætíð að verða fyrir vandlæt-
íngasamri velvild í því, sem
gott er, og ekki einúngis með-
an eg er hjá yður.
19. Börn mín, sem eg á ný

el með harmkvælum, þar til Kristur er myndaður í yður,

20. Eg vildi eg væri nú hjá yður, svo eg gæti breytt röddinni við yður, því eg er í vandræðum með yður.

21. Segið mèr, þèr sem viljið vera undir lögmálinu, hafið þèr ekki heyrt lögmálið?

22. Þar stendur skrifað, að Abraham hafi átt tvo syni, annan við ambáttinni, en hinn við frjálsri konu.

23. En sá, sem hann átti við ambáttinni, var á holdlegan hátt getinn, en hinn eptir fyrirheiti.

24. Þetta hefir annarlega merkíngu. Þær eru hinir tveir sáttmálar: annar, sem kom frá Sínaí fjalli, getur börn til þrældóms;

25. Þessi er Hagar (því Sínaí fjall í Arabíu kallast Hagar, og samsvarar hinni núverandi Jerúsalem, því hún er ásamt börnum sínum í ánauð.

26. En sú himneska Jerúsalem er frjáls, og hún er vor móðir;

27. Því stendur skrifað: vertu glöð óbirja, sem ekkert barn hefir átt, hrópa og kalla hátt, þú sem hefir jóðsjúk orðið, því börn hinnar yfirgefnu eru fleiri, en hinnar, sem manninn á.

28. En vèr, bræður mínir, erum fyrirheitisins börn, eins og Ísak.

29. En eins og forðum sá, sem á holdlegan hátt var getinn, ofsókti þann, sem á andlegan hátt var getinn, eins geingur það til enn.

30. En hvað segir ritníngin? Rek burt ambáttina og son hennar; því ekki skal ambáttarsonurinn taka arf með syni hinnar frjálsu.

31. Vèr erum því, bræður, ekki niðjar ambáttarinnar, heldur hinnar frjálsu.

## 5. KAPÍTULI.

*Páll kennir, að þeir, sem vilji halda lögmálinu, sèu eigi leingur kristnir; varar þó undir eins við misbrúkun hins kristilega frelsis.*

HALDIÐ stöðuglega við það frelsi, sem Kristur hefir yður afrekað, og látið ekki aptur leggja á yður ánauðar ok.

2. Vitið, eg, Páll, segi yður það, að ef þèr látið yður umskera, þá gagnar Kristur yður ekki.

3. Enn á ný vitna eg það fyrir hverjum þeim, sem lætur sig umskera, að hann skuldbindur sig til að halda alt lögmálið.

4. Hverjir helzt af yður, sem ætlið að rèttlætast fyrir lögmálið, þèr eruð orðnir viðskila

við Krist, eruð fallnir úr náð-
inni;
5. Því vèr væntum í anda, að
öðlast af trúnni þá eptirvæntu
rèttlætíngu,
6. Því að í Kristi gildir hvorki
umskurn nè yfirhúð, heldur
trú, sem sýnir sinn krapt í
kærleikanum.
7. Þèr hèlduð vel áfram, en
hver hefir hindrað yður, svo
að þèr hlýðnist ekki sannleik-
anum?
8. Slík trúgirni er ekki frá
þeim, sem yður hefir kallað.
9. Lítið súrdeig sýrir alt
deigið.
10. Eg treysti yður með Drott-
ins hjálp til þess, að þèr munið
ekki vera öðruvísi sinnaðir; en
sá, sem truflar yður, mun fá sinn
dóm, hver helzt sem hann er.
11. En ef eg, bræður mínir,
væri enn þá að halda fram um-
skurninni, því er eg þá enn
ofsóktur? þá væri krossins
hneyksli burttekið;
12. Það væri betur, að þeir
væru reknir burt, sem gjöra
yður óróa.
13. Þèr eruð að vísu, bræður,
kallaðir til frelsis, en á því
ríður, að frelsinu sè ekki var-
ið til eptirlátsemi við holdið,
heldur að hver yðar þjóni hver
öðrum með kærleika;
14. Því alt lögmálið innifelst
í þessu eina boðorði: elska
skaltu náúngann, eins og sjálf-
an þig.
15. En ef þèr tönnlizt inn-
byrðis og ásælizt hver annan,
sjáið þá við því, að þèr tortýn-
ið ekki hver öðrum.
16. En eg áminni yður, gáng-
ið eptir Andanum, en fremjið
ekki það, sem holdið girnist;
17. Því holdið girnist gegn
Andanum, og Andinn gegn
holdinu, þau eru hvort gegn
öðru; svo að þèr gjörið ekki
það, sem þèr viljið.
18. En ef þèr leiðizt af And-
anum, þá eruð þèr ekki undir
lögmálinu.
19. En allir vita, hvílík eru
holdsins verk, að það er frillu-
lífi, saurlífi, stjórnleysi girnd-
anna,
20. Skurðgoða dýrkan, kukl,
hatur, deilur, metníngur, bræði,
þráttanir, tvídrægni, flokka-
dráttur,
21. Öfund, morð, ofdrykkja,
óhófs-veizlur og annað þessu
líkt, og um það alt segi eg
yður enn þá hið sama, sem eg
hefi áður sagt, að þeir, sem
slíkt gjöra, erfi ekki Guðs ríki.
22. En ávöxtur Andans er
kærleiki, gleði, friðsemi, láng-
lundargeð, góðlyndi, góðvild,
trúmennska, hógværð, bind-
indi;

23. Gegn þessu er ekki lögmálið.

24. En þeir, sem Krists eru, hafa krossfest hold sitt með þess girndum og tilhneigíngum.

25. Ef vèr lifum í Andanum, þá framgaungum í Andanum.

26. Sækjumst ekki eptir hègóma-dýrð, áreitandi hver annan og öfundandi hver annan.

## 6. KAPÍTULI.

*Páll áminnir til ýmislegra dygða. Varar við falskennendum.*

GÓÐIR bræður, verði nokkur fundinn að einhverri synd, þá leiðrèttið þèr, sem andlegir eruð, hann með hógværðar anda, og haf gát á sjálfum þèr, að þú freistist ekki (til syndar).

2. Berið hver annars byrði og uppfyllið þannig Krists lögmál.

3. Því þykist nokkur vera nokkuð, en er þó ekkert, hann dregur sjálfan sig á tálar.

4. En sèrhver rannsaki sína breytni, og þá mun hann hafa hrósunar efni einúngis með sjálfum sèr, en ekki fyrir öðrum;

5. Því sèrhver mun hafa sína byrði að bera.

6. En sá, sem uppfræðist, veiti þeim als konar gæði, er hann uppfræðir.

7. Villizt ekki, Guð lætur ekki að sèr hæða; því það sem maðurinn sáir, það mun hann og upp skera.

8. Því sá, sem sáir í hold sitt, mun af því glötun uppskera; en sá, sem í Andann niðursáir, mun af Andanum uppskera eilíft líf.

9. En látum oss ekki þreytast að gjöra gott, því á sínum tíma munum vèr uppskera, ef vèr ekki letjumst.

10. Þess vegna, á meðan tími er til, þá gjörum öllum gott, en þó þeim helzt, sem eru sömu trúar, sem vèr.

11. Sjáið, hvað lángt brèf eg hefi skrifað yður með minni eigin hendi.

12. Þeir, sem eru að þreyngja yður til að umskerast, eru þeir, sem sækjast eptir að vera í metum eptir holdinu, einúngis til þess þeir komist hjá ofsóknum vegna krossins Krists;

13. Því ekki halda sjálfir þeir, sem umskornir eru, lögmálið, heldur vilja þeir, að þèr umskerizt, svo þeir geti stært sig af yðar holdi.

14. En það sè fjærri mèr, að hrósa mèr af öðru, en krossi Drottins vors Jesú Krists, vegna hvers heimurinn er mèr krossfestur, og eg heiminum.

15. Því að í Jesú Kristi gildir

hvorki umskurn nè yfirhúð, heldur (að maðurinn sè) ný skepna.

16. Yfir öllum þeim, sem þessari reglu fylgja, hvíli friður og miskun, og yfir Ísrael Guðs!

17. Einginn mæði mig hèðan í frá, því eg ber merki Jesú Krists á mínum líkama.

18. Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yðar anda, bræður, amen.

---

# SÁNKTI PÁLS PISTILL

TIL

# EFESUSMANNA.

## 1. KAPÍTULI.

*Páll þakkar Guði fyrir Krists velgjörnínga. Biður, að Guð vilji enn betur upplýsa þá um mikilleik þessara velgjörnínga.*

PÁLL, að Guðs vild postuli Jesú Krists, óskar náðar og friðar af Guði vorum Föður og Drottni Jesú Kristi,

2. Öllum heilögum, sem eru í Efesus og trúuðum í Jesú Kristi.

3. Lofaður sè Guð og Faðir vors Drottins Jesú Krists, er oss hefir fyrir Krist blessað með als konar andlegri og himneskri blessun;

4. Eins og hann einnig hefir útvalið oss í honum, áður en veröldin var grundvölluð, til þess að vèr skyldum vera heilagir og flekklausir fyrir hans augliti,

5. Og af elsku hefir fyrirhugað oss, eptir velþóknun síns vilja, barnarètt hjá sèr fyrir Jesúm Krist,

6. Til lofs sinni dýrðlegu náð, er hann veitti oss í sínum elskulega,

7. Í hverjum vèr höfum endurlausnina öðlazt fyrir hans blóð, fyrirgefníngu syndanna, eptir ríkdómi hans náðar,

8. Sem hann hefir ríkulega veitt oss í als konar speki og skilníngi,

9. Í því hann opinberaði oss leyndarráð vilja síns eptir sinni velþóknun, er hann hafði áður ályktað með sjálfum sèr,

10. Um ráðstöfun á fyllíngu tímans, að alt skyldi komast undir eitt höfuð í Kristi, bæði það sem er á himni og á jörðu,

11. Í honum, sem vèr og höfum feingið hlutteknígu í, kjörnir til þess eptir fyrirhug-

un hans, sem framkvæmir alt eptir ráði vilja síns,
12. Svo að vèr dýrð hans til lofs væntum fyrr eptir Kristi.
13. Í hverjum og þèr, sem heyrt hafið lærdóm sannleikans, náðarlærdóm yðar sáluhjálpar, í hverjum og þèr, sem trúið, eruð innsiglaðir með hinum fyrirheitna Heilaga Anda,
14. Sem er pantur arfleifðar vorrar, þángað til lausnin kemur fyrir þá, sem hans eru, til lofs hans dýrðar.
15. Þess vegna, frá því eg frètti um trú yðar á Drottinn Jesúm og elsku yðar til allra heilagra,
16. Hefi eg ekki aflátið að þakka Guði fyrir yður og minnast yðar í bænum mínum,
17. Að Guð Drottins vors Jesú Krists, dýrðarinnar Faðir, vildi gefa yður anda speki og opinberunar í sinni þekkíngu,
18. Og upplýsa augu yðar hugskots, svo þèr þekt getið, hvílík að sè von hans köllunar, og hvílíkur sè ríkdómur hans dýrðlegu arfleifðar meðal hinna heilögu,
19. Og hve yfirgnæfanlegur sè mikilleiki hans máttar við oss, sem trúum fyrir krapt hans almættis,
20. Sem hann sýndi á Kristi, þá hann uppvakti hann frá dauðum og setti til hægri handar sjálfum sèr á himnum,
21. Yfir allan höfðíngjadóm og yfirráð, makt og herraveldi, og alt það sem nafni nefnist, ekki einúngis á þessari öld, heldur og hinni tilkomandi.
22. Alt hefir hann lagt undir fætur hans og sett hann til höfðíngja yfir öllu í hans söfnuði,
23. Sem er hans líkami, fyllíng hans, sem uppfyllir alt í öllum.

## 2. KAPÍTULI.

*Postulinn minnir kristna menn bæði af Gyðíngum og heiðíngjum á það, að Kristur hafi kallað þá frá andlegum dauða til andlegs lífs, og sameinað í einn söfnuð. Sjálfum sèr hafi þeir það eigi að þakka.*

EINNIG yður, sem dauðir voruð í afbrotum og syndum,
2. Er þèr lifðuð í forðum eptir aldarhætti þessa heims og að vild þess höfðíngja, sem í loptinu drottnar, þess anda, sem nú sýnir sig verkandi í vantrúarinnar sonum;
3. Á meðal þeirra lifðum vèr og allir forðum, í vorum holdlegu girndum gjörandi vilja holdsins og tilhneigínganna, og vorum af náttúrunni börn reiðinnar, eins og hinir.
4. En Guð, sem ríkur er af miskun, kallaði oss, vegna sinnar miklu elsku, með hverri

hann elskaði oss, til lífsins,
með Kristi,
5. Þá vèr einnig vorum dauðir
í misgjörðum vorum (af náð
eruð þèr hólpnir orðnir),
6. Og hefir uppvakið oss og
sett oss á himni með Jesú
Kristi,
7. Svo að hann sýndi á eptir-
komandi öldum yfirgnæfandi
ríkdóm náðar sinnar í gæzku
við oss í Jesú Kristi;
8. Því af náð eruð þèr hólpnir
orðnir fyrir trúna, og það er
ekki yður að þakka, heldur er
það Guðs gjöf;
9. Ekki af verkunum, svo að
einginn stæri sig.
10. Því vèr erum hans verk,
skapaðir í Jesú Kristi til góðra
verka, sem Guð hefir fyrir
fram tilætlað að vèr skyldum
stunda.
11. Munið því til þess, að
þèr voruð forðum heiðíngjar
í holdinu, kallaðir óumskorn-
ir af þeim, sem umskornir
kallast af þeirri umskurn, sem
á holdinu er með höndum
gjörð;
12. Að þèr þá voruð án Krists,
útilokaðir frá rèttindum Gyð-
ínganna og frá því að hafa
hlut í sáttmálum fyrirheitis-
ins, vonarlausir og án Guðs
í heiminum.
13. En nú eruð þèr í Kristi
Jesú; þèr, sem áður voruð
fjærlægir, eruð nú nálægir
orðnir í blóði Krists;
14. Því hann er vor friður,
sem hefir gjört eitt úr báðum
og rifið niður miðvegg girðíng-
arinnar, fjandskapinn,
15. Og í sínu holdi afmáð
boðorða lögmálið, sem var í
setníngum, svo að hann um-
myndaði þá tvo í einn nýan
mann í sjálfum sèr,
16. Semjandi frið og sætti
hvorutveggju við Guð i ein-
um líkama fyrir krossinn og
deyddi fjandskapinn á hon-
um,
17. Og komandi boðaði hann
frið yður, sem voruð fjærri
og sem voruð nærri,
18. Svo að fyrir hann höfum
vèr hvorirtveggju aðgáng til
Föðursins í einum anda.
19. Þèr eruð þess vegna ekki
framar gestir og framandi,
heldur meðborgarar enna heil-
ögu og heimamenn Guðs,
20. Bygðir yfir grundvelli
postulanna og spámannanna,
hvers hornsteinn Jesús Krist-
ur er,
21. Sem öll hin samteingda
bygging vex á til heilags must-
eris í Drottni;
22. Og sem þèr einnig eruð
bygðir á til bústaðar Guðs í
andanum.

## 3. KAPÍTULI.

*Páll segir, að hann sè settur postuli til að kunngjöra heiðnum þjóðum Krists lærdóm. Biður, að þeir megi styrkjast í sambandinu við Krist.*

ÞESSA vegna er eg, Páll, bandíngi Jesú Krists, vegna yðar, heiðíngjanna.

2. Með því þèr munuð heyrt hafa Guðs náðar ráðstöfun, sem mèr er falin á hendur yður til handa,

3. Því að með opinberun auglýsti Guð mèr sitt leyndarráð, eins og eg áður í stuttu máli hefi skrifað,

4. Og getið þèr af lestri þess þekt skilníng minn á Krists leyndardómi,

5. Er á hinum fyrri öldum ekki var auglýstur mannanna sonum, eins og hann nú er opinberaður hans heilögu postulum og spámönnum í andanum.

6. (Það er): að heiðíngjarnir sèu samarfar, sama líkama og hluttakandi í fyrirheiti hans í Kristi fyrir náðarlærdóminn,

7. Hvers þjón eg er orðinn eptir náðargjöf Guðs, sem mèr er lènt fyrir hans almættiskrapt;

8. Mèr, hinum lítilmótlegasta allra heilagra, er veitt þessi náð, að boða meðal heiðíngja náðarboðskapinn um órannsakanlegan ríkdóm Krists,

9. Og upplýsa alla um það, hver að sè ráðstöfun þess leyndardóms, sem frá eilífð hefur verið hulin í Guði, sem alt hefir skapað,

10. Svo að nú skyldi kunnug verða af söfnuðinum höfðíngjum og herradómum á himnum sú margbreytta speki Guðs,

11. Eptir eilífri fyrirhugun, sem hann fullkomnaði fyrir Jesúm Krist vorn Drottin;

12. Fyrir hvern vèr höfum djörfúng og aðgáng með trausti fyrir trúna á hann.

13. Fyrir því bið eg, að þèr látið ekki hugfallast af þreyngíngum mínum fyrir yðar skuld; því það er yðar heiður.

14. Eg beygi þess vegna mín knè fyrir Föður Drottins vors Jesú Krists,

15. Af hverjum alt faðerni nefnist á himni og jörðu,

16. Að hann eptir ríkdómi dýrðar sinnar vilji veita yður að styrkjast fyrir sinn Anda kröptuglega í hinum innra manni,

17. Svo að Kristur geti búið fyrir trúna í yðar hjörtum, og þèr sèuð rótfestir og grundvallaðir í kærleikanum,

18. Svo þèr ásamt öllum heilögum getið skilið, hvílík að sè breidd, leingd, dýpt og hæð, og þekt elsku Krists,

19. Sem yfirgeingur allan
skilníng, svo þèr fullkomnizt
í allri fullkomnun Guðs.
20. En honum, sem öllu fram-
ar megnar að gjöra fram yfir
það, sem vèr biðjum eður
skynjum, eptir þeim krapti,
sem í oss verkar,
21. Honum sè dýrð í söfnuð-
inum fyrir Jesúm Krist um
alla æfi og aldir alda, amen.

## 4. KAPÍTULI.

*Postulinn áminnir um að kristnir breyti samkvæmt þeirra köllun; og því forðist þá lesti, sem þeir í heiðni drýgðu.*

EG, sem er bandíngi vegna
Drottins, áminni yður þess
vegna um, að þèr hegðið yður
eins og hæfir þeirri köllun,
sem þèr eruð kallaðir,
2. Með mesta lítillæti, hóg-
værð og umburðarlyndi, að
þèr umlíðið hver annan í kær-
leika,
3. Og kappkostið að varðveita
einíngu andans í bandi frið-
arins.
4. (Þèr eruð) einn líkami og
einn andi, eins og þèr einnig
eruð kallaðir í einni von yðar
köllunar;
5. Einn (er) Drottinn, ein trú,
ein skírn,
6. Einn Guð og Faðir allra,
sem er yfir öllu, um alt og
í öllu.
7. En sèrhverjum af oss er
náðargjöf veitt, eptir því sem
Kristur hefir hverjum af náð
sinni úthlutað.
8. Því segir ritníngin: upp-
farinn í hæðina hefir hann
herleiðínguna að herfángi tek-
ið, og gefið mönnunum gjafir.
9. En þetta, "hann er upp-
farinn," hvað er það annað, en
að hann líka steig niður á lág-
lendi jarðarinnar?
10. En sá, sem niður steig, er
hinn sami, sem upp stè yfir
alla himna, svo að hann upp-
fylti alt.
11. Og þessi hinn sami hefir
gjört suma að postulum, suma
að spámönnum, suma að guð-
spjallamönnum, suma að hirð-
urum og lærifeðrum,
12. Svo hinir heilögu yrðu
hæfilegir til framkvæmdar-
samrar þjónustu, Krists líkama
til uppbyggíngar,
13. Þar til vèr allir erum
komnir til einíngar í trúnni
og þekkíngar á Guðs Syni, til
fullorðins ára, til aldurshæðar
Krists fyllíngar;
14. Svo að vèr sèum ekki
framar börn, er hrekjumst og
feykjumst af hverjum kenníng-
ar þyt, fyrir brögðum manna,
slægð þeirra og kænskufullu
vèlum,
15. Heldur ástundum sann-
leikann í kærleika, og verðum

með öllu samgrónir Kristi, sem er höfuðið,

16. Af hverjum allur líkaminn, sem er samteingdur og samsettur með als konar hjálpar-taugum, þroskast, eptir þeim krapti, sem sèrhverjum parti er veittur, sèr til uppbyggíngar í kærleikanum.

17. Þetta segi eg því og áminni í Drottni, að þèr ekki framar hegðið yður eins og hinir heiðíngjarnir hegða sèr í hègómleik hugskots síns,

18. Blindaðir í hugsunarhættinum, fráhverfir lífi Guðs, vegna vanþekkíngar sem í þeim er, og vegna harðúðar hjarta þeirra,

19. Sem eru orðnir blygðunarlausir og hafa ofurselt sig saurlifnaðar lausúng, til að drýgja als konar saurlifnað í áfergju.

20. En þannig er yður ekki Kristur kendur;

21. Ef þèr annars hafið numið hann og eruð í honum uppfræddir, eins og sannleikurinn er í Jesú (innifalinn):

22. Að þèr af leggið, eptir hinni fyrri breytni, hinn gamla manninn, sem spilltur er af tælandi girndum,

23. En að þèr endurnýist í anda yðvars hugskots,

24. Og íklæðist hinum nýa manni, sem skapaður er eptir Guði í rèttlæti og heilagleika sannleikans.

25. Afleggið því lygar og talið sannleika hver við sinn náúnga, því vèr erum hver annars limir.

26. Reiðizt, en syndgið ekki, sólin gángi ekki undir yfir yðar reiði;

27. Og gefið ekki djöflinum rúm.

28. Þjófurinn steli ekki framar, heldur vinni og gjöri eitthvað nytsamt með höndunum, svo hann hafi eitthvað til að miðla hinum þurfanda.

29. Ekkert fúlyrði fari út af yðar munni, heldur það, sem gott er til þarflegrar uppbyggíngar, svo það komi sèr vel hjá þeim, sem heyra.

30. Hryggið ekki Guðs Heilagan Anda, í hverjum þèr eruð innsiglaðir til endurlausnardagsins.

31. Allur beiskleiki, ofstopi, reiði, hávaði og illmæli sèu fjarlæg yður, ásamt allri vonzku;

32. En verið góðir hver við annan, meðaumkunarsamir, fúsir að fyrirgefa hver öðrum, eins og Guð hefir fyrirgefið yður vegna Krists.

## 5. KAPÍTULI.

*Páll býður að taka Guð og Krist til eptirdæmis í elskunni; að afleggja heiðínglega lesti. Hjón gæti skyldna sinna.*

LÍKIZT því Guði, sem elskuleg börn,
2. Og framgángið í elskunni, eins og Kristur elskaði oss, og gaf sig sjálfan út fyrir oss, eins og fórn og slátrunaroffur Guði til velþóknanlegs reykelsis ilms.
3. Eptir því sem heilögum hæfir, á hvorki frillulífi, nokkurs konar óhreinleiki, eður ágirnd, svo mikið sem að nefnast á meðal yðar,
4. Nè blygðunarleysi, nè fíflslegt hjal, eður gárúnga háttur, sem er ósæmilegt, heldur miklu framar þakkargjörð;
5. Því það skuluð þèr vita fyrir víst, að einginn frillulífismaður, eður saurugur, eður ágjarn, sem er skurðgoðadýrkari, hefir arftöku í ríki Krists og Guðs.
6. Látið eingan leiða yður afvega með hègómlegum orðum; því fyrir þetta kemur reiði Guðs yfir syni vantrúarinnar.
7. Takið því ekki hlutdeild með þeim.
8. Áður voruð þèr myrkur, nú eruð þèr ljós í Drottni; gángið því eins og ljóssins börn,
9. Því ávöxtur ljóssins er góðvilji, rèttlæti og sannleiki.
10. Hugsið eptir því, hvað Drottni er þóknanlegt,
11. En takið ekki þátt í myrkursins vondu verkum, heldur miklu framar vandið um þau;
12. Því það sem þeir drýgja í leyndum, er jafnvel skömm um að tala;
13. En alt þetta, nær tekið er hart á því af ljósinu, verður augljóst; því sèrhvað það, sem opinberast, verður að ljósi.
14. Því stendur skrifað: vakna þú, sem sefur og rís upp frá dauðum, þá mun Kristur lýsa þèr.
15. Gætið því varúðar í hegðun yðar, ekki sem fávísir, heldur sem vísir;
16. Hagnýtið tímann, því nú eru hættulegir tímar.
17. Verið því ekki fávísir, heldur skynjið, hver að er Drottins vilji.
18. Og drekkið yður ekki drukkna af víni, því að í því er andvaraleysi, heldur fyllizt andagipt,
19. Og hafið yfir með yður sálma, lofkvæði og andlega saungva; sýngið og leikið Drottni lof í yðrum hjörtum.
20. Þakkið jafnan Guði og Föður fyrir alla hluti í nafni Drottins vors Jesú Krists,
21. Og verið hver öðrum undirgefnir í ótta Krists.
22. Konurnar sèu mönnum

sínum undirgefnar, eins og Drottni;

23. Því maðurinn er höfuð konunnar, eins og Kristur er höfuð safnaðarins; hann er og frelsari síns líkama.

24. En eins og söfnuðurinn er undirgefinn Kristi, þannig sèu og konurnar mönnum sínum í öllu.

25. Þèr menn, elskið yðar eiginkonur, eins og Kristur elskaði söfnuðinn og gaf sig sjálfan út fyrir hann,

26. Svo að hann helgaði hann og hreinsaði hann með vatnslauginni í orðinu;

27. Til þess að hann útvegaði sjálfum sèr dýrðlegan söfnuð, sem hefði ekki blett nè hrukku, eða neitt þesshátter, heldur væri heilagur og lýtalaus.

28. Þannig eiga mennirnir að elska sínar eiginkonur, eins og sína eigin líkami. Sá, sem elskar sína eiginkonu, elskar sjálfan sig.

29. Því einginn hefir nokkru sinni sinn eigin líkama hatað, heldur elur hann önn fyrir honum og hjúkrar honum, eins og Kristur söfnuðinum;

30. Því vèr erum limir hans líkama, af hans holdi og af hans beinum.

31. Þess vegna skal maðurinn yfirgefa föður sinn og móður, og samteingjast konu sinni, svo þau tvö verði eitt hold.

32. Þetta er mikill leyndardómur, en eg lít með því til Krists og safnaðarins.

33. En allir skuluð þèr, hver um sig, elska yðar eiginkonur, eins og sjálfa yður, en konan beri lotníngu fyrir manni sínum.

## 6. KAPÍTULI.

*Skyldur barna og foreldra, þjóna og drottna. Upphvatníng til að hertýgjast í gegn kristindómsins mótstöðumönnum, og til að biðja fyrir samkristnum og Páli sjálfum. Páll sendir Tykíkus til að láta Efesusmenn vita, hvernig honum líður; óskar þeim Guðs náðar.*

ÞÈR börn, verið foreldrum yðrum hlýðin í Drottni, því að það er rètt.

2. Heiðra föður þinn og móður, það er hið fyrsta boðorð með fyrirheiti,

3. Svo að þèr vegni vel, og þú verðir lánglífur í landinu.

4. En þèr feður, reitið ekki börn yðar til reiði, heldur uppalið þau með aga og umvöndun Drottins.

5. Þèr þjónar, verið undirgefnir yðar jarðnesku drottnum með lotníngu og hræðslu af einlægu geði, eins og Kristi;

6. Ekki með augna-þjónustu, eins og þeir, er mönnum vilja þóknast, heldur eins og þjónar Krists, er gjöra Guðs vilja af hjarta,

7. Þjóna með góðu geði, eins
og Drottni og ekki mönnum,
8. Vitandi, að það, sem ein-
hver gjörir gott, það mun
verða honum endurgoldið af
Drottni, hvort heldur hann er
þræll eður frjáls.
9. En þèr drottnar, breytið
eins víð þá; látið af hótunum,
með því þèr vitið, að þèr eigið
og yðar Drottinn á himni, og
að hann gjörir sèr eingan
mannamun.
10. Að öðru leyti, bræður
mínir, styrkizt í Drottni og
krapti hans máttar.
11. Íklæðizt Guðs alvepni,
svo þèr staðizt getið djöfulsins
vèlabrögð;
12. Því vèr eigum ekki í stríði
við hold og blóð, heldur við
höfðíngja og maktarvöld, við
heimsdrottna þessa myrkurs,
við vonzkunnar anda í himn-
eskum efnum.
13. Takið því Guðs alvepni,
svo þèr getið veitt mótstöðu á
enum vonda degi, og getið, að
öllu yfirunnu, staðizt.
14. Standið því gyrtir sann-
leika um lendar yðar. Verið
íklæddir brynju rèttlætisins,
15. Og útbúið fætur yðar, svo
að þeir sèu reiðubúnir til að
flytja fagnaðarboðskap friðar-
ins.
16. En um fram alt, grípið
skjöld trúarinnar, sem þèr
munuð geta slökt með öll
eldleg skeyti hins vonda;
17. Og takið hjálm hjálpræð-
isins og sverð Andans, sem er
Guðs orð.
18. Biðjið á sèrhverri tíð í
anda með als konar bænum
og beiðni, og verið árvakrir í
hinu sama og sífeldlega stöð-
ugir í fyrirbeiðslu fyrir öllum
heilögum,
19. Og fyrir mèr, að þá eg lýk
upp munni mínum, veitist mèr
orð til þess einarðlega að boða
leyndardóm náðarlærdómsins,
20. Hvers sendiboði eg er í
fjötrum, og að eg megi kenna
lærdóminn með djörfúng, eins
og vera ber.
21. En svo að þèr einnig fáið
að vita um mína hagi, hvernig
mèr líður, þá mun Tykíkus,
minn elskulegur bróðir og trúr
þjón Drottins, skýra yður frá
því öllu.
22. Eg sendi hann einmitt
þess vegna til yðar, að þèr fáið
að vita, hvernig mèr líður, og
til þess hann huggi hjörtu yðar.
23. Friður sè með bræðrun-
um, og elska ásamt trú af
Guði Föður og Drottni Jesú
Kristi.
24. Náð sè með öllum þeim
eilíflega, sem elska Drottinn
vorn Jesúm Krist, amen.

# SÁNKTI PÁLS PISTILL

TIL

# FILIPPÍBORGARMANNA.

---

## 1. KAPÍTULI.

*Páll óskar Filippíborgarmönnum góðs; þakkar Guði fyrir þá og biður fyrir þeim; lætur þá vita, að fjötur hans miði kristninni til eflíngar, og segist vilja lifa og líða, ef það gæti orðið þeim til framfara; áminnir þá til stöðuglyndis við kristilega trú.*

PÁLL og Tímóteus, þjónar Jesú Krists, óska öllum Jesú Krists heilögum í Filippíborg, ásamt forstjórum og meðhjálpurum,

2. Náðar og friðar frá Guði vorum Föður og Drottni Jesú Kristi.

3. Eg þakka Guði mínum, í hvert sinn sem eg hugsa til yðar;

4. Og ávalt, í öllum mínum bænum, bið eg með gleði fyrir yður öllum,

5. Sökum fastheldni yðar við náðarboðskapinn, frá hinum fyrsta degi, alt til þessa tíma;

6. Þar eð eg fulltreysti því, að hann, sem hefir byrjað hið góða verkið með yður, muni það fullkomna, alt til dags Jesú Krists;

7. Með því það er viðurkvæmilegt fyrir mig, að halda þetta um yður alla, sem ásamt mèr eruð orðnir hluttakandi í náðinni, þar eð eg hefi yður sífelt í huganum, hvort sem eg er í fángelsi, ellegar eg er að verja náðarlærdóminn og festa hann.

8. Því Guð veit, að eg elska yður alla með ást Jesú Krists;

9. Og bið eg, að elska yðar eflist æ meir og meir, ásamt þekkíngu og góðri greind,

10. Svo að þèr getið skilið, hvað rètt er, og sèuð ráðvandir og ámælislausir alt til Krists aðkomudags,

11. Og sèuð ríkir af ávöxtum kristilegrar dygðar, Guði til lofs og dýrðar.

12. En vitið, bræður, að það, sem fram við mig hefir komið, hefir mikið eflt framgáng náðarlærdómsins;

13. Því að það er kunnugt orðið gjörvallri keisarans hirð og öllum öðrum út í frá, að eg er fjötraður vegna Krists.

14. Margir bræður hafa og feingið dug af fjötrum mínum, og enn meiri djörfúng, til að kenna lærdóminn óskelfdir.

15. Sumir gjöra það að sönnu af öfund og þrætugirni, en aptur aðrir boða Krist af því þeim geingur gott til.
16. Þeir, sem kærleiki dregur til þess, gjöra það, vegna þess þeir vita, að eg er ætlaður náðarlærdóminum til varnar;
17. En hinir, sem gjöra það af þrætugirni, boða ekki Krist af hreinum huga, heldur ætla, að þeir með því bæti nýrri þreyngíngu ofan á fjötur mín.
18. En hvað um það? Kristur boðast samt á allar lundir, hvort sem það heldur er af yfirdrepskap, eður með hreinskilni, og af því gleðst eg, og mun framvegis gleðjast;
19. Því eg veit, að þetta verður mèr til heilla, sakir yðar bæna og með tilstyrk Jesú Krists Anda.
20. Því það er innileg laungun mín og von, að eg í eingu muni til skammar verða, heldur að Kristur muni, fyrir mína djarflegu kenníngu nú, eins og ávalt, vegsamast fyrir minn líkama, hvort heldur það verður með mínu lífi, eður dauða.
21. Því að lifa er mèr Kristur, en að deya er ávinníngur fyrir mig.
22. En ef líf líkamans er ábati fyrir verk mitt, þá veit eg ekki, hvort ėg á heldur að kjósa.
23. En eg á úr tvennu vöndu að ráða: mig lángar til að losast hèðan og vera með Kristi, því það væri miklu betra;
24. En það er nauðsynlegra yðar vegna, að eg dvelji í líkamanum;
25. Og það veit eg fyrir víst, að eg muni lifa, og lifa ásamt yður öllum, yður til framfara í trúnni og gleði af henni;
26. Svo að yðar fögnuður í Jesú Kristi vaxi fyrir mína skuld, þá eg kem aptur til yðar.
27. Einúngis hegðið yður eins og samboðið er náðarlærdómi Krists, svo að hvort heldur eg kem og finn yður, ellegar verð fjarlægur, þá megi eg fá þá fregn um yður, að þèr standið stöðugir í einum anda, og verjið samhuga trú náðarlærdómsins,
28. Og látið í eingu hugfallast fyrir mótstöðumönnunum, sem þeim er glötunar fyrirboði, en yður heilla merki, og það frá Guði.
29. Því yður er sú náð veitt, fyrir Krists sakir, ekki einúngis að trúa á hann, heldur og þjást hans vegna;
30. Með því þèr eigið ì sömu baráttu, sem þèr áður sáuð mig eiga í, og nú fáið fregn um.

## 2. KAPÍTULI.

*Postulinn áminnir til bróðurlegs kærleika og lítillætis; að dæmi Jesú, sem var gjörður vegsamlegur, skuli þeir og gjöra sig sömu dýrðar verðuga; er reiðubúinn að deya fyrir Krists lærdóm. Segist senda Tímóteus, en síðar Epafrodítus. Gjörir sèr jafnvel von um, að geta sjálfur komið til þeirra.*

ÞESS vegna, ef nokkuð má sín hjá yður upphvatníng í nafni Krists, kærleiksfull aðvaran, samfèlag Andans og viðkvæmt hjartaþel,

2. Þá gjörið mína gleði fullkomna með því, að þèr sèuð allir með einum huga, hafið innbyrðis kærleika, sèuð samlyndir og á eitt sáttir,

3. Gjörið ekkert af þrætugirni, eður fyrir hègómadýrð, heldur að sèrhver með lítillæti álíti annan sèr æðri;

4. Og sèrhver líti ekki einúngis til síns gagns, heldur og annara.

5. Því látið sama lunderni vera í yður, sem var í Jesú Kristi;

6. Sem þó hann væri í Guðs mynd, miklaðist ekki af því, að hann var Guði líkur,

7. Heldur mínkaði sjálfan sig, tók á sig þjóns mynd, varð mönnum líkur,

8. Og að útvortis hætti sem maður. Hann lítillækkaði sig sjálfan, og var hlýðinn alt fram í dauðann, já, fram í dauðann á krossinum.

9. Fyrir því hefir og Guð hátt upphafið hann, og gefið honum tign, sem er allri tign æðri,

10. Svo að öll knè skulu beygja sig fyrir Jesú tign, bæði þeirra, sem eru á himni og á jörðu, og undir jörðunni,

11. Og sèrhver túnga viðurkenna, að Jesús Kristur er Drottinn, Guði Föður til dýrðar.

12. Þess vegna, mínir elskanlegir, með því þèr hafið ætíð verið hlýðnir, þá eflið sáluhjálp yðar með ótta og andvara, ekki einúngis eins og meðan eg var nálægur, heldur enn fremur nú í fjærveru minni.

13. Því það er Guð, sem eptir sinni velþóknun kemur því til vegar í yður, bæði að þèr viljið og framkvæmið.

14. Gjörið alt án mögls og þráttunar,

15. Svo að þèr sèuð óaðfinnanlegir og prettalausir, flekklaus Guðs börn mitt á meðal þessarar rángsnúnu og gjörspiltu kynslóðar. Skínið á meðal þessara, eins og ljós í heiminum,

16. Og haldið fast við lífsins orð mèr til sóma á degi Krists, svo að eg hafi ekki til einskis hlaupið eður unnið til ónýtis.

17. En þó mínu blóði verði

úthelt yfir fórn og þjónustu
mína að trú yðvarri, þá gleðst
eg af því, og samgleðst yður
öllum.
18. En gleðjizt þèr líka af
hinu sama, og samgleðjizt
með mèr.
19. Eg hefi þá von til Drott-
ins Jesú, að eg bráðum muni
geta sent Tímóteus til yðar,
svo mèr verði hughægra, þá
eg fæ að frètta af yður.
20. Því eingan hefi eg mèr
jafn-samlyndan, eður þann sem
eins einlæglega sè ant um yður.
21. Því allir leita eigin hagn-
aðar, en ekki þess, sem Jesú
Krists er.
22. En þèr þekkið Tímóteus-
ar reyndu dygð, að hann hefir,
eins og sonur með föður sín-
um, þjónað að kristniboðinu
með mèr.
23. Hann hygg eg að senda,
undireins og eg er búinn að
fullsjá, hvað um mig verður;
24. En eg hefi þá von til
Drottins, að eg og bráðum
muni koma sjálfur.
25. Samt hèlt eg nauðsynlegt,
að senda til yðar bróður vorn
Epafrodítus, minn samlagsþjón
og stríðsfèlaga í kristniboðinu,
en yðar sendimann og erinds-
reka í því, að bæta úr þörf
minni.
26. Hann saknaði yðar allra
svo mjög, að hann varð hug-
sjúkur út af því, að þèr höfð-
uð frètt, að hann hefði verið
sjúkur;
27. Hann varð og veikur, og
nærri að kominn dauða, en Guð
miskunaði honum; en ekki
einúngis honum, heldur líka
mèr, svo mèr ekki bættist
hrygð á hrygð ofan.
28. Þessa vegna hraða eg því
heldur, að senda hann, svo að
þèr gleðjizt, þá þèr fáið að sjá
hann aptur, og svo mèr verði
hughægra.
29. Takið því með öllum fagn-
aði á móti honum í Drottni,
og hafið þvílíka menn í heiðri;
30. Því að í Krists erindi var
hann að kominn dauða, þar eð
hann stofnaði lífi sínu í hættu,
svo hann uppbætti það, sem
brast á yðar umönnun fyrir
mèr.

## 3. KAPÍTULI.

*Páll tekur vara fyrir falskennendum; segist einúngis hrósa sèr af Jesú Kristi, og keppast eptir hnossi eilífrar sælu; lastar holdlega sinnaða.*

AÐ öðru leyti, bræður mínir,
gleðjizt í Drottni. Mèr
þykir ekki mikið fyrir því, að
skrifa yður hið sama, en yður
er það til styrkíngar.
2. Varið yður á hundunum,
varið yður á hinum vondu
verkamönnum, varið yður á
afskurninni,

3. Því vèr erum hinir (rètt) umskornu, vèr, sem dýrkum Guð í anda, og hrósum oss af Jesú Kristi, en höfum ekki traust á holdlegum hlutum;

4. Jafnvel þó eg einnig í tilliti til hins holdlega hafi það, sem eg geti treyst; því ef öðrum þykir, að hann geti treyst holdinu, þá get eg það miklu fremur;

5. Eg er umskorinn á áttunda degi, er af kyni Ísraels og Benjamíns ættkvísl, hebreskur í báðar ættir, og með tilliti til lögmálsins Farísei,

6. Sem af vandlæti fyrir trú feðra minna ofsókti söfnuðinn, og var í ráðvendni eptir lögmálinu óstraffanlegur.

7. En það, sem (áður) var mèr ávinníngur, met eg nú tjón sakir Krists;

8. Já, eg álít alt fyrir tjón, hjá því ágæti, að fá þekkíngu á Jesú Kristi, Drottni mínum, fyrir hvers sakir eg hefi mist alt, og met það ekki meir en sorp, svo eg ávinni Krist,

9. Og sè í sameiníngu við hann, og leiti ekki rèttlætíngar af hlýðninni við lögmálið, heldur þeirrar rèttlætíngar, sem Guð veitir fyrir trúna á Jesúm Krist;

10. Svo að eg öðlist þekkíngu á honum og á krapti hans upprisu, og hluttekníngu í hans píslum, og verði líkur honum í dauða hans,

11. Ef mèr auðnast að ná upprisu framliðinna.

12. Ekki að eg hafi þegar náð hnossinu, eður sè búinn að enda skeiðið; heldur keppist eg eptir að höndla það, með því eg er höndlaður af Kristi.

13. Bræður mínir, ekki álít eg mig enn að hafa náð hnossinu;

14. En eitt gjöri eg: eg gleymi því, sem bak við mig er, en seilist eptir því, sem fyrir framan er, og skunda til takmarksins, til þess himneska hnossins, sem Guð frambýður mèr fyrir Jesúm Krist.

15. Þannig sèum vèr sinnaðir, sem fullkomnir erum. En ef þèr eruð í nokkru á öðru máli, þá mun Guð opinbera yður þetta;

16. Einúngis að vèr gaungum eptir sömu (reglu), að svo miklu leyti sem vèr höfum faung á.

17. Bræður, breytið eptir mèr, og lítið til þeirra, sem breyta eins og vèr, sem erum yðar fyrirmynd;

18. Því margir breyta sem óvinir Kristí kross, sem eg hefi optlega talað um til yðar og nú tala grátandi um,

19. En afdrif þeirra verður tortýníng, sem hafa magann fyrir sinn Guð, og þykir sómi að skömmunum og hafa hugann festan við jarðneska muni.

20. Því vort föðurland er á himni, hvaðan vèr væntum lausnarans, Drottins Jesú Krists,

21. Sem mun ummynda líkama vorrar lægíngar, svo að hann verði líkur hans dýrðarlíkama eptir þeim krapti, sem hann hefir til að leggja alt undir sig.

## 4. KAPÍTULI.

*Postulinn hvetur til samlyndis, til guðrækilegrar gleði og ástundunar í öllu, sem gott er; hrósar Filippíborgarmanna örlæti við sig; ber kveðjur.*

ÞESS vegna, mínir elskanlegu og ástfólgnu bræður, þèr gleði mín og heiðurs kóróna, haldið yður fast við Drottinn, þèr elskanlegir.

2. Evódíu og Syntykku áminni eg, að þær sèu samlyndar í Drottni,

3. Einnig bið eg þig, minn trúlyndi samþjón, að þú takir þær að þèr, því þær aðstoðuðu mig, þá eg boðaði náðarlærdóminn, ásamt með Klemens og öðrum mínum liðsmönnum, hverra nöfn standa í lífsins bók.

4. Gleðjið yður ávalt í Drottni; og enn aptur segi eg, gleðjið yður!

5. Yðar hógværð verði öllum kunnug;

6. Drottinn er nálægur. Verið ekki hugsjúkir um nokkurn hlut, heldur látið í öllum hlutum yðar óskir koma fyrir Guð í bæna ákalli með þakkargjörð.

7. Þá mun friður Guðs, sem er æðri öllum skilníngi, halda yðar hjörtum og hugsunum stöðuglega við Jesúm Krist.

8. Að öðru leyti, kærir bræður, hvað sem satt er og sómasamlegt, hvað rèttvíst er, hvað skírlíft er, hvað elskuvert er eður gott afspurnar, hvað dygðugt er, hvað lofsvert er, gefið gaum að því.

9. Breytið eptir því, sem þèr hafið lært og numið og heyrt af mèr, og þèr hafið sèð mig gjöra; þá mun friðarins Guð vera með yður.

10. Næsta mjög gladdist eg í Drottni, að hagur yðar hefir svo batnað, að þèr gátuð hugsað til mín; sem þèr að sönnu (alt af) hafið gjört, en yður vantaði tækifæri.

11. Ekki segi eg þetta vegna minnar þarfar, því eg hefi lært að láta mèr nægja það, sem fyrir hendi er.

12. Eg veit, hvað það er, að

vera í niðurlægíngu; eg veit og, hvað það er, að hafa als nægtir; hvervetna og í öllum hlutum er eg reyndur orðinn, að vera mettur og að vera svángur, að hafa nægtir og líða skort.
13. Alt megna eg fyrir hans hjálp, sem mig styrkvan gjörir.
14. Eingu að síður gjörðuð þèr vel í því, að taka þátt í minni þreyngíngu.
15. Þèr vitið og, Filippíborgarmenn, að í upphafi kristindómsins, þegar eg fór frá Masedóníu, að einginn söfnuður hefir miðlað mèr neinu í gáfu og þágu nafni, nema þèr einir.
16. Því þá eg var í Tessaloniku, senduð þèr mèr einu sinni, já, tvisvar, til nauðþurfta minna.
17. Ekki að mèr væri svo umhugað um gjöfina, sem um ábata þann, er af henni flýtur í yðar sjóð.
18. Eg hefi meðtekið alt, og hefi yfirfljótanlega nóg, síðan eg meðtók það sem þèr senduð með Epafrodítusi, hið ilmanda reykelsi, þá fórn, sem Guði er þekk og velþóknanleg.
19. En minn Guð mun uppfylla allar yðar þarfir af sinni dýrðlegu nægt vegna Jesú Krists.
20. Guði og Föður vorum sè vegsemd að eilífu, amen.
21. Heilsið sèrhverjum heilögum í Jesú Kristi. Yður heilsa bræðurnir, sem með mèr eru.
22. Yður heilsa allir heilagir, en einkanlega keisarans heimilismenn.
23. Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yður öllum, amen.

---

# SÁNKTI PÁLS PISTILL

TIL

# KÓLOSSABORGARMANNA.

## 1. KAPÍTULI.

*Góðar óskir. Páll þakkar Guði fyrir kristnitöku þeirra og kristilega framför, sem hann óskar að vaxi. Talar um Krist og hans friðþægingu; að heiðíngjarnir sèu einnig hluttakandi í henni, og að hann sjálfur sè verkfæri Guðs í kristniboðinu hjá þeim.*

PÁLL, að Guðs vilja postuli Jesú Krists, og Tímóteus bróðir,
2. Óska yður, heilögum bræðrum í Kólossaborg og trúuðum

í Kristi, náðar og friðar af
Guði vorum Föður.
3. Þakkir gjörum vèr Guði,
Föður Drottins vors Jesú
Krists, og biðjum ávalt fyrir
yður,
4. Frá því vèr heyrðum um
trú yðar á Jesú Kristi og elsku
til allra heilagra,
5. Vegna þeirrar vonar, sem
yður er geymd á himni, og sem
þèr hafið áður heyrt um í sann-
leiks orði náðarlærdómsins,
6. Sem til yðar er kominn,
eins og um allan heim, og ber
ávöxt og útbreiðist meir og
meir, eins og hjá yður, frá
þeim degi þèr heyrðuð og
feinguð þekkíngu á Guðs náð
í sannleikans lærdómi,
7. Eins og Epafras, vor elsku-
legur samþjón, hefir yður hann
kent, sem er trúr Krists þjón
hjá yður,
8. Og sem hefir sagt oss frá
kærleika yðar í Andanum.
9. Þess vegna höfum vèr einn-
ig, frá þeim degi vèr heyrðum
frá yður, ekki af látið að biðja
fyrir yður, og óska, að þèr
fyltuzt þekkíngar á Guðs vilja,
með als konar speki og and-
legum skilníngi,
10. Svo að þèr breytið eins
og Drottni er samboðið, hon-
um til þóknunar á allan hátt,
11. Sèuð ávaxtarsamir í als
konar góðum verkum, vaxið í
þekkíngu á Guði, eflizt af hans
dýrðar mætti, í algjörðum dugn-
aði, til als háttar þolgæðis og
stöðuglyndis með glaðværð.
12. Vèr þökkum Föðurnum,
sem gjörði oss hæfa til að fá
hlutdeild í arfleifð heilagra í
ljósinu,
13. Með því hann hreif oss
frá myrkursins valdi, og flutti
oss inn í ríki síns elskulega
Sonar,
14. Fyrir hvern vèr höfum
lausnina, fyrirgefníngu synd-
anna;
15. Sem er ímynd ósýnilegs
Guðs, frumgetníngur allrar
skepnu;
16. Því að fyrir hann er alt
skapað, sem er á himni og
á jörðu, hið sýnilega og hið
ósýnilega, hásæti, herraveldi,
höfðíngja-dómar og yfirráð;
allir hlutir eru skapaðir fyrir
hann, og (stefna) til hans.
17. Og hann er fyrri en alt,
og alt viðhelzt fyrir hann;
18. Og hann er höfuð á safn-
aðarins líkama, hann er upp-
hafið, frumburður enna dauðu,
svo að hann hafi yfirburði yfir
alla.
19. Því það þóknaðist Guði,
að öll fyllíng skyldi búa í
honum,
20. Og að koma öllu í sátt við

sig fyrir hann, bæði því sem er á jörðu og á himni, með því hann samdi frið fyrir hann með blóði hans á krossinum.
21. Einnig yður, sem forðum voruð fráhverfir og óvinir (hans) í huga, sökum yðar vondra verka,
22. Yður hefir hann nú sátta gjört, fyrir deyðíngu hans holdlega líkama, svo hann láti yður koma fram fyrir sig, heilaga, lýtalausa og óaðfinnanlega,
23. Ef þèr að eins standið grundvallaðir og stöðugir í trúnni, og látið ekki bifa yður frá von þess náðarlærdóms, sem þèr hafið numið, og boðaður er sèrhverri skepnu undir himninum, hvers þjón eg, Páll, einnig er orðinn.
24. Nú fagna eg í þjáníngum mínum yðar vegna, og uppfylli á mínu holdi það, sem vantaði á Krists þjáníngar, fyrir hans líkama, sem er söfnuðurinn,
25. Hvers þjón eg er orðinn, eptir þeirri ráðstöfun Guðs, sem mèr er á hendur falin yðar vegna, að útbreiða Guðs orð,
26. Þann leyndardóm, sem hulinn var öldum og kynkvíslum, en nú er opinberaður hans heilögum.
27. Þeim vildi Guð opinbera, hvílíkur dýrðar-ríkdómur þessi leyndardómur er fyrir þjóðirnar, sem er Kristur í yður, von dýrðarinnar.
28. Þenna boðum vèr, með því vèr áminnum sèrhvern, og fræðum sèrhvern mann í allri speki, svo vèr getum leitt hvern mann algjörvan í Kristó fram (fyrir Guð);
29. Til þess vinn eg og stríði, styrktur af hans krapti, er sýnir sig í mèr volduglega kröptugan.

## 2. KAPÍTULI.

*Páll er áhyggjufullur, að Kólossaborgarmenn kunni að leiðast afvega af villumönnum; biður því, að þeir haldi fast við hina sönnu Krists trú; sannar, að Jesús hafi gefið þeim betri sáluhjálpar meðöl, en útvortis helgisiðir Gyðínga og heiðíngja gátu veitt.*

ÞVÍ eg vil, að þèr vitið, hvílíka baráttu eg hefi haft yðar vegna og þeirra, sem búa í Laódísea, og svo margra, sem ekki hafa sèð mig sjálfan,
2. Til þess að hjörtu þeirra mættu styrkjast, og þeir sjálfir í elsku sameinast, og öðlast gjörvallan ríkdóm fullkomins skilníngs, þekkínguna á Guðs leyndardómi,
3. Sem allir fjársjóðir spekinnar og þekkíngarinnar eru fólgnir í.
4. En þetta segi eg, svo einginn tæli yður með mælskulegum orðum.
5. Því þó að eg, að líkamanum

til, sè fjarlægur, þá er eg samt nálægur í anda, og gleðst, þá eg sè yðar reglusemi og fastheldni við trúna á Krist.

6. Breytið því samkvæmt lærdómi Drottins vors Jesú Krists, eins og þèr hafið hann numið,

7. Rótfestir og bygðir á Kristi (sem grundvelli), stöðugir í trúnni, eins og hún hefir yður verið kend, og vaxandi í henni með þakkargjörð.

8. Varizt, að nokkur hertaki (blindi) yður með heimsspeki og hègómlegri villu, eptir manna setníngum, eptir stafrófi heimsins, en ekki eptir Kristi;

9. Því í honum býr öll fyllíng guðdómsins líkamlega,

10. Og í honum eruð þèr sannauðugir vorðnir, honum, sem er höfuð als höfðíngjadóms og yfirvalds;

11. Fyrir hann eruð þèr og umskornir þeirri umskurn, sem ekki er með höndum gjörð, heldur innifalin í aflegg-íngu syndum spiltrar náttúru, það er, þèr eruð umskornir með Krists umskurn,

12. Með því að þèr eruð með honum greptraðir í skírninni, í honum og með honum eruð þèr og upp risnir fyrir trúna á mátt Guðs, er upp vakti hann frá dauðum.

13. Einnig yður, sem dauðir voruð í yfirtroðslunum og yfirhúð yðvars holds, lífgaði Guð, með honum, með því að hann fyrirgaf oss öll vor afbrot,

14. Afmáði það skuldabrèf, sem stílað var í gegn oss og innifalið var í lagasetníngum, og burt tók það, þá hann negldi það á krossinn.

15. Hann fletti vopnum hina voldugu og mektugu, leiddi þá opinberlega fram til sýnis, og hrósaði sigri yfir þeim á honum (krossinum).

16. Látið þess vegna eingan fordæma yður fyrir mat eður drykk, eður nokkuð það, sem snertir hátíðir, túnglkomur eður hvíldardaga,

17. Sem alt er skuggi hins eptirkomanda, en Kristur er líkaminn sjálfur.

18. Látið eingan taka hnossið frá yður, er þykist af auðmýkt sinni og eingladýrkun, gefur sig í það, sem hann aldrei hefir sèð, og upp hrokast hègómlega af sínu holdlega hugarfari,

19. En heldur sèr ekki til höfuðsins, af hverju allur líkaminn, styrktur og samteingdur með liðum og taugum, tekur guðlegan þroska.

20. Ef þèr eruð dánir með Kristi frá stafrófi heimsins, því bindið þèr yður þá við

þvílíka setnínga, eins og þèr lifðuð í heiminum:

21. "Þú skalt ekki snerta, ekki smakka, ekki taka á?"

22. Alt þetta verður til spillíngar fyrir vanbrúkun, eptir manna boðorðum og lærdómum,

23. Sem hafa að sönnu á sèr vizku yfirbragð, en eru inni falin í sjálfgjörðri dýrkun, (uppgerðar) auðmýkt og meingjörðum við sjálfan sig, án þess að rækja líkamann eins og hann þarf við.

## 3. KAPÍTULI.

*Sannir kristnir eiga að meta meira hið himneska, en hið jarðneska, afleggja hið forna háttalag, en fylgja nýu; einkum stunda bróðurlega elsku og hafa i öllu Krists vilja og boð fyrir augum; skyldur hjóna, barna, foreldra og þjóna.*

FYRST þèr eruð ásamt með Kristi upp risnir, þá keppizt eptir því, sem er á hæðum, þar sem Kristur situr til hægri handar Guði.

2. Hafið hugann á hinu himneska, en ekki á hinu jarðneska.

3. Því þèr eruð dánir, og líf yðvart er falið með Kristi í Guði.

4. En þegar Kristur, vort líf, opinberast, þá munuð þèr og ásamt honum í dýrð opinberast.

5. Deyðið því yðar jarðnesku limu, frillulífi, saurlifnað, losta, vonda tilteygíngu og ágirnd, sem er skurðgoða dýrkan.

6. Fyrir slíkt (athæfi) kemur hegníng Guðs yfir börn vantrúarinnur,

7. Í hverra tölu þèr forðum voruð, meðan þèr lifðuð þessum löstum.

8. En afleggið nú alt þetta: reiði, bræði, vonzku, lastmæli, svívirðilegt tal af yðrum munni.

9. Ljúgið ekki hver að öðrum, þar þèr hafið afklæðzt hinum gamla manni og hans háttalagi,

10. En íklæðzt nýum, sem endurnýaður er til þekkíngar samkvæmt þess mynd, sem hann hefir skapað.

11. Hèr er einginn munur á grískum manni og Gyðíngi, á umskornum og óumskornum, útlendíng, Skýta, þræli eður frjálsum, heldur er Kristur alt og í öllum.

12. Íklæðizt því, eins og Guðs útvaldir heilagir og elskanlegir, hjartgróinni meðaumkun, góðvild, lítillæti, hógværð, lánglundargeði.

13. Umberið hver annan, og fyrirgefið hver öðrum, ef einhver yðar hefir kærumál öðrum á móti; eins og Kristur hefir fyrirgefið yður, svo skuluð þèr og einnig gjöra.

14. En um fram alt íklæðizt

elskunni, því hún er band al-
gjörleikans;
15. Þá mun friður Krists ríkja
í yðrum hjörtum; til þessa
friðar eruð þèr og einnig kall-
aðir í einum líkama (sameig-
inlega); og verið (fyrir það)
þakklátir.
16. Látið Krists orð ríkuglega
búa hjá yður, svo að þèr með
allri speki kennið hver öðrum,
og áminnið hver annan með
sálmum, saungum og andleg-
um lofkvæðum, sætlega sýngj-
andi Drottni lof í yðrum hjört-
um.
17. Hvað helzt sem þèr aðhaf-
izt í orði eður verki, þá gjörið
alt í nafni Drottins Jesú, þakk-
andi Guði og Föður fyrir hann.
18. Þèr konur, verið bændum
yðar undirgefnar í Drottni eins
og vera ber.
19. Þèr menn, elskið yðar
eiginkonur, og verið ekki
beisklundaðir við þær.
20. Þèr börn, verið hlýðin
foreldrunum í öllu, því það
er Drottni þóknanlegt.
21. Þèr feður, uppertið ekki
yðar börn, svo að þau verði
ekki huglaus.
22. Þèr þrælar, verið hlýðnir
í öllu yðar jarðnesku Drottn-
um, ekki með augnaþjónustu,
eins og þeir, er vilja mönnum
þóknast, heldur með hjartans
einlægni, eins og þeir, er
Drottin óttast;
23. Og gjörið alt, hvað helzt
sem þèr vinnið, með einlægu
geði, eins og það sè fyrir Drott-
in, en ekki menn,
24. Og vitið, að þèr munuð
taka sælu í arf til endurgjalds
af Drottni, því þèr þjónið
Drottni Kristi.
25. En sá rángt aðhefst, mun
bera úr býtum gjöld fyrir
rángsleitni sína, því hèr er
ekki manngreinar álit.

## 4. KAPÍTULI.

*Skyldur við drottna; stöðuglyndi í bæn, forsjálni í ræðu og umgeingni; Tykíkus og Onesímus eiga að segja, hvernig Páli líði; heilsanir; brèfið á að lesast af söfnuðinum í Laódísea. Arkippus áminnist. Góðar óskir.*

ÞÈR, drottnar, veitið þræl-
unum það, sem rètt er
og sanngjarnlegt, og munið til
þess, að þèr eigið og Drottin
á himni.
2. Verið stöðugir í bæninni og
árvakrir í henni með þakkar-
gjörð.
3. Biðjið jafnframt fyrir oss,
að Guð greiði veg kenníngu
vorri, til að boða leyndardóm
Krists, fyrir hvers sakir eg em
nú bundinn,
4. Svo að eg megi auglýsa
hann, eins og mèr byrjar að
tala.
5. Umgángizt viturlega þá,
sem fyrir utan söfnuðinn

eru, og kaupið hinn hentuga
tíma.
6. Yðar ræða sè ætíð ljúfleg
og salti krydduð, svo að þèr
vitið, hvernig þèr eigið að svara
sèrhverjum.
7. Vor elskulegur bróðir Tyk-
íkus, trúr þjón og samþjón í
Drottni, mun láta yður vita
alt um mína hagi.
8. Eg sendi hann til yðar ein-
mitt til þess, að eg fái frètt af
yður, og til þess hann huggi
yðar hjörtu,
9. Og ásamt honum Onesím-
us, trúan og elskulegan bróð-
ur, landa yðar; þeir segja yður
allar frèttir hèðan.
10. Yður heilsar Aristarkus,
sambandíngi minn, og Markús
frændi Barnabasar, um hvern
þèr hafið boðorð feingið. Ef
hann kemur til yðar, þá veitið
honum góðar viðtökur.
11. Sömuleiðis heilsar yður
Jesús, að viðurnefni Jústus.
Þessir eru umskornir, og þeir
einustu, sem hafa verið mínir
meðhjálparar í Guðs ríkis út-
breiðslu, og mèr til mikillar
huggunar.
12. Enn framar heilsar yður
Epafras, Krists þjón og landi
yðar. Hann stríðir sífeldlega
fyrir yður með bænum, að
þèr megið stöðugir standa,
algjörðir og fullkomnir í öllu
því, sem Guð vill.
13. Því þann vitnisburð gef
eg honum, að honum sè mjög
ant um yður og þá, sem búa
í Laódísea og Híerópólis.
14. Læknirinn Lúkas, vor
elskanlegur, heilsar yður, og
Demas.
15. Heilsið þèr bræðrunum
í Laódísea, Nymfasi og söfn-
uðinum, sem kemur saman í
húsi hans.
16. Þegar þèr eruð búnir að
lesa brèf mitt til yðar, þá látið
líka lesa það í söfnuðinum í
Laódísea; lesið þèr og brèfið
frá Laódísea.
17. Segið Arkippusi: gættu
þjónustu Drottins, sem þú hef-
ir tekið við, að þú veitir henni
fullnustu.
18. Kveðjan er skrifuð með
minni, Páls, eigin hendi. Minn-
izt fjötra minna. Náð sè með
yður.

---

# SÁNKTI PÁLS FYRRI PISTILL

TIL

# TESSALONÍKUMANNA.

---

## 1. KAPÍTULI.

*Góðar óskir. Páll þakkar Guði og hrósar þeirra fúsleika að taka kristni, bróðurkærleika þeirra og þolinmæði.*

PÁLL og Sílvanus og Tímóteus óska yður, söfnuði Guðs Föður og Drottins Jesú Krists í Tessaloníku, náðar og friðar af Guði vorum Föður og Drottni Jesú Kristi.

2. Ávalt þökkum vèr Guði fyrir yður alla, þá vèr minnumst yðar í vorum bænum,

3. Og erum sífeldlega minnugir yðar atorkusömu trúar og óþreytanlegu elsku og stöðugu vonar á Drottni vorum Jesú Kristi fyrir augliti Guðs og Föður vors,

4. Með því vèr vitum, góðir bræður af Guði elskaðir, hvernig útvalníngu yðar var háttað,

5. Að kenníng vor um náðarlærdóminn hjá yður var ekki fólgin í orðum einum, heldur í krapti, Heilögum Anda og fullkominni sannfæríngu, eins og þèr líka vitið, hvílíka vèr sýndum oss yður til handa hjá yður.

6. Og þèr hafið breytt eptir oss og Drottni, með því þèr meðtókuð lærdóminn í miklum þreyngíngum með fögnuði Heilags Anda,

7. Svo að þèr eruð orðnir fyrimynd allra trúaðra í Masedóníu og Akkealandi;

8. Því að frá yður hefir orð Drottins hljómað, ekki einúngis í Masedóníu og Akkealandi, heldur er og trú yðar á Guði kunnug orðin alstaðar, svo vèr ekki þurfum um það að tala;

9. Því menn gjöra orð á því, hvílíka komu vèr áttum til yðar, og hvernig þèr snèruð yður til Guðs frá skurðgoðunum, til að þjóna lifandi og sönnum Guði,

10. Og að vænta Sonar hans frá himni, sem hann uppvakti frá dauðum, Jesú, er frelsar oss frá hinni yfirvofandi hegníngu.

## 2. KAPÍTULI.

*Páll talar um, hvernig hann hafi hegðað sèr hjá þeim; þakkar Guði fyrir, að þeir svo fúslega tóku hans kenníngu, og talar um ofsóknir, er þeir mega sæta; talar um laungun sína að finna þá.*

ÞVÍ sjálfir vitið þèr það,
bræður, að koma vor til
yðar var ekki ávaxtarlaus;
2. Heldur þótt vèr áður í
Filippíborg, eins og yður er
kunnugt, þyldum ilt og vær-
um smánaðir, höfðum vèr þó
hugdyrfð í Guði vorum til að
boða hjá yður náðarlærdóm
Guðs með mikilli baráttu.
3. Því að hvorki spratt kenn-
íng vor af villu, nè sèrplægni,
nè vèlum;
4. Heldur höfum vèr kent,
eins og Guð hefir álitið oss
þess maklega, að trúa oss fyr-
ir náðarlærdóminum, ekki sem
þeir, er mönnum vilja þóknast,
heldur Guði, sem rannsakar
hjörtu vor.
5. Því hvorki höfum vèr nokk-
uru sinni farið með hræsnis
fortölur, eins og yður er kunn-
ugt, nè leiðzt af ágirnd, Guð er
þess vottur,
6. Nè leitað lofstírs af mönn-
um, hvorki af yður nè öðrum;
7. Þó vèr gætum verið mikil-
látir, sem postular Krists,
en vèr sýndum oss milda við
yður.
8. Eins og fóstra hjúkrar börn-
um sínum, eins erum vèr yður
ástúðlegir, og erum fúsir til,
ekki einúngis að útbýta yður
náðarlærdómi Guðs, heldur
og til að gefa yður vort eigið
líf, því þèr eruð orðnir oss
ástfólgnir.
9. Þèr munið, bræður, eptir
erfiði voru og mæðu; til þess
vèr værum eingum yðar til
þýngsla, unnum vèr nótt og
dag, og boðuðum yður náðar-
boðskap Guðs.
10. Þèr eruð vitni til þess og
Guð, hversu heilaglega, rètt-
víslega og ólastanlega vèr
hegðuðum oss hjá yður, sem
við trúnni höfðuð tekið.
11. Yður er og kunnugt,
hversu eg hefi ámint, upp-
hvatt og grátbænt sèrhvern
yðar, eins og faðir börn sín,
12. Að þèr breyttuð verðug-
lega Guði, er kallað hefir yður
til síns ríkis og dýrðar.
13. Þess vegna þökkum vèr
líka Guði fyrir það án afláts,
að þèr veittuð viðtöku Guðs
orði, er þèr námuð af oss, og
meðtókuð það ekki sem manna
lærdóm, heldur sem Guðs orð,
eins og það í sannleika er, og
sem líka sýnir sinn krapt á
yður, sem trúaðir eruð.
14. Því að yður hefur farizt
líkt, bræður, og söfnuðum Guðs
í Gyðíngalandi, er játazt hafa
Jesú Kristi; því þèr hafið þol-
að sama af ættíngjum yðar,
15. Sem þeir af Gyðíngum, er
bæði líflètu Drottinn Jesúm og
spámennina; oss hafa þeir og

ofsókt, eru Guði misþóknanlegir og öllum mönnum mótstæðilegir;

16. Þeir meina oss að tala til heiðíngjanna, svo að þeir frelsist, og uppfylla með því jafnan mælir sinna synda, en hegníngin er nú komin yfir þá til fulls.

17. En vèr, bræður, sem um stundar sakir höfum verið sviptir návistum yðar að líkamanum til, en ekki huganum, höfum mikillega haft hug á að sjá yður með mikilli eptirlaungun.

18. Þess vegna hefi eg, Páll, optar en einu sinni viljað koma til yðar, en Satan hefir hamlað oss frá því.

19. Því hver er vor von, vor gleði, vor heiðurs-krans, er vèr getum hrósað oss af? Munuð þèr ekki einnig verða frammi fyrir augliti Drottins vors Jesú Krists, þá hann kemur?

20. Þer eruð sómi vor og vor gleði.

## 3. KAPÍTULI.

*Til þess að frètta af Tessaloníkumönnum segist Páll hafa sent Tímóteus, og þakkar Guði fyrir þá gleðifregn, er hann hafi feingið með honum um stöðuglyndi þeirra. Lángar til að koma til þeirra.*

ÞEGAR vèr því gátum ekki leingur við þolað, rèðum vèr það af, að verða einir eptir í Atenuborg,

2. Og sendum Tímóteum, bróður vorn og Guðs verkamann með oss í Krists náðarboðskapi, til að styrkja og örfa yður í trú yðar,

3. Svo að einginn láti trufla sig í þessum þreyngíngum; því þèr vitið, að þetta á fyrir oss að liggja.

4. Því þegar eg var hjá yður, þá sagði eg yður fyrir, að vèr mundum þola þreyngíngar, sem líka hefir rætzt, eins og yður er kunnugt.

5. Fyrir því, þegar eg hafði ekki leingur viðþol, þá senda eg til að frètta um trú yðar, hvort freistarinn hefði ekki freistað yðar, og vinna vor orðið til einskis.

6. En nú er Tímóteus aptur kominn frá yður til vor, og ber oss gleðifregn um trú yðar og kærleika, og að þèr ávalt minnizt vor til góðs, og girnizt að sjá oss, eins og vèr yður.

7. Sökum þessa erum vèr, bræður, af yður huggaðir í allri þraut og þjáníngu vorri með yðar trúfesti;

8. Því nú lifum vèr, ef þèr standið stöðugir í Drottni.

9. Því hverja þökk megnum vèr að gjalda Guði fyrir yður, fyrir alla þá gleði, er vèr höfum af yður fyrir Guðs augliti?

10. Nótt og dag biðjum vèr innilega, að oss mætti hlotnast að sjá yður og bæta úr brestum trúar yðar;

11. En sjálfur Guð og Faðir vor og Drottinn vor Jesús Kristur greiði veg vorn til yðar.

12. En Drottinn fylli yður og auðgi elsku bæði innbyrðis yðar á milli og til allra, eins og vor elska er til yðar;

13. Til þess að hjörtu yðar megi staðfestast óaðfinnanleg í heilagleika, frammi fyrir Guði og vorum Föður, þá Drottinn vor Jesús Kristur kemur ásamt öllum hans heilögum.

## 4. KAPÍTULI.

*Páll upphvetur til framfara í heilagri ráðvendni, bróðurkærleika og góðum siðum. Talar um, að þeir, sem deya, áður en Kristur kemur til dóms, fari einskis á mis fyrir það.*

AÐ öðru leyti biðjum vèr yður því, bræður, og áminnum í Drottni Jesú, að þèr takið æ meiri framförum, eins og þèr hafið numið af oss, hvernig yður ber að breyta og þóknast Guði.

2. Því þèr vitið, hver boðorð vèr höfum yður gefið í umboði Drottins Jesú;

3. Því það er Guðs vilji, að þèr helgist, haldið yður frá frillulifnaði,

4. Að sèrhver hafi vit á, að halda líkama sínum í helgun og heiðri,

5. En ekki girnda bruna, eins og heiðnir menn, er ekki þekkja Guð;

6. Að einginn veiti yfirgáng eður hafi af bróður sínum í nokkru, því að Drottinn er hegnari als þvílíks, eins og eg hefi áður sagt og brýnt fyrir yður;

7. Því ekki hefir Guð kallað oss til saurlifnaðar, heldur til helgunar.

8. Hver sem þess vegna fyrirlítur þetta, sá fyrirlítur ekki menn, heldur Guð, sem og hefir inngefið oss sinn Heilaga Anda.

9. Ekki hafið þèr þess þörf, að eg skrifi yður um bróðurkærleikann, því Guð hefir kent yður sjálfum að elskast innbyrðis.

10. Já, þèr auðsýnið þessa sömu elsku jafnvel öllum bræðrunum út um alla Masedóníu. En vèr áminnum yður, bræður, að þèr takið hèr í meiri og meiri framförum,

11. Og leitið sæmdar í því, að lifa rósömu lífi og stunda yðar eigin iðn, og vinna með höndum yðrum, eins og eg hefi yður boðið,

12. Svo að þèr umgángizt sómasamlega þá, sem utan

(safnaðar) eru, og sèuð upp á
eingan komnir.
13. Ekki vil eg, bræður, láta
yður vera ókunnugt um hina
burtsofnuðu, svo að þèr sèuð
ekki hryggvir, eins og hinir,
sem vonarlausir eru;
14. Því ef vèr trúum því, að
Jesús sè dáinn og upp aptur
risinn, þá mun Guð sömuleið-
is fyrir Jesúm ásamt honum
leiða til sín þá, sem sofnaðir
eru;
15. Því það segi eg yður í
Drottins orða stað, að vèr,
sem eptir verðum lífs við til-
komu Drottins, munum ekki
fyrri verða, en hinir burtsofn-
uðu;
16. Því sjáljur Drottinn mun
með ákalli, með höfuðeingils
raust og með Guðs lúðri, af
himni niður stíga; og þeir,
sem í Kristó eru dánir, munu
fyrst upp rísa;
17. Síðan munum vèr, sem
eptir erum lifandi, verða hrifn-
ir til skýa ásamt þeim, til
fundar við Drottin í loptinu,
og munum vèr síðan með
Drottni vera alla tíma.
18. Huggið því hver annan
með þessum orðum.

## 5. KAPÍTULI.

*Páll hvetur til að vanda líferni sitt, þar eð Krists koma til dómsins sé hulin; áminnir til elsku við kennifeður, til friðsemi og fleiri dygða, og árnar mönnum til þess Guðs aðstoðar; kveðjur og skipan að láta alla lesa pistilinn.*

EN þess hafið þèr ekki þörf,
bræður, að yður sè skrifað
um tíma og stundir,
2. Því sjálfir vitið þèr gjörla,
að dagur Drottins mun koma,
sem þjófur á nóttu.
3. Þegar menn segja: "nú
er friður og öllu óhætt," þá
mun snögg eyðileggíng koma
yfir þá, eins og jóðsótt yfir
þúngaða konu; og þeir munu
ekki geta umflúið.
4. En þèr, bræður, eruð ekki
í myrkri, svo að sá dagur geti
yfir yður komið, sem þjófur.
5. Því allir eruð þèr ljóssins
synir og dagsins synir. Vèr
erum ekki (synir) næturinnar
nè myrkursins;
6. Sofum því ekki, eins og
hinir aðrir, heldur vökum og
verum ódrukknir;
7. Því þeir, sem sofa, sofa um
nætur, og þeir, sem drekka,
drekka um nætur.
8. En vèr, sem erum dagsins
synir, sèum algáðir, íklæddir
brynju trúarinnar og kærleik-
ans, og von hjálpræðisins sem
hjálmi.
9. Því Guð hefir ekki ætlað
oss til ófarsældar, heldur til
að öðlast sáluhjálp fyrir Drott-
in vorn Jesúm Krist,

10. Sem dó fyrir oss, svo hvort vèr vektum eður svæfum, þá mættum vèr ásamt honum lifa.

11. Áminnið því hver annan, og eflið hver annars sálarheillir, eins og þèr og gjörið.

12. En þess biðjum vèr yður, bræður, að þèr hafið mætur á þeim, sem vinna hjá yður og veita yður forstöðu í Drottni, og áminna yður,

13. Og að þèr auðsýnið þeim sèrlega virðíngu og elsku fyrir verk þeirra. Verið friðsamir innbyrðis.

14. En framar áminni eg yður, bræður, að þèr áminnið hina óstýrilátu, huggið ístöðulitla, styðjið þá, sem veikir eru, hafið umburðarlyndi við alla.

15. Sjáið til, að einginn gjaldi ilt með illu, en stundið ávalt gott að gjöra, bæði hver öðrum innbyrðis og öllum út í frá.

16. Verið ætíð glaðir.

17. Biðjið án afláts.

18. Gjörið þakkir fyrir alt, því það er Guðs vilji, yður viðvíkjandi í Kristi Jesú.

19. Slökkvið ekki Andann.

20. Fyrirlítið ekki spádómsgáfur,

21. Prófið heldur alt, og haldið því, sem gott er.

22. Haldið yður frá illu, hverrar tegundar sem það er.

23. En sjálfur friðarins Guð helgi yður algjörlega, og allur yðar andi, sála og líkami, varðveitist flekklaust í tilkomu Drottins vors Jesú Krists.

24. Trúfastur er sá, er yður hefir kallað, og hann mun koma þessu til leiðar.

25. Bræður, biðjið fyrir oss.

26. Heilsið öllum bræðrunum með heilögum kossi.

27. Eg bið yður í nafni Drottins, að þèr látið lesa brèf þetta fyrir öllum heilögum bræðrum.

28 Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yður.

# SÁNKTI PÁLS SÍÐARI PISTILL

TIL

# TESSALONIKUMANNA.

---

## 1. KAPÍTULI.

*Góðar óskir. Páll þakkar Guði fyrir þeirra stöðuglyndi og þolinmæði; huggar þá í þeirra þreyngíngum og biður fyrir þeim.*

PÁLL, Silvanus og Tímóteus óska yður, Tessaloníkumönnum, söfnuði Guðs Föður vor og Drottins Jesú Krists,

2. Náðar og friðar af Guði Föður vorum og Drottni Jesú Kristi.

3. Skylt er það, bræður, að vèr ætíð þökkum Guði fyrir yður, eins og maklegt er; því trú yðar vex óðum, og kærleiki yðar innbyrðis eflist, sèrhvers og allra saman,

4. Svo að vèr sjálfir stærum oss af yður í öðrum söfnuðum Guðs, fyrir yðar stöðuglyndi og trú í öllum þeim ofsóknum og þrautum, er þèr þolið.

5. Og er þetta vottur um rèttdæmi Guðs, svo að þèr álítizt maklegir Guðs ríkis, fyrir hvers sakir þèr nú ilt líðið;

6. Með því Guð álítur það rèttvíst, að endurgjalda þeim þjáníngu, sem yður þjá,

7. En yður, sem þjáist, hvíld með oss, þegar Drottinn Jesús opinberast af himni með einglum veldis síns, í loganda eldi,

8. Og lætur hegníngu gánga yfir þá, sem ekki þekkjast Guð og ekki hlýða náðarlærdómi Drottins vors Jesú Krists;

9. Og munu þvílíkir sæta hegníngu, eilífri glötun, útskúfaðir frá augliti Drottins og frá dýrð veldis hans,

10. Þá hann kemur til að vegsamast meðal sinna heilögu, og til að sýna sig dásamlegan á öllum trúuðum á þeim degi; með því vitnisburði vorum hjá yður hefur verið trúað.

11. Þess vegna biðjum vèr og alla tíma fyrir yður, að Guð vor gjöri yður maklega köllunarinnar, og fullkomni kröptuglega allan honum velþóknanlegan góðleik og verk trúarinnar,

12. Svo að nafn Drottins vors Jesú Krists vegsamist á yður, og þèr af honum, eptir náð Guðs vors og Drottins Jesú Krists.

## 2. KAPÍTULI.

*Páll hrindir þeirri ímyndun, að Krists koma verði svo bráðum. Lofar Guð fyrir útvalníngu Tessaloníkumanna, áminnir þá og biður fyrir þeim.*

EN það, er snertir tilkomu Drottins vors Jesú Krists og samsöfnun vora til hans, þá biðjum vèr yður, bræður,
2. Að þèr ekki sèuð fljótir á, að láta yður hræða og trufla, hvorki af nokkrum anda, nè við kenníngu eður brèf, eins og það væri frá oss, eins og (tilkomu-)dagur Drottins væri þegar fyrir höndum.
3. Látið eingan villa yður á nokkurn hátt; því ekki (kemur hann), nema fráhvarfið fari á undan, og maður syndarinnar birtist, sá sonur glötunarinnar,
4. Er setur sig á móti og rís gegn öllu því, sem Guð eður heilagt kallast; svo að hann sezt í Guðs musteri, og lætur eins og hann væri Guð.
5. Minnizt þèr ekki þess, að eg sagði yður þetta, meðan eg enn þá var hjá yður?
6. Og þèr vitið, hvað það er, sem nú aptrar honum, til þess hann opinberist á sínum íma;
7. Því leyndardómur guðleysisins er þegar farinn að brydda á sèr, einúngis (stendur á því), að sá verði burt numinn, er nú aptrar því;
8. Því þá mun hinn guðlausi koma í ljós, og honum mun Drottinn Jesús tortýna með anda síns munns, og að eingu gjöra, þá hann birtist dýrðlega í tilkomu sinni.
9. En tilkoma hins guðlausa birtist á hinum glötuðu, fyrir framkvæmd Satans, í als konar krapti, táknum og undrum lyginnar og í als kyns vèlum ránglætisins,
10. Af því þeir veittu ekki sannleiks-elskunni viðtöku, svo þeir yrðu hólpnir.
11. Þess vegna mun Guð senda þeim megna villu, svo að þeir trúi lyginni,
12. Svo að allir sakfellist, sem ekki trúa sannleikanum, en hafa velþóknun á ránglætinu.
13. En skylt er, að vèr ávalt þökkum Guði fyrir yður, bræður, elskaðir af Drottni, að Guð hefir frá upphafi útvalið yður til sáluhjálpar í helgun Andans og sannleiks trú.
14. Til þess kallaði hann yður fyrir náðarlærdóms kenníngu vora, að þèr skylduð öðlast dýrð Drottins vors Jesú Krists.
15. Bræður, standið því stöðugir og haldið fast við þá lærdóma, er þèr hafið numið,

annaðhvort af kenníngu eður
brèfi voru.
16. En sjálfur Drottinn vor
Jesús Kristur og Guð og Faðir
vor, sem elskaði oss og gaf
oss af náð eilífa huggun og
góða von,
17. Huggi hjörtu yðar og
styrki í sèrhverju góðu orði
og verki.

## 3. KAPÍTULI.

*Páll biður Tessaloníkumenn að biðja fyrir sèr, huggar þá og biður fyrir þeim; varar við umgeingni við óráðvanda; hvetur að draga dæmi af sèr til iðjusemi og góðra verka; gefur reglur um, hvernig menn eigi að haga sèr við óhlýðuga. Kveðja.*

AÐ öðru leyti, bræður, biðjið
fyrir oss, að orð Drottins
megi óðum útbreiðast og veg-
samast, eins og hjá yður,
2. Og að vèr mættum frelsast
frá óráðvöndum og vondum
mönnum; því ekki er trúin
allra,
3. En Drottinn er trúr, og
hann mun styrkja yður og
vernda fyrir hinu vonda.
4. En eg hefi það traust til
Drottins um yður, að þèr hlýð-
ið og munuð hlýða því, sem eg
hefi boðið yður;
5. En Drottinn leiði hjörtu
yðar til Guðs kærleika og þol-
inmæði Krists.
6. En vèr áminnum yður,
bræður, í nafni Drottins vors
Jesú Krists, að þèr haldið yð-
ur frá hverjum þeim bróður,
er hegðar sèr óráðvandlega,
og ósamkvæmt þeim lærdómi,
sem þeir hafa af oss numið.
7. Því sjálfir vitið þèr, hvern-
ig á að breyta eptir oss;
8. Því ekki lifðum vèr ósið-
lega hjá yður, nè þáðum brauð
vort af nokkrum gefins, heldur
unnum vèr með elju og striti
nótt og dag, svo vèr værum
eingum yðar til þýngsla;
9. Ekki þess vegna, að oss
brysti heimild til þess, heldur
til þess, að vèr gætum verið
yður fyrirmynd, til að breyta
eptir.
10. Því þegar vèr vorum hjá
yður, buðum vèr yður, að ef
einhver vildi ekki vinna, ætti
hann ekki heldur mat að fá.
11. En vèr heyrum, að nokkr-
ir meðal yðar lifi óreglulega,
sem ekkert vinna, heldur eru
iðjulausir.
12. Í Drottins vors Jesú Krists
umboði bjóðum vèr slíkum
mönnum og áminnum þá, að
þeir vinni með spekt og hafi
sjálfir ofanaf fyrir sèr.
13. En þreytizt ekki, bræður,
gott að gjöra.
14. Ef sá er nokkur, sem ekki
hlýðir áminníngu minni í þessu
brèfi, þá merkið yður hann, og
hafið eingin afskipti af honum,
svo hann blygðist;

15. En álítið hann samt ekki sem óvin, heldur áminnið hann sem bróður.
16. En sjálfur Drottinn friðarins veiti yður frið ætíð og í öllu. Drottinn sè með yður öllum.
17. Kveðjan er skrifuð með minni, Páls, eigin hendi. Það er merki sèrhvers brèfs frá mèr. Svona skrifa eg.
18. Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yður öllum, amen.

---

# SÁNKTI PÁLS FYRRI PISTILL
TIL
# TÍMÓTEUS.

## 1. KAPÍTULI.

*Góðar óskir. Páll áminnir Tímóteus um að hindra afbakaðan skilníng Mósis laga, og vegsamar jafnframt Krists lærdóms krapt til að lagfæra menn og farsæla.*

PÁLL postuli Jesú Krists, að boði Guðs frelsara vors og Jesú Krists, vonar vorrar,
2. Óskar Tímóteusi, sönnum syni sínum í trúnni, náðar, miskunar og friðar af Guði vorum föður og Drottni vorum Jesú Kristi.
3. Þegar eg fór til Masedóníu, beidda eg þig að vera kyrran í Efesus og bjóða vissum mönnum, að fara ekki með annarlegar kenníngar,
4. Nè gefa sig við æfintýrum og endalausum ættartölum, er framar valda þrætum, heldur en efla þá ráðstöfun Guðs, sem trúnni viðvíkur.
5. Því augnamið kenníngarinnar er kærleikurinn af hreinu hjarta, góðri samvizku og hræsnislausri trú;
6. En frá þessu eru sumir viknir og hafa snúið sèr til þvættíngs;
7. Þeir látast vera löglærðir, þótt þeir hvorki skilji sjálfir, hvað þeir segja, nè það, sem þeir telja öðrum trú um.
8. En vèr vitum, að lögmálið er gott fyrir hvern þann, sem hagnýtir sèr það rèttilega,
9. Og eg veit, að lögmálið er ekki ætlað rèttlátum, heldur hinum ránglátu og þverbrotnu, óguðlegum og stórsyndurum, andvaralausum og vanheilögum, föðurbönum og móðurbönum, manndrápurum,
10. Frillulífismönnum, þeim sem skömm drýgja með karlmönnum, manseljendum, lygurum, meinsærismönnum, og gegn sèrhverju öðru, sem

gagnstætt er hinni heilsusam-
legu kenníngu,
11. Samkvæmt náðarboðskap
dýrðar hins sæla Guðs, sem
mèr er trúað fyrir.
12. Og eg þakka Drottni vor-
um Jesú Kristi, er mig hefir
styrkvan gjört, fyrir það að
hann áleit mig trúan og setti
mig til sinnar þjónustu,
13. Mig, sem forðum var lastari,
ofsóknari og smánari; en mèr
var miskunað, sökum þess eg
gjörði það óvitandi í vantrú.
14. En ríkuglega hefir náð
Drottins vors sýnt sig í að
efla trú mína á Jesú Kristi og
elskuna til hans.
15. Það er sannur lærdómur
og í alla staði viðtöku makleg-
ur: að Jesús Kristur er kom-
inn í heiminn til að frelsa
synduga menn og er eg hinn
helzti þeirra.
16. En til þess var mèr misk-
unað, að Kristur sýndi á mèr
stórsyndugum sitt mikla láng-
lundargeð, þeim til fyrirmynd-
ar, sem síðar trúa á hann, sèr
til eilífs lífs.
17. En aldanna konúngi, ei-
lífum, ósýnilegum, einum Guði,
sè vegsemd og dýrð um aldir
alda, amen.
18. En þetta er sú áminníng,
er eg legg fyrir þig, son minn,
Tímóteus, að þú, eptir því
sem áður er um þig spáð,
berjist góðri baráttu,
19. Sèrt fastheldinn við trúna
og góða samvizku, sem nokkr-
ir hafa frá sèr varpað og liðið
skipbrot á trú sinni.
20. Í tölu þessara eru þeir
Hýmeneus og Alexander, sem
eg hefi gefið í Satans vald, svo
að þeir af refsíngunni læri að
guðlasta ekki.

## 2. KAPÍTULI.

*Páll skipar að biðja fyrir öllum. Reglur um það, hvernig karlmenn og kvennmenn eigi að hegða sèr í þeirra guðræknis-samkomum.*

FYRST og fremst áminni eg
því um, að gjörðar sèu
bænir, óskir, fyrirbænir og
þakkargjörð fyrir öllum mönn-
um;
2. Fyrir konúngum og öllum
valdsmönnum, svo vèr með
spekt og rósemi lifum í allri
guðrækni og siðprýði.
3. Þetta er gott og þóknan-
legt fyrir Guði frelsara vorum,
4. Sem vill, að allir verði
hólpnir og komist til þekkíng-
ar á sannleikanum;
5. Því einn er Guð, og einn
er meðalgángarinn milli Guðs
og manna, maðurinn Jesús
Kristur,
6. Sem gaf sig sjálfan til
lausnargjalds fyrir alla, til
vitnisburðar á tilsettum tíma;
7. Til að boða hann er eg

settur prèdikari og postuli (eg segi satt og lýg ekki), kennari heiðinna þjóða í trúnni og sannleikanum;

8. Því vil eg, að karlmenn, biðjist hvervetna fyrir, upplyptandi heilögum höndum án reiði og þrætu.

9. Sömuleiðis vil eg, að konurnar skrýði sig sómasamlegum búníngi, með blygð og hóflæti, ekki með hárflèttum, nè gulli, nè perlum eða dýrindis skarti,

10. Heldur (eins og þeim konum sómir, er sýna vilja guðrækni) með góðum verkum.

11. Konan á að læra (taka á móti kenníngunni) hljóðlega, með allri undirgefni,

12. En ekki leyfi eg nokkurri konu að kenna eða taka sèr vald yfir manninum, heldur á hún að vera kyrlát;

13. Því fyrst var Adam myndaður, Eva þar á eptir;

14. Og Adam tældist ekki, heldur var konan tæld og gjörðist brotleg.

15. En hún verður hólpin vegna barnburðarins, ef þær standa stöðugar í trú, kærleika og heilagleika samfara hóflæti.

## 3. KAPÍTULI.

*Reglur, hvílíkum þeim byrji að vera, sem teknir eru til forstöðu-og þjónustumanna safnaðanna; minnir Tímóteus á grundvöll kristilegrar trúar.*

ÞAÐ er áreiðanlegt orð, að ef einhver girnist biskupsembætti, þá girnist hann ágætt verk.

2. Þess vegna á biskup að vera ólastanlegur, einnar konu eiginmaður, árvakur, hófsamur, siðprúður, gestrisinn, vel fallin til að kenna;

3. En hvorki drykkjumaður, nè ofstopasamur, heldur gæfur, frásneiddur deilum og fègirnd;

4. Veiti heimili sínu góða forstöðu og haldi börnum sínum í hlýðni með mestu virtum.

5. Því hver sem ekki hefir vit á að veita heimili sínu forstöðu, hvernig má hann umsjón veita söfnuði Guðs?

6. Ekki nýkristnaður, svo að hann ekki upphrokist og verði fyrir dómi djöfulsins.

7. Honum ber einnig að hafa góðan orðstír hjá þeim, sem fyrir utan (söfnuðinn) eru, að hann falli ekki í fyrirlitníngu og tálsnöru djöfulsins.

8. Sömuleiðis eiga djáknarnir að vera heiðvirðir, ekki tvímælismenn, ekki sólgnir í vín, eða ljótan gróða;

9. Heldur varðveiti leyndardóm trúarinnar í hreinni samvizku.

10. Þessa skal fyrst reyna og síðan taka þá til embættisins, ef þeir eru óaðfinnanlegir.

11. Sömuleiðis eiga konur
þeirra að vera heiðvirðar, ekki
bakmálugar, heldur árvakrar,
trúar í öllu.
12. Djáknarnir sèu einnar konu
eiginmenn, veiti börnum sínum
og heimilum góða forstöðu;
13. Því þeir, sem þjóna vel,
ávinna sèr góða stöðu og mikla
djörfúng í trúnni á Jesú Kristi.
14. Þetta skrifa eg þèr, þó eg
voni að koma bráðum til þín,
15. Svo að þú vitir, ef mèr
seinkar, hvernig á að haga sèr
í Guðs húsi, sem er söfnuður
lifanda Guðs, stólpi og grund-
völlur sannleikans.
16. Og vafalaust er þessi
leyndardómur guðrækninnar
mikilvægur: Guð birtist í hold-
inu, er rèttlættur af Andan-
um, sèn af einglunum, boðaður
meðal heiðinna þjóða, meðtek-
inn í trúnni í heiminum, upp-
numinn í dýrð.

## 4. KAPÍTULI.

*Postulinn áminnir enn Tímóteus að koma í veg fyrir ránga lærdóma og að forðast þá sjálfur. Hann gefi af sèr gott eptirdæmi og sè trúr í sínu embætti.*

EN Andinn segir fortaks-
laust, að á síðustu tímum
muni sumir gánga af trúnni,
festa trú til villuanda og djöfla-
lærdóma,
2. Sem af fláræði kenna lygar,
og eru brennimerktir á sam-
vizkum sínum,
3. Banna að giptast og neyta
fæðu, er Guð hefir þó skapað,
til þess hennar sè neytt með
þakkagjörð af trúuðum, er
komnir eru til þekkíngar á
sannleikanum;
4. Því að öll skepna Guðs er
góð, og eingin burtkastanleg,
sè hún þegin með þakkargjörð,
5. Því hún helgast af Guðs
orði og bæninni.
6. Þegar þú brýnir þetta fyrir
bræðrunum, þá muntu reynast
góður þjón Jesú Krists, vel
mentaður í lærdómum trúar-
innar og þeirri ágætu kenn-
íngu, sem þú hefir hlýðnazt.
7. En forðast þú vanheilög
æfintýri og kerlínga-hègiljur,
en æf sjálfan þig til guðrækni.
8. Líkamleg æfíng er til lítils
nýt, en guðrækni er til allra
hluta nytsamleg, og hefir fyrir-
heit bæði fyrir þetta líf og hið
tilkomanda.
9. Þetta eru sannmæli, allrar
samsinníngar makleg.
10. Því til þess leggjum vèr á
oss erviði og þolum fyrirlitn-
íngu, því vèr höfum sett vora
von til lifanda Guðs, sem er
frelsari allra manna, einkum
trúaðra.
11. Kunngjör þú þetta og
kenn.
12. Einginn fyrirlíti þig vegna
æsku þinnar, en vertu trúaðra

fyrirmynd í lærdómi, hegðun, elsku, trú, skírlífi.
13. Ver kappsamur í lestri, áminníngum, kenníngu, þángað til eg kem.
14. Vanræktu ekki náðargjöfina í þèr, sem þèr er veitt fyrir forspár með handa uppáleggíngu öldúnganna.
15. Gættu að þessu, vertu allur í því, svo að þín framför sè auðsèn í öllu.
16. Haf gát á sjálfum þèr og lærdóminum; vertu stöðugur við þetta; því ef þú gjörir það, munt þú gjöra sjálfan þig hólpinn og áheyrendur þína.

## 5. KAPÍTULI.

*Hvernig Tímóteus eigi að haga áminníngum sínum við eldri menn og ýngri. Ekkjur eiga sèr í lagi að njóta ölmusu safnaðarins, og kennendur; hverjar ekkjur eigi að fá hlutdeild í henni. Aminníng um varúð í að ávíta öldúnga, og um gætni í að velja til þess embættis.*

ÁVÍTA ekki gamlan mann harðlega, heldur áminn hann sem föður; hina ýngri, sem bræður;
2. Aldraðar konur, sem mæður; úngar, sem systur, með allri siðsemi.
3. Heiðra ekkjur, sem eru sannar ekkjur;
4. En ef einhver ekkja á börn eða afkomendur, þá læri þeir fyrst og fremst að auðsýna rækt ættmönnum sínum og endurgjalda foreldrum, því það er þóknanlegt fyrir augliti Guðs.
5. Sannarleg ekkja, sem er munaðarlaus, hefir sett von sína til Guðs, og er stöðug í bæn og ákalli til hans nótt og dag.
6. En hin býlífa er lifandi dauð.
7. Kunngjör þú þetta, svo þær sèu óaðfinnanlegar.
8. En ef sá er nokkur, sem ekki vill annast náúnga, helzt ef þeir eru heimilismenn hans, hann hefir afneitað trúnni og er verri en heiðíngi.
9. Ekkja veljist ekki ýngri en sextug, sú er verið hefir eins manns kona og kunn er að góðverkum,
10. Að hún hafi uppalið börn, verið gestrisin, hafi þvegið fætur trúaðra, hjálpað nauðstöddum, lagt stund á alt gott.
11. En sneyddu hjá úngum ekkjum, því þegar þær af gjálífi hætta að hirða um Krist, vilja þær giptast;
12. Og gjörast sekar, þar eð þær brjóta sitt fyrra heit og jafnframt iðjulausar venjast þær á að rápa hús úr húsi;
13. Ekki einúngis iðjulausar, heldur og málugar, hlutsamar, og tíðka ósæmilegt tal.
14. Eg vil því að enar úngu

ekkjur giptist, ali börn, stjórni
húsi, og gefi mótstöðumannin-
um ekkert tilefni til ils umtals;
15. Því nokkrar eru þegar
fallnar frá, og hafa snúið sèr
til Satans.
16. Ef nokkur trúaður eða
trúuð á ekkjur sèr skyldar,
hjálpi þau þeim, svo að þær sèu
ekki söfnuðinum til byrði, og
að hann geti hjálpað sannar-
legum ekkjum.
17. Þeir öldúngar, sem veita
góða forstöðu, sèu í tvöföldum
metum, allra helzt þeir, sem
sveitast við að kenna og fræða;
18. Því ritníngin segir: þú
skalt ekki múlbinda nautið,
sem erjar. Sömuleiðis: verður
er verkamaðurinn launanna.
19. Taktu ekki við ákæru
gegn öldúngi, nema tvö eða
þrjú vitni beri;
20. En þá, sem brjóta, skaltu
ávíta í allra viðurvist, svo að
hinir hafi og ótta af því.
21. Eg áminni þig fyrir augliti
Guðs, Drottins Jesú Krists og
útvaldra eingla, að þú gætir
þessa án hleypidóms og gjörir
ekkert af fylgi.
22. Vertu ekki fljótur til að
leggja hendur yfir nokkurn;
taktu ekki heldur þátt í ann-
ara syndum; geym þig sjálfan
óflekkaðan.
23. Drekk ekki framar vatn,
heldur neyt lítils víns vegna
maga þíns og þíns jafnaðarlega
heilsubrests.
24. Sumra manna syndir eru
svo berar, að þær leiða til
dóms, aðrar koma seinna í
ljós;
25. Sömuleiðis lýsa sum góð-
verk sèr þegar, og þau, sem
eru öðruvísi, geta ekki heldur
dulizt.

## 6. KAPÍTULI.

*Þræla skyldur. Falskennenda lærdómur leiðir til þrætu og ágirndar; Tímóteus er áminntur til guðhræðslu; hvað hann eigi að kenna hinum ríku; hann gæti trúlega síns embættis, en forðist þvætting.*

ÞEIR, sem eru ánauðugir
þrælar haldi drottna sína
als heiðurs maklega, svo nafn
Guðs og lærdómurinn verði
ekki fyrir lasti.
2. Þeir, sem trúaða hússbænd-
ur eiga, fyrirlíti þá ekki, vegna
þess þeir eru bræður, heldur
þjóni því fremur, sem þeir eru
trúaðir og elskanlegir, sem
þiggja hina trúu þjónustu.
Kenn þú þetta og áminn um
það.
3. Ef einhver kennir öðruvísi,
og fylgir ekki heilsusamlegum
lærdómi Drottins vors Jesú
Krists og hinni guðrækni sam-
kvæmu kenníngu, þá hrokast
hann upp og er fávís;
4. En er sólginn í vafaspurn-
íngar og orðadeilur, sem leiða

af sèr öfund, þrætur, lastmæli, vondar hugsanir,
5. Ill áform hugspiltra manna, sem sannleikurinn er horfinn, og sem hafa guðræknina sèr til fjárplógs. Hjá þess háttar mönnum skaltu sneyða.
6. En mikill ávinníngur er guðhræðslan samfara nægjusemi.
7. Fyrst vèr höfum ekkert flutt inn í heiminn, þá er það bert, að vèr ekkert munum þaðan geta burtu flutt.
8. En ef vèr höfum fæðu og skýli, þá látum oss nægja.
9. En þeir, sem ríkir vilja verða, falla í freistni og snöru og margar hègómlegar og skaðlegar girndir, er sökkva mönnum niður í tjón og glötun;
10. Því að ágirndin er rót als ils, í hverja nokkrir hafa svo fíkzt, að þeir hafa vilzt frá trúnni og sært sig mörgum harmkvælum.
11. En þú Guðs maður, umflý þvílíkt, en ástunda rèttvísi, guðhræðslu, trú, kærleika, þolinmæði, ljúflyndi.
12. Berstu trúarinnar góðu baráttu, höndlaðu eilíft líf, sem þú ert kallaður til, og játtir góðri játníngu í margra votta viðurvist.
13. Eg áminui þig fyrir augliti Guðs, sem alt lífgar, og Jesú Krists, er gjörði þá góðu játníngu frammi fyrir Pontsíus Pílatus,
14. Að þú gætir skyldu þinnar lýtalaust og óaðfinnanlega alt til opinberunar Drottins vors Jesú Krists,
15. Sem á sínum tíma mun birtast láta hinn sæli og alvaldi konúngur konúnganna og Drottinn drottnanna;
16. Sem einn saman hefur ódauðleikann, sem býr í því ljósi, er einginn fær til komizt, sem einginn maður hefir sèð; honum sè heiður og eilíft veldi, amen.
17. Bjóð ríkismönnum þessarar aldar, að þeir sèu ekki mikillátir, nè treysti fallvöltum auði, heldur lífanda Guði, sem veitir oss ríkuglega alt gott til nauðþurftar;
18. Að þeir gjöri gott, sèu ríkir af góðverkum, örlátir, fúsir að miðla öðrum,
19. Safni sèr í fjársjóðu góðri undirstöðu til hins ókomna, svo þeir höndli hið sanna líf.
20. Kæri Tímóteus, gæt þess, sem þèr er trúað fyrir, en forðast vanheilagar hègómaræður og þrætumál rángnefndrar speki;
21. Sem nokkrir hafa gefið sig við, og vilzt frá trúnni.
22. Náð sè með þèr, amen.

# SÁNKTI PÁLS SÍÐARI PISTILL

TIL

# TÍMÓTEUS.

## 1. KAPÍTULI.

*Góðar óskir. Postulinn hrósar trú Tímoteusar, hvetur til atorku, þolinmæði í þjáníngum og fastheldni við hreinan lærdóm. Kvartar yfir nokkrum, hrósar öðrum.*

PÁLL, postuli Jesú Krists,
settur að Guðs vilja til að
boða lífið fyrir Jesúm Krist,
2. Óskar elskulegum syni sín-
um Tímóteus náðar, miskunar
og friðar af Guði Föður og
Drottni vorum Jesú Kristi.
3. Eg þakka Guði, sem eg
þjóna með hreinni samvizku,
að sið forfeðra minna, með því
eg án afláts minnist þín í bæn-
um mínum,
4. Og mèr renna í hug tár
þín, mig langar nótt og dag til
að sjá þig, svo að gleði mín
verði fullkomin.
5. Eg man til þinnar falslausu
trúar, er fyrst bjó í ömmu
þinni Lóis os móður þinni
Evniku, og sem eg er sann-
færður um, að líka býr í þèr.
6. Þess vegna minni eg þig á
að glæða hjá þèr þá náðargjöf
Guðs, sem þèr er veitt með
minni handa uppáleggíngu;
7. Því Guð hefir ekki gefið
oss hugleysis anda, heldur
máttar, kærleiks og stillíng-
ar.
8. Fyrirverð þig því ekki fyrir
vitnisburð Drottins vors, nè
fyrir mig, hans bandíngja,
heldur sampínstu vegna náð-
ar lærdómsins, styrktur krapti
Guðs,
9. Sem oss hefir frelsað og
kallað með heilagri köllun,
ekki fyrir vorra verka sakir,
heldur eptir ráðsályktun þeirri
og náð, sem oss er veitt í Jesú
Kristi frá eilífð,
10. En sem nú er augljós
orðin við komu frelsara vors
Jesú Krists, sem hefir afmáð
dauðann, en leitt í ljós lífið
og ódauðleikann með sínum
náðarlærdómi,
11. Hvers prèdikari, postuli
og kennari eg er meðal heið-
inna þjóða.
12. Fyrir þá skuld líð eg þetta,
en mèr þykir það eingi van-
virða, því eg veit, hver það er,
sem eg hefi sett traust mitt
til, og er þess fullviss, að hann

megnar að gæta míns geymslu-
fjár til ens ákveðna dags.
13. Hafðu stöðuglega þèr fyrir
augum fyrirmynd hinna heilsu-
samlegu lærdóma, sem þú
af mèr hefir numið, í trú og
elsku, sem er í Jesú Kristi.
14. Gættu hins góða geymslu-
fjár fyrir Heilagan Anda, sem
í oss býr.
15. Þú veizt, að allir úr Asíu
hafa yfirgefið mig, og meðal
þeirra þeir Fýgelus og Her-
mogenes.
16. Drottinn veiti miskun
heimili Onesífórí, því opt hefir
hann endurnært mig, og ekki
skammazt sín fyrir fjötur mín;
17. Þvert á móti leitaði hann
kostgæfilega að mèr, þegar
hann kom til Róms, þángað til
hann fann mig.
18. Drottinn láti hann á efsta
degi finna miskun hjá Drottni!
Þú þekkir manna bezt, hversu
hann stundaði mig í Efesus.

## 2. KAPÍTULI.

*Páll áminnir Tímóteus til atorku og þolgæðis í hans embætti, því mikil laun sèu í vændum; til að setja sig á móti þeim, sem leiða aðra afvega. En þó menn sèu í Guðs söfnuði misjafnir, standi Guðs bygging samt stöðug. Varar við æskubrestum, og ónýtum spurníngum; hvetur til hógværðar.*

STYRKSTU því, son minn,
í náð Jesú Krists;
2. Og það, sem þú heyrðir til
mín í margra vitna viðurvist,
fá þú það í hendur trúum
mönnum, sem líka eru hæfir
að kenna öðrum;
3. En þoldu ilt, eins og góður
stríðsmaður Jesú Krists.
4. Einginn hermaður bendlar
sig við aðrar sýslanir, til að
þóknast þeim, sem tók hann á
mála.
5. Ekki heldur fær sá kórón-
una, sem geingur í kappleik,
nema hann berjist löglega.
6. Garðyrkjumaðurinn, sem
vinnur, á fyrst að taka þátt í
ávöxtunum.
7. Tak eptir því, sem eg segi;
því Drottinn gefi þèr skilníng
í öllu.
8. Minnstu Jesú Krists, af
Davíðs ætt, sem frá dauðum
er upp risinn eptir mínum
náðarboðskap;
9. Vegna hvers eg líð ilt, jafn-
vel fjötur, eins og illvirki; en
Guðs orð verður ekki fjötrað.
10. Þess vegna umber eg alt
sakir enna útvöldu, svo að þeir
hljóti hjálpræði Jesú Krists
með eilífri dýrð.
11. Það er sannur lærdómur,
að ef vèr með honum deyum,
þá munum vèr og með honum
lifa;
12. Ef vèr þolum stöðuglega,
þá munum vèr og með honum
ríkja; ef vèr afneitum honum,
mun hann og afneita oss;

13. Þó vèr reynumst ótrúir, þá verður hann samt trúr; sjálfum sèr getur hann ekki afneitað.

14. Áminn þú um þetta, og vitna fyrir augliti Drottins, að þeir ekki gefi sig í orðaþrætur, sem til einskis gagna, en eru til afvegaleiðslu þeim, sem heyra.

15. Legg kapp á að auðsýna þig vandaðan verkamann fyrir Guði, er ekki þarf að skammast sín, og fer rètt með sannleikans lærdóm.

16. En forðast vanheilagt hègómatal; því slíkir ana leingra og leingra fram í guðleysi,

17. Og lærdómur þeirra etur um sig, eins og helbruni. Í tölu þeirra eru þeir Hymeneus og Fíletus,

18. Sem eru viknir frá sannleikanum, segja upprisuna þegar um garð gengna og kollvarpa trú sumra.

19. En Guðs byggíng stendur stöðug, og hefir þessa yfirskript: "Drottinn þekkir sína" og "hver, sem nefnir Drottins nafn, haldi sèr frá ránglæti."

20. En á stóru heimili eru ekki einúngis ker úr gulli og silfri, heldur og úr trè og leir, sum vegleg, sum óvirðugleg.

21. Þess vegna mun hver, sem heldur sèr hreinum frá þessum, verða veglegt ker, helgað og hagfelt hússbóndanum, hæfilegt til sèrhvers góðs verks.

22. Forðast þú æskunnar girndir; en stunda þú rèttvísi, trú, kærleika, frið við alla þá, sem ákalla Drottinn af hreinu hjarta.

23. Forðastu heimskulegar og óskynsamlegar spurníngar, vitandi, að þær leiða af sèr þráttanir;

24. En Drottins þjóni hæfir ekki að deila, heldur vera ljúfur við alla, laginn á að kenna, umburðarsamur,

25. Leiðrèttandi mótstöðumenn með hógværð, ef Guð kynni að gefa þeim sinnaskipti, svo þeir komist til þekkíngar á sannleikanum,

26. Og endurvitkist úr djöfulsins snöru, þar sem þeir eru flæktir af honum til að gjöra hans vilja.

## 3. KAPÍTULI.

*Postulinn segir fyrir hættulegar tíðir. Hrósar Tímóteusi. Áminnir um að taka sèr vara fyrir svikurum, en halda sèr stöðuglega við Guðs orð.*

ÞVÍ það skaltu vita, að á síðustu dögum munu verða hættulegar tíðir;

2. Því þá munu menn verða sèrgóðir, fègjarnir, raupsamir, þóttafullir, guðlastarar, foreldrum óhlýðnir, vanþakklátir, vanhelgir,

3. Kærleikslausir, óhaldinorð-

ir, bakmálugir, bindindislausir, grimmir, hatandi dygðir,
4. Svikarar, framhleypnir, hrokafullir, elskandi meira munaðarlífið en Guð,
5. Hafandi á sèr yfirskin guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti. Forðastu þvílíka.
6. Á meðal þessara eru þeir, sem smeygja sèr inn í hús, og vèla kvennsniptir, sem eru syndum hlaðnar og leiðast af margvíslegum girndum,
7. Sem eru alt af að læra, en komast aldrei til þekkíngar á sannleikanum.
8. Eins og þeir Jannes og Jambres stóðu á móti Mósi, þannig standa þessir á móti sannleikanum; eru menn hugspiltir og illa trúaðir.
9. En þeim mun ekki mikið verða ágeingt, því fíflska þeirra mun verða hverjum manni augljós, eins og hinna varð.
10. En þú hefir breytt eptir mèr í kenníngu, hegðun, ásetníngi, trú, lánglundargeði, kærleika, þolgæði,
11. Í ofsóknum og þjáníngum, slíkum sem eg varð að sæta í Antíokkíu, Íkoníu, Lystra, hverjar ofsóknir eg stóðst, og Drottinn frelsaði mig úr þeim öllum.
12. Enda munu allir verða ofsóktir, sem vilja lifa guðrækilega í Jesú Kristi.
13. En vondir menn og svikarar munu magnast í vonzkunni, villa aðra og villast sjálfir.
14. En halt þú stöðuglega við það, sem þú hefir numið og ert sannfærður um, þar eð þú veizt, af hverjum þú hefir numið það,
15. Og þar eð þèr er frá barnæsku kunnug heilög ritníng, sem getur uppfrætt þig til sáluhjálpar, (sem fæst) með trúnni á Jesú Kristi.
16. Öll ritníng er innblásin af Guði, og nytsöm til lærdóms, til sannfæríngar gegn mótmælum, til leiðrèttíngar, til mentunar í rèttlæti,
17. Svo Guðs maður sè algjör og til als góðs verks hæfilegur.

## 4. KAPÍTULI.

*Postulinn áminnir Tímóteus til trúmensku í hans embætti. Fyrirsegir dauða sinn. Biður Tímóteus að koma til sín, kvartar yfir nokkrum, en huggar sig við Guðs aðstoð. Heilsanir.*

EG grátbæni þig í augsýn Guðs og Jesú Krists, sem dæma mun lifendur og dauða, þá hann opinberast í ríki sínu,
2. Að þú prèdikir lærdóminn, og haldir áfram með það í tíma og ótíma; sannfær, ávíta, áminn meg ýtrasta þolgæði og uppfræðíngu.
3. Því þann tíma mun að bera, að menn ekki þola hina heilsusamlegu kenníngu, heldur safna sèr kennendum eptir

girndum sínum, eptir því, sem
eyrun klæa;
4. Og snúa eyrum sínum burt
frá sannleikanum, og snúa sèr
að hègiljum.
5. En vert þú árvakur í öllu,
þol ilt, gæt prèdikara embætt-
isins, og veittu embættinu
fullnustu.
6. Nú þegar á eg að fórnfær-
ast, og minn lausnartími er
fyrir höndum.
7. Eg hefi barizt góðri bar-
áttu, fullkomnað hlaupið, hald-
ið trúnni.
8. Að öðru leyti er handa mèr
afsíðis lögð kóróna rèttlætisins,
sem Drottinn, sá hinn rèttláti
dómari, mun gefa mèr á þeim
(ákveðna) degi, en ekki einúng-
is mèr, heldur og öllum, sem
þráð hafa tilkomu hans.
9. Kappkosta að koma bráð-
um til mín;
10. Því Demas hefir yfirgefið
mig, af því hann elskaði þenna
heim, og er farinn til Tessalo-
níku; Kreskes er farinn til
Galatsíu og Títus til Dalmatsíu.
11. Lúkas er einn hjá mèr.
Taktu Markús og lát hann
fylgjast með þèr, því hann er
nytsamur mèr til þjónustu;
12. Tykíkus hefi eg sent til
Efesus.
13. Þegar þú kemur, þá færðu
mèr bókatöskuna, sem eg skildi
eptir í Tróas hjá Karpusi, og
bækurnar, einkanlega skinn-
bækurnar.
14. Alexander, járnsmiðurinn,
hefir gjört mèr margt ilt;
Drottinn gjaldi honum eptir
verkum hans.
15. Taktu þèr líka vara fyrir
honum, því að hann hefir stór-
um staðið í móti vorum orðum.
16. Í minni fyrstu málsvörn
stóð einginn með mèr, heldur
yfirgáfu mig allir; ó að þeim
verði það ekki tilreiknað.
17. En Drottinn stóð með mèr,
og veitti mèr krapt til að fram-
fylgja kenníngunni, svo allir
heiðíngjar skyldu hana heyra.
Og eg varð frelsaður úr gini
ljónsins,
18. Og Drottinn mun frelsa
mig frá öllu illu, og hjálpa
mèr til síns himneska ríkis.
Honum sè dýrð frá eilífð til
eilífðar, amen.
19. Heilsaðu Prisku og A-
kvílasi og heimili Onesífórí.
20. Erastus varð eptir í Kor-
intuborg, en Trófímus skildi
eg eptir sjúkan í Míletus.
21. Kappkosta að koma, áður
vetrar. Þèr heilsa Evbúlus og
Púdes, Línus, Kládía og allir
bræðurnir.
22. Drottinn Jesús Kristur sè
með þínum anda. Náð sè með
yður, amen.

# SÁNKTI PÁLS PISTILL
TIL
# TÍTUS.

## 1. KAPÍTULI.

*Kveðja. Hvílíkur sá eigi að vera, sem Títus setur til kennara á Krít; Páll lýsir Krítarmönnum, og skipar að ávíta þá.*

PÁLL, þjón Guðs, postuli Jesú Krists, settur vegna trúar Guðs útvaldra og sannleikans þekkíngar, guðrækni til eflíngar,

2. Og í von um eilíft líf, er hinn sannorði Guð hafði heitið frá eilífð,

3. En gjörði á sínum tíma þetta sitt heit kunnugt í þeirri prèdikun, sem mèr er á hendur falin eptir skipun Guðs vors frelsara,

4. Óskar Títusi, sönnum syni í sameiginlegri trú, náðar, miskunar og friðar af Guði Föður, og Drottni Jesú Kristi, vorum frelsara.

5. Þess vegna skildi eg þig eptir í Krít, til þess þú færðir í lag það, sem á brast, og settir öldúnga í sèrhverri borg, eins og eg skipaði þèr:

6. Þann er væri óaðfinnanlegur, einnar konu eiginmaður, sem ætti trúuð börn, er hvorki væru illa ræmd fyrir andvaraleysi, nè óhlýðin.

7. Því biskup á að vera ólastandi, eins og Guðs ráðsmaður, ekki sjálfbyrgíngur, ekki reiðigjarn, ekki drykkjumaður, eigi ofstopasamur, nè sólginn í svívirðilegan ávinníng;

8. Heldur gestrisinn, gott elskandi, ráðsvinnur, rèttvís, heilagur, bindindissamur,

9. Sem er fastheldinn við hinn áreiðanlega lærdóm, eins og hann hefir kendur verið, svo að hann bæði sè fær um að fræða í þeim heilsusamlega lærdómi, og að hrekja þá, sem móti mæla.

10. Því margir eru þverbrotnir, fara með þvættíng, og leiða aðra í villu, allra helzt hinir umskornu;

11. Þá ber honum að niðurþagga; því þeir umsnúa heilum heimilum, með því þeir kenna það, sem ósæmilegt er, fyrir svívirðilegs ávinníngs sakir.

12. Einhver landi þeirra, spámaður sjálfra þeirra segir um þá: Krítarmenn eru síljúgandi, óarga dýr og letimagar. Þessi vitnisburður er sannur.

13. Ávíta þú þá þess vegna

harðlega, svo þeir verði heilbrigðir í trúnni,
14. Og gefi ekki gaum að bábiljum Gyðínga og setníngum þeirra, sem fráhverfir eru sannleikanum.
15. Hreinum er að sönnu alt hreint; en þeim, sem saurgaðir eru og vantrúaðir, er ekkert hreint; heldur er hugarfar og samvizka þeirra saurguð.
16. Þeir þykjast þekkja Guð, en afneita honum með verkunum, þeir eru viðbjóðslegir, þverúðarfullir og til hvers góðs verks óhæfir.

## 2. KAPÍTULI.

*Postulinn ávísar Títusi, um hvað hann eigi að áminna hvern sèr í lagi; hvílíkur hann eigi að vera sjálfur; talar um tilgáng sendíngar Krists í heiminn.*

EN tala þú það, sem enum heilsusamlega lærdómi sæmir:
2. Að gamlir menn sèu árvakrir, heiðvirðir, ráðsettir, heilbrigðir í trúnni, kærleikanum og þolinmæðinni;
3. Sömuleiðis, að gamlar konur sèu í háttalagi sínu, eins og heilögum sómir, ekki bakmálugar, nè sólgnar í áfeinga drykki, heldur gott kennandi;
4. Svo þær laði enar ýngri til að elska menn sína og börn,
5. Að vera ráðsettar, skírlífar heimilisræknar, góðsamar, bændum sínum undirgefnar, svo Guðs orð verði ekki fyrir lasti.
6. Sömuleiðis áminn þú ena ýngri, að þeir sèu ráðsettir.
7. Sýn sjálfan þig hvervetna sem fyrirmynd góðra verka; í kenníngunni spillíngarleysi og röggsemd,
8. Heilsusamlega og ólastandi ræðu, svo að mótstöðumaðurinn fyrirverði sig þegar hann hefur ekkert ilt um oss að segja.
9. Áminn þrælana, að þeir sèu hússbændum sínum undirgefnir og í öllu geðþekkir, ekki svörulir,
10. Ekki sèrdrægir, heldur auðsýni alla góða trúmennsku, svo þeir prýði lærdóm Guðs, vors frelsara, í öllum greinum.
11. Því Guðs náð hefir birzt sáluhjálpleg öllum mönnum,
12. Er fræðir oss, að vèr skulum afneita óguðlegleika og veraldlegum girndum, en lifa siðsamlega, rèttvíslega og guðrækilega í þessum heimi,
13. Bíðandi þeirrar sælu, sem er í vændum, og dýrðlegrar opinberunar hins mikla Guðs og vors frelsara Jesú Krists,
14. Sem hefir útgefið sig fyrir oss, svo að hann endurleysti oss frá als konar ránglæti, og hreinsaði sèr sjálfum fólk til eignar, kostgæfið til góðra verka.

15. Kenn þú þetta, áminn og ávíta með allri alvörugefni; einginn fyrirlíti þig.

## 3. KAPÍTULI.

*Títus á að áminna um hlýðni við yfirvöld og til fleiri dygða. Að forðast fánýtar spurníngar og þráttanir. Niðurlag pistilsins.*

ÁMINN þá, að þeir sèu höfðíngjum og yfirvöldum undirgefnir, sýni þeim hlýðni, sèu reiðubúnir til sèrhvers góðs verks,

2. Illmæli eingum, sèu ekki deilugjarnir, sanngjarnir, sýni als konar hógværð við alla menn;

3. Því vèr vorum líka forðum óskynsamir, óhlýðnir, villuráfandi, þjónuðum girndum og margs konar munaðarlífi, lifðum í vonzku og öfund, vorum haturs verðir og hötuðum hver annan.

4. En þegar gæzka Guðs vors frelsara og elska hans til mannanna birtist,

5. Þá frelsaði hann oss, ekki vegna rèttlætandi verka, sem vèr hefðum unnið, heldur af náð sinni með endurfæðíngarlauginni og endurnýúngu Heilags Anda,

6. Sem hann ríkuglega úthelti yfir oss fyrir Jesúm Krist, vorn frelsara,

7. Svo að vèr, rèttlættir fyrir hans náð, yrðum erfíngjar eilífs lífs eptir voninni.

8. Þetta er áreiðanlegur lærdómur; og þetta vil eg að þú staðfestir, svo að þeir, sem trúa á Guð, láti sèr umhugað um að ástunda góðverk. Þetta er mönnum gott og nytsamlegt.

9. En heimskulegar spurníngar og ættartölur, deilur og þrætur út af lögmálinu skaltu forðast, því þær eru óþarfar og hègómlegar.

10. Flokkadráttasaman mann skaltu forðast, eptir að þú einu sinni eða tvisvar hefir ámint hann;

11. Með því þú veizt, að þvílíkur er frásnúinn, og syndgar og er sjálfdæmdur.

12. Þegar eg sendi Artemas eða Tykíkus til þín, þá kosta kapps um að koma til mín í Níkópólis, því þar hefi eg ásett mèr að hafa vetrarvist.

13. Lát þèr ant um að veita Senusi lögvitríngi og Appolló góðan fararbeina, svo að þá ekkert bresti.

14. Vorir eiga og að læra að auðsýna góðgjörðir til að bæta úr þörfum annara, svo að þeir sèu ekki ávaxtarlausir.

15. Allir, sem hjá mèr eru, heilsa þèr. Heilsa þú öllum, sem elska oss í trúnni. Náð sè með yður öllum.

# SÁNKTI PÁLS PISTILL
TIL
# FÍLEMONS.

## 1. KAPÍTULI.

*Páll óskar Fílemoni og fleirum góðs; hrósar Fílemoni; biður hann taka í sátt þræl hans, Onesímus, er frá honum hafði strokið, en Páll síðan kristnað. Niðurlag pistilsins.*

PÁLL, bandíngi Jesú Krists,
og Tímóteus bróðir, kveðj-
um Fílemon, vorn ástfólgna og
samþjón,
2. Vora kæru Appíu og Ark-
ippus, stríðsfèlaga vorn, og
allan söfnuðinn í þínu húsi:
3. Náð og friður sè með yð-
ur af Guði vorum Föður og
Drottni Jesú Kristi.
4. Guði mínum gjöri eg þakk-
ir, í hvert sinn sem eg minnist
þín í mínum bænum,
5. Þar eð eg heyri getið um
þá elsku og trú, sem þú hefir
til Drottins Jesú og til allra
heilagra;
6. (Og óska eg), að hlutttekn-
íng í trú þinni, ásamt viður-
kenníngu als hins góða, sem
oss hefir hlotnazt, auðsýni sig
kröptuga fyrir Jesúm Krist.
7. Því vèr höfum mikla gleði
og huggun af kærleika þínum,
þar eð þú, bróðir, hefir endur-
nært hjörtu hinna heilögu.
8. Þó eg þessvegna geti með
mikilli djörfúng í Kristi boðið
þèr það, sem þèr sómir að gjöra,
9. Þá vil eg heldur biðja þig
í vinsemd; þú veizt, hvílíkur
eg er, gamalmennið Páll, sem
nú þar að auki er í fjötrum
sakir Jesú Krists.
10. Eg bið þig fyrir son minn
Onesímus, sem eg hefi alið í
mínum fjötrum.
11. Hann var þèr áður óþarf-
ur, nú er hann bæði þèr og
mèr þarfur. Þenna sendi eg;
12. Taktu honum vel; hann
er hjartað í mèr.
13. Eg vildi að sönnu halda
honum hjá mèr, svo að hann í
þinn stað þjónaði mèr í fjötr-
um mínum, sem eg ber sakir
náðarboðskaparins;
14. En án þíns samþykkis
vilda eg ekki gjöra það, svo
að þessi velgjörníngur þinn
kæmi ekki af nauðúng, heldur
af fúsum vilja.
15. Því, ef til vill hefur hann
um stundar sakir skilizt við
þig, svo að þú síðan skyldir
æfinlega halda honum,
16. Ekki framar eins og þræli,
heldur þræli fremri, eins og

elskulegum bróður, mjög kærum mèr, en því framar þèr, bæði vegna líkamlegrar þjónustu og í Drottins erindum.

17. Ef þú því álítur mig stallbróður þinn, þá taktu á móti honum, eins og eg væri það sjálfur.

18. En ef hann hefir gjört þèr órètt í nokkuru, ellegar er skyldugur, þá tilreikna mèr það.

19. Eg Páll skrifa þetta með eigin hendi: "eg skal gjalda;" svo eg ekki nefni það, að þú ert mèr jafnvel skyldugur um sjálfan þig.

20. Já, lát mig njóta þess, bróðir, að þú ert orðinn Drottins; endurnær mitt hjarta fyrir Krists skuld.

21. Fullviss um þína hlýðni skrifa eg þetta, því eg veit, að þú munir gjöra meira, en eg kefi mælzt til.

22. En hafðu líka til reiðu gestaherbergi handa mèr, því eg vona, að eg vegna yðar bæna muni verða gefinn yður.

23. Þèr heilsar Epafras, sem er bandíngi, eins og eg, í Jesú Kristi;

24. Sömuleiðis Markús, Aristarkus, Demas og Lúkas, samþjónar mínir.

25. Náðin Drottins vors Jesú Krists sè með yðar anda.

---

## PISTILLINN TIL HINNA

# HEBRESKU.

### 1. KAPÍTULI.

*Í fyrndinni lèt Guð spámenn sína kunngjöra feðrunum sinn vilja, en fyrir skemstu lèt hann Son sinn, sem einglunum er æðri, gjöra hið sama.*

EPTIR að Guð forðum hafði talað til feðranna optsinnis, og með mörgu móti, fyrir munn sinna spámanna, hefur hann á þessum síðustu tímum til vor talað fyrir Soninn,

2. Sem hann setti erfíngja allra hluta, fyrir hvern hann og hefur skapað heiminn,

3. Sem, af því hann er geisli hans dýrðar og ímynd hans veru, er öllu stjórnar með orði síns máttar, settist til hægri hliðar guðlegri hátign á hæðum, eptir það hann fyrir sjálfan sig (með dauða sínum) hafði hreinsað oss frá syndunum,

4. Og er orðinn einglunum þeim mun hærri, sem hann hefir þeim háleitari tign öðlazt.

5. Því við hvern af einglunum hefir Guð nokkurn tíma sagt:

"þú ert minn sonur, í dag gat
 eg þig?" Og enn aptur segir
hann: eg vil vera hans Fað-
ir og hann skal vera minn
Sonur;"
6. En þegar hann aptur boð-
ar komu síns frumgetna Sonar
í heiminn, kveður hann svo
að orði: "allir einglar Guðs
skulu tilbiðja hann."
7. En um einglana verður svo
að orði kveðið: "sína eingla
hefur hann, sem vinda, og sína
þjóna, sem eldsloga."
8. En um Soninn þar á mót:
"þitt hásæti, ó Guð, varir um
aldur og æfi, þinn veldissproti
er veldisspíra rèttvísinnar.
9. Þú elskaðir rèttindin, en
hataðir rángindin, þess vegna
hefir Guð, þinn Guð, smurt
þig með gleðinnar viðsmjöri
fram yfir þína jafníngja."
10. Og á öðrum stað stendur:
"Drottinn, í öndverðu grund-
vallaðir þú jörðina, og himn-
arnir eru þín handaverk.
11. Þeir munu undir lok líða,
en þú varir við, allir munu
þeir fyrnast, sem annað fat,
12. Og eins og möttul muntu
þá saman vefja; þeir munu
umbreytast, en þú ert hinn
sami, og þín ár munu ekki
þrjóta."
13. En við hvern af einglun-
um hefir Guð nokkurn tíma
sagt: "sit þú mèr til hægri
handar, þángað til eg gjöri
óvini þína að þinni fótaskör?"
14. Eru þeir ekki allir þjón-
ustubundnir andar, sem send-
ir eru í þeirra þarfir, sem eiga
að erfa sáluhjálpina?

## 2. KAPÍTULI.

*Aminníng um að halda við lærdóminn vegna Krists hátignar og friðþægíngar.*

ÞESS vegna ber oss því
framar að halda huganum
stöðugum við þann lærdóm, er
vèr höfum heyrt, að ekki vill-
umst vèr frá honum.
2. Því hafi sá lærdómur, sem
boðaður var fyrir einglanna
milligaungu, stöðugur staðið,
og öll yfirtroðsla og óhlýðni
gegn honum feingið sín makleg
málagjöld,
3. Hvernig munum vèr þá
geta sloppið hjá hegníngu, ef
vèr vanrækjum þvílíkan frels-
is lærdóm, sem Drottinn vor
sjálfur hóf fyrstur að kenna,
og sem síðan er staðfestur til
vor kominn frá þeim, er hann
heyrðu.
4. Þar Guð sjálfur styrkti
þeirra vitnisburð með táknum,
undrum, margs konar krapta-
verkum og Heilags Anda út-
býtíngu eptir sinni velþóknun.
5. Því ekki gaf hann eingl-
unum vald yfir hinum kom-

anda heimi, sem vèr hèr töl-
um um.
6. En svo hefir viss maður
komizt að orði einhverstaðar:
"hversu veglegur er maðurinn,
að þú skulir minnast hans,
eða mannsins sonur, að þú
skulir líta til hans.
7. Um stundar sakir gjörðir
þú hann einglunum óæðri, með
vegsemd og heiðri krýndir þú
hann, og settir hann yfir verk
þinna handa.
8. Alla hluti lagðir þú undir
hans fætur." En fyrst hann
gjörði honum alla hluti undir-
gefna, þá hefir hann ekkert
það eptir skilið, er ekki sè
undir hann lagt. En vèr sjáum
þó enn þá ekki, að allir hlutir
sèu undir hann gefnir.
9. En þar á móti sjáum vèr,
að Jesús, sem um stundar
sakir var gjörður einglunum
óæðri, er, vegna þess hann
dauðann þoldi, með dýrð og
vegsemd kórónaður, svo að
hann af Guðs náð líði dauðann
fyrir alla.
10. Því það hæfði þeim, fyrir
hvern og af hverjum alt er
gjört, þeim, er leiðir marga
sonu til dýrðar, dýrðlegan að
gjöra höfund frelsis þeirra
með þjáníngum.
11. Því sá, sem helgar, og
þeir, sem helgaðir verða, eru
allir börn hins eina; þess
vegna fyrirverður hann sig
ekki að kalla þá bræður, þar
hann segir:
12. "Eg vil kunngjöra þitt
nafn bræðrum mínum, mitt í
söfnuðinum vil eg sýngja þèr
lof."
13. Og enn annarstaðar: "á
hann vil eg setja mitt traust;"
og enn fremur: "sjá, hèr em
eg, og þau börn, er Guð gaf
mèr."
14. En af því börnin hafa
hold og blóð, þá er hann einn-
ig orðinn þess hluttakandi, svo
að hann með (sínum) dauða
gæti svipt krapti dauðans yfir-
ráðanda, það er djöfulinn, og
frelsað þá,
15. Sem af ótta fyrir dauðan-
um lifðu allan sinn aldur und-
ir ánauðaroki.
16. Því einganvegin tekur
hann að sèr einglana, heldur
Abrahams niðja.
17. Þess vegna hlaut hann í
öllu að gjörast bræðrum sín-
um líkur, svo hann verða
kynni miskunsamur og trú-
lyndur höfuðprestur í sínu em-
bætti fyrir Guði, til þess að
friðþægja fyrir fólksins syndir.
18. Því vegna þess hann hefir
sjálfur mátt kenna á freistíng-
um, þá getur hann hjálpað
þeim, sem freistaðir verða.

## 3. KAPÍTULI.

*Hlýðni við Krist, sem er æðri en Móses. Viðvörum við þvermóðsku.*

ÞESS vegna, þèr heilögu bræður, sem hluttakandi eruð orðnir hinnar himnesku köllunar, gefið gætur að Jesú Kristi,

2. Postula og æðsta presti vorrar játníngar, sem trúr var þeim, er hann til þess skipaði, eins og Móses var trúr í öllu hans húsi.

3. Því þessi álízt verðugur þeim mun æðri tignar en Móses, sem sá, er húsið byggir, er æðri en húsið sjálft.

4. (Því sèrhvert hús er gjört af einhverjum, en Guð hefir gjört alt).

5. Móses var að sönnu trúr í öllu hans húsi, eins og þjón, í því að kunngjöra það, sem fyrir hann var lagt.

6. En Kristur er þar á móti settur sem Sonur yfir hans hús, og hans hús erum vèr, ef að vèr alt til æfiloka höldum fast við djörfúng og hrósun vorrar vonar.

7. Þess vegna eins og Heilagur Andi segir: "í dag, meðan þèr heyrið hans raust, þá forherðið ekki hjörtu yðar,

8. Eins og forðum í upphlaupinu á freistínga-deginum í eyðimörkinni,

9. Þar sem feður yðar freistuðu mín og reyndu mig, þótt þeir í 40 ár hefðu sèð verk þau, er eg gjörði.

10. Þess vegna gramdist eg þjóð þessari, og sagði: óaflátanlega villast þeir í hjörtum sínum og þekkja ekki mína vegu.

11. Þess vegna sór eg í bræði minni, að þeir aldrei skyldu komast til míns hvíldarstaðar."

12. Gjaldið varhuga við því, bræður, að einginn yðar búi yfir vondu vantrúar hjarta, er vilji falla frá enum lifanda Guði.

13. Heldur áminnið hver annan hversdaglega, á meðan sagt verður í dag, svo að einginn yðar forherðist af syndarinnar afvegaleiðslu.

14. Því vèr erum orðnir hluttakandi í Kristi, ef vèr alt til æfiloka höldum fast við hinn fyrsta trúar-grundvöll.

15. Fyrst sagt er: "í dag, ef þèr heyrið hans raust, þá forherðið ekki yðar hjörtu, eins og hinir gjörðu í upphlaupinu."

16. Hverjir voru það þá, sem reittu hann til reiði, þó þeir heyrðu hana? Voru það ekki allir þeir, sem Móses leiddi út af Egyptalandi?

17. Og hverjum var hann

gramur í 40 ár? Var það ekki þeim, sem syndguðu og fèllu í eyðimörkinni?

18. Og hverjir voru það, sem hann sór að aldrei skyldu ná inngaungu í hans hvíldarstað, nema hinir vantrúuðu?

19. Svo sjáum vèr þá, að þeir gátu ekki náð þar inngaungu vegna vantrúar sinnar.

## 4. KAPÍTULI.

*Framhald. Kristur er vor æðsti prestur.*

TÖKUM oss því vara fyrir, að einginn á meðal vor sýnist að draga sig aptur úr, fyrst það fyrirheit, að vèr megum inngánga til hans hvíldarstaðar, stendur oss en þá opið.

2. Því einnig oss er fyrirheitið gefið, eins og þeim; en þetta fyriheit kom þeim til eingra nota, sem það var boðað, vegna þess það fyrirhitti einga trú hjá þess heyrendum, er það gæti samþýðzt.

3. Því vèr, sem trúum, munum inngánga til hans hvíldar eptir hans eigin orðum: "Eg sór í reiði minni: þeir skulu ekki inngánga í mína hvíld," jafnvel þó verkin væru fullgjörð alt frá grundvöllun heimsins.

4. Því einhverstaðar er svo að orði kveðið um hinn sjöunda dag: "og Guð hvíldist á hinum sjöunda degi af öllum sínum verkum."

5. Og aptur stendur á þessum stað: "þeir skulu ekki inngánga til minnar hvíldar."

6. Þar eð nú nokkrir eiga enn þá eptir að inngánga til hvíldar þessarar, og þeir, sem hún í fyrstu var heitin, náðu ekki inn að gánga fyrir vantrúar sakir,

7. Þá hefir hann að nýu ákveðið vissan dag, þar hann svo laungum tíma seinna segir fyrir Davíðs munn: "í dag," (því svo er að orði kveðið) "í dag, ef þèr heyrið hans rödd, þá forherðið ekki hjörtu yðar."

8. Því ef Jósúa hefði leitt þá til hvíldar, þá hefði (Davíð) ekki talað um annan dag eptir þann tíma.

9. Þess vegna hlýtur hvíldin enn þá að vera Guðs fólki eptirskilin.

10. Því sá, sem inngeingur í hans hvíld, mun hvílast af sínum verkum, eins og Guð hvíldist af sínum.

11. Kostum því kapps, að ná inngaungu í hvíld þessa, svo að einginn falli á viðlíku vantrúar dæmi.

12. Því Guðs orð er lifandi og kröptugt, og beittara hverju tvíeggjuðu sverði, og þreyngir sèr milli sálar og anda, liða-

móta og mergjar, og dæmir hugsanir og hjartans hugrenníngar.

13. Og eingin skepna getur falizt fyrir honum, en alt er opið og öndvert fyrir augum hans, sem vèr hèr tölum um.

14. Þareð vèr því höfum hinn mikla höfuðprest Jesúm, Guðs Son, sem inn er geinginn í himininn, þá látum oss halda fast við játníngu vora.

15. Því vèr höfum ekki þann æðsta prest, er ekki kunni að sampínast vorum veikleika, heldur þann, sem freistaður er á allan hátt eins og vèr, þó án syndar.

16. Látum oss því með djörfúng nálgast náðarstólinn, svo að vèr öðlumst miskun, og finnum náð til hjálpar á hagkvæmum tíma.

## 5. KAPÍTULI.

*Framhald. Kvartan yfir eptirtektaleysi Hebreskra.*

ÞVÍ sèrhver höfuðprestur, sem út af mönnum er valinn, er manna vegna skipaður til Guðs þjónustugjörðar, til að fram bera gáfur og fórnir fyrir syndirnar.

2. Og þar hann er sjálfur breyskleika undirorpinn, þá getur hann vorkent hinum vankunnandi, og þeim sem viltir fara.

3. Og sökum þessa ber honum einnig að færa fórnir, ekki síður fyrir sínar, heldur en fólksins syndir.

4. Ekki tekur nokkur sèr sjálfum þennan heiður, heldur hlýtur hann að vera af Guði kjörinn, eins og Aron einnig var.

5. Þannig tók og Kristur sèr ekki sjálfur þann heiður, að verða æðsti prestur, heldur sá, er við hann sagði: "þú ert sonur minn, í dag gat eg þig."

6. Eins og líka segir á öðrum stað: "þú ert kennimaður að eilífu, eins og Melkísedek."

7. Hann, sem á sínum holdsvistar dögum með tárum og kveinstöfum fram bar bænir og auðmjúk andvörp fyrir þann, sem megnaði að frelsa hann frá dauðanum, og varð bænheyrður vegna sinnar guðrækni,

8. Og þótt hann Sonur væri, lærði hann hlýðni af því, sem hann leið,

9. Og er eptir sína upphafníngu orðinn öllum þeim, er honum hlýðnast, undirrót til ævarandi farsældar,

10. Og er af Guði sjálfum kjörinn æðsti prestur, á líkan hátt og Melkísedek.

11. Um þetta höfum vèr mikið að segja, sem þúngskilið er,

af því þèr eruð svo eptirtekta-
litlir;
12. Því þó þèr tímans vegna
mættuð vera orðnir lærimeist-
arar, þá hafið þèr þörf, að
einhver kenni yður af nýu
fyrstu stöfun Guðs lærdóma,
og hafið þörf á mjólk, en ekki
megnri fæðu.
13. En hver, sem á mjólk
nærist, þekkir ekki lærdóm
rèttlætisins, því hann er barn.
14. En megna fæðan er fyrir
þá fullorðnu, sem vegna vana
hafa feingið æfðan smekk til
að aðgreina gott frá illu.

## 6. KAPÍTULI.

*Postulinn áminnir Hebreska um, að þeir líkist þeim ekki, sem fallið hafa frá lærdóminum, svo að þeir fari ekki á mis við það fyrirheit, sem Abraham var gefið.*

ÞESS vegna viljum vèr
sleppa, að útlista fyrsta
grundvöll Krists lærdóms, og
halda áfram til þess, sem full-
komnara er, að ekki förum
vèr aptur að leggja grundvöll-
inn til lærdómsins um aptur-
hvarf frá dauðum verkum,
2. Um trúna á Guð, um lær-
dóm skírnarinnar, handanna
uppáleggíngu, upprisu hinna
dauðu og hinn eilífa dóm.
3. Og þetta viljum vèr þá
gjöra, ef Guð lofar.
4. Því það er ómögulegt, að
þeir, sem eitt sinn eru orðn-
ir upplýstir, og hafa feingið
smekk á þeirri himnesku gáfu
og hluttakandi eru orðnir Heil-
ags Anda,
5. Og hafa smakkað Guðs
góða orð og krapt komandi
aldar, og hafa þó fallið frá,
6. Að þeir muni endurnýast
til apturhvarfs, þar þeir hafa
fyrir sitt leyti að nýu kross-
fest Guðs Son og haft hann
að spotti.
7. Því jörð sú, er drekkur
það regn, sem opt fellur yfir
hana, og færir þeim hagkvæm-
an gróður, er hana yrkja, hún
þyggur blessun af Drottni;
8. En hin, sem ber þyrna og
þistla, er eingu nýt, og finnur
bráða formælíngu, og verður
um síðir eldi sviðin.
9. En vèr vonum annars betra
og heillavænlegra um yður,
elskanlegir, þótt vèr tölum
þannig.
10. Því Guð er ekki ránglát-
ur, að hann gleymi gjörðum
yðar og kærleika, er auðsýnt
hafið honum til dýrðar, með
því að þèr hafið þjónað og
þjónið heilögum.
11. En vèr óskum, að sèrhver
yðar kostgæfi hið sama alt til
æfiloka, svo að yðar von mætti
fullkomnast,
12. Svo að þèr verðið ekki
annara eptirbátar, heldur

þeirra eptirbreytendur, sem vegna trúar og biðlundar öðlazt hafa fyrirheitin.

13. Því þá Guð veitti Abraham fyrirheitið, sór hann við sjálfan sig, af því hann hafði eingan æðri við að sverja, og sagði:

14. "Sannlega vil eg blessa þig og margfalda."

15. Þannig öðlaðist hann fyrirheitið, af því hann beið þess með biðlundargeði.

16. Því mennirnir sverja eið við þann, sem þeim er æðri, og eiðurinn gjörir enda á allri þeirra þrætu til staðfestíngar.

17. Fyrir því styrkti Guð heityrði sitt með eiði, þá hann enn yfirgnæfanlegar vildi sýna erfíngjum fyrirheitisins óraskanlegleika sinna ályktana,

18. Svo að vèr vegna tveggja óbrigðulla hluta, sökum hverra Guð ómögulega gat hafa skrökvað, skyldum hafa örugt traust, sem til hans flýum, til að höndla þá sæluvon, sem oss er geymd;

19. Sem vèr höfum eins og akkeri sálarinnar óbifanlega og stöðuga,

20. Og sem fer inn í hið allrahelgasta, þángað sem Jesús, vor fyrirrennari, er inngeinginn fyrir oss og orðinn æðsti prestur að eilífu, eins og Melkísedek.

## 7. KAPÍTULI.

*Jesús er æðsti prestur, fullkomnari en allir aðrir.*

ÞVÍ Melkísedek þessi, er var Salems konúngur og kennimaður Guðs hins hæsta, sem gekk í veg fyrir Abraham og blessaði hann, þá hann snèri heimleiðis frá drápi konúnganna.

2. Og sem Abraham skipti tíundum af öllu herfángi sínu, hans nafn má fyrst útleggjast: konúngur rèttvísinnar, og þar næst konúngur friðarins, þar hann var konúngur í Salem.

3. Hann átti hvorki föður nè móður, eða ættlegg, hvorki lífs upptök nè lífs endir, og líkist í því Syni Guðs, að hann er kennimaður að eilífu.

4. Virðið nú fyrir yður, hvílíkur sá megi verið hafa, sem jafnvel sjálfur forfaðirinn Abraham gaf tíundir af herfángi sínu.

5. Að vísu hafa þeir af Leví niðjum, er klerkdóm taka, heimild til þess, að leggja eptir lögum tíundar gjald á þjóðina, það er: bræður sína, þótt þeir sèu af Abraham komnir.

6. En hèr tók sá tíundir af Abraham, sem ekki var Abrahams ættar, og blessaði þann, er feingið hafði fyrirheitin.

7. Því verður þó ekki móti mælt, að sá, sem er minni

háttar, blessast af þeim, sem meiri háttar er.

8. Hèr taka dauðlegir menn tíundir, en þar sá, um hvern vitnað er, að hann (æ) lifi.

9. Og Leví, sem tekur tíundir, hefir, að eg komist svo að orði, mátt svara tíund í Abrahams persónu.

10. Því hann var enn í lendum föður síns þegar Melkísedek mætti Abraham.

11. Hefði fullkomnan fengizt fyrir hinn levítiska kennimannsskap (því til hans var fólkið bundið með lögum), hver þörf hefði þá framar á því verið, að nýr kennimaður skyldi tilsetjast, líkur Melkísedek, en ekki Aron.

12. Því við umbreytíngu kennistèttarinnar hlutu lögin einnig að umbreytast.

13. Því nú er sá, sem þessi spádómur hljóðar um, annarar ættar, í hverri einginn hefir altarinu þjónað.

14. Því það er alkunnugt, að Drottinn vor er fæddur af Júda-ætt, fyrir hverja ætt Móses einga tilskipun hefir gjört viðvíkjandi kennimanns embættinu.

15. Og en auðsjáanlegra er þetta á því, að annar kennimaður framkemur, líkur Melkízedek,

16. Sem ekki hefir öðlazt embættið eptir lögmáli líkamlegs boðorðs, heldur eptir krapti óendanlegs lífs;

17. Því svo verður að orði kveðið: "þú ert kennimaður að eilífu, eins og Melkísedek."

18. Svo er þá hið fyrra lögmál aftekið, sökum þess ófullkomlegleika og vanhlítar

19. (Því það megnaði eingan fullkominn að gjöra), en í þess stað innleidd betri von, vegna hverrar vèr getum nálgast Guð.

20. Enn framar, að því leiti sem Jesús var með svörnum eiði innsettur, að því leiti er hann orðinn meðalgángari betri sáttmála.

21. Aðrir urðu kennimenn eiðlaust,

22. En þessi þar á móti með eiði þess, sem við hann sagði: Drottinn sór og hann skal ekki iðrast þess: "þú ert kennimaður að eilífu, eins og Melkísedek."

23. Hinir æðstu prestar voru margir, einn eptir annan, því dauðinn kipti þeim burt,

24. En þessi heldur stöðugu kennimanns embætti, af því hann lifir að eilífu.

25. Þess vegna getur hann líka ætíð frelsað þá, þar hann æ lifir til þess, að tala þeirra máli.

26. Því þvílíks kennimanns höfðum vèr þörf, er heilagur

væri og saklaus, óflekkaður, syndurum fráskilinn, og orðinn himnunum hærri,
27. Er ekki þyrfti daglega, eins og (aðrir) höfuðprestar, að færa fórnir, fyrst fyrir sínar eigin, þar næst fyrir fólksins syndir; því þetta gjörði hann eitt skipti fyrir öll, þá hann fórnfærði sjálfum sèr.
28. Lögmálið setur þá fyrir höfuðpresta, sem hafa mannlegan breyskleika, en orð eiðsins, sem ýngra er, en lögmálið, setur Soninn, sem að eilífu er fullkominn.

## 8. KAPÍTULI.

*Jesús er æðsti prestur á himni og miðill hins nýja sáttmála, því sá eldri er afmáður.*

EN höfuðinntak þess, sem sagt hefir verið, er þetta: vèr höfum þann æðsta prest, er situr hægra megin við hásæti hins alvalda á himnum,
2. Og sem er prestur helgidómsins og hinnar sönnu tjaldbúðar, sem Guð sjálfur hefir reist, en einginn maður.
3. Því hver höfuðprestur er til þess settur, að frambera gáfur og fórnir; því verður þessi einnig að hafa það, er hann frambera kunni.
4. Því hefði hann verið jarðneskur prestur, þá hefði hann ekki kunnað prestur að vera þar, sem eru aðrir prestar fyrir, sem færa fórnir eptir lögunum;
5. Þessir fremja guðsþjónustuna í musteri, sem er eptirmynd og skuggi hins himneska, eins og Mósi var boðið, þá hann skyldi fullgjöra tjaldbúðina: "gef gætur að," stendur þar, "að þú gjörir alt eptir þeirri fyrirmynd, sem þèr var sýnd á fjallinu."
6. En nú hefir hann feingið þeim mun veglegra kennimannsembætti, sem sáttmáli sá er veglegri, sökum þess hann er grundvallaður á betri fyrirheitum.
7. Því hefði sá fyrri sáttmáli verið óaðfinnanlegur, þá hefði ekki annars viðþurft.
8. En nú ávítar Guð þá, segjandi: sjá, þeir dagar munu koma, segir Drottinn, þá eg vil semja nýan sáttmála við Ísraels ætt og Júde-ætt,
9. Ekki líkan þeim sáttmála, er eg gjörði við forfeður þeirra á þeim degi, þá eg tók í hönd þeirra, til þess að leiða þá út af Egyptalandi, því vegna þess þeir hèldu ekki minn sáttmála, þá yfirgaf eg þá, segir Drottinn.
10. En sáttmáli sá, er eg hèr eptir mun semja við Ísraels fólk, skal vera á þá leið, segir Drottinn, að eg mun gefa mitt

lögmál í þeirra hugskot og grafa það á þeirra hjörtu, og eg skal vera þeirra Guð, og þeir skulu vera mitt fólk;

11. Og þá mun ekki hver landi og bróðir þurfa að áminna annan, segjandi: þektu Drottinn, því allir skulu þekkja mig, frá hinum minnsta þeirra á meðal til hins mesta.

12. Því eg mun vera vægur við þeirra yfirtroðslur og ekki framar minnast synda þeirra og boðorðabrota.

13. Með því að kalla þetta nýan sáttmála, hefir hann því lýst, að sá fyrri sè úreltur, en það, sem gamalt er og fornt, er því nálægt að líða undir lok.

## 9. KAPÍTULI.

*Fórnfæríngar gamla testamentisins voru ónógar. En sú fórn, sem Kristur fram bar, fullnóg.*

AÐ vísu hafði sá fyrri sáttmáli reglugjörðir fyrir guðsþjónustunni og jarðneskan helgidóm.

2. Því í fremra hluta tjaldbúðarinnar, er kallaðist hið helga, var kertahjálmurinn og borðið og skoðunarbrauðin,

3. En bak við hið innra fortjald, var hinn annar hluti, er kallaðist hið allrahelgasta,

4. Þar sem að var hið gulllega reykelsisker og sáttmálsörkin, er alla vega var gulli búin, í henni var gullfatan með Manna í og hinn blómgaði Arons vöndur og lögmálsspjöldin.

5. En uppyfir sáttmálsörkinni voru dýrðlegir Kerúbim, sem yfirskygðu lokið á sáttmálsörkinni, frá hverju hèr ekki gjörist þörf að skýra sèr í lagi.

6. Sem nú þetta var þannig tilreitt, geingu prestarnir, er framkvæmdu guðsþjónustuna, daglega inn í frammusterið.

7. En í innra hluta musterisins, gekk einúngis hinn æðsti prestur eitt sinn á ári hverju, ekki án blóðs, er hann skyldi fórnfæra fyrir sínar og fólksins syndir,

8. Og vildi Heilagur Andi sýna með því, að vegurinn til hins allrahelgasta stæði en þá ekki opinn, svo leingi sú fyrri tjaldbúð enn þá stóð við lýði.

9. Sem einúngis var fyrirmynd alt til vorra tíma, þá gáfur og fórnir framberast, sem þó ekki megna, hvað samvizkuna snertir, að gjöra þann fullkominn, sem að guðsþjónustunni vinnur,

10. Og sem þjónar Guði einúngis með því, að halda sèr frá vissri fæðu og drykk, og með ýmislegum þvottum, og voru þessar líkamlegu tilskip-

anir einúngis lögboðnar, þángað til ný endurbót yrði á því gjörð.

11. En þá Kristur kom, æðsti prestur hinna tilkomandi gæða, gekk hann í gegnum hina stærri og fullkomnari tjaldbúð, sem ekki er með höndum gjörð, það er: sem ekki heyrir til þessarar (sýnilegu) sköpunar,

12. Hafandi hvorki hafra nè uxablóð, heldur gekk hann eitt sinn með sitt eigið blóð inn í hið allrahelgasta og afrekaði oss eilífa endurlausn.

13. Því hafi uxa og hafrablóð og aska brendrar kvígu, sem stökt var á þá, er óhreinir höfðu gjörzt, helgað þá til holdsins hreinsunar,

14. Hversu miklu framar mun þá blóðið Krists, er í krapti hins eilífa Anda fórnfærði sjálfan sig Guði óflekkaðan, hreinsa vora samvizku af saurugum verkum, svo að vèr þjónum lifanda Guði.

15. Og þess vegna er hann meðalgángari hins nýa testamentis, að þá hann væri dáinn til forlíkunar fyrir þau afbrot, sem drýgð voru undir hinum fyrra sáttmála, allir þeir, sem kallaðir voru, fengju hina fyrirheitnu eilífu arfleifð.

16. Því þar sem testament er, þar hlýtur þess dauði að vera hljóðbær, er það gjörði.

17. Því testament fær fyrst krapt við dauða mannsins, en gildir eingan veginn, meðan sá lifir, er það gjörði.

18. Þess vegna var ekki heldur hinn fyrri sáttmáli saminn án blóðs.

19. Því þá Móses hafði lesið upp öll boðorð lögmálsins fyrir fólkinu, tók hann uxa og hafrablóð ásamt vatni og skarlatsrauðri ullu og ísópi, og stökti á sjálfa lögbókina og alt fólkið, svo mælandi:

20. "Þetta er blóð þess sáttmála, sem Guð hefir samið við yður."

21. Sömuleiðis stökti hann blóði á samkundutjaldbúðina og öll áhöld guðsþjónustugjörðarinnar.

22. Og eptir Mósis lögum hlýtur nærfelt alt að hreinsast með blóði, og án blóðs-úthellíngar fæst eingin fyrirgefníng.

23. Af þessu leiðir það, að fyrst fyrirmynd hins himneska verður að hreinsast með slíkum hlutum, þá hlýtur hið himneska sjálft að hreinsast með þeirri fórn, sem er miklu æðri, en hinar jarðnesku.

24. Því Kristur er ekki inngeinginn í þann helgidóm, er með höndum sè gjörður, og

sem einúngis sè eptirmynd hins sanna helgidóms, heldur er hann inngeinginn í sjálfan himininn, til þess nú að birtast fyrir Guðs augliti vor vegna.

25. Ekki gekk hann heldur þar inn, til þess að fórnfæra sèr optar en einu sinni, eins og höfuðprestur geingur einu sinni á hverju ári inn í hið allrahelgasta með annarlegu blóði;

26. (Því annars hefði hann optlega mátt píslir líða, frá því heimurinn var skapaður); heldur birtist hann nú í eitt einasta skipti undir endalok veraldar, þá hann fórnfærði sjálfum sèr til synda afplánunar.

27. Og eins og mönnum er fyrirsett eitt sinn að deya, en eptir það er dómurinn.

28. Þannig er og Kristur eitt sinn fórnfærður, til þess að burttaka margra syndir, en í annað sinn mun hann birtast, án þess að vera syndafórn, öllum sem hans vænta til frelsunar.

## 10. KAPÍTULI.

*Sama efni. Uppörvan til stöðuglyndis í trúnni.*

ÞVÍ lögmálið, sem einúngis hefir skugga tilkomandi gæða, en ekki þeirra skýra mynd, megnar eingan veginn með þeim sömu fórnum, er árlega verða frambornar án afláts, fullkomlega að hreinsa fórnfærendurna.

2. Því hefði ekki annars verið hætt við, að frambera þær, þar fórnfærendurnir hefðu ekki framar haft nokkra samvizku stíngi, eptir það þeir eitt sinn voru orðnir hreinsaðir?

3. Slíkar fórnfæríngar endurnýa árlega syndanna endurminníngu.

4. Því það er ómögulegt, að uxa og hafrablóð geti afmáð syndir.

5. Þegar því Messías er afmálaður, svo sem komandi í heiminn, er hann látinn kveða svo að orði: offur og fórnir geðjast þèr ekki, en líkama tilbjóstu mèr.

6. Á brennifórnum og synda offri hefir þú einga velþóknun.

7. Þá sagði eg, eins og um mig stendur skrifað í bókinni: sjá, eg kem, Guð, til að gjöra þinn vilja.

8. Þá hann fyrst hefir sagt, að þú hvorki viljir, nè hafir þóknun á offrum, fórnfæríngum, brennifórnum nè syndaoffrum, sem þó eiga að framberast eptir Mósis lögum,

9. Þá segir hann: sjá, eg kem til að gjöra þinn vilja; hann burttekur hið fyrra til að staðfesta hið síðara.

10. Fyrir þennan Guðs vilja

erum vèr helgaðir með fórnfæríngu líkama Jesú Krists eitt skipti fyrir öll.
11. Sèrhver prestur kemur fram til þess daglega að fremja guðsþjónustu og frambera optlega hinar sömu fórnir, en þó eingan veginn geta afrekað synda kvittun.
12. En þá hann hafði fært eina einustu synda fórn, situr hann að eilífu til Guðs hægri handar,
13. Og bíður framvegis, þángað til óvinir hans verða gjörðir að hans fótaskör.
14. Því með einni fórn hefir hann að eilífu fullkomna gjört þá, er helgaðir verða.
15. En um þetta fullvissar oss líka Heilagur Andi;
16. Því eptir þessi orð: þetta er sáttmáli sá, er eg eptirleiðis vil semja við þá, segir Drottinn: mitt lögmál vil eg innræta í hjörtu þeirra, og skrifa það í þeirra hugskot;
17. Og eg vil ekki framar minnast synda þeirra, nè misbrota.
18. En þar sem þetta er fyrirgefið, þar er ekki framar fórnfæríngar þörf vegna syndanna.
19. Þar vèr, bræður, fyrir Jesú blóð höfum djörfúng til að inngánga í helgidóminn,
20. Hvert hann hefir opnað oss nýan og sáluhjálplegan veg gegnum fortjaldið, það er: hans eigin líkama,
21. Og þar vèr höfum mikinn prest yfir Drottins húsi,
22. Þá látum oss nálgast með einlægum hjörtum og öruggu trúartrausti, að hreinsuðum vorum hjörtum frá vondri samvizku.
23. Og látum oss, að lauguðum vorum líkama í hreinu vatni, halda fast við játníngu vorrar vonar, því trúr er sá, sem fyrirheitið hefir gefið;
24. Og gefum gætur hverjir að öðrum, til þess að uppörva oss til kærleika og góðra verka;
25. Og yfirgefum ekki vorn söfnuð, sem sumra er siður, heldur uppörvum hann, og það því framar, sem þèr sjáið að dagurinn nálgast meir.
26. Því ef vèr syndgum af ásettu ráði, eptir það vèr höfum öðlazt þekkíngu sannleikans, þá gefst eingin fórn framar fyrir syndirnar,
27. Heldur óttaleg eptirbið dómsins og brennandi vandlætíng, sem tortýna mun hinum þverbrotnu.
28. Hljóti sá, sem brýtur Mósis lög, án allrar vægðar að missa lífið eptir tveggja eða þriggja votta vitnisburði,

29. Hve miklu þýngri hegníngu haldið þèr ekki sá muni sæta, er Son Guðs fótum treður, og álítur sáttmálans blóð, með hverju hann er helgaður, ekki heilagra en hvert annað, og smánar Anda náðarinnar?
30. Því vèr vitum, hver sagt hefir: mín er hefndin, eg mun endurgjalda, segir Drottinn; og enn aptur: Drottinn mun dæma sitt fólk.
31. Skelfilegt er að falla í hendur lifanda Guðs.
32. En endurminnizt hinna fyrri daganna, á hverjum þèr máttuð þola svo margar þreyngíngar, eptir það þèr voruð orðnir upplýstir,
33. Þá þèr ýmist í allra augsýn máttuð sæta smán og pínslum, en annað veifið taka þátt í þeirra kjörum, er urðu fyrir þessari meðferð.
34. Því þèr höfðuð sampíníngu með bandíngjunum og tókuð með gleði móti missir fjármuna yðvarra, af því þèr vissuð, að þèr áttuð betri og varanlegri fjársjóð á himnum.
35. Kastið því ekki burt yðar örugga móði, er mikil laun mun öðlast.
36. Því á þolgæði hafið þèr þörf, svo að þèr úr býtum berið þau fyrirheitnu gæði, þegar þèr hafið gjört Guðs vilja.
37. Því innan harðla skamms tíma mun sá koma, sem væntanlegur er, og ekki tefja.
38. En sá rèttláti af trú sinni mun hólpinn verða, en dragi nokkur sig í hlè, mun sála mín einga geðþekkni á þeim hafa,
39. En vèr erum ekki af þeim, er sig í hlè draga sjálfum þeim til glötunar, heldur af þeim, sem trúa sèr til sáluhjálpar.

## 11. KAPÍTULI.

*Trúarinnar ágæti.*

EN trúin er örugg eptirvæntíng þeirra hluta, sem maður vonar, og sannfæríng um það, sem hann ekki sèr.
2. Hennar vegna verður hinum fyrri mönnum hrósað.
3. Fyrir trúna fullvissumst vèr um, að heimurinn sè skapaður fyrir Guðs orð, á þann hátt, að hið sýnilega sè til orðið af hinu ósýnilega.
4. Vegna Abels trúar, mat Guð fórn þá, er hann færði honum, fram yfir Kains; hennar vegna fèkk hann vitnisburð, að hann væri rèttlátur, því Guð lýsti velþóknun sinni yfir offri hans; hún gjörir það og, að hann enn nú talar af gröf sinni.
5. Vegna trúar sinnar var Enok burt numinn, að hann ekki skyldi dauðann sjá, og hann fannst ekki framar, af því Guð hafði numið hann í

burtu, því áður en hann var burt numinn, fèkk hann þann vitnisburð, að hann væri Guði þóknanlegur.
6. Án trúar er ómögulegt Guði að þóknast, því sá, sem vill koma til Guðs, verður að trúa því, að hann sè til, og að hann umbuni þeim, er hans leita.
7. Trúin gjörði það að verkum, að þá Nói var af Guði aðvaraður um það, sem enn þá ekki sást óttaðist hann Guð og smíðaði örkina til frelsis sínu húsi; með trúnni fordæmdi hann heiminn og varð hluttakandi þeirrar rèttlætíngar, sem fæst fyrir trúna.
8. Fyrir trú sína hlýðnaðist Abraham, þá honum var boðið að fara til þess staðar, er verða átti hans óðal; og hann fór, þó hann ekki vissi, hvert hann fara skyldi.
9. Fyrir trúna bjó hann í hinu fyrirheitna landi, eins og á annarlegri lóð, og hèlt til í tjaldbúðum, ásamt þeim Ísaak og Jakob, sem hluttakarar voru hins sama fyrirheitis.
10. Því hann vænti þeirrar borgar, er fastan grundvöll hefði, hverrar smiður og byggíngarmeistari sjálfur Guð er.
11. Fyrir trúna öðlaðist sjálf Sara krapt til barngetnaðar, þótt hún væri úr barneign, því hún hèlt þann trúfastan, sem fyrirheitið hafði gefið.
12. Þess vegna kviknaði og af einum manni, og það ellihrumum, slík niðja mergð, sem stjörnur eru á himni eða sandkorn við sjáfarströnd, sem ekki verður tölu á komið.
13. Í trúnni dóu allir þessir, hafandi ekki feingið uppfyllíngu fyrirheitanna, heldur sèð þau áleingdar og breitt mót þeim faðminn, játandi, að þeir væru útlendíngar og gestkomandi á jörðu þessari.
14. En þeir, sem slíkt mæla, sýna með því, að þeir sèu að leita síns rètta föðurlands.
15. Því hefðu þeir meint til þess föðurlands, hvaðan þeir komu, þá hefðu þeir haft tíma til að snúa þángað aptur.
16. En nú þráðu þeir annars betra, það er hins himneska föðurlands; fyrir því blygðast Guð ekki þeirra vegna að kallast þeirra Guð, því hann hafði tilreitt þeim borg.
17. Vegna trúar fórnfærði Abraham syni sínum Ísaak, þá Guð freistaði hans; og sá fórnfærði sínum einkasyni,
18. Er feingið hafði fyrirheitin, og til hvers það hafði sagt verið: af Ísaak skal kynþáttur þinn æxlast;

19. Því hann skynjaði það með sèr, að Guð megnaði að reisa upp frá dauðum, og þess vegna heimti hann hann aptur mitt úr dauðans hættu.

20. Vegna trúar um hið ókomna lagði Ísaak blessun sína yfir Jakob og Esaú.

21. Vegna trúar blessaði Jakob á deyanda degi yfir báða syni Jóseps, hallandi sèr fram á húninn á stafi sínum.

22. Vegna trúar talaði Jósep á sinni dauðastundu um útgaungu Ísraels barna af Egyptalandi, og gjörði ráðstöfun fyrir beinum sínum.

23. Vegna trúar földu foreldrar Mósis hann í þrjá mánuði eptir hans fæðíngu, af því þau sáu, að sveinninn var fagur, og lètu ekki skelfast af skipun konúngsins.

24. Vegna trúar hafnaði Móses, þá hann var orðinn fulltíða maður, sæmd þeirri, að kallast Faraós dótturson,

25. Svo hann kaus heldur að líða ilt með Guðs fólki, en að njóta skammvinnrar ánægju syndsamlegs munaðar,

26. Og áleit það meiri ávinníng, að líða vanvirðu Krists, en alla Egyptalands fjársjóðu.

27. Vegna trúar yfirgaf hann Egyptaland, og óttaðist ekki konúngsins reiði, og tjáði sig stöðugan, eins og hann sæi hinn ósýnilega.

28. Vegna trúar hèlt hann páska, og rjóðraði blóði páskalambsins á dyragætti sín, svo að sá, sem frumburðina deyddi, ekki skyldi snerta Gyðínga.

29. Vegna trúar geingu Ísraelítarnir yfir hið rauða haf, sem annað þurlendi, en þá Egypzkir freistuðu hins sama, drukknuðu þeir.

30. Vegna trúar hrundu Jeríkós múrar, þá búið var að gánga í kríngum þá í 7 daga.

31. Vegna trúar fyrirfórst ekki skækjan Rahab ásamt hinum vantrúuðu, af því hún tók friðsamlega móti njósnarmönnunum.

32. Hvað þarf eg að orðleingja framar um þetta? Mig mundi skorta tíma, ef eg færi að segja frá Gedeon, Barak og Samsyni og Jefat, Davíð og Samúeli og spámönnunum,

33. Er vegna trúar sinnar yfirunnu konúngaríkin, frömdu rèttvísina, öðluðust fyrirheitin, byrgðu kjapt ljónanna,

34. Slöktu eldsins afl, umflúðu sverðseggjar, urðu styrkvir eptir veikindi, öflugir í stríði, komu her óvinanna á flótta.

35. Kvinnurnar feingu aptur sína framliðnu. Aðrir voru útþandir til pintínga og þáðu þó

ekki lausn, svo að þeir öðluðust aðra betri upprisu.

36. Aðrir máttu sæta háðyrðum og húðstrokum og þar á ofan fjötrum og fángelsi;

37. (Voru grýttir, sagaðir, freistaðir, höggnir með sverði, og þeir, hverra heimurinn var ekki verður, fóru um kríng í sauða og geitaskinnum, við skort, þreyngíngar og misþyrmíngar),

38. Ráfuðu um fjöll og óbygðir í hellum og gjótum.

39. En þótt allir þessir hefðu feingið vitnisburð um trú sína, öðluðust þeir þó ekki fyrirheitin;

40. Því Guð hafði sèð betur fyrir vorum hlut, að þeir ekki án vor algjörðir yrðu.

## 12. KAPÍTULI.

*Uppörvan til stöðuglyndis í trúnni og hlýðni við Krist.*

FYRST vèr erum umkríngdir af slíkum vitna fjölda, þá lèttum á oss allri byrði og viðloðandi synd, og rennum þolgóðir skeið það, sem oss er fyrirsett, horfandi til trúarinnar uppbyrjara og fullkomnara Jesú,

2. Sem í stað gleði þeirrar, er hann átti kost á, þoldi krossfestíngu, og hann, sem mat einskis, þótt hann smánaður væri, situr nú hægra megin við Guðs hásæti.

3. Gætið því að honum, sem slík mótmæli þoldi gegn sèr af syndurunum, svo þèr ekki þreytizt og látið hugfallast í hjörtum yðrum.

4. Enn þá sem komið er, hefir yðar stríð við syndina ekki kostað yður blóð.

5. (Og þó hafið þèr gleymt þeirri huggunargrein, sem ávarpar yður eins og börn: Son minn, lítilsvirð ekki hirtíngu Drottins, og lát ekki heldur hug þinn falla, þó hann vandi um við þig),

6. Því hvern þann Drottinn elskar, hinn sama agar hann, og typtar hvern þann son harðlega, er hann að sèr tekur.

7. Ef þèr umberið hirtínguna, þá fer Guð eins með yður, sem börn sín;

8. Því hver er sá sonur, sem faðirinn ekki agi? En sèuð þèr án hirtíngar, sem allir hafa tekið hlutdeild í, þá eruð þèr í sannleika launsynir, en ekki skilgetin börn.

9. Ef nú vorir holdlegu feður eru vorir typtunarmenn, og vèr samt berum virðíngu fyrir þeim, skyldum vèr þá ekki miklu heldur vera undirgefnir andanna Föður, svo að vèr megum lifa?

10. Því þeir öguðu oss um fáa daga, eptir því sem þeim leizt,

en hann hirtir oss, sjálfum oss til góða, til þess vèr verða skulum hluttakendur hans heilagleika.
11. En öll hegníng þykir heldur sorgar, en gleðiefni, meðan á henni stendur, en eptir á gefur hún þeim, sem við hana hafa fullkomnazt, heilsusaman ávöxt rèttlætisins.
12. Rèttið því hinar magnvönu hendurnar og þau máttþrota knèn,
13. Og stígið óskeift með fótum yðrum, svo að sá hinn fatlaði limur ekki vindizt, heldur læknist.
14. Stundið eptir friðsemi við alla og heilagleikanum, án hvers einginn kann Drottinn að sjá.
15. Hafið gát á, að einginn sleppi af Guðs náð, að einginn beisk rót renni upp, sem truflun af stað komi, og margir þess vegna saurgist,
16. Að einginn yðar sè frillulífismaður nè vanheilagur, eins og Esaú, sem fyrir einn málsverð seldi sinn frumgetníngarrètt.
17. Því þèr vitið, að honum var synjað, þá hann síðan vildi öðlast blessunina, því hann gat engri breytíngu komið til vegar, þótt hann leitaði þess með tárum;
18. Því þèr eruð ekki komnir til fjalls þess, sem þreifanlegt er, eða elds þess, er brenni, nè til þoku,
19. Myrkurs eða óveðurs eða básúnu-hljóms eða hinnar talandi raustar, hverrar áheyrendur beiddust, að ekki væri leingur til sín talað,
20. (Því þeir stóðust ekki þá skipun, að hvert það dýr skyldi grýtast, sem snerti við fjallinu,
21. Og svo var það ógurlegt, sem fyrir augu bar, að Móses sagði: eg em hræddur og skjálfandi),
22. Heldur eruð þèr komnir til fjallsins Síon og borgar Guðs lifanda, hinnar himnesku Jerúsalem, og einglanna mörgu þúsunda,
23. Til samkvæmis og samkundu hinna frumgetnu, hverra nöfn eru skrifuð á himnum, og til Guðs, allra dómara,
24. Og til anda rèttlátra, sem algjörðir eru orðnir, og til Jesú, meðalgángara ens nýa sáttmála, og til þess ádreifða blóðs, sem betur talar en Abel.
25. Sjáið við því, að þèr ekki útskúfið þeim, er talar, því ef þeir sluppu ekki hegníngarlaust, sem útskúfuðu þeim, sem á jörðu talaði Guðs erindi,

þá munum vèr því síður það
geta, ef vèr þverskölllumst við
þann, er frá himni talar, hvers
raust að þann tíð skók jörðina,
26. En nú hefir hann kunn-
gjört, segjandi: enn þá einu
sinni mun eg skaka, ekki ein-
úngis jörðina, heldur og him-
ininn;
27. En þetta orð: enn þá einu
sinni, gefur að skilja, að þeir
skeknu hlutir skuli umbreyt-
ast, svo sem þeir, er með
höndum sèu gjörðir, svo að
það vari við, sem óskekið er.
28. Látum oss því, er feingið
höfum óbifanlegt ríki, sýna
þakklátt hjarta, með hverju
vèr þjónum Guði, á honum
þóknanlegan hátt, með blygð-
unarsemi og lotníngarfullum
ótta.
29. Því vor Guð er eyðandi
eldur.

## 13. KAPÍTULI.

*Ýmislegar upphvatníngar, sem endast með þeim tilmælum: að söfnuðurinn vilji biðja fyrir höfundinum. Fyrirbænir. Sagt frá Tímóteusar lausn; heilsað og beðið að heilsa; árnað góðs.*

HALDIÐ stöðugum bróð-
urkærleika.
2. Gleymið ekki gestrisninni,
því vegna hennar hafa nokkrir
sèr óafvitandi hýst einglana.
3. Minnizt bandíngjanna, sem
væruð þèr þeirra sambandíngj-
ar, og þeirra, er ilt líða, svo
sem þeir, er sjálfir búa í lík-
ama þessum.
4. Hjúskapurinn skal heiðar-
legur haldinn vera hjá öllum,
og hjónasængin óflekkuð, en
frillulífismönnum og hórkörl-
um mun Guð refsa.
5. Sýnið einga fègirni í yð-
ar hegðun, heldur látið yður
nægjast það sem þèr hafið,
því Guð sjálfur hefir sagt: eg
skal ekki sleppa þèr nè yfir-
gefa þig,
6. Svo vèr megum öruggir
segja: Drottinn er minn hjálp-
ari, og því skal eg ekki ótt-
ast, hvað geta mennirnir gjört
mèr?
7. Verið minnugir yðar læri-
feðra, sem Guðs orð hafa til
yðar talað, skoðið þeirra lífs
afdrif og breytið eptir þeirra
trúar stöðuglyndi.
8. Jesús Kristur er í gær og
í dag og að eilífu einn og hinn
sami.
9. Látið yður ekki afvega leiða
af ýmislegum og annarlegum
lærdómum, því það er gott að
styrkja hjarta sitt við náðina,
en ekki við nautnarreglur, sem
ekkert stoða þá, sem eptir
þeim gánga.
10. Vèr höfum altari, af hvers
fórnum þeir ekki hafa rètt að
eta, er tjaldbúðinni þjóna.
11. Því blóð þeirra dýra, sem

til synda hreinsunar er af enum æðsta presti borið inn í helgidóminn, þeirra hræ eru brend fyrir utan herbúðirnar.

12. Þess vegna leið Jesús utan borgarhliða, að hann helgaði lýðinn með sínu blóði.

13. Gaungum því til hans út fyrir herbúðirnar, berandi hans vanvirðu:

14. Því vèr höfum hèr ekki varanlegan samastað, heldur leitum vèr annars tilkomanda.

15. Látum oss því ætíð fyrir hans flutníng frambera fyrir Guð lofgjörðar-offur, það er: ávöxt vorra vara, er viðurkenna hans nafn.

16. En gleymið ekki velgjörðaseminni og greiðvikninni, því slíkar fórnir eru Guði þóknanlegar.

17. Hlýðið yðrum kennifeðrum og verið þeim eptirlátir, því þeir vaka yfir sálum yðar, eins og þeir, er reikníngsskap eiga að standa, svo þeir gjöri það með gleði, en ekki með andvörpun, því þèr hafið ekki gott af því.

18. Biðjið fyrir oss, því vèr erum oss þess fullkomlega meðvitandi, að vèr höfum góða samvizku og viljum breyta vel í öllum greinum.

19. En því heldur bið eg yður þessa, að eg þess fyrr geti skilazt yður aptur.

20. En Guð friðarins, er uppvakti af dauða Drottinn vorn Jesúm Krist, hinn mikla hirðir sauðanna, fyrir blóð hins eilífa sáttmála,

21. Hann fullkomni yður í öllu góðu verki, til að gjöra hans vilja, hann, sem fyrir Jesúm Krist í yður verkar, það sem honum er þóknanlegt; honum sè dýrð um aldir alda, amen.

22. En eg bið yður, bræður, að þèr umberið þetta áminníngar orð, því fáort skrifaði eg yður.

23. Eg læt yður vita, að bróðir vor Tímóteus hefir feingið lausn, og ásamt honum ætla eg að sjá yður, komi hann bráðum.

24. Heilsið öllum yðar leiðtogum og öllum heilögum.

25. Þeir frá Ítalíu heilsa yður. Náð sè með öllum yður, amen.

---

# SÁNKTI JAKOBS PISTILL.

---

## 1. KAPÍTULI.

*Heilsan og uppörvan. Fátækir og ofsóktir kallast sælir. Orsök til freistínga. Áminníngar.*

JAKOB, Guðs og Drottins Jesú Krists þjón, heilsar þeim 12 kynkvíslum, sem á sundrúngi búa.

2. Álítið það mesta fagnaðarefni, bræður mínir, þegar þèr ratið í ýmislegar raunir,

3. Því þèr vitið, að reynsla yðar trúar verkar stöðuglyndi.

4. En stöðuglyndið á að fullkomna verkið, svo að þèr sèuð fullkomnir og algjörðir og yður sè í eingu ábótavant.

5. En vanti einhvern yðar vizku, þá biðji hann Guð, sem gefur öllum eptirtölulaust og án brigzlyrða, og mun hún honum gefast.

6. En hann biðji með trúnaðartrausti, og efist ekki; því sá, sem er efablandinn, hann er líkur hafsins bylgjum, uppæstum og hröktum af vindi.

7. Þvílíkur maður hugsi ekki, að hann fái nokkuð hjá Drottni.

8. Hann er maður tvílyndur, óstöðugur í öllu sínu ráðlagi.

9. En hinn lítilmótlegi bróðir hrósi sèr í sinni upphefð, en hinn ríki í sinni lægíngu;

10. Því eins og grassins blóm mun hann hverfa;

11. Því þá sólin hækkar með steikjandi hita, skrælnar grasið, og þess blóm dettur af, og fegurð útlits þess verður að eingu; þannig mun hinn ríki visna á sínum vegum.

12. Sæll er sá maður, sem stenzt reynsluna, því þegar búið er að reyna hann, mun hann meðtaka kórónu lífsins, sem Drottinn hefir þeim heitið, er hann elska.

13. Einginn, sem freistast, segi: eg freistast af Guði, því Guð freistast ekki af hinu illa, en hann sjálfur freistar og einskis;

14. Heldur freistast sèrhver, dreginn og veiddur af sinni eigin girnd;

15. Síðan, þar á eptir, þá girndin hefir feingið getnað, fæðir hún syndina, en þá syndin er fullþroskuð, fæðir hún dauða.

16. Villizt ekki, mínir elskulegu bræður.

17. Öll góð og öll fullkomin gjöf er ofan að, og kemur niður frá Föður ljósanna, hjá hverjum hvorki er umbreytíng nè umbreytíngar skuggi.

18. Eptir sínu ráði fæddi hann oss með sannleikans orði, svo að vèr skyldum vera frumgróði hans skepna.

19. Þess vegna, bræður mínir elskulegir, sè hver maður fús til að læra, seinn til að kenna, seinn til reiði,

20. Því reiði mannsins vinnur ekki það, sem rètt er fyrir Guði.

21. Afleggið því allan hroðaskap og gnægð illskunnar, og meðtakið orðið með hógværð, sem í yður er gróðursett, og sem megnar að frelsa yðar sálir.

22. En verðið orðsins gjörendur, og ekki einúngis heyrendur, því með því svíkið þèr yður sjálfa.

23. Því sè einhver orðsins heyrari, og ekki gjörari, sá er líkur þeim manni, sem skoðar sinn meðfædda andlits-skapnað í spegli;

24. Hann skoðaði sig að sönnu, en þá hann var burt geinginn, gleymdi hann jafnskjótt, hvílíkur hann var.

25. En sá, sem skygnist inn í hið fullkomna frelsislögmál og heldur sèr föstum við það, er ekki gleyminn heyrari, heldur gjörníngsins gjörari, og hann mun verða sæll af breytni sinni.

26. Þykist einhver yðar á meðal guðrækinn, og hefur ekki taumhald á túngu sinni, en tælir sitt eigið hjarta, hans guðrækni er fánýt.

27. Hrein og óflekkuð guðsdýrkan fyrir Guði og Föður er sú: að vitja munaðarlausra og ekkna í þeirra þreyngíngu, og að varðveita sjálfan sig flekklausan frá heiminum.

## 2. KAPÍTULI.

*Menn eiga ekki að fara í manngreinarálit; auðsýna öllum kærleika og hlýðnast öllum Guðs boðorðum. Trúin er dauð án verka.*

BRÆÐUR mínir, hindrið ekki trú vors dýrðlega Drottins Jesú Krists, með því að fara að mannvirðíngum.

2. Því þegar maður geingur inn í yðar söfnuð, sem gullhríng hefir á hendi og er í skínandi klæðum, en annar fátækur í töturlegum fötum,

3. Og yður verður starsýnt á þann, sem vel er búinn, og þèr segið við hann: set þig hèr heiðarlega, og til hins fátæka: stattu þar, eða settu þig hèr við fótskör mína,

4. Gjörið þèr þá ekki greinarmun með sjálfum yður, og

gjörizt dómendur vondra hugsana?

5. Heyrið, bræður mínir elskulegir, hefir Guð ekki útvalið hina fátæku í heiminum, svo að þeir verði auðugir að trú og erfíngjar þess ríkis, er hann hefir heitið þeim, sem hann elska?

6. En þèr óvirðið hina fátæku. Eru það þó ekki hinir ríku, sem undiroka yður og draga fyrir dóm?

7. Koma þeir ekki óorði á hið góða nafn, sem þèr eruð nefndir?

8. Ef þèr því gjörið fullnustu því konúnglega boðorði samkvæmt ritníngunni: "elska skaltu náúnga þinn, sem sjálfan þig," þá gjörið þèr vel;

9. En ef þèr farið í manngreinarálit, þá drýgið þèr synd, og lögmálið færir yður heim sanninn, að þèr sèuð yfirtroðslumenn.

10. Því þó einhver hèldi alt lögmálið, ef hann verður brotlegur í einu (boðorði), þá er hann orðinn sekur við þau öll.

11. Því sá, sem bauð: þú skalt ekki hór drýgja, hann bauð líka: þú skalt ekki mann vega; en þó að þú ekki drýgir hór, ef að þú vegur mann, ertu orðinn lögmálsins yfirtroðslumaður.

12. Talið þannig og breytið þannig, sem þeir, er dæmast munu eptir frelsisins lögmáli.

13. Því ómiskunsamur dómur mun gánga yfir þann, sem ekki auðsýnir miskun; miskunsemin fagnar dóminum.

14. Hvað stoðar það, bræður mínir, þótt einhver segist hafa trú, en hefir ekki verkin? Mun trúin geta frelsað hann?

15. Ef að bróðir eða systir eru nakin og vantar daglegt viðurværi,

16. En einhver yðar segði við þau: farið í friði, vermið yður og mettið, en gefið þeim ekki það, sem líkaminn þarf með, hvað stoðar það?

17. Eins er líka trúin, hafi hún ekki verkin, þá er hún dauð út af fyrir sig.

18. En nú segir einhver: þú hefir trú, en eg hefi verk, sýn mèr þá trú þína án verka þinna; eg skal sýna þèr mína af mínum verkum.

19. Þú trúir, að Guð sè einn, þú gjörir vel; en djöflarnir trúa því líka, og skelfast.

20. En fávísi maður, þú skalt vita, að trúin er dauð án verkanna.

21. Rèttlættist ekki Abraham, faðir vor, vegna verkanna, eptir það hann hafði lagt son sinn Ísaak upp á altarið?

22. Sèr þú ekki, að trúin var samtaka verkum hans, og að trúin fullkomnaðist með verkunum?

23. Og rættist svo ritníngin, sem segir: "Abraham trúði Guði, og það reiknaðist honum til rèttlætis," og hann var kallaður Guðs vinur.

24. Þèr sjáið þá, að maðurinn rèttlætist af verkunum, og ekki af trúnni einúngis.

25. Sömuleiðis einnig skækjan Rahab, rèttlættist hún ekki af verkunum, þá hún tók við njósnurunum og lèt þá fara frá sèr aðra leið?

26. Því eins og líkaminn er dauður án andans, eins er og trúin dauð án verkanna.

## 3. KAPÍTULI.

*Brúkun túngunnar. Spekinni lýst.*

VERIÐ ekki, bræður mínir, margir kennifeður, með því þèr vitið, að vèr (kennendurnir) munum fá þýngri dóm;

2. Því allir hrösum vèr margvíslega. Verði einhverjum ekki á í orði, þá er hann maður fullkominn, fær um að stýra öllum sínum líkama.

3. Sjáið, vèr leggjum beizli hestum í munn, svo þeir hlýði oss, og vèr getum sveigt allan þeirra líkama.

4. Lítið og til skipanna, sem eru svo stór, þó þau rekist af hörðum veðrum, verður þeim samt stýrt með harðla litlu stýri, hvert sem stýrimaðurinn vill.

5. Þannig er túngan lítill limur, en ræðst þó í mikið. Sjá, í hversu miklum skógi lítill neisti getur kveikt.

6. Túngan er og eldur, heimur fullur ránglætis. Eins er túngan sett meðal vorra lima, hún flekkar allan líkamann og upptendrar alt lífið, sjálf upptendruð af helvíti;

7. Því allar tegundir dýra og fugla, bæði skriðkvikinda og sjódýra, temjast og hafa verið tamin af kyni mannanna,

8. En túnguna getur einginn manna tamið, þessa óhemju, sem full er með banvænt eitur.

9. Með henni vegsömum vèr Guð og Föðurinn, og með henni formælum vèr mönnunum, sem skapaðir eru eptir Guðs mynd.

10. Af sama munni framgeingur blessan og bölvan; þetta má ekki svo vera, bræður mínir.

11. Hvort mun sætt og beiskt vatn geta sprottið upp af sama uppsprettu-auga nokkurrar lindar?

12. Mun fíkjutrèð, bræður mínir, geta af sèr gefið viðsmjörs ávöxt, eða víntrèð fíkjur? Þannig kann eigi heldur

saltur brunnur gefa af sèr
sætt vatn.
13. Sè nokkur vitur og hygg-
inn yðar á meðal, hann láti
með góðri umgeingni verk sín
lýsa hóglátri speki.
14. En ef þèr hafið beiska öf-
und og áreitni í yðar hjarta,
þá stærið yður ekki og ljúgið
ekki gegn sannleikanum.
15. Þvílík speki kemur ekki
ofan að, heldur er hún jarð-
nesk, holdleg, djöfulleg.
16. Því hvar sem öfund og
áreitni er, þar er sundurþykkja
og öll vond háttsemi.
17. En sú speki, sem ofan að
er, hún er fyrst fölskvalaus,
þar næst friðsöm, sannsýn, full
miskunar og góðra ávaxta, ó-
hlutdræg, hræsnislaus.
18. En rèttlætisins ávöxtur
verður þeim í friði sáður, sem
friðinn stunda.

## 4. KAPÍTULI.

*Postulinn varar við deilum. Ræður til lítillætis og auðmýktar. Varar við sjálfbyrgíngsskap.*

AF hverju koma stríð og
bardagar á meðal yðar?
Af hverju öðru, en af yðar
girndum, sem stríða í yðar
limum?
2. Þèr girnizt og fáið ekki;
þèr drepið og öfundið, og get-
ið þó ekki öðlazt, þèr berjizt
og stríðið, og fáið þó ekki, af
því þèr biðjið ekki.
3. Þèr biðjið og öðlizt þó ekki,
af því þèr biðjið illa, til þess
að þèr getið sóað því í yðar
munaðarlífi.
4. Þèr hórdómsmenn og
hórkonur, vitið þèr ekki, að
vinátta heimsins er óvinátta
Guðs? Hver sem því vill vera
vinur heimsins, verður óvinur
Guðs.
5. Eða haldið þèr, að ritníng-
in tali ófyrirsynju: mun sá
andi, sem í oss býr, leiða til
öfundar?
6. Hann gefur meiri náð; því
stendur skrifað: Guð mót-
stendur dramblátum, en lítil-
látum gefur hann náð.
7. Verðið því undirgefnir Guði,
standið móti djöflinum, og þá
mun hann flýa yður.
8. Nálægið yður Guði, og
þá mun hann nálgast yður.
Hreinsið hendur yðar, þèr
syndarar, og gjörið flekklaus
yðar hjörtu, þèr tvílyndu.
9. Berið yður illa, syrgið og
grátið; yðar hlátur skal um-
breytast í sorg, og gleðin í
hrygð.
10. Auðmýkið yður fyrir
Drottni, þá mun hann upp-
hefja yður.
11. Talið ekki illa hver um
annan, bræður mínir. Sá, sem
talar illa um bróður sinn og
dæmir hann, talar illa um lög-

málið og dæmir það; en ef
þú dæmir lögmálið, þá ertu
ekki lögmálsins gjörari, held-
ur dómari.
12. Einn er löggjafinn og
dómarinn, sá sem kann að
frelsa og tortýna. En hver
ertu, sem dæmir annan?
13. Heyrið, þèr, sem segið: í
dag og á morgun skulum vèr
fara til þessarar borgar, dvelja
þar eitt ár og kaupverzla og
græða,
14. (Sem þó ekki vitið, hvað
á morgun ske muni; því hví-
líkt er yðvart líf? gufa, sem sèst
um stund, en hverfur síðan),
15. Í stað þess þèr ættuð að
segja: ef Drottinn vill, og vèr
lifum, þá viljum vèr gjöra
þetta eða hitt.
16. En nú stærið þèr yður í
yðar oflátúngsskap; alt slíkt
stærilæti er vont.
17. Hver sem því hefir vit á
gott að gjöra, en gjörir það
ekki, honum er það synd.

## 5. KAPÍTULI.

*Postulinn varar við að treysta auði, og stæra sig af honum. Uppörvar þá, sem órètt líða, til stöðuglyndis, og að vera eiðvarir. Hvetur til bænrækni, og til að leiðrètta þá, sem viltir fara.*

HEYRIÐ nú, þèr ríku,
grátið og kveinið yfir
þeim eymdum, sem yfir yður
munu koma.
2. Yðar auður er þegar fún-
aður, og yðar klæði orðin
möletin.
3. Yðar gull og silfur er orð-
ið ryðbrunnið, og ryðið á því
mun verða vitni gegn yður og
eta yðar hold; þèr hafið fjár-
sjóðum safnað, sem eldsneyti,
á síðustu dögunum.
4. Sjá, launin, sem þèr hafið
dregið af verkamönnunum,
sem hafa slegið yðar lönd,
hrópa, og köll kornskeru-
mannanna eru komin til eyrna
Drottins alsherjar.
5. Þèr hafið lifað í sællífi og
óhófi á jörðunni; þèr hafið
alið yðar hjörtu, eins og til
skurðardags.
6. Þèr hafið dæmt til dauða
og drepið hinn rèttláta, hann
stendur ekki á móti yður.
7. Þreyið því, bræður mín-
ir, þángað til Drottinn kem-
ur. Sjáið, akuryrkjumaðurinn
væntir jarðarinnar dýrmæta
ávaxtar, og þreyir þar til hann
feingið hefir haustregnið og
vorregnið.
8. Þreyið og þèr, styrkið yð-
ar hjörtu, því tilkoma Drott-
ins nálægist.
9. Kvartið ekki hver yfir
öðrum, bræður mínir, svo þèr
ekki verðið dæmdir; sjá, dóm-
arinn stendur fyrir dyrunum.
10. Bræður mínir, takið spá-
mennina, sem talað hafa í

Drottins umboði, til eptirdæmis upp á það, að líða ilt með þolinmæði.

11. Sjá, vèr teljum þá sæla, sem þolgóðir eru; þèr hafið heyrt getið um þolgæði Jobs, og vitið, hver endalok Drottinn þar á gjörði; því Drottinn er harla miskunsamur og líknsamur.

12. En um fram alt, bræður mínir, sverjið hvorki við himininn nè við jörðina, nè nokkurn annan eið, en yðar já sè já, yðar nei sè nei, svo þèr komið ekki undir dóm.

13. Eigi einhver örðugt yðar á meðal, þá biðji hann; líði honum vel, þá sýngi hann (lof).

14. Sè einhver veikur yðar á meðal, þá kalli hann til sín öldúnga safnaðarins, og þeir biðji fyrir honum og smyrji hann viðsmjöri í nafni Drottins.

15. Því trúuð bæn mun frelsa hinn sjúka, og Drottinn mun reisa hann á fætur, og sú synd, sem hann hefir drýgt, mun honum fyrirgefin verða.

16. Játið hver fyrir öðrum yðar yfirsjónir, og biðjið hver fyrir öðrum, svo að þèr heilbrigðir verðið. Kröptug bæn hins rèttláta megnar mikið.

17. Elías var líkur oss að breyskleika; samt, þá hann bað þeirrar bænar, að ekki skyldi rigna, þá rigndi ekki yfir landið í þrjú ár og sex mánuði.

18. Og þá hann bað aptur, gaf himininn regn, og jörðin bar sinn ávöxt.

19. Bræður mínir, ef einhver meðal yðar hefur villzt frá sannleikanum og einhver snýr honum aptur,

20. Þá viti hann, að hver sem snýr syndaranum frá villu hans vegar, mun frelsa sálu frá dauða og hylja fjölda synda.



---

# SÁNKTI PÈTURS
## FYRRI PISTILL.

---

### 1. KAPÍTULI.

*Postulinn óskar góðs kristnum mönnum í Asíu o. s. frv. Prísar farsæld kristinna. Hvetur til að lifa kristinni trú samboðnu líferni.*

PÈTUR, postuli Jesú Krists, heilsar hinum útvöldu útlendu, sem tvístraðir eru út um Pontus, Galataland, Kappadokíu, Asíu og Bítyníu,

2. Sem, eptir Guðs Föðurs fyrirhugaða ráði, helgaðir eru með Andans aðstoð, til þess þeir hlýðnist Jesú Kristi og hreinsaðir verði með hans blóði. Náð og friður Guðs margfaldist yfir yður.

3. Lofaður sè Guð, Faðir Drottins vors Jesú Krists, sem fyrir upprisu Jesú Krists frá dauðum, hefir eptir mikilli miskun sinni endurfætt oss til lifandi vonar,

4. Til hlutteknîngar í þeirri arfleifð, sem yður er geymd á himnum og óforgeingileg er, flekklaus og aldrei fölnar,

5. Yður, sem fyrir Guðs öflugu aðstoð varðveitizt með trúnni, svo að þèr aðnjótandi verðið yður fyrirbúinnar sælu, er á síðasta tíma mun verða opinber.

6. Gleðjizt af þessu, þótt þèr nú um skamma stund (ef svo verður að vera) hryggjast megið af margs konar freistíngum,

7. Svo að yðar reynda trú, sem er lángt um dýrmætari en forgeingilegt gull, þótt í eldi sè reynt, verði yður til lofs, vegsemdar og dýrðar, þegar Jesús Kristur opinberast,

8. Sem þèr elskið, þó þèr ekki hafið sèð hann, af hverjum þèr, sem trúið á hann, þótt þèr nú ekki á hann horfið, gleðjist óútmálanlegum og dýrðlegum fögnuði,

9. Því þèr munuð bera úr býtum endurgjald fyrir yðar trú, frelsi yðar sálna.

10. Spámennirnir, er spáðu um heill þá, er við yður er fram komin, hafa út í þessa sælu gruflað og grenslazt eptir henni;

11. Þeir leituðust við að uppgötva, til hvers og hvílíks tíma

Kristsʼ Andi, sem í þeim bjó, meinti, þá hann fyrirsagði písl-ir Krists og þar á eptir fylgj-andi dýrð;
12. En þeim var það opin-berað, að þeir þjónuðu að þessu, ekki þeim sjálfum til gagns, heldur gagnaði það oss, og er þetta nú kunngjört af þeim, sem boða yður gleðiboð-skapinn fyrir Heilagan Anda, sem er ofan sendur frá himni, og inn í þetta fýsir (jafnvel) einglana að skygnast.
13. Hafið því lendar hugskots yðar umgyrtar, verið varhygð-arsamir, og setjið algjörlega von yðar til þeirrar náðar, sem yður mun veitast við tilkomu Jesú Krists;
14. Sem hlýðin börn, lagið eigi breytni yðar eptir þeim girndum, er þèr áður þjónuð-uð í vanvizku yðar,
15. Heldur verðið heilagir í öllu yðar dagfari, eins og sá er heilagur, er yður hefir kallað;
16. Því skrifað er: "verið heilagir, því eg em heilagur."
17. Og með því þèr ákallið þann sem Föður, er dæmir sèrhvern án manngreinarálits eptir hans verkum, þá fram-gángið, yðar útlegðar tíma, með óttablandinni varúð;
18. Þèr vitið, að þèr eigi eruð endurleystir með forgeingilegu silfri eða gulli frá yðar hègóm-lega athæfi, er þèr numið höfð-uð af feðrum yðar;
19. Heldur með dýrmætu blóði þess óflekkaða og lýta-lausa lambsins, Krists,
20. Sem að sönnu, áður en grundvöllur heimsins var lagð-ur, var fyrirhugaður, en birtist á þessum síðustu tímum vegna yðar.
21. Yðar, sem vegna hans trú-ið á Guð, er reisti hann upp frá dauðum og gaf honum dýrð, svo þèr hefðuð traust og von til Guðs.
22. Fyrst þèr nú með hlýðni við sannleikans (lærdóm) hafið fyrir Andann hreinsað sálir yðar til hræsnislausrar bróður-legrar elsku, þá elskið hver annan kappsamlega af hreinu hjarta,
23. Eins og þeir, sem endur-fæddir eru, ekki af forgeingi-legu sæði, heldur óforgeingi-legu, með Guðs lifanda og ævaranda orði.
24. Því alt hold er sem gras, og þess vegsemd, sem blómi grassins; grasið er þeg-ar skrælnað, og þess blómi af fallinn;
25. En orð Drottins varir að eilífu, og það er það orð, sem yður er boðað.

## 2. KAPÍTULI.

*Postulinn áminnir um að halda fast við Jesú lærdóm óbrjálaðan, forðast lesti og stunda dygðir, að þeir með því að forðast holdlegar girndir með hlýðni við yfirvaldið og bróðurlegum kærleika niðurþaggi öll illmæli gegn sèr. Skyldur þjónustufólks.*

AFLEGGIÐ því alskonar
vonzku og alla pretti,
hræsni, öfund og alt baktal,
2. Og sækizt, eins og nýfædd
börn, eptir hinni skynsömu,
ómeinguðu mjólk, svo þèr af
henni þroskizt, yður til frelsis;
3. Ef þèr hafið smakkað,
hversu sætur Drottinn er.
4. Með því þèr eruð komnir
til þessa lifandi steins, sem að
sönnu er af mönnum útskúf-
aður, en af Guði útvalinn og
dýrmætur,
5. Þá látið yður uppbyggjast
sem lifandi steina, (til þess
þèr verðið) andlegt musteri,
heilagt prestafèlag, til að fram-
bera andlegar fórnir, Guði vel-
þóknanlegar fyrir Jesúm Krist.
6. Fyrir því stendur (skrifað)
í ritníngunni: "sjá, eg set
hornstein í Síon, útvalinn og
dýrmætan; sá, sem trúir á
hann, mun eigi til skammar
verða."
7. Yður, sem trúið, er hann
dýrmætur; en hinum vantrú-
uðu er sá steinn, sem byggj-
endurnir burtsnöruðu, orðinn
að hyrníngarsteini
8. "Og að ásteytíngarsteini
og hneykslunar hellu." Þeir
sem hrasa, eru þeir sem ekki
trúa lærdóminum; til þess
voru þeir og settir.
9. En þèr eruð útvalin kyn-
slóð, konúnglegt prestafèlag,
heilagur lýður, (Guðs) eigið
fólk, til þess að víðfrægja
skylduð mikilleika hans, sem
kallaði yður frá myrkrinu til
síns aðdáanlega ljóss.
10. Þèr, sem forðum ekki
voruð lýður, eruð nú orðnir
lýður; þèr, sem ekki nutuð
miskunar, hafið nú miskun
hlotið.
11. Þèr ástkæru, eg áminni
yður, sem gesti og útlenda, að
þèr haldið yður frá holdlegum
girndum, sem stríða gegn sál-
unni.
12. Hegðið yður vel meðal
heiðinna þjóða, svo að þeir,
mitt í því þeir rógbera yður
sem illgjörðamenn, vegna yð-
ar góðverka, þegar þeir gæta
grant að, vegsami Guð á tíma
vitjunarinnar.
13. Verið því undirgefn-
ir Drottins vegna sèrhverju
af mönnum tilsettu yfirvaldi,
hvort heldur það er konúng-
urinn, sem hinum æðsta,
14. Eða það eru landshöfð-
íngjarnir, sem þeim, er af
honum eru sendir illgjörða-

mönnum til refsíngar, en lofstírs þeim, sem vel breyta;

15. Því það er vilji Guðs, að þeir, sem vel breyta, niðurþaggi óviturleik heimskra manna.

16. Sem frjálsir menn, en ekki sem þeir, er beita frelsinu vonzkunni til yfirhylmíngar, heldur sem þjónar Guðs,

17. Skuluð þèr alla virða, elska bræðrafèlagið, óttast Guð, heiðra konúnginn.

18. Þjónustumennirnir sèu undirgefnir Drottnum sínum með mesta (virðíngar) ótta, ekki einúngis hinum góðu og sanngjörnu, heldur einnig hinum ósanngjörnu;

19. Því það er náð, ef einhver af samvizkusemi og fyrir Guðs sakir umber hið mótdræga, er hann órèttilega líður.

20. Því hver frægð er í því, að þèr fyrir misgjörða sakir högg líðið? En ef þèr, þegar þèr breytið vel, líðið ilt og eruð þolinmóðir, það (ávinnur sèr) náð hjá Guði;

21. Því til þessa eruð þèr kallaðir, því Kristur leið einnig fyrir oss og eptirlèt oss fyrimynd til að breyta eptir, svo vèr skyldum feta í hans fótspor.

22. Hann drýgði ekki synd, og ekki eru svik fundin í hans munni;

23. Eigi illmælti hann aptur, þó honum væri illmælt, eigi hótaði hann, þá hann leið, heldur gaf það í hans vald, sem rèttvíslega dæmir;

24. Og bar (sjálfur) vorar syndir á sínum líkama upp á trèð, svo vèr skyldum skilja við syndirnar og lifa rèttlætinu; fyrir hans benjar eruð þèr læknaðir.

25. Því þèr voruð sem fráviltir sauðir, en nú hafið þèr snúið yður til hirðis og biskups yðvarra sálna.

## 3. KAPÍTULI.

*Áminnir hjónin til kristilegrar breytni hvort við annað, og alla til dygðugs lífernis yfir höfuð.*

ÞÈR konur, verið sömuleiðis yðrum mönnum undirgefnar, svo, þó að nokkrir sèu þeir, sem ekki vilja lærdóminum hlýðnast, þá verði þeir unnir, án orðsins (kenníngar), af dagfari kvennanna,

2. Þegar þeir sjá yðar skírlífu hegðan í ótta (Drottins).

3. Skart þeirra sè ekki (fólgið) í hinu útvortis: í hárflèttum, gullskarti og dýrmætum búnaði,

4. Heldur í hjartans innvortis ásigkomulagi, í óforgeingilegu (skarti) hógværs og kyrláts hugarfars, sem dýrmætt er fyrir Guðs augliti.

5. Því þannig prýddu sig forðum hinar helgu konur,

er settu sína von til Guðs, og voru sínum eiginmönnum undirgefnar.

6. Þannig hlýddi Sara Abraham og kallaði hann herra, og hennar börn verðið þèr, þegar þèr hegðið yður vel og einga skelfíngu hræðizt.

7. Sömuleiðis þèr menn, búið með skynsemi saman við konurnar, svo sem veikari skepnur, auðsýnið þeim virðíngu, með því þær og eru yðar samarfar í lífsins náðargjöf, svo yðar bænagjörðir ekki hindrist.

8. Í einu orði, verið samhuga, meðaumkunarsamir, bróðurlega sinnaðir, miskunsamir, ljúflyndir,

9. Gjaldið ekki ilt með illu, smánaryrði með smánarorðum, heldur þvert á mót blessið, með því þèr vitið, að þèr eruð til þess kallaðir, að þèr skulið blessunina öðlast.

10. Því sá, sem ann lífi sínu og vill sjá góða daga, haldi túngu sinni frá vondu, og vörum sínum frá sviksamlegu tali,

11. Sneiði sig hjá illu og gjöri gott, stundi friðsemi og gjöri sèr far um það.

12. Því augu Drottins líta til hinna rèttlátu, og hans eyru hneigjast til þeirra bæna, en auglit Drottins er gegn þeim, sem vont aðhafast.

13. Og hver mun yður geta grandað, ef þèr leitið þess, sem gott er?

14. En þó þèr ilt líðið fyrir rèttlætisins sakir, eruð þèr samt sælir. Hræðizt ekki þeirra ógnanir og skelfizt eigi fyrir þeim,

15. Heldur dýrkið Drottin Guð í yðar hjörtum, en verið (samt) ætíð reiðubúnir með hógværð og virðíngu til varnar fyrir hverjum (manni), er krefst af yður reikníngskapar fyrir þá von, sem í yður er,

16. Og hafið góða samvizku, svo að þeir, sem rógbera yður sem illgjörðamenn, verði til smánar fyrir það, að þeir hallmæla yðar góðu kristilegu breytni;

17. Því það er betra, ef Guð vill svo vera láta, að þèr líðið ilt fyrir góðverk, heldur en fyrir vond verk.

18. Því Kristur leið líka einu sinni fyrir syndirnar, sá rèttláti fyrir hina ránglátu, til þess hann leiddi oss til Guðs; að líkamanum til var hann deyddur, en lifandi gjörður eptir Andanum,

19. Í hverjum hann einnig fór burt og prèdikaði fyrir öndunum í varðhaldi,

20. Sem þverskölluðust, þegar Guðs lánglundargeð beið

eptir betrun þeirra á dögum Nóa þegar örkin var smíðuð, í hverri fáar, það er, átta sálir, frelsuðust í vatninu,

21. Og nú gjörir skírnin, sem ekki er burttekt líkamans saurugleika, heldur sáttmáli góðrar samvizku við Guð, eins og eptirmynd (ennar fyrri frelsunar) oss hólpna vegna upprisu Jesú Krists,

22. Sem situr við Guðs hægri hönd, uppfarinn til himins, og eru einglar, maktarvöld og höfðíngjar honum undirgefnir.

## 4. KAPÍTULI.

*Áminnir um að forðast þá lesti, er þeir áður drýgðu, stunda kristilegar dygðir og líða þolinmóðlega ofsóknir.*

FYRST Kristur þess vegna hefir liðið á líkamanum vor vegna, þá brynjið yður einnig sama hugarfari (því sá, sem líður á holdinu, lætur af að syndga),

2. Svo að þèr ekki framar, það eptir er af hinu líkamlega lífi, lifið holdlegum girndum, heldur samkvæmt Guðs vilja.

3. Því það er nóg, að vèr, það sem liðið er lífdaganna, höfum fylgt heiðinna manna siðum, lifað í stjórnleysi, (vondum) girndum, ofdrykkju, óhófi, samdrykkjum og svívirðilegri skurðgoðadýrkun;

4. Hvers vegna þá furðar það, að þèr (nú) ekki viljið hlaupa með þeim út í hið sama andvaraleysis díki, og tala því illa um yður;

5. En þeir munu mega gjöra honum reikníng, sem reiðubúinn er að dæma lifendur og dauða.

6. Þess vegna er og þeim, sem dauðir eru, náðarboðskapurinn kunngjörður, að þó að þeir af mönnum fordæmdir verði, hvað holdið snertir, skuli þeir samt Guði lifa, hvað andann snertir.

7. En endir allra hluta nálgast; hegðið yður því skynsamlega og verðið árvakrir til bæna;

8. En um fram alla hluti hafið innilega elsku hver til annars, því elskan mun hylja fjölda synda.

9. Verið gestrisnir innbyrðis án möglunar.

10. Hver (yðar) þjóni öðrum eptir þeirra gáfu, sem hann hefir þegið, eins og góðir ráðs menn margvíslegrar Guðs náðar.

11. Sá, sem kennir, (kenni) eins og Guðs orð. Sá, sem þjónustu hefir á hendi, gæti hennar eptir þeim mætti, sem Guð gefur honum, svo að Guð í öllum greinum vegsamist fyrir Jesúm Krist, og hans sè

dýrðin og mátturinn um aldir
alda. Amen.
12. Látið yður eigi undra,
mínir ástkæru, þá eldraun,
sem þèr verðið reyndir með,
eins og yður hendi eitthvað
óvænt;
13. Heldur gleðjið yður (af
því), að með því þèr eruð hlut-
takandi í Krists pínslum, þá
muni og yðar fögnuður mik-
ill verða, þegar hans dýrð
verður opinber.
14. Sælir eruð þèr, nær þèr
vanvirtir eruð fyrir Krists nafns
sakir, því þá hvílir yfir yður
dýrðarinnar og Guðs Andi,
sem að sönnu lastast af hinum,
en vegsamast af yður.
15. Því einginn yðar líði ilt
sem manndrápari, þjófur, ill-
virki, eða sem sá, er hnýsist
inn í það, sem honum eigi við
kemur, og slettir sèr fram í
annara málefni.
16. En ef nokkur líður ilt,
(vegna þess) hann er kristinn,
þá fyrirverði hann sig ekki,
heldur vegsami Guð fyrir það.
17. Því nú er sá tími, að dóm-
urinn byrji á Guðs húsi; en ef
(hann byrjar) fyrst á oss, hvílík
munu þá afdrif þeirra verða,
sem ekki vilja trúa Guðs gleði-
boðskap?
18. Og ef hinn rèttláti naum-
ast frelsast, hvar mun þá
hinn óguðlegi og syndarinn
lenda?
19. Fyrir því skulu þeir og,
sem (ilt) líða eptir vilja Guðs,
með góðri breytni fela honum
sálir sínar á hendur eins og
trúföstum skapara.

## 5. KAPÍTULI.

*Öldúnganna skylda við hina ýngri, og hinna ýngri við þá. Býður, að hver kristinn sýni öðrum lítillæti og sèu árvakrir. Góðar óskir.*

EG öldúngur og vottur
Krists písla, er ásamt yður
mun hlutdeild fá í þeirri dýrð,
sem síðar mun opinber verða,
áminni yður, mína meðöldúnga,
2. Að þèr gætið þeirrar Guðs
hjarðar, sem meðal yðar er,
ekki nauðugir, heldur af frjáls-
um vilja, nè fyrir ávinníngs
sakir, heldur fúslega,
3. Eigi sem þeir, er harðlega
vilja drottna yfir (Drottins)
arfleifð, heldur sem þeir, sem
eru fyrirmynd hjarðarinnar;
4. Þá munuð þèr, þegar hinn
æðsti hirðir birtist, bera úr
býtum dýrðarinnar kórónu,
sem aldrei fölnar.
5. Sömuleiðis verið þèr hinir
ýngri öldúngunum hlýðnir. En
verið allir hver öðrum undir-
gefnir og skrýðizt lítillætinu;
því Guð mótstendur dramblát-
um, en lítillátum veitir hann
náð.
6. Leggið yður því undir Guðs

voldugu hönd, svo að hann á
(sínum) tíma upphefji yður.
7. Varpið allri yðar áhyggju
upp á hann, því hann ber um-
hyggju fyrir yður.
8. Verið gætnir, vakið, því að
yðar mótstandari, djöfullinn,
geingur um kríng sem öskr-
andi ljón, leitandi að þeim,
sem hann geti gleypt.
9. Mótstandið honum stöðug-
ir í trúnni, og vitið, að bræður
yðar (annarstaðar) í heiminum
verða fyrir sömu neyð.
10. En Guð allrar náðar, sem
yður hefir kallað til sinnar
eilífu dýrðar í Jesú Kristi, ept-
ir að þèr þjáðst hafið um lítinn
tíma, hann fullkomni yður,
styrki, efli og staðfesti;
11. Hans er dýrðin og valdið
um aldir alda. Amen.
12. Þetta hefi eg látið Silvan-
us, stuttlega skrifa yður, sem
er trúr meðbróðir, að eg held,
og áminni eg og hátíðlega
vitna, að þetta er sú sanna
Guðs náð, sem þèr standið
stöðugir í.
13. Yður heilsar sá ásamt yð-
ur útvaldi (söfnuður) í Babý-
lon, og Markús, sonur minn.
14. Heilsið hver öðrum með
kærleiks kossi. Friður sè með
yður öllum, sem eruð í Kristi
Jesú.

---

# SÁNKTI PÈTURS

## SÍÐARI PISTILL.

### 1. KAPÍTULI.

*Postulinn óskar góðs hinum trúuðu. Hvetur til dygða. Sýnir trúverðugleika kenníngar sinnar.*

SÍMON Pètur, þjón og
postuli Jesú Krists, óskar
þeim, sem eins og vèr hlotið
hafið af gæzku Guðs vors og
frelsarans Jesú Krists sömu
dýrmætu trú,
2. Að náð og friður margfald-
ist yfir yður með þekkíngunni
á Guði og Drottni vorum Jesú
Kristi.
3. Hans guðdómlegi máttur
hefir af dýrðlegri gæzku sinni
veitt oss með þekkíngu þess,
sem oss hefir kallað, alt það
sem með þarf til (sannarlegs)
lífs og guðrækni.
4. Af þessari hans gæzku eru
oss gefin hin stærstu og dýr-
mætustu fyrirheiti, til þess að
þèr fyrir þau skylduð verða
hluttakandi guðlegrar náttúru
og forðast heimsins girnda
spillíngu.

5. Leggið því alla stund á þetta
og auðsýnið í trú yðvarri dygð-
ina, en í dygðinni þekkínguna,
6. En í þekkíngunni bindind-
ið, en í bindindinu þolinmæð-
ina, en í þolinmæðinni guð-
ræknina,
7. En í guðrækninni bróður-
elskuna, en í bróðurelskunni
elskuna (til allra);
8. Því ef þessar dygðir finn-
ast hjá yður, og í gnægð,
munu þær ekki láta yður vera
iðjulausa og ávaxtarlausa í
þekkíngu Drottins vors Jesú
Krists.
9. Því hjá þeim sem þær eru
ekki, hann er blindur, byrgir
fyrir augu sèr, og gleymir
hreinsun sinna fyrri synda.
10. Kappkostið því, bræður
mínir, að staðfesta yðar köll-
un og útvalníngu; því ef þèr
þetta gjörið, munuð þèr ekki
nokkru sinni hrasa;
11. Því þá mun yður veitast
ljúfur inngángur í hið eilífa
ríki Drottins vors og frelsara
Jesú Krists.
12. Þess vegna vil eg ekki
vanrækja, sífeldlega að áminna
yður um þetta, jafnvel þó yður
sè þetta kunnugt, og þèr stand-
ið stöðugir í þeim sannleika,
sem hjá yður er.
13. En eg álít það rètt vera,
að eg veki yður með minni
áminníngu, á meðan eg er í
þessari tjaldbúð;
14. Því eg veit, að þess er
skamt að bíða, að minni tjald-
búð verði svipt, eins og Drott-
inn vor Jesús Kristur hefir
mèr opinberað,
15. Og vil því leggja kapp á,
að þèr ætíð hafið það, sem eptir
mína burtför haldi þessu yður
í minni.
16. Því ekki fylgdum vèr
spaklega uppspunnum skrök-
sögum, þá vèr kunngjörðum
yður um mátt og hèrveru
Drottins vors Jesú Krists, held-
ur vorum vèr sjálfir sjónarvott-
ar að hans hátign;
17. Því hann meðtók af Guði
Föður heiður og dýrð, þá því-
lík raust barst honum frá hinni
hátignarfullu dýrð: "þessi er
minn elskulegi Sonur, sem eg
hefi velþóknun á;"
18. Og þessa raust heyrðum
vèr koma frá himni, þá vèr
vorum með honum á fjallinu
helga.
19. Við þetta urðum vèr viss-
ari um spámannanna orð, og
þèr breytið vel, ef þèr gefið
gaum að því, eins og ljósi,
sem skín á myrkum stað, þar
til dagur ljómar og morgun-
stjarnan upprennur í yðrum
hjörtum.
20. Um fram alt vitið, að eing-

inn spádómur ritníngarinnar skilst af sjálfum sèr;

21. Því að aldrei hefir nokkur spádómur framfluttur verið eptir mannsins vild, heldur töluðu hinir helgu Guðs menn til knúðir, af Heilögum Anda.

## 2. KAPÍTULI.

*Postulinn lýsir falskennendunum og þeirri hegníngu, sem þeir eigi von á.*

EN eins og (áður) voru falsspámenn meðal lýðsins, þannig munu líka falskennendur rísa upp á meðal yðar, er innsmeygja munu háskalegum villum, afneita Drottni, sem þá hefir keypt, og yfir sig leiða bráða glötun,

2. Og margir munu fylgja þeirra stjórnlausa lifnaði fyrir hverra sakir ilt orð koma mun á veg sannleikans.

3. Af ágirnd munu þeir með tælandi kenníngum hafa yður fyrir fè; fyrirdæmíng þeirra, fyrir laungu (feld), mun ekki heldur dragast, og glötun þeirra mun eigi dotta.

4. Því ef Guð þyrmdi ekki einglunum, sem syndguðu, heldur steypti þeim til helvítis og setti þá í myrkra fjötur, svo að þeir varðveittust til dómsins,

5. Og ekki heldur þyrmdi hinum forna heimi, þegar hann lèt vatnsflóðið koma yfir heim hinna óguðlegu, en varðveitti Nóa, rèttlætis prèdikarann, sjálfan áttunda;

6. Og gjörði borgirnar Sódóma og Gomorra að ösku, fordæmdi til eyðileggíngar, og setti þeim til fyrirmyndar, sem síðar mundu breyta óguðlega;

7. En frelsaði hinn ráðvanda Lot, er kvaldist af svívirðilegum lifnaði hinna þverbrotnu,

8. Því að sá ráðvandi, sem bjó á meðal þeirra, kvaldist í sinni rèttlátu sálu dag frá degi af þeim ódáðaverkum, er hann varð að sjá og heyra.

9. Þannig veit Drottinn að hrífa hina guðhræddu úr freistíngunni, en geyma til dómsdagsins hina ránglátu til hegníngar,

10. Einna helzt þá, sem af saurlífum losta fylgja holdsins vild, og fyrirlíta (öll) yfirráð. Sem fífldjarfir sjálfbyrgíngar svífast þeir ekki að lasta tignarvöldin,

11. Þar eð þó einglarnir, sem eru þeim að makt og veldi meiri, eigi fella löstunardóm gegn þeim hjá Drottni.

12. En eins og skynlaus dýr, er fylgja girndum sínum, sem fædd eru til að veiðast og fyrirfarast, lasta þessir það sem þeir ekki þekkja, og munu því tortýnast vegna þeirra spillíng-

ár, og ránglætis verðlaun úr býtum bera.

13. Þeir hafa yndi af, daglega að lifa í óhófi, eru (svívirðilegir) blettir og vansi, lifa svallsamlega af prettum sínum, þegar þeir sitja í veizlum með yður;

14. Þeir hafa augu full saurlifnaðar, og þeim verður ekki frá syndinni haldið, og fleka óstyrkar sálir; hjarta þeirra er í ágirnd æft; þeir eru bölvunarinnar börn,

15. Sem hafa yfirgefið rèttan veg, villast og fylgja vegi Balaams, (sonar) Bósors, sem elskaði laun ránglætisins,

16. En varð uppvís að glæp sínum; mállaust akneyti talaði manna máli og aptraði spámannsins fásinnu.

17. Þvílíkir eru vatnslausir brunnar, og ský af hvirfilbyl hrakin, og er þeim myrkursins dimma að eilífu geymd.

18. Því þegar þeir láta klíngja drambsöm hègómaorð, tæla þeir með holdlegum girndum og svívirðilegum lifnaði þá, sem fyrir skömmu hafa komizt frá þeim, sem gánga í villu;

19. Þeir heita þeim frelsi, þó þeir sèu sjálfir spillíngarinnar þrælar, því sèrhver verður ánauðugur þræll þess, sem hann sigrast af.

20. Því ef að þeir, sem með þekkíng Drottins vors frelsara Jesú Krists sloppnir voru frá heimsins saurugleika, flækja sig í honum (á ný) og sigrast, þá verður þeirra hið síðara verra hinu fyrra;

21. Því betra var þeim aldrei að hafa þekt veginn rèttlætisins, heldur en eptir það þeir hafa þekt hann, að snúa aptur frá hinu heilaga lögmáli, sem þeim var gefið.

22. Á þvílíkum á heima sannmæli þessi: "hundurinn snýr aptur til sinnar spýu," og "þvegið svín til leirveltunnar."

## 3. KAPÍTULI.

*Talar um Krists tilkomu til dómsins, og minnir á, að menn skuli búa sig undir þann tíma.*

ÞETTA er nú hið annað brèf, elskanlegir í hverju eg hvet með áminníngu yðar hreinskilna hugskot,

2. Að minnast þeirra orða, er áður hafa talað hinir heilögu spámenn, og boðorða þeirra, er vèr, Drottins vors og frelsara postular, höfum yður gefið.

3. Fyrst og fremst skuluð þèr það vita, að á hinum síðustu dögum, munu koma spottarar, er sínum eigin girndum fylgja, og segja:

4. Hvað verður úr fyrirheitinu um Krists tilkomu? því frá því feðurnir sofnuðu, stendur

alt við sama, eins og (það var)
í öndverðu sköpunarinnar.
5. Því þeim, sem þannig eru
sinnaðir er það hulið, að himn-
arnir forðum urðu, og jörðin
af vatni og framleidd af vatni
með Guðs (almættis) orði;
6. Hvers vegna sá heimur,
sem þá var, byrgðist af vatni
og eyðilagðist.
7. En þeir himnar, sem nú
eru, og jörðin, geymast eldin-
um fyrir hins sama (almættis)
orð og varðveitast til þess dags,
á hverjum óguðlegir munu
dæmast, og tortýnast.
8. En þetta eitt, mínir elskan-
legu, sè yður eigi ókunnugt,
"að einn dagur er hjá Drottni
sem þúsund ár, og þúsund ár,
sem einn dagur."
9. Ekki seinkar Drottinn sínu
fyrirheiti (þó sumir álíti þetta
seinlæti); heldur hefur hann
biðlund við oss, þar eð hann
ekki vill, að nokkur fyrirfar-
ist, heldur að allir komist til
sinnis betrunar.
10. En dagur Drottins mun
koma sem þjófur á nóttu, þá
munu himnarnir með miklum
gný líða undir lok, frumefnin
af eldi sundurleysast, og jörð-
in og þau verk, sem á henni
eru, uppbrenna.
11. Þar eð alt þetta ferst, hví-
líkum mun yður þá byrja að
vera? Með heilagri breytni
og guðrækilegu líferni
12. Ber yður að þreya og flýta
fyrir tilkomu Guðs dags, þá
himnarnir munu í eldi sundur-
leysast og frumefnin af hita
bráðna.
13. En eptir hans fyrirheiti
væntum vèr nýs himins og
nýrrar jarðar þar sem rèttlæt-
ið muni búa.
14. Fyrir því, elskanlegir, með
því þèr eigið á þvílíku von, þá
stundið í friði, án flekkja og
lýta fyrir honum fundnir verða,
15. Og álítið biðlund Drottins
vors vera hjálpræðis meðal,
eins og meðbróðir vor Páll
hefir yður ritað, eptir þeirri
speki sem honum er gefin,
16. Sem sjá má af brèfum
(hans), þar sem hann talar um
þess háttar, í hverjum sumt
er þúngskilið, er fáfróðir og
staðfestulausir rángsnúa, eins
og öðru í ritníngunum, þeim
sjálfum til glötunar.
17. Elskanlegir, gætið yðar
þess vegna, með því þèr vitið
þetta fyrir fram, að þèr látið
eigi villu þverbrotinna manna
draga yður með sèr og leiða
frá yðar stöðuglyndi.
18. En vaxið í náð og þekk-
íngu Drottins vors Jesú Krists.
Honum sè dýrðin, bæði nú og
til eilífrar tíðar. Amen.

# SÁNKTI JÓHANNESAR
## FYRSTI PISTILL.

---

### 1. KAPÍTULI.

*Um samfèlag við Guð. Það fæst með því, að uppfræðast í Krists lærdómi, og játa syndir sínar.*

ÞAÐ, sem var frá upphafi; það, sem vèr höfum heyrt; það, sem vèr með vorum augum höfum sèð; það, sem vèr höfum skoðað og vorar hendur hafa þreifað á, um orð lífsins.

2.(Því lífið er opinberað, og vèr höfum sèð, og vottum og boðum yður lífið eilífa, sem var hjá Föðurnum, en birtist oss), það, sem vèr höfum sèð og heyrt,

3. Það boðum vèr yður, til þess að þèr líka gætuð haft samfèlag við oss, en vort samfèlag er við Föðurinn og Son hans Jesúm Krist.

4. Og þetta skrifum vèr yður, svo að yðar fögnuður geti orðið fullkominn.

5. Og þetta er boðskapurinn, sem vèr höfum heyrt af honum og boðum yður: að Guð er ljós, eg ekkert myrkur er í honum.

6. Ef vèr segjum að vèr höfum samfèlag við hann, og gaungum þó í myrkrinu, þá ljúgum vèr og fylgjum ekki sannleikanum.

7. En ef vèr framgaungum í ljósinu, eins og hann er sjálfur í ljósinu, þá höfum vèr samfèlag innbyrðis, og blóðið Jesú Krists, hans Sonar, hreinsar oss af allri synd.

8. Ef vèr segjum: vèr höfum ekki synd, þá svíkjum vèr sjálfa oss, og sannleikurinn er ekki í oss.

9. En ef vèr viðurkennum vorar syndir, þá er hann trúfastur og rèttvís, svo að hann fyrirgefur oss syndirnar og hreinsar oss frá öllu ránglæti.

10. Ef vèr segjum, að vèr ekki höfum syndgað, gjörum vèr hann að lygara, og hans orð er ekki í oss.

### 2. KAPÍTULI.

*Varar við synd, en kennir undir eins, að þó kristnir verði brotlegir, sé Kristur þeirra árnaðarmaður. Kennir, að á því sjáist, hvort þeir þekki rètt Guð og sèu í samfèlagi við hann, að þeir haldi hans boð, elski hann og náúngann, en ekki hið jarðneska. Hvetur til að forðast villulærdóm og viðhalda hjá sèr kristilegu hugarfari.*

BÖRN mín, þetta skrifa eg yður til þess, að þèr syndgið ekki; en ef einhver

syndgar, þá höfum vèr árnaðarmann hjá Föðurnum, Jesúm Krist hinn rèttláta;

2. Og hann er forlíkan fyrir vorar syndir, þó ekki einúngis fyrir vorar, heldur líka fyrir allrar veraldarinnar syndir.

3. Og á því vitum vèr, að vèr þekkjum hann, ef vèr varðveitum hans orð.

4. Hver sem segir: eg þekki hann, og varðveitir ekki hans boðorð, er lygari, og í slíkum er ekki sannleikur.

5. En hver sem hans orð varðveitir, í honum er sannarlega elskan til Guðs fullkomin, og af því þekkjum vèr, að vèr erum í honum.

6. Hver sem segist vera stöðuglega í honum, honum ber að breyta, eins og hann breytti.

7. Elskanlegir, nýtt boðorð skrifa eg yður ekki, heldur gamalt boðorð, sem þèr hafið haft frá upphafi; hið gamla boðorð er það orð, sem þèr hafið heyrt frá upphafi.

8. Aptur skrifa eg yður nýtt boðorð, sem er sannarlegt í honum og í yður, því myrkrið er horfið, og hið sanna ljós er þegar farið að skína.

9. Hver sem segist vera í ljósinu og hatar bróður sinn, sá er enn þá í myrkrinu.

10. Hver sem elskar bróður sinn, sá er í ljósinu, og hjá honum er ekki hneyksli.

11. En hver, sem hatar bróður sinn, sá er í myrkrinu og ráfar í myrkrinu og veit ekki hvert hann fer, því myrkrið hefir blindað augu hans.

12. Eg skrifa yður, börn mín, vegna þess að yðar syndir eru yður fyrirgefnar fyrir hans nafns sakir.

13. Eg skrifa yður, feður, því að þèr hafið þekt hann, sem er frá upphafi. Eg skrifa yður, únglíngar, því þèr hafið sigrað hinn vonda.

14. Eg skrifa yður, börn, því þèr þekkið Föðurinn. Eg hefi skrifað yður, feður, því þèr hafið þekt hann, sem er frá upphafi. Eg hefi skrifað yður, ýngismenn, því þèr eruð styrkvir, eruð stöðugir við Guðs orð, og hafið sigrað hinn vonda.

15. Elskið ekki heiminn, ekki heldur þá hluti, sem í honum eru; ef nokkur elskar heiminn, í honum er ekki kærleiki Föðursins;

16. Því alt það sem í heiminum er, sem er fýsn holdsins, fýsn augnanna og stærilátt líferni, það er ekki frá Föðurnum, heldur frá heiminum;

17. En heimurinn fyrirferst

og hans lystíngar, en sá, sem
gjörir Guðs vilja, varir að
eilífu,
18. Börn mín, hinn síðasti
tími er fyrir höndum, og eins
og þèr hafið heyrt, að anta-
kristurinn muni koma, eins
eru nú þegar margir antakrist-
ar komnir, og af því vitum vèr,
að það er hin síðasta stund.
19. Frá oss eru þeir útfarnir,
en þeir voru ekki vorir, því ef
þeir hefðu vorir verið, þá hefðu
þeir stöðuglega verið með oss,
en það varð að verða augljóst,
að allir væru ekki vorir.
20. En þèr hafið smurníngu
af hinum Heilaga, og vitið alt.
21. Ekki skrifaði eg yður
vegna þess, að þèr þekkið ekki
sannleikann, heldur af því þèr
þekkið hann, og af því að eing-
in lygi á skylt við sannleikann.
22. Hver er (framar) lygari,
en sá sem neitar, að Jesús sè
Kristur? þessi er Antakristur-
inn, sem afneitar Föðurnum
og Syninum.
23. Hver, sem afneitar Synin-
um, hefir ekki heldur samfèlag
við Föðurinn; hver, sem viður-
kennir Soninn, hefir og sam-
fèlag við Föðurinn.
24. Haldið yður stöðuglega
við það, sem þèr heyrt hafið
frá upphafi, en ef þèr haldið
yður stöðuglega við það, sem
þèr frá upphafi hafið heyrt, þá
munuð þèr einnig við Soninn
og Föðurinn halda yður stöð-
uglega;
25. Og þetta er fyrirheitið,
sem hann hefir oss heitið, hið
eilífa lífið.
26. Þetta hefi eg skrifað yður
áhrærandi þá, sem vilja afvega
leiða yður.
27. En sú smurníng, sem þèr
fenguð af honum, hún viðhelzt
hjá yður, svo þèr þurfið þess
ekki með, að nokkur kenni yð-
ur, heldur eins og smurníngin
fræðir um alt, og hún er sann-
leiki, en eingin lygi, eins sèuð
þèr honum nákvæmlega sam-
einaðir, eins og hún hefir kent
yður.
28. Og nú, börn mín, verið
innilega sameinaðir honum, svo
að vèr getum, þegar hann opin-
berast, haft djörfúng, og blygð-
umst ekki fyrir honum við
hans tilkomu.
29. Ef þèr vitið það, að hann
er rèttlátur, þá vitið einnig,
að hver sem rèttlæti stundar,
hann er af honum fæddur.

## 3. KAPÍTULI.

*Guð er rèttlátur. Sá, sem stundar rèttlæti, er Guðs barn. Hvílíkur sómi og heill það er, að vera Guðs barn. Sá, sem við það kannast, forðast synd og elskar bræðurna, að dæmi Krists, sem Guð gaf í dauðann mönnum til frelsis. Þessi elska til Guðs gefur oss trúartraust og hvetur til hlýðni við Guð.*

SJÁIÐ, hvílíkan kærleika Faðirinn hefir oss auðsýnt, að vèr skulum Guðs börn kallast; þess vegna kannast ekki heimurinn við oss, af því hann þekkir hann ekki.

2. Elskanlegir, nú þegar erum vèr Guðs börn, en það er enn þá ekki opinbert, hvað vèr verða munum, en það vitum vèr, að þegar hann birtist, þá munum vèr verða honum líkir, því að vèr munum sjá hann, eins og hann er.

3. Og hver, sem hefir þessa von til hans, hreinsar sjálfan sig, eins og hann er hreinn.

4. Hver, sem synd drýgir, drýgir líka lagabrot, og syndin er lagabrot;

5. En þèr vitið, að hann hefir birzt til þess, að hann burttæki vorar syndir, og að ekki er synd í honum;

6. Hver, sem heldur sèr stöðuglega við hann, syndgar ekki, hver, sem syndgar, hefir hvorki sèð hann nè þekt.

7. Börn, látið eingan villa yður; hver, sem rèttvísina gjörir, er rèttvís, eins og hann er rèttvís.

8. Hver, sem syndina gjörir, er af djöflinum, því að djöfullinn syndgar frá upphafi; til þess birtist Guðs Sonur, að hann niðurbryti djöfulsins verk.

9. Hver sem af Guði er getinn, drýgir ekki synd, því sæði hans er varanlegt í honum, og hann getur ekki syndgað, því að hann er af Guði getinn.

10. Af þessu eru augljós Guðs börn og börn djöfulsins; hver sem ekki gjörir það, sem er rètt, hann er ekki af Guði, og hver sem ekki elskar sinn bróður.

11. Því þetta er sú kenníng, sem þèr hafið heyrt frá upphafi, að vèr skulum elska hver annan;

12. Ekki sem Kain, er var af hinum vonda og myrti bróður sinn, og fyrir hvað myrti hann hann? Af því að verk hans voru vond, en bróður hans rèttvís.

13. Undrizt ekki, bræður mínir, þótt heimurinn hati yður.

14. Vèr vitum, að vèr erum komnir úr dauðanum til lífsins, af því vèr elskum bræðurna; hver sem ekki elskar bróður sinn, hann er enn í dauðanum.

15. Hver, sem hatar bróður sinn, er manndrápari, en þèr vitið, að eínginn manndrápari hefir eilífa lífið í sèr varanda.

16. Af því þekkjum vèr kærleikann, að hann gaf sitt líf út fyrir oss; eins erum vèr

skyldugir að láta lífið fyrir bræðurna.

17. En sá sem hefir þessa heims auðæfi og sèr bróður sinn líða neyð og apturlykur sínu hjarta fyrir honum, hvernig getur elskan til Guðs verið staðföst með honum?

18. Börn mín, elskum ekki með orði og túngu, heldur í verki og sannleika;

19. Og af þessu þekkjum vèr, að vèr aðhyllumst sannleikann, að vèr getum friðað vor hjörtu fyrir hans augliti;

20. Því þó vort hjarta fordæmi oss, er Guð samt meiri voru hjarta og þekkir alt.

21. Elskanlegir, ef vort hjarta fordæmir oss ekki, þá höfum vèr djörfúng til Guðs,

22. Og það, sem vèr biðjum hann um, það mun hann veita oss, af því vèr höldum hans boðorð og gjörum það, sem er velþóknanlegt fyrir hans augliti.

23. Og þetta er hans boðorð: að vèr trúum á nafn hans Sonar Jesú Krists, og elskum hver annan samkvæmt því boðorði, sem hann hefir gefið oss;

24. En hver sá sem heldur hans boðorð, hann er Guði staðfastlega sameinaður, og Guð honum, og af því þekkjum vèr, að hann er stöðuglega í samfèlagi við oss, af þeim Anda, sem hann hefir oss gefið.

## 4. KAPÍTULI.

*Jóhannes varar við falskennendum. Talar um Guðs elsku til vor, og að kristnum beri að elska hann aptur, og sýna þessa elsku í elsku til náúngans.*

ELSKANLEGIR, trúið ekki sèrhverjum anda, heldur reynið andana, hvort þeir sèu frá Guði, því að margir falsspámenn hafa farið út um heiminn.

2. Af þessu skuluð þèr þekkja Guðs Anda: hver andi, sem viðurkennir, að Jesús Kristur hafi komið í holdinu, hann er frá Guði.

3. En hver sá andi, sem ekki viðurkennir, að Jesús Kristur hafi komið í holdinu, hann er ekki frá Guði, heldur er hann antakristsins (andi), sem þèr hafið heyrt, að koma muni, og sem nú þegar er í heiminum.

4. Þèr, börn mín, eruð af Guði (fædd), og hafið þá sigrað, því að sá er meiri, sem í yður er, en hinn, sem er í heiminum.

5. Þeir eru af heiminum, og þess vegna tala þeir af heiminum, og heimurinn hlýðir á þá.

6. Vèr erum af Guði; hver, sem þekkir Guð, hlýðir oss; hver, sem ekki er af Guði,

hlustar ekki á vora kenníngu; af þessu þekkjum vèr anda sannleikans og anda villunnar.

7. Elskanlegir, elskumst innbyrðis, því að kærleikurinn er frá Guði, og hver, sem elskar, er af Guði fæddur og þekkir Guð.

8. Hver, sem ekki elskar, þekkir ekki Guð, því að Guð er kærleikurinn;

9. Í því opinberast elska Guðs til vor, að Guð sendi sinn eingetinn Son í heiminn, svo vèr skyldum lifa fyrir hann.

10. Í þessu er elskan innifalin, ekki að vèr elskuðum Guð, heldur að hann elskaði oss og sendi sinn Son til forlíkunar fyrir vorar syndir.

11. Þèr elskanlegir, fyrst Guð hefir svo elskað oss, þá ber oss að elska hver annan.

12. Einginn hefir nokkurn tíma Guð sèð; ef vèr elskum hver annan, þá er Guð stöðuglega í oss, og hans kærleiki er fullkomnaður í oss.

13. Af því þekkjum vèr, að vèr erum stöðugir í honum, og hann í oss, að hann hefir gefið oss af sínum Anda,

14. Og vèr höfum sèð og vitnum, að Faðirinn hefir sent Soninn, heimsins frelsara.

15. Hver sem viðurkennir, að Jesús sè Guðs Sonur, í honum er Guð stöðuglega, og hann í Guði.

16. Og vèr höfum þekt og treyst þeirri elsku, sem Guð hefir til vor; Guð er kærleikurinn, og hver, sem er stöðugur í kærleikanum, sá er stöðugur í Guði, og Guð í honum.

17. Í því sýnir sig, að elskan með oss er fullkomin, að vèr höfum djörfúng á degi dómsins; því að eins og hann er, eins erum vèr einnig í heimi þessum.

18. Ótti er ekki í elskunni, heldur útrekur fullkomin elska óttann, því að óttinn hefir kvöl, en sá, sem óttast, er ekki fullkominn í elskunni.

19. Elskum hann, því hann hefir elskað oss að fyrra bragði.

20. Ef einhver segir: eg elska Guð, og hatar bróður sinn, sá er lygari; því hver sem ekki elskar bróður sinn, sem hann hefir sèð, hvernin getur hann elskað Guð, sem hann hefir ekki sèð?

21. Og þetta boðorð höfum vèr frá honum: að sá, sem elskar Guð, eigi einnig að elska bróður sinn.

## 5. KAPÍTULI.

*Sá, sem trúir, að Jesús sè Guðs Son og elskar Guð, er af Guði fæddur. Honum er ekki örðugt að halda Guðs boð. Vatnið, blóðið og Andinn sannar, að Jesús sè Guðs Sonur. Sá, sem þessum vitnum trúir, hefir eilíft líf í sèr búandi, treystir Guði og forðast syndir.*

HVER, sem trúir að Jesús sè Kristur, er af Guði fæddur, og hver, sem elskar Föðurinn, elskar einnig þann, sem er fæddur af honum.

2. Af því þekkjum vèr, að vèr elskum Guðs börn, þegar vèr elskum Guð og höldum hans boðorð;

3. Því að í því sýnir sig elskan til Guðs, að vèr höldum hans boðorð, og hans boðorð eru ekki þúng;

4. Því alt, sem af Guði er fætt, sigrar heiminn, og vor trú er sigurinn, sem hefir sigrað heiminn.

5. En hver getur sigrað heiminn, nema sá, sem trúir, að Jesús sè Guðs Sonur?

6. Þessi er sá, sem kom með vatni og blóði, Jesús Kristur, ekki með vatni einúngis, heldur með vatni og blóði, og Andinn er sá, sem vitnar, því að Andinn er sannleikurinn.

7. Því þeir eru þrír, sem vitna [í himninum: Faðirinn, Orðið og Heilagur Andi, og þessir þrír eru eitt.

8. Og þeir eru þrír, sem vitna á jörðunni]: Andinn, vatnið og blóðið, og þessir þrír vitna eitt og hið sama.

9. Ef vèr tökum manna vitnisburð gildan, þá er Guðs vitnisburður meiri, því þetta er vitnisburður Guðs, sem hann hefir vitnað um sinn Son.

10. Hver, sem trúir á Guðs Son, hefir þenna vitnisburð í sjálfum sèr; hver, sem ekki trúir Guði, hefir gjört hann að lygara, af því hann hefir ekki trúað þeim vitnisburði, sem Guð hefir vitnað um sinn Son.

11. Og þetta er vitnisburðurinn: að Guð hefir gefið oss eilíft líf, og þetta líf er í hans Syni.

12. Sá, sem hefir Soninn, hefir lífið; sá, sem ekki hefir Guðs Son, hefir ekki lífið.

13. Þetta hefi eg skrifað yður, sem trúið á nafn Guðs Sonar, svo þèr vitið, að þèr hafið eilíft líf, og þèr trúið á nafn Guðs Sonar.

14. Og þetta er sú djörfúng, sem vèr höfum til hans, að ef vèr biðjum um eitthvað eptir hans vilja, þá heyrir hann oss.

15. Og ef vèr vitum, að hann bænheyrir oss, um það sem vèr biðjum, þá vitum vèr, að vèr fáum þær bænir, sem vèr höfum hann beðið.

16. Ef einhver sèr bróður sinn drýgja synd, en ekki til dauða, sá biðji, og mun hann gefa honum líf, þeim, sem ekki syndga til dauða; nú er syndin til dauða, fyrir þeirri synd

segi eg ekki að hann skuli biðja.
17. Alt ránglæti er synd, en það er til synd, sem ekki er til dauða.
18. Vèr vitum, að hver sem af Guði er fæddur, syndgar ekki, heldur sá, sem af Guði er fæddur, gætir sín, og hinn vondi snertir hann ekki.
19. Vèr vitum, að vèr erum af Guði, að allur heimurinn velkist í hinu vonda.
20. Líka vitum vèr, að Guðs Sonur er kominn, og hefir gefið oss þann skilníng, að vèr þekkjum sannan Guð, og erum í hinum Sanna fyrir hans Son Jesúm Krist. Þessi er sá sanni Guð og hið eilífa lífið.
21. Börn mín, varið yður við skurðgoðum.

---

# SÁNKTI JÓHANNESAR
## ANNAR PISTILL.

### 1. KAPÍTULI.

*Góðar óskir. Vottar gleði sína af því, að börn þeirrar konu, sem brèfið er skrifað, halda fast við sannleikann; varar við raungum lærdómi; lofar komu sinni; ber kveðjur.*

ÖLDÚNGURINN (óskar allra heilla) hinni útvöldu Kyríu og börnum hennar, sem eg elska í sannleika, og ekki einúngis eg, heldur einnig allir þeir, sem komnir eru til þekkíngar á sannleikanum,
2. Sakir sannleikans, sem vèr höldum fast við, og munum gjöra til eilífðar.
3. Náð, miskun, friður veri með yður frá Guði Föður og Drottni Jesú Kristi, Syni Föðursins í sannleika og elsku.
4. Næsta glaður varð eg, þegar eg fann nokkur barna þinna, er hlýðnast þeim sannleika, sem samkvæmur er því boðorði, er vèr meðtekið höfum af Föðurnum.
5. Og nú bið eg þig, Kyrja, ekki svo sem eg skrifi þèr nýtt boðorð, heldur það, er vèr heyrt höfum frá upphafi: að vèr skulum elska hver annan.
6. Og í því sýnir elskan sig, að vèr breytum eptir hans boðorðum. Þetta er boðorðið, er þèr hafið heyrt frá upphafi, til þess að þèr skuluð eptir því breyta.
7. Því margir villumenn eru farnir út um heiminn, sem ekki viðurkenna, að Jesús Kristur sè kominn í holdinu. Þvílíkur er villumaður og antakristur.

8. Gætið að yður, að vèr ekki missum af því, sem vèr höfum unnið, heldur að vèr megum meðtaka full laun.

9. Sèrhver yfirtroðslumaður, og sá sem ekki stendur stöðugur í Krists lærdómi, hefur ekki Guð, en sá, sem stendur stöðugur í Krists lærdómi, hefur bæði Föðurinn og Soninn.

10. Ef einhver kemur til yðar og kemur ekki með þenna lærdóm, þá hýsið hann ekki og heilsið honum ekki.

11. Því hver, sem segir hann velkominn, verður hluttakandi í hans vondu verkum.

12. Margt hefi eg að vísu að skrifa yður, en eg vildi ekki gjöra það með pappír og bleki, því eg vona að koma til yðar og tala munnlega við yður, svo að vor gleði verði fullkomin.

13. Þèr heilsa börn systur þinnar, hinnar útvöldu.

---

# SÁNKTI JÓHANNESAR

## ÞRIÐJI PISTILL.

### 1. KAPÍTULI.

*Ávarpar Gajus. Gleður sig yfir hans trú og kærleiksverkum. Kvartar yfir vonzku Díótrefis. Hrósar Demetríusar guðrækni. Boðar komu sína. Biður að heilsa og bera kveðjur.*

ÖLDÚNGURINN (skrifar) elskulegum Gajusi, sem eg í sannleika elska.

2. Elskulegi, um fram alt bið eg, að þèr vegni vel í öllu tilliti, og að þèr heilsist vel, eins og sálu þinni vegnar vel.

3. Því eg varð harla glaður, þegar bræðurnir komu og vitnuðu um elsku þína til sannleikans; og hversu þú breytir samkvæmt sannleikans lærdómi.

4. Eg hefi einga meiri gleði en þá, að heyra að börn mín breyta eptir sannleikanum.

5. Minn elskulegi, þú breytir eins og trúaður í því, sem þú vinnur fyrir bræðurna, og það þèr ókenda.

6. Þessir hafa vitnað fyrir söfnuðinum um elskusemi þína. Þú munt (og) gjöra vel, ef þú beinir ferð þeirra eins og samboðið er Guði;

7. Því fyrir hans nafns sakir eru þeir af stað farnir, og hafa við eingu tekið hjá heiðíngjum;

8. Þess vegna ber oss að taka þvílíka menn að oss, svo að vèr aðstoðum sannleikann.

9. Eg hefi skrifað söfnuðinum

til, en Díótrefes, sem vill vera fremstur meðal þeirra, tekur oss ekki (vel);
10. Þegar eg því kem, vil eg minna hann á þau verk, er hann vinnur, með því með vondum orðum að ófrægja oss, og hann lætur sèr ekki það nægja, að taka ekki sjálfur á móti bræðrunum, heldur bannar hann það öðrum, er það vilja gjöra, og rekur þá út úr söfnuðinum.
11. Minn elskulegi, breyttu ekki eptir því, sem ilt er, heldur eptir því, sem gott er. Sá, sem gott gjörir, er af Guði, en hver sá, sem ilt gjörir, hefir ekki sèð Guð.
12. Demetríus hefir góðan vitnisburð af öllum og af sannleikanum sjálfum; vèr vitnum einnig hið sama, og þèr vitið, að vor vitnisburður er sannur.
13. Eg hefi margt að skrifa, en eg vil ekki skrifa þèr með bleki og penna,
14. Því eg býst við bráðum að sjá þig, og munum við þá talast við munnlega.
15. Friður sè með þèr. Vinirnir biðja að heilsa þèr. Heilsa þú vinunum með nafni.

---

# SÁNKTI JÚDASAR PISTILL.

## 1. KAPÍTULI.

*Postulinn varar við falskennendum og óguðlegum. Kennir, hvernig eigi að breyta við slíka.*

JÚDAS, Jesú Krists þjón, bróðir Jakobs, heilsar hinum kölluðu, sem eru helgaðir í Guði Föður og varðveittir í Jesú Kristi:
2. Miskunsemi, friður og kærleiki margfaldist yfir yður.
3. Mínir elskanlegir, þar eð mèr er ríkt í huga að skrifa yður um sameiginleg sáluhjálpar efni, þá áleit eg nauðsynlegt að uppörva yður til að berjast fyrir þá trú, sem heilögum hefir einu sinni verið kend;
4. Því inn í söfnuðinn hafa nokkrir læðzt, sem fyrir laungu eru ætlaðir til þvílíkrar hegníngar, óguðlegir menn, sem vanbrúka náð Guðs vors til stjórnlauss lífernis, og afneita vorum einasta lávarði og Drottni Jesú Kristi.
5. Vil eg því minna yður á, þótt yður sè það nógsamlega kunnugt, að eptir það að Drottinn hafði frelsað fólkið

úr Egyptalandi, þá tortýndi hann þar á eptir þeim, sem voru vantrúaðir,

6. Og einglana, sem ekki gættu sinnar upphaflegu tignar, heldur yfirgáfu sinn bústað, hefir hann í myrkri geymt í eilífum fjötrum til hins mikla dags.

7. Sömuleiðis eru Sódóma og Gomorra og kríngum liggjandi borgir, sem drýgðu saurlifnað á líkan hátt og þessir, og sóktust eptir annarlegu holdi, settar til viðvörunar og þola hegníngu eilífs elds.

8. Eins breyta þessir draumviltu menn, þeir saurga líkamann, fyrirlíta þá, sem í völdum sitja, og lasta tignarvöldin.

9. En höfuðeingillinn Mikkael, þá hann þráttaði við djöfulinn um líkama Mósis, vogaði þó ekki að leggja smánarlegan dóm á hann, heldur sagði: Drottinn refsi þèr.

10. En þessir lasta það, sem þeir þekkja ekki; en það, sem þeir þekkja af náttúrlegri fýsn, hafa þeir sèr til tjóns.

11. Vei þeim, því þeir gánga á vegi Kaíns, hrapa í villu Balaams fyrir ávinníngs sakir, og tortýnast vegna þverúðar þeirra, eins og Kóre.

12. Þessir eru (hættuleg) sker í yðar kærleiksveizlum, með ósvífni lifa þeir í óhófi, þá þeir matast með yður, og ala sjálfa sig; þeir eru vatnslaus ský, sem rekast fyrir vindum, visnuð trè, ávaxtarlaus, tvisvar dauð, upprætt;

13. Ofsalegar hafsbylgjur, sem freyða eigin skömmum, reikandi stjörnur, sem dimma myrkursins er geymd til eilífðar.

14. Um þessa spáði og Enok, sjöundi maður frá Adam, segjandi: sjá, Drottinn kemur með sínum heilögu þúsundum,

15. Til að halda dóm yfir öllum, og til að sanna alla óguðlega þeirra á meðal seka í öllum þeim óguðlegu verkum, sem þeir hafa drýgt, og í öllum þeim lastmælum, sem hinir óguðlegu syndarar hafa talað gegn honum.

16. Þessir eru möglsamir, aðfinníngasamir um sín kjör, lifa eptir eigin girndum; munnur þeirra mælir ofstopa-orð, þeir meta menn eptir hagnaði.

17. En þèr, elskanlegir, minnizt þeirra orða, sem áður hafa töluð verið af postulum Drottins vors Jesú Krists.

18. Því þeir sögðu yður, að á síðasta tímanum mundu koma spottarar, sem fara eptir þeirra eigin óguðlegu girndum.

19. Þessir eru þeir, sem taka

sig útúr (söfnuðinum), holdlegir, sem ekki hafa Andann.

20. En þèr, elskanlegir, uppbyggið yður sjálfa af yðar helgustu trú, biðjið í Heilögum Anda;

21. Varðveitið yður sjálfa í kærleika Guðs, og væntið miskunar Drottins vors Jesú Krists til eilífs lífs.

22. Aumkvið yður yfir suma og gjörið greinarmun,

23. En frelsið suma með ótta og kippið þeim úr eldinum, og hatið jafnvel kyrtilinn, sem flekkaður er af holdinu.

24. En honum, sem megnar að varðveita yður frá hrösun og láta yður mæta fyrir sinni dýrð óflekkaða í fögnuði,

25. Einum Guði, vorum frelsara fyrir Jesúm Krist vorn Drottinn, sè dýrð og hátign, kraptur og veldi, bæði nú og um allar aldir. Amen.

---

# SÁNKTI JÓHANNESAR OPINBERUNARBÓK.

## 1. KAPÍTULI.

*Inngángurinn. Jóhannesi er skipað að skrifa hinum sjö söfnuðum í Asíu sína vitrun.*

OPINBERAN Jesú Krists, sem Guð hefir gefið honum, til að sýna sínum þjónum það, sem verða á innan skamms, og hann sendi sinn eingil, og lèt hann sýna það Jóhannesi, sínum þjóni,

2. Sem kunngjörði Guðs orð og vitnisburðinn um Jesúm Krist, eins og hann vissi.

3. Sæll er sá, sem les þessi spádómsorð, og þeir, sem heyra þau og geyma það, sem í þeim er skrifað; því tíminn er nálægur.

4. Jóhannes heilsar hinum sjö söfnuðum í Asíu: náð sè með yður og friður af þeim, sem er, og þeim, sem var, og þeim, sem koma mun, og af þeim sjö öndum, sem eru frammi fyrir hans hásæti,

5. Og af Jesú Kristi, þeim trúa vottinum, frumburði framliðinna, höfðíngja jarðarinnar konúnga, honum, sem elskaði oss og þvoði oss af vorum syndum með sínu blóði,

6. Og hefir gjört oss að konúngadómi, og kennimönnum síns Guðs og Föðurs; honum sè dýrð og kraptur um aldir alda, amen.

7. Sjá, hann kemur í skýunum, og hvert auga mun sjá hann, eins þeir, sem hann gegnumstúngu, og allar kynkvíslir jarðarinnar munu fyrir honum skelfast; já, vissulega mun svo verða.

8. Eg em A og O, segir Guð Drottinn, sá, sem er og var og koma mun, sá alvaldi.

9. Eg Jóhannes, yðar bróðir og ásamt yður hluttakandi í þreyngíngu, í ríki og þolinmæði Jesú Krists, eg var á þeirri eyu, sem kallast Patmus, fyrir sakir Guðs orðs og vitnisburðar Jesú Krists.

10. Eg var í anda á Drottins degi, og heyrði á bak mèr mikla raustu, sem lúður gylli; hún sagði:

11. Skrifa þú í bók það, sem þú sèr, og send það þeim sjö söfnuðum í Efesus, Smyrna, Pergamus, Týatíra, Sardes, Fíladelfíu og Laódíseu.

12. Eg sneri mèr við, til að vita hvaða raust það væri, sem við mig talaði, og sem eg sneri mèr við, sá eg sjö ljósastikur gulllegar,

13. Og meðal þeirra sjö ljósastikna einhvern, líkan manns syni; hann var í skósíðu klæði, og spent gullbelti um brínguna;

14. En höfuð hans og hár var hvítt, eins og hvít ull, eins og mjöll; hans augu voru sem eldslogi;

15. Hans fætur, sem glóandi látún í elds ofni; hans málrómur sem niður margra vatnsfalla.

16. Hann hafði sjö stjörnur í sinni hægri hendi, og af hans munni gekk tvíeggjað sverð biturt; af hans andliti ljómaði sem af sólu, þá hún skín í krapti sínum.

17. En þá eg sá hann, fèll eg fyrir fætur honum, sem dauður væri; hann lagði þá sína hægri hönd yfir mig, og sagði:

18. Hræðstu ekki, eg em hinn fyrsti og síðasti og sá lifandi; eg dó, en sjá, eg lifi um aldir alda; og eg hefi lykla dauðans og undirheima.

19. Skrifa því hvað þú sèð hefir, bæði það, sem er, og það sem fram mun koma.

20. Þessi er leyndardómurinn þeirra sjö stjarna, sem þú hefir sjeð í minni hægri hendi, og þeirra sjö gulllegu ljósastikna: þær sjö stjörnur eru einglar þeirra sjö safnaða, en þær sjö ljósastikur eru þeir sjö safnaðir.

## 2. KAPÍTULI.

*Hvað Jóhannes á að skrifa söfnuðinum í Efesus, í Smyrna, í Pergamus, í Týatíru.*

SKRIFA þú eingli safnaðarins í Efesus: þetta segir sá, sem heldur á þeim sjö stjörnum í sinni hægri hendi og geingur meðal þeirra sjö gulllegu ljósastikna.

2. Eg þekki þín verk, þína mæðu og þolgæði, og veit, að þú ekki fellir þig við þá, sem vondir eru; þú hefir prófað þá, sem hafa þókzt vera postular, en voru það þó ekki, og hefir fundið, að þeir voru lygarar.

3. Þú hefir samt haft þolinmæði og umborið þá fyrir míns nafns sakir og ekki þreytzt.

4. En það þyki mèr að þèr, að þú hefir slept þínum fyrri kærleika.

5. Gáðu því að, hverju þú hefir slept, sjáðu að þèr og breyttu eins og fyrrum; ellegar skal eg bráðum koma, og þoka þinni ljósastiku úr stað, nema þú sjáir að þèr.

6. En þess máttu þó njóta, að þú hatar athæfi þeirra Nikólaíta, eins og eg.

7. Hver sem eyru hefir, hann heyri, hvað Andinn segir söfnuðunum: þeim, sem sigrar, mun eg gefa að eta af lífsins trè, því er stendur í aldingarði míns Guðs.

8. Og skrifa þú eingli safnaðarins í Smyrna: þetta segir sá fyrsti og síðasti, sá sem dó og endurlifnaði:

9. Eg þekki þín verk, þraung þína og fátækt (en þú ert samt ríkur) og lastmæli þeirra gegn þèr, sem kalla sig Gyðínga, en eru það þó ekki, heldur söfnuður Satans.

10. Kvíddu ekki því mótlæti, sem þú átt fyrir höndum: sjá, djöfullinn mun varpa nokkrum yðar í fángelsi til að freistast, og þèr munuð þreyngíngu hafa í 10 daga. Vertu trúr alt til dauðans, þá mun eg gefa þèr lífsins kórónu.

11. Hver sem eyru hefir, hann heyri, hvað Andinn segir söfnuðunum: þeim sem sigrar, honum skal sá annar dauði ekkert granda.

12. Og skrifa þú eingli safnaðarins í Pergamus: þetta segir sá, sem hefir hið tvíeggjaða bitra sverð:

13. Eg þekki þín verk, og veit, að þú býr þar, sem Satans hásæti er. Samt heldur þú stöðugt við mitt nafn og hefir ekki afneitað minni trú, jafnvel ekki á þeim dögum, er minn trúfasti vottur Antípas var uppi, sem líflátinn var hjá yður, þar, sem Satan býr.

14. Þó þyki mèr fátt eitt að þèr, að nokkrir eru þeir hjá þèr, sem halda við kenníngu

Balaams, þess er kendi Balak að tæla Ísraelsmenn til að eta skurðgoða fórnir og drýgja saurlifnað;
15. Alt eins hefir þú nokkra hjá þèr, sem halda við kenníngu Nikólaítanna.
16. Sjáðu því að þèr, ellegar mun eg bráðum koma, og vega að þeim með sverði míns munns.
17. Hver, sem eyru hefir, heyri hvað Andinn segir söfnuðunum: þeim, sem sigrar, mun eg gefa að eta af hinu hulda himnabrauði; eg mun gefa honum hvítan hlut með áskrifuðu nýu nafni, sem einginn þekkir, nema sá er við tekur.
18. Og skrifa þú eingli safnaðarins í Týatíru: þetta segir Guðs Sonur, hvers augu eru sem eldslogi, og hvers fætur eru sem látún.
19. Eg þekki þín verk, þína elsku, trúmennsku og þjónustu, og þitt stöðuglyndi; þín síðari góðverk eru fleiri en hin fyrri.
20. En það þykir mèr að þèr, að þú leyfir Jessabel, konu þinni, sem þykist vera spákona og afvegaleiðir mína þjóna með sínum kenníngum, að drýgja saurlifnað og eta skurðgoða fórnir.
21. Og eg hefi gefið henni frest til að sjá að sèr, en hún vill þó ekki láta af sínum saurlifnaði.
22. Sjá, eg mun kasta henni í rekkju, og þeim, sem hórast með henni, í miklar þreyngíngar, ef þeir bæta ekki ráð sitt.
23. Börnum hennar mun eg með dauða tortýna, svo allir söfnuðir viti, að eg em sá, sem rannsaka hjörtun og nýrun; og sèrhverjum yðar mun eg gjalda eptir hans verkum.
24. En yður segi eg, hinum öðrum í Týatíru, sem ekki haldið við þessa kenníngu, og ekki hafið kannað djúp Satans, sem þeir svo kalla, upp á yður skal eg einga aðra byrði leggja,
25. En haldið því, sem þèr hafið, þar til eg kem.
26. Og þeim, sem sigrar og heldur til enda mín boðorð, mun eg gefa vald yfir heiðnum þjóðum;
27. Og hann mun ríkja yfir þeim með járnsprota, og þeir skulu sundurmolast eins og leirker; þvílíkt vald fèkk eg líka hjá mínum Föður;
28. Og eg skal gefa honum morgunstjörnuna.
29. Hver sem eyra hefir, hann heyri hvað Andinn segir söfnuðunum.

## 3. KAPÍTULI.

*Hvað Jóhannes á að skrifa söfnuðinum í Sardes, í Fíladelfíu, í Laódíseu.*

OG skrifa þú eingli safnaðarins í Sardes: þetta segir sá, sem hefir þá sjö anda Guðs og þær sjö stjörnur. Eg þekki háttalag þitt, að þú lifir að nafninu, en ert þó dauður.

2. Vaknaðu og styrk hið annað, sem ætlar að deya; því eg hefi fundið margt ábótavant í fari þínu fyrir Guðs augliti.

3. Rifjaðu upp fyrir þèr, hvað þú hefir numið og heyrt, varðveit það og bæt ráð þitt; því ef þú vakir ekki, mun eg koma að þèr eins og þjófur, svo þú munt ekki vita, á hverri stundu eg muni koma yfir þig.

4. Þó eru fáeinir menn hjá þèr í Sardes, sem ekki hafa saurgað sín klæði; þeir skulu vera hjá mèr í hvítum búníngi, því þeir eru þess maklegir.

5. Sá sem sigrar, hann skal skrýðast hvítum búníngi, og hans nafn skal eg ekki afmá af lífsbókinni; eg skal kannast við hans nafn fyrir mínum Föður og fyrir hans einglum.

6. Sá sem eyru hefir, hann heyri, hvað Andinn segir söfnuðunum.

7. Og skrifa þú eingli safnaðarins í Fíladelfíu: þetta segir sá Heilagi, sá Sanni, sem hefir lykil Davíðs, hann, sem lýkur svo upp, að einginn læsir aptur, og læsir svo aptur, að einginn lýkur upp.

8. Eg þekki þín verk; sjá, eg hefi lokið svo upp dyrunum fyrir þèr, að einginn getur lokað þeim aptur; því þú hefir lítinn mátt, en hefir þó haldið mín orð og ekki afneitað mèr.

9. Sjá, eg skal láta nokkra af Satans söfnuði, sem segjast vera Guðs fólk, en eru það þó ekki, heldur ljúga, eg skal láta þá koma og kasta sèr flötum fyrir fætur þèr, svo þeir viti, að eg elska þig.

10. Fyrir það að þú hefir varðveitt mitt boðorð um stöðuglyndi, skal eg líka varðveita þig frá þeim freistíngartíma, sem koma mun yfir allan heim til að reyna jarðarinnar innbúa.

11. Eg kem bráðum; haltu fast því, sem þú hefir, svo einginn taki frá þèr þína kórónu.

12. Þann, sem sigrar, skal eg gjöra að máttartrè í musteri míns Guðs, og hann skal þaðan aldrei út fara; eg skal skrifa á hann nafn míns Guðs og nafn hinnar nýu Jerúsalem, borgar míns Guðs, þeirrar er kemur af himni ofan frá mínum Guði, og mitt nýa nafn.

13. Hver sem eyra hefir, hann

heyri, hvað andinn segir söfnuðunum.

14. Og skrifa þú eingli safnaðarins í Laódíseu: þetta segir sá óbrigðuli, sá trúi og sanni votturinn, upphaf Guðs sköpunar.

15. Eg þekki háttalag þitt, að þú ert hvorki kaldur nè heitur; betra væri, að þú værir annaðhvort kaldur eða heitur;

16. En eins og þú ert nú, hálfvolgur, hvorki heitur nè kaldur, mun eg skirpa þèr út af mínum munni.

17. Þú segir: eg em ríkur og vel auðugur orðinn og þarfnast einskis; en þú veizt ekki, að þú ert vesalíngur, aumíngi og fátæklíngur, blindur og nakinn.

18. Eg ræð þèr að kaupa af mèr eldskírt gull, svo þú verðir ríkur, og hvít klæði til að skýla þèr með, svo að ekki auglýsist vanvirða þíns fatleysis; berðu augnasmyrsl á augu þín, svo þú verðir sjáandi.

19. Eg aga og vanda um við þá, sem eg elska; legg þú því alt kapp á að bæta ráð þitt.

20. Sjáðu, eg stend við hurðina og drep á dyr; sá sem heyrir raust mína og lýkur upp fyrir mèr, til hans mun eg inn gánga, og við skulum eta kvöldverð saman.

21. Þann, sem sigrar, skal eg láta sitja hjá mèr í mínu hásæti, eins og eg sjálfur að unnum sigri settist hjá mínum Föður í hans hásæti.

22. Sá sem hefir eyru, hann heyri, hvað Andinn segir söfnuðunum.

## 4. KAPÍTULI.

*Jóhannes sèr dýrð Guðs.*

EPTIR þetta gat eg að líta, hvar dyr lukust upp á himni, og sú raust, sem eg áður hafði heyrt við mig tala sem gjallanda lúður, sagði: kom híngað upp, og mun eg sýna þèr það, sem hèr eptir á að koma fram.

2. Eg varð jafnskjótt frá mèr numinn, og sá, að hásæti stóð á himni, og einhver sat á því;

3. Sá var ásýndum líkur Jaspis og Sardissteini, og kríngum hásætið gekk regnbogi, sem Smaragdus á að sjá.

4. Umhverfis hásætið voru 24 hásæti, og á hásætunum sá eg sitja 24 öldúnga, skrýdda hvítum klæðum, og höfðu á höfðum sèr gulllegar kórónur.

5. Út frá hásætinu geingu eldíngar, gnýhljóð og þrumur, og sjö logandi eldleg blys brunnu fyrir hásætinu, það eru þeir sjö andar Guðs.

6. Frammi fyrir hásætinu var
sem glersjór, líkur krystalli;
fyrir miðju hásætinu og umhverfis
það voru fjögur dýr,
alsett augum í bak og fyri.
7. Eitt dýrið var líkt ljóni,
annað kálfi, þriðja dýrið hafði
manns andlit, og hið fjórða
var líkt erni á flugi.
8. Þau fjögur dýrin höfðu sex
vængi hvert, alsetta augum
umhverfis og innanvert. Þau
kölluðu án afláts dag og nótt:
heilagur, heilagur, heilagur,
Drottinn Guð alvaldi, sá, sem
er og var og vera mun.
9. Og þegar dýrin gjalda honum
dýrð og heiður og þakkir,
sem á hásætinu situr, honum,
sem lifir um aldir alda,
10. Þá falla þeir 24 öldúngar
fram fyrir þeim, sem á hásætinu
situr, og tilbiðja þann,
sem lifir um aldir alda, og
varpa sínum kórónum niður
fyrir hásætinu, og segja:
11. Þèr, Drottinn, ber vegsemd,
heiður og kraptur, því
þú hefir skapað alla hluti, og
fyrir þinn vilja eru þeir til
orðnir og skapaðir.

## 5. KAPÍTULI.

*Bókin og lambið.*

Í HÆGRI hendi þess, er
í hásætinu sat, sá eg
bók, sem skrifuð var báðummegin
og innsigluð með sjö
innsiglum.
2. Þá sá eg sterkan eingil,
sem kallaði hárri röddu: hver
er þess verður að brjóta frá
innsiglin bókarinnar og opna
hana?
3. En einginn var sá á himni
eða jörðu eða undir jörðunni,
sem opnað gæti bókina og sèð
í hana.
4. Eg grèt stórum af því, að
einginn skyldi sá finnast, sem
verðugur væri að opna bókina
og líta í hana.
5. Þá sagði einn af öldúngunum
við mig: grát ekki; vit
það, að ljónið af Júda ættkvísl,
afspríngur Davíðs, hefir sigur
unnið, svo það getur brotið
frá þau sjö innsigli bókarinnar
og opnað hana.
6. Þá sá eg lamb, eins og
slátrað, standa milli hásætisins
og þeirra fjögra dýranna
og öldúnganna, það hafði sjö
horn og sjö augu, sem eru
þeir sjö andar Guðs, sendir út
um allan heim.
7. Það kom og tók við bókinni
af hægri hendi þess, er í
hásætinu sat.
8. Og þá það hafði tekið við
bókinni, fèllu þau fjögur dýrin
og þeir 24 öldúngar fram fyrir
lambinu, og hèldu hver um
sig á hörpum og gullskálum

fullum af reykelsi, það eru bænir heilagra.

9. Þá súngu þeir nýan lofsaung, svo mælandi: verðugur ert þú að taka við bókinni og opna hennar innsigli, því þèr hefir verið slátrað, og þú hefir keypt oss Guði til handa, af öllum kynkvíslum, túngumálum, þjóðum og ættum með þínu blóði;

10. Þú hefir gjört oss að konúngum og kennimönnum fyrir vorum Guði, svo að vèr skyldum ríkja yfir jörðunni.

11. Síðan sá eg og heyrði umhverfis hásætið, dýrin og öldúngana, raustu margra eingla, sem voru að tölu tíu þúsundir tíu þúsunda og þúsundir þúsunda; þeir sögðu með hárri röddu:

12. Verðugt er það slátraða lambið að meðtaka vald og ríkdóm, vizku og krapt, heiður, dýrð og þakkir.

13. Þá heyrða eg hverja skepnu á himni og jörðu og undir jörðunni, og alt það, sem í sjónum er, undirtaka og segja: þeim, sem í hásætinu situr, og lambinu, sèu þakkir og heiður, dýrð og kraptur um aldir alda;

14. Og þau fjögur dýrin sögðu amen, en öldúngarnir fèllu fram og tilbáðu.

## 6. KAPÍTULI.

*Lambið opnar hið 1. 2. 3. 4. 5. og 6. innsigli.*

NÚ sá eg, að lambið opnaði eitt af þeim sjö innsiglum, og heyrða eitt af þeim fjórum dýrum segja, eins og með þrumugný: kom þú.

2. Eg leit til, og sá hvítan hest, og sá, sem á honum sat, hèlt á boga; honum var gefin kóróna, og hann fór af stað sigrandi og til að sigra.

3. Þegar lambið opnaði annað innsiglið, heyrða eg annað dýrið segja: kom.

4. Þá gekk út annar hestur rauður; þeim, sem á honum sat, var leyft að eyða friði á jörðu, og að menn bærist banaspjót eptir; honum var feingið í hendur mikið sverð.

5. Þegar lambið opnaði þriðja innsiglið, heyrða eg þriðja dýrið segja: kom. Þá sá eg svartan hest; sá, sem honum reið, hèlt á metum í hendinni.

6. Þá heyrða eg raustu meðal þeirra fjögra dýranna, sem sagði: einn mælir hveitis einn peníng, og þrír mælar byggs einn peníng; en eigi skaltu viðsmjörinu eða víninu granda.

7. Þegar lambið opnaði fjórða innsiglið, heyrða eg fjórða dýrið segja: kom.

8. Þá sá eg bleikan hest; sá, sem honum reið, hèt dauði, og

hel var í för með honum; honum var gefið vald til að drepa fjórða hlut jarðarbúanna með sverði, húngri, drepsótt og bitvörgum jarðar.

9. Þegar lambið opnaði fimta innsiglið, sá eg fyrir neðan altarið sálir þeirra manna, sem drepnir höfðu verið fyrir sakir Guðs orðs og þess vitnisburðar, sem þeir höfðu ávalt borið;

10. Þær kölluðu hástöfum og sögðu: þú heilagi og sannorði Drottinn, hve lengi á að bíða þess, að þú dæmir og hefnir vors blóðs á innbúum jarðarinnar?

11. Hverjum þeirra var feingin hvít kápa, og sagt, að þær skyldu bíða við enn þá stundar korn, þar til komnir væru samþjónar þeirra og bræður, sem deyðast skyldu, eins og þeir sjálfir.

12. Þegar lambið opnaði sjötta innsiglið, sá eg, að mikill jarðskjálfti varð; sólin sortnaði, eins og hærusekkur, og alt túnglið varð eins og blóð;

13. Stjörnur himins hröpuðu niður á jörðuna, eins og þá fíkjutrè, skekið af stormvindi, kastar niður fíkjum sínum;

14. Himininn hvarf, eins og samanvafið bókfell, og hvert fjall og ey færðist úr stöðvum sínum;

15. Konúngar jarðarinnar, höfðíngjar og hersforíngjar, auðmenn og ríkismenn, þegn og þræll, fólu sig í hellum og hömrum fjalla,

16. Og sögðu til fjallanna og hamranna: hrynjið yfir oss og felið oss fyrir ásjónu þess, sem í hásætinu situr, og fyrir reiði lambsins;

17. Því nú er kominn sá mikli dagur hans reiði; hver fær nú staðizt?

## 7. KAPÍTULI.

*Gyðínga ættkvíslir innsiglaðar. Lofsaungur þjóðanna.*

EPTIR þetta sá eg fjóra eingla, sem stóðu á fjórum hornum jarðarinnar, þeir hèldu þeim fjórum vindum jarðarinnar, svo vindur næði ekki að blása yfir jörðina, eða hafið eða nokkurt trè.

2. Annan eingil sá eg stíga upp frá sólaruppkomustað, sá hèlt á innsigli lifanda Guðs, og kallaði hárri röddu til þeirra fjögra eingla, sem vald höfðu feingið til að granda jörðunni og sjónum.

3. Hann sagði: grandið hvorki jörðunni, nè sjónum, nè trjánum, þar til vèr höfum innsiglað þjóna Guðs á ennum þeirra.

4. Þá heyrða eg tölu þeirra innsigluðu; af öllum ættkvísl-

um Ísraelsmanna voru innsiglaðar hundrað fjörutíu og fjórar þúsundir;

5. Af Júda ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Rúbens ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Gaðs ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar;

6. Af Assers ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Neftalims ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Manasses ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar;

7. Af Simeons ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Leví ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Ísaskars ættkvísl voru tólf þúsunðir innsiglaðar;

8. Af Sebúlons ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Jóseps ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar; af Benjamíns ættkvísl voru tólf þúsundir innsiglaðar.

9. Eptir þetta leit eg til og sá mikinn fjölda manna, svo að eigi varð tölu á komið, af als kyns fólki, kynkvíslum, þjóðum og túngumálum; þeir stóðu frammi fyrir hásætinu og frammi fyrir lambinu, skrýddir hvítum skikkjum, með pálmaviðar-greinir í höndum sèr.

10. Þeir kölluðu upp hárri röddu, segjandi: hjálpræðið tilheyrir vorum Guði, sem í hásætinu situr, og lambinu.

11. Og allir einglar, sem stóðu umhverfis hásætið og öldúngana og þau fjögur dýrin, fèllu þá fram á ásjónur sínar fyrir hásætinu, og tilbáðu Guð, svo mælandi:

12. Amen: lof og dýrð, vizka og þakkargjörð, heiður og vald og kraptur sè Guði vorum um aldir alda, amen.

13. Einn af öldúngunum talaði til mín og sagði: þessir sem skrýddir eru hvítum skikkjum, hverjir eru þeir, og hvaðan eru þeir komnir?

14. Eg svaraði honum: Herra minn, þú veizt það. Þá sagði hann við mig: þetta eru þeir, sem komnir eru úr hörmúnginni miklu, og hafa þvegið sínar skikkjur, og hvítfágað þær í blóði lambsins.

15. Þess vegna eru þeir frammi fyrir hásæti Guðs, og þjóna honum dag og nótt í hans musteri; og sá, sem í hásætinu situr, mun tjalda yfir þeim.

16. Þá mun hvorki húngra nè þyrsta framar, og ekki mun sólarhiti eða nokkur bruni á þá falla.

17. Því lambið, sem er fyrir miðju hásætinu, mun gæta

þeirra og vísa þeim á lifandi vatnslindir, og Guð mun þerra hvert tár af þeirra augum.

## 8. KAPÍTULI.

*Lambið opnar 7. innsiglið. Einglar með sjö básúnum; sá 1. 2. 3. og 4. eingill básúnar.*

EN þegar lambið opnaði sjöunda innsiglið, varð þögn á himni hèr um bil hálfa stund.

2. Þá sá eg sjö eingla, sem stóðu frammi fyrir Guði; þeim voru feingnar sjö básúnur.

3. Þá kom annar eingill og staðnæmdist við altarið, hann hèlt á gulllegu reykelsiskeri; honum var feingið mikið af reykelsi, til þess að brenna því á því gulllega altari, sem var frammi fyrir hásætinu, meðan allir heilagir væru að biðjast fyrir;

4. Og undir bænum heilagra stè reykurinn af reykelsinu úr hendi eingilsins fram fyrir Guð.

5. Síðan tók eingillinn reykelsiskerið, fylti það með eldi af altarinu, og varpaði því ofan á jörðina; urðu þá gnýhljóð og þrumur og eldíngar og landskjálfti.

6. Þeir sjö einglar, sem hèldu á þeim sjö básúnum, bjuggu sig þá til að blása.

7. Þegar sá fyrsti básúnaði, varð hagl og eldur blóði blandað, og dundi ofan á jörðina; þá brann þriðjúngur jarðarinnar og þriðjúngur trjánna og alt grængresi.

8. Þegar annar eingillinn básúnaði, fèll ofan í sjóinn líkt sem væri stórt fjall, logandi af eldi, og þá varð þriðjúngur sjávarins að blóði;

9. Dó þá þriðjúngur lifandi skepna í sjónum, og þriðjúngur skipanna fórst.

10. Þegar þriðji eingillinn básúnaði, fèll af himni stór stjarna, logandi sem blys, og datt yfir þriðjúng ánna og yfir uppsprettur vatnanna.

11. Þessi stjarna hèt Remma; þá varð þriðjúngur vatnanna rammur, og margir menn dóu af því, að vötnin voru beisk orðin.

12. Þegar fjórði eingillinn básúnaði, varð lostinn þriðjúngur sólarinnar og túnglsins og stjarnanna, svo að þau formyrkvuðust um þriðjúng, og dagurinn misti þriðjúng sinnar birtu, og nóttin sömuleiðis.

13. Síðan sá eg og heyrði einn örn fljúga um miðhimininn, hann kallaði hárri röddu: vei, vei, vei þeim, sem á jörðu búa, vegna lúðurþyts hinna þriggja eingla, sem hèr eptir munu básúna.

## 9. KAPÍTULI.

*Sá 5. og 6. eingill básúnar.*

ÞEGAR sá fimmti eingill básúnaði, sá eg stjörnu falla af himni ofan á jörðuna; henni var feinginn lykill að brunni afgrunnsins.

2. Hún lauk upp brunni afgrunnsins, og þá lagði reyk upp af brunninum, eins og af stórum eldsofni, og sólin og loptið varð formyrkvað af reyknum úr brunninum.

3. Eingisprettur fóru úr reyknum ofan á jörðina, þær vóru eins magnaðar og jarðar-höggormar.

4. Þeim var bannað að granda grasi jarðarinnar og öllum grænum jurtum og trjám, nema þeim mönnum, sem ekki höfðu innsigli Guðs á ennum sínum.

5. Þeim var svo boðið, að þær dræpi þá ekki, heldur kveldi þá í fimm mánuði; þessi kvöl var eins og þegar höggormur stíngur mann.

6. Á þeim tímum munu menn leita dauðans, en ekki finna hann; þeir munu æskja sèr að deya, en dauðinn mun forðast þá.

7. Eingispetturnar voru svipaðar hestum, búnum til bardaga; á höfðum þeirra voru eins og gullkórónur, og ásjónur þeirra voru eins og á mönnum.

8. Þær höfðu hár eins og kvennmanns hár, og tennur eins og ljóns tennur;

9. Brynjur þeirra voru eins og járnbrynjur, og vængja-þyturinn eins og vagnagnýr, þá margir hestar hlaupa fram til bardaga.

10. Þær höfðu hala, líka höggormasporðum, og brodda í. Þær höfðu vald til að granda mönnum með hölunum í fimm mánuði.

11. Eingill afgrunnsins er konúngur yfir þeim; hann heitir á Hebresku Abaddón, en á Grísku Apollyón (eyðileggjari).

12. Sú fyrsta plága var nú umliðin, en tvær aðrar koma hèr á eptir.

13. Þegar sjötti eingillinn básúnaði, heyrði eg eina rödd fara frá fjórum hyrníngum þess gulllega altaris, sem frammi var fyrir Guði;

14. Hún sagði við sjötta eingilinn, sem hèlt á básúnunni: leys þá fjóra eingla, sem fjötraðir eru hjá því mikla fljóti Evfrat.

15. Síðan voru þeir fjórir einglar leystir, og stóðu þeir viðbúnir á hverri stundu, á hverjum degi, mánuði og ári, til að drepa þriðjúng mannanna.

16. Tala riddaraliðsins voru

tvennar tíuþúsundir tíuþús-
unda, þessa tölu fèkk eg að
vita.
17. Líka sá eg hestana í vitr-
uninni, og þá, sem þeim riðu,
þeir höfðu eldrauðar, svart-
bláar og bleikgular brynjur,
höfuð hestanna voru eins og
ljóna höfuð, og af munnum
þeirra gekk eldur, reykur og
brennisteinn.
18. Af þessum þremur plág-
um, eldi, reyk og brennistein-
i, sem út gekk af munn-
um þeirra, drapst þríðjúngur
mannanna.
19. Því magn hestanna var í
munni þeirra og töglum, því
töglin voru lík höggormum,
og voru með höfðum; með
þeim gröndaðu þeir.
20. Þeir menn, sem ekki fyrir-
fórust í þessum plágum, lètu
samt ekki af háttalagi sínu,
heldur tilbáðu skurðgoð og
líkneskjur úr gulli, silfri, eiri,
steini og trè, sem hvorki geta
sèð, heyrt, nè geingið.
21. Ekki lètu þeir heldur af
manndrápum, göldrum, saur-
lifnaði, eða þjófnaði.

## 10. KAPÍTULI.

*Þær sjö þrumuraddir. Eiður eingilsins. Bæklíngurinn.*

OG eg sá annan eingil
sterkan stíga af himni
ofan, hann var klæddur skýi;
yfir höfði honum var regn-
bogi, andlit hans var eins og
sólin, og fætur hans, sem eld-
stólpar.
2. Hann hèlt á opnum bækl-
íngi í hendinni, og setti hægra
fótinn á sjóinn, en hinn vinstra
á jörðina.
3. Hann kallaði hárri röddu,
eins og þá ljón öskrar, og
þegar hann hafði kallað, töl-
uðu þær sjö reiðarþrumur sín-
ar raddir.
4. En þá þær sjö þrumur
höfðu talað, ætlaði eg að fara
að skrifa; þá heyrði eg rödd
af himni, sem sagði: innsigla
þú það, sem þær sjö reiðar-
þrumur hafa talað, og skrifa
það ekki.
5. Sá eingill, sem eg sá standa
á sjónum og jörðunni, hóf þá
upp sína hægri hönd til him-
ins,
6. Og sór við þann, sem lifir
að eilífu, sem skóp himininn,
og það sem í honum er, jörð-
ina, og það sem á henni er, og
sjóinn, og það sem í honum
er: að einginn frestur mundi
leingur gefinn verða;
7. Heldur, þá sá sjöundi
eingill básúnaði, skyldi fram-
kvæmast Guðs leynda ráð, sem
hann hafði birt spámönnun-
um, sínum þjónum.
8. Röddin, sem eg heyrði af

himni, talaði þá til mín aptur og sagði: far og tak þann opna bæklíng, er eingillinn heldur á, sem stendur á sjónum og jörðunni.

9. Eg fór til eingilsins og bað hann fá mèr bæklínginn; hann sagði við mig: tak og et hann, hann mun verða beiskur í maga þínum, en í munni þèr sætur, sem hunáng.

10. Eg tók þá við bæklíngnum af einglinum, og át hann, og var hann sætur í munni mínum, sem hunáng, en þá eg hafði etið hann, fèkk eg magaverki.

11. Þá sagði hann við mig: þèr ber aptur að spá í gegn þjóðum, lýðum, túngumálum og mörgum konúngum.

## 11. KAPÍTULI.

*Mælíng musterisins. Þeir tveir vottar. Sá 7. eingill básúnar.*

MÈR var feinginn reyrleggur, líkur staf, með þessum ummælum: statt upp og mæl musteri Guðs og altarið, og þá sem biðjast þar fyrir.

2. En fordyrinu fyrir utan musterið skaltu sleppa og ekki mæla það, af því það er ætlað heiðíngjum, og þeir munu fóttroða borgina helgu í fjörutýgi og tvo mánuði.

3. En mína tvo votta vil eg láta spá í eitt þúsund tvö hundruð og sextýgi daga, klædda sorgarbúníngi.

4. Þetta eru þær tvær viðsmjörsviðar greinir og þeir tveir ljósastjakar, sem standa frammi fyrir Drottni jarðarinnar.

5. Vilji nokkur þeim granda, skal eldur gánga fram úr munni þeirra og eyða óvinum þeirra, og þannig skal hver deya, sem þeim vill granda.

6. Þeir hafa vald til að loka himninum, svo ekki komi regn um spádómsdaga þeirra; þeir hafa og vald til að snúa vötnunum í blóð og slá jörðina með als konar plágum, svo opt sem þeir vilja.

7. Þegar þeir hafa aflokið sínum vitnisburði, mun dýrið, sem upp stígur úr afgrunninu, herja á þá, hafa sigur og drepa þá.

8. Hræ þeirra munu liggja á stræti borgarinnar ennar miklu, sem í andlegum skilníngi kallast Sódóma og Egyptaland, þar sem og þeirra Drottinn er krossfestur.

9. Menn af ýmsum þjóðum, ættkvíslum, túngumálum og fólki munu sjá þeirra hræ í hálfan fjórða dag, og ekki leyfa, að lík þeirra verði lögð í legstað.

10. Innbúar jarðarinnar munu

gleðja sig yfir þeim og vera kátir og senda hver öðrum gjafir, þar eð þessir tveir spámenn kvöldu innbúendur jarðarinnar.

11. En að liðnum þeim hálfum fjórða degi, fór lífsandi frá Guði í þá, þeir risu þá á fætur, og mikill ótti fèll yfir þá, sem þá sáu.

12. Þeir heyrðu þá rödd mikla af himni, sem sagði við þá: komið híngað upp. Þeir fóru þá upp til himins í skýi, svo óvinir þeirra horfðu á.

13. Á þeirri stundu varð svo mikil hræríng, að tíundi partur borgarinnar hrundi, og í þeim jarðskjálfta dóu sjö þúsundir manna; þeir, sem eptir voru, urðu óttaslegnir og lofuðu himnanna Guð.

14. Sú önnur plága var nú umliðin, en sú þriðja kemur bráðum.

15. Þegar sá sjöundi eingill básúnaði, komu upp miklar raddir á himni, svo segjandi: vor Drottinn og hans Smurði hefir feingið vald yfir heiminum og mun ríkja að eilífu.

16. Þeir tuttugu og fjórir öldúngar, sem sátu á sínum stólum frammi fyrir Guði, fèllu þá fram á sínar ásjónur, tilbáðu Guð og sögðu:

17. Vèr þökkum þèr, Drottinn Guð alvaldi, þú sem ert og varst, fyrir það að þú hefir tekið þitt mikla veldi, og ríkir.

18. Heiðíngjarnir illskuðust, en þín hegníng kom, og sá tími, þá þeir framliðnu skulu dæmdir verða, og þínir þjónar og spámenn og heilagir og þeir, sem óttast þig, skulu fá sitt endurgjald, smáir og stórir, en þeir fyrirfarast, sem eyðileggja jörðina.

19. Þá opnaðist Guðs musteri á himni, og sáttmálsörk Drottins birtist í hans musteri; urðu þá eldíngar, hvellir, reiðarþrumur, jarðskjálfti og mikið hagl.

## 12. KAPÍTULI.

*Kvinnan og drekinn.*

ÞÁ birtist mikið teikn á himni; það var kona, sem hafði um sig sólarbaug, túngl var undir fótum hennar, en á höfði hennar kóróna með tólf stjörnum í.

2. Hún var þúnguð, og þjáðist af mikilli jóðsótt, og hljóðaði.

3. Þá sást annað teikn á himni, það var stór dreki eldrauður, hann hafði sjö höfuð og tíu horn, og á höfðunum sjö höfuðbönd.

4. Hann dró með sporðinum þriðjúng himinsins stjarna og

kastaði þeim á jörðina; drek-
inn staðnæmdist hjá konunni,
sem að því var komin að fæða,
og ætlaði að gleypa barnið, þá
hún hefði fætt.
5. Hún fæddi sveinbarn, sem
ríkja skyldi yfir öllum þjóð-
um með járnsprota; barnið
var skyndilega flutt burt fram
fyrir Guð og hans hásæti;
6. En konan flúði á eyðimörk,
hvar Guð hafði tilbúið henni
samastað, og þar skyldi hún
haldast við í tólf hundruð og
sextýgi daga.
7. Eptir það hófst stríð á
himni: Mikael og hans einglar
stríddu á drekann, en drek-
inn og hans einglar stríddu á
móti;
8. Hann hafði miður og hèlzt
ekki framar við á himni;
9. Og var þeim mikla dreka,
þeim gamla höggormi, sem
kallast djöfull og Satan, hon-
um, sem afvega leiðir alla
menn, kastað ofan á jörðina,
og hans einglum með honum.
10. Þá heyrði eg mikla rödd
af himni, svo segjandi: nú til-
heyrir sigurinn, krapturinn og
ríkið vorum Guði, og veldið
hans Smurða, því áklagari
vorra bræðra, sem áklagar þá
fyrir Guði vorum nótt og dag,
er niður kastaður.
11. Þeir hafa sigrað hann fyr-
ir blóð lambsins og fyrir orð
vitnisburðar síns; þeir hafa
hætt lífi sínu fram í dauðann.
12. Verið þess vegna glaðir,
þèr himnar, og þèr sem á
himnum búið. Vei sè jörðunni
og sjónum, því að djöfullinn
er ofan til yðar farinn, í mikl-
um móð, því hann veit, að
hann hefir nauman tíma.
13. En sem drekinn sá, að
búið var að varpa honum ofan
á jörðina, ofsókti hann konuna,
sem fætt hafði sveinbarnið.
14. Þá voru konunni gefnir
tveir stórir arnarvængir, til að
fljúga á þann stað í eyðimörk-
inni, sem henni var ætlaður,
hvar hún átti að vera í fjarlægð
við höggorminn um eina tíð,
(tvær) tíðir og hálfa tíð.
15. Höggormurinn spjó vatni
út úr sèr á eptir konunni, eins
og vatnsflóði, svo að hún hrif-
ist burt af straumnum;
16. En jörðin kom konunni
til hjálpar, og opnaði sinn
munn og svalg vatnsflóðið, sem
drekinn hafði útspúið.
17. Þá reiddist drekinn við
konuna, og fór burt til að
herja á hina af afkomendum
hennar, sem varðveittu Guðs
boðorð og höfðu Jesú vitnis-
burð.
18. Síðan staðnæmdist eg við
sjáfarströndina.

## 13. KAPÍTULI.

*Þau tvö dýr.*

OG eg sá dýr stíga upp af hafinu, það hafði tíu horn og sjö höfuð; á hornunum voru tíu kórónur, og á höfðunum voru guðlöstunarorð.

2. Þetta dýr, sem eg sá, var líkt pardusdýri, fæturnir voru eins og bjarnarfætur, munnurinn eins og á ljóni; drekinn gaf því sitt vald, sitt hásæti og mikil yfirráð.

3. Eitt af höfðum þess var sært, eins og með dauðlegu sári, en þetta banasár varð heilt, og allir menn fylgdu dýrinu með undrun,

4. Og tilbáðu drekann, fyrir það að hann hafði veitt dýrinu yfirráðin, líka tilbáðu þeir dýrið, segjandi: hver kann að jafnast við dýrið, og hver getur strítt við það?

5. Því var veittur munnur til að tala stóryrði og guðlastanir, og lofað að fara því fram í fjörutíu og tvo mánuði.

6. Það upp lauk þá sínum munni til að tala löstunaryrði gegn Guði, lastaði hans nafn og hans tjaldbúð, og þá sem á himni búa.

7. Því var lofað að herja á heilaga og sigra þá; því var gefið vald yfir als kyns kynkvísl, fólki, túngumáli og þjóð.

8. Allir innbúar jarðarinnar munu tilbiðja það, hverra nöfn ekki eru skrifuð í lífsbók lambsins, þess slátraða alt í frá sköpun heimsins.

9. Hver sem eyru hefir, hann heyri.

10. Hver sem herleiðir, hann skal herleiddur verða; hver, sem með sverði drepur, skal með sverði drepinn verða. Hèr reynir á þolgæði og trú heilagra.

11. Eg sá annað dýr stíga upp af jörðunni, það hafði tvö horn, lík lambshornum, mál þess var eins og drekamál.

12. Það fer öllu því sama fram, sem hið fyrra dýrið, í augsýn þess, og lætur jörðina, og alla sem á henni búa, tilbiðja fyrra dýrið, hvers banvæna sár hafði verið læknað.

13. Það gjörir stór tákn og lætur eld falla til jarðar af himni í augsýn manna.

14. Það afvegaleiðir þá, sem á jörðunni búa, með þeim táknum, sem því er lofað að gjöra í augsýn dýrsins, og býður innbúum jarðarinnar að gjöra líkneski eptir því dýrinu, sem feingið hafði sár af sverðinu, en lifði þó.

15. Því var lofað að gefa líf líkneskju dýrsins, svo líkneskjan talaði, og lèt drepa

alla þá, sem ekki vildu tilbiðja líkneski dýrsins.

16. Það lætur alla, stóra og smáa, ríka og fátæka, frjálsa og ófrjálsa setja einkenni á sína hægri hönd eða á enni sín,

17. Svo einginn geti keypt eða selt nokkuð, nema sá, sem hefir þetta merki, nafn dýrsins eða tölustafi nafns þess.

18. Hèr ríður á speki; sá, sem skilníng hefir, útreikni tölustafi dýrsins: því talan er manns nafn, og talan er sexhundruð sextíu og sex.

## 14. KAPÍTULI.

*Lofsaungur þeirra innsigluðu. Það eilífa evangelíum. Hegníngardómur Guðs.*

SÍÐAN sá eg lambið standa á Síonsfjalli, og með því hundrað og fjörutíu og fjórar þúsundir, sem höfðu nafn þess og nafn Föður þess skrifað á ennum sínum.

2. Eg heyrði þá rödd af himni, svo sem nið margra vatnsfalla eða sem mikinn þrumugný; en röddin, sem eg heyrði, var eins og (rödd) hörpuslagara, sem slá hörpur sínar.

3. Þeir súngu einhvern nýan saung frammi fyrir hásætinu og þeim fjórum dýrum og öldúngunum; en einginn gat numið saunginn, nema þær hundrað fjörutíu og fjórar þúsundir, sem leystar voru frá jörðunni.

4. Þessir eru þeir, sem ekki hafa saurgað sig með konum, því þeir hafa varðveitt sitt skírlífi; þeir fylgja lambinu, hvert sem það fer, og hafa leystir verið frá mönnunum, svo sem frumgróði Guðs og lambsins.

5. Í þeirra munni finst eingin lýgi; þeir eru lýtalausir.

6. Eg sá annan eingil fljúga um miðhimininn, hann hèlt á eilífum fagnaðarboðskap, sem hann kunngjörði innbúum jarðarinnar, allri þjóð, kynkvísl, túngumáli og fólki.

7. Hann sagði hárri röddu: óttizt Guð og vegsamið hann, því tími hans dóms er fyrir höndum; tilbiðjið þann, sem gjört hefir himininn og jörðina og sjóinn og uppsprettur vatnanna.

8. Annar eingill kom á eptir honum, og sagði: hún er fallin, hún er fallin, sú mikla Babýlon, sem byrlað hefir öllum þjóðum vín síns eitraða saurlifnaðar.

9. Þar á eptir kom hinn þriðji eingill, sem sagði hárri röddu: hver sem tilbiður dýrið og þess líkneskju og lætur merkja sig á sínu enni eða hönd.

10. Hann skal drekka Guðs

reiðivín, sem helt er óblönd-
uðu á hans reiðibikar, kvelj-
ast í eldi og brennisteini í
augsýn heilagra eingla og
lambsins.
11. Og kvala-reykur þeirra
mun uppstíga eilíflega; þeir,
sem tilbiðja dýrið og þess líkn-
eskju og láta merkja sig með
þess fángamarki, skulu einga
ró hafa nótt nè dag.
12. Hèr reynir á þolgæði hei-
lagra, sem varðveita boðorð
Guðs og trúna á Jesúm.
13. Þá heyrði eg rödd af himni,
sem sagði: skrifa þú, sælir eru
þeir framliðnu, sem nú eru í
Drottni dánir. Já segir And-
inn, þeir geta hvílt sig eptir
sitt erviði, því þeirra verk
fylgja þeim.
14. Síðan sá eg hvítt ský og
einhvern sitja á skýinu, líkan
manni; hann hafði gullega
kórónu á höfðinu og bitran ljá
í hendi sèr.
15. Þá gekk annar eingill
út úr musterinu, hann kallaði
hárri röddu til þess, sem á
skýinu sat: bregtu ljánum og
sker upp, því uppskerutíminn
er kominn, og ávöxtur jarðar-
innar orðinn fullvaxinn.
16. Sá, sem á skýinu sat, brá
þá ljánum ofan á jörðina, og
jörðin varð slegin.
17. Þá gekk annar eingill út
úr musterinu á himnum, hann
hèlt og á bitrum ljá;
18. En annar eingill gekk frá
altarinu, hann hafði vald yfir
eldinum; hann kallaði hárri
röddu til þess, sem hèlt á þeim
beitta ljá, og sagði: bregtu
þínum hvassa ljá og afsker
berin af vínviði jarðarinnar,
því vínviðarberin eru orðin
fullvaxin.
19. Eingillinn brá þá ljá sín-
um ofan á jörðina og afskar
vínviðar ávöxt jarðarinnar, og
kastaði honum í þá stóru vín-
pressu Guðs reiði.
20. Síðan var vínpressan troð-
in utan borgar, og gekk blóð
út af vínpressunni, svo að
tók upp undir hestabeizlin,
og flaut yfir sextán hundruð
renniskeið.

## 15. KAPÍTULI.

*Þær sjö seinustu plágur; saungur sigurvegar-anna. Þær sjö reiðiskálir.*

SÍÐAN sá eg annað mikið
og dásamlegt teikn á himni,
sjö eingla, sem höfðu þær sjö
seinustu plágur, með hverjum
Guðs reiði átti að enda.
2. Eg sá eins og glersjó eldi
blandinn, og þá, sem sigrað
höfðu dýrið og þess líkneskju
og tölu nafns þess, standa við
glersjóinn, með hörpur Guðs í
höndum sèr.
3. Þeir sýngja saung Mósis

þjónustumanns, og saung
lambsins, segjandi: mikil og
dásamleg eru þín verk, Drott-
inn Guð alvaldi, rèttvísir og
sannir eru þínir vegir, þjóð-
anna konúngur!
4. Hver skyldi ekki óttast
þig, Drottinn, og vegsama þitt
nafn? því þú einn ert heilag-
ur; allar þjóðir munu koma
og falla fram fyrir þèr; þínar
rèttvísu ráðstafanir eru opin-
berar orðnar.
5. Eptir þetta sá eg að opn-
aðist musteri vitnisburðar tjald-
búðarinnar á himni.
6. Þá geingu út úr musterinu
þeir sjö einglar, sem höfðu
þær sjö plágur, þeir voru
skrýddir hreinu skínanda líni
og gyrtir um brjóstin með gull-
legum beltum.
7. Eitt af þeim fjórum dýr-
um fèkk þeim sjö einglum
sjö gulllegar skálar, fullar af
reiði Guðs, þess er lifir um
aldir alda.
8. Þá fyltist musterið reykjar
af dýrð og almætti Guðs, og
einginn mátti inn gánga í must-
erið, þar til afliðnar voru þær
sjö plágur þeirra sjö eingla.

## 16. KAPÍTULI.

*Þeir sjö einglar hella úr þeim sjö skálum.*

OG eg heyrði mikla raust
frá musterinu, sem talaði
til þeirra sjö eingla: farið og
hellið úr þeim sjö skálum Guðs
reiði yfir jörðina.
2. Þá fór sá fyrsti og helti
úr sinni skál yfir jörðina. Þá
komu ljót og ill sár á þá menn,
sem höfðu mark dýrsins og
tilbáðu þess líkneskju.
3. Sá annar eingill helti úr
sinni skál í sjóinn, og varð
hann að blóði, eins og dauða-
blóði, svo að hver lifandi skepn-
a dó í sjónum.
4. Sá þriðji eingill helti úr
sinni skál í fljótin og uppsprett-
ur vatnanna, og urðu þau að
blóði.
5. Eg heyrði eingil vatnanna
segja: rèttvís ertu, þú sem ert
og varst, þú hinn heilagi, að
þú hefir dæmt þannig;
6. Af því þeir hafa úthelt
blóði heilagra og spámann-
anna, hefir þú gefið þeim blóð
að drekka; þeir eru þess mak-
legir.
7. Þá heyrði eg talað frá alt-
arinu: já, Drottinn Guð alvaldi,
sannir og rèttvísir eru þínir
dómar.
8. Sá fjórði helti úr sinni skál
í sólina, honum var gefið vald
til að brenna mennina í eldi.
9. Mennirnir stiknuðu þá af
miklum hita og löstuðu Guð,
sem hafði vald yfir þessum
plágum, og ekki betruðu þeir

sig, svo þeir gæfi honum dýrð-
ina.
10. Sá fimti helti úr sinni skál
á hásæti dýrsins; þá formyrkv-
aðist þess ríki, og menn bitu í
túngur sínar af ofraun,
11. Og hallmæltu himinsins
Guði fyrir sín harmkvæli og
sár, en lètu þó ekki af athæfi
sínu.
12. Sá sjötti helti úr sinni skál
í fljótið mikla Evfrat; vatnið
í því þornaði þá upp, svo að
vegur greiddist fyrir konúng-
ana úr sólaruppkomu-stað.
13. Síðan sá eg þrjá óhreina
anda, eins og pöddur, fara út
af munni drekans og af munni
dýrsins og af munni falsspá-
mannsins.
14. Þetta eru djöfla andar,
sem gjöra teikn, sem fara til
allra konúnga í veröldinni, til
að safna þeim saman til stríðs-
ins á hinum mikla degi Guðs
hins alvalda.
15. Sjá, eg kem eins og þjóf-
ur; sæll er sá, sem vakir og
geymir sín klæði, svo hann
gángi ekki nakinn um kríng
og að aðrir sjái hans blygðun.
16. Andarnir söfnuðu þeim
saman á þeim stað, sem á
Hebresku kallast Harmage-
dón.
17. Sá sjöundi helti úr sinni
skál út í loptið; þá gekk raust
mikil út af musteri himinsins
frá hásætinu, sem sagði: það
er skeð.
18. Þá urðu eldíngar og brest-
ir og þrumur, og hræríng svo
mikil, að aldrei hefir orðið önn-
ur slík, frá því menn urðu til
á jörðunni, eins og sú hrær-
íng varð.
19. Þá skiptist borgin mikla í
þrjá hluti, og borgir heiðíngj-
anna hrundu. Þannig mintist
Guð þeirrar miklu Babýlonar,
að hann lèt hana bergja á víni
sinnar heiptarreiði.
20. Allar eyar hvurfu, og fjöll-
in urðu að eingu;
21. Þá fèll vættarþúngt hagl
af himni yfir mennina; en
mennirnir hallmæltu Guði fyr-
ir haglpláguna, því að sú plága
var ákaflega mikil.

## 17. KAPÍTULI.

*Sú mikla hórkona Babýlon. Útþýðíng hórkon-unnar og dýrsins.*

OG einn af þeim sjö eingl-
um, sem hèldu á þeim sjö
skálum, kom til mín og talaði
svo við mig: kom híngað, eg
skal sýna þèr dóminn yfir
skækjunni miklu, sem situr á
þeim mörgu vötnum,
2. Sem konúngar jarðarinnar
hafa drýgt saurlifnað með, og
innbúar jarðarinnar eru orðnir
drukknir af víni hennar hór-
unar.

3. Hann leiddi mig þá í anda á eyðimörku, hvar eg sá konu sitjandi á skarlats-rauðu dýri, sem var fult af guðlöstunarorðum, og hafði sjö höfuð og tíu horn.

4. Konan var klædd í purpura og skarlat, og prýdd gulli, gimsteinum og perlum, og hèlt á gullstaupi í hendi sèr, sem fult var af viðurstygð og óhreinleika hennar saurlifnaðar.

5. Á enni hennar voru skrifuð þessi orð: leyndardómur, sú mikla Babýlon, móðir hórkvenna og viðurstygða jarðarinnar.

6. Eg sá, að konan var drukkin af blóði heilagra af blóði Jesú votta, og undraðist eg stórlega, er eg leit hana.

7. Þá sagði eingillinn við mig: hví furðar þig? Eg skal segja þèr leyndardóm konunnar og dýrsins, sem ber hana og hefir þau sjö höfuð og tíu horn.

8. Dýrið, sem þú sást, var, en er ekki: það mun síðan upp stíga frá afgrunninu og tortýnast; þá munu innbúar jarðarinnar undrast, hverra nöfn ekki hafa verið skrifuð í lífsins bók frá upphafi heimsins, þá þeir sjá, að dýrið, sem áður var, er ekki framar til, en kemur þó aptur. Hèr ríður á hugskoti, sem hefir speki.

9. Þau sjö höfuð eru sjö fjöll, sem konan situr á, og sjö konúngar,

10. Fimm eru fallnir, einn er enn uppi, annar er ókominn, en þá hann kemur, mun hann vara skamma stund.

11. Dýrið, sem var, en er ekki til framar, er sá áttundi, og sprettur upp af þeim sjö, og mun tortýnast.

12. Þau tíu horn, sem þú sást, eru tíu konúngar, sem enn þá ekki hafa tekið við ríki, heldur hafa feingið vald, sem konúngar, stundarkorn með dýrinu.

13. Þessir eru samhuga, og ljá dýrinu sinn styrk og sitt vald.

14. Þessir munu stríða við lambið, en lambið mun sigra þá, því það er Drottinn drottnanna og konúngur konúnganna, og þeir, sem með því eru, eru hinir kölluðu, útvöldu og trúu.

15. Hann sagði og við mig: vötnin, sem þú sást, hvar skækjan situr, eru fólk og lýðir, þjóðir og túngur.

16. En þau tíu horn, sem þú sást, og dýrið, munu hata skækjuna, eyðileggja hana, gjöra klæðlausa, eta hold hennar og brenna hana sjálfa í eldi.

17. Því Guð hefir lagt þeim í brjóst, að gjöra dýrsins vilja, vera samráða og ljá því sitt

ríki, þar til Guðs ráðstafanir fullkomnast.

18. En konan, sem þú sást, er borgin mikla, sem heldur ríki yfir konúngum jarðarinnar.

## 18. KAPÍTULI.

*Fall borgarinnar Babýlonar.*

OG eptir þetta sá eg annan eingil stíga ofan af himni, hann hafði mikið vald; jörðin ljómaði af hans dýrð.

2. Hann kallaði hárri röddu, segjandi: hún er fallin, hún er fallin, sú mikla Babýlon, og orðin að djöfla heimkynni og fángelsi als konar óhreinna anda og als konar óhreinna og viðbjóðslegra fugla,

3. Af því hún hefir byrlað öllum þjóðum sitt áfeinga hórunar vín, og konúngar jarðarinnar hafa drýgt saurlifnað með henni, og kaupmenn jarðarinnar eru ríkir orðnir af hennar megna óhófi.

4. Þá heyrða eg aðra rödd af himni, sem sagði: farið út af borginni, mitt fólk, svo þèr takið einga hlutdeild í hennar syndum, og hreppið ekki hennar plágur;

5. Því hennar syndir ná alt upp til himins, og Guð hefir minnzt hennar ránglætis.

6. Gjaldið henni, eins og hún hefir goldið yður, og gjaldið henni tvöfalt eptir hennar verkum; blandið henni tvöfalt í þeim bikar, sem hún hefir blandað yður í.

7. Veitið henni eins mikla kvöl og hörmúngu, eins og hennar stærilæti og óhóf hefir verið; því hún segir í sínu hjarta: eg sit sem drottníng, og verð aldrei ekkja, eg fæ aldrei sorg að sjá.

8. Fyrir þetta munu hennar plágur koma á einum degi, dauði og sorg og húngur; hún mun brend verða í eldi, því sá Guð, sem hefir dæmt hana, er máttugur Drottinn.

9. Konúngar jarðarinnar, sem hafa drýgt saurlifnað og munaðarlífi með henni, munu barma sèr og gráta yfir henni, þegar þeir sjá reykinn af hennar brennu.

10. Af ótta fyrir hennar kvöl munu þeir standa lángt frá og segja: vei, vei, þú hin mikla borgin, Babýlon, þú volduga borg, því hefndin hefir komið yfir þig á einni stundu.

11. Eins munu kaupmenn jarðarinnar gráta og harma yfir henni, því einginn kaupir nú fremur þeirra farma,

12. Farma gulls og silfurs, gimsteina og perlna, líns og purpura, silkis og skarlats, als konar ilmvið, als konar ker af fílabeini og hinum dýr-

asta viði, af eiri, járni og marmara,
13. Kanelbörk, balsam, ilmjurtir, smyrsl, reykelsi, vín, viðsmjör, hveiti, korn, eyki, sauðfè, hesta, kerrur, þræla og mansmenn.
14. Sá gróði, sem þín sála girntist, hefir brugðizt þèr; öll sæld og glys er þèr horfið, svo að þú finnur það ekki framar.
15. Sölumenn þessara hluta, sem hafa ábatazt á borginni, munu standa áleingdar, grátandi og harmandi af ótta fyrir hennar kvöl,
16. Og segja: vei, vei, þù hin mikla borg, sem íklæddist líni og purpura og skarlati, og varst prýdd gulli og gimsteinum og perlum; því í einu vetfángi eyddist allur þessi auður.
17. Allir stýrimenn, siglíngamenn og hásetar, og þeir sem í förum eru, stóðu áleingdar,
18. Og kölluðu, þá þeir sáu reykinn af hennar brennu, og sögðu: hvar sást maki til þessarar miklu borgar?
19. Þeir jusu mold yfir höfuð sèr, kölluðu upp grátandi og harmandi, og sögðu: vei, vei, þú hin mikla borg, á hverrar yfirlæti allir þeir græddu, sem skip höfðu á sjónum; hún er á einni stundu eyðilögð.
20. Fagna yfir henni, þú himin, og þèr heilögu, postular og spámenn, því Guð hefir hefnt yðar á henni.
21. Einn sterkur eingill tók þá upp stein, eins og mikinn kvarnarstein, og kastaði í sjóinn, segjandi: svo voveiflega skal hin mikla borg kollvarpast, svo að eingar menjar skulu eptir verða.
22. Hörpusláttur, saunglyst, pípuhljómur og lúðragángur skal ekki framar heyrast í þèr; eingir íþróttamenn skulu framar finnast í þèr, einginn kvarnar-þytur skal framar heyrast í þèr.
23. Ljósabirta skal ekki framar sjást í þèr, eingin raust brúðguma og brúðar skal framar heyrast í þèr; því þínir kaupmenn voru höfðíngjar jarðarinnar, og allar þjóðir leiddust afvega af þínum töfradrykk.
24. Í henni fanst blóð spámanna og heilagra, og allra þeirra, sem á jörðu hafa drepnir verið.

## 19. KAPÍTULI.

*Sigursaungur á himni. Kristur fer í hernað og sigrar.*

EPTIR þetta heyrða eg rödd á himni, eins og mikinn manngný, sem sagði: lofið Drottin; hjálpræðið, dýrðin

og máttúrinn tilheyrir Guði
vorum,
2. Því sannir og rèttvísir eru
hans dómar; hann hefir hegnt
skækjunni miklu, sem spilti
jörðunni með sínum saurlifn-
aði, og hefnt á henni fyrir
dráp sinna þjóna.
3. Og aptur sögðu þeir: lofið
Drottinn; hennar reykur mun
upp stíga um aldir alda.
4. Þeir tuttugu og fjórir öld-
úngar og þau fjögur dýrin
fèllu þá fram og tilbáðu Guð,
sem á hásætinu sat, segjandi:
amen, lofið Drottin.
5. Þá gekk rödd út frá há-
sætinu, sem sagði: lofið Guð
vorn, allir hans þjónar, og
þèr sem hann óttizt, smáir og
stórir.
6. Þá heyrði eg raddir, eins
og af miklum mannfjölda, og
sem nið margra vatna, og sem
sterkan þrumu-gný; þær sögð-
u: lofið Drottin; því Drott-
inn Guð, sá alvaldi, ríkir.
7. Gleðjumst og fögnum og
vegsömum hann, því brúðkaup
lambsins er komið, og þess
brúður hefir búið sig.
8. Henni var feingið skín-
andi og hreint lín til að
skrýðast í; línklæðið er dygð-
ir heilagra.
9. Og hann sagði við mig:
skrifa þú, sælir eru þeir,
sem eru boðnir til brúðkaups
lambsins. Síðan sagði hann
við mig: þetta eru sannarleg
Guðs orð.
10. Eg fèll þá fram fyrir fæt-
ur honum, til að tilbiðja hann;
en hann sagði við mig: varastu
þetta; eg er samþjón þinn og
bræðra þinna, sem hafa vitnis-
burðinn Jesú, tilbið þú Guð;
því vitnisburður Jesú er andi
spádómsins.
11. Síðan sá eg himininn opn-
ast, og sá hvítan hest; sá, sem
á honum sat, kallast sá Trúi
og Sannorði; hann dæmir og
stríðir með rèttvísi.
12. Hans augu voru sem elds-
logi, og á höfði hans voru
margar kórónur; hann hafði
skrifað nafn, sem einginn
þekti, nema sjálfur hann.
13. Hann var skrýddur
skikkju blóðlitaðri, og hans
nafn kallast "Orð Guðs."
14. Þær himnesku hersveitir
fylgdu honum á hvítum hest-
um, íklæddar hvítu hreinu líni.
15. Af hans munni gekk
tvíeggjað sverð biturt, með
hverju hann slær þjóðirnar,
og ríkir yfir þeim með járn-
sprota; hann treður vín-
pressu heiptarreiði Guðs hins
alvalda.
16. Á skikkjunni og á lend
sinni hefir hann nafn áskrif-

að: konúngur konúnganna og
Drottinn drottnanna.
17. Þá sá eg einn eingil, sem
stóð í sólunni; hann kallaði
hárri röddu til allra fuglanna,
sem flugu í miðhimninum:
komið, safnizt saman til þeirr-
ar miklu veizlu Guðs,
18. Til að eta hold konúng-
anna, hershöfðíngjanna og
kappanna, hestanna og ridd-
aranna, og allra, bæði frjálsra
og ófrjálsra, smárra og stórra.
19. Þá sá eg dýrið og kon-
únga jarðarinnar og þeirra
herflokka samansafnaða, til að
heya stríð við þann, sem á
hestinum sat, og við hans
herlið.
20. Dýrið varð handtekið, og
falspámaðurinn með því, sem
hafði gjört tákn í augsýn þess,
með hverjum hann afvega
leiddi þá, sem höfðu tekið við
merki dýrsins og tilbeðið þess
líkneskju; þeim var báðum
kastað lifandi í elddíkið, sem
logar af brennisteini.
21. Hinir aðrir voru drepnir
með sverðinu, sem út gekk af
munni þess, er á hestinum sat,
og allir fuglar söddust af hræ-
um þeirra.

## 20. KAPÍTULI.

*Djöfullinn er bundinn. Þúsund ára ríkið. Djöfullinn látinn laus um stund og kastað í díkið. Dómurinn.*

ÞÁ sá eg eingil stíga niður
af himni; hann hèlt á lykli
afgrunnsins og stórum fjötri í
hendinni.
2. Hann tók drekann, þann
gamla höggorm, sem er djöf-
ull og Satan, og batt hann um
þúsund ár,
3. Kastaði honum í afgrunn-
ið, læsti aptur og setti innsigli
yfir, svo hann ekki afvega
leiddi þjóðirnar framar, uns
þúsund ár væru liðin; en að
þeim liðnum á hann að leysast
um stuttan tíma.
4. Þá sá eg hásæti; þeim,
sem á þeim sátu, var gefið
dómsvald. Líka sá eg sálir
þeirra, sem höfðu verið háls-
höggnir fyrir vitnisburð Jesú
og orð Guðs, og þeirra, sem
ekki höfðu tilbeðið dýrið eða
þess líkneskju og ekki höfðu
þess merki á ennum sèr eða
hendi. Þeir lifðu og ríktu
með Kristi um þúsund ár.
5. En aðrir dauðir lifnuðu
ekki fyr, en þau þúsund ár
voru liðin. Þetta er sú fyrri
upprisa.
6. Sæll og heilagur er sá, sem
hlutdeild tekur í þeirri fyrri
upprisu; yfir þeim hefir sá
annar dauði ekkert vald, held-
ur munu þeir vera kennimenn
Guðs og Krists, og ríkja með
honum þúsund ár.

7. En þegar þau þúsund ár eru liðin, verður Satan leystur af fángelsinu.

8. Þá mun hann út gánga til að afvega leiða þjóðirnar í þeim fjórum heims endum, Gog og Magog, og safna þeim til stríðs; mergð þeirra er sem sjáfarsandur.

9. Þeir fóru upp á flatlendið og umkríngdu herbúðir heilagra, og þá elskuðu borg. En þá fór eldur af himni ofan, og eyddi þeim.

10. En djöflinum, sem afvega leiddi þá, var kastað í það logandi brennisteinsdíki, þar sem dýrið var og falsspámaðurinn; þar munu þau kveljast dag og nótt um allar aldir.

11. Þá sá eg mikið hásæti hvítt, og þann, sem á því sat; en fyrir sjón hans hvarf himin og jörð, svo eingar eptirstöðvar voru.

12. Eg sá þá dauðu, smáa og stóra, standa frammi fyrir hásætinu, og bókunum var lokið upp. Þá var annari bók lokið upp, það var lífsins bók; og voru þeir dauðu dæmdir eptir þeirra verkum, sem skrifuð voru í bókunum.

13. Sjórinn skilaði aptur þeim dauðu, sem í honum voru, og dauðinn og hel skiluðu aptur þeim dauðu, sem í þeim voru, og hver þeirra var dæmdur eptir sínum verkum.

14. Dauðanum og helju var kastað í elddíkið; þetta elddíki er sá annar dauði.

15. Og hver sem ekki fanst skrifaður í lífsins bók, honum var kastað í elddíkið.

## 21. KAPÍTULI.

*Sú himneska Jerúsalem.*

EG sá nýan himin og nýa jörð, því sá fyrri himin og sú fyrri jörð var horfin, og sjórinn var ekki framar til.

2. Eg sá borgina helgu, þá nýu Jerúsalem, stíga niður af himni frá Guði, búna sem brúði, er skartar fyrir manni sínum.

3. Eg heyrði mikla rödd af himni segjandi: þetta er tjaldbúð Guðs meðal mannanna; hjá þeim mun hann bústað hafa, og þeir skulu vera hans fólk, og Guð sjálfur mun vera hjá þeim, og vera þeirra Guð.

4. Hann mun þerra hvert tár af þeirra augum, og dauðinn mun ekki framar til vera; hvorki harmur, nè vein, nè mæða mun framar til vera, því það fyrra er farið.

5. Sá, sem í hásætinu sat, sagði: sjá eg gjöri alt nýtt; hann sagði við mig: skrifaðu, að þessi orð eru trúanleg og sönn.

6. Enn framar sagði hann við mig: það er skeð; eg em Á og Ó, upphaf og endir. Þeim þyrsta skal eg ókeypis gefa að drekka af uppsprettu lífsins vatns.

7. Sá, sem sigrar, skal öðlast þetta, og eg skal vera hans Guð, og hann skal vera minn sonur.

8. En þeir ístöðulausu og ótrúu, syndarar og glæpamenn, manndráparar og frillulífismenn, galdramenn og skurðgoðadýrkarar og allir lygarar, þeirra hlutfall skal vera í því díki, sem logar af eldi og brennisteini; það er sá annar dauði.

9. Þá kom einn af þeim sjö einglum, sem hèldu á þeim sjö skálum, er fullar voru af þeim sjö síðustu plágum, og talaði við mig segjandi: kom híngað, eg skal sýna þèr brúðina, sem nú er gipt lambinu.

10. Hann flutti mig þá í anda upp á mikið og hátt fjall, og sýndi mèr Jerúsalem, borgina helgu, sem steig niður af himni frá Guði;

11. Hún hafði dýrð Guðs; hennar ljómi var líkur dýrmætasta steini, sem krystalskær jaspis.

12. Hún hafði mikinn og háan borgarvegg, tólf hlið, og við hliðin tólf eingla með áskrifuðum nöfnum hinna tólf Ísraels kynkvísla.

13. Móti austri voru þrjú hlið, móti norðri þrjú, móti suðri þrjú, móti vestri þrjú.

14. Veggur borgarinnar hafði tólf undirstöðusteina, á þeim voru tólf nöfn þeirra tólf postula lambsins.

15. Sá, sem við mig talaði, hèlt á gullkvarða, til að mæla með borgina, hlið hennar og veggi.

16. Borgin lá í ferhyrníng, jöfn á leingd og breidd. Hann mældi borgina með kvarðanum, tólf þúsund renniskeið, hennar leingd, breidd og hæð var jöfn.

17. Hann mældi vegg borgarinnar hundrað fjörutíu og fjórar álnir, eptir manns mælíngu, sem er eingilsins.

18. Veggur hennar var bygður af jaspis, og borgin af tæra gulli, sem skært gler væri.

19. Undirstöðusteinar borgarveggsins voru skreyttir als konar dýrmætum steini; fyrsti undirstöðusteinninn var jaspis, annar saffír, þriðji kalsedón, fjórði smaragð,

20. Fimti sardoníx, sjötti sardínarsteinn, sjöundi krysolít, áttundi beryll, níundi tópaz,

tíundi krysópras, ellefti hýasint, tólfti ametyst.

21. Þau tólf hlið voru tólf perlur, og hvert hlið fyrir sig var úr einni perlu; stræti borgarinnar voru af tæra gulli, eins og gagnsært gler væri.

22. Ekkert musteri sá eg í henni, því Guð Drottinn hinn alvaldi og lambið er hennar musteri.

23. Borgin þarf ekki heldur sólar við eða túngls, til að lýsa, því dýrð Guðs uppljómar hana, og lambið er hennar ljós;

24. Þjóðirnar munu gánga í hennar ljósi, og konúngar jarðarinnar færa henni sína dýrð og vegsemd.

25. Hliðum hennar verður ekki lokað um daga, því þar mun aldrei nótt koma.

26. Dýrð og vegsemd þjóðanna munu þángað flytjast.

27. Ekkert óhreint, eingin, sem fremur viðurstygð eða fer með lygi, mun þángað inn koma, heldur þeir einir, sem eru skrifaðir í lífsbók lambsins.

## 22. KAPÍTULI.

*Framhald. Niðurlag bókarinnar.*

HANN sýndi mèr straum lífsvatnsins, hann var skær sem krystall, og rann frá hásæti Guðs og lambsins.

2. Milli borgar strætanna og straumsins beggja vegna voru lífstrèn, sem báru tólffaldan ávöxt, á sínum mánuði hvern, en blöð viðarins eru til lækníngar þjóðunum.

3. Eingin bölvan skal framar vera, og hásæti Guðs og lambsins skal í henni vera, og hans þjónar skulu honum þjóna.

4. Þeir skulu sjá hans auglit, og bera hans nafn á ennum sèr.

5. Nótt skal ekki framar til vera, og eingin þörf á ljósi eða birtu sólar, því Drottinn Guð mun lýsa yfir þeim, og þeir skulu ríkja um aldir alda.

6. Síðan sagði hann við mig: þessi orð eru áreiðanleg og sönn; og Drottinn, Guð anda spámannanna, sendi sinn eingil til að sýna sínum þjónum það, sem brátt á að ske.

7. Sjá, eg kem snarlega: sæll er sá, sem varðveitir spádómsorð þessarar bókar.

8. Eg, Jóhannes, heyrði og sá þetta, og þá eg hafði heyrt það og sèð, fèll eg fram fyrir fætur þess eingils, sem sýndi mèr þetta, til að tilbiðja hann.

9. En hann sagði við mig: varastu þetta; eg er samþjón þinn og bræðra þinna, spámannanna, og þeirra, sem varðveita orð þessarar bókar; tilbið þú Guð.

10. Enn sagði hann við mig: innsigla þú ekki spádómsorð þessarar bókar, því tíminn er nálægur.

11. Sá rángláti haldi áfram að gjöra rángt, sá saurlífi haldi áfram saurlifnaðinum, sá rèttláti haldi áfram í rèttlætinu, sá heilagi haldi áfram í heilagleikanum.

12. Sjá, eg kem skjótt, og hefi með mèr endurgjaldið handa sèrhverjum, eptir því sem hans verk verða.

13. Eg em Á og Ó, sá fyrsti og síðasti, upphafið og endirinn.

14. Sælir eru þeir, sem breyta eptir hans boðorðum, svo þeir nái að komast að lífstrènu, og megi inn gánga um borgarhliðin inn í borgina;

15. Hundar (saurlífismenn) og galdramenn, manndrápsmenn og skurðgoðadýrkendur skulu úti gista, sömuleiðis hver, sem elskar og iðkar lygi.

16. Eg, Jesús, sendi minn eingil til að votta yður þetta í söfnuðunum; eg em rót og kynstafur Davíðs, morgunstjarnan sú hin skæra.

17. Andinn og brúðurin segjá: kom þú. Sá sem þetta heyrir, hann segi: kom þú. Sá sem þyrstur er, hann komi; hver sem vill, hann taki gefins lífsins vatn.

18. Eg votta það fyrir sèrhverjum, sem heyrir spádómsorð þessarar bókar, að leggi nokkur hèr við, mun Guð á hann leggja þær plágur, sem skrifaðar eru í þessari bók.

19. Og taki nokkur af orðum þessarar spádómsbókar, þá mun Guð af honum taka hans hlutdeild í lífstrènu og borginni helgu, sem um er skrifað í þessari bók.

20. Sá, sem þetta vottar, segir: já, eg kem skjótt, amen. Kom, Drottinn Jesú!

21. Náðin Drottins vors Jesú Krists veri með yður öllum.

# DAVÍÐS SÁLMAR.

---

## 1. SÁLMUR.

*Sæla hinna guðhræddu. Ofarir hinna vondu.*

SÆLL er sá maður, sem ekki geingur í ráð hinna óguðlegu, og ekki staðnæmist á vegi hinna vondu, og ekki situr á samfundi hinna háðgjörnu,

2. Heldur hefir mætur á Drottins lögum og ígrundar hans lögmál dag og nótt,

3. Hann er sem trè, rótsett á vatnsbökkum, sem ber ávöxt á rèttum tíma, hvers blöð ekki visna; alt sem hann gjörir heppnast honum.

4. Öðruvísi er þeim óguðlegu farið; þeir eru sem fis, sem vindurinn feykir.

5. Því standast hinir óguðlegu ei í dóminum, og ei hinir vondu í safnaði hinna rèttlátu, því Drottinn þekkir veg hinna rèttlátu,

6. En vegur óguðlegra er slys.

## 2. SÁLMUR.

*Uppreisn gegn Drottins smurða til einskis; heilræði.*

HVÍ æða þjóðirnar? hví brugga menn fánýtar ráðagjörðir?

2. Konúngar jarðarinnar rísa upp, og höfðíngjarnir bera ráð sín saman móti Drottni og hans smurða,

3. Og segja: "vèr skulum slíta í sundur þeirra bönd, og burt snara þeirra fjötrum."

4. Sá sem býr í himninum hlær; Drottinn gjörir að þeim gys.

5. Hann talar þeim þá til í bræði, og skelfir þá í sinni heipt, og segir:

6. Eg hefi sjálfur smurt minn konúng yfir mitt heilaga fjall, Síon.

7. Eg vil kunngjöra Drottins ályktun; hann sagði við mig: Þú ert minn sonur; í dag ól eg þig.

8. Bið þú mig, og eg mun gefa þèr þjóðirnar að erfð, og jarðarinnar enda til eignar.

9. Þú skalt sundur slá þá með járnsprota; eins og leirker skaltu þá sundurmola.

10. Og verðið nú hyggnir, þèr konúngar! látið yður segjast, þèr, jarðarinnar dómendur!

11. Þjónið Drottni með ótta, og fagnið með lotníngu.

12. Minnist við Soninn, að hann ekki reiðist og þèr tortýnist á yðar leið; því skjótt upptendrast reiði hans. Sælir eru þeir allir, sem honum treysta.

## 3. SÁLMUR.

*Kvein Davíðs; huggun og bæn.*

Sálmur Davíðs, þegar hann flúði fyrir Absalon, syni sínum.

DROTTINN, hversu margir eru mínir óvinir, margir þeir, sem rísa móti mèr,

2. Margir, sem segja um mig: hann hefir ekkert athvarf hjá Guði! Sela! (málhvíld).

3. En þú, Drottinn, ert minn skjöldur, minn heiður, og sá sem upplyptir mínu höfði.

4. Mitt bænakvak sendi eg Drottni, og hann sendir mèr bænheyrslu frá sínu heilaga fjalli. Málhvíld.

5. Eg legg mig fyrir og sef, og eg vakna, því Drottinn varðveitir mig.

6. Eg óttast ekki, þó að tíu þúsundir manns umkríngi mig, og að mèr þreyngi.

7. Rístu upp, Drottinn! frelsa mig, minn Guð! því þú sundur brýtur kjálka allra minna óvina, sundur molar tennur allra óguðlegra.

8. Hjá Drottni er frelsun. Þín blessun veri yfir þínu fólki. Málhvíld.

## 4. SÁLMUR.

*Bæn. Áminníng. Trúnaðartraust.*

Til hljóðfærameistarans; (að sýngja) á hljóðfæri. Sálmur Davíðs.

BÆNHEYR þú mig, þá eg kalla, Guð míns rèttar! Í þreyngíngunni rýmka þú um mig, miskuna mèr, og heyr mína bæn!

2. Þèr, mannanna börn, hversu leingi viljið þèr hniðra minni sæmd? hversu leingi viljið þèr elska hègómann og lygi? Málhvíld.

3. Viðurkennið þó, að Drottinn hefir útvalið sinn guðhrædda (dýrkara). Drottinn heyrir, þá eg ákalla hann.

4. Óttizt og varizt synd, athugið það í yðar rúmi, og verið kyrrlátir. Málhvíld.

5. Fram berið rèttlætis fórn og treystið Drottni.

6. Margir segja: Hver mun auðsýna oss gott? Drottinn, lyptu ljósi þíns andlitis yfir oss!

7. Þú gefur mínu hjarta meiri gleði en þá, sem menn hafa, þá korn þeirra og vín er ríkuglegt.

8. Í friði legst eg fyrir, í friði sef eg; því þú einn, Drottinn, ert það, sem lætur mig búa óhultan.

## 5. SÁLMUR.

*Afbeiðni og bæn.*

(Að sýngja) á flautu, til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

DROTTINN, hneig þín eyru til minna orða, taktu eptir minni andvarpan!
2. Gefðu gaum að mínum kveinstaf, minn konúngur og minn Guð! þèr sendi eg mína bæn.
3. Árla, Drottinn, heyrir þú mína raust; árla kem eg fram fyrir þig og bíð þín.
4. Þú ert ekki sá Guð, sem óguðlegt athæfi líki. Sá vondi mun ekki búa hjá þèr.
5. Þeir dramblátu munu ekki standast fyrir þinni augsýn. Þú hatar alla rángláta; þú tortýnir þeim, sem tala lygi.
6. Hinir drápgjörnu og fláráðu eru Drottni andstygð.
7. En í trausti þinnar miklu miskunar vil eg inngánga í þitt hús, og biðjast fyrir í þínu heilaga musteri í þínum ótta.
8. Vísa þú mèr veg þinna rèttinda, sakir minna óvina, gjör mèr greiðan þinn veg.
9. Því í þeirra munni er eingínn sannleiki, innra býr með þeim mikil vonzka, þeirra barki er opin gröf; túngumjúkir eru þeir.
10. Láttu þá, ó Guð, fá dómsáfelli; lát þá falla á sínum ásetníngi; burt skúfa þeim sakir þeirra mörgu misgjörnínga, því þeir eru þèr þverbrotnir.
11. Þá munu allir þeir gleðjast, sem reiða sig á þig, þeir munu gleðjast að eilífu, því þú heldur yfir þeim þinni hendi; og þeir, sem elska þitt nafn, munu í þèr glaðir vera.
12. Því þú, Drottinn, blessar hinn rèttláta og verndar hann með þinni náð, eins og með skildi.

## 6. SÁLMUR.

*Bæn um heilbrigði.*

Davíðs Sálmur til hljóðfærameistarans, að spila á áttstreingjað hljóðfæri.

DROTTINN, refsa mèr ekki í þinni reiði, og typta mig ekki í þinni grimd.
2. Drottinn, vertu mèr miskunsamur, því eg örmagnast; lækna mig, Drottinn, því mín bein skjálfa, og mín sál er mjög óróleg.
3. Ó, Drottinn, hversu leingi (á eg að pínast)?
4. Snú þèr til mín, Drottinn, frelsa mína sálu, frelsaðu mig, sakir þinnar miskunar.
5. Því í dauðanum man eingínn til þín; hver vegsamar þig í helju?
6. Eg em þreyttur af and-

varpan; eg væti alla nóttina mína sæng, og bleyti með mínum tárum mitt legurúm.

7. Auga mitt er gegnum stúngið af harmi; það er orðið ellilegt, því valda mínir mörgu óvinir.

8. Víkið frá mèr allir illgjörðamenn, því Drottinn hefir heyrt minn kveinstaf.

9. Drottinn hefir heyrt mína auðmjúka bæn. Drottinn bænheyrir mig.

10. Sneypast skulu og ákaflega skelfast allir mínir óvinir, á flótta komast og sviplega sneypast.

## 7. SÁLMUR.

*Bæn um Guðs hjálp.*

Umkvörtun Davíðs fyrir Drottni yfir Kúsh Benjamíníta.

DROTTINN, minn Guð, eg flý til þín; frelsa mig frá öllum mínum ofsóknurum og bjarga mèr,

2. Að þeir ekki sem ljón sundurtæti mig (mitt líf), meðan einginn er, sem bjargar.

3. Drottinn, minn Guð, hafi eg til þess unnið, sèu rángindi í minni hendi,

4. Hafi eg illa launað þeim, sem hafði frið við mig, hafi eg rænt þann, sem án saka var minn óvinur,

5. Þá ofsæki mig minn óvinur og nái mèr, og niðurtroði mitt líf til jarðar og leggi mína sál í duptið. Málhvíld.

6. Stattu upp, Drottinn, í þinni reiði; upp hef þig gegn æði minna óvina; hraða þèr, mèr til hjálpar, vakna mèr (til liðs) og set rètt.

7. Fólkið safnist að þèr; kom aptur á hæðina sakir þess.

8. Drottinn mun dæma fólkið; dæm þú mig, Drottinn, eptir minni rèttvísi, og lát mèr vegna eptir mínu sakleysi.

9. Láttu þó vonzku hinna óguðlegu fá enda; og staðfestu hinn rèttláta, þú rèttláti Guð, sem rannsakar hjörtun og nýrun.

10. Minn skjöldur er hjá Guði; hann frelsar þá, sem eru hreinhjartaðir.

11. Guð er rèttlátur dómari; hann er sá Guð, sem reiðist daglega.

12. Ef maðurinn ekki snýr sèr, þá hvetur hann sitt sverð, spennir sinn boga, og miðar til.

13. Hann hefir dráps vopn til reiðu honum á móti. Hann gjörir örvar sínar brennandi.

14. Sá (óguðlegi) gat ránglætið, gekk þúngaður með óbótaverk, og fæðir lygi.

15. Hann hefir grafið gröf,

og gjört hana djúpa, en hann mun falla í þá gröf, sem hann gróf;

16. Honum mun koma í koll hans ilska, og hans ránglæti yfir hans hvirfil.

17. Eg skal þakka Drottni, eins og hans rèttlæti á skilið (eptir hans rèttlæti), og vegsama nafn Drottins, hins æðsta.

## 8. SÁLMUR.

*Gæðska og hátign skaparans.*

Til hljóðfærameistarans, að sýngja á Githith (hljóðfæri). Sálmur Davíðs.

DROTTINN, vor konúngur (stjórnari), hversu dýrðlegt er þitt nafn á allri jörðunni, sem upplyptir yfir himininn þinni hátign.

2. Af munni barna og brjóstmylkínga hefir þú til búið þèr lofgjörðina, sakir þinna óvina, til þess, að niður þagga þína mótstöðumenn, þá hefndargjörnu.

3. Þegar eg sè þinn himin, verkin þinna handa, túnglið og stjörnurnar, sem þú tilbjóst,

4. (Þá kemur mèr til hugar), hvað er maðurinn þess, að þú minnist hans, og mannsins barn, að þú vitjar þess?

5. Þú gjörðir hann litlu óæðri en einglana, en þú krýndir hann sæmd og heiðri.

6. Þú lætur hann ráða yfir þínum handaverkum; alla hluti lagðir þú undir hans fætur,

7. Sauði og naut, fènað allan og dýr merkurinnar (villudýrin),

8. Fuglana undir himninum og fiskana í sjónum, sem fara um vatnsins veg.

9. Ó, Drottinn, vor konúngur, hversu dýrðlegt er þitt nafn á allri jörðunni;

## 9. SÁLMUR.

*Von og bæn hins aðþreyngda.*

Til hljóðfærameistarans á Almuth labben (hljóðfæri). Sálmur Davíðs.

EG vil vegsama Drottin af öllu hjarta, eg vil segja frá öllum þínum dásemdar verkum;

2. Eg vil fagna og gleðjast í þèr, eg vil sýngja lofgjörð þínu nafni, þú æðsti!

3. Þegar þú lætur mína óvini flýa, hníga og tortýnast fyrir þínum svip.

4. Því þú dæmir mig og tekur að þèr mitt málefni; þú situr á þínum dómstól, þú, sem dæmir með rèttvísi.

5. Þú ógnar þjóðunum, og leggur að velli þá óguðlegu; þú afmáir þeirra nafn æ og að eilífu.

6. Óvinarins tortýning er að eilífu enduð, hans staði hefir

þú afmáð, þeirra endurminn-
íng er afmáð.
7. Já, Drottinn situr stöðugt
að eilífu, hann reisir sitt há-
sæti til dóms.
8. Hann dæmir veröldina með
rèttvísi; hann segir upp dóma
yfir fólkinu með sannsýni.
9. Drottinn er athvarf lítil-
magnans, og hæli á neyðar-
innar tíma.
10. Þeir reiða sig á þig, sem
þekkja þitt nafn, því þú yfir-
gefur þá ekki, sem leita þín,
Drottinn.
11. Sýngið lof Drottni, sem
býr á Síon, kunngjörið hans
verk meðal þjóðanna,
12. Því hegnarinn man til
hinna aumu, og gleymir ekki
hrópi hinna undirokuðu.
13. Miskuna mèr, Drottinn,
sjáðu, hvað eg verð að líða af
þeim, sem hata mig; lypt þú
mèr úr dauðans dyrum,
14. Svo eg megi kunngjöra
þitt lof í Síons dóttur hliðum,
að eg megi fagna við þitt frelsi.
15. Þjóðirnar sökkva í þá gröf,
sem þær gjörðu; þeirra eigin
fótur flækist í því neti, sem
þær leynilega útþöndu.
16. Drottinn er kunnur að því,
að gjöra rètt; í verkum sinna
handa er sá óguðlegi flæktur.
Hörpuspils málhvíld.
17. Láttu þá óguðlegu fara
til helju, alt fólk, sem Guði
gleymir.
18. Sá fátæki má ei gleymast
eilíflega, von hins vesæla má
ei ætið bregðast.
19. Stattu upp, Drottinn, láttu
manninn ekki metnast, láttu
fólkið dæmast fyrir þínu aug-
liti.
20. Láttu, Drottinn, ótta að
þeim koma; láttu fólkið vita,
að þeir eru menn. Málhvíld.

## 10. SÁLMUR.

*Bæn mót ofríki.*

HVÍ stendur þú, Drottinn,
svo fjærri? hví felur þú
þig, þegar á liggur?
2. Hinir aumu þjást af dramb-
semi hinna óguðlegu, þeir veið-
ast af brögðum, sem þeir óguð-
legu upp hugsa.
3. Því sá óguðlegi stærir sig
af girnd sinnar sálar, og sá
gripdeildasami hrósar happi,
og lastar Drottin.
4. Sá óguðlegi (segir) í sín-
um ofmetnaði: "Hann (Guð)
skiptir sèr ekki af þessu."
Þetta er öll hans hugsan:
"Einginn Guð er til."
5. Hans vegir heppnast honum
ætíð; þínir dómar eru honum
fjarlægir; alla sína óvini fyrir-
lítur hann.
6. Hann huxar með sjálfum
sèr: "aldrei skal eg skeika;

frá einni kynslóð til annarar nær mèr eingin óheppni."

7. Af formælíngum er hans munnur fullur, af svikum og falsi; undir hans túngu er mæða og ránglæti.

8. Hann liggur í launsátri í þorpunum, í launsátrinu drepur hann þann saklausa; hans augu skima eptir lítilmagnanum;

9. Hann liggur í leyni, eins og ljón í sínu bæli; hann situr um að veiða aumíngja, hann nær honum, því hann veiðir hann í sínu neti.

10. Hann gjörir lítið úr sèr, beygir sig og stökkur svo með sterkum hrömmum yfir lítilmagnann.

11. Hann segir í sínu hjarta: "Guð hefir gleymt því, hann hefir haldið fyrir augun, og sèr það ekki að eilífu.

12. Stattu upp, Drottinn! Guð, lyptu upp þinni hendi, gleymdu ekki þeim aumu!

13. Hvers vegna á sá óguðlegi að fyrirlíta Guð og segja í sínu hjarta: "þú skeytir ei um það."

14. Jú, þú sèr það, því þú horfir á neyðina og þreyngínguna; þú skrifar það á þína hönd. Sá magnlitli reiðir sig á þig. Þú ert hjálpari hinna föðurlausu.

15. Sundurmola arm hins óguðlega og þann óguðlega, ofsæktu hans óguðlegleika, þángað til þú ekki finnur hann framar.

16. Drottinn er konúngur æ og eilíflega. Þjóðirnar verði útreknar úr hans landi!

17. Þú, Drottinn! heyrir bæn hinna aumu, þú styrkir þeirra hjörtu, þitt eyra hyggur að.

18. Þú lætur þann föðurlausa og lítilmagnann ná rètti sínum, svo að menn ekki áfram haldi að flæma fólk úr landinu.

## 11. SÁLMUR.

*Davíðs harmatölur og trúnaðartraust.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

Á DROTTIN treysti eg; því segið þèr þá við mig: flýið til yðar fjalla eins og fuglinn?

2. Því, þá þeir óguðlegu spenna bogann, og leggja ör á streing til að skjóta á þá í dimmunni, sem eru hreinhjartaðir,

3. Þegar grundvöllurinn er niður rifinn, hvað getur þá sá rèttláti gjört?

4. Drottinn býr í sínu heilaga musteri. Drottins hásæti er á himnum, hans augu sjá, hans augnalok prófa mannanna börn.

5. Drottinn prófar þann rètt-

láta, en hans sála hatar þann óguðlega og þann, sem elskar ofbeldi.

6. Hann lætur rigna snörum, eldi og brennisteini yfir þá óguðlegu, or glóandi vindur verður þeirra hlutdeild.

7. Því Drottinn er rèttvís og elskar rèttvísi. Þeir ráðvöndu munu sjá hans auglit.

## 12. SÁLMUR.

*Bæn mót vaxandi óráðvendni.*

Til hljóðfærameistarans; á áttstreingjaða hörpu. Sálmur Davíðs.

HJÁLPA þú, Drottinn! því dánumennirnir fækka, þeir áreiðanlegu eru fáir orðnir meðal mannanna barna.

2. Lygi tala þeir hver við annan; með smjaðrandi vörum tala þeir af tvöföldu hjarta;

3. Ó! að Drottinn vildi af skera allar smjaðrandi varir, og þá túngu, sem talar dramblátlega,

4. Þeirra, sem segja: “Með vorri túngu skulum vèr fá yfirhönd, vorar varir eru með oss; hver er herra yfir oss?”

5. Vegna þess að hinir aumu eru undirokaðir, af því að hinir fátæku kveina, vil eg uppstanda, segir Drottinn; eg mun frelsa þá, sem áreittir eru.

6. Drottins orð eru einlæg orð, eins hrein og silfur í deiglunni, sjö sinnum hreinsað.

7. Þú, ó Drottinn! munt varðveita þá, þú munt verja þá fyrir þessari kynslóð eilíflega.

8. Óguðlegir vaða uppi, þegar afhrök hefjast meðal mannanna barna.

## 13. SÁLMUR.

*Bæn um hjálp gegn óvinum.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

HVERSU leingi? Drottinn, ætlar þú eilíflega að gleyma mèr? hversu leingi ætlar þú að hylja fyrir mèr þitt auglit?

2. Hversu leingi á eg að syrgja með sjálfum mèr, og daglega hafa hrygð í mínu hjarta? Hversu leingi á fjandmaður minn að hælast um við mig?

3. Líttu niður, bænheyrðu mig, Drottinn, minn Guð! varðveittu ljós minna augna, að eg ei sofni dauðadúr.

4. Að minn fjandmaður hælist ekki um og segi, að hann hafi unnið mig; svo að mínir mótstöðumenn fagni ei yfir því, að eg sè fallinn.

5. Já! á þína miskun reiði eg mig; mitt hjarta gleðst við þitt frelsi. Eg skal lofsýngja Drottni, því hann hefir gjört vel til mín.

## 14. SÁLMUR.

*Umkvörtun um, að menn sèu vondir.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

HEIMSKÍNGINN segir í sínu hjarta: "þar er einginn Guð." Vond og viðurstyggileg er þeirra breytni. Einginn er sá, sem gjörir gott.

2. Drottinn lítur af himni niður yfir mannanna börn, að hann sjái, hvert nokkur er hygginn, sem leiti Guðs.

3. Allir eru þeir fallnir frá, allir spiltir orðnir; einginn er sá, sem gjörir gott, ekki einn.

4. Munu þeir þá aldrei komast til viðurkenníngar, allir þeir, sem rángt gjöra, þeir, sem uppeta mitt fólk, eins og þeir eta brauð, og ákalla ekki Drottinn?

5. Já! mikil skelfíng mun yfir þá koma, því Guð er með kynslóð hinna rèttlátu.

6. Þèr gjörið gys að ráði hins volaða, en Drottinn er hans athvarf.

7. Hver mun frá Síon gefa Ísrael frelsi? Þegar Drottinn flytur heim aptur sitt hertekna fólk, þá mun Jakob fagna og Ísrael gleðjast.

## 15. SÁLMUR.

*Auðkenni þeirra, sem Drottinn aðhyllast.*

Sálmur Davíðs.

DROTTINN! hver mun setjast í þína tjaldbúð? hver mun búa á þínu heilaga fjalli?

2. Sá, sem framgeingur flekklaus, gjörir rètt og talar sannleikann af hjarta.

3. Sá, sem ekki bakmælir með túngu sinni, gjörir sínum náúnga ekkert ilt, og leggur ekki lastlegt til sínum fèlaga.

4. Sá, í hvers augum níðíngurinn er fyrirlitlegur, en þeir heiðarlegir, sem óttast Drottinn; sá, sem ekki vill breyta því við sinn náúnga, er hann hefir svarið sèr til skaða.

5. Sá, sem ekki okrar með sitt fè, og ekki tekur mútu gegn hinum saklausa; hver sem þetta gjörir, mun ekki bifast að eilífu.

## 16. SÁLMUR.

*Um trúnaðartraust.*

Davíðs gyllini klenódi.

VARÐVEIT mig, Guð! því eg flý til þín.

2. Mín sál segir við Drottinn: þú ert minn Herra, eg hefi ekki gæði nema þig;

3. Til þeirra heilögu, sem eru í landinu, til þeirra dýrðlegu, snýst öll mín girnd.

4. Margar munu þeirra þjáníngar verða, sem annars leita,

til skurðgoðanna; eg vil ekki smakka þeirra blóðugu drykkjar fórn, og ekki taka mèr þeirra nafn í munn.

5. Drottinn er mín arfleyfð og hlutskipti; þú geymir mína hlutdeild.

6. Hlutur fèll mèr á yndislegum stað, já, mín hlutdeild er mèr dýrmæt.

7. Eg vil vegsama Drottinn, sem annaðist mig; jafnvel á náttarþeli minna mín nýru mig á það;

8. Ætíð hefi eg Drottinn mèr fyrir augum, því hann er mèr til hægri handar; eg mun ekki bifast.

9. Því gleðst mitt hjarta, og minn andi fagnar, já, minn líkami hvílist óhult.

10. Þú munt ekki ofurselja sál mína til helju; þú munt ei láta þinn heilaga sjá rotnun.

11. Þú gjörir mèr kunnan lífsins veg; gnótt fagnaðar er fyrir þínu augliti, og sæla við þína hægri hönd eilíflega.

## 17. SÁLMUR.

*Bæn Davíðs gegn vonzkufullum mönnum.*

HEYR, Drottinn! það rèttvísa málefni, gef þú gaum að mínu kalli; hygg að minni bæn, bæn af falslausum vörum.

2. Frá þèr (þinni augsýn) komi minn dómur; þín augu skoða hreinskilnina;

3. Reyn mitt hjarta, vitja þess á náttarþeli, bræddu mig (eins og málm); þú munt eingan (sora) finna; mínar hugsanir og orð eru samhljóða.

4. Með tilliti til mannanna verka hefi eg, fyrir orðið þíns munns, varast veg ofbeldismannsins.

5. Haltu minni gaungu við þín spor, svo mèr skriðni ekki fótur.

6. Eg ákalla þig, Guð! því þú bænheyrir mig; hneig þitt eyra til mín, og heyr mitt tal.

7. Auðsýn þína miskunsemi dýrðlega; þú frelsar þá, sem leita hælis hjá þèr, af þeirra hendi, sem rísa gegn þinni hægri hendi.

8. Varðveittu mig sem sjáaldur augans; fel mig undir skugga þinna vængja,

9. Fyrir þeim óguðlegu, sem vilja tortýna mèr, fyrir óvinum míns lífs, sem með æði umkríngja mig.

10. Tilfinníngarlausir loka þeir sínum hjörtum; með munninum tala þeir drambsamlega.

11. Nú umkríngja þeir vorn veg; þeir stara á oss, að þeir leggi oss að velli,

12. Eins og ljón, sem er sólg-

ið í bráð, og ljónshvolpur, sem liggur í leyni.

13. Stattu upp, Drottinn! vertu fyrri til; legg hann að velli; frelsa mitt líf frá þeim óguðlegu með þínu sverði,

14. Frá mönnum, með þinni hendi, Drottinn! frá mönnum þessa heims. Þeirra hlutskipti er í þessu lífi; þú fyllir þeirra kvið með þínum fjársjóðum. Þeirra börn mettast, og það, sem þau leyfa, það fá barnabörnin.

15. En eg mun, sakir rèttlætisins, skoða þitt auglit; eg mun mettast, þá eg vakna, af því að skoða (þína mynd) þig.

## 18. SÁLMUR.

*Davíðs þakklæti fyrir frelsun frá hans óvinum.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs, Drottins þjóns, sem fram bar fyrir Drottin orð þessa lofkvæðis, þegar Drottinn hafði frelsað hann af hendi allra hans óvina, og af hendi Sáls.

OG hann sagði: hjartkæran hefi eg þig, Drottinn! minn styrkleiki.

2. Drottinn er mitt bjarg, mitt vígi, minn frelsari, minn Guð, minn kastali, í hvern eg flý, minn skjöldur, og horn míns hjálpræðis, mitt hæli.

3. Þann vegsamlega Drottin ákallaði eg, og frelsaðist af hendi minna óvina.

4. Öldur dauðans umkríngdu mig; lækir (Belíals) glötunarinnar skelfdu mig.

5. Helvítis bönd umkríngdu mig, dauðans snörur gripu mig.

6. Í minni ángist ákallaði eg Drottinn, já, eg kallaði til míns Guðs, og hann heyrði í sínum bústað mína raust, og mitt ákall kom fyrir hann, til hans eyrna;

7. Og jörðin skalf og bifaðist, og fjallanna grundvöllur nötraði og hrærðist, því hann reiddist.

8. Reykur gekk út af hans nösum, og eyðandi eldur af hans munni; eldíng logaði frá honum.

9. Hann sveigði himininn og fór niður, og myrkur var undir hans fótum.

10. Hann fór áfram á kerúbum, og flaug; hann sveimaði á vindarins vængjum.

11. Hann lèt dimmuna vera sitt fylgsni alt í kríngum sig, eins og tjald, dimmt vatn, þykkt ský.

12. Af glampanum fyrir honum færðust skýin áfram, og hagl og glóandi eldíng.

13. Og Drottinn þrumaði í himninum, og sá æðsti sendi út sína raust; þar var hagl og eldíng.

14. Hann sendi út sínar örv-

ar og tvístraði þeim, miklar
eldíngar, og skelkaði þá.
15. Þá sáust hafsins uppsprett-
ur, og jarðarinnar grundvöllur
opinberaðist fyrir þinni hótan,
Drottinn! og fyrir blástri
þinna nasa (reiði).
16. Hann útrètti frá hæðinni
sína hönd, og greip mig og
dróg mig upp úr hinum miklu
vötnum.
17. Hann frelsaði mig frá
mínum óvinum, sá sterki, frá
þeim, sem mig hötuðu, sem
voru voldugri en eg.
18. Þeir rèðust á mig á minni
mótgángstíð, en Drottinn var
mín stoð.
19. Hann leiddi mig út á víð-
lendi. Hann frelsaði mig, því
hann elskaði mig.
20. Drottinn umbunaði mèr
eptir minni rèttvísi; hann end-
urgalt mèr eptir hreinleika
minna handa.
21. Því eg varðveitti Drottins
vegu, og var ei ósvífinn við
minn Guð.
22. Því allir hans dómar
voru mèr í minni, og öll
hans boðorð; frá þeim vèk
eg ekki,
23. Heldur var eg flekk-
laus fyrir honum, og varaðist
syndir.
24. Og Drottinn endurgalt
mèr eptir minni rèttvísi, eptir
hreinleika minna handa fyrir
honum.
25. Við þá góðu ertu góður,
við þá trúföstu ertu trúfastur,
við þá hreinu ertu hreinn,
26. Og við þá rángsnúnu ertu
afundinn,
27. Því hið undirokaða fólk
frelsar þú, og þá háleitu gjörir
þú niðurlúta.
28. Já, þú lèzt mína skrið-
byttu lýsa; Drottinn, minn
Guð, gjörði mitt myrkur að
birtu;
29. Fyrir þitt fulltíngi brauzt
eg í gegnum herinn, og fyrir
hjálp míns Guðs stökk eg yfir
múrana.
30. Guðs vegur er prettalaus,
orð Drottins eru hrein; hann
er skjöldur allra þeirra, sem
reiða sig á hann.
31. Því hver er Guð nema
Drottinn? og hver er vígi
nema vor Guð?
32. Sá Guð, sem umgirti mig
krapti, og gjörði minn veg
greiðan,
33. Hann gjörði mína fætur
sem hjartarins, og lèt mig
standa fast á mínum hæðum.
34. Hann kendi mínum hönd-
um að berjast, svo nú spenna
mínir armar eirbogann.
35. Þú gafst mèr þinn frelsis
skjöld, þín hægri hönd studdi
mig, og þín náð miklaði mig.

36. Þú gjörðir minn gáng rúman, og mínir öklar veikluðust ekki.
37. Eg elti mína óvini og náði þeim, og snèri ekki aptur, fyrr en eg hafði afmáð þá;
38. Eg marði þá; svo þeir gætu ei staðið upp, þeir fèllu undir mína fætur.
39. Þú gyrtir mig krapti til stríðsins, þú niðurbeygðir undir mig mína mótstöðumenn.
40. Þú gafst mèr mína óvini, að eg ræki þá á flótta, og mína hatursmenn, að eg afmáði þá.
41. Þeir kölluðu, en einginn var sá, sem hjálpaði; til Drottins, en hann ansaði þeim ekki.
42. Eg molaði þá, sem moldarryk fyrir veðri; eg tróð þá undir fætur mèr, sem skarn á strætum.
43. Þú frelsaðir mig úr bardaga lýðsins; þú settir mig höfðíngja þjóðanna. Menn sem ekki þekktu mig, þeir þjóna mèr.
44. Undir eins og þeirra eyru heyra mig (nefndan), hlýða þeir mèr; börn hinna útlendu slá mèr gullhamra.
45. Börn hinna útlendu visna sem laufblöð; skelkuð flýa þau úr sínum borgum.
46. Drottinn lifi! vegsamað sè mitt bjarg, Guð míns hjálpræðis sè hátt lofaður!
47. Sá Guð, sem gaf mèr hefnd, og lagði undir mig þjóðirnar,
48. Sá, sem frelsaði mig frá mínum óvinum, sem hóf mig upp yfir mína mótstöðu menn, sem bjargaði mèr frá ofbeldis manninum.
49. Þess vegna vil eg vegsama þig, Drottinn! meðal þjóðanna, og sýngja lof þínu nafni.
50. Þú, sem auðsýnir þínum konúngi miklar velgjörðir, og miskunar þínum smurða, Davíð, og hans niðjum eilíflega.

## 19. SÁLMUR.

*Lofgjörð Guðs dásemda í náttúrunni, og hans lögmáls.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

HIMNARNIR segja frá Guðs dýrð, og festíngin kunngjörir verkin hans handa.
2. Einn dagurinn kennir öðrum þetta tal, og ein nóttin kunngjörir annari þessa auglýsíngu.
3. Ekkert tal og ekkert orð, að menn ekki skilji þeirra raust.
4. Yfir alla jörðina er þeirra hljómur útgeinginn, og þeirra tal til jarðríkisins enda, þar sem hann á himninum reisti sólinni tjald;
5. Og þessi fram geingur sem

brúðgumi úr sínu brúðarherbergi; hún gleður sig við það, sem hetja, að hlaupa sína leið.
6. Hennar uppgánga er við himinsins annan enda, og rás hennar varir til hins endans, og ekkert felst fyrir hennar heita geisla.
7. Drottins lög eru fullkomin, og endurnæra sálina; Drottins vitnisburður er áreiðanlegur; hann gjörir þann fávísa hygginn.
8. Drottins boðorð eru rètt, þau gleðja hjartað. Drottins skipun er ljós, hún upplýsir augun.
9. Drottins dýrkun er hrein, hún varir eilíflega. Drottins dómar eru sannleiki, þeir eru allir saman rèttvísir;
10. Þeir eru dýrmætari en gull, já, heldur en hið skýrasta gull, og sætari en hunáng og hunángs seimur.
11. Þeir bentu þínum þjóni; sá, sem þá varðveitir, hann hefir mikil laun.
12. En hver veit, hvað opt honum yfir sèst? frá mínum heimuglegu brestum hreinsa þú mig!
13. Varðveittu og þinn þjón frá drambsemi, að hún ekki drottni yfir mèr, þá verð eg saklaus og laus við mikil afbrot.
14. Lát þèr þóknast orðræður míns munns, og málið míns hjarta, Drottinn, mitt bjarg og minn Endurlausnari!

## 20. SÁLMUR.

*Bænir þjóðarinnar. Þakklæti fyrir sigur.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

DROTTINN bænheyri þig á neyðarinnar degi, nafnið Jakobs Guðs verndi þig.
2. Hann sendi þèr hjálp úr helgidóminum, og styrk frá Síon.
3. Muni hann til allra þinna matfórna, og finni þínar brennifórnir feitar. Málhvíld.
4. Hann veiti þèr vild þíns hjarta, og láti þig koma fram öllum þínum ásetníngi.
5. Vèr skulum fagna yfir þínu frelsi, og setja upp sigurmerki í nafni vors Guðs, þá Drottinn uppfyllir allar þínar óskir.
6. Nú veit eg, að Drottinn frelsar sinn smurða, bænheyrir hann frá sínum heilaga himni. Hans hægri hönd frelsar með miklum krapti.
7. Þessir (óvinirnir) hrósa sèr af vögnum og hestum, en vèr af nafni Drottins, vors Guðs.
8. Þeir fá hnèsig og falla, en vèr stöndum, já, stöndum upprèttir.
9. Ó, Drottinn, frelsa þú konúnginn! Já, hann bænheyrir oss, þegar vèr áköllum hann.

## 21. SÁLMUR.

*Bæn fyrir konúnginum.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

GUÐS smurði gleðst af þeirri honum veittu tign. Hans dýrð og sigri er lýst.

2. Drottinn, þín vernd gleður konúnginn! Ó, hversu mjög fagnar hann af þínu liðsinni!

3. Þú hefir veitt honum girnd hans hjarta, og ekki synjað honum um bæn hans vara. Málhvíld.

4. Þú varst fyrri til að veita honum blessun og heppni; þú settir gullkórónu á hans höfuð.

5. Hann bað þig um líf; þú gafst honum það, lángt líf, ævarandi og eilíft.

6. Fyrir þitt frelsi er hans sæmd mikil; þú íklæðir hann hátign og heiðri.

7. Því þú hefir sett hann til eilífrar blessunar; þú gladdir hann með fögnuði fyrir þínu augliti.

8. Því konúngurinn reiðir sig á Drottinn, og fyrir miskun hins æðsta bifast hann aldrei.

9. Þín hönd mun finna alla þína óvini; þín hægri hönd mun finna þá, sem þig hata.

10. Þú gjörir þá sem glóandi ofn á tíma þinnar reiði. Drottinn afmáir þá í sinni grimd, og eldurinn eyðir þeim.

11. Þú munt afmá þeirra ávöxt af jörðunni, og þeirra niðja meðal mannanna barna.

12. Því þeir hugsuðu að gjöra þèr ilt; þeir brugguðu ráð, en þeir gátu ei komið því í verk.

13. Því þú munt reka þá á flótta, þú miðar örinni af þínum bogastreing á þeirra andlit.

14. Drottinn, upplyptu þèr í þínum krapti! þá munum vèr sýngja og vegsama þitt veldi.

## 22. SÁLMUR.

*Bæn og von hins þjáða.*

Til hljóðfærameistarans; með lagi: Morgunroðans hind. Sálmur Davíðs.

GUÐ minn! Guð minn! hvers vegna hefir þú yfirgefið mig? eg kveina, en mín hjálp er fjarlæg.

2. Minn Guð! á daginn kalla eg, og þú ansar ekki, á nóttunni, og eg fæ einga ró.

3. Og þó ertu sá heilagi, sem býr meðal Ísraels lofsöngva.

4. Þèr treystu feður vorir; þeir reiddu sig á þig, og þú frelsaðir þá.

5. Þeir kölluðu til þín, og sluppu; þeir reiddu sig á þig, og urðu ei til skammar.

6. En eg em maðkur, og ekki maður, spott mannanna og fyrirlitníng fólksins.

7. Allir, sem sjá mig, hæða mig, skæla munninn og hrista höfuðið (og segja):

8. "Feli hann Drottni sitt málefni; hjálpi hann honum, bjargi hann honum, fyrst hann hefir mætur á honum."

9. Já, þú útleiddir mig af móðurlífi; þú lèst mig liggja áhyggjulausan við minnar móður brjóst.

10. Til þín var mèr varpað frá móðurkviði. Þú ert minn Guð frá móðurlífi.

11. Vertu ekki fjærri mèr, því þreyngíngin er nærri, því þar er einginn hjálpari.

12. Mig umkríngja stór naut; Basans voldugu hnappast að mèr.

13. Þeir spenna upp ginið móti mèr, eins og ljón, sem grenjar eptir bráð.

14. Eg flýt, sem vatn, og öll mín bein eru sundurlaus orðin; mitt hjarta er sem vax, og bráðnar innst í mèr.

15. Þornaður er minn kraptur, sem potthrím, og mín túnga loðir við minn góm; og þú leggur mig í dauðans dupt.

16. Því hundar umkríngja mig, og hópur hinna vondu sezt um mig; þeir gegnum stínga mínar hendur og mína fætur.

17. Eg get talið öll mín bein; þeir sjá það, og horfa á það með unaðsemd.

18. Þeir skipta með sèr mínum klæðum, og kasta hlutkesti um mitt fat.

19. En þú, ó Drottinn! vertu ekki fjarlægur, minn styrkleiki! flýttu þèr að hjálpa mèr.

20. Frelsa mína sál frá sverðinu og mitt líf frá hundanna ofbeldi.

21. Frelsaðu mig úr ljónsins gini, og bjargaðu mèr undan horni villinautsins.

22. Eg vil þá kunngjöra þitt nafn fyrir mínum bræðrum; mitt á samkomunni (í samkundunni) vil eg vegsama þig.

23. Þèr, sem óttist Drottinn, vegsamið hann; allir Jakobs niðjar heiðri hann; og skjálfi fyrir honum alt Ísraels sæði.

24. Því hann hefir ekki fyrirlitið og ekki gjört gys að neyð hins auma, og fól ekki sitt andlit fyrir honum, heldur heyrði hann, þá hann kallaði til hans.

25. Um þig vil eg sýngja lof í miklum söfnuði; mitt heit vil eg gjalda í augsýn þeirra, sem hann óttast.

26. Þeir voluðu skulu neyta og mettast. Þeir skulu lofa Drottinn, sem hans leita. Yðar hjörtu skulu viðlifna að eilífu.

27. Allar heimsins endimerkur skulu muna það, að snúa sèr til Drottins, og allar þjóð-

anna kynkvíslir skulu tilbiðja fyrir þinni augsýn.

28. Því Drottni tilheyrir ríkið; hann drottnar yfir þjóðunum.

29. Allir ríkismenn jarðarinnar skulu eta og tilbiðja; honum skulu lúta allir þeir, sem í duptinu liggja, og sá, sem ei getur lifað.

30. Eptirkomendurnir skulu honum þjóna; niðjunum skal verða sagt frá Drottni;

31. Þeir koma og kunngjöra hans rèttvísi þeim mönnum sem fæðast munu, að hann hafi dýrðlega að farið.

## 23. SÁLMUR.

*Traust á Drottins vernd og handleiðslu.*

Sálmur Davíðs.

DROTTINN er minn hirðir; mig mun ekkert bresta.

2. Í grænu haglendi lætur hann mig hvílast; að hægt rennandi vatni leiðir hann mig.

3. Hann hressir mína sál; hann leiðir mig á rèttan veg fyrir síns nafns sakir.

4. Þó eg ætti að gánga um dauðans skugga dal, skyldi eg samt einga ógæfu hræðast, því þú ert með mèr; þín hrísla og stafur hugga mig.

5. Þú tilreiðir mèr matborð fyrir minna óvina augsýn; þú smyrð mitt höfuð með viðsmjöri; út af mínum bikar rennur.

6. Sannarlega fylgja mèr þín góðgirni og miskun alla daga míns lífs, og æfinlega mun eg búa í Drottins húsi.

## 24. SÁLMUR.

*Lofsöngur, þá örkin var sókt.*

Sálmur Davíðs.

JÖRDIN er Drottins, og hennar fyllíng, jarðríkið, og þeir, sem á því búa.

2. Því hann grundvallaði hana á höfunum, og festi hana á vötnunum.

3. Hver þorir að stíga upp í Drottins borg? hver vogar að gánga fram á hans heilaga stað?

4. Sá, sem hefir saklausar hendur, og hreint hjarta, sá, sem ekki leggur hans nafn við lygar (hègóma), og ekki sver rángan eið,

5. Sá hinn sami mun meðtaka blessan af Drottni, og miskun frá Guði síns hjálpræðis.

6. Þetta er kynslóð þeirra, sem að honum spyrja; Jakobs börn, sem leita þíns andlitis. Málhvíld.

7. Þið port, lyptið upp yðar efra parti! opnið yður, þið eilífu dyr, að dýrðarinnar Konúngur geti komist inn.

8. Hver er sá dýrðarinnar Konúngur? Drottinn, sá sterki og máttugi, Drottinn, voldugur í stríði.

9. Þið port, lyptið upp yðar efra hluta! já, opnist þið eilífu dyr, að dýrðarinnar Konúngur geti komist inn.
10. Hver er sá dýrðarinnar Konúngur? Drottinn, herskaranna Guð, hann er dýrðarinnar Konúngur. Málhvíld.

## 25. SÁLMUR.

*Bæn um hjálp, uppfræðíngu og syndafyrirgefníng.*

Sálmur Davíðs.

TIL þín, Drottinn! upplypti eg minni sálu.
2. Minn Guð! á þig reiði eg mig, lát mig ei verða til skammar, svo mínir óvinir hlakki ekki yfir mèr!
3. Vissulega verður einginn sá til skammar, sem á þig vonar; en þeir munu til skammar verða, sem ófyrirsynju falla frá þèr.
4. Drottinn! lát mig þekkja þína vegu, kenn mèr þínar götur;
5. Lát mig gánga í þínum sannleika, og uppfræð mig, því þú ert Guð míns hjálpræðis; eg vona á þig alla daga.
6. Mundu til þinnar miskunar og góðgirni, Drottinn! sem verið hefir frá eilífð.
7. Mundu ekki til minna æsku synda og afbrota; heldur mundu til mín eptir þinni miskunsemi, fyrir sakir þinnar góðgirni, Drottinn!
8. Góður og rèttvís er Drottinn; því vísar hann syndurum á veginn.
9. Hann lætur þá hógværu ganga í sínum rètti, og kennir þeim auðmjúku sinn veg.
10. Allir Drottins vegir eru miskun og trúfesti fyrir þá, er geyma hans sáttmála og lögmál.
11. Fyrir þíns nafns sakir, Drottinn! fyrirgef mèr synd mína, sem er stór.
12. Hverjum manni, sem óttast Drottinn, mun hann vísa þann veg, sem hann á að kjósa.
13. Hans sála býr í farsæld og hans niðjar eignast landið.
14. Drottins alda vinir eru þeir, sem hann óttast, og hans sáttmáli er þeirra uppfræðíng.
15. Mín augu horfa ætíð til Drottins, því hann mun greiða mína fætur úr netinu.
16. Snú þínu augliti til mín og vertu mèr náðugur, því eg em einmana (yfirgefinn) og aumur.
17. Lèttu á þreyngslum míns hjarta; leiddu mig úr mínum nauðum;
18. Líttu á mína eymd og armæðu, og fyrirgef mèr allar mínar syndir;

19. Líttu til minna óvina, því þeir eru margir, og þeir hata mig ofbeldisfullu hatri;
20. Varðveittu mína sál, og bjarga mèr, svo eg verði ekki til skammar, því eg reiði mig á þig.
21. Láttu ráðvendni og hreinskilni vernda mig, því eg vona á þig.
22. Frelsa, ó Guð! Ísrael af allri sinni neyð.

## 26. SÁLMUR.

*Um góða samvizku.*

Sálmur Davíðs.

DÆM þú mig, Drottinn! því eg em saklaus, og eg treysti Drottni óbifanlega.
2. Prófa mig, Drottinn! og reyn mig; (hreinsa) mín nýru og mitt hjarta;
3. Því þín miskun er fyrir mínum augum, og eg geing í þínum sannleika.
4. Eg sit ekki hjá hègómlegum mönnum, og til fláráðra kem eg ekki.
5. Eg hata samkomur hinna vondu, og sit ekki hjá þeim óguðlegu.
6. Eg þvæ mínar hendur í sakleysinu, og held mig til þíns altaris, Drottinn!
7. Til að taka undir lofsaunginn, og til að segja frá öllum þínum dásemdum.
8. Drottinn! eg elska þíns húss bústað, og þinnar dýrðar aðsetursstað.
9. Taktu ekki mína sál burtu með syndurum, nè mitt líf með hinum drápgjörnu,
10. Í hverra höndum að er misgjörð, og hverra hægri hendur eru fullar af mútum.
11. En eg geing í ráðvendninni. Frelsa mig og vert mèr náðugur.
12. Minn fótur geingur á rèttri götu. Í söfnuðinum vil eg lofa Drottinn.

## 27. SÁLMUR.

*Traust, löngun og bæn.*

Sálmur Davíðs.

DROTTINN er mitt ljós og mitt frelsi; hvern á eg að hræðast? Drottinn, hann er vörn míns lífs; fyrir hverju á eg að skelfast?
2. Þegar illvirkjarnir koma á móti mèr til að afmá mig, þegar mínir mótstöðumenn og óvinir heitast við mig, þá reka þeir sig á og falla.
3. Þó að her setji herbúðir á móti mèr, blöskrar mínu hjarta ekki; þó stríð æsist móti mèr, er eg samt rólegur.
4. Eins beiðist eg af Drottni, eptir því sækist eg, að eg megi búa í húsi Drottins alla daga míns lífs, að horfa á Drottins viðhöfn, og virða fyrir mèr hans musteri.

5. Því hann geymir mig í sínu húsi á þeim vonda degi, hann felur mig í sinni tjaldbúð, og hefur mig upp á bjarg.

6. Já, nú þegar lyptist mitt höfuð upp yfir mína óvini allt í kríngum mig, og eg framber með fagnaðar hljóm fórn í hans tjaldbúð; eg vil sýngja lof og vegsama Drottin.

7. Drottinn! heyr mína raust, nær eg kalla, miskuna þú mèr og bænheyr mig.

8. Mitt hjarta hugsar til þín, sem sagt hefir: "leitið míns andlitis." Drottinn! eg leita þíns andlitis;

9. Fel ekki þitt andlit fyrir mèr! vísaðu ekki burt þjóni þínum í reiði! þú ert mín aðstoð, sleptu ekki af mèr hendinni! Yfirgefðu mig ekki, Guð míns hjálpræðis!

10. Því faðir minn og móðir mín yfirgáfu mig, en Drottinn mun annast mig.

11. Drottinn! kenn mèr þinn veg, og leið mig á rètta götu, sakir minna óvina;

12. Ofursel mig ekki á vald minna fjandmanna, því móti mèr gánga fram falsvottar, og þeir, sem blása af heipt.

13. (Illa væri eg farinn), ef eg ekki vonaði, að eg sæi Guðs blessun á landi enna lifandi.

14. Bíð þú Drottins, vertu öruggur, og hann mun styrkja þitt hjarta. Vona þú á Drottinn!

## 28. SÁLMUR.

*Bæn um hjálp, og að hegníng komi yfir óguðlega.*

Sálmur Davíðs.

DROTTINN, mitt bjarg! til þín kalla eg; þeg þú ekki við mèr, svo eg ekki verði, ef þú þegir, líkur þeim, sem að niður fara í gröfina;

2. Heyr þú mína grátbeiðni, þegar eg ákalla þig, þegar eg upplypti mínum höndum til þíns heilaga kórs!

3. Drag mig ekki burt með þeim óguðlegu, með þeim illvirkjum, sem tala friðsamlega við sinn náunga, en hafa ilt í sinni.

4. Gjör við þá eptir þeirra tilverknaði og eptir vonzku þeirra athæfis; gjald þeim eptir verki þeirra handa, láttu þá fá makleg málagjöld.

5. Því þeir vilja ei gefa gaum Drottins verkum, verkunum hans handa, því mun hann niður rífa þá, og uppbyggja ei aptur.

6. Lofaður veri Drottinn, því hann heyrir mína innilega grátbeiðni.

7. Drottinn er minn styrkleiki og skjöldur; mitt hjarta reiðir sig á hann, og eg em

hólpinn, og mitt hjarta gleðst, og með mínum söng vil eg vegsama hann.
8. Drottinn er styrkleikur síns lýðs, og hjálpræði og vörn síns smurða.
9. Frelsa þitt fólk, blessa þína arfleifð, gef því fæðslu, og annastu það eilíflega.

## 29. SÁLMUR.

*Lofgjörðar Sálmur.*

Sálmur Davíðs.

GEFIÐ Drottni, þèr börn hinna voldugu, gefið Drottni lofgjörð og heiður!
2. Gefið Drottni dýrðina hans nafns! tilbiðjið Drottinn í heilögu skarti!
3. Drottins raust fer yfir vötnin. Dýrðarinnar Guð þrumar. Drottinn er yfir þeim miklu vötnum.
4. Drottins raust er kröptug. Drottins raust er dýrðleg.
5. Drottins raust sundurbrýtur sedrusviðinn, já, Drottinn hefir sundurbrotið sedrusviðinn á Líbanon (fjalli).
6. Hann lætur hann stökkva upp sem kálfa, Líbanon og Síríon eins og úng ótamin naut.
7. Drottins raust útsendir eldsloga.
8. Drottins raust lætur eyðimörkina bifast, Kades eyðimörk skjálfa.
9. Drottins raust kemur hindunum til að fæða, og afklæðir skógana; en í hans musteri segir allt: (honum sè) dýrð!
10. Drottinn situr uppyfir vötnunum; Drottinn situr sem Konúngur að eilífu.
11. Drottinn verndar sitt fólk; Drottinn mun blessa sitt fólk með friði.

## 30. SÁLMUR.

*Lofgjörð og Þakklæti.*

Sálmur Davíðs, eptir saungnum við hússvígsluna.

EG upphef þig, Drottinn! því þú hefir upphafið mig, og þú lèzt ekki mína óvini fagna yfir mèr.
2. Drottinn, minn Guð! eg kallaði til þín, og þú læknaðir mig.
3. Drottinn! þú drógst mína sál úr helju; þú lèst mig lifa og ekki niðurstíga í gröfina.
4. Lofið Drottinn, þèr hans útvöldu, og vegsamið hans heilaga nafn!
5. Því hans reiði varir eitt augnablik, en hans náð heilan mannsaldur; um kvöldtímann heimsækir oss grátur, en að morgni gleðisöngur.
6. Eg sagði, þegar mèr gekk vel: eg skal ekki bifast að eilífu;
7. Drottinn! af þinni velþóknan hafðir þú gjört mitt

bjarg stöðugt og fast fyrir; en þegar þú byrgðir þitt andlit, skelfdist eg.

8. Eg kallaði til þín, Drottinn! já, eg grátbændi þig, Drottinn!

9. Hver ábati er að mínu blóði, þegar eg er kominn í gröfina? getur duptið veg-samað, kunngjört þína trúfesti?

10. Heyr mig, ó Drottinn, og vertu mèr náðugur! Drottinn, vertu mín hjálp!

11. Þá umbreyttir þú mínu kveini í gleðidans, þá færðir þú mig úr sorgar búníngnum, og girtir mig með fögnuði,

12. Svo að minn sómi (sál) skyldi syngja þèr lof og ekki þegja. Ó Drottinn, minn Guð! eilíflega vil eg þakka þèr.

## 31. SÁLMUR.

*Bæn um frelsi.*

Til hljóðfærameistarans. Ljóðmæli Davíðs.

Á ÞIG, Drottinn! reiði eg mig; láttu mig ekki eilíflega verða til skammar; frelsa þú mig eptir þínu rèttlæti.

2. Hneig þitt eyra til mín, bjarga mèr skjótt, vertu mèr öruggt vígi, bjarg mèr til frelsunar.

3. Já, þú ert mitt bjarg og vígi, og fyrir þíns nafns sakir munt þú leiða mig og stýra mèr,

4. Útleiða mig úr netinu, sem þeir hafa lagt fyrir mig, því þú ert mín vörn.

5. Í þína hönd fel eg minn anda; þú munt frelsa mig, Drottinn! þú trúfasti Guð.

6. Eg hata þá, sem heiðra hègómann (skurðgoðin) og reiði mig á Drottinn.

7. Eg mun fagna og vera glaður af þinni miskun, því þú hefir sèð mína eymd, og tekið eptir þreyngíng minnar sálar.

8. Þú ofurseldir mig ekki á vald minna óvina, þú settir minn fót á rúmgóðan völl.

9. Drottinn! vertu mèr misk-unsamur, því eg em í ángist; mitt auga daprast af sorg, eins og mín sál og minn lík-ami dregst upp.

10. Já, mitt líf eyðist í hrygð, og mín ár í andvörpum; minn kraptur rènar í mínum þján-íngum, og mín bein sundur-leysast.

11. Sökum allra minna óvina er eg orðinn að athlæi, athlæi fyrir mínum nágrönnum, að ótta fyrir mínum kunníngjum. Þeir, sem sjá mig úti, flýa fyrir mèr.

12. Eins og dauðum er mèr gleymt úr hjörtum manna, eg em eins og sundurbrotið ker.

13. Því eg heyri baktal margra, skelfíng alt í kríng-um mig, því þeir taka ráð sín

saman móti mèr; þeir hugsa, að ráða mig af dögum.

14. En eg reiði mig á þig, Drottinn! og segi: þú ert minn Guð.

15. Mínir tímar standa í þinni hendi, frelsa mig frá ofbeldi minna óvina, og frá þeim, sem mig ofsækja.

16. Láttu þitt andlit lýsa yfir þinn þjón; frelsa mig fyrir þína miskunsemi.

17. Drottinn! láttu mig ekki til skammar verða, því eg ákalla þig. Lát þá óguðlegu verða til skammar; lát þá í gröfinni liggja í þögn.

18. Lát þær fláráðu varir þagna, sem tala hart móti þeim rèttvísu, drambsamlega og með fyrirlitníngu.

19. Hversu stór eru þau gæði, sem þú geymir þeim, er þig óttast, og veitir þeim, sem treysta þèr í augsýn mannanna barna.

20. Þú felur þá með skýlu þíns andlitis fyrir manna óvinsamlegri árás; þú geymir þá í tjaldbúð fyrir túngnanna gjálfri.

21. Lofaður veri Drottinn, fyrir það hann hefir auðsýnt mèr dásamlega góðgirni, og leitt mig í örugt vígi.

22. Eg sagði í minni ángist: eg em afmáður fyrir þínum augum, en þú heyrðir mína grátbeiðni, þegar eg kallaði til þín.

23. Elskið Drottin, allir hans útvaldir. Þá trúföstu varðveitir Drottinn, og geldur þeim drambsömu ríkuglega.

24. Verið öruggir og með rólegu hjarta, þèr allir, sem Drottins bíðið.

## 32. SÁLMUR.

*Um syndafyrirgefníngu.*

Davíðs diktur.

SÆLIR eru þeir, hverra yfirtroðslur eru fyrirgefnar, hverra syndir eru huldar.

2. Sæll er sá maður, sem Drottinn tilreiknar ekki syndina og sá í hvers anda ekki er flærð.

3. Meðan eg þagði, eyddust mín bein af minni andvarpan allan daginn.

4. Því dag og nótt lá þín hönd þúngt á mèr, svo að mínir lífs vessar þornuðu, eins og í sumar þurki. Málhvíld.

5. Eg meðkendi fyrir þèr mína synd, og fól ekki minn misgjörníng; eg sagði: eg skal játa Drottni mínar yfirtroðslur, og þá gafstu mèr upp mína syndasekt. Málhvíld.

6. Þess vegna biðji þig allir guðhræddir, meðan þig er að finna; í mikilli vatnshríð munu þeir ekki til hans ná.

7. Þú ert mitt hæli, þú varðveitir mig fyrir ángistinni; með frelsis fögnuði umkríngir þú mig. Málhvíld.

8. Eg vil uppfræða þig, og kenna þèr, hvern veg þú átt að gánga; eg vil vísa þèr leið, hafa auga á þèr.

9. Verið ekki sem hestar og múlar, sem ekki hafa vit, sem þú verður að þvínga með taum og beizli, því annars koma þeir ekki nærri þèr.

10. Sá óguðlegi hefir margar plágur; en þann, sem vonar á Drottinn, mun miskunsemi umkríngja.

11. Gleðjið yður og fagnið, þèr rèttlátir, og sýngið með gleði allir þèr, sem eruð hreinskilnir af hjarta.

## 33. SÁLMUR.

*Drottinn heimsins og Ísraels Guð.*

VERIÐ glaðir, þèr rèttlátu í Drottni; þeim hreinskilnu sæmir að sýngja lofsöng.

2. Vegsamið Drottinn með hörpum, og spilið fyrir honum á tíu streingja hljóðfæri;

3. Sýngið honum nýan óð, sláið á streingina með fagnaðar hljóm.

4. Því satt er Drottins orð, og alt hans verk trúfast.

5. Hann elskar rèttinn og rèttvísi; jörðin, hún er full af hans náð.

6. Himininn er fyrir orð Drottins gjörður, og fyrir anda hans munns allur himinsins her.

7. Hann heldur saman vatninu í sjónum eins og hrúgu, og geymir öldurnar í forðabúri.

8. Öll jörðin óttist Drottinn; allir heimsins innbúar hræðist hann,

9. Því hann talaði, og það varð, hann bauð, þá stóð það þar.

10. Drottinn ónýtir ráðagjörðir þjóðanna; hann truflar hugsanir lýðsins.

11. Drottins ráð stendur stöðugt eilíflega, hans hjartans hugsanir frá kyni til kyns.

12. Sæl er sú þjóð, hverrar Guð Drottinn er, það fólk, sem hann hefir útvalið sèr til arfleifðar.

13. Drottinn lítur niður frá himni, og hann sèr öll mannanna börn;

14. Frá sæti síns bústaðar lítur hann niður til allra, sem á jörðunni búa.

15. Hann er sá, sem lagar allra þeirra hjörtu, hann gáir að allra þeirra verkum.

16. Konúnginn stoðar ekki maktarinnar stærð, og hetjuna frelsar ekki kraptanna mikilleiki,

17. Brugðist getur, að hesturinn bjargi, hann getur ekki

hjálpað með sínum miklu kröptum.

18. Sjá þú! augu Drottins líta til þeirra, sem hann óttast, til þeirra, sem vona til hans miskunar,

19. Að hann frelsi þeirra sálir frá dauðanum, og viðhaldi þeirra lífi í hallærinu.

20. Sála vor bíður Drottins; hann er hjálp vor og skjöldur.

21. Já, í honum gleðjast vor hjörtu, því vèr reiðum oss á hans heilaga nafn.

22. Þín miskun sè yfir oss, Drottinn! eptir því sem vèr vonum á þig.

## 34. SÁLMUR.

*Guð hjálpar ráðvöndum.*

Sálmur Davíðs, þá hann lèzt vera vitfirríngur hjá Abímelek, og þessi rak hann burt, svo hann fór þaðan.

ALLA tíma vil eg vegsama Drottinn; hans lofgjörð skal sífelt vera í mínum munni.

2. Mín sála skal hrósa sèr í Drottni; þeir hógværu skulu heyra það og gleðja sig.

3. Vegsamið Drottinn með mèr innilega, og látum oss sameiginlega víðfrægja hans nafn.

4. Eg leitaði Drottins, og hann bænheyrði mig, og frelsaði mig af allri minni hræðslu.

5. Þeir mæna til hans og verða glaðir, og þeirra ásýnd sneypist ekki.

6. Hinn aumi kallaði, og Drottinn heyrði, og frelsaði hann frá allri hans ángist.

7. Drottins einglar setja herbúðir kríngum þá, sem hann óttast, og vernda þá.

8. Takið eptir og sjáið, hvað Drottinn er góður; sæll er sá maður, sem reiðir sig á hann.

9. Óttist Drottinn, þèr hans heilögu! því þeir, sem hann óttast, líða eingan skort.

10. Þau úngu ljón líða skort og húngur; en þá skal ei gott vanta, sem leita Drottins.

11. Komið, mín börn! heyrið mig! ótta Drottins vil eg kenna yður.

12. Hver er sá maður, sem hefir lyst til lífsins, sem óskar sèr margra daga, til að sjá hið góða?

13. Varðveit þú þína túngu frá hinu illa, og þínar varir, að þær ekki tali flærð.

14. Vík frá hinu illa, og gjörðu gott; leita þú friðarins og eltu hann.

15. Drottins augu snúa sèr að þeim rèttlátu, og hans eyru að þeirra kalli.

16. En Drottins andlit er þeim á móti, sem ilt að hafast, svo hann af mái þeirra minníng af jörðunni.

17. Þeir (rèttlátu) kalla, og Drottinn heyrir, og hann frelsar þá af allri þeirra ángist.
18. Drottinn er þeim nálægur, sem hafa sundurkramið hjarta, og frelsar þá, sem hafa niðurbeygðan anda.
19. Sá rèttláti ratar í margar raunir, en Drottinn frelsar hann úr þeim öllum.
20. Hann varðveitir öll hans bein, svo að ekkert af þeim brotni.
21. Slisin drepa þann óguðlega, og þeir, sem hata hinn rèttláta, skulu dóm þola.
22. Drottinn frelsar sálir sinna þjóna; allir, sem reiða sig á hann, munu ekki verða dæmdir sekir.

### 35. SÁLMUR.

*Bæn gegn óvinum.*

Sálmur Davíðs.

DROTTINN! gakk þú í rètt við þá, sem gánga í rètt við mig; berstu við þá, sem berjast við mig.
2. Taktu skjöld og buklara, og stattu upp að hjálpa mèr.
3. Taktu fram spjótið, og settu það móti þeirra árás, sem ofsækja mig. Segðu við mína sál: eg er þín hjálp.
4. Sneypist þeir og verði fyrir háðúng, sem sitja um mitt líf! lát þá hörfa til baka og til skammar verða, sem vilja mèr ilt.
5. Lát þá verða sem fis fyrir vindi, og Drottins eingill hrindi þeim burt.
6. Þeirra vegur sè dimmur og mjög háll, og Drottins eingill elti þá.
7. Því án saka lögðu þeir leynilega sitt net fyrir mig í gryfju; án orsaka grófu þeir gröf gegn mínu lífi.
8. Lát eyðileggíngu yfir þá koma, fyrr en þeir af vita, lát þau net, sem þeir leynilega lögðu, veiða þá sjálfa; flækist þeir í þeim sèr til tjóns.
9. En mín sál skal gleðja sig í Drottni, hún skal fagna við hans frelsi.
10. Öll mín bein segja: Drottinn! hver er sem þú, þú frelsar hinn auma frá þeim, sem ber hann ofurliða, já þann fáráða og snauða frá þeim, sem rænir hann.
11. Ofbeldis vitni uppstanda, þeir spyrja mig um það sem eg ekki veit;
12. Þeir launa mèr gott með illu, þeir gjöra mig munaðarlausan.
13. En eg, þegar þeir voru sjúkir, eg íklæddi mig sorgar búníngi, og þjáði mig með föstu, eg bað með niðurlútu höfði.

14. Eg hagaði mèr sem væru þeir mínir bræður og vinir, eg gekk í sorgarbúníngi og var niðurlútur, eins og sá sem syrgir sína móður.
15. En þeir fagna yfir minni helti, og samansafnast; þeir samansafnast og gánga haltir eptir mèr, án þess eg vissi það; þeir sundurtæta mig og láta ekki af.
16. Meðal ósvífnustu manna, sem hæða fyrir köku, nýsta þeir tönnum yfir mèr.
17. Drottinn! hversu leingi viltu horfa á þetta? flyttu mína sál frá þeirra eyðilegg-íngu, mig yfirgefinn frá þeim úngu ljónum.
18. Eg skal þakka þèr á mik-illi samkomu, og lofa þig í miklum fólks fjölda.
19. Láttu þá ekki hlakka yfir mèr, sem eru án saka mínir óvinir, sem hata mig fyrir einga sök, og depla augunum (kíma að mèr).
20. Því þeir tala ekki frið, en á móti þeim kyrrlátu í landinu upphugsa þeir svik.
21. Þeir sperra upp ginið á móti mèr og segja: hæ! hæ! þar sjáum vèr það með vorum augum.
22. Þú sèr það, Drottinn! þegi þú ekki, minn Guð!
23. Vertu ekki lángt frá mèr, statt þú upp, vakna þú, svo eg nái rètti, minn Drottinn og minn Guð! Vakna til míns málefnis.
24. Dæm mig eptir þínu rètt-læti, Drottinn, minn Guð! lát þá ekki hlakka yfir mèr.
25. Að þeir ekki segi í sínu hjarta: sjá þar vora ósk! að þeir ekki segi: Vèr höfum gleypt hann.
26. Láttu þá sneypast og verða til skammar, alla í einni hrúgu, þá sem hlakka yfir mínum ó-förum. Lát þá íklæðast skömm og háðúng, sem þykjast upp yfir mèr.
27. Láttu þá fagna og gleðjast, sem hafa velþóknan á mínu rèttlæti, og lát þá ætíð segja: hátt lofaður sè Drottinn, sem hefir velþóknan á farsæld síns þjóns.
28. Svo skal mín túnga veg-sama þitt rèttlæti, hvern dag þinn orðstýr.

## 36. SÁLMUR.

*Bæn móti vonzku mannanna.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs, Drottins þjóns.

SYNDSAMLEG orð hins óguðlega eru mèr minnis-stæð. Einginn guðsótti er hjá honum,
2. Því hann smjaðrar fyrir sjálfum sèr í sinni eigin aug-sýn, svo hann finni ekki sinn

misgjörníng er hann ætti að hata.

3. Orð hans munns eru hans ránglæti og svik; hann frá fælist hyggindi og góðsemi.

4. Hann hugsar um ránglæti í sinni hvílu; hann geingur þá leið sem ekki er góð; það illa forðast hann ekki.

5. Drottinn! til himna nær þín miskun, til skýanna þín trúfesti.

6. Þitt rèttlæti er sem Guðs fjöll, þínir dómar sem regin djúp; mönnum og skepnum bjargar þú, Drottinn!

7. Hversu dýrmæt er þín miskun, ó Guð! mannanna börn fela sig undir skugga þinna vængja.

8. Þau endurnærast af nægtum þíns húss, og þú drykkjar þá með rennandi vatni þinnar gleði,

9. Því hjá þèr er lífsins uppspretta; í þínu ljósi sjáum vèr ljósið.

10. Lát þína miskun vera lánggæða við þá, sem aðhyllast þig, og þitt rèttlæti við þá, sem eru ráðvandir af hjarta!

11. Lát mig ei af þeim drambl átu fóttroðinn verða; lát ei hönd hinna óguðlegu burt hrinda mèr!

12. Þeir falli niður, sem gjöra órètt; þeim verði burt hrundið; komist þeir ei aptur á fætur.

## 37. SÁLMUR.

*Laun vondra og góðra.*

Sálmur Davíðs.

ILSKASTU ekki við illvirkjana! öfundaðu ekki þá ránglátu!

2. Því eins og gras verða þeir skyndilega slegnir, og visna sem grænar jurtir.

3. Reiddu þig á Drottin, og gjör hið góða; bú þú í landinu, og leita þinnar atvinnu ærlega.

4. Haf þú þína unaðsemd í Drottni, þá mun hann veita þèr girndir þíns hjarta.

5. Varpa þú þinni áhyggju á Drottin; hann mun gjöra (eitthvað), og reiddu þig á hann.

6. Hann mun láta þinn rètt framgánga sem ljós, og þitt rèttlæti sem hádegisbirtu.

7. Vona þú í kyrð á Drottinn, og bíð hans! lát þèr ei gremjast við þann mann hvers athæfi heppnast, við þann sem hefir í frammi pretti.

8. Hættu reiðinni, sleptu bráðlyndinu, ilskastu ekki, að eins til að gjöra ilt!

9. Því hinum vondu verður útrutt; en þeir sem vona á Drottinn, skulu landið erfa.

10. Innan lítils tíma er sá óguðlegi ekki framar til; þegar þú leitar að hans stað, mun hann ekki finnast.

11. En þeir hógværu skulu landið erfa, og njóta unaðsemdar af þeim mikla friði (farsæld).

12. Sá óguðlegi bruggar svik þeim rèttláta og nýstir tönnum yfir honum.

13. En Drottinn hlær að honum, því hann sèr að hans dagur kemur (dauða dagur).

14. Hinir óguðlegu bregða sverði, og spenna sína boga, svo að þeir felli hinn auma og fátæka, og myrði þá, sem gánga ráðvandlega.

15. Þeirra sverð lendir í þeirra egin hjarta, og þeirra bogi brotnar

16. Betra er það litla, sem hinn rèttláti á, heldur en nægtir margra óguðlegra.

17. Því armleggir hinna óguðlegu sundur brotna, en Drottinn styður hina rèttlátu.

18. Drottinn þekkir daga hinna flekklausu, og þeirra arfur mun aldrei þverra.

19. Þeir munu ei til skammar verða á hinni vondu tíð, og í hallærinu munu þeir saðníng hafa.

20. En hinir óguðlegu munu fyrirfarast, og Drottins óvinir, þó þeir sèu landsins blómi, fyrir farast, og sem reykur verða að eingu.

21. Sá óguðlegi tekur lán og borgar ekki, en hinn rèttláti miskunar og gefur;

22. Því Drottins blessuðu skulu landið erfa; hans bölvuðu verður útrutt.

23. Af Drottni festist gángur þess (ráðvanda) manns, og hann hefir þóknan á hans vegi.

24. Þó að hann detti, skal hann ekki liggja, því Drottinn styður hans hönd.

25. Eg hefi verið úngur, og er orðinn gamall; en ekki hefi eg sèð hinn rèttláta yfirgefinn, nè hans afkvæmi (gánga eptir atvinnu) fara á húsgáng.

26. Hann er miskunsamur dag hvern, og lánar, og hans niðjar verða blessaðir.

27. Vík þú frá hinu illa og gjörðu gott, og þú munt búa eilíflega (í ró).

28. Því Drottinn elskar rèttindi, og yfirgefur ekki sína heilögu; þeir verða eilíflega varðveittir; en afkvæmi hinna óguðlegu uppræwtist.

29. Þeir rèttlátu erfa landið og búa eilíflega í því.

30. Munnur hins rèttláta mælir vizku, og hans túnga talar rèttindi.

31. Lögmál hans Guðs er í

hans hjarta; hans gángur er stöðugur.
32. Hinn óguðlegi umsitur hinn rèttláta, og leitast eptir að drepa hann.
33. En Drottinn gefur hann ekki í hans hönd, og lætur hann ekki verða fyrir dómsáfelli, þegar hann kemur fyrir rètt.
34. Bíð þú Drottins og vertu stöðuglega á hans vegi; þá mun hann hefja þig, svo þú erfir landið; þú munt það sjá að hinir óguðlegu verða afmáðir.
35. Eg sá einn óguðlegan, einn ofbeldismann; hann þandi sig vítt út, sem mjög laufguð trè með djúpum rótum.
36. En hann hvarf, og sjá þú! hann var ekki framar til; eg leitaði að honum en hann fanst ekki.
37. Taktu eptir þeim fullkomna, sjáðu þann ráðvanda; laun þess manns eru friður.
38. En yfirtroðslumennirnir munu í einu lagi afmáðir verða og niðjar óguðlegra upprættir.
39. Hjálp hinna rèttlátu kemur frá Drottni; hann er þeirra styrkur í neyðinni;
40. Og Drottinn mun frelsa þá og hjálpa þeim; hann mun frelsa þá frá þeim óguðlegu, því þeir vona á hann.

## 38. SÁLMUR.

*Harmaklögun og bæn um hjálp.*

Ljóð Davíðs til endurminníngar.

DROTTINN! refsa mèr ekki í þinni reiði, og aga mig ekki í þinni bræði.
2. Því þín skeyti hafa hitt mig, og þín hönd harðþjakar mèr.
3. Ekkert er heilt á mínum líkama, vegna þinnar reiði, eingin ró er í mínum beinum vegna minna synda,
4. Því að mínar misgjörðir gánga mèr yfir höfuð, og sem þúng byrði draga mig niður.
5. Ódaun leggur af kýlum mínum, og í þeim grefur sakir minnar heimsku.
6. Eg geing lotinn og niðurlútur, hvern dag í sorgar búníngi.
7. Mínar lendar eru alverkja, og ekkert er heilbrigt á mínum líkama;
8. Eg er máttlaus og mjög sundurmarinn; eg æpi hátt í minni hjartans ángist.
9. Drottinn! þèr er kunnug öll mín girnd, og mitt andvarp er þèr ekki hulið.
10. Mitt hjarta berst ákaflega; minn kraptur yfirgefur mig; jafnvel ljós minna augna víkur frá mèr.
11. Mínir vinir og stallbræður standa gagnvart og horfa á

mína plágu, og mínir náúngar
standa lángt frá.
12. Þeir sem sitja um mitt líf,
leggja snörur, og þeir sem
leita míns óhapps, tala tjón
og brugga svik allan daginn.
13. Eg em sem heyrnarlaus,
og heyri ekki, sem mállaus,
er ekki opnar sinn munn.
14. Eg em sem maður, er
ekki heyrir, og í hvers munni
ekki er svar.
15. Því þín bíð eg, Drott-
inn! þú munt bænheyra mig,
Drottinn, minn Guð!
16. Því eg bið: lát þá ei
hlakka yfir mér, þá minn fót-
ur skeikar; lát þá ei hælast
um við mig.
17. Eg em að falli kominn
og mèr svíar ekki.
18. Eg játa minn misgjörn-
íng, og græt mína synd.
19. En mínir óvinir lifa og
eru sterkir, og þeir eru marg-
ir, sem hata mig án saka;
20. Og þeir launa gott með
illu, sem hatast við mig, af
því eg leita eptir því góða.
21. Yfir gef mig ekki, Drott-
inn, minn Guð!
22. Vertu ekki lángt frá mèr!
hraða þú þèr, mèr til bjargar,
Drottinn, mitt hjálpræði.

## 39. SÁLMUR.

*Kvein og bæn og dauðakvíði.*

Til Saungmeistarans Jedútúníta, ljóð Davíðs.

EG sagði: "gái eg að mín-
um vegi, að eg ekki syndgi
með minni túngu? geymi eg
minn munn með múl, meðan
sá óguðlegi er fyrir mínum
augum?"
2. Eg var sem mállaus og
þagði; eg þagði jafnvel um hið
góða, en mín plága sefaðist
ekki;
3. Mitt hjarta brann í mèr;
í mínu skapi tendraðist eldur.
Þá talaði eg með minni túngu.
4. Drottinn! láttu mig þekkja
mína endalykt, og minna daga
mælir, að eg þekki, hve skjótt
eg á að enda æfi mína;
5. Sjá! sem þverhönd hefir
þú gjört mína daga, og mín
lífstíð er hjá þèr sem ekkert;
sannarlega er sèrhver maður
hègómi, hversu fast sem hann
stendur. Málhvíld.
6. Já, eins og skuggi líður
maðurinn áfram; til einskis
gjöra þeir sèr mikla armæðu;
þeir saman hrúga, og vita ei
hver það fær.
7. Og nú, Drottinn! hvers má
eg vona? mín von er á þèr!
8. Frelsa þú mig frá öllum
yfirtroðslum! Láttu mig ekki
verða þeim guðlausu að gysi!
9. Þó, eg þegi og lýk ekki
upp mínum munni, því þú
gjörðir það.
10. Taktu þína plágu frá mèr,

því eg stenzt ekki högg þinnar handar.

11. Þegar þú agar einhvern með synda sekt, þá spillir þú hans fegurð, eins og mölur (fati); vissulega er hver maður hègómi. Malhvíld.

12. Heyr þú, Drottinn! mína bæn, og snú þínum eyrum að mínu hrópi! þegi þú ekki við mínum tárum, því eg er framandi hjá þèr; gestur, eins og allir mínir feður.

13. Líttu frá mèr, að eg megi endurnærast, áður en eg fer hèðan, og er ekki meir.

## 40. SÁLMUR.

*Þakklæti og bæn.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

EG beið Drottins öruggur; hann beygði sig til mín og heyrði mitt ákall.

2. Og hann dróg mig upp úr þeirri háskalegu gröf, þeirri seigu bleytu, og hann setti mína fætur á fastan klett, og styrkti minn gáng.

3. Og hann lagði mèr í munn nýtt kvæði, lofsöng fyrir vorn Guð. Það skulu margir sjá, og óttast Drottinn, og reiða sig á hann.

4. Sæll er sá maður, sem treystir Drottni, og snýr ei sínu andliti til dramblátra, og til þeirra lygigjörnu.

5. Drottinn, minn Guð! þú hefir margfaldað þinar dásemdir og ráðstafanir, oss viðvíkjandi; einginn er líkur þèr; vildi eg kunngjöra þær, og segja frá þeim, yrðu þær ei taldar.

6. Slaturfórnir og matoffur þóknast þèr ekki. Mín eyru hefir þú gegnum borað; brennifórnir og synda fórn viltu ekki.

7. Þá sagði eg: sjá eg kem með lögmálsskrána, skrifaða í mitt hjarta.

8. Mig lángar til að gjöra þinn vilja, minn Guð! og þitt lögmál er innst í mínu hjarta.

9. Eg kunngjöri þitt rèttlæti á mikilli samkomu. Sjá! mínar varir þvínga eg ekki. Þú veizt það, Drottinn!

10. Þitt rèttlæti fel eg ekki í mínu hjarta. Þína trúfesti og hjálpræði vegsama eg; þína miskun og sannleika dyl eg ekki fyrir þeim mikla söfnuði.

11. En þú, Drottinn! drag þú ekki í hlè við mig þína miskun! láttu þína miskun og sannleika ætíð varðveita mig.

12. Því ótöluleg óhöpp umspenna mig; mínar syndir hópast í kríngum mig, svo eg get ekki sèð útyfir; þær eru fleiri

en hárín á mínu höfði, og mitt hjarta hefir yfirgefið mig.

13. Lát þèr það vera geðþekkt, Drottinn! að frelsa mig; flýttu þèr, Drottinn! mèr til hjálpar.

14. Láttu þá sneypast og til skammar verða gjörsamlega, sem sitja um mitt líf; láttu þá hörfa til baka og verða til skammar, sem vilja mèr ilt.

15. Lát þá verða hissa á sinni eigin skömm, sem æpa til mín, hæ! hæ!

16. Þá fagna þeir allir og gleðjast í þèr, sem þín leita. Lát þá, sem elska þitt hjálpræði, ætið segja: mikill er Drottinn.

17. Eg er vesæll og aumur, en Drottinn hugsar samt til mín. Þú ert mín hjálp og minn Frelsari! minn Guð! tef þú ekki!

## 41. SÁLMUR.

*Bæn hins auma.*

Til hljóðfærameistarans. Ljóðmæli Davíðs.

SÆLL er sá sem annast hinn lítilmótlega; á þeim vonda degi mun Drottinn bjarga honum.

2. Drottinn mun varðveita hann og halda honum við lífið; hann mun verða sæll á jörðunni, og þú munt ekki ofurselja hann vild hans óvina.

3. Drottinn mun styrkja hann á hans sóttarsæng; öllu hans rúmi snýr þú við (til lækníngar) í hans sjúkdómi.

4. Eg bið: Drottinn, miskuna mèr! lækna þú sálu mína, því eg hefi syndgað á móti þèr;

5. Mínir óvinir tala ilt um mig, og segja: nær ætla hann deyi? nær mun hans nafn líða undir lok?

6. Komi einhver þeirra að vitja mín, talar hann fals; hans hjarta safnar sèr vonzku; hann geingur út og talar um það.

7. Allir, sem mig hata, tala um mig saman í hálfum hljóðum, og brugga mèr ilt.

8. Og segja: bölvun er úthelt yfir hann; sá sem þarna liggur skal ekki komast á fætur.

9. Einnig sá maður, sem hafði frið við mig, sem eg reiddi mig á, sem át mitt brauð, hann lyptir sínum hæl móti mèr.

10. En þú, Drottinn, miskuna þú mèr, hjálpaðu mèr á fætur, að eg geti goldið þeim fyrir;

11. Þar af sè eg, að þú hefir velþóknan á mèr, að minn óvinur hlakkar ekki yfir mèr.

12. En mig styður þú í mínu sakleysi, og hefir mig þèr æfinlega fyrir augum.

13. Lofaður veri Drottinn, Ísraels Guð, frá eilífð til eilífðar. Amen, Amen.

## 42. SÁLMUR.

*Laungun til Musterisins.*

Til hljóðfærameistarans. Undirvísun fyrir Kóras börn.

EINS og hjörturinn kallar eptir rennandi vatni, svo kallar mín sál, Guð! til þín.

2. Mína sál þyrstir eptir Guði, eptir þeim lifandi Guði; nær mun eg koma að eg sjái Guðs auglit.

3. Minn grátur er mín fæða dag og nótt, af því daglega er við mig sagt: hvar er þinn Guð?

4. Þegar eg hugsa til þess, þá úthellir mitt hjarta sèr í tárum, hvernig eg ferðaðist með þessum hóp, og gekk með þeim til Guðs húss, með fagnaðar ópi og lofsöng, meðal þess fjölda, sem hèlt hátíðina.

5. Hvers vegna ertu svo niðurbeygð, mín sál, og svo óróleg í mèr? bíð þú eptir Guði, því enn mun eg þakka honum, því frá honum kemur hjálpræðið.

6. Ó Guð! mín sál er niðurbeygð í mèr, af því eg minnist þín frá Jórdanslandi, og frá Hermon, því litla fjalli.

7. Eitt vatnsfallið kallar til annars, með dunum þinna fossa, allar þínar öldur og bylgjur steypast yfir mig.

8. (Áður) á daginn veitti Drottinn mèr sína miskun, og á nóttunni var hans lofsöngur hjá mèr, bæn til Guðs, míns lífs.

9. Nú segi eg við Guð: mitt bjarg! hví hefir þú gleymt mèr? hví verð eg að gánga í sorgarbúníngi þá óvinurinn að mèr þreyngir?

10. Mínir óvinir smána mig, svo að mín bein merjast, með því að segja iðuglega við mig: hvar er þinn Guð?

11. Hvers vegna ertu svo niðurbeygð, mín sál! og svo ángur vær? Bíð þú Guðs! því eg mun honum enn þakkir gjöra, mínum frelsara og mínum Guði.

## 43. SÁLMUR.

*Bænar andvarp.*

DÆM mig, ó Guð, og taktu að þèr mitt málefni móti ómildu fólki; frelsa þú mig frá fláráðum og ránglátum manni.

2. Því þú ert Guð míns athvarfs; hví útskúfar þú mèr? hví skal eg gánga í sorgarbúníngi, í því óvinurinn þreyngir að mèr?

3. Send þú þitt ljós og þína náð, að hún leiði mig og flytji mig til þíns heilaga fjalls og til þíns bústaðar,

4. Að eg megi komast til Guðs altaris, til Guðs, míns fagnaðar og gleði, og þakka þèr með hörpuhljóm, ó Guð, minn Guð!

5. Hví ertu svo niðurbeygð, mín sál! og óróleg í mèr? bíð þú Guðs; því eg mun enn þakka honum, mínum frelsara og mínum Guði.

## 44. SÁLMUR.

*Bæn í trúarbragða ofsókn.*

Til hljóðfærameistarans. Kennsluljóð af Kóras börnum.

GUÐ! vèr höfum heyrt það með vorum eyrum, vorir forfeður sögðu oss frá því stórvirki, sem þú gjörðir á þeirra dögum í fornöld.

2. Þú burt rakst þjóðirnar og gróðursettir þá (forfeðurna); þú beittir hörku við þjóðirnar, en útbreiddir þá,

3. Því þeir unnu ekki landið með sínum sverðum, og þeirra armur gaf þeim ekki sigur, heldur þín hægri hönd og þinn armur, og þíns andlitis ljós, af því þú hafðir velþóknan á þeim.

4. Þú hinn sami, ó Guð! ert minn konúngur; send þú Jakob frelsi!

5. Fyrir þína aðstoð leggjum vèr að velli vora óvini; í þínu nafni troðum vèr undir fótum þá, sem rísa oss á móti.

6. Því eg reiði mig ekki á minn boga, og mitt sverð getur ekki frelsað mig.

7. En þú frelsar oss frá vorum óvinum, og sneypir þá, sem oss hata.

8. Af Guði viljum vèr hrósa oss daglega og vegsama þitt nafn eilíflega. Málhvíld.

9. En nú útskúfaðir þú oss og lèzt oss verða til skammar; þú vildir ei fara út með vorum her.

10. Þú lèzt oss hopa fyrir vorum mótstöðumönnum, og þeir, sem oss hata, feingu herfáng.

11. Þú gjörðir oss að slátrunar hjörð, og tvístraðir oss meðal þjóðanna.

12. Þú seldir þitt fólk fyrir ekkert, þú lèzt ekki verð á því vaxa.

13. Þú gjörðir oss að forsmán hjá vorum nábúum, að spotti og háði þeim, sem búa í kríngum oss.

14. Þú gjörðir oss að orðshætti meðal þjóðanna, svo að menn skaka að oss höfuðin meðal annara þjóða.

15. Hvern dag stendur mín smán fyrir mèr, og míns andlitis sneypa þekur mig,

16. Vegna spottarans orða

og hins lastmáluga; vegna óvinarins og hins hefndargjarna.

17. Alt þetta er yfir oss komið, þó höfum vèr ekki gleymt þèr, og ekki rofið þinn sáttmála.

18. Vort hjarta sneri sèr ekki frá þèr, og vor gángur beygðist ekki frá þínum vegi,

19. En þótt þú hrintir oss niður til drekanna bústaðar og hyldir oss með dauðans skugga.

20. Ef vèr hefðum gleymt nafni vors Guðs, og upp rètt vorar hendur til annarlegs Guðs,

21. Mundi Guð þá ekki rannsaka það? því hann þekkir hjartans leyndardóma.

22. En fyrir þína skuld erum vèr daglega deyddir, vèr erum álitnir sem slátrunarsauðir.

23. Vakna þú, Drottinn! hví sefur þú? stattu upp! útskúfa oss ekki eilíflega.

24. Hví byrgir þú þitt auglit, og gleymir vorri eymd og þreyngíngu?

25. Því niðurbeygð í duptið er vor sál; og líkama vorum er til jarðar niðurþrýst.

26. Bú þig út, vor hjálpari! og frelsa oss sakir þinnar miskunar.

## 45. SÁLMUR.

*Konúngs lofgjörð.*

Til hljóðfærameistarans. Kennsluljóð af Kóras börnum, elskusamlegt kvæði.

MITT hjarta úteys sèr í yndislegu kvæði. Eg vil flytja ljóð konúnginum; mín túnga sè sem penni hins liðuga skrifara.

2. Fríðari ertu heldur en mannanna börn, yndi streymir frá þínum vörum, því Guð hefir blessað þig eilíflega.

3. Gyrztu sverði við þína hlið, þú hetja! þinni prýði og dýrð!

4. Og far þú heppilega fram í þinni dýrð, sakir þíns sannleika, hógværðar og rèttvísi. Dásamleg verk skal þín hægri hönd kenna þèr!

5. Þínar örfar eru hvestar; þjóðir skulu falla fyrir þèr. Þær (örfarnar) skulu fara í hjarta konúngsins óvina.

6. Þitt hásæti, ó Guð! stendur æ og ætíð varandi. Þíns ríkissproti er rèttlætisins sproti.

7. Þú elskar rèttvísi, og hatar óguðlegleika; þess vegna hefir Guð, þinn Guð, smurt þig með fagnaðarins viðsmjöri, framar en þína meðbræður.

8. Myrra, alóe og kasía eru öll þín klæði; frá fílabeinshöllinni gleðja þeir þig.

9. Konúnga dætur eru meðal þinna útvöldu; Drottníngin

stendur við þína hægri hönd í gulli frá Ófír.

10. Heyr þú, dóttir, og líttu til, og beyg þitt eyra, og gleym þínu fólki og þíns föður húsi.

11. Konúngurinn hafi geðþekkni á þinni fegurð; hann er þinn herra, og þú skalt tjá honum hollustu.

12. Týrus dætur með gjöfum niður beygja sig fyrir þínu augliti, ríkismenn meðal fólksins.

13. Mikið vegsamleg er konúngsdóttirin inni (í sínu herbergi); hennar klæðnaður er gulli lagður.

14. Í útsaumuðum klæðum er hún til konúngsins leidd. Meyarnar, sem fylgja henni, skal til þín leiða.

15. Þær skal framleiða með fögnuði og gleði, og þær skulu koma í konúngsins höll.

16. Synir skulu vera þèr í foreldra stað; þú munt gjöra þá að höfðíngjum í öllu landinu.

17. Eg vil vegsama þitt nafn meðal allra kynkvísla; því skulu þjóðirnar þig heiðra ætíð og eilíflega.

## 46. SÁLMUR.

*Þakklæti eptir afstaðinn háska.*

Til hljóðfærameistarans; af Kóras börnum; kvæði á (hljóðfærið) Almùth.

GUÐ er vort athvarf og styrkur, hjálp í þreyngíngum margreynd;

2. Því hræðumst vèr ekkert, þó að jörðin fari úr lagi, og fjöllin flytjist mitt í hafið.

3. Þó að sjórinn ólgi og æsist, svo að fjöllin hristist af hans ofsa. Málhvíld.

4. Áin mun samt og hennar rennur gleðja Guðs stað, heilagan bústað ens hæzta.

5. Guð er mitt í honum; hann skal ekki bifast. Guð verndar hann (þegar morguninn frambrýzt) í tíma.

6. Þjóðirnar geisa; ríkin bifast, hann útsendir sína raust, jörðin bráðnar.

7. Drottinn allsherjar er með oss. Jakobs Guð er vort vígi. Málhvíld.

8. Komið og sjáið Drottins verk, hversu hann gjörir eyðileggíngu á jörðunni.

9. Hann lætur stríðum linna til jarðarinnar enda, sundur brýtur bogann, og höggur sundur spjótin, uppbrennir vagnana með eldi.

10. Hættið og viðurkennið: að eg er Guð, upphafinn meðal þjóðanna, upphafinn á jörðunni.

11. Drottinn allsherjar er með oss. Jakobs Guð er vort vígi. Málhvíld.

## 47. SÁLMUR.

*Lofgjörð eptir feinginn sigur.*

Til hljóðfærameistarans; af Kóras börnum; ljóðmæli.

KLAPPIÐ lófum saman, allar þjóðir! fagnið fyrir Drottni með gleði hljóm!

2. Því Drottinn, sá æðsti, er voldugur, mikill konúngur á allri jörðunni.

3. Hann lagði fólkið undir oss, og þjóðirnar undir vora fætur.

4. Hann valdi oss vorn arf, dýrð Jakobs, sem hann elskaði.

5. Guð stè upp með fagnaðar raust, Drottinn með lúður hljómi.

6. Sýngið fyrir Guði, ó sýngið! sýngið fyrir vorum konungi! ó sýngið!

7. Því Guð er konúngur allrar jarðarinnar. Sýngið honum sálma; Guð ríkir yfir þjóðunum.

8. Guð situr í sínu heilaga hásæti.

9. Höfðíngjar þjóðanna safnast sem fólk Guðs Abrahams, því Guði til heyra höfðíngjar jarðarinnar; hann er mjög upphafinn.

## 48. SÁLMUR.

*Þakklæti fyrir Jerúsalems frelsun.*

Ljóð af Kóras börnum.

MIKILL er Drottinn, og háloflegur í borg vors Guðs á sínu heilaga fjalli!

2. Yndislega rís Síons fjall, gjörvalls landsins gleði, norðan til við borg þess mikla konúngs.

3. Guð er alþektur verndari í hennar höllum.

4. Því sjá! konúngarnir komu saman, en þeir fóru allir fram hjá.

5. Þegar þeir litu þángað, hnykkti þeim við. Þeir skelkuðust og flýttu sèr burt.

6. Skjálfti kom yfir þá, ángist, sem konunnar, er tekur jóðsótt;

7. Sem austanvindur er brýtur Tarsus skipin.

8. Eins og vèr höfum heyrt, svo sáum vèr það í borg alsherjar Drottins, í borginni vors Guðs. Guð varðveitir hana eilíflega. Málhvíld.

9. Vèr hugsum, ó Guð! til þinnar miskunar hèr í þínu musteri.

10. Eins og þitt nafn, ó Guð! svo nær þín lofgjörð til jarðarinnar enda; af rèttlæti er þín hægri hönd full.

11. Síons fjall gleður sig, Júdalands dætur fagna yfir þínum dómum.

12. Gángið umkríng Síon á alla vegu, og teljið hennar turna;

13. Takið eptir hennar múr veggjum, gángið um hennar hallir, að þèr getið sagt frá því hinum komandi kynslóðum.

14. Því þessi Guð er vor Guð

æ og eilíflega; hann fylgir oss til æfiloka.

### 49. SÁLMUR.

*Huggun þeirra, sem líða ófsókn af þeim voldugu.*

Til saungmeistarans; af Kóras börnum; ljóð.

HEYRIÐ þetta, allar þjóðir, snúið híngað yðar eyrum, allir heimsins innbúar,

2. Bæði háir og lágir, ríkir og fátækir, allir til samans.

3. Minn munnur talar vísdóm, og hugsun míns hjarta er skynsemd.

4. Eg vil hneygja mitt eyra til ljóðmæla, og framsetja mitt andríka tal með hörpuhljóm.

5. Hvers vegna á eg að óttast á hinum vondu dögum, þegar minna fóttroðenda vonzka umkríngir mig?

6. Þeirra, sem reiða sig á sinn auð, og stæra sig af sínu mikla ríkidæmi?

7. Einginn getur frelsað sinn bróður nè við Guð forlíkað,

8. Því hans sálar (lífs) endurlausn kostar ofmikið, (og hann hlýtur að sleppa því að eilífu),

9. Að hann lifi að eilífu og sjái ekki gröfina.

10. Því menn sjá, að hinir vitru deya, að hinn fávísi og heimski deya líka, og ofurselja auð sinn til annara.

11. Þeir hugsa að hús sitt standi eilíflega, og sinn bústaður frá kyni til kyns, að þeirra nafn muni verða víðfrægt á jörðunni.

12. En jafnvel sá maður, sem er í virðíngu, verður ei varanlegur; hann líkist dýrunum, sem menn slátra.

13. Þessi þeirra breytni er heimska, þó taki undir þeirra tal þeir, sem þeim fylgja. Málhvíld.

14. Eins og fè eru þeir reknir til helju; dauðinn eyðir þeim; bráðum munu þeir hreinskilnu ofan á þá gánga, og gröfin mun afmá þeirra mynd, svo að þeir eingan bústað skulu framar hafa.

15. En Guð mun frelsa mína sálu af dauðans valdi, því hann hefir tekið mig að sèr. Málhvíld.

16. Óttastu ekki, þó einhver gjörist ríkur, þó dýrð hans húss verði mikil.

17. Því hann mun ekkert með sèr taka þegar hann deyr, hans dýrð fylgir honum ekki,

18. Þó að hann telji sig sælan meðan hann lifir, og þó þeir hrósi þèr fyrir það, að þú heldur þig vel,

19. Þú skalt þó koma til kynslóðar þinna feðra, sem að eilífu ekki sjá ljósið.

20. Sá maður sem er í dýrð, hafi hann ekki vitið, þá er hann

líkur fènaðinum sem er handsamaður.

## 50. SÁLMUR.

*Um þá rèttu Guðs dýrkun.*

Sálmur Asafs.

GUÐ, Guð Drottinn talar og kallar jarðarinnar innbyggjendur frá uppruna sólar alt til hennar niðurgaungu.

2. Frá Síon, fegurðarinnar ímynd, opinberar Guð sig dýrðlega.

3. Vor Guð, hann kemur og þegir ekki, heldur geingur á undan honum og í kríng um hann er mikill stormvindur;

4. Hann kallar til himinsins uppyfir, og til jarðarinnar, til að dæma sitt fólk.

5. "Safnið mèr mínum heilögu, sem gjört hafa sáttmála við mig með fórnum,"

6. (Og himnarnir skulu kunngjöra hans rèttvísi, því Guð er sá sem dæmir). Málhvíld.

7. Heyr, mitt fólk! láttu mig tala Ísrael! eg vil vitna fyrir þèr; eg er Guð, þinn Guð.

8. Fyrir þinna fórnfæringa sakir ávíta eg þig ekki. Þínar brennifórnir eru jafnan frammi fyrir mèr.

9. Eg þarf ekki uxans úr þínu húsi, nè geithafursins úr þinni stíu.

10. Því öll dýrin á mörkinni heyra mèr til, og dýrin á fjöllunum þúsundum saman.

11. Eg þekki alla fuglana á fjöllunum, og dýrin á mörkinni eru mèr kunnug.

12. Þó mig húngraði, mundi eg ekki segja þèr frá því, því jörðin er mín og alt sem á henni er.

13. Ætla eg eti uxanna kjöt, eða drekki hafranna blóð?

14. Fær þú Guði þakkargjörð og gjald þú hinum æðsta þín heit.

15. Ákalla mig í neyðinni; eg mun frelsa þig, og þú skalt vegsama mig.

16. En tils hins óguðlega segir Guð: hvað kemur þèr það við, að tala um mína setnínga, og taka minn sáttmála þèr í munn,

17. Þar eð þú hatar agann, og kastar mínum orðum á bak þèr aptur?

18. Þegar þú sèr þjófinn, fer þú með honum, og hefir samfèlag við hórunarmenn.

19. Þinn munn hefir þú til ils, og þín túnga bruggar svik.

20. Þú situr og talar móti þínum bróður, og rógber son þinnar móður.

21. Þetta hefir þú aðhafzt, og eg hefi þagað; þá hugsaðir þú, að eg væri líkur þèr. En

eg mun hegna þèr og láta þig sjá.

22. Hyggið að þessu, þèr sem hafið gleymt Guði, að eg ekki sundurtæti svo, að einginn geti bjargað.

23. Hver sem fram ber þakkar gjörð, sá heiðrar mig, og hver sem gáir að sínum vegi, þann vil eg láta sjá Guðs liðsinni.

## 51. SÁLMUR.

*Bæn um fyrirgefníng.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs, þá Natan spámaður kom til hans, eptir að hann lagðist með Bersebu.

MISKUNA mèr, Guð! eptir þinni gæzku, og afmá mínar yfirtroðslur eptir þinni miklu miskunsemi.

2. Þvo mig hreinan af minni misgjörð og hreinsa mig af minni synd.

3. Því eg þekki mína yfirtroðslu, og mín synd er ætíð frammi fyrir mèr.

4. Þèr, já, þèr einum hef eg á móti brotið, og að hafst hið illa fyrir þinni augsýn, svo þú ert rèttvís, þegar þú talar, og hreinn, þegar þú dæmir.

5. Sjá! í misgjörð em eg fæddur, og mín móðir hefir getið mig í synd.

6. Sjá! þú hefir velþóknan á hjartans hreinskilni; kenn þú mèr vísdóminn í kyrrþey.

7. Þvo þú mig með ísópi af synd, svo eg verði hreinn; þvo þú mig, svo eg verði hvítari en snjór!

8. Láttu mig verða varan við fögnuð og gleði, svo að þau bein hressist við, sem þú hefir sundurmarið.

9. Byrg þitt auglit fyrir mínum syndum, og afmá allar mínar misgjörðir!

10. Skapa í mèr hreint hjarta, ó Guð! og endurnýa í mèr stöðugan anda!

11. Kasta mèr ekki burt frá þínu augliti, og tak ekki þinn Heilaga Anda frá mèr!

12. Gef mèr aptur fögnuð þíns frelsis, útbú mig með öruggum anda.

13. Þá skal eg kenna yfirtroðslumönnunum þína vegu, og syndarar munu snúa sèr til þín.

14. Frelsa mig frá blóðskuld, Guð! minn frelsis Guð! svo að mín túnga fagni yfir þinni gæzku!

15. Drottinn! opna þú mínar varir, svo minn munnur kunngjöri þitt lof.

16. Því þú hefir einga vild á fórnum, annars mundi eg greiða þèr þær; á brenni fórn hefir þú ekki velþóknan.

17. Sundur kraminn andi er Guði þægileg fórn. Harm þrúngið og sundur marið hjarta

munt þú, ó Guð! ekki fyrirlíta.

18. Gjör þú vel við Síon eptir þinni gæzku. Uppbygg þú Jerúsalems múrveggi!

19. Þá munt þú gleðjast af guðrækilegum fórnum, brennifórnum og aðalfórnum. Þá munu menn fórnfæra uxum á þínu altari.

## 52. SÁLMUR.

*Móti dramblátum óvin.*

Kennsluljóð Davíðs, þegar Dóeg Edomíti kom og kunngjörði Sál, og sagði: Davíð er kominn í Akímeleks hús.

HVÍ stærir þú þig af þinni vonzku þú, harðstjóri? Guðs miskun varir dag hvern.

2. Þín túnga ástundar eintóman skaða, lík beittum rakhníf, þú vèlasmiður!

3. Þú elskar ilt, en ekki gott, lygi meir, en að tala það, sem rètt er. Málhvíld.

4. Þú elskar alt skaðræðistal, þú svikafulla túnga!

5. Guð mun líka tortýna þèr algjörlega; hann mun burttaka þig og útryðja þèr af tjaldbúðinni, og uppræta þig af landi þeirra sem lifa. Málhvíld.

6. Og þeir ráðvöndu munu sjá það og óttast, og að honum munu þeir hlægja og segja:

7. "Sjá þar þann mann, sem ekki hèlt Guð fyrir sinn styrk, heldur reiddi sig á sinn mikla auð, og áleit vonzkuna sinn krapt."

8. En eg mun vera sem grænn viðsmjörs viður í Guðs húsi; eg reiði mig á Guðs miskun um aldir og að eilífu.

9. Eg mun þakka þèr eilíflega fyrir það þú gjörðir, og eg mun vona á þitt nafn, því það er gott fyrir augum þinna heilögu.

## 53. SÁLMUR.

*Umkvörtun, hvað menn eru vondir.*

Til hljóðfærameistarans, að spila á flautu. Kennsluljóð Davíðs.

HEIMSKÍNGINN segir í sínu hjarta: "það er einginn Guð til." Vond og viðurstyggileg eru þeirra verk; einginn er sá, sem gjöri gott.

2. Guð lítur af himni niður yfir mannanna börn, til að sjá hvert nokkur sè hygginn, nokkur, sem leiti Guðs.

3. Þeir eru allir fallnir frá, allir spiltir, einginn er sá, sem gjörir gott, ekki einn.

4. Ætla þeir komi ekki til viðurkenníngar, sem rángt gjöra, þeir sem uppeta mitt fólk, eins og brauð, og ei ákalla Guð?

5. Jú! þeir munu verða óttaslegnir, þar sem ekkert er að óttast; því Guð tvístrar þeirra beinum, sem setja herbúðir á móti þèr, þú gjörir þá til

skammar, því Guð hefir útskúfað þeim.

6. Frá Síon komi Ísrael frelsi! leiði Guð heim aptur sitt hertekna fólk, þá mun Jakob fagna, og Ísrael gleðjast.

## 54. SÁLMUR.

*Bæn og traust til Guðs.*

Til saungmeistarans, á streingjaleik. Kennsluljóð eptir Davíð, þegar Sefitar komu og sögðu við Sál: hefir ekki Davíð falið sig hjá oss?

GUÐ! frelsa mig fyrir þitt nafn, og lát mig ná rètti fyrir þinn krapt.

2. Guð! heyr mína bæn, beyg þitt eyra til orða míns munns;

3. Því útlendir rísa móti mèr, og harðstjórar sitja um mitt líf, og hafa ekki Guð sèr fyrir augum. Málhvíld.

4. Sjá! Guð er minn hjálpari. Drottinn er sá, sem við heldur mínu lífi,

5. Hann mun endurgjalda vonzkuna mínum óvinum; já, afmá þú þá eptir þinni trúfesti.

6. Fúslega mun eg færa þèr fórnir, vegsama þitt nafn, Drottinn! því það er gott.

7. Af því hann frelsaði mig af allri neyð, og mitt auga gladdi sig yfir mínum óvinum.

## 55. SALMUR.

*Bæn móti svikulum vin.*

Til hljóðfærameistarans, á streingjaleik. Kennsluljóð Davíðs.

GUÐ! snú þínu eyra til minna bæna, og fel þig ekki fyrir minni grátbeiðni.

2. Gef gaum að mèr og bænheyr mig; eg ráfa til og frá í minni sorg, og kveina vegna óvinarins óhljóða,

3. Vegna undirokunar hins óguðlega, því þeir vilja gjöra mèr órètt og í reiði ofsækja mig með hatri.

4. Mitt hjarta skelfur í mèr, og dauðans ángist yfir fellur mig.

5. Ótti og skjálfti kemur yfir mig, og ofboð þekur mig.

6. Eg segi við sjálfan mig: æ, að eg hefði vængi sem dúfa, þá mundi eg fljúga burt og leita að ró.

7. Eg mundi fara lángt í burt, og (vera á nóttunni) á eyðimörku. Málhvíld.

8. Fljótar skyldi eg burtflýa en ákaflegur stormur, óveður.

9. Drottinn! afmá þú þá; sundur skipt þú þeirra túngum, því eg sè ofbeldi og sundurþykkju í staðnum.

10. Nótt og dag geingur þetta um kríng á hans múrveggjum. Ránglæti og mæða er í honum miðjum.

11. Tjón mitt í honum, og frá hans strætum víkja ekki svik og fals.

12. Það er ekki fjandmað-

urinn, sem svívirðir mig; eg mundi þola það. Það er ekki sá, sem mig öfundar, sem hlakkar yfir mèr; eg mundi fela mig fyrir honum.

13. Heldur ert þú það, maður, sem eg mat jafnt mèr, minn fèlagi og minn kunníngi.

14. Við sem ráðguðumst saman vinsamlega, sem geingum saman í Guðs hús.

15. Dauðinn komi sviplega yfir þá, svo þeir fari lifandi niður í helju, því að vonzka er í þeirra bústöðum, mitt í þeim.

16. Eg kalla til Guðs, og Drottinn mun frelsa mig.

17. Um kvöld, morgna og miðdegi kvarta eg og andvarpa; hann heyrir mína raust.

18. Hann frelsar mína sálu frá stríði, og veitir frið, því margir eru á móti mèr.

19. Guð heyrir mig og auðmýkir þá. Hann sem var frá eilífð, mun auðmýkja þá, málhvíld; ekki bæta þeir sig, og ekki óttast þeir Guð.

20. Þeir leggja hendur á sína stallbræður, og rjúfa skammarlega sína sáttmála.

21. Þeirra munnur er klökkvari en smjör, og hafa þó stríð í hug; þeirra orð eru mjúkari en viðsmjör, og eru þó brugðin sverð.

22. Varpa áhyggju þinni á Drottin, og hann mun veita þèr atvinnu; hann mun ekki leyfa að eilífu, að hinn ráðvandi bifist.

23. En þú, ó Guð! munt steypa þeim (vondu) niður í glötunarinnar gröf. Hinir drápgjörnu og fláráðu munu ei hálfna sína lífdaga. En eg vil reiða mig á þig.

## 56. SÁLMUR.

*Traust á Guðs hjálp gegn óvinum.*

Til hljóðfæerameistarans; eptir lagi: "mállaus dúfa í fjærlægum skógi;" Davíðs huggunarljóð, þá Filistear höfðu hertekið hann í Gat.

GUÐ! vertu mèr náðugur, því mennirnir vilja upp svelgja mig, óvinirnir þreyngja að mèr daglega.

2. Upp svelgja vilja mig mínir óvinir á hverjum degi, því margir eru þeir, sem rembilega stríða á móti mèr.

3. Þegar eg er hræddur, þá treysti eg þèr;

4. Af Guði stæri eg mig, af hans orði; á Guð treysti eg, og óttast ekki; hvað geta mennirnir gjört mèr?

5. Hvern dag hindra þeir mín verk; allar þeirra hugsanir eru móti mèr, til ils.

6. Þeir fylgjast að og fela sig, og gá að mínum sporum, því þeir sitja um mitt líf.

7. Ætla þeir komist undan hegníngu, svo ránglátir sem þeir eru? Guð! legg þá að velli í þinni reiði!
8. Tel þú mína útlegð; geim þú mín tár í þinni flösku; standa þau ei í þinni bók?
9. Þá munu mínir óvinir hörfa undan á þeim degi, er eg kalla: þetta veit eg, að Guð er með mèr.
10. Af Guði stæri eg mig, af hans orði; af Drottni stæri eg mig, af hans orði.
11. Á Guð reiði eg mig, eg er óhræddur; hvað geta mennirnir gjört mèr?
12. Heit við þig, ó Guð! hvíla á mèr; með þakkar fórn vil eg þèr þau færa;
13. Því þú frelsar mína sálu frá dauðanum, já, mína fætur frá hrösun, svo eg má gánga fyrir Guði í ljósi lifandi manna.

## 57. SÁLMUR.

*Bæn um hjálp. Trúartraust.*

Til hljóðfærameistarans; með lagi: spill ekki. Davíðs huggunarljóð, þá hann flýði fyrir Sál í hellinn.

GUÐ, vertu mèr náðugur! vertu mèr náðugur. Því mín sál flýr til þín; eg flý í skugga þinna vængja, þángað til ógæfan er framhjá farin.
2. Eg kalla til hins æðsta Guðs, til Guðs, sem fyrir mig vinnur.
3. Hann sendir niður af himni og frelsar mig; hann sneypir þá sem vilja upp svelgja mig. Málhvíld. Guð sendir sína miskun og trúfesti.
4. Mitt líf er meðal ljóna; eg ligg meðal þeirra, sem út þeyta eldi meðal manna, hverra tennur eru spjót og örvar, og hverra túngur eru beitt sverð.
5. Láttu sjá þig, ó Guð! yfir himnunum, og þína dýrð yfir allri jörðunni!
6. Þeir lögðu net fyrir minn gáng; mín sál eingdi sig saman; þeir grófu gröf fyrir mig, og fèllu sjálfir mitt í hana.
7. Mitt hjarta er rólegt, ó Guð! mitt hjarta er rólegt; eg vil sýngja og spila á hörpu.
8. Vakna, minn andi! vakna, mitt hljóðfæri og harpa! eg vil vakna með morgunroðanum.
9. Drottinn! eg vil lofa þig meðal fólksins; eg vil sýngja þèr lof meðal þjóðanna,
10. Því þín miskun er stór, nær til himna, og þín trúfesti til skýanna.
11. Sýn þig, ó Guð! yfir himininn hafinn, yfir himnana, og þína dýrð yfir alla jörðina.

## 58. SÁLMUR.

*Gegn ránglátum dómara.*

Til hljóðfærameistarans; með lagi: spill ekki. Huggunarljóð Davíðs.

ER rèttvísin þá algjörlega þögnuð? svo talið þó; dæmið með sannsýni, þèr mannanna börn!

2. Í hjartanu iðkið þèr rángindi; í landinu vegið þèr yðar handa ofbeldi.

3. Guði ókunnugir (fráleitir) eru hinir óguðlegu frá móðurlífi. Lygarar fara vilt frá móðurlífi.

4. Eitur hafa þeir sem höggorms eitur; þeir eru sem heyrnarlaus ígull, sem aptur byrgir sín eyru,

5. Og heyrir ekki raust töframannsins, ellegar særíngarmannsins, sem útlærður er í því að særa.

6. Drottinn! sundurbrjót tennurnar í þeirra munni, sundur mola, Drottinn! jaxla tennur hinna úngu ljónanna.

7. Lát þá burt fljóta sem vatn, er eyðist, þegar þeir spenna bogann með örfunum; lát þessar vera sem oddlausar.

8. Lát þá verða sem snýgil, sem sundurleysist í því hann geingur, eins og konu ótímabært fóstur, sem aldrei sèr sólina.

9. Fyrr en yðar pottar kenna þyrnanna svo snögglega, sem logandi, er þeim burtu svipt.

10. Sá ráðvandi mun fagna þá hann sèr hefndina; hann mun þvo sína fætur í blóði hinna óguðlegu.

11. Og hver maður skal segja: sá ráðvandi hefir þó ávöxt; sá Guð er þó til, sem dæmir á jörðu.

## 59. SÁLMUR.

*Bæn um frelsi frá óvinum. Traust á Guði.*

Til hljóðfærameistarans; með lagi: spill ekki. Davíðs huggunarljóð, þá Sál sendi og let gæta hússins, til að drepa hann.

MINN Guð! frelsa mig frá mínum óvinum; gjörðu mig óhultan fyrir þeim, sem rísa móti mèr!

2. Frelsaðu mig frá þeim ránglátu, bjargaðu mèr frá þeim blóðþyrstu.

3. Því sjá! Drottinn! þeir umsitja mitt líf, þeir sterku safnast á móti mèr, án saka, án þess eg hafi brotið;

4. Án þess eg hafi brotið, hlaupa þeir og búa sig út; vakna þú, að mæta mèr, og sjá!

5. Drottinn! Guð herskaranna, Guð Ísraels! vakna þú og vitja allra þjóða. Vægðu eingum af þessum svikafullu misgjörða mönnum. Málhvíld.

6. Þeir komi á kvöldin og góli sem hundar, og hlaupi um kríng staðinn!

7. Sjá! þeir úthella vonzku
af sínum munni; sverð eru á
þeirra vörum, því (þeir hugsa):
hver heyrir það?
8. En þú, Drottinn! þú hlær
að þeim, og gjörir gys að öll-
um þjóðum.
9. Mót þeirra makt held eg
mig til þín, því Guð er mitt vígi.
10. Guð minnar miskunar
verður fyrri til að hjálpa, (en
eg bið) Guð! lát mig sjá mína
óvini auðmýkta!
11. Drep þá ekki, að mitt
fólk ekki gleymi því! rektu
þá burt með þinni makt, og
steyp þú þeim, Drottinn, vor
skjöldur!
12. Syndir þeirra munns eru
orð þeirra vara; lát þá fáng-
ast í þeirra drambsemi, vegna
þeirra formælínga og lyga, sem
þeir tala;
13. Afmá þá í þinni reiði;
afmá þá gjörsamlega, svo þeir
viti, að Guð er sá, sem drottn-
ar í Jakob, já, alt til jarðar-
innar enda. Málhvíld.
14. Lát þá koma aptur á
kvöldin og góla sem hunda,
og hlaupa um kríng staðinn.
15. Lát þá flakka híngað og
þángað eptir fæðu, og lát þá
mögla, þegar þeir ekki verða
mettir.
16. En eg vil sýngja um þinn
styrkleika, og fagna á morgn-
ana yfir þinni miskunsemi, því
þú ert mitt vígi og hæli á
minnar neyðar degi.
17. Minn styrkur! þèr vil eg
sýngja lof, því Guð er mitt
vígi, Guð minnar miskunar.

## 60. SÁLMUR.

*Bæn og von um sigur.*

Til hljóðfærameistarans. Huggunarljóð Davíðs til lærdóms, þá hann átti í ófriði við Sýrlenzka frá Mesópótamíu og Sóba, og þá Jóab kom til baka og vann 12000 Edomíta í Salt-dalnum.

GUÐ! þú útskúfaðir oss,
þú tvístraðir oss, og reið-
ur varstu. Kom þú aptur til
vor!
2. Þú lèst jörðina nötra og
rifna; lækna þú hennar sprúng-
u, því hún skelfur.
3. Þú lèzt þitt fólk kenna á
hörðu; þú gafst oss vín að
drekka, svo að oss reikaði.
4. Gef þeim sem þig óttast,
merki til að hefja upp, fyrir
þíns sannleika sakir, Málhvíld.
5. Svo þínir elskuðu verði los-
aðir; hjálpa með þinni hægri
hendi, og bænheyr oss!
6. Guð talaði í sínum helgi-
dómi, þess vegna gleð eg mig.
Eg vil skipta Sikem, og Sú-
kotsdal vil eg mæla.
7. Gíleað heyrir mèr til, Man-
asse á eg, og Efraím er mín
höfuðprýði. Júda er minn
löggjafi.
8. Móab er mitt þvottaker, Í

Edom kasta eg mínum skóm. Filistealand, fagna þú yfir mèr.

9. Hver mun flytja mig í þá rambyggilegu borg? hver mun leiða mig til Edom?

10. Viltu ekki, ó Guð! sem útskúfaðir oss, viltu ekki, ó Guð! fara út með vorum her?

11. Veit þú oss fulltíngi í neyðinni! því manna hjálp er ónýt.

12. Með Guðs hjálp munum vèr hreysti verk vinna, og hann mun niður troða vora óvini.

## 61. SÁLMUR.

*Bæn í útlegð.*

Til hljóðfærameistarans; á hljóðfæri. Ljóð Davíðs.

HEYR þú, Guð! mitt kall, og hygg að minni bæn.

2. Frá landsins enda kalla eg til þín, þegar mitt hjarta vanmegnast, flyt þú mig upp á þann klett, sem annars væri mèr of hár.

3. Því þú ert mitt hæli, sterkur kastali gegn mínum óvinum.

4. Lát mig búa í þínu tjaldi eilíflega, flýa undir þinna vængja skjól! Málhvíld.

5. Því þú, ó Guð! munt heyra mín heit, og gefa þeim eign, sem óttast þitt nafn.

6. Bæt þú dögum við konúngsins daga, hans ár sèu frá kyni til kyns.

7. Að hann megi sitja eilíflega fyrir Guðs augliti. Lát miskun og sannleika varðveita hann.

8. Svo vil eg sýngja lof þínu nafni eilíflega, þá eg greiði mín heit dag eptir dag.

## 62. SÁLMUR.

*Traust ens aðþreyngda.*

Til hljóðfærameistarans, fyrir Jedútún. Sálmur Davíðs.

GUÐS eins bíður mín sál í kyrrþey; frá honum kemur mitt frelsi.

2. Hann einn er mitt bjarg og mitt frelsi og mitt vígi, svo eg skal ekki mikið bifast!

3. Hversu leingi miðið þèr allir á einn mann, viljið hann sundur merja, eins og vegg, sem hallast, eins og múr, sem niður brotinn verður?

4. Þeir hugsa að eins um að hrinda honum niður frá hans hæð. Þeir hafa geðþekkni á lygi; þeir blessa (tala fagurt) með munninum, og formæla í hjartanu. Málhvíld.

5. Mín sál! vertu samt kyrrlát fyrir Guði, því frá honum kemur mín von.

6. Hann einn er mitt bjarg og frelsi, mitt vígi; eg mun ekki bifast!

7. Hjá Guði er mitt frelsi og heiður, bjarg míns styrkleika; Guð er mitt hæli!

8. Reiddu þig ætíð á hann;

mitt fólk! útausið yðar hjarta fyrir hans augliti; Guð er vort hæli.

9. Mannanna börn eru ekkert, tál (eru) þeir dauðlegu, á metaskálinni reynast þeir lèttari en hègómi.

10. Reiðið yður ekki á ofbeldið, og setið ekki ónýta von til ránfeinginna auðæfa; aukist yðar auður, þá snúið ekki hjartanu að honum.

11. Eitt orð hefir Guð talað, já, tvö hefi eg heyrt, að styrkurinn til heyri Guði,

12. Og þèr, Drottinn! til heyri miskunsemin. Því þú geldur sèr hverjum eptir hans verkum.

## 63. SÁLMUR.

*Laungun til Guðs og helgidómsins.*

Sálmur Davíðs, þá hann var í Júdeu eyðimörk.

DROTTINN, þú ert minn Guð! þín leita eg árla, mína sál þyrstir eptir þèr; mitt hold lángar til þín, í þurru og hrjóstugu landi, þar sem ekkert vatn er.

2. Þá mæni eg til þín í helgidóminum, að eg sjái þinn veg og þína dýrð.

3. Því þín miskun er betri en lífið; mínar varir skulu vegsama þig.

4. Eg lofa þig þá daga míns lífs; í þínu nafni upplypti eg mínum höndum.

5. Eins og af feitri máltíð mun mín sál mettast, og með fagnandi vörum minn munnur lofa þig.

6. Þegar eg minnist þín á minni sæng, þá vil eg hugsa til þín í þeirri laungu nætur vöku,

7. Því þú ert mín hjálp, og undir skugga þinna vængja fagna eg.

8. Mín sál hángir við þig; þín hægri hönd styður mig.

9. En þeir, sem vilja afmá mitt líf, þeir munu sjálfir komast niður í jarðarinnar dýpt.

10. Þeim mun verða tvístrað með sverði. Þeir munu verða refanna hlutskipti.

11. En konúngurinn mun gleðjast í Guði, og hver, sem við hann sver, mun hælast um, þegar þeirra munnur, sem tala lygi, verður aptur byrgður.

## 64. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Til hljóðfærameistarans. Sálmur Davíðs.

HEYR, ó Guð! mitt kvein, varðveit mitt líf fyrir óvinanna ógn!

2. Fel þú mig fyrir hóp hinna vondu, fyrir ráðstefnu hinna ránglátu,

3. Sem hvetja sína túngu sem sverð, og miða sínum örfum, heiptar orðum,

4. Að þeir hæfi þann ráðvanda leynilega; þeir skjóta snögg-

lega á hann og hræðast það ekki.

5. Þeir staðfesta sig í sínu vonda athæfi; þeir ráðgast um að leggja snörur, og segja: "hver getur sèð þær?"

6. Þeir ígrunda hrekki, og framkvæma það, sem þeir hafa ígrundað, og sèrhvers insta hjarta er vandlega lokað.

7. En Guð mun skjóta þá; fljót ör mun verða þeirra eyðilegging.

8. Sèrhvern þeirra mun þeirra egin túnga fella; flýa munu allir þeir, sem á þá líta.

9. Allir menn munu hræddir verða, og kunngjöra Guðs verk, og viðurkenna, að þetta er Guðs verk.

10. Sá ráðvandi mun gleðjast í Drottni og reiða sig á hann, og allir, af hjarta hreinskilnir, munu umhælast!

## 65. SÁLMUR.

*Guðs gæzka og veldi.*

Til hljóðfærameistarans. Lofsálmur Davíðs.

ÞÚ, ó Guð! átt skilið trúnaðartraust og lofsaung á Síon! þèr skulu heitin greiðast.

2. Þú ert sá, sem heyrir bænir; til þín skal alt hold koma.

3. Syndasektin er orðin mèr of þúng, fyrirgef þú vorar yfirtroðslur.

4. Sæll er sá sem þú útvelur, og lætur koma nálægt þèr, svo hann megi búa í þínum forgarði. Ó! metta oss með unaðsemd þíns húss, þíns helga musteris.

5. Dásamlega svarar þú oss í náð, vors frelsis Guð! þú sem ert hæli allra þeirra, sem búa við jarðarinnar enda, ellegar lángt í burtu við hafið.

6. Hann festir fjöllin með sínum krapti, og umgirðir sig með mætti.

7. Hann stöðvar hafsins ólgu, bylgnanna æði og fólksins háreysti.

8. Og þeir, sem búa á útkjálkunum, óttast þín stórmerki. Þú lætur alt fagna, sem út geingur, bæði kvöld og morgna.

9. Þú heimsækir jörðina og auðgar hana. Þú gjörir hana mikið ríka. Guðs lækir eru fullir af vatni. Korn til býr þú mönnunum til handa, þegar þú svoleiðis hefir undir búið hana,

10. Vökvað hennar plógför, jafnað hennar akurreinar, bleytt hana með regnskúrum, blessað hennar gróða!

11. Þú krýnir árið með þinni blessan, og þín fótspor drjúpa af feiti,

12. Beitilandið í eyðimörkinni er feitt, og hæðirnar eru fögnuði umgyrtar.

13. Slèttlendið er þakið fènaði, og dalirnir eru þaktir með korni; alt fagnar og sýngur.

## 66. SÁLMUR.

*Þakklæti fyrir hjálp.*

Lofsaungur handa hljóðfærameistaranum.

ÖLL jörðin fagni fyrir Guði; sýngið lof til dýrðar hans nafni, víðfrægið hans lof!

2. Segið við Guð: hversu undarleg eru þín verk? vegna þíns mikla veldis munu þínir óvinir smjaðra fyrir þèr.

3. Öll jörðin mun tilbiðja þig og sýngja þèr lof, þeir munu sýngja lof þínu nafni. Málhvíld.

4. Komið híngað og sjáið Guðs undur; furðanleg eru hans verk meðal mannanna barna!

5. Hann gjörði hafið að þurrlendi; yfir ána geingu þeir á fæti; þá glöddumst vèr í honum.

6. Hann drottnar með sínu veldi eilíflega; hans augu gæta þjóðanna, svo að hinir mótþróafullu ekki skuli upphefja sig. Málhvíld.

7. Þèr fólk! lofið vorn Guð, og látið lofgjörðina heyrast,

8. Sem hèlt vorri sálu við lífið, og lèt ekki vorn fót veiklast.

9. Því þú hefir prófað oss, ó Guð! Þú hefir hreinsað oss, eins og silfur verður hreinsað.

10. Þú hefir leitt oss í netið; þú hefir lagt oss byrði á bak.

11. Þú hefir látið einn mann ríða oss á höfði; vèr komum í eld og vatn, en þú útleiddir oss, svo vèr skyldum hressast.

12. Því vil eg með brennifórn gánga í þitt hús;

13. Eg vil greiða mitt heit, eins og mínar varir lofuðu, og minn munnur talaði, þá eg var í ángist.

14. Feitar brennifórnir skal eg færa þèr, hrúta með reykelsi; nautum og höfrum skal eg fórna.

15. Komið! hlustið til! eg skal segja frá, öllum yður, sem óttist Guð, hvað hann hefir gjört fyrir mig.

16. Til hans kallaði eg með mínum munni, og vegsama hann nú með minni túngu.

17. Hefði eg haft ránglæti í mínu hjarta, þá mundi Drottinn ekki hafa heyrt mig;

18. En Guð hefir heyrt til mín; hann gaf gaum að raust minnar bænar.

19. Lofaður veri Guð, sem ekki burtskúfaði minni bæn, og ekki dróg sína miskun í hlè við mig.

## 67. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

Til saungmeistarans; á hljóðfæri. Lofsaungur.

GUÐ veri oss miskunsamur, og blessi oss; hann láti sitt andlit lýsa yfir oss, málhvíld,

2. Að vèr megum þekkja þinn veg á jörðunni, og þitt frelsi meðal allra þjóða.
3. Þig lofar fólkið, ó Guð! já, þig lofar alt fólk.
4. Þjóðirnar gleðja sig og fagna. Því þú dæmir þjóðirnar með rèttvísi, og jarðarinnar þjóðum stýrir þú.
5. Þig lofa þjóðirnar, ó Guð! já, þig lofar alt fólk.
6. Landið gefur sinn gróða; Guð, vor Guð, blessar oss.
7. Já, Guð blessar oss, og öll jarðarinnar endimörk óttast hann.

## 68. SÁLMUR.

*Sigurljóð.*

Til hljóðfærameistarans. Lofsaungur.

GUÐ taki sig upp; hans óvinir tvístrist, og þeir sem hann hata, flýi fyrir hans augliti.
2. Eins og reykurinn burtrekst, muntu burtreka þá; sem vax bráðnar fyrir eldi, munu þeir óguðlegu tortýnast fyrir Guðs augliti.
3. En þeir ráðvöndu munu gleðjast, þeir munu fagna og gleðjast fyrir Guðs augliti.
4. Sýngið Guði lof! vegsamið hans nafn! greiðið hans veg, þá hann fer um eyðimerkurnar! Drottinn er hans nafn, gleðjið yður fyrir hans augliti.
5. Guð er í sínum heilaga bústað, faðir föðurlausra, og vernd ekknanna.
6. Guð lætur þá útlægu búa í húsinu (sinna feðra), og útleiðir hina fjötruðu til nægta, en þeir þverbrotnu búa í þurru landi.
7. Guð! þegar þú fórst undan þínu fólki, þegar þú gekkst fram um eyði staði, málhvíld,
8. Þá skalf jörðin, og himininn draup fyrir Guðs augliti, já, Sínaí fyrir Guðs, fyrir Ísraels Guðs augliti.
9. Ríkuglegt regn gafst þú, þinn arf (erfða fólk), þann þreytta staðfestir, þú.
10. Þínir skarar settust að í landinu, sem þú, ó Guð! af þinni gæzku hafðir aumíngjunum fyrirbúið.
11. Drottinn lætur þeirra tal hljóma, sem boða sigurinn í þeim mikla her.
12. "Herskaranna konúngar flýa, þeir flýa, og húsmóðirin (hússins prýði) útbýtir herfángi.
13. Þegar þèr liggið í milli hjarðanna, þá eru dúfu vængirnir þaktir af silfri, og hennar fjaðrir pentaðar gulli.
14. Þegar sá almáttugi tvístraði konúngunum í landinu, var það snjóhvítt eins og Zalmon."
15. Þèr Guðs fjöll! Basans

fjöll, þèr fjöll með mörgum
tindum, Basans fjöll!
16. Hvers vegna lítið þèr, fjöll
með mörgum tindum, öfund-
samlega till þess fjallsins, hvar
Guði þóknast að búa? Drott-
inn mun þó búa þar eilíflega.
17. Guðs vagnar eru tvisvar
sinnum tíu þúsund, já, þúsund
og aptur þúsund. Drottinn er
meðal þeirra, eins og á Sínai
í helgidóminum.
18. Þú stígur upp á hæðina,
hefir hertekna menn með þèr,
tekur við gáfum af mönnum;
jafnvel þeir þverbrotnu, skulu
búa hjá þèr, Drottinn Guð!
19. Lofaður sè Drottinn dag
eptir dag! þó hann leggi á
oss byrði, er Guð vor hjálp.
Málhvíld.
20. Þessi Guð er oss frelsis
Guð, og Drottinn, vor herra,
er frelsun frá dauðanum.
21. En Guð mun sannarlega
merja höfuð sinna óvina, hvirf-
il þeirra, sem áfram halda í
þeirra syndum.
22. Drottinn segir: frá Basan
vil eg færa þá, flytja þá frá
djúpi sjáfarins,
23. Svo þinn fótur megi vaða
í blóði, og túngur þinna hunda
sleikja það úr óvinunum.
24. Þeir sáu þína inngaungu,
ó Guð! míns Guðs, míns kon-
úngs inngaungu í helgidóminn.
25. Á undan geingu saungv-
ararnir, þar eptir þeir, sem
lèku á hljóðfæri mitt á
meðal meyanna, sem slóu
trumbur.
26. Lofið Guð í söfnuðinum,
lofið Drottinn, þèr, sem komn-
ir eruð af Ísrael!
27. Þarna er Benjamín, sá
ýngsti sem drottnar, Júdeu
höfðíngjar með sínum hópum,
Sebúlons höfðíngjar, Neftalí
höfðíngjar.
28. Þinn Guð býður þèr (Ís-
rael), að þú sèrt sterkur; styrk
oss, ó Guð! eins og þú hefir
gjört,
29. Frá þínu musteri í Jerú-
salem! konúngarnir skulu færa
þèr gáfur.
30. Ávíta þú dýrið í reirn-
um, uxanna flokk og fólksins
kálfa, að þeir gefi sig upp
með sínum silfur peníngum.
Tvístra fólkinu, sem hefir lyst
til ofriðar.
31. Miklir höfðíngjar munu
koma frá Egyptalandi; Mór-
land mun skjótt útrètta sínar
hendur til Guðs;
32. Þèr, ríki jarðarinnar, sýng-
ið fyrir Guði, fagnið fyrir
Drottni,
33. Þeim, sem fer yfir hina
gömlu himin-himna; sjá! hann
sendir sína raust, þá voldugu
raust.

34. Gefið Guði heiðurinn; hans hátign er yfir Ísrael, og hans veldi í skýunum.

35. Óttalegur ertu, ó Guð! í þínum helgidómi. Ísraels Guð gefur fólkinu makt og styrk. Lofaður veri Guð!

## 69. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Til hljóðfærameistarans; á liljuhljóðfæri. Eptir Davíð.

GUÐ! frelsa mig, því vatnið þreyngir sèr inn að sálunni.

2. Eg er sokkinn niður í djúpt, botnlaust foræði, hvar eingin fótfesta er; eg er kominn í mikið djúpt vatn, og straumurinn geingur yfir mig.

3. Eg er þreyttur af að kalla; minn barki er hás, mín augu daprast, í því eg bíð míns Guðs.

4. Þeir eru fleiri en hárin á mínu höfði, sem mig hata án saka. Voldugir eru mínir óvinir, sem leitast við að afmá mig án orsaka; eg á að borga það, sem eg ekki rænti.

5. Guð þú þekkir mína heimsku, og mín synd er þèr ekki hulin.

6. Lát þá ekki sneypast af því að sjá mín kjör, sem bíða þín. Ó Drottinn alsherjar! lát þá ekki vanvirðast fyrir mína skuld, sem leita þín, Ísraels Guð!

7. Því vegna þín ber eg háðúng; sneypa þekur mitt andlit.

8. Eg er orðinn framandi hjá mínum bræðrum, og ókunnugur börnum minnar móður.

9. Vandlæti fyrir þitt hús eyðileggur mig, og smán þeirra, sem þig smána, lendir á mèr.

10. Þegar eg grèt og fastaði, var gjört gys að mèr.

11. Þegar eg íklæddist sekk, varð eg þeim að athlátri (að orðskvið).

12. Þeir sem sitja í hliðinu tala um mig, og þeir kveða um mig, sem drekka áfeingan drykk.

13. En eg flý með mína bæn til þín, Drottinn! lát hana vera þèr þóknanlega, ó Guð! eptir þinni mikilli miskunsemi. Bænheyr þú mig eptir trúfesti þíns frelsis.

14. Frelsa þú mig úr feninu, að eg ekki sökkvi. Láttu mig losna frá mínum haturs mönnum, og úr því djúpa vatni.

15. Láttu ekki vatnsfallið gánga yfir mig, og ekki hylinn svelgja mig, og ekki pyttinn aptur ljúkast yfir mèr.

16. Bænheyr mig, Drottinn! því þín miskun er mikil; snú þínu augliti til mín, eptir mikilleik þinna miskunsemda.

17. Hyl ekki andlit þitt fyrir þjóni þínum, því eg er í ángist; flýttu þèr! bæn heyrðu mig!

18. Vertu nálægt minni sálu, endurleys hana! frelsa mig fyrir minna óvina sakir.
19. Þú veizt mína smán og skömm og háðúng; allir mínir mótstöðumenn eru þèr opinberir.
20. Háðúngin kremur mitt hjarta, eg dey; eg vænti meðaumkunar, en hún er ekki til, huggunar, en eg finn einga.
21. Þeir gefa mèr gall að eta, og ef mig þyrstir, gefa þeir mèr edik að drekka.
22. Þeirra matborð verði þeim að snöru, og þeirra friður að gildru.
23. Lát þeirra augu daprast, að þeir ekki sjái, og þeirra lendar ætíð vera óstyrkar.
24. Útaus þinni bræði yfir þá, og lát ákefð þinnar reiði ná þeim.
25. Þeirra hallir verði í auðn, og einginn búi í þeirra tjaldbúðum!
26. Því þeir ofsækja þann, sem þú hefir slegið, og auka þess pínu, sem þú hefir sært.
27. Lát þá bæta sekt á sekt, og ekki komast til þíns rèttlætis!
28. Lát þá verða afmáða af lífsins bók, og ekki tekna í tölu hinna ráðvöndu.
29. En mig, sem er aumur og harmþrúngin, mig upphefji þitt frelsi, ó Guð!
30. Þá mun eg lofa Guðs nafn með saung, og vegsama hann með þakkargjörð.
31. Það geðjast Drottni betur en uxi, betur en naut með hornum og klaufum.
32. Hinir aumu sjá það og gleðja sig, og þèr sem leitið Guðs, yðar hjarta skal lifna við.
33. Því Drottinn heyrir þá fátæku og sína fánga fyrirlítur hann ekki.
34. Himin og jörð skal lofa hann, og alt sem úir og grúir þar inni.
35. Því Guð mun frelsa Síon, og uppbyggja Júdeu borgir, að menn búi í þeim og eigi þær,
36. Og niðjar hans þjóna munu erfa þær, og þeir, sem elska hans nafn, skulu búa þar.

## 70. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Til hljóðfærameistarans; af Davíð til endurminníngar.

GUÐ! kom þú að frelsa mig! Drottinn! hraða þú þèr mèr til hjálpar.
2. Láttu þá sneypast og skammast sín, sem sitja um mitt líf! lát þá hörfa aptur og verða til skammar, sem vilja mèr ilt!
3. Lát þá með sneypu hörfa aptur, sem kalla til mín: hó! hó!

4. Þá fagna og gleðjast í þèr allir sem þín leita, þeir sem girnast þína hjálp, og segja ætíð: mikill er Guð!
5. Eg er aumur og fátækur. Guð flýttu þèr til mín, þú ert mín hjálp og minn Frelsari, Drottinn! tef þú ekki.

## 71. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Á ÞIG, Drottinn! treysti eg; lát mig aldrei til skammar verða!
2. Frelsa mig fyrir þitt rèttlæti, og losa mig; hneig þitt eyra til mín og hjálpa mèr.
3. Vert þú mèr klettavígi, sem eg geti ætíð flúið í. Þú hefir mèr lofað liðsemd, því þú ert mitt bjarg og borg.
4. Minn Guð! losa þú mig úr hendi hins óguðlega, úr þess hendi, sem er ránglátur og undirokar;
5. Því þú ert mitt traust, Drottinn, Drottinn! þú ert mín von frá mínu úngdæmi.
6. Á þig reiddi eg mig staðfastlega frá móðurlífi, þú drógst mig út af lífi minnar móður; um þig er ætíð minn lofsaungur.
7. Eg er mörgum sem viðundur, en þú ert mitt styrktartraust.
8. Minn munnur er fullur af þínu lofi, hvern dag af þinni vegsemd,
9. Útskúfa mèr ekki í minni elli, og yfirgef mig ekki, þá eg hrörna.
10. Því mínir óvinir tala á móti mèr, og þeir sem sitja um mitt líf, þeir bera saman sín ráð,
11. Og segja: Guð hefir yfirgefið hann; eltið hann og grípið; einginn bjargar honum.
12. Guð, vertu ekki lángt frá mèr; minn Guð! flýttu þèr að hjálpa mèr.
13. Láttu þá sneypast og afmást, sem sitja um mitt líf, láttu þá þekjast háðúng og hneysu, sem leita minnar ógæfu.
14. En eg vil ætíð vona, og aldrei hætta að vegsama þig.
15. Minn munnur skal segja frá þínu rèttlæti, hvern dag frá þínu hjálpræði, því eg veit einga tölu (þará).
16. Eg vil inngánga (í musterið) með míns herra, Drottins, lofgjörð; eg vil að eins hrósa þínu rèttlæti.
17. Guð! þú hefir mentað mig frá barndómi, og alt til þessa, kunngjöri eg þínar dásemdir.
18. En yfirgef mig þá ekki, ó Guð! í ellinni, gráhærðan, þángað til eg fæ kunngjört þinn mátt

þessari kynslóð, og þinn krapt
allri þeirri, sem koma mun.
19. Því þitt rèttlæti nær, ó
Guð! í hæðina; þú, Guð, hefir
gjört mikla hluti;
20. Hver er sem þú? þú hefir
látið mig sjá marga raun og
óhöpp; endurlífga mig aptur,
og drag mig upp aptur úr
jarðarinnar djúpi;
21. Gjör þú mig mjög stór-
an, og umkríngdu mig með
huggun,
22. Þá mun eg og svo þakka
þèr með hörpuhljóm fyrir þína
trúfesti, minn Guð! Eg skal
leika fyrir þèr á hörpu, þú
Ísraels Heilagi.
23. Mínar varir skulu fagna,
þegar eg leik á hljóðfæri fyrir
þèr, og mín sál, sem þú hefir
endurleyst;
24. Líka skal mín túnga
tala daglega þitt rèttlæti, því
þeir verða vanvirtir og mega
skammast sín sem leita minn-
ar ógæfu.

## 72. SÁLMUR.

*Heillaóskir fyrir konúnginum.*

Fyrir Salómon, eða: eptir Salómon.

GUÐ! gef konúnginum þína
dóma, og konúngsins syni
þitt rèttlæti!
2. Þá dæmir hann þitt fólk
með rèttvísi, og þína aumu
með sannsýni.
3. Láttu fjöllin og hæðirnar
færa frið fólkinu fyrir rètt-
lætið.
4. Hann mun útvega þeim
aumu rètt meðal fólksins;
hann mun frelsa börn hins
fátæka og sundur merja of-
beldismanninn.
5. Menn munu óttast þig
meðan sólin skín og túnglið
er til, frá kyni til kyns;
6. Hann mun niður koma,
sem dögg yfir slegna velli,
sem dropar, er væta jörðina.
7. Á hans dögum mun sá
rèttláti blómgast, og mikill
friður (vera), þángað til túngl-
ið er ei meir.
8. Hann mun ríkja frá hafi til
hafs, og frá ánni til landsins
enda.
9. Honum skulu þeir lúta
sem búa í eyðimörkinni, og
hans óvinir munu duptið sleikja.
10. Konúngarnir í Tarsis og
eyunum munu koma með gáf-
ur; konúngarnir af Seba og
Sebóa munu frambera gjafir;
11. Já, allir konúngar munu
honum lúta, allar þjóðir hon-
um þjóna.
12. Því hann frelsar hinn fá-
tæka, sem kallar eptir hjálp,
og þann auma, sem hefir eing-
ann hjálpar mann.
13. Hann mun vægja lítil-
magnanum og þeim volaða,
og bjarga lífi hinna snauðu;

14. Frá vèlum og ofríki mun hann frelsa þeirra sálir, og honum mun vera dýrmætt þeirra blóð.
15. Og hann skal lifa, og menn skulu gefa honum gull frá Sebea, og biðja ætíð fyrir honum, vegsama hann daglega.
16. Kornið mun standa þètt í landinu, á fjallatindum, í ávöxtunum mun hvína sem í Líbanonskógi, og menn í stöðunum uppvaxa, sem gras sprettur upp af jörðu.
17. Hans nafn skal verða eilíft; meðan sólin skín mun hans nafn ná til eptirkomendanna, fyrir hann munu allar þjóðir blessast og telja hann sælan.
18. Lofaður veri Guð, Drottin, Ísraels Guð! hann sem einn gjörir dásemdarverkin,
19. Og lofað sè nafn hans dýrðar að eilífu. Öll jörðin fyllist af hans dýrð; amen, já, amen.
20. Endir bæna Davíðs, Ísaíssonar.

## 73. SÁLMUR.

*Kjör guðhræddra og guðlausra.*
Sálmur Asafs.

JA, góður er Guð við Ísrael, við þá hreinhjörtuðu.
2. En það vantaði lítið á, að mínir fætur beygðu af leið, lítið á, að mèr skrikaði fótur.
3. Því eg öfundaði þá dramblátu, þegar eg sá velgeingni hinna óguðlegu.
4. Því alt til dauðans hittir þá ekkert mótlæti, og líkami þeirra er vel mettaður.
5. Í mæðu rata þeir ekki, eins og aðrir menn, og plágast ekki, eins og aðrir dauðlegir.
6. Þeirra hálskeðja er því drambsemi, og ofbeldi bera þeir á sèr, eins og skart.
7. Þeirra andlit er uppbólgið af fitu, þeirra hjartans huxanir koma djarflega fram.
8. Þeir hæða, og kunngjöra undirokun í sinni vonzku; frá hæðinni tala þeir niður fyrir sig.
9. Þeir hefja sinn munn mót himninum og þeirra túnga fer yfir jörðina.
10. Því snýr fólk sèr þar að, og bikarar, fullir af vatni, tæmast af þeim.
11. Og þeir segja: hvernig ætti Guð að vita það? er þekkíng hjá þeim æðsta (um það sem skeður á jörðu)?
12. Sjá þessa óguðlegu! þó auka þeir í eilífri ró sitt góss.
13. Til einskis hreinsaði eg sannarlega mitt hjarta, og þvoði mínar hendur í sakleysinu,
14. Þar eð eg plágast daglega,

og mín hegníng er til reiðu á
hverjum morgni.
15. Segði eg: eg skal tala
sem hinir, sjá! þá steypi eg
í ógæfu kyni þinna barna,
16. Og eg ígrundaði til að
skilja þetta, en það var mèr
erfitt,
17. Þángað til eg gekk inn í
Guðs helgidóm, og gaumgæfði
þeirra afdrif.
18. Sannarlega setur þú þá á
hálku; þú lætur þá falla niður
í grunn.
19. Hversu sviplega tortýnast
þeir! þeir fyrirfarast; þeir
taka enda með skelfíngu.
20. Eins og draumur, þá maður
er vaknaður, eins munt þú,
Drottinn! þegar þú vaknar,
fyrirlíta þeirra mynd.
21. Þegar mitt hjarta ángraðist,
og eg fann stíng í mínum
nýrum,
22. Þá var eg heimskíngi og
skynjaði ekkert; eg var sem
skynlaus skepna fyrir þèr.
23. Þó var eg þèr sífelt trúr;
þú hèlzt mèr við þína hægri
hönd.
24. Með þínu ráði muntu leiða
mig, og þar eptir upptaka mig
til dýrðar.
25. Hvern hef eg í himninum?
og jafnt við þig gleðst eg við
ekkert á jörðinni.
26. Þó að minn líkami og
hjarta vanmegnist, ertu samt,
Guð! alla tíma mitt hjartans
traust og hlutskipti.
27. Því sjá þú! þeir, sem hverfa
frá þèr, munu fyrirfarast. Þú
afmáir alla þá, sem þèr eru
ótrúir.
28. Mèr er það fögnuður, að
vera nálægt Guði. Á Drottin
set eg mitt traust, svo að eg
segi frá öllum hans verkum.

## 74. SÁLMUR.

*Bæn, þá musterið var brotið.*

Kennsluljóð eptir Asaf.

HVERS vegna, ó Guð! þú
útskúfar (oss) eilíflega?
hvers vegna brennur þín reiði
yfir hjörð þíns haglendis?
2. Minstu þess safnaðar, sem
þú forðum útvegaðir þèr! þinnar
erfðakynkvíslar, er þú endurleystir,
Síons fjalls, hvar á
þú bjóst.
3. Kom þú að sjá þá ævarandi
eyðileggíngu! alt skemmir óvinurinn
í helgidóminum.
4. Þínir óvinir grenja mitt í
þinni samkundu, og setja sína
siði fyrir siði.
5. Óvinurinn sèst hefja öxina
hátt á móti trèsins samangrónu
greinum,
6. Og það, sem þar í var
grafið, sundurslá þeir með
breiðöxum og hömrum.
7. Þeir kasta eldi í þinn

helgidóm; þeir fella þíns nafns bústað, alt að jörðu.
8. Þeir segja í sínu hjarta: Látum oss uppræta þá alla. Þeir uppbrenna öll Guðs samkomuhús í landinu.
9. Vora siði sjáum vèr ekki; þar er einginn spámaður framar, einginn á meðal vor sem veit: hversu leingi.
10. Hversu leingi, ó Guð! á mótstöðumaðurinn að fyrirlíta? Á óvinurinn að fyrirlíta þitt nafn eilíflega?
11. Hví dregur þú þína hönd, þína hægri hönd til baka? Dragðu hana út úr barminum! eyðilegðu!
12. Guð er minn konúngur frá fyrri tíðum, sem útvegaði mikið frelsi allri jörðunni.
13. Þú aðskildir hafið með þínum styrk; þú sundurbrauzt í vatninu óvættanna höfuð.
14. Þú marðir krókódílanna höfuð, og gafst þá fólkinu í eyðimörkinni til fæðu.
15. Úr bjargskorum framleiddir þú læki og uppsprettur, og uppþurkaðir miklar ár.
16. Þèr tilheyrir dagurinn, þèr nóttin. Þú hefir fest ljósin og sólina.
17. Þú settir öll takmörk jarðarinnar, sumar og vetur bjóst þú til.
18. Minnstu þessa: óvinurinn smánar Drottinn, og guðlausa þjóðin fyrirlítur þitt nafn.
19. Ofursel ekki sál þinnar turtildúfu villidýrum, og gleymdu ekki að eilífu aumíngjanna lífi.
20. Líttu á sáttmálann, því landsins afkimar eru fullir af morðíngjanna bælum.
21. Lát þann lítilmótlega ei hverfa sneyptan heim aptur, lát þann, sem líður, og hinn fátæka lofa þitt nafn.
22. Rís upp, ó Guð! stattu fyrir þínu máli. Minstu þeirrar háðúngar, sem þèr er dag hvern gjörð af heimskíngjanum.
23. Gleymdu ekki ópi þinna óvina, hávaða þinna mótstöðumanna, sem stígur æ hærra og hærra.

## 75. SÁLMUR.

*Þakklæti. Guðs rèttlætis dómar.*

Til saungmeistarans; eptir lagi: "spill ekki." Ljóð Asafs.

VÈR þökkum þèr, Guð! vèr þökkum þèr, að þitt nafn er nálægt, menn segja frá þínum dásemdum.
2. "Þegar eg tek minn tíma, dæmi eg rètt.
3. Jörðin skelfur og allir hennar innbyggjendur; eg festi hennar stólpa." Málhvíld.
4. Fyrir því segi eg til þeirra drambsömu: verið ekki drembilátir; og til hinna ó-

guðlegu: verið ekki hnakk-
akertir!
5. Lyptið ekki hátt upp yðar
höfðum; talið ekki svo þver-
úðarlega!
6. Því hverki frá austri nè
vestri, ei heldur frá eyðimörk-
inni kemur upphefðin.
7. En Guð er sá, sem dæmir;
hann niðurlægir þenna, upp-
hefur hinn.
8. Því bikar er í Drottins
hendi með ólgandi víni, vel
blönduðu, og af því byrlar
hann; alt að dreggjum skulu
allir jarðarinnar óguðlegir
sötra og drekka það.
9. Eg vil eilíflega kunngjöra
það og sýngja fyrir Jakobs
Guði.
10. "Höfuð allra óguðlegra
vil eg beygja (afhöggva); en
höfuð hinna ráðvöndu skulu
upphefjast."

## 76. SÁLMUR.

*Þakklæti fyrir sigur.*

Til saungmeistarans; á hljóðfæri. Lofsaungur Asafs.

ALÞEKTUR er Guð í
Júdeu, í Ísrael er hans
nafn mikið.
2. Í Salem er hans tjaldbúð,
og hans bústaður á Síon;
3. Þar sundurbraut hann bog-
ans eldíngar, skjöld, sverð og
önnur hervopn. Málhvíld.
4. Dýrðlegur ertu, og veg-
samlegri en ræníngja fjöllin.
5. Þeir dramblátu í hjarta
voru rændir og sofnuðu til
fulls, og einginn af hermönn-
unum gat fundið sínar hendur.
6. Af þinni hótun, Jakobs
Guð! fèllu í djúpan svefn
bæði þeir, sem voru á vögn-
um og hestum.
7. Óttalegur ertu! hver get-
ur staðist fyrir þínu augliti,
þegar þú reiðist?
8. Frá himni lèztu þinn dóm
heyra; jörðin skelfdist og
hljóðnaði við,
9. Þegar Guð bjó sig til
dóms, til að frelsa þá hóg-
væru á jörðu. Málhvíld.
10. Því mannanna reiði verð-
ur þèr til vegsemdar, þegar þú
girðist þinni frekustu reiði.
11. Gjörið heit, og greiðið það
Drottni, yðar Guði, allir þèr,
sem eruð kríngum hann, fær-
ið gáfur hinum óttalega.
12. Hann lækkar dramb höfð-
íngjanna, og er konúngum jarð-
arinnar óttalegur.

## 77. SÁLMUR.

*Huggunar sálmur.*

Til hljóðfærameistarans; fyrir Jedútún. Asafs saungur.

EG kalla til Guðs og bið;
eg kalla til Guðs, og hann
mun leggja við eyrað.
2. Á mínum mæðudegi leita eg
Drottins; mín hönd er út rètt

á nóttunni, og þreytist ekki; mín sál færist undan huggun.
3. Eg huxa til Guðs og andvarpa, ígrunda, og minn andi vanmegnaðist. Málhvíld.
4. Þú heldur mínum augum vakandi; eg er áhyggjufullur og tala ekki.
5. Eg huxa til fyrri daganna, og þeirra ára, sem fyrir laungu eru liðin.
6. Eg huxa til míns lofsaungs á nóttunni, og ígrunda í mínu hjarta, minn andi rannsakar:
7. Ætla að Drottinn útskúfi þá eilíflega, og hafi aldrei meir velþóknan á oss?
8. Hefir hans miskun að eilífu feingið enda? bregðast hans fyrirheit frá kyni til kyns?
9. Hefir Guð gleymt sinni náð? ellegar hefir hann falið sína miskunsemi með reiði? Málhvíld.
10. Þá sagði eg: þetta er minn breiskleiki. Í hendi hins æðsta er að umbreyta þessu.
11. Eg vil minnast á verkin Drottins, já! eg skal muna til undranna á fyrri tíðum.
12. Eg skal yfirvega öll þín verk og huxa um þínar framkvæmdir.
13. Ó Guð! heilagir eru þínir vegir; hver Guð er svo mikill sem (vor) Guð?
14. Þú ert sá Guð, sem gjörir dásemdarverkin; þú hefir kunngjört þinn mátt meðal fólksins.
15. Þú frelsaðir þitt fólk með þínum sterka armi, Jakobs og Jóseps börn.
16. Vötnin sáu þig, Guð! vötnin sáu þig og bifuðust; já! undirdjúpin skulfu.
17. Skýin útheltu vatni; í himninum tók undir af þrumunum; þínar örfar flugu.
18. Reiðarslög dunuðu í loptinu, eldíngar upplýstu jarðríkið, jörðin skalf og nötraði.
19. Um hafið lá þín leið, og þinn stigur um mikið vatn, og þín spor sáust ekki.
20. Þú leiddir þitt fólk, eins og hjörð, með Mósis og Arons hendi.

## 78. SÁLMUR.

*Áminníng.*

Kennsluljóð eptir Asaf.

MITT fólk, taktu eptir mínum lærdómi! beygið yðar eyru að tali minna vara!
2. Eg vil opna minn munn til ljóðmæla; eg vil segja frá gömlum atburðum,
3. Sem vèr höfum heyrt og frètt, og vorir forfeður sögðu oss;
4. Vèr skyldum ei dylja þá fyrir þeirra börnum, fyrir hinum komandi kynslóðum; heldur kunngjöra Drottins stóru veg-

semd og hans styrkleik, og þau
undur sem hann hefir gjört.
5. Því hann upp reisti sèr
vitnisburð í Jakob og setti
lög í Ísrael, sem hann bauð
vorum forfeðrum að kunn-
gjöra sínum börnum,
6. Svo að sú kynslóð, sem
síðan kom, þau börn, sem
skyldu fæðast, gætu vitað
þau, og aptur sagt frá sín-
um börnum,
7. Að þau gætu sett sitt traust
lit Guðs og ekki gleymt hans
verkum, heldur varðveitt hans
boðorð;
8. Og ei orðið sem þeirra
feður, baldin og þverúðar full
kynslóð, kynþáttur, sem ei
staðfesti sitt hjarta, og hvers
andi ekki var tryggur við Guð.
9. Efraíms börn, vel útbúnir
bogmenn, hörfuðu á orustu-
deginum.
10. Þau hèldu ekki sáttmála
Guðs, og hliðruðu sèr hjá, að
hlýðnast hans lögmáli.
11. Og þeir gleymdu hans
verkum og dásemdum, er
hann hafði látið þá sjá.
12. Fyrir augum feðra þeirra
gjörði hann kraptaverk í öllu
Egyptalandi og á Síoans völl-
um.
13. Hann klauf hafið, og lèt
þá fara þar yfir, og hann bauð
vatninu að standa sem vegg.
14. Hann leiddi þá á daginn
með skýi, og alla nóttina með
eldsins skini.
15. Hann sundurklauf klett-
ana í eyðimörkinni, og gaf
þeim að drekka eins og af
stórum vatnsföllum.
16. Hann lèt læki útrenna af
kletti, og lèt vatn niðurrenna
sem ár.
17. Þó hèldu þeir áfram að
syndga gegn honum og egna
til hinn æðsta í eyðimörkinni.
18. Og þeir freistuðu Guðs í
sínu hjarta, þá þeir heimtu
mat eptir sínu geði,
19. Og þeir töluðu gegn Guði;
þeir sögðu: ætla Guð geti
matborð reiðubúið í eyði-
mörkinni?
20. Sjá! hann sló klettinn og
þaðan spratt vatn, og lækurinn
rann, mun hann og geta gefið
brauð? mun hann geta út-
vegað sínu fólki kjöt?
21. Þetta heyrði Drottinn, og
hann reiddist, og eldur tendr-
aðist mót Jakob, og reiði æst-
ist gegn Ísrael.
22. Því þeir trúðu ekki á Guð,
og reiddu sig ekki á hans frelsi,
23. Þó að hann rèði yfir ský-
unum að ofan til og upplyki
himinsins portum,
24. Og lèti manna niðurrigna
yfir þá til matar, og gæfi þeim
himna fæðu.

25. Eingla brauð átu þeir; næríngu sendi hann þeim til mettunar.
26. Hann lèt austanvind framfara undir himninum, og framleiddi sunnanveður með sínum styrkleik.
27. Og hann lèt kjöti rigna yfir þá, sem ryki, og fljúgandi fuglum, sem hafsins sandi,
28. Og hann lèt þessa detta mitt í þeirra herbúðir, alt um kríng, meðal þeirra bústaða.
29. Og þeir átu og urðu mjög svo mettir; hann lèt þá fá það sem þá lysti;
30. Þeir höfðu enn þá ei stýrt sinni girnd; maturinn var enn nú í þeirra munni;
31. Þá reisti sig Guðs reiði gegn þeim og deyddi þá sterkustu meðal þeirra, og drap Ísraels únglínga.
32. Eingu að síður syndguðu þeir enn, og trúðu ekki á hans kraptaverk.
33. Þess vegna lèt hann þeirra daga líða í ónýtíngsskap, og þeirra ár með skelfíngu.
34. Þegar hann deyddi þá, leituðu þeir hans, snèru sèr og ákölluðu Guð skjótt.
35. Og þeir mintust þess, að Guð var þeirra bjarg, og sá æðsti þeirra endurlausnari.
36. En þeir tældu hann með sínum vörum, og lugu að honum með sínum túngum.
37. Og þeirra hjarta hèkk ekki fast við hann, og þeir voru ekki stöðugir í hans sáttmála.
38. En hann er miskunsamur, fyrirgefur syndir, og afmáir ekki; heldur stöðvar sína reiði, og hleypir ei fram öllu sínu geði.
39. Hann mintist þess, að þeir voru hold, og gustur, sem fer og kemur ei aptur.
40. Hversu opt egndu þeir hann til reiði í eyðimörkinni, og hrygðu hann í óbygðinni?
41. Því þeir freistuðu Guðs á ný, og löstuðu þann heilaga Ísraels.
42. Þeir huxuðu ekki til hans handar, ekki þess dags, þá hann leysti þá úr nauðunum,
43. Þá hann gjörði sín tákn í Egyptalandi, og sín undur á Sóans völlum,
44. Og snèri ánum í blóð, og þeim rennandi vötnum, svo þeir gátu ei drukkið úr þeim.
45. Hann sendi þeim flugur, sem bitu þá, hunda og froska, sem skemdu þá.
46. Hann gaf kornormum þeirra gróða, og eingisprettum þeirra erfiði.

47. Hann sló þeirra víntrè
með hagli, og þeirra mórberja
trè með hreti.
48. Hann ofurgaf nautfènað
þeirra haglinu, og þeirra smá-
fènað eldíngunum.
49. Hann sendi móti þeim
ákefð sinnar reiði, heipt, bræði
og þreingíngu, heilan skara af
ógæfunnar sendiboðum.
50. Hann sleppti lausri sinni
reiði; hann sparaði þá ekki
fyrir dauðanum, og gaf þeirra
líf drepsóttinni.
51. Og hann deyddi alla frum-
burði í Egyptalandi, og styrk-
leik hans frumgróða í hans
tjaldbúðum.
52. Og hann lèt sitt fólk
þaðan fara, sem fè, og fór
með þá um eyðimörkina, sem
hjörð.
53. Hann leiddi þá óhult, að
þeir ekkert hræddust; en
þeirra óvinir fólust í hafinu.
54. Hann leiddi þá til tak-
marka síns helgidóms, til þess
fjallsins, sem hans hægri hönd
hafði útvegað.
55. Og hann útrak heiðíngj-
ana frá þeim, og mældi þeim
út landið, og lèt Ísraels kyn-
kvíslir búa í þeirra tjöldum;
56. En þeir freistuðu og egndu
Guð til, hinn æðsta, og hèldu
ekki hans lagasetnínga.
57. Þeir fèllu frá og viku af
leið, sem þeirra feður; þeir
hrukku aptur sem svikull
bogi.
58. Þeir uppegndu hann
með sínum hæðum, og vöktu
hans vandlæti með líkneskjum
skurðgoða sinna.
59. Þá Guð heyrði það, stygð-
ist hann og stuggaði við Ísrael
næsta mjög.
60. Því yfirgaf hann sinn
bústað í Síló, þá tjaldbúð,
hvar í hann hafði búið meðal
mannanna.
61. Og hann lèt hertaka sitt
sterka fólk, og ofurseldi sína
dýrð (tjaldbúðina) í óvina
hendur.
62. Og hann lagði sitt fólk
undir sverðið, og varð gramur
sinni arfleifð.
63. Þeirra ýngismenn svalg
eldurinn, og meyarnar kvein-
uðu ekki yfir því.
64. Þeirra prestar fèllu fyrir
sverði, og þeirra ekkjur grètu
ekki.
65. Þá vaknaði Drottinn eins
og af svefni, eins og hetja, er
kemur hress og glaður frá
víninu.
66. Og hann rak sína óvini
á flótta, og gaf þeim eilífa
smán;
67. Þá útskúfaði hann Jó-
seps tjaldbúð, og útvaldi ekki
leingur Efraíms ætt.

68. Heldur útvaldi hann Júda ætt, Síons fjall, sem hann elskaði.

69. Og hann bygði sinn helgidóm, sem hinn háa himin, sem jörðina, er hann hefir gjört eilíflega fasta.

70. Og hann útvaldi Davíð, sinn þjón, og tók hann frá sauða húsunum.

71. Frá umönnun fyrir ánum tók hann hann, til að gæta Jakobs, síns fólks (halda til haga), og Ísraels, sinnar arfleifðar.

72. Og hann gætti hennar með hreinskilnu hjarta, og stýrði henni með sinni hyggilegu hendi.

## 79. SÁLMUR.

*Bæn móti óvina æði.*

Sálmur Asafs.

GUÐ! Heiðíngjarnir eru komnir inn í þína arfleifð; þeir hafa saurgað þitt heilaga musteri, og gjört Jerúsalem að steinhrúgu.

2. Þeir gáfu himinsins fuglum til fæðu lík þinna þjóna, og landsins villudýrum hold hinna guðhræddu.

3. Þeir úthéltu þeirra blóði sem vatni, alt í kríngum Jerúsalem, og einginn var sá, sem jarðaði þa.

4. Vèr erum orðnir að háðúng hjá vorum nábúum, að spotti og athlátri hjá þeim, sem búa í kríngum oss.

5. Drottinn! hversu leingi viltu reiðast? mun þitt vandlæti brenna sem eldur eilíflega?

6. Heltu þinni grimd út yfir heiðíngjana, sem ekki þekkja þig, og þau ríki, sem ekki ákalla þitt nafn.

7. Því þeir hafa eytt Jakob, og eyðilagt hans bústað.

8. Minstu ekki á vorar fyrri misgjörðir, hraðaðu þèr! kom þú oss á móti með þína miskun, því vèr erum mjög aðþreyngdir.

9. Hjálpa þú oss, Guð vors frelsis! vegna heiðurs þíns nafns; frelsa oss og fyrirgef oss vorar syndir, fyrir þíns nafns sakir.

10. Hví skyldu heiðíngjarnir segja: hvar er nú þeirra Guð? Láttu það kunnugt verða meðal heiðíngjanna fyrir vorum augum, að hefnd komi fyrir úthelt blóð þinna þjóna;

11. Lát kvein hinna herteknu koma fyrir þig; lát þá, sem eru dauðans börn, fyrir þinn sterka arm, halda lífi.

12. Og gjaltu vorum nágrönnum sjöfalt aptur í þeirra skaut þá forsmán, sem þeir hafa lastað þig með, Drottinn!

13. Og vèr, þitt fólk og hjörð

þíns haglendis, munum þakka þèr eilíflega; frá kyni til kyns munum vèr kunngjöra þitt lof.

## 80. SÁLMUR.

*Bæn um Ísraels varðveizlu.*

Til hljóðfærameistarans; á Sósanním Edút. Sálmur eptir Asaf.

HEYR þú, Ísraels hirðir, þú, sem leiðir Jósep eins og hjörð, þú, sem hefir Kerúba fyrir hásæti, sýndu þig dýrðlegan!
2. Votta þú þitt veldi, Efraim, Benjamín og Manasse, og kom oss til hjálpar.
3. Guð! láttu oss rètta við aptur, og lát þitt andlit lýsa; þá verðum vèr hólpnir.
4. Drottinn, Guð! alsherjar! hversu leingi reiðist þú, þó þitt fólk biðji?
5. Þú fæðir þá með harmabrauði, og þrefaldan tára mælir gefur þú þeim að drekka.
6. Þú gjörir oss að þrætuepli vorra nábúa, og vorir óvinir hæða oss sín á milli.
7. Guð alsherjar! lát oss rètta við aptur, og þitt andlit lýsa, að vèr verðum hólpnir!
8. Vínvið fluttir þú af Egyptalandi, rakst út þjóðirnar og plantaðir hann;
9. Þú ruddir landið fyrir hann, og lèzt hann rótfestast, og hann uppfylti landið.
10. Fjöllin eru hulin með hans skugga, og með hans greinum, sedrustrèn Guðs.
11. Hann útþandi sínar greinir til hafsins og sínar vínþrúgur til árinnar, þ. e. Evfrat.
12. Hví hefir þú niður rifið girðínguna í kríngum hann, svo að allir, sem fara fram hjá um veginn, plokka af honum?
13. Skógarins svín róta í kríngum hann, og merkurinnar villidýr naga hann.
14. Guð alsherjar! snúðu þèr við, líttu niður af himni og sjáðu, og horf þú á þenna vínvið.
15. Verndaðu það, sem þín hægri hönd plantaði, og þann son, sem þú útvaldir.
16. Hann (vínviðurinn) er uppbrendur með eldi, hann er upphögginn; þeir tortýnast fyrir þínu hótandi augliti.
17. Þín hönd sè yfir þeim manni, sem þín hægri hönd frelsaði, yfir þeim mannsins syni, sem þú valdir þèr.
18. Þá munum vèr ekki víkja frá þèr, lífga oss aptur, og vèr munum ákalla þitt nafn.
19. Drottinn, alsherjar Guð! láttu oss rètta við, og þitt andlit lýsa; þá verðum vèr hólpnir.

## 81. SÁLMUR.

*Áminníng að halda páska.*

Til hljóðfærameistarans; eptir Gítit; eptir Asaf.

SÝNGIÐ með fögnuði fyrir Guði, vorum styrkleika! fagnið fyrir Jakobs Guði!
2. Hefjið lofsaunginn, sláið trumburnar og þau líflegu hljóðfæri og hörpu.
3. Blásið í lúðurinn, þegar túngl kemur og fyllist á vorum hátíðis degi.
4. Því þetta er siður í Ísrael, boðorð Jakobs Guðs.
5. Þetta gjörði hann að reglu í Jósep, þá hann fór á móti Egyptalandi. Rödd þess, sem eg ekki þekki, kemur mèr til eyrna.
6. Eg tók hans herðar undan byrðinni; hans hendur leyztust undan körfunum.
7. Þú kallaðir í neyðinni, og eg frelsaði þig; eg bænheyrði þig frá (mínu) þrumuskýi; eg reyndi þig hjá Meríbavatni. Málhvíld.
8. Heyr, mitt fólk! eg vil vitna þín á meðal; ó, að þú vildir heyra mig, Ísrael!
9. Einginn Guð útlendra sè þín á meðal; ei skaltu tilbiðja útlenda Guði!
10. Eg em Drottinn, þinn Guð, sem útleiddi þig af Egyptalandi; ljúk þínum munni vítt í sundur, eg mun fylla hann.
11. En mitt fólk heyrði ekki mína raust, og Ísrael vildi ekki hlýða mèr.
12. Svo ofurseldi eg þá þverúð þeirra hjartna, að þeir geingju eptir sínu eigin ráði.
13. Ó! að mitt fólk vildi heyra mig! að Ísrael vildi gánga á mínum vegum!
14. Þá skyldi eg innan skamms auðmýkja þeirra óvini, og snúa minni hendi mót þeirra mótstöðumönnum.
15. Þeir, sem hata Drottin, mundu þá fyrir honum hræsna en hamíngja (Guðs fólks) skyldi vara eilíflega;
16. Eg skyldi fæða það á hveitisfitu, og metta þig með hunángi af hellunni.

## 82. SÁLMUR.

*Móti harðstjórum.*

Sálmur Asafs.

GUÐ stendur í Guðs söfnuði; hann heldur dóm meðal guðanna.
2. Hversu leingi viljið þèr dæma rángt, og halda með þeim óguðlegu?
3. Látið lítilmagnann og þann föðurlausa ná rètti; útvegið rèttvísi aumíngjanum og þeim fátæka.
4. Bjargið lítilmagnanum og hinum snauða; frelsið hann af hendi hins óguðlega.
5. En þeir þekkja það ekki, þeir skilja það ekki; í myrkrinu gánga þeir; því hristist allur landsins grundvöllur.

6. Eg hefi sagt: þèr eruð guðir, og þèr eruð allir börn hins æðsta.
7. En þèr skuluð samt deya sem menn, og falla sem aðrir höfðíngjar.
8. Guð! stattu upp og dæmdu jörðina, því þú ríkir yfir öllum þjóðum.

## 83. SÁLMUR.

*Bæn móti Ísraels óvinum.*

Sálmasaungur Asafs.

GUÐ! þegi þú ekki, vertu ekki mállaus; haltu ekki kyrru fyrir, ó Guð!
2. Því sjá! þínir óvinir hafa hátt um sig, og þeir sem hata þig, upplypta sínum höfðum.
3. Þeir semja heimuglegar ráðagjörðir gegn þínu fólki; þeir ráðslaga móti þeim, sem þú verndar.
4. Þeir segja: komið! látum oss afmá þá af þjóðanna tölu, að Ísraels nafns sè ei framar getið.
5. Þeir ráðslaga innbyrðis með eindrægni; móti þèr inngánga þeir sáttmála,
6. Tjaldbúðir Edómíta og Ísmaelíta, Móabíta og Hagaríta,
7. Gebalítar, Ammonítar og Amalekítar og Filistear, með innbyggjurunum í Týrus.
8. Assýría geingur í lið með þeim og ljær sinn arm börnum Lots. Málhvíld.
9. Gjörðu við þá hið sama, sem við Midíaníta, sem við Sísera, sem við Jabín hjá Kíshons læk,
10. Sem voru eyðilagðir hjá Endór; þeir urðu að áburði fyrir jörðina.
11. Farðu með þeirra höfðíngja eins og Óreb og Seeb, og sem Seba og Salmúna, alla þeirra fyrirliða,
12. Sem segja: látum oss taka Guðs bústaði.
13. Minn Guð! gjör þá sem ryk fyrir hvirfilvindi, sem agnir fyrir stormi!
14. Eins og eldurinn kveikir í skógi, og loginn brennir fjöllin,
15. Eins skaltu ofsækja þá með þínum stormi, og skelfa þá með þínum hvirfilbyl;
16. Uppfyltu þeirra andlit með skömm, að þeir leiti þíns nafns, Drottinn!
17. Lát þá sneypast og skelfast æ og ætíð, skammast sín og tortýnast.
18. Þá munu þeir kannast við, að þú, Drottinn! einn, ert sá æðsti yfir allri jörðinni.

## 84. SÁLMUR.

*Laungun til musterisins.*

Til saungmeistarans; á Gítit; fyrir Kórasbörn.

HVERSU yndislegir eru þínir bústaðir, Drottinn alsherjar!

2. Mína sálu lángar innilega eptir Drottins forgarði; mitt hjarta og minn líkami fagnar fyrir þeim lifanda Guði.

3. Titlíngurinn finnur sèr hús, og svalan hreiður, hvar hún geti lagt sína únga; við þitt altari, Drottinn alsherjar, minn konúngur og minn Guð!

4. Sælir eru þeir, sem búa í þínu húsi; þeir geta sífelt lofað þig. Málhvíld.

5. Sæll er sá maður, hvers styrkleiki er í þèr, í hverra hjörtum hinir rèttu vegir eru.

6. Þegar þeir gánga um sorgarinnar dal, umbreyta þeir honum í vatnsríka dæld, og haustregnið þekur hana með blessun.

7. Þeim eykst meir og meir kraptur, þángað til þeir sýna sig fyrir Guði á Síon.

8. Ó Drottinn, Guð alsherjar! heyr mína bæn, Jakobs Guð! Málhvíld. Snú til mín þínu eyra.

9. Guð! vor skjöldur, líttu niður og lít á ásýnd þíns smurða!

10. Því betri er einn dagur í þínum forgarði, en þúsund aðrir; heldur vil eg staðnæmast á þrepskildinum í húsi míns Guðs, heldur en búa í tjaldbúðum hins óguðlega.

11. Því Guð Drottinn er sól og skjöldur; Drottinn gefur náð og heiður; hann synjar þeim um ekkert gott, sem fram gánga í ráðvendni.

12. Drottinn alsherjar! sæll er sá maður, sem treystir þèr!

## 85. SÁLMUR.

*Bæn um ríkisins viðrèttíngu.*

Til saungmeistarans; sálmur fyrir Kórasbörn.

DROTTINN! þú, sem áður varst miskunsamur þínu landi, þú hefir leitt heim Ísraels bandíngja.

2. Þú hefir burttekið misgjörð þíns fólks, þú hefir falið þess synd. Málhvíld.

3. Þú hefir lagt afsíðis alla þína reiði; þú hefir hætt ákefð þinnar bræði.

4. Snú þèr til vor, vor frelsis Guð! og slepp þinni óvináttu við oss.

5. Ætlar þú eilíflega að vera oss reiður? Viltu útþenja þína reiði frá kyni til kyns?

6. Viltu ei lífga oss aptur, að þitt fólk megi gleðja sig í þèr?

7. Drottinn! lát oss sjá þína miskun, og veit þú oss hjálp.

8. Eg vil heyra það, sem Drottinn talar, því hann talar frið til síns fólks og til sinna heilögu, einúngis að þeir ei hverfi aptur til heimskunnar;

9. Já, hans frelsi er þeim nálægt, sem hann óttast; svo skal þá dýrðin búa í voru landi.

10. Miskun og trúfesti munu mæta hver annari; rèttvísi og friður kyssa hvert annað;
11. Trúfesti mun uppspretta af jörðinni, og rèttlætið líta niður af himninum.
12. Drottinn mun og gefa blessan, og vort land gefa sinn ávöxt.
13. Rèttlætið mun hann láta gánga fyrir augliti sínu, og láta það fara leiðar sinnar.

## 86. SÁLMUR.

*Bæn hins mótlætta.*

Bæn Davíðs.

DROTTINN, hneig þitt eyra! bænheyr mig, því eg er aumur og fátækur!
2. Varðveit mína sál, því eg elska þig; frelsa þinn þjón, þú, minn Guð! þann sem reiðir sig á þig.
3. Drottinn! vertu mèr náðugur, því þig ákalla eg allan daginn;
4. Gleð sálu þíns þjóns, því til þín, Drottinn! upplypti eg minni sál.
5. Því þú, Drottinn! ert góður og fyrirgefur, og ert mjög miskunsamur þeim, sem þig ákalla.
6. Drottinn! snú þínu eyra til minnar bænar og gef gaum að raust minnar grátbeiðni.
7. Á minnar neyðar degi ákalla eg þig; því þú bænheyrir mig.
8. Einginn meðal guðanna er sem þú, Drottinn! og ekkert líkt þínum verkum.
9. Allar þjóðir, sem þú hefir skapað, skulu koma og tilbiðja fyrir þínu augliti, Drottinn! og þær munu heiðra þitt nafn.
10. Því þú ert mikill, þú ert sá, sem gjörir dásemdarverkin, þú ert sá eini Guð.
11. Kenn mèr, Drottinn! þinn veg, að eg gángi í þínum sannleika; laga mitt hjarta, svo það óttist þitt nafn.
12. Eg skal þakka þèr, Drottinn, minn Guð! af öllu hjarta, og heiðra þitt nafn eilíflega,
13. Því þín miskun við mig er mikil; þú frelsar mína sálu úr þeirri djúpu gröf.
14. Guð! þeir dramlátu rísa móti mèr, og ofbeldismannahópur situr um mitt líf, og þeir hafa þig ei fyrir augum.
15. En þú, Drottinn! ert miskunsamur og náðugur Guð, þolinmóður og ríkur af miskun og trúfesti.
16. Snú þínu augliti til mín, og vertu mèr náðugur, ljá þínum þjóni þinn styrkleika, og frelsa son þinnar ambáttar.
17. Gjörðu tákn á mèr til góðs, að þeir, sem hata mig, geti sèð það og sneypst, að þú, Drottinn! hefir hjálpað mèr og huggað mig.

## 87. SÁLMUR.

*Síons vegsemd.*

Lofsaungur fyrir Kórasbörn.

HENNAR (Jerúsalems) grundvöllur hvílir á því heilaga fjalli.

2. Drottinn elskar Síons hlið fram yfir alla Jakobs bústaði.

3. Dýrðlega er um þig talað, þú Guðs borg! Málhvíld.

4. Eg vil minnast á Egyptaland og Babel meðal þeirra, sem þekkja mig; sjá! það skal heita um Filistea og Týriska samt Mórlendska: þeir eru hèr fæddir.

5. Og um Síon skal súngið verða: þessi og hinn er hèr fæddur, og sá æðsti mun það sanna.

6. Drottinn mun telja þá, þegar hann skrifar upp fólkið, og segja: þessi er fæddur hèr. Málhvíld.

7. Og þeir, sem sýngja, og þeir, sem dansa, munu segja: allar mínar uppsprettur eru í þèr.

## 88. SÁLMUR.

*Bæn ens sorgfulla.*

Saungur fyrir Kórasbörn, að sýngja á víxl (leika á hörpu). Kennsluljóð fyrir Heman Esrahíta.

DROTTINN, míns frelsis Guð! eg kalla á daginn, já, á nóttunni fyrir þèr.

2. Lát mína bæn koma fyrir þitt auglit; hneig þitt eyra til minnar grátbeiðni.

3. Því mín sál er mett af óhöppum, og mitt líf hallast til grafar.

4. Eg er talinn með þeim, sem stíga niður í gröfina; eg em sem kraptalaus maður.

5. Eg reiknast með þeim dauðu, máttlaus, eins og þeir er liggja í gröfinni, sem þú ei framar minnist, og sem eru þèr úr hendi.

6. Þú hefir hrundið mèr niður í djúpa gröf, í myrkur, í afgrunninn.

7. Þín reiði hvílir yfir mèr, og þú þreyngir að mèr með öllum þínum bylgjum. Málhvíld.

8. Þú hefir fjarlægt frá mèr mína kunníngja, þú hefir gjört mig þeim mjög viðurstyggilegan; innilokaður kemst eg ekki út.

9. Mitt auga er dapurt af eymd; Drottinn! eg kalla til þín allan daginn, út til þín rètti eg mínar hendur.

10. Ætla þú gjörir dásemdir á þeim dauðu? ætla sálir þeirra önduðu upprísi, og lofi þig?

11. Mun þín miskun kunngjörast í gröfunum, og þín trúfesti í rotnuninni?

12. Munu þínar dásemdir

þekkjast í myrkrinu? eða þitt rèttlæti í gleymskunnar landi?
13. Eg kalla nú til, þín, Drottinn! og mín bæn kemur árla fram fyrir þig.
14. Hví útskúfar þú minni sálu? ó Drottinn! hví byrgir þú þitt auglit fyrir mèr?
15. Frá æsku er eg vesæll, og dauðvona, eg ber þínar skelfíngar, eg örvínglast.
16. Yfir mig er komin þín heipt; þínar hrellíngar tortýna mèr;
17. Þær umkríngja mig allan daginn, sem vatn, þær slá gjörsamlega hríng um mig.
18. Þú færðir lángt frá mèr mína vini og stallbræður, mínir kunníngjar eru faldir í myrkri (ósýnilegir).

## 89. SÁLMUR.

*Bæn fyrir Davíðs ættlegg.*

Kennsluljóð eptir Ethan Esrahíta.

UM Drottins miskun vil eg eilíflega sýngja; frá kyni til kyns skal minn munnur kunngjöra þína trúfesti.
2. Því eg huxa: fyrir eilífð var þín miskun til; jafnsnemma sem himininn festir þú þína trúfesti, og sagðir:
3. "Eg gjörði sáttmála við minn útvalda, eg sór Davíð, mínum þjóni:
4. Eg vil staðfesta þitt sæði eilíflega, og byggja þitt hásæti frá kyni til kyns."
5. Himnarnir játa þínar dásemdir, Drottinn! og söfnuður hinna heilögu þína trúfesti.
6. Því hver í þeim háu skýum getur jafnast við Drottin?
7. Hver er Drottni líkur meðal guðanna barna? Guð er mjög óttalegur í leyndaráði hinna heilögu, og hræðilegur fram yfir alla, sem eru í kríng um hann.
8. Ó, Drottinn, Guð! alsherjar hver er sem þú voldugur, ó Drottinn! og þín trúfesti er alt í kríngum þig.
9. Þú drottnar yfir hafsins drambsemi; þegar þess bylgjur lypta sèr upp, lægir þú þær.
10. Þú sundur mer hinn drambsama, eins og þann, sem deyddur er. Með þínum sterka armi tvístrar þú þínum óvinum.
11. Þèr tilheyra himnarnir, þèr jörðin, heimurinn, og það, sem í honum er; þú grundvallaðir hann.
12. Norður og suður skapaðir þú; Tabor og Hermon gleðja sig við þitt nafn.
13. Þú hefir armlegg fullan af krapti. Þín hönd er sterk, þín hægri hönd er á lopti.
14. Rèttur og rèttvísi er festa þíns hásætis; miskun og sannleiki sífelt þèr fyrir augsýn.

15. Sæl er sú þjóð, sem þekkir lúðursins hljóm, Drottinn! hún geingur í ljósi þíns andlitis.

16. Í þínu nafni fagna þeir allan daginn, og af þinni rèttvísi hrósa þeir sèr.

17. Því þú ert prýðin þeirra styrkleika, og þín náð upplyptir vorum höfðum.

18. Frá Drottni er vor skjöldur, og frá Ísraels Heilaga vor konúngur.

19. Þá talaðir þú til þíns Heilaga í einni sýn, og sagðir: eg hefi ætlað hetjunni hjálp, eg hefi upphafið þann útvalda af fólkinu.

20. Eg hefi fundið Davíð, minn þjón; eg hefi smurt hann með viðsmjöri (minni heilögu olíu).

21. Með honum skal mín hönd ávalt vera, já, minn armur skal styrkja hann.

22. Óvinurinn skal ekki þraungva honum, og ránglætisins sonur skal ei undiroka hann.

23. En eg skal sundurmerja hans mótstöðumenn fyrir hans augsýn, og slá þá, sem hann hata.

24. Og mín trúfesti og miskun skal vera með honum, og í mínu nafni skal hans höfuð upphefjast.

25. Og eg vil útþenja hans hönd til hafsins, og hans hægri hönd til ánna (Evfrat og Tígris).

26. Hann mun ávarpa mig þannig: þú ert minn faðir, minn Guð, og míns frelsis klettur.

27. Já, eg vil gjöra hann að frumburði, þeim ágætasta meðal jarðarinnar konúnga.

28. Eg vil varðveita honum mína miskun eilíflega, og minn sáttmáli skal vandlega vera haldin við hann.

29. Eg mun gjöra hans ætt lánggæða, og hans hásæti sem himinsins aldur (daga).

30. Ef að hans niðjar yfirgefa mín lög, og ekki gánga í mínum rèttindum,

31. Ef að þeir vanhelga mínar skikkanir, og halda ekki mín boðorð,

32. Þá mun eg refsa afbrotum þeirra með vendi, og þeirra misgjörðum með höggum,

33. En eg mun ekki frá þeim taka mína náð, og ekki láta þeim bregðast mína trygð.

34. Eg mun ekki vanhelga (rjúfa) minn sáttmála, og ekki umbreyta því, sem út er geingið af mínum vörum.

35. Eg sór einusinni við minn heilagleika: eg skal ekki ljúga að Davíð.

36. Hans niðjar skulu ætíð

viðvara, og hans hásæti, sem sólin, fyrir mínu augliti.
37. Eins og túnglið skal hann ætíð viðvara, og sem vitnið í skýunum er sannsögult.
38. En nú útskúfar þú honum og fyrirlítur; þú ert reiður þínum smurða.
39. Þú metur einskis sáttmálann við þinn þjón, og vanhelgar alt að duptinu hans kórónu.
40. Þú niðurrífur alla hans múrveggi, þú leggur kastala hans í auðn.
41. Allir, sem framhjá fara, ræna hann; sínum nábúum er hann orðinn að háðúng.
42. Hægri hönd hans mótstöðumanna upphefur þú.
43. Þú gleður alla hans óvini. Þú lætur hans beitta sverð víkja, svo hann stenzt ekki í stríðinu.
44. Þú gjörir enda á hans ljóma, og kastar hans hásæti niður til jarðar.
45. Þú styttir hans æsku daga og þekur hann með skömm.
46. Hversu leingi, Drottinn! ætlar þú að fela þig? mun þín reiði ætíð loga sem eldur?
47. Minstu mín! hvað er lífið? til hvílíks hègóma skapaðir þú öll mannanna börn?
48. Hver maður lifir, sem ekki sjái dauðann, sem geti fríað sína sálu frá grafarinnar ofbeldi?
49. Drottinn! hvar er þín fyrri miskun, sem þú sórst Davíð við þinn sannleika?
50. Minnstu, Drottinn! á forsmán þinna þjóna, að eg ber í mínum barmi allar þær miklu þjóðir,
51. Að þínir óvinir, Drottinn! spotta, að þeir spotta fótspor þíns smurða.
52. Lofaður veri Drottinn eilíflega! Amen! já, Amen!

## 90. SÁLMUR.

*Guðs náð er eilíf. Mannlegt líf skammvint. Bæn um Guðs miskun.*

Bæn Mósis, þess Guðs manns.

DROTTINN! þú varst vort athvarf frá kyni til kyns.
2. Áður en fjöllin fæddust, og þú tilbjóst jörðina og heiminn, já, frá eilífð til eilífðar, ertu Guð.
3. Þú gjörir manninn að dupti og segir: komið aptur, þèr mannanna börn!
4. Því þúsund ár eru fyrir þínum augum sem dagurinn í gær, þá hann er liðinn, og eins og næturvaka.
5. Þú burtskolar þeim; þeir eru sem draumur; á morgnana sem gras, er skjótt hverfur.
6. Á morgnana blómgast það og breytist, á kvöldin er það slegið og þurkað.

7. Því vèr tortýnumst í þinni reiði, og hrökkum undan þinni bræði.

8. Þú setur vorar misgjörðir þèr fyrir augu, vorar heimuglegu syndir fyrir ljós þíns auglitis.

9. Því allir vorir dagar hverfa burt fyrir þinni reiði; vèr eyðum vorum árum eins og huxun.

10. Vorir æfi dagar eru sjötíu ár, og með sterkri heilsu áttatíu ár, og það þeirra hið kostulegasta er sorg og mæða, því þau líða skjótt, og vèr erum á flugi.

11. Hver þekkir styrkleika þinnar reiði, og þína bræði, eins og óttinn fyrir þèr útheimtir?

12. Kenn oss svo að telja vora daga, að vèr verðum forsjálir.

13. Snú þèr til vor, Drottinn! hversu leingi? aumkastu yfir þína þjóna.

14. Metta oss skjótt með þinni miskun, þá munum vèr fagna, og gleðja oss alla daga vors lífs.

15. Gleð oss nú eins marga daga, og þú hefir oss beygt, eins mörg ár, og vèr höfum sèð ógæfuna.

16. Lát þína þjóna sjá þitt verk, og þeirra börn þína dýrð.

17. Drottins, vors Guðs, góðgirni veri yfir oss, og staðfesti verk vorra handa, já, lát þèr þóknast, að staðfesta verkin vorra handa!

## 91. SÁLMUR.

*Farsæld þess, sem treystir Guði.*

HVER sem býr undir varðveizlu hins æðsta, sá hvílir óhult í skugga hins almáttuga.

2. Eg segi við Drottinn: þú ert mitt athvarf, og mitt vígi, minn Guð! á hvern eg treysti.

3. Því hann frelsar þig af snöru veiðimannsins, frá þeirri háskalegu drepsótt.

4. Með sínum fjöðrum mun hann skýla þèr, og undir hans vængjum muntu finna hæli; hans trúfesti er skjöldur og brynja.

5. Þú munt ei hræðast næturinnar skelfíngu, og ei þær örvar, sem fljúga á daginn,

6. Ekki þá drepsótt, sem fer áfram í myrkrinu, ei þá sótt, sem eyðileggur um hádegið.

7. Þó að þúsund falli þèr til vinstri handar og tíu þúsund til hægri handar, þig nálgast það ekki.

8. Þú skalt að eins sjá það með augunum, og horfa á gjöld hinna óguðlegu.

9. Því þú, Drottinn! ert mitt athvarf; (svar annars) þann

æðsta hefir þú valið þèr til varnar.

10. Þèr mætir ekkert ilt, og eingin plága nálgast þína tjaldbúð.

11. Því hann mun bjóða þèr sína eingla, að varðveita þig á öllum þínum vegum.

12. Á höndum bera þeir þig, að þú ei steytir fót þinn við steini.

13. Yfir ljón og eiturorma muntu gánga, og troða ofan á ljónsúnga og dreka (að ósekju).

14. Hann hefir fögnuð af mèr, því mun eg frelsa hann (segir Drottinn); eg vil upphefja hann, af því hann þekkir mitt nafn.

15. Hann mun ákalla mig, og eg vil bænheyra hann, eg er hjá honum í neyðinni; eg mun frelsa hann, og gjöra vegsamlegan.

16. Með lánglífi mun eg metta hann, og láta hann, sjá mitt hjálpræði.

## 92. SÁLMUR.

*Lofgjörð og trúnaðartraust.*

Lofsálmur à Sabbats degi.

ÞAÐ er fagurt, að þakka Drottni og sýngja lof þínu nafni, þú æðsti!

2. Að kunngjöra þína náð um morguninn, og þína trúfesti á næturnar,

3. Á tíu streingja hljóðfæri, Hígajon, með hörpum (ýmisleg hljóðfæri).

4. Því þú gleður mig, Drottinn! með þínum verkum; við verkin þinna handa vil eg gleðjast.

5. Hversu stór eru þín verk, Drottinn! mjög djúpar eru þínar huxanir.

6. Fávís maður þekkir þær ekki, og heimskínginn skilur þær ekki.

7. Þegar hinir óguðlegu grænka, sem grasið, og allir þeir blómgast, sem aðhafast ránglæti, þá er það til þess, að þeir tortýnist að fullu og öllu.

8. Og þú, Drottinn! ert hár að eilífu.

9. Því sjá! þínir óvinir, ó Drottinn! þinir óvinir fyrirfarast, tvístrast allir, þeir sem rángt gjöra.

10. En þú munt upplypta mínu horni, sem einhyrníngsins; eg er smurður með nýu viðsmjöri.

11. Og mitt auga mun með gleði sjá mína óvini, sem rísa móti mèr; af þeim vondu munu mín eyru frètta.

12. Sá ráðvandi mun grænka sem pálmaviður, sem sedrustrè á Líbanon vaxa.

13. Þeir, sem eru gróðursettir

í Drottins húsi, munu grænka í vors Guðs forgarði.

14. Jafnvel í sinni elli skulu þeir bera ávöxt, hafa vökva og grænka,

15. Til að kunngjöra, að Drottinn, mitt vígi, er rèttlátur, að í honum eru eingin rángindi.

## 93. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

DROTTINN er konúngur, íklæddur hátign, Drottinn hefir íklæðst, hann hefir girt sig krapti. Því er jörðin föst, svo hún bifist ekki.

2. Fast stendur þitt hásæti frá upphafi; frá eilífð ertu til.

3. Vatnsföll upphefjast, Drottinn! vatnsföllin upphefja sína raust. Vötnin hefja nið sinna bylgna.

4. Voldugri heldur en þeirra vatna raust, heldur en hafsins öldur, er Drottinn í hæðinni.

5. Þinn vitnisburður (lög) er sannur; þínu húsi tilheyrir heilagleikans prýði, Drottinn! til daganna enda.

## 94. SÁLMUR.

*Bæn á móti Ísraels óvinum.*

Ó DROTTINN! hefndarinnar Guð, þú hefndarinnar Guð, opinbera þig dýrðlega.

2. Upphef þig, þú jarðarinnar dómari. Endurgjald þú þeim dramblátu.

3. Hversu leingi eiga hinir óguðlegu, Drottinn! hversu leingi eiga hinir óguðlegu að gleðja sig?

4. Þeir útausa, þeir tala hörð orð, þeir stæra sig, allir, þeir sem rángindi að hafast.

5. Þitt fólk, ó Drottinn! merja þeir, og þína erfð þjá þeir.

6. Ekkjuna og hinn útlenda drepa þeir, og föðurlausa myrða þeir.

7. Og þeir segja: Drottinn sèr það ekki, og Jakobs Guð tekur ei eptir því.

8. Gætið þó vitsins, jafnvel þèr fávísu meðal fólksins, og þèr keimskíngjar! nær ætlið þèr að verða hyggnir?

9. Mun sá ei heyra, sem eyrað hefir plantað? mun sá ei sjá, sem augað hefir tilbúið?

10. Sá sem agar fólkið, mundi hann ekki hegna, sá sem kennir mönnunum skilníng?

11. Drottinn þekkir mannanna huxanir, að þær eru hègomlegar.

12. Sæll er sá maður, sem þú agar, Drottinn! og sá, sem þú mentar í þínu lögmáli;

13. Að veita honum svíun á hinum vondu dögum, þángað til gröfin verður grafin þeim óguðlegu.

14. Því Drottinn mun ei sleppa hendinni af sínu fólki, og ekki yfirgefa sína erfð.
15. Því dómurinn mun hverfa aptur til rèttvísi, og allir hreinskilnir munu honum fylgja.
16. Hver rís upp mín vegna, gegn hinum vondu? hver verður fyrir mig móti þeim, sem gjöra órètt?
17. Hefði Drottinn ei verið mín hjálp, þá mundi minna ávanta, að mín sál byggi í kyrðinni.
18. Þegar eg huxaði: nú rasar minn fótur, þá studdi mig, Drottinn! þín miskun.
19. Þegar margar hugarhrellíngar voru í mínu hjarta, hrestu þínar hugganir mína sálu.
20. Mundi hið skaðsamlega hásæti hafa samfèlag við þig? eða sá ofbeldismaður, sem þverskallast við lög og rètt?
21. Hópum saman gjöra þeir árásir lífi hins ráðvanda, og saklaust blóð fordæma þeir.
22. En Drottinn er mín örugg borg, minn Guð er mitt vígi.
23. Hann lætur þeirra ránglæti hverfa aptur og yfir þá koma, og hann mun afmá þá vegna þeirra vonzku. Já, Drottinn, vor Guð, mun afmá þá.

## 95. SÁLMUR.

*Menn eiga að lofa Guð og hlýða honum.*

KOMUM! látum oss fagna fyrir Drottni, gleðjum oss frammi fyrir bjargi vors frelsis!
2. Látum oss með þakkargjörð koma fyrir hans auglit, með saung fagna frammi fyrir honum!
3. Því Drottinn er mikill Guð og voldugur konúngur yfir öllum guðum.
4. Í hans hendi eru jarðarinnar fylgsni, og fjallanna auður er hans.
5. Hans er hafið, því hann gjörði það, og hans hendur tilbjuggu þurlendið.
6. Komið! látum oss framfalla og tilbiðja, látum oss beygja knè fyrir Drottni, vorum skapara!
7. Því hann er vor Guð og vèr erum fólk hans haglendis og hjörð sem hans handar.
8. Ó! að þèr í dag vilduð heyra hans raust! forherðið ekki yðar hjörtu, sem í Meríba, eins og á freistíngarinnar degi í eyðimörkinni,
9. Hvar yðar feður freistuðu mín, reyndu mig, þó þeir sæu mín verk.
10. Fjörutíu ár stríddi eg við þessa kynslóð, og eg sagði: þeir eru það fólk, sem fer vilt

með sínu hjarta, og þeir þekkja ekki mína vegu.

11. Því sór eg í minni reiði: þeir skulu aldrei inngánga til minnar hvíldar.

## 96. SÁLMUR.

*Áminníng að lofa Drottinn.*

SÝNGIÐ Drottni nýan saung! sýngi öll jörðin Drottni!

2. Sýngið Drottni og lofið hans nafn, kunngjörið hans hjálp dag eptir dag;

3. Segið frá hans dýrð meðal þjóðanna, frá hans dásemdum meðal als fólks.

4. Því mikill er Drottinn, og mjög loflegur; óttalegur er hann fram yfir alla guði.

5. Því allir guðir þjóðanna eru skurðgoð, en Drottinn gjörði himnana.

6. Hátign og ljómi eru fyrir hans augsýn, heiður og vegsemd í hans helgidómi.

7. Greiðið Drottni, þèr þjóðir! greiðið Drottni heiður og lof.

8. Greiðið Drottni heiður hans nafns, framberið gáfur, og komið í hans forgarð.

9. Niður kastið yður fyrir Drottinn í helgum skrúða, skjálfi fyrir hans augliti öll jörðin.

10. Segið meðal heiðíngjanna: Drottinn er konúngur; því er jörðin föst, svo hún bifist ei; hann dæmir þjóðirnar með rèttvísi.

11. Himnarnir gleðjist, og jörðin fagni, hafið þjóti upp, og alt það, sem í því er;

12. Foldin gleðji sig, og alt sem á henni er, já, öll trè skógarins fagni

13. Fyrir Drottins augliti, því hann kemur, kemur til að dæma jörðina; hann mun dæma jarðríkið með rèttvísi, og þjóðirnar með sinni sannsýni.

## 97. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

DROTTINN er konúngur, jörðin gleðji sig; þær mörgu eyarnar fagni.

2. Ský og dimma eru alt í kríngum hann; rèttur og rèttvísi er festa hans hásætis.

3. Eldur fer fyrir honum, og tortýnir alt um kríng hans óvinum.

4. Hans eldíngar upplýsa jarðríkið; jörðin sèr það og bifast.

5. Fjöllin bráðna sem vax fyrir Drottins augsýn, fyrir augsýn hans, sem drottnar yfir allri jörðunni.

6. Himnarnir kunngjöra hans rèttlæti, og allar þjóðir sjá hans dýrð.

7. Sneypast skulu allir þeir, sem dýrka líkneskjur, sem stæra sig af skurðgoðum.

8. Hann tilbiðja allir guðir; Síon heyrir það og gleðst; Júdeu dætur (borgir) gleðjast við þína dóma, Drottinn!

9. Því þú, Drottinn! ert sá æðsti yfir allri jörðunni; þú ert mjög upphafinn yfir alla guði.

10. Hatið hið illa, þèr, sem elskið Drottinn! hann varðveitir sálir sinna heilögu; af hendi óguðlegra mun hann frelsa þá.

11. Ljós tendrast þeim rèttláta, og gleði þeim hreinskilnu af hjarta.

12. Gleðjið yður í Drottni, þèr rèttlátu! og vegsamið hans heilaga nafn.

## 98. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

SÝNGIÐ Drottni nýan saung! því hann hefir gjört dásemdarverk. Hans hægri hönd frelsaði, og hans heilagi armleggur.

2. Drottinn kunngjörði sitt frelsi; fyrir fólksins augum opinberaði hann sitt rèttlæti.

3. Hann mundi til sinnar miskunar og trúfesti við Ísraels hús; öll jarðarinnar endimörk sáu frelsi vors Guðs.

4. Fagni fyrir Drottni öll jörð; sýngið og fagnið og dansið.

5. Leikið fyrir Drottni á hörpu, á hörpu með saung.

6. Meður lúðrum og trumbuhljóm fagnið fyrir konúnginum, Drottni.

7. Hafið þjóti upp og alt, sem í því er, jarðríkið og þeir, sem þar búa.

8. Árnar klappi lófum saman; öll fjöllin fagni með

9. Fyrir Drottins augliti, því hann kemur til að dæma jörðina. Hann mun dæma jarðríkið með rèttvísi, og fólkið með sannsýni.

## 99. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

DROTTINN ríkir, þjóðirnar skjálfa; hann situr á kerúbum, jörðin hristist.

2. Drottinn er mikill á Síon, og upphafinn yfir allar þjóðir.

3. Menn vegsami þitt nafn, hið mikla og óttalega (heilagur er hann),

4. Og vegsemd konúngsins, sem elskar rèttindi; þú verndar sannsýni; rèttindi og rèttvísi iðkar þú í Jakob.

5. Vegsamið Drottinn, vorn Guð, og niðurkrjúpið á hans fótskör! hann er heilagur!

6. Móses og Aron, hans prestur, og Samúel, sem ákallaði hans nafn, þeir kölluðu til Drottins, og hann bænheyrði þá.

7. Í skýstólpanum talaði hann við þá; þeir varðveittu hans

boðorð, og þá setnínga, sem hann gaf þeim.

8. Drottinn, vor Guð! þú bænheyrðir þá, þú Guð! fyrirgafst þeim, jafnvel þó þú refsaðir þeim fyrir þeirra breytni.

9. Upphefjið Drottin, vorn Guð! og niðurkrjúpið fyrir hans heilaga fjalli! því heilagur er Drottinn, vor Guð.

## 100. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

Lofsálmur.

ÖLL veröldin fagni fyrir Drottni! þjónið Drottni með fagnaði.

2. Komið fyrir hans augsýn með gleði!

3. Viðurkennið, að Drottinn sè Guð; hann hefir skapað oss, og vèr erum hans, hans fólk og sú hjörð hans haglendis.

4. Gángið inn um hans andyri með þakkargjörð, inn á hans forgarð með lofgjörð; þakkið honum, vegsamið hans nafn!

5. Því góður er Drottinn, eilíf hans miskunsemi, og frá kyni til kyns hans trúfesti.

## 101. SÁLMUR.

*Góð áform konúngsins.*

Davíðs ljóð.

UM góðsemi og rèttvísi vil eg sýngja; fyrir þèr, ó Drottinn! vil eg leika.

2. Eg vil taka eptir vegi hinna ráðvöndu, þá kemur þú til mín; eg vil framgánga í ráðvendni míns hjarta innst í mínu húsi.

3. Ekkert ilt verk vil eg setja mèr fyrir augsýn; yfirtroðslur hata eg. Þær skulu ei við mig festast.

4. Óheilt hjarta skal víkja frá mèr; þann vonda vil eg ekki þekkja.

5. Hvern, sem rægir sinn náúnga leynilega, vil eg afmá; hinn drambsama og hrokafulla þoli eg ekki.

6. Mín augu skulu leita eptir þeim trúföstu í landinu, að þeir búi hjá mèr; hver sem geingur á ráðvendnis vegi, hann skal verða minn þjón.

7. Sá, sem aðhefst pretti, skal ekki vera í mínu húsi; hver, sem talar lygi, skal ekki standast fyrir mínum augum.

8. Hvern dag vil eg afmá allan óguðlegleika í landinu, útryðja úr Drottins borgum öllum þeim, sem iðka rángindi.

## 102. SÁLMUR.

*Bæn um Jerúsalems endurbyggíngu.*

Bæn þess þjáða manns, sem djúpt beygður úteys sínu kveini fyrir Drottni.

DROTTINN! heyr mína bæn, og lát mína grátbeiðni koma fyrir þig.

2. Byrg ekki þitt auglit fyrir mèr á neyðarinnar degi; hneig þitt eyra til mín, þá eg kalla; flýttu þèr að bænheyra mig!

3. Því mínir dagar eru horfnir sem reykur, og mín bein eru brunnin eins og kol.
4. Mitt hjarta er þjáð og þornað sem gras; því gleymi eg að eta mitt brauð.
5. Sakir míns kveins og andvarpa loða beinin við hörund mitt.
6. Eg em líkur orðinn (fuglinum) pelíkan á eyðimörku; eg er sem náttugla í auðninni.
7. Eg vaki (á nóttunni), og er sem einmana fugl á húsþekju.
8. Hvern dag níða mig mínir óvinir, og þeir, sem æða gegn mèr, sverja við mig (eins og eitthvað ilt).
9. Því öskuna et eg sem brauð, og minn drykk blanda eg með tárum,
10. Vegna þinnar stygðar og reiði; því þú upphófst mig og þú niðurfleygðir mèr.
11. Mínir dagar eru sem útþaninn skuggi, og eg visna sem gras.
12. En þú, ó Drottinn! varir eilíflega, og þitt nafn frá kyni til kyns.
13. Þú munt upprísa, þú munt miskuna þig yfir Síon! því tími er kominn, að þú sýnir henni náð; stundin er komin.
14. Því þínir þjónar elska Síons steina, og þeir aumkast yfir hennar ryk.
15. Þá munu þjóðirnar óttast Drottins nafn, og allir jarðarinnar Konúngar þína dýrð.
16. Drottinn uppbyggir Síon, og sýnir sig í sinni dýrð.
17. Hann snýr sínu augliti til bæna hinna yfirgefnu, og fyrirlítur ekki þeirra bæn.
18. Það verði skrásett fyrir niðjana, og það uppvaxandi fólk lofi Drottinn!
19. Því hann lítur niður frá hæð síns helgidóms; Drottinn lítur af himni til jarðar,
20. Til að heyra kvein bandíngjans til að leysa börn dauðans,
21. Að þau megi kunngjöra í Síon Drottins nafn, og hans lof í Jerúsalem,
22. Þegar fólkið safnast saman, og ríkin til að þjóna Drottni.
23. Hann örþreytti á leiðinni minn krapt; hann stytti mína daga.
24. Eg sagði: minn Guð! tak mig eigi burt mitt á mínum dögum. Þín ár vara eilíflega.
25. Jörðina festir þú forðum, og himnarnir eru þín handaverk;
26. Þeir munu líða undir lok, en þú viðvarir; þeir munu eldast sem fat; þú skiptir um þá sem fat, og þeir um skiptast.
27. En þú verður hinn sami, og þín ár fá eingan enda.

28. Börn þinna þjóna munu búa (í landinu), og þeirra kyn mun staðfestast fyrir þínu augliti.

## 103. SÁLMUR.

*Drottinn er rèttlátur og náðugur Guð.*

Sálmur eptir Davíð.

LOFA þú Drottin, sála mín! og alt hvað í mèr er, hans heilaga nafn!

2. Lofa þú Drottin, sála mín! og gleym ekki öllum hans velgjörníngum,

3. Hans, sem fyrirgefur þèr þína synd, og læknar þína veiki,

4. Sem leysir þitt líf frá gröfinni, krýnir þig með náð og miskun,

5. Sem mettar þína sál með gæðum, svo þú ýngist upp sem örn.

6. Drottinn iðkar rèttvísi og dóm til handa öllum undirokuðum.

7. Hann kunngjörði Móses sína vegi og Ísraels börnum sín verk.

8. Miskunsamur og náðugur er Drottinn, þolinmóður og ríkur af miskunsemi.

9. Hann mun ei ætíð gánga í rètt, ei heldur eilíflega geyma sína reiði.

10. Hann breytti ei við oss eptir vorum syndum, og endurgalt oss ei eptir vorum misgjörðum.

11. Heldur svo hátt sem himininn er yfir jörðinni, svo máttug var hans miskunsemi yfir þeim, sem hann óttuðust.

12. Svo lángt sem austrið er frá vestrinu, fjarlægir hann frá oss vor afbrot;

13. Eins og faðirinn er börnunum líknsamur, eins er Drottinn miskunsamur þeim, sem hann óttast.

14. Því hann þekkir vort eðli, hann man til þess, að vèr erum dupt.

15. Maðurinn, sem gras eru hans dagar; sem blómið á vellinum blómgast hann.

16. Þegar vindurinn fer þar yfir, þá er það ei framar til, og þess staður kannast ei framar við það.

17. En Drottins miskun er frá eilífð til eilífðar yfir þeim, sem hann óttast, og hans rèttlæti yfir hans barnabörnum,

18. Yfir þeim, sem halda hans sáttmála, og yfir þeim, sem muna til hans boðorða, svo að þeir hlýði þeim.

19. Drottinn hefir sett sitt hásæti fast á himnum, og hans konúngsdæmi drottnar yfir öllu.

20. Lofið Drottin! þèr hans einglar, þèr voldugu hetjur sem

framkvæmið hans boð, þèr, sem hlýðið raustu hans orðs.
21. Lofið Drottin! þèr, allar hans hersveitir, þèr hans þjónar, sem gjörið hans vilja.
22. Lofið Drottin! þèr, öll hans verk á öllum stöðum hans herradæmis. Mín sál! lofa þú Drottin!

## 104. SÁLMUR.

*Lofgjörð skaparans.*

LOFA þú Drottin, sála mín! Drottinn, minn Guð! þú ert mjög mikill, þú hefir íklætt þig hátign og dýrð.
2. Hann klæðir sig í ljós eins og annað fat; hann útþenur himininn eins og tjald.
3. Hann gjörir hvelfíngar af vatni á sínum sal, hann hefir skýin fyrir vagna, og fer á vindarins vængjum.
4. Hann hefir vindana sem sína eingla, eldsslogana sem sína þjóna.
5. Hann festi jörðina á hennar grundvelli, svo hún fer ei úr skorðum að eilífu,
6. Með hafinu hafðir þú hulið hana, eins og með fati, vatnið náði upp yfir fjöllin.
7. En þegar þú hastaðir á þau, þá flúðu þau; fyrir þinni þrumuraust hlupu þau fljótt í burt.
8. Fjöllin hófust upp, dalirnir sukku niður, þángað sem þú festir þá.
9. Takmark settir þú þeim (vötnunum), sem þau ei máttu yfirfara, svo þau ekki aptur skyldu byrgja jörðina.
10. Þú lætur uppsprettur úthella sèr í læki; þeir renna milli fjallanna.
11. Þeir gefa drykk öllum villi dýrum skógarins; þar svala sèr skógarins asnar.
12. Hjá þeim búa himinsins fuglar og sýngja í greinum trjánna.
13. Hann vökvar fjöllin ofanað, landið mettast af ávexti hans verka.
14. Hann lætur grasið spretta fyrir fènaðinn, og jurtir mönnunum til nota, í því hann útleiðir brauð af jörðinni,
15. Og vín, sem gleður mannsins hjarta, svo hans andlit verður þar af hýrlegra en af viðsmjöri, og brauð, sem endurnærir mannsins hjarta.
16. Drottins trè mettast, Líbanons sedrusviður, sem hann plantaði,
17. Þar sem fuglarnir hreiðra sig; storkurinn, hvers bústaður furutrèn eru.
18. Þau háu fjöllin eru athvarf streingeitanna og klettaskorurnar fjallmúsanna.
19. Hann skapaði túnglið til

merkis fyrir tilteknar tíðir, sólina, sem þekkir sína niðurgaungu.

20. Þú útbreiðir myrkrið, og þá verður nótt; þá fara út skógarins villudýr.

21. Ljónin sem öskra eptir bráð, og sem heimta sína fæðslu af Guði.

22. Sólin kemur upp, þau fara heim aptur, og liggja kyrr í sínu bæli.

23. Þá geingur maðurinn út að sínu verki og til sinnar vinnu alt til kvölds.

24. Hversu mikil eru þín verk, Drottinn! þú gjörðir þau öll með vísdómi; jörðin er full af þínum gæðum.

25. Þetta haf, stórt og vítt um sig, það er fult af ótal skepnum, smáum og stórum.

26. Þar um fara skipin, hvalfiskarnir, sem þú tilbjóst, til að leika sèr þar í.

27. Þær vona allar á þig, að þú munir gefa þeim þeirra fæðu á sínum tíma.

28. Þegar þú gefur þeim, saman safna þær; þegar þú upplýkur þinni hendi, þá mettast þær af gæðum.

29. Ef þú byrgir þitt auglit, þá skelkast þær, ef þú tekur þinn anda frá þeim, þá deya þær, og hverfa til baka í duptið aptur.

30. Þú útsendir þinn anda, þær skapast, og þú endurnýar mynd jarðarinnar.

31. Drottins vegsemd vari eilíflega! Drottinn gleðji sig við sín verk!

32. Líti hann til jarðarinnar, þá bifast hún; snerti hann fjöllin, þá rýkur úr þeim.

33. Eg vil sýngja fyrir Drottni, meðan eg lífi; eg vil leika fyrir mínum Guði, meðan eg er til.

34. Ó! að mitt tal mætti honum þóknast! eg vil gleðjast í Drottni.

35. Ó! að syndarar yrðu afmáðir af jörðunni, og þeir óguðlegu ei væru til. Mín sála, lofa þú Drottinn! halelúja! lofið Drottinn!

## 105. SÁLMUR.

*Áminníng.*

ÞAKKIÐ þèr Drottni, ákallið hans nafn! kunngjörið hans verk meðal fólksins.

2. Sýngið fyrir honum! leikið fyrir honum! yrkið um allar hans dásemdir!

3. Hrósið yður af hans heilaga nafni! þeirra hjarta, sem leita Drottins, gleðji sig!

4. Leitið eptir Drottni og hans dýrð, leitið ætíð hans auglitis!

5. Munið til þeirra dásemda, sem hann hefir gjört, hans jarteikna og dóma hans munns!

6. Þèr niðjar Abrahams, hans þjóns, þèr börn Jakobs, hans útvalda.

7. Hann, Drottinn, er vor Guð, á allri jörðinni hans dómar.

8. Hann man að eilífu til síns sáttmála, þess orðsins, sem hann hefir boðið, í þúsund kynþætti,

9. Þess sáttmála, sem hann gjörði við Abraham, og þess eiðs sem hann sór Ísaak.

10. Hann gjörði það að fèlagsskap við Jakob, að eilífum sáttmála við Ísrael,

11. Og sagði: þèr vil eg gefa Kanaansland, svo sem yður útlagða erfð.

12. Þá voru þeir enn þá lítill hópur, fáir og framandi í landinu,

13. Og þeir fóru frá fólki til fólks, og frá einu ríki til annarar þjóðar.

14. Hann leifði eingum að gjöra þeim skaða, og hegndi konúngunum þeirra vegna, og sagði:

15. Snertið ekki mína smurðu, og gjörið mínum spámönnum ekkert ilt.

16. Og hann kallaði hallæri inn í landið, og gjörði ónýtan allan matarforða.

17. Þá sendi hann mann á undan þeim; Jósep var seldur í þrældóm.

18. Þeir settu hans fætur í stokk, hann var lagður í járn,

19. Alt til þess tíma, þá hans orð rættist, þá Drottins tal sýndi hann prófaðan,

20. Þá sendi konúngurinn og lèt láta hann lausan; þjóðanna yfirdrottnari útleysti hann.

21. Hann setti hann herra yfir sitt hús, og drottnara yfir alt sitt góss,

22. Til að þvínga höfðíngjana eptir hans vilja, og kenna vísdóm hans öldúngum.

23. Eptir það kom Ísrael til Egyptalands, og Jakob lifði sem útlendíngur í Hams landi.

24. Og hann gjörði sitt fólk mjög frjófsamt, og lèt það verða fleira en þess óvini.

25. Hann snèri þeirra hjörtum, svo þeir hötuðu hans fólk, og breyttu sviksamlega við hans þjóna.

26. Hann sendi Móses, sinn þjón, Aron, sem hann hafði útvalið.

27. Þeir framkvæmdu meðal þeirra hans undur og tákn í Hamslandi.

28. Hann sendi myrkur og lèt verða dimt, og þeir (Móses og Aron) voru ekki óhlýðnir hans orðum.

29. Hann snèri þeirra (Egypzkra) vatni í blóð, og drap þeirra fiska.

30. Þeirra land úði og grúði af froskum alt inn í instu herbergi konúnganna.
31. Hann talaði, þá komu þar skorkvikindi; mý í öll þierra hèröð.
32. Hann gaf þeim hagl fyrir regn, eldsloga yfir þeirra land.
33. Hann feldi þeirra vínvið og fíkjutrè, og sundurbraut trèn á hèruðum þeirra lands.
34. Hann talaði, þá komu eingisprettur og grasmaðkar óteljandi.
35. Og þeir uppátu alt gras í þeirra landi, og þeir átu allan ávöxt á þeirra ökrum.
36. Og hann drap alla frumburði í þeirra landi, frumgróðann af allra þeirra krapti.
37. Og hann útleiddi Ísrael með silfri og gulli, og einginn var hrumur í hans kynkvíslum.
38. Egyptaland gladdist þá þeir lögðu á stað, því ótti fyrir þeim var kominn yfir þá (Egypzku).
39. Hann útbreiddi ský til skjóls, og eld til að upplýsa nóttina.
40. Þeir beiddu; þá lèt hann vaktelur koma, og mettaði þá með himnabrauði.
41. Hann upp lauk kletti, og þar rann út vatn; það flaut um þurra eyðistaði eins og á.
42. Því hann mundi til síns heilaga orðs, og til Abrahams, síns þjóns.
43. Og hann útleiddi sitt fólk með gleði, sína útvöldu með fögnuði.
44. Og hann gaf þeim þjóðanna land, og þeir tóku undir sig fólksins erfiði,
45. Svo þeir skyldu halda hans rèttindi og varðveita hans lög. Hallelúja! Lofið Drottin!

## 106. SÁLMUR.

*Endurminníng forfeðranna synda.*

LOFIÐ Drottin! þakkið Drottni! því hann er góður, og hans miskunsemi varir eilíflega.
2. Hver getur sagt frá Drottins veldi? hver kunngjört alt hans lof?
3. Sælir eru þeir, sem halda lögin, iðka ætíð rèttvísina.
4. Minstu mín, Drottinn! eptir þinni velþóknan á þínu fólki.
5. Vitja þú mín með þitt frelsi, að eg sjái velgeingni þinna útvöldu, og gleðjist af gleði þíns fólks, og hrósi mèr af þinni erfð.
6. Vèr höfum syndgað með vorum forfeðrum; oss hefir yfirsèst, og vèr höfum breytt óguðlega.
7. Vorir feður í Egyptalandi gáfu ei gaum að þínum dá-

semdum. Þeir hugleiddu ei
þína miklu miskunsemi, held-
ur voru baldnir við hafið, við
hafið rauða.
8. Þó bjargaði hann þeim
fyrir síns nafns sakir, til að
kunngjöra sitt veldi.
9. Og hann hastaði á rauða
hafið, svo það varð þurt, og
lèt þá gánga um hafsins djúp
sem auðn.
10. Og hann frelsaði þá af
hendi ofsóknarmannanna, og
losaði þá úr hendi óvinanna.
11. Og vatnið fól þeirra mót-
stöðumenn; einginn af þeim
komst af.
12. Og þeir trúðu þá hans
orði, þeir súngu hans lof.
13. Þó gleymdu þeir skjótt
hans verkum, biðu ekki eptir
hans ráðum.
14. Girnd vaknaði með þeim
í eyðimörkinni, og þeir freist-
uðu Guðs í óbygðinni.
15. Hann veitti þeim það,
sem þeir girntust, en hann
sendi sjúkdóm yfir þá.
16. Þeir hötuðust við Móses í
herbúðunum, við Aron, Drott-
ins heilaga.
17. Jörðin opnaði sig, og
svelgdi Datan og huldi hóp
Abírams.
18. Og eldur tendraðist í
þeirra flokki; loginn eyddi
þeim óguðlegu.
19. Hjá Hóreb gjörðu þeir
kálf, og tilbáðu þá steyptu
líkneskju,
20. Og þeir höfðu skipti á
sinni dýrð fyrir mynd nauts-
ins, er etur gras.
21. Þeir gleymdu Guði, sín-
um frelsara, sem hafði gjört
mikla hluti í Egyptalandi,
22. Kraptaverk í Hamslandi
við hafið rauða,
23. Og hann ætlaði að afmá
þá, hefði ei Móses, hans út-
valdi, beðið hann fyrir þá, til
að snúa hans reiði frá því að
tortýna þeim.
24. Og þeir fyrirlitu hið æs-
kilega land; þeir trúðu ekki
hans orðum,
25. Og þeir mögluðu í sínum
tjöldum, þeir lögðu ekki eyr-
að við Drottins raust.
26. Og hann upplypti sinni
hendi á móti þeim, svo að
þeir tortýndust í eyðimörkinni,
27. Og þeirra niðjar fèllu
meðal þjóðanna, og tvístruð-
ust um löndin.
28. Og þeir skrýddust fyr-
ir Baal-Peór, og þeir átu
af fórnum til þeirra dauðu
(skurðgoða).
29. Og þeir egndu hann með
sínu athæfi, og plága brauzt
inn á þá.
30. Þá tók Píneas sig til, og
hèlt dóm, og plágunni linti,

31. Og honum var reiknað
það til rèttlætis frá kyni til
kyns eilíflega.
32. Og þeir stygðu hann við
Meríba vatn, og Móses mátti
gjalda þeirra,
33. Því þeir særðu hans hjarta
og hann talaði ógætilega með
sínum vörum.
34. Þeir upprættu ekki þjóð-
irnar, eins og Guð hafði skip-
að þeim,
35. Heldur blönduðust sam-
an við þjóðirnar og lærðu
þeirra athæfi,
36. Og dýrkuðu þeirra skurð-
goð, og þau urðu þeim að
snöru.
37. Og þeir fórnfærðu skurð-
goðunum sonu sína og dætur.
38. Og þeir útheltu saklausu
blóði, sona sinna og dætra
blóði, sem þeir fórnfærðu Ka-
naans skurðgoðum, svo að
blóðskuld kom yfir landið.
39. Og þeir flekkuðu sig með
sínum verkum, og tóku fram
hjá (Guði) með sínu athæfi.
40. Þá upptendraðist Drottins
reiði gegn hans fólki, og hann
fèkk viðbjóð á sinni erfð.
41. Og hann fèkk þá þjóðun-
um á vald, og yfir þeim drottn-
uðu þeirra ofsóknarmenn.
42. Og þeirra óvinir þreyngdu
að þeim, og þeir urðu auð-
mýktir undir þeirra hendi.
43. Opt frelsaði hann þá, en
þeir egndu hann til með sín-
um áformum, og þeir hnigu
niður (í eymd) fyrir þeirra
misgjörnínga sakir.
44. Samt leit hann til þeirra
í þeirra nauðum, þegar hann
heyrði þeirra kall.
45. Og hann mintist síns
sáttmála, þeim til góðs, og
hann iðraðist þess eptir mik-
illeik sinnar miskunar,
46. Og lèt þá alla vorkenna
þeim, sem hèldu þeim her-
teknum.
47. Frelsa oss, Drottinn, vor
Guð! og safna oss frá þjóð-
unum, svo vèr getum súngið
þínu nafni lof, og hrósað oss
af þinni lofgjörð.
48. Lofaður sè Drottinn, Ís-
raels Guð! frá eilífð til eilífð-
ar, og alt fólk segi: Amen!
Lofið Drottinn!

## 107. SÁLMUR.

*Þakklæti fyrir útlaganna frelsi.*

ÞAKKIÐ þèr Drottni! því
hann er góður, því hans
miskunsemi er eilíf.
2. Þetta segi þeir, sem af
Drottni eru leystir úr óvina
valdi (hendi).
3. Frá löndunum hefir hann
samansafnað þeim; frá austri
og vestri, frá norðri og frá
hafinu.
4. Þeir fóru viltir á eyði-

mörkinni, á öræfaveginum; stað, sem þeir gætu búið í, fundu þeir ekki.
5. Þeir voru húngraðir og þyrstir, þeirra sál vanmegnaðist í þeim.
6. Og þeir kölluðu til Drottins í þeirra ángist; hann frelsaði þá úr þeirra neyð,
7. Og hann leiddi þá á rèttan veg, og þeir komu til þess staðar, sem þeir gátu búið í.
8. Þakki þeir Drottni fyrir hans miskun og fyrir hans dásemdir við mannanna börn;
9. Því hann endurnærði örmagna sálir, og mettaði með gæðum húngraðar sálir.
10. Þeir, sem sátu í myrkri og dauðans skugga, bundnir eymd og járnum,
11. Af því þeir voru óhlýðnir Guðs boðorðum, og fyrirlitu ráð hins Hæsta,
12. Þess vegna auðmýkti hann með mótlæti þeirra hjörtu; þeir fèllu, og þar var einginn, sem hjálpaði.
13. Og þeir kölluðu til Drottins í sinni ángist, og hann frelsaði þá úr þeirra vandræðum.
14. Hann leiddi þá úr myrkrinu og dauðans skugga, og sundur sleit þeirra fjötra.
15. Þakki þeir Drottni fyrir hans miskunsemi og fyrir hans dásemdir við mannanna börn,
16. Fyrir það, að hann sundur braut eirhliðin, og sundur hjó járngrindurnar.
17. Þeir fávísir, þeir pláguðust fyrir sínar yfirtroðslur, og fyrir sinna misgjörða sakir.
18. Þá velgdi við öllum mat, og þeir voru nálægir dauðans dyrum,
19. Og þeir kölluðu til Drottins í sinni ángist; úr þeirra neyð frelsaði hann þá.
20. Hann sendi sitt orð og læknaði þá og bjargaði þeim úr þeirra gröfum.
21. Þakki þeir Drottni fyrir hans miskun og fyrir hans dásemdir við mannanna börn,
22. Og fram beri þakkarfórn og kunngjöri hans verk með gleðisaung.
23. Þeir, sem á skipum fara út á hafið og gegna sinni sýslan á hinum stóru vötnum,
24. Þeir sjá Drottins verk og hans dásemdir á djúpinu.
25. Hann talaði, og þar kom stormviðri, sem hóf upp hafsins bylgjur.
26. Þeir lyptust til himna, og sigu niður í djúpið, og þeim fèlst hugur í neyðinni.
27. Þeir hröktust um kríng og römbuðu sem drukknir menn, og öll þeirra ráðdeild var þrotin.
28. Og þeir kölluðu til Drott-

ins í sinni ángist, og hann
hjálpaði þeim úr þeirra nauð-
um.
29. Hann stöðvaði hinn
mikla storm, og bylgjurnar
þögnuðu;
30. Og þeir glöddust, þegar
lygndi, og hann leiddi þá að
landi, eptir þeirra ósk.
31. Þakki þeir Drottni fyrir
hans miskunsemi og hans dá-
semdir við mannanna börn,
32. Og vegsami hann á fólks-
samkomunni, og lofi hann á
öldúngafundinum.
33. Hann gjörði árnar að
öræfum og vatnsrennslið að
þurlendi,
34. Frjófsamt land að sand-
auðn, fyrir vonzku sakir þeirr-
a, sem þar bjuggu.
35. Hann gjörði öræfin að
votlendi og þurlendið að
vatnsrensli,
36. Og hann lèt þá húngruðu
búa þar, og þeir bygðu sèr
stað, sem þeir gætu búið í.
37. Og þeir sáðu akra, og
þeir plöntuðu víngarða, og
þeir báru ríkuglegan ávöxt,
38. Og hann blessaði þá, og
þeir fjölguðu mjög, og fènaði
þeirra fækkaði hann ekki.
39. En þeir minkuðu af
þreyngíng, ógæfu og neyð.
40. Hann hafði út helt fyrir-
litníng yfir höfðíngjana, og
lèt þá villast um öræfi, hvar
einginn vegur er.
41. En hann lypti þeim fá-
tæku upp úr þeirra eymd, og
gjörði ættirnar sem hjarðir.
42. Þeir hreinskilnu sjá það
og gleðja sig; en allir ráng-
látir hljóta að loka sínum
munni.
43. Hver hygginn er, hann
sèr þetta og tekur eptir
Drottins miskunsemdum.

## 108. SÁLMUR.

Lofsálmur Davíðs.

REIÐUBÚIÐ er mitt hjart-
a, ó Guð! eg vil sýngja
og fagna, og mín sál vill líka
gleðjast.
2. Vakna upp, mitt hljóðfæri
og harpa! eg vil vakna með
morgunroðanum.
3. Þig vil eg vegsama, Drott-
inn! meðal fólksins, eg vil
sýngja þèr lof meðal þjóðanna.
4. Því þín miskunsemi nær
til himins, og þín trúfesti til
skýanna.
5. Upplypt þèr, ó Guð! yfir
himnana, og þinni dýrð yfir
alla jörðina,
6. Svo þínir elskulegu verði
endurleystir; hjálpa þú með
þinni hægri hendi og bæn-
heyr oss.
7. Guð talaði í sínum helgi-
dómi; þess vegna gleð eg mig,

eg vil skipta Sikem og mæla dalinn Súkot.
8. Gíleað til heyrir mèr og Manasse; Efraím er hlífð míns höfuðs. Júda er minn löggjafi,
9. Móab er mitt þvottaker; í Edom kasta eg mínum skóm. Yfir Filisteum vil eg hlakka.
10. Hver mun flytja mig í þann rammbyggilega stað? Hver mun leiða mig til Edom?
11. Viltu ekki, ó Guð! sem útskúfaðir oss, og fórst ekki út með vorum her?
12. Veittu oss hjálp í neyðinni, því ónýt er hjálp mannanna!
13. Með Guðs (hjálp) skulum vèr vinna sigur (hreysti verk), og hann mun niðurtroða vora óvini.

## 109. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Til saungmeistarans. Sálmur Davíðs.

GUÐ minn! sem eg vegsama, þegi þú ekki,
2. Því sá óguðlegi og hinn svikafulli, þeir hafa lokið upp sínum munni á móti mèr; þeir tala til mín með ljúgandi túngu.
3. Með hatursfullum orðum umkríngja þeir mig, og stríða á móti mèr án saka.
4. Í staðinn fyrir að eg elskaði þá, stóðu þeir á móti mèr, og eg bað jafnan (fyrir þeim).
5. Þeir gjörðu mèr ilt fyrir gott; guldu hatur fyrir elsku.
6. Set þann óguðlega yfir hann, og Satan standi honum til hægri handar.
7. Frá dómi gángi hann sekur, og hans bæn verði að synd!
8. Hans dagar verði fáir, annar fái hans embætti;
9. Hans börn verði föðurlaus og hans kona verði ekkja!
10. Hans börn flakki um kríng og sníki, og leiti sinnar nauðþurftar lángt frá þeirra auðu bústöðum!
11. Okurkallinn nái í alt, sem hann á, og útlendir ræni hans erfiði!
12. Einginn sè sá, sem hafi elsku til hans, og einginn aumkist yfir hans munaðarleysíngja.
13. Niðjar hans verði upprættir; í öðrum lið verði þeirra nafn afmáð!
14. Hans feðra misgjörða skal minnst verða fyrir Drottni, og syndir hans móður ei verða afmáðar!
15. Þær skulu ætíð vera fyrir Drottni, og hann skal útryðja þeirra minníng af jörðunni,
16. Af því hann mundi ei til að gjöra miskunsemi, og ofsókti þann auma og fátæka mann, og þann, sem var hryggur í hjarta, alt til dauða.

17. Þar eð hann elskaði bölvunina, svo komi hún yfir hann! fyrst hann hafði ekki lyst til blessunar, svo veri hún lángt frá honum!

18. Hann íklæði sig bölvuninni sem fati; hún renni inn í hans yður sem vatn, og í hans bein sem viðsmjör!

19. Hún verði honum sem fat, er hann klæðist í, og sem belti, sem hann ætíð umgyrðir sig!

20. Þessi verði laun minna mótstöðumanna af Drottni, og þeirra, sem tala ilt um mig!

21. En þú, Drottinn! Herra minn! aðstoða þú mig fyrir þíns nafns sakir, því þín miskunsemi er mikil; bjarga þú mèr!

22. Því eg er vesæll og fátækur, og mitt hjarta er sært í mèr;

23. Eg líð í burt sem skuggi, þá hann leingist; eg verð burtrekinn sem eingispretta;

24. Mín knè veiklast af föstu, og mitt hold hefir einga fitu.

25. Eg hlýt að vera þeirra athlægi; þegar þeir sjá mig, hrista þeir höfuðin.

26. Hjálpa mèr, Drottinn, minn Guð! frelsa mig eptir þinni miskunsemi,

27. Að þeir megi viðkannast, að það er þín hönd, að þú, ó Drottinn! gjörðir það.

28. Látum þá formæla; blessa þú! rísi þeir móti mèr, en verði til skammar, og þinn þjón gleðji sig.

29. Mínir mótstöðumenn íklæðist smán, og sinni skömm í færist þeir sem kápu.

30. Eg vil innilega þakka Drottni með mínum munni, og meðal margra vil eg hann vegsama.

31. Því hann stendur þeim fátæka til hægri handar, til að frelsa hann frá þeim, sem dæma hann til lífláts.

## 110. SÁLMUR.

*Guðs smurði.*

Ljóð eptir Davíð.

DROTTINN sagði mínum Drottni: settu þig mèr til hægri handar, þángað til eg legg óvini þína að skör fóta þinna.

2. Drottinn mun rètta þèr frá Síon veldispíru síns kraptar, og segja: drottna þú mitt á meðal þinna óvina.

3. Þitt fólk fylgir þèr fúslega á degi þíns kraptar í heilagri prýði; eins og döggin af morgunroðans skauti skulu þínir niðjar verða.

4. Drottinn sór, og þess yðrast hann ekki; þú ert prestur að eilífu uppá Melkisedeks máta.

5. Drottinn er hjá þinni hægri

hendi; hann mun sundur merja konúngana á degi sinnar reiði.

6. Hann mun dæma þjóðirnar, og fylla land þeirra með líkum, og sundurmola höfuð margra landa.

7. Úr læknum á veginum mun hann drekka; síðan mun hann höfði sínu upplypta.

## 111. SÁLMUR.

*Lofgjörð.*

LOFIÐ Guð! Drottinn vil eg vegsama af öllu hjarta í söfnuði og á fundi hinna hreinskilnu.

2. Mikil eru Drottins verk, æskileg eptir allri þeirra unan.

3. Hátign og dýrð er hans framkvæmd, og hans rèttlæti varir eilíflega.

4. Endurminníng sinna stórmerkja hefir hann gjört. Náðugur og miskunsamur er Drottinn.

5. Fæðslu gaf hann þeim, sem hann óttuðust; hann man eilíflega til síns sáttmála.

6. Sinna verka krapt kunngjörði hann sínu fólki, þegar hann gaf því þjóðanna eign.

7. Verkin hans handa eru sannleiki og rèttindi; rèttsýn eru öll hans boðorð.

8. Þau eru óbifanleg um aldur og eilífð, gjörð með sannleika og einlægni.

9. Lausn sendi hann sínu fólki, gjörði sinn sáttmála eilífan. Heilagt og óttalegt er hans nafn.

10. Ótti Drottins er upphaf vizkunnar, góð uppfræðíng fyrir alla þá, sem gjöra þar eptir; hans lof varir eilíflega.

## 112. SÁLMUR.

*Hrós hinna guðhræddu.*

LOFIÐ Guð! sæll er sá maður, sem óttast Drottinn, sem finnur mikinn fögnuð í hans boðorðum.

2. Voldugir munu hans niðjar verða á jörðunni; ætt hinna hreinskilnu mun blessast.

3. Nægtir og auðæfi munu vera í þeirra húsum, og þeirra rèttvísi varir ætíð.

4. Þeim ráðvöndu upprennur ljós í myrkri. Guð er náðugur, miskunsamur og rèttlátur.

5. Vel sè þeim manni, sem miskunar og lánar, og gegnir sinni sýslan með rèttvísi;

6. Því hann mun ekki bifast að eilífu. Þess rèttláta mun ávalt minnst verða.

7. Ill tíðindi mun hann ekki hræðast; hans hjarta er rólegt; hann reiðir sig á Drottinn.

8. Hans hjarta hefir vígi; hann mun ekkert hræðast, þángað til hann sèr sinn fögnuð á sínum óvinum.

9. Hann útbýtir, hann gefur hinum fátæku, hans rèttlæti varir ætíð, hans höfuð mun með vegsemd upphefjast.

10. Hinn óguðlegi mun sjá það og ilskast; hann mun nísta tönnum og fá í sig uppdrátt. Ósk hinna óguðlegu mun farast.

## 113. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

LOFIÐ Guð! lofið, þèr Drottins þjónar! lofið Drottins nafn!

2. Lofað sè nafnið Drottins, hèðan í frá og að eilífu.

3. Í frá sólarinnar uppgaungu og alt til hennar niðurgaungu sè nafnið Drottins vegsamað.

4. Drottinn er upphafinn yfir allar þjóðir, yfir himnana hans dýrð.

5. Hver er sem Drottinn, vor Guð, sem býr hátt,

6. Sem lítur lágt á himnana og á jörðina,

7. Sem upphefur þann auðvirðilega úr duptinu, og upplyptir þeim fátæka úr saurnum,

8. Til að setja hann hjá höfðíngjum, höfðíngjum síns fólks,

9. Sem lætur þá ófrjófsömu búa í húsinu, sem glaða barna móður? Lofið Drottin!

## 114. SÁLMUR.

*Burtförin úr Egyptalandi.*

ÞÁ Ísrael fór burt úr Egyptalandi, Jakobs hús frá því fólki, sem talaði útlenda túngu,

2. Varð Júda hans helgidómur, og Ísrael hans herradæmi.

3. Hafið sá það og flúði; Jórdan hrökk aptur á bak;

4. Fjöllin stukku sem hrútar, hæðirnar sem únglömb.

5. Hvað var þèr, þú sjáfar haf! að þú flúðir? þèr, Jórdan! að þú hrökkst aptur á bak?

6. Yður, þèr fjöll! að þèr stukkuð sem hrútar? þið, hæðir! sem únglömb?

7. Bifast þú, jörð, fyrir Drottins augliti, fyrir augliti Jakobs Guðs,

8. Sem gjörir vatnsríka tjörn úr klettinum, þann harða stein að vatnsríkri uppsprettu.

## 115. SÁLMUR.

*Drottinn er sá sanni Guð.*

EIGI oss, Drottinn! eigi oss, heldur þínu nafni sè heiður, fyrir sakir þinnar miskunar og trúfesti.

2. Hversvegna eiga þjóðirnar að segja: hvar er nú þeirra Guð?

3. Vor Guð er í himninum, alt sem honum þóknast, það gjörir hann.

4. Þeirra skurðgoð eru silfur og gull, gjörð af manna höndum.

5. Munn hafa þau, en geta ekki talað; augu hafa þau, en geta ekki sèð;

6. Þau hafa eyru, en heyra ekki, nasir, en finna einga lykt.

7. Þau hafa hendur, en geta ekkert með þeim gripið; fætur hafa þau, en geta ekki geingið, og upp um sinn háls geta þau ekki orði komið.

8. Líkir þeim eru þeir sem gjöra þau, allir, sem á þau treysta.

9. Ísrael! reiddu þig á Drottin; hann er vor hjálp og vor skjöldur.

10. Arons hús, reiðið yður á Drottinn! hann er vor hjálp og vor skjöldur.

11. Þèr, sem óttist Drottin, reiðið yður á Drottin. Hann er vor hjálp og vor skjöldur.

12. Drottinn minnist vor; hann blessar oss; hann blessi Ísraels hús! hann blessi Arons hús!

13. Hann mun blessa þá, sem óttast Drottin, þá smáu með þeim stóru.

14. Drottinn mun blessa yður meir og meir, og yðar börn.

15. Blessaðir eruð þèr af Drottni, sem hefir gjört himininn og jörðina.

16. Himininn gjörvallur er Drottins, en jörðina hefir hann mannanna börnum gefið.

17. Hinir dauðu geta ei lofað Drottin, ei heldur þeir, sem komnir eru í þögnina.

18. En vèr, vèr viljum lofa Drottin, nú hèðan í frá og að eilífu. Lofið Drottin!

## 116. SÁLMUR.

*Þakkargjörð fyrir liðsinni.*

HVERSU gleður það mig, að Drottinn heyrir mína raust og mína auðmjúku bæn!

2. Því hann hneigði sitt eyra til mín; alla mína daga vil eg hann ákalla.

3. Dauðans fjötrar umspenntu mig; grafarinnar ángist var yfir mèr; eg kendi til ótta og hrygðar.

4. En eg ákallaði nafn Drottins, og sagði: Drottinn! frelsa þú mína sál!

5. Náðugur er Drottinn og rèttlátur, og vor Guð miskunsamur.

6. Drottinn varðveitir þá einföldu. Eg var aumíngi, og hann frelsaði mig.

7. Vertu nú aptur róleg, mín sál! því Drottinn hefir gjört vel til þín.

8. Því hann frelsaði mig frá dauðanum, mitt auga frá gráti, og minn fót frá falli.

9. Eg mun gánga fyrir Drottni á landi lifandi manna.
10. Eg trúði, þó eg segði: mikið verð eg að líða!
11. Eg sagði, því eg var hiss-a: allir menn bregðast.
12. Hvernig á eg Drottni að endurgjalda fyrir allar hans velgjörðir við mig?
13. Frelsisins bikar vil eg upplypta, og ákalla nafnið Drottins.
14. Mitt heiti vil eg Guði greiða í augsýn als fólksins.
15. Dýrmætur er fyrir Drottni dauði hans heilögu.
16. Heyr mig, ó Drottinn! því eg em þinn þjón, sonur þinnar ambáttar; þú hefir leyst mín fjötur;
17. Þèr vil eg færa þakk-ar fórn, og ákalla Drottins nafn.
18. Mitt heiti vil eg Drottni greiða í als fólksins augsýn,
19. Í forgarðinum við Drott-ins hús, mitt í þèr, Jerúsalem! Lofið Drottin!

## 117. SÁLMUR.

*Lofgjörðar ávarp.*

LOFIÐ Drottin, allar þjóð-ir! vegsami hann allir lýðir.
2. Því hans miskun drottnar yfir oss, og Drottins trúfesti er eilíf. Lofið Drottinn!

## 118. SÁLMUR.

*Sigurhróss sálmur.*

ÞAKKIÐ þèr Drottni, því hann er góður og hans miskunsemi varir eilíflega.
2. Ísrael segi: eilíf er hans miskun.
3. Arons hús segi: eilíf er hans miskun.
4. Þeir, sem óttast Drottinn, segi: eilíf er hans miskun!
5. Í minni ángist ákallaði eg Drottin; Drottinn bænheyrði mig og veitti mèr hugsvölun.
6. Drottinn er með mèr; eg mun ekki hræðast. Hvað geta mennirnir gjört mèr?
7. Drottinn er minn hjálpari, því vil eg glaður líta til minna ofsóknarmanna.
8. Það er betra, að setja sitt traust til Drottins, en að reiða sig á mennina.
9. Það er betra, að treysta Drottni, en að reiða sig á höfðíngjana.
10. Allar þjóðir umkríngdu mig; í Drottins nafni, sagði eg, skal eg brytja þá niður.
11. Þeir umkríngdu mig öllu-megin. Í Drottins nafni, sagði eg, skal eg niðurhöggva þá.
12. Þeir umkríngdu mig sem bíflugur; þeir slökktust eins og eldur í þyrnum. Í Drott-ins nafni, sagði eg, skal eg niður brytja þá.

13. Þú (óvinur) hratzt mèr, að eg skyldi falla, en Drottinn hjálpaði.

14. Minn styrkur og minn saungur er Drottinn; hann varð mèr að liði.

15. (Þar heyrist) fagnaðar- og sigur-raust í tjaldbúðum hinna ráðvöndu. Drottins hægri hönd gjörir kraptaverk.

16. Drottins hægri hönd er upphafin; Drottins hægri hönd gjörir kraptaverk.

17. Eg mun ekki deya, heldur lifa, og eg skal kunngjöra Drottins verk.

18. Að sönnu typtaði Drottinn mig, en í dauðann ofurseldi hann mig ekki.

19. Ljúkið upp fyrir mèr rèttlætisins porti; eg vil gánga inn um það, eg vil þakka Drottni.

20. Þetta er Drottins port; þeir ráðvöndu skulu inn um það gánga.

21. Eg vil þakka þèr, að þú bænheyrðir mig, og hjálpaðir mèr.

22. Sá steinn, sem byggíngarmennirnir burt köstuðu, er nú orðin að hyrníngarsteini.

23. Þetta er skeð af Drottni; það er undarlegt fyrir vorum augum.

24. Þetta er sá dagur (gleði dagur), sem Drottinn gjörði; fögnum og verum glaðir í honum!

25. Drottinn! hjálpa þú! Drottinn! láttu það heppnast!

26. Blessaður sè sá, sem kemur í Drottins nafni, vèr blessum yður frá Drottins húsi.

27. Drottinn er Guð; hann lætur (birtu) fyrir oss lýsa. Leiðið fórnardýrið bundið með taug að altarishorninu.

28. Þú ert minn Guð, því vil eg vegsama þig, minn Guð! eg vil lofa þig.

29. Þakkið þèr Drottni, því hann er góður, því hans miskun er eilíf.

## 119. SÁLMUR.

*Gyllini stafrof í 22 greinum.*

1. GREIN.

SÆLIR eru þeir, hverra breytni er flekklaus, þeir, sem gánga í Drottins lögmáli.

2. Sælir eru þeir, sem halda hans boðorð, sem leita hans af öllu hjarta,

3. Sem ekkert rángt aðhafast, heldur gánga á hans vegum.

4. Þú hefir boðið, að halda vandlega þín boðorð!

5. Æ! að mínir vegir mættu þar að sveigjast, að halda þín rèttindi!

6. Þá þarf eg ei að sneypast, er eg gef gaum öllum þínum boðum.

7. Eg vildi þakka þèr með

einlægu hjarta, í því eg lærði
þína rèttlátu dóma.
8. Þín rèttindi vil eg halda;
yfirgef mig ekki ofleingi.

2. GREIN.

9. Hvernig getur sá úngi
haldið sínum vegi hreinum?
Með því að halda sèr við þitt
orð.
10. Eg leita þín af öllu hjart-
a; láttu mig ekki villast frá
þínum boðorðum!
11. Í mínu hjarta geymdi eg
þitt orð, svo að eg syndgaði
ekki á móti þèr.
12. Lofaður sèrtu, Drottinn!
kenn mèr þín rèttindi!
13. Með mínum vörum upp-
tel eg alla dóma þíns munns.
14. Þínir vitnisburðir gleðja
mig, eins og mikill auður.
15. Þínar skipanir ígrunda eg;
eg hugleiði þína stigu.
16. Eg hefi unaðsemd af þín-
um setníngum, og gleymi ei
þínum orðum.

3. GREIN.

17. Gjör þínum þjóni vel til,
að eg megi lifa, og halda þitt
orð.
18. Opna mín augu, að eg
megi sjá það leyndardóms-
fulla í þínu lögmáli.
19. Útlendur er eg á jörð-
unni; fel ei fyrir mèr þín
boðorð!
20. Sundurkramin er mín sál
af laungun eptir þínum rètt-
indum alla tíma.
21. Þú ávítaðir hina dramb-
látu, þá bölvuðu, þá, sem
víkja frá þínum boðorðum.
22. Snú frá mèr smán og
fyrirlitníng, því eg varðveiti
þín boðorð.
23. Þar sitja jafnvel höfðíngj-
ar og taka saman ráð sín á
móti mèr; en þinn þjón í-
grundar þína setnínga.
24. Já, þínir vitnisburðir eru
mín unaðsemd, þeir eru mín-
ir ráðgjafar.

4. GREIN.

25. Niðurbeygð í duptið er
mín sál; endurlífga mig eptir
þínu orði.
26. Eg segi frá mínum veg-
um og þú bænheyrir mig,
kenn mèr þín rèttindi!
27. Kenn þú mèr að skilja
veg þinna boðorða! svo mun
eg ígrunda þína leyndardóma.
28. Mín sál drýpur af hrygð;
reis þú mig upp, eptir þínu
orði!
29. Snú frá mèr lyginnar
vegi, og unn mèr þíns lög-
máls (þekkíngar)!
30. Sannleikans veg vel eg,
þinn rètt set eg fyrir mig.
31. Eg er fastur við þína vitn-
isburði; Drottinn! lát mig ei
verða til skammar!
32. Veg þinna boðorða vil eg

hlaupa, þegar þú hugsvalar hjarta mínu!

5. GREIN.

33. Kenn mèr, ó Drottinn! veg þinna rèttinda; eg skal fara hann alt til enda!

34. Uppfræð þú mig, og eg vil varðveita þín lög, og halda þau af öllu hjarta!

35. Lát mig gánga fram veginn þinna boðorða, því eg hefi laungun til hans!

36. Beyg mitt hjarta til þinna vitnisburða, en ekki til gróða!

37. Snú mínum augum frá hègómanum! viðhaltu mèr á þínum vegi!

38. Uppfyltu þitt orð við þinn þjón, við þann, sem þig óttast.

39. Burt snú þeirri minni smán, sem eg kvíði fyrir, því þínir dómar eru góðir.

40. Sjá! eg hefi laungun til þinna skipana, haltu mèr við þitt rèttlæti;

6. GREIN.

41. Og lát þína miskun koma yfir mig, ó Drottinn! þitt frelsi eptir þínu orði!

42. Og að eg geti svarað þeim, sem atyrða mig fyrir eitthvað, að eg reiði mig á þitt orð,

43. Og tak aldrei sannleiksins orð burt frá mínum munni! því að eg bíð þíns dóms;

44. Eg vil altaf varðveita þitt lögmál, ætíð og æfinlega;

45. Og eg vil gánga um rúmgóðan veg, því að eg leita þinna skipana;

46. Og eg tala um þína vitnisburði fyrir konúngum, og skammast mín ekki.

47. Og eg skal hafa unaðsemd af þínum boðorðum, sem eg elska,

48. Og upplypta mínum höndum til þinna boðorða, sem eg elska, og eg ígrunda þín rèttindi.

7. GREIN.

49. Minnstu þess orðs til þíns þjóns, á hvert þú lèzt mig vona;

50. Það er mín huggun í minni eymd, að þitt orð heldur mèr við lífið.

51. Þeir dramblátu hæða mig ákaflega, en frá þínu lögmáli vík eg ekki.

52. Eg minnist þinna dóma frá gömlum tíðum, Drottinn! og huggast.

53. Akaflega óbeit hefi eg á þeim óguðlegu, sem yfirgefa þín lög.

54. Þín rèttindi eru minn fagnaðarsaungur í minni útlegð.

55. Drottinn! á náttarþeli minnist eg þíns nafns og varðveiti þín lög.

56. Það er minn auður, að eg held þínar skipanir.

8. GREIN.

57. Eg segi: mín hlutdeild, ó Drottinn! er að halda þín boð.
58. Eg bið þig auðmjúklega af öllu hjarta, vertu mèr náðugur, eptir þínu orði!
59. Eg hugleiði mína vegu, og sný mínum fótum til þinna vitnisburða.
60. Eg flýti mèr, og tef ekki við, að halda þín boðorð.
61. Hópur óguðlegra umkríngir mig, en eg gleymi ekki þínu lögmáli.
62. Um miðnætti fer eg á fætur til að þakka þèr fyrir þína rèttlátu dóma.
63. Eg held mèr til þeirra, sem þig óttast, og þeirra, sem halda þín boðorð.
64. Jörðin er full, Drottinn! af þinni miskun; kenn mèr þín rèttindi!

9. GREIN.

65. Drottinn! þú gjörðir þínum þjóni vel til eptir þínu orði.
66. Kenn þú mèr góðan skilníng og hyggindi, því eg trúi þínum boðorðum.
67. Áður en eg varð auðmýktur, viltist eg; en nú varðveiti eg þitt orð.
68. Góður ert þú og góðgjarn; kenn mèr þín rèttindi.
69. Þeir dramblátu saman tvinna lygar móti mèr, en eg held þín boðorð af öllu hjarta;
70. Tilfinníngarlaust, eins og spik, er þeirra hjarta, en eg hefi yndi af þínu lögmáli.
71. Það var mèr gott, að eg lítillækkaðist, svo að eg gæti lært þín rèttindi.
72. Betra er mèr lögmál þíns munns, heldur en þúsund (stykki) gulls og silfurs.

10. GREIN.

73. Þínar hendur hafa myndað mig og tilbúið; gef mèr skilníng, að eg læri þín boðorð.
74. Þeir sem óttast þig, sjá mig og gleðja sig, því eg reiði mig á þitt orð.
75. Drottinn! eg veit, að þínir dómar eru rèttir, og að þú lítillækkaðir mig af trúfesti.
76. Þín miskun veri mín huggun, eptir sem þú hefir heitið þínum þjóni!
77. Láttu þína miskun koma yfir mig, að eg lifi, því þitt lögmál er mín unaðsemd.
78. Lát þá dramblátu verða til skammar, því þeir vilja án saka steypa mèr, en eg ígrunda þínar skipanir.
79. Haldi þeir sèr til mín, sem þig óttast, og sem þekkja þína vitnisburði.
80. Lát mitt hjarta hánga fast við þín rèttindi, að eg ekki verði til skammar!

11. GREIN.

81. Mína sálu lángar til þíns hjálpræðis; eg reiði mig á þitt orð,
82. Mín augu mæna til þíns orðs; eg segi: nær muntu hugga mig?
83. Því eg er sem skinnbelgur í reyk; eg gleymi ekki þínum rèttindum.
84. Hversu margir eru dagar þíns þjóns? nær viltu láta gánga dóm yfir mínum ofsóknarmönnum?
85. Þeir dramblátu grafa mèr grafir; það er ekki gjört eptir þínu lögmáli.
86. Öll þín boðorð eru sannleiki; þeir ofsækja mig án saka, hjálpa þú mèr!
87. Lítið vantaði á, að þeir hefðu upprætt mig af jörðunni; þó yfirgaf eg ekki þínar skipanir.
88. Varðveittu líf mitt eptir þinni miskunsemi, og eg vil varðveita vitnisburði þíns munns.

12. GREIN.

89. Eilíflega, Drottinn! stendur þitt orð stöðugt í himninum.
90. Þín trúfesti varir frá kyni til kyns, þú festir jörðina, og hún mun standa;
91. Eptir þínum lögum stendur alt, enn þann dag í dag; því alt er þèr undirgefið.
92. Hefði þitt lögmál ekki verið mín unun, þá hefði eg fyrirfarizt í minni eymd.
93. Eg skal til eilífðar ekki gleyma þínum boðorðum; því með þeim heldur þú mèr við lífið.
94. Eg em þinn, frelsa þú mig, því eg leita þinna skipana.
95. Hinir óguðlegu umsitja mig, til að fyrirfara mèr, en eg gef gaum að þínum vitnisburðum.
96. Allrar fullkomnunar enda hefi eg sèð, en þín boðorð eru endalaus.

13. GREIN.

97. Hversu mjög elska eg þitt lögmál! það er mitt daglegt umhugsunar efni.
98. Þín boðorð gjöra mig hyggnari, en mínir óvinir eru, því þau eru ávalt mín.
99. Eg er orðinn hyggnari en allir mínir kennendur, því þínir vitnisburðir eru mín umhugsan;
100. Eg er vitrari orðinn en öldúngarnir, því eg hefi varðveitt þínar skipanir;
101. Frá öllum vondum vegi held eg mínum fótum aptur, að eg geti haldið þitt orð;
102. Frá þínum dómum vèk eg ekki, því þú mentaðir mig.

103. Hversu eru þín orð sæt fyrir minn góm, sætari en hunáng fyrir minn munn!
104. Af þínum skipunum verð eg vitur; þess vegna hata eg sèrhvert lyginnar spor.

14. GREIN.

105. Þitt orð er lampi fóta minna og ljós á mínum vegum.
106. Eg hefi svarið og vil efna það, að halda þín rèttvísu lög.
107. Eg em mjög beygður, Drottinn! varðveittu mitt líf eptir þínu orði!
108. Láttu þèr þóknast, Drottinn! viljuga fórn míns munns, og kenn mèr þína dóma.
109. Mitt líf er ætíð í minni hendi (í hættu); þó gleymi eg ekki þínu lögmáli.
110. Þeir óguðlegu leggja snörur fyrir mig, en eg vík ekki frá þínum skipunum.
111. Eg eigna mèr eilífa erfð, þína vitnisburði, því þeir eru mín hjartans unaðsemd.
112. Eg hneigi mitt hjarta, til að gjöra eptir þínum rèttindum eilíflega og alt af.

15. GREIN.

113. Eg hata illar hugsanir, en elska þitt lögmál;
114. Þú ert mitt skjól og skjöldur; á þitt orð reiði eg mig.
115. Farið frá mèr, þèr illgjörðamenn; eg vil varðveita boðorð míns Guðs!
116. Viðhaltu mèr, eptir þínu orði, svo eg lifi, og láttu mig ekki verða til skammar fyrir mína von!
117. Aðstoða þú mig, að eg frelsist, og ætíð sjái þín rèttindi.
118. Þú útskúfar öllum þeim, sem víkja frá þínum rèttindum, því til ónýtis eru þeirra svik.
119. Þú burtkastar öllum óguðlegum á jörðu, eins og hroða, því elska eg þína vitnisburði.
120. Mitt hold skelfur af hræðslu fyrir þèr, og þína dóma óttast eg.

16. GREIN.

121. Eg hefi stundað rèttindi og rèttvísi; ofursel mig ekki þeim, sem undiroka mig.
122. Ábyrgstu þinn þjón til góðs, að þeir dramblátu ekki undiroki mig!
123. Mín augu mæna eptir þínu hjálpræði og eptir orði þíns rèttlætis.
124. Gjör þú við þjón þinn eptir þinni miskunsemi, og kenn mèr þín rèttindi!
125. Eg em þinn þjón; uppfræð þú mig, að eg geti þekt þína vitnisburði.
126. Tími er til kominn, að þú, Drottinn! takir þig til; þeir hafa brotið þín lög.

127. Þess vegna elska eg þín boðorð meir en gull, já, meir en skírt gull.
128. Þess vegna held eg allar þínar skipanir rèttar; eg hata allar lyginnar götur.

17. GREIN.

129. Þínir vitnisburðir eru furðanlegir (dásamlegir); því varðveitir þá mín sál.
130. Þinna orða útskýríng upplýsir og gjörir þá einföldu vísa.
131. Eg opna minn munn af eptirlángan, því eg hefi girnd til þinna boðorða;
132. Snú þèr til mín, og vertu mèr miskunsamur, eins og sanngjarnt er þú sèrt, þeim sem elska þitt nafn.
133. Gjörðu minn gáng stöðugan með þínu orði, og lát eingin rángindi drottna yfir mèr!
134. Leystu mig frá ofbeldi mannanna, að eg haldi þínar skipanir.
135. Lát þitt andlit lýsa þínum þjóni, og kenn mèr þín rèttindi.
136. Tára flóð niðursteypist úr mínum augum vegna þeirra, sem ekki halda þitt lögmál.

18. GREIN.

137. Rèttlátur ertu, Drottinn! og rèttir eru þínir dómar.
138. Þú býður rèttvísi og mikinn sannleika í þínum lögum.
139. Mín vandlætíngasemi deyðir mig út af því, að mínir mótstöðumenn gleyma þínum orðum.
140. Þitt orð er mjög vel hreinsað, og þinn þjón elskar það.
141. Eg er lítilmótlegur og fyrirlitinn, en eg gleymi ekki þínum boðorðum.
142. Þitt rèttlæti er eilífur rèttur, og þitt lögmál er sannleiki.
143. Ángist og þreyngíng hitta mig, en þín boðorð eru mín unaðsemd.
144. Rèttvísi þinna skipana er eilíf; uppfræð þú mig, þá lifi eg.

19. GREIN.

145. Eg kalla af öllu hjarta, bænheyr mig, Drottinn! að eg haldi þín rèttindi!
146. Eg kalla til þín, hjálpa þú mèr, svo að eg haldi þína setnínga;
147. Fyrr en dagar, kalla eg; á þitt orð reiði eg mig.
148. Mín augu verði fyrri til, en nætur verðirnir, að íhuga þitt orð.
149. Heyr mína raust, Drottinn! eptir miskun þinni; viðhaltu mínu lífi eptir þínu rèttlæti.

150. Þeir nálægja sig mèr, sem fara með sniðugar ráðagjörðir, frá þínu lögmáli eru þeir lángt í burtu.

151. Þú ert nálægur, Drottinn! og öll þín boðorð eru sannleiki;

152. Fyrir laungu síðan vissi eg það um þín rèttindi, að þú hefir þau eilíflega grundvallað.

20. GREIN.

153. Sjá þú eymd mína, og frelsa mig! Því þínu lögmáli gleymi eg ekki.

154. Framfylg þú máli mínu, og frelsa mig; haltu mèr lifandi fyrir sakir þíns orðs.

155. Lángt frá þeim óguðlegu er frelsið, því þeir leita ekki þinna rèttinda.

156. Þín miskunsemi, Drottinn! er mikil; lát mig lifa eptir þínum dómum.

157. Margir eru mínir mótstöðumenn og ofsóknarmenn; frá þínum vitnisburðum vèk eg ekki.

158. Eg sè þá, sem breyta sviksamlega, og hefi viðbjóð á þeim, af því þeir halda ekki þitt orð.

159. Sjá! hversu eg elska þínar skipanir; Drottinn! endurlífga mig eptir þinni miskunsemi.

160. Alt þitt orð er sannleiki, og að eilífu vara allir þínir rèttlátu dómar.

21. GREIN.

161. Höfðíngjarnir ofsækja mig án saka; en mitt hjarta er óttaslegið fyrir þínu orði.

162. Eg gleð mig við þitt orð, eins og sá, sem fær mikið herfáng.

163. Lygi hata eg og hefi viðbjóð á henni, en þitt lögmál elska eg.

164. Sjö sinnum á dag lofa eg þig sakir þinna rèttvísu dóma.

165. Mikinn frið hafa þeir, sem elska þitt lögmál, og engin ásteytíng vofir yfir þeim.

166. Eg bíð þíns hjálpræðis, Drottinn! og gjöri eptir þínum boðorðum.

167. Mín sál varðveitir þína vitnisburði, og eg elska þá mjög.

168. Eg held þín boðorð og þína vitnisburði, því allir mínir vegir eru fyrir þèr (augljósir).

22. GREIN.

169. Láttu mitt kall koma fyrir þitt auglit, Drottinn! gef mèr skilníng eptir þínu orði.

170. Lát mína auðmjúka bæn koma fyrir þig; frelsa mig, eptir þínu loforði!

171. Af vörum mínum skal þitt lof útstreyma, því þú kennir mèr þín rèttindi.

172. Mín túnga skal sýngja

þitt orð, því að öll þín boðorð eru rètt.

173. Láttu þína hönd vera mèr til liðs, því eg hefi útvalið þínar skipanir.

174. Drottinn! eg hefi laungun eptir þínu hjálpræði, og þitt lögmál er mín unan.

175. Láttu mína sál lifa og lofa þig, og þína dóma hjálpa mèr.

176. Eg villist sem týndur sauður, leita þú að þínum þjón, því þínum boðorðum gleymi eg ekki.

## 120. SÁLMUR.

*Kvörtun yfir óvinum.*

Stígandi sálmur.

TIL Drottins kalla eg í minni neyð, og hann bænheyrir mig.

2. Drottinn! frelsa mína sál frá lyginnar vörum og svikanna túngu.

3. Hvað gefur þèr? hvað gagnar þèr svikanna túnga?

4. (Hún er eins og) hermannsins hvössu örvar, eins og glæður einiberjatrèsins.

5. Vei mèr! að eg varð að vera útlendur í Armenía Mesek, og búa í Arabía Kedars tjaldbúðum;

6. Of leingi hefi eg búið hjá þeim, sem friðinn hata.

7. Eg em eintómur friður, en þegar eg tala (um frið), hefja þeir ófrið.

## 121. SÁLMUR.

*Von um Drottins liðsinni.*

Stígandi sálmur.

EG lypti mínum augum til fjallanna, hvaðan mín hjálp mun koma.

2. Mín hjálp kemur frá Drottni, sem gjörði himin og jörð.

3. Hann mun ekki láta þinn fót rasa; hann, þinn verndara, syfjar ekki,

4. Sjá! hann sofnar ekki, Ísraels verndari sefur ekki.

5. Drottinn er sá, sem verndar þig; Drottinn er þín hlíf, hann er þèr til hægri handar.

6. Á daginn mun sólin ekki stínga þig, og ekki túnglið á nóttunni.

7. Drottinn mun varðveita þig frá öllu illu, hann mun geyma þína sál.

8. Drottinn mun varðveita þinn inngáng og útgáng, frá því nú er og til eilífrar tíðar.

## 122. SÁLMUR.

*Gleði yfir að koma til Jerúsalem.*

Stígandi sálmur eptir Davíð.

GLAÐUR verð eg, þegar þeir segja við mig: látum oss gánga í hús Drottins.

2. Vorir fætur eru (nú þegar) í þínum portum, Jerúsalem.

3. Jerúsalem, þú velbygða, sem borg samteingd.

4. Þángað fara kynkvíslirnar, Drottins kynkvíslir, það eru lög fyrir Ísrael, til að lofa nafnið Drottins.
5. Því þar standa dómstólar, Davíðs húss stólar.
6. Óskið Jerúsalem heilla! hafi þeir frið, sem elska þig.
7. Friður sè innan þinna veggja, rósemi í þínum höllum;
8. Fyrir vina minna og bræðra sakir, segi eg: friður sè með þèr!
9. Fyrir sakir hússins vors Drottins, vors Guðs, vil eg leita þinna hagsmuna.

## 123. SÁLMUR.

*Andvarp í ófriði.*

Ferðasálmur eður uppgaungu sálmur.

TIL þín, sem situr á himni, upplypti eg mínum augum.
2. Sjá! eins og þjónsins augu líta uppá hönd húsbóndans, eins og þjónustukvinnunnar augu uppá hönd sinnar húsmóður, þannig líta vor augu til Drottins, vors Guðs, þángað til hann verður oss náðugur.
3. Vertu oss náðugur, Drottinn! vertu oss náðugur, því vèr erum ofmettir af fyrirlitníngu.
4. Vor sál er fullmett af spotti hinna dramblátu, af fyrirlitníng hinna drambsömu.

## 124. SÁLMUR.

*Þakklæti og lofgjörð.*

Uppgaungu sálmur; af Davíð.

HEFÐI ei Drottinn verið með oss (svo segi Ísrael):
2. Hefði Drottinn ei verið með oss, þegar menn risu á móti oss,
3. Þá hefðu þeir svelgt oss lifandi, þegar þeirra reiði var gegn oss upptendruð;
4. Þá hefðu vötnin streymt yfir oss, vatnsföllin geingið yfir vor höfuð;
5. Þau uppbelgdu vötn hefðu geingið oss yfir höfuð.
6. Lofaður sè Drottinn! sem ekki lèt oss verða að bráð fyrir þeirra tennur;
7. Vor sál er sloppin, eins og fugl úr snöru veiðimannsins; snaran sveik, vèr sluppum.
8. Vor hjálp er nafn Drottins, hans sem gjörði himin og jörð.

## 125. SÁLMUR.

*Trúartraust á Drottni.*

Uppgaungu sálmur.

ÞEIR, sem reiða sig á Drottinn, eru eins og Síons fjall, sem ekki bifast, heldur stendur eilíflega.
2. Alt í kríng um Jerúsalem eru fjöll; eins er Drottinn alt í kríng um sitt fólk, frá því nú og til eilífrar tíðar.
3. Því veldissproti óguðleik-

ans skal ekki hvíla yfir hlutdeild hinna ráðvöndu, til þess að hinir ráðvöndu útrètti ekki sínar hendur til ránginda.

4. Drottinn! gjör vel við þá góðu og þá hjartahreinu.

5. En hina, sem beygja af leið á krókótta vegu, mun Drottinn láta fara ásamt með þeim, sem rángindi aðhafast. Friður sè yfir Ísrael!

## 126. SÁLMUR.

*Gleði yfir lausn úr útlegðinni.*

Uppgaungu sálmur.

ÞEGAR Drottinn fór heim með Síons bandíngja, vorum vèr sem í draumi.

2. Þá var vor munnur fullur af hlátri, og vor túnga full af gleðisaung; þá sögðu menn meðal þjóðanna: mikla hluti hefir Drottinn gjört við þessa.

3. Já, mikla hluti hefir Drottinn gjört við oss, því erum vèr glaðir.

4. Drottinn, flyttu heim aptur vora herteknu, eins og þá veitt er lækjum á þurlendi.

5. Þeir, sem sá með tárum, munu uppskera með gleðisaung.

6. Grátandi geingur sáðmaðurinn og ber sáðið, sem á að sá, en hann kemur aptur með gleðisaung, þegar hann ber heim kornbindinin.

## 127. SÁLMUR.

*Drottinn byggir húsið. Gefur börn.*

Uppgaungu sálmur eptir Salómon.

EF Drottinn byggir ekki húsið, þá erfiða smiðirnir til einskis. Ef Drottinn verndar ekki staðinn, þá vaka verðirnir til ónýtis.

2. Að þarfleysu farið þèr snemma á fætur, og vakið leingi, etið yðar brauð, sem aflað er með víli; því hann gefur sínum ástvinum það sama sofandi.

3. Sjá! börn eru Drottins gjöf. Lífsins ávöxtur umbun.

4. Eins og örvar í hendi hersmannsins eru æskunnar synir.

5. Sæll er sá maður, sem hefir fylt örvamæli sinn með þeim; þeir munu ei verða til minkunar, þegar þeir tala við sína óvini í portinu (fyrir rètti).

## 128. SÁLMUR.

*Sæla ens guðhrædda.*

Uppgaungu sálmur.

SÆLL er hver sá, sem óttast Drottinn, sem geingur á hans vegi.

2. Ávöxtinn af erviði þinna handa muntu eta. Sæll ertu! þèr vegnar vel.

3. Þín kona mun vera sem frjófsamt víntrè inst í þínum híbýlum; þín börn eins og við-

smjörs greinir kríng um þitt borð.
4. Sjá! þannig mun sá maður blessast, sem óttast Drottin.
5. Drottinn mun blessa þig frá Síon, og þú munt sjá Jerúsalems velgeingni alla daga þíns lífs.
6. Þú munt sjá börn þinna barna. Friður sè yfir Ísrael!

## 129. SÁLMUR.

*Drottinn eyðileggur óguðlega.*

Uppgaungu sálmur.

ÞEIR þreyngdu mjög að mèr frá barnæsku, (svo segir Ísrael).
2. Þeir þreyngdu mjög að mèr frá mínum úngdómi, og þó gátu þeir ekki yfirbugað mig.
3. Á mínu baki plægðu plógmennirnir; þeir drógu laung sín arðurför.
4. Drottinn er rèttvís, hann hjó á reipi hinna óguðlegu.
5. Þeir munu sneypast, og hörfa til baka, allir, sem Síon hata.
6. Þeir skulu verða sem gras á þekju, er visnar, fyrr en nokkur upprætir það,
7. Af hverju sláttumaðurinn ekki fyllir sína hönd, eða bindíngamaðurinn sitt fáng.
8. Og þeir, sem fram hjá fara, segja ekki: Drottins blessan sè yfir yður! vèr blessum yður í nafni Drottins!

## 130. SÁLMUR.

*Bæn. Trúartraust. Von.*

Uppgaungu sálmur.

ÚR djúpinu kalla eg til þín, Drottinn!
2. Heyr þú, Drottinn, mína raust! lát þín eyru hyggja að röddu minnar grátbeiðni!
3. Ó Drottinn! ef að þú vilt muna misgjörðir, Drottinn! hver getur þá staðist?
4. Nei, hjá þèr er fyrirgefníng, svo að menn óttist þig.
5. Eg bíð eptir Drottni; mín sál vonar; eg reiði mig á hans orð.
6. Mín sál bíður Drottins, meir en næturverðir á morgnana, sem vænta morgunsins.
7. Ísrael! vona þú á Drottinn, því hjá Drottni er miskunsemi, og mikil endurlausn er hjá honum.
8. Hann mun frelsa Ísrael af öllum hans misgjörðum.

## 131. SÁLMUR.

*Auðmýkt. Rósemi. Von.*

Uppgaungu sálmur Davíðs.

DROTTINN! mitt hjarta er ekki drambsamt, og mín augu eru ekki stórlátleg, og eg fæst ei við það, sem ofmikið er fyrir mig, og mèr ofvaxið.
2. Hefi eg ekki gjört sál mína kyrrláta og rólega? eins og barnið við móðurinnar brjóst, þegar það er vanið af brjósti,

eins og hið afvanda barn, eins er mín sál í mèr.
3. Vona á Drottinn, Ísrael! frá því nú er og til eilífrar tíðar.

## 132. SÁLMUR.

*Lofsaungur við inngaungu til Drottins bústaðar.*

Uppgaungu sálmur.

DROTTINN! mundu til Davíðs mótlætis,
2. Sem sór Drottni, sem gjörði heit þeim volduga Jakobs:
3. "Eg vil ei gánga í tjaldbúð míns heimilis, eg vil ekki stíga í mína sæng.
4. Mín augu vil eg ekki láta sofa, ekki heldur mína augnahvarma dotta,
5. Fyrr en eg finn stað handa Drottni, bústað þeim volduga Jakobs."
6. Sjá! vèr heyrðum, að hann (bústaðurinn) væri í Efrata. Vèr fundum hann á Jaars (skógarins) völlum.
7. Látum oss nú inngánga í hans bústað, og tilbiðja fyrir hans fótskör.
8. Drottinn! stíg þú upp til þíns hvíldarstaðar, þú og örk þinnar dýrðar.
9. Þínir prestar íklæðist rèttlætinu, og þínir heilögu fagni.
10. Sakir Davíðs, þíns þjóns, útskúfa ei þínum smurða!
11. Drottinn sór Davíð sannan eið; frá honum mun hann ekki gánga, og sagði: "ávöxt þíns lífs mun eg setja í þitt hásæti;
12. Ef þín börn halda minn sáttmála og mína vitnisburði, sem eg mun kenna þeim, þá skulu og þeirra börn sífelt og ætíð sitja í þínu hásæti."
13. Já, Drottinn hefir útvalið Síon, hann valdi sèr Síon til bústaðar og sagði:
14. Þetta er sífelt og ætíð minn hvíldarstaður, hèr vil eg búa; því eg kaus mèr hèr að vera.
15. Hennar (Síons) bjargræði mun eg ætíð blessa; hennar fátæklínga mun eg metta með brauði,
16. Og hennar presta mun eg klæða með hjálpræði, og hennar heilögu skulu vissulega fagna.
17. Þar mun eg láta Davíðs veldi vaxa, tilreiða skriðljós mínum smurða.
18. Hennar óvini vil eg forsmáninni klæða; en á hennar höfði skal kórónan skína.

## 133. SÁLMUR.

*Hrós eindrægninnar.*

Uppgaungu sálmur; eptir Davíð.

SJÁ! hversu ágætt og elskulegt það er fyrir bræður, að búa saman.
2. Það er eins og hið góða viðsmjör, sem niður drýpur af höfðinu á skeggið, á Arons

skegg, já, niður flýtur á hans
klæðafald, eins og dögg á Her-
mon,
3. Sem sú dögg, er niður fell-
ur á Síonsfjall; því þar hefir
Drottinn fyrirheitið blessan og
lífi um aldur og að eilífu.

## 134. SÁLMUR.

*Lofsaungur við þjónustu gjörðina.*
Uppgaungu sálmur.

SJÁ! lofið Drottin, allir
hans þjónar, sem á næt-
urnar standið í Drottins húsi!
2. Upplyptið yðar höndum til
helgidómsins, og lofið Drottin.
3. Þá mun Drottinn blessa
yður frá Síon, hann, sem gjörði
himininn og jörðina.

## 135. SÁLMUR.

*Lof Drottins dásemdarverka. Fánýti skurð-goðanna.*

LOFIÐ Guð! lofið Drott-
ins nafn! lofið hann, þèr
Drottins þjónar.
2. Þèr, sem standið í Drott-
ins húsi, í vors Guðs húss for-
garði.
3. Vegsamið Drottin! því
Drottinn er góður. Sýngið lof
hans nafni, því hann er yndis-
legur.
4. Því Drottinn útvaldi sèr
Jakob, Ísrael sèr til eignar.
5. Eg veit, að Drottinn er
mikill, að vor Herra er meiri
en allir guðir.
6. Drottinn gjörir alt, hvað
honum þóknast, á himni og
jörðu, í hafinu og í öllum
djúpum.
7. Hann lætur ský uppstíga
frá jarðarinnar endum; eldíng-
ar gjörir hann og regn; hann
sendir vinda úr sínum hirzl-
um.
8. Hann deyddi frumburðina
í Egyptalandi, bæði manna og
fènaðarins.
9. Hann sendi yfir þig teikn
og stórmerki, Egyptaland! yfir
Faraó og alla hans þegna.
10. Hann lagði að velli marg-
ar þjóðir, og deyddi volduga
konúnga.
11. Síhon, Amoríta konúng,
og Og, konúnginn í Basan, og
alla konúngana í Kanaan.
12. Og hann gaf að erfð þeirra
land Ísrael, sínu fólki.
13. Drottinn, þitt nafn er ei-
líft! þín minníng varir frá
kyni til kyns.
14. Því Drottinn dæmir sitt
fólk, og miskunar sínum þjón-
um.
15. Þjóðanna skurðgoð eru
silfur og gull, gjörð af manna
höndum.
16. Munn hafa þau, en tala
ekki; augu, en sjá ekki.
17. Eyru hafa þau, en heyra
ekki, og einginn andardráttur
er í þeirra munni.
18. Líkir þessum eru þeir,

sem þau gjöra, já, sèrhver, sem reiðir sig á þau.
19. Ísraels hús! lofa þú Drottin! Arons hús! lofið Drottin!
20. Leví hús! lofi Drottin! allir þèr, sem óttist Drottin, lofið Drottin!
21. Lofaður sè Drottinn í Síon! hann, sem býr í Jerúsalem! lofið Drottin!

## 136. SÁLMUR.

*Lofsálmur.*

ÞAKKIÐ þèr Drottni! því hann er góður, því hans miskunsemi varir eilíflega.
2. Þakkið Guði guðanna; því eilíf er hans miskunsemi.
3. Þakkið Drottni drottnanna! því eilíf er hans miskunsemi.
4. Hann, sem einn gjörir dásemdar verkin; því eilíf er hans miskunsemi;
5. Honum, sem gjörði himnana með vísdómi; því eilíf er hans miskunsemi.
6. Honum, sem festi jörðina á vötnunum; því eilíf er hans miskunsemi.
7. Honum, sem gjörði þau stóru ljós; því eilíf er hans miskunsemi;
8. Sólina til að stjórna á daginn; því eilíf er hans miskunsemi;
9. Túnglið og stjörnurnar, til að stjórna nóttunni; því eilíf er hans miskunsemi.
10. Honum, sem deyddi frumburði hinna Egypzku; því eilíf er hans miskunsemi,
11. Og útleiddi frá þeim Ísrael, því eilíf er hans miskunsemi,
12. Með styrkri hendi og útrèttum armi; því eilíf er hans miskunsemi.
13. Honum, sem skipti rauða hafinu í tvo hluti; því eilíf er hans miskunsemi,
14. Og lèt Ísrael þar í gegnum gánga; því eilíf er hans miskunsemi,
15. Og steypti Faraó og hans her í hafið rauða; því eilíf er hans miskunsemi.
16. Honum, sem leiddi sitt fólk um eyðimörkina; því eilíf er hans miskunsemi.
17. Honum, sem feldi mikla konúnga; því eilíf er hans miskunsemi,
18. Og drap volduga konúnga; því eilíf er hans miskunsemi,
19. Síhon, Amoríta, konúng; því eilíf er hans miskunsemi,
20. Og Og, konúnginn í Basan; því eilíf er hans miskunsemi,
21. Og þeirra land gaf að erfð; því eilíf er hans miskunsemi,
22. Sínum þjóni, Ísrael, að erfð; því eilíf er hans miskunsemi.
23. Honum, sem mintist vor, þá vèr vorum undirokaðir; því eilíf er hans miskunsemi,

24. Og sleit oss úr hendi vorra óvina; því eilíf er hans miskunsemi.
25. Honum, sem gefur fæðu öllu holdi; því eilíf er hans miskunsemi.
26. Þakkið himnanna Guði! því eilíf er hans miskunsemi.

## 137. SÁLMUR.

*Skapraun herleiddra í Babýlon.*

VIÐ Babýlons ár sátum vèr, og grètum, þegar vèr mintumst á Síon;
2. Þar hengdum vèr vorar hörpur í greinir trjánna.
3. Þá heimtu þeir, sem oss höfðu í haldi, af oss saung, og vorir kúgarar gleði, og sögðu: sýngið oss lofsaung um Síon!
4. Hvernig ættum vèr að sýngja lofsaung Drottins í framandi landi!
5. Ef að eg gleymi þèr, Jerúsalem, þá gleymi mèr mín hægri hönd.
6. Mín túnga festist við minn góm, ef eg ei man til þín, ef eg ekki tek Jerúsalem fram yfir mína mestu gleði.
7. Drottinn! minstu Edoms barna á Jerúsalems (vitjunar) degi, þeirra, sem sögðu: afmáið, afmáið alt að hennar grundvelli!
8. Babels dóttir! þú, sem eyðileggur! vel verði þeim, sem endurgeldur þèr það, sem þú hefir við oss gjört.
9. Vel verði þeim, sem tekur þín brjóstbörn, og slær þeim niður við stein.

## 138. SÁLMUR.

*Þakklæti fyrir liðsinni.*

Sálmur Davíðs.

EG vil þakka þèr af öllu mínu hjarta, í Guðs augsýn vil eg vegsama þig.
2. Eg vil knèkrjúpa fyrir þínu heilaga musteri, og lofa þitt nafn, fyrir þína miskun og trúfesti; því framyfir alt hefir þú gjört þitt nafn og þitt orð vegsamlegt.
3. Þegar eg ákallaði þig, bænheyrðir þú mig; þú gafst mèr hug, og styrk minni sálu.
4. Þig, ó Drottinn! skulu allir jarðarinnar konúngar lofa, þegar þeir heyra orðin þíns munns.
5. Og þeir skulu sýngja um Drottins veg, því mikil er Drottins dýrð.
6. Já, upp hafinn er Drottinn, en hann lítur niður til hins lítilmótlega, og þann drambláta þekkir hann lángt frá.
7. Þó að eg ráfi mitt í þreyngíngu, heldur þú mèr lifandi; móti reiði minna óvina útrèttir þú þína hönd, og frelsar mig með þinni hægri hendi.
8 Drottinn mun framkvæma það fyrir mig. Drottinn! þín miskun er eilíf. Yfirgef þú ekki verkin þinna handa.

## 139. SÁLMUR.

*Guð rannsakar hjörtum.*

Til hljóðfærameistarans; sálmur Davíðs.

DROTTINN þú rannsakar og þekkir mig.

2. Hvert sem eg sit eða stend upp, þá veiztu það. Þú skynjar mínar hugrenníngar áleingdar.

3. Minn gáng og mitt legurúm skoðar þú, og alla mína vegi þekkir þú nákvæmlega.

4. Því þar er ekki eitt orð á minni túngu, að þú, Drottinn! ekki vitir það alt saman.

5. Þú ert fyrir framan mig, og að baki mèr, og heldur yfir mèr þinni hendi.

6. Að skilja þetta er mèr of vaxið, það er mèr of hátt; eg get ei náð því.

7. Hvert get eg farið frá þínum anda? Hvert flúið frá þínu augliti?

8. Fari eg upp í himininn, þá ertu þar; gjöri eg undirheima að mínu legurúmi, þá ertu þar.

9. Tæki eg vængi morgunroðans og byggi við hið yzta haf,

10. Einnig þar mundi þín hönd leiða mig, og þín hægri hönd halda mèr föstum.

11. Þó eg segði: myrkrið yfirfalli mig, og nóttin sè ljós í kríng um mig,

12. Sjálf dimman er ekki dimm hjá þèr, og nóttin lýsir sem dagurinn, myrkrið sem ljós.

13. Því þú hefir myndað mín nýru, þú hefir ofið mig í móðurlífi.

14. Eg vil vegsama þig, fyrir það eg svo dásamlega er orðinn til; merkileg eru þín verk; það kannast mín sál við næsta vel.

15. Mín bein voru þèr ei ókunnug, þá eg var í leyni gjörður, þegar eg var myndaður niðri á jörðunni.

16. Þín augu sáu mig, þegar eg enn nú var ómyndaður, og alt var skrifað í þína bók, dagarnir, áður en einn af þeim var til.

17. En, ó Guð! hversu óskiljanlegar eru mèr þínar huxanir, hversu mikil er þeirra tala!

18. Vilji eg telja þær, svo eru þær fleiri en sandkornin. Vakni eg, er eg enn nú hjá þèr.

19. Ó að þú, Guð! vildir sálga þeim óguðlega! Þið drápgjörnu menn! víkið frá mèr.

20. Þá, sem tala syndsamlega móti þèr, sem leggja nafn þitt við hègóma,

21. Þína óvini, Drottinn! ætti eg ekki að hata þá, sem hata þig? og hafa viðbjóð á þeim, sem rísa móti þèr?

22. Með fullkomnu hatri hata eg þá; þeir eru mínir óvinir.

23. Rannsaka mig, Guð! og þektu mitt hjarta, prófa mig, og þektu mínar huxanir.

24. Sjá þú, hvert eg er á ó-
gæfunnar vegi, og leið mig á
eilífðarinnar veg.

## 140. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Til hljóðfærameistarans; sálmur Davíðs.

FRELSA mig, Drottinn! frá
þeim vondu mönnum, varð-
veittu mig fyrir ofbeldismönn-
um,
2. Sem hugsa ilt í hjartanu,
sem hvern dag vekja stríð.
3. Þeir ydda sínar túngur sem
höggormar; nöðru eitur er
undir þeirra vörum. Málhvíld.
4. Varðveit mig, Drottinn! frá
armi hinna óguðlegu. Vernda
mig fyrir ofbeldis mönnun-
um, sem hugsa um að leggja
ásteytíngu fyrir minn fót.
5. Þeir dramblátu leggja
snörur og streingi fyrir mig;
þeir útþenja net á veginum;
tál-gildrur leggja þeir fyrir
mig. Málhvíld.
6. Eg segi við Drottinn: þú
ert minn Guð, snú þú, ó Drott-
inn! þínu eyra að raust minn-
ar grátbeiðni!
7. Drottinn, Herrann er styrk-
ur míns frelsis! þú hlífir mínu
höfði á bardagans degi.
8. Veittu ekki, Drottinn! þeim
óguðlega hans ósk. Láttu hans
ráðagjörð ekki fá framgáng;
þeir mundu annars upphroka
sèr. Málhvíld.
9. Fyrirliðar þeirra, sem um-
kríngja mig, lát athæfi þeirra
vara koma þeim i koll.
10. Glóðum sè yfir þá steypt;
hann láti þá detta í eldinn,
í djúpar grafir, að þeir ekki
standi upp.
11. Maðurinn með (þá vondu)
túngu stenzt ekki á jörðunni;
sá óguðlegi ofbeldismaður skal
óðar rekast í glötunina.
12. Eg veit, að Drottinn tek-
ur að sèr málefni hins auma,
og útvegar rètt þeim fátæka.
13. Já, þeir ráðvöndu munu
vegsama þitt nafn; þeir hrein-
skilnu búa fyrir þínu augliti.

## 141. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Hljóðfærameistaranum; sálmur Davíðs.

DROTTINN! eg hrópa til
þín! flýttu þèr til mín!
legðu eyrun við minni raust,
þegar eg kalla til þín!
2. Mín bæn komi sem reykur
fyrir þig, minna handa upp-
lyptíng sem kvöldfórn.
3. Settu vörð fyrir minn munn,
og gættu dyra minna vara.
4. Lát ekki mitt hjarta beygj-
ast til nokkurs ils, til að að
hafast óguðleg verk með mönn-
um, sem gjöra rángt, að eg
ekki eti af þeirra krásum.
5. Sá ráðvandi slái mig, það
er elska; hann hirti mig, það
er mèr viðsmjör á höfði; mitt

höfuð skal ei undanfærast, þó hann slái aptur. En eg bið á móti hinna vonzku.

6. Niðursteypt er þeirra fyrirliðum af kletti; en þeir hafa heyrt mín orð, að þau voru elskuleg.

7. Eins og þá maður sagar og klýfur (við) á jörðunni, þannig er vorum beinum úttvístrað í grafarinnar gin.

8. Til þín, Jehóva, minn Drottinn! mæna mín augu, á þig reiði eg mig, fram sel þú ekki mitt líf.

9. Varðveittu mig fyrir snörunni, sem þeir hafa fyrir mig lagt, og frá þeirra snörum, sem að hafast rángindi.

10. Lát þá óguðlegu falla í sitt eigið net alla saman, en mig komast hjá því!

## 142. SÁLMUR.

*Bæn móti óvinum.*

Ljóð Davíðs; bæn, þá hann var í hellinum.

MEÐ hárri raust kalla eg til Drottins, með hárri raust bið eg Drottin um náð.

2. Eg úteys mínu kveini fyrir hans augliti, mína neyð tjái eg frammi fyrir hans augsýn.

3. Þegar minn andi vanmegnast í mèr, þá þekkir þú mína götu. Á veginn, sem eg á að fara um, leggja þeir fyrir mig snörur.

4. Eg lít til hægri handar, og sè þar eingan, sem við mig kannast; mèr er alt hæli horfið, einginn gefur um mig.

5. Þá kalla eg til þín, Drottinn! eg segi: þú ert mitt hæli, mín hlutdeild á landi hinna lifandi.

6. Gef gaum að mínu kalli, því eg er mjög aumur, frelsaðu mig frá þeim, sem ofsækja mig, því þeir bera mig ofurliða.

7. Leið sál mína úr fángelsinu, að eg megi vegsama þitt nafn! Þeir ráðvöndu safna sèr í kríng um mig, ef að þú gjörir vel til mín.

## 143. SÁLMUR.

*Sama efni.*

Ljóð Davíðs.

DROTTINN, heyr mína bæn! snú þínu eyra til minnar grátbeiðni, bænheyr mig eptir þinni trúfesti, eptir þínu rèttlæti,

2. Og gakk ekki í rètt við þjón þinn; því rèttlátur fyrir þèr er einginn lifandi (maður).

3. Því óvinurinn ofsækir mína sál, hann sundur mer mitt líf við jörðina, hann lætur mig búa í þeim dimmu bústöðum, líkt þeim dauðu í fornöld.

4. Því vanmegnast minn andi í mèr, og innst í mèr skelfist mitt hjarta.

5. Eg minnist hinna fyrri daganna; eg ígrunda öll þín

verk; verkin þinna handa yfir-
vega eg.
6. Eg útbreiði mínar hendur
til þín; mína sál (þyrstir) eins
og þurt land eptir þèr. Mál-
hvíld.
7. Flýttu þèr að bænheyra
mig, Drottinn! af laungun ör-
magnast minn andi; fel ei fyrir
mèr þitt auglit; annars verð
eg líkur þeim, sem farnir eru
niður í gröfina.
8. Láttu mig fljótt reyna þína
miskun, því eg treysti á þig;
kunnan gjör mèr þann veg,
sem eg gángi, því til þín upp-
lypti eg minni sálu.
9. Frelsa mig, Drottinn! frá
mínum óvinum; hjá þèr hefi
eg falið mig.
10. Kenn mèr þinn vilja! Því
þú ert minn Guð; þinn góði
Andi leiði mig um greiðan veg.
11. Sakir þíns nafns, Drottinn!
haltu mèr við lífið, þíns rètt-
lætis vegna leið mína sál úr
nauðum.
12. Og sakir þinnar miskunar
afmá mína óvini, og eyðilegg
alla þá, sem þreyngja að minni
sál, því eg er þinn þjón.

## 144. SÁLMUR.

*Þakklæti og bæn.*

Sálmur Davíðs.

LOFAÐUR sè Drottinn,
mitt bjarg! hann, sem
kennir mínum höndum að
stríða, mínum fíngrum að
berjast;
2. Hann (Guð), minn vel-
gjörari og mitt vígi, mitt hæli
og minn frelsari, minn skjöld-
ur, á hvern eg reiði mig;
hann, sem leggur þjóðirnar
undir mig.
3. Drottinn! hvað er maður-
inn, að þú vilt við hann kann-
ast, mannsins barn, að þú
gefur gaum að því?
4. Maðurinn, sem er líkur
andardrætti, hans dagar, sem
hverfandi skuggi.
5. Drottinn! beyg þinn him-
in og stíg niður, snertu fjöll-
in, svo úr þeim rjúki;
6. Sendu þína eldíngu og
tvístra þeim, sendu þínar örf-
ar og skelka þá.
7. Útrèttu þínar hendur frá
hæðinni, frelsa þú mig og
hjálpa mèr úr þeim miklu
vötnum, af útlendra hendi,
8. Hverra munnur talar svik,
hverra hægri hönd er prett-
vísinnar hægri hönd.
9. Guð! nýan saung vil eg
sýngja þèr; á hörpu með tíu
streingjum vil eg spila fyrir
þèr;
10. Fyrir þèr, sem gefur
konúngunum sigur, sem frels-
aðir Davíð, þinn þjón, frá
óvina sverði.
11. Frelsa þú mig og bjarga

mèr undan hendi útlendra, hverra munnur talar svik, hverra hægri hönd er prettvísinnar hægri hönd,

12. Að vorir synir megi vera sem hávaxnar plöntur í æsku sinni, og vorar dætur sem hornsteinar, fágaðir, eins og í höll.

13. Öll vor forðabúr sèu full, og úr þeim (komi) hver matvæli eptir önnur; vorar ær þúsund-og tíu-þúsund faldist, í voru haglendi;

14. Vor nautpeníngur verði með tíma; ekki sè brotizt í hús, ekki rænt, ekkert arg verði á vorum strætum.

15. Sæl er sú þjóð, sem svo vegnar; sæl er sú þjóð, hverrar Guð Drottinn er.

## 145. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

Lofsaungur Davíðs.

EG vil vegsama þig, minn Guð! þú Konúngur, og eg vil lofa þitt nafn eilíflega;

2. Allan daginn vil eg vegsama þig, og lofa þitt nafn æ og æfinlega.

3. Mikill er Drottinn og mjög loflegur; hans mikilleiki er órannsakanlegur.

4. Ein kynslóð mun fyrir annari hrósa þínum verkum, og menn kunngjöra þín stórvirki.

5. Eg vil ígrunda dýrð og ágæti þinnar hátignar og þínar dásemdir.

6. Um mátt þinna óttalegu verka munu menn tala, og frá þínum mikilleika vil eg segja.

7. Endurminníng þinnar miklu gæzku munu þeir útbreiða, og yfir þínu rèttlæti munu þeir fagna.

8. Náðugur og miskunsamur er Drottinn, þolinmóður og mjög gæzkuríkur.

9. Drottinn er góður við alla, og hans miskunsemi nær til allra hans verka.

10. Drottinn! öll þín verk vegsama þig, og þínir heilögu lofa þig;

11. Frá dýrð þíns ríkis munu þeir segja, og um þitt veldi tala,

12. Til að gjöra sonum mannanna kunnug þín stórvirki, og þá dýrðlegu hátign þíns ríkis.

13. Þitt ríki er eilíft ríki, og þitt veldi varir frá kyni til kyns.

14. Drottinn styður þá, sem ætla að detta, og reisir alla þá, sem eru niðurbeygðir.

15. Allra augu vona á þig, og þú gefur þeim þeirra fæðu á sínum tíma;

16. Þú upplýkur þinni hendi og seður alt, sem lifir, með náð.

17. Rèttvís er Drottinn á öll-

um sínum vegum, og miskunsamur í öllum sínum verkum.

18. Drottinn er nálægur öllum þeim, sem hann ákalla; öllum, sem ákalla hann einlæglega.

19. Hann gjörir það, sem þeir guðhræddu girnast; þeirra kall heyrir hann og frelsar þá.

20. Drottinn varðveitir alla þá, sem elska hann, en hann eyðileggur alla þá óguðlegu.

21. Drottins lofgjörð skal minn munnur mæla, og alt hold skal lofa hans heilaga nafn æ og eilíflega.

## 146. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

LOFIÐ Guð! Mín sál! lofa Drottin! eg vil lofa Drottin, svo leingi sem eg lifi;

2. Eg vil sýngja mínum Guði sálma, svo leingi sem eg er til.

3. Reiðið yður ekki á höfðíngja, ekki á manna börn, hjá þeim er ekki hjálp.

4. Fari andinn úr þeim, verða þau aptur að jörðu; á sama degi hverfa þeirra dramblátu ráðagjörðir.

5. Sæll er sá, hvers hjálp Jakobs Guð er, hvers von er til Drottins, hans Guðs,

6. Sem gjörði himininn, jörðina, hafið, og alt, sem í þeim er, sem heldur trygð æfinlega,

7. Sem útvegar rètt þeim undirokaða, gefur brauð þeim húngraða. Drottinn leysir þá bundnu;

8. Drottinn opnar augu hinna blindu; Drottinn uppreisir þá niðurbeygðu; Drottinn elskar þá ráðvöndu.

9. Drottinn verndar þá útlendu; föðurlausum og ekkjum hjálpar hann, en hann umturnar vegi hinna óguðlegu.

10. Drottinn mun stjórna eilíflega, þinn Guð, ó Síon! frá kyni til kyns. (Hallelúja) lofið Drottin!

## 147. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

LOFIÐ Drottin! því það er fagurt, að sýngja vorum Guði (sálma); því elskulegur og fagur er sá lofsaungur.

2. Drottinn (endur)byggir Jerúsalem; þeim tvístruðu Ísraels saman safnar hann.

3. Hann læknar þá, sem hafa sundurmarið hjarta, og bindur um þeirra sár.

4. Hann telur stjörnurnar, og nefnir þær allar með nafni.

5. Mikill og voldugur er vor Drottinn; hans skilníngur er ómælanlegur.

6. Þá hógværu upphefur hann; þá óguðlegu lægir hann alt að jörðu.

7. Sýngið fyrir Drottni með þakklæti! spilið fyrir Drottni á hörpu;
8. Fyrir honum, sem þekur himininn með skýum, sem tilbýr jörðinni regn, sem lætur gras spretta á fjöllunum;
9. Fyrir honum, sem gefur fæðu fènaðinum, úngum hrafnanna, sem til hans kalla;
10. Hann hefir ei lyst á styrkleika hestsins, ei velþóknan á fótleggjum mannsins.
11. Drottni þóknast þeir, sem hann óttast; þeir, sem hafa von á hans miskun.
12. Vegsama Drottinn, Jerúsalem! lofa þinn Guð, Síon!
13. Því hann gjörir fasta slagbranda þinna porta; hann blessar þín börn þar fyrir innan.
14. Hann gefur þínu landi frið; með bezta hveiti seður hann þig.
15. Hann sendir sinn boðskap til jarðar; með hraða fer hans orð.
16. Hann gefur snjó sem ull, útdreifir hrími sem ösku.
17. Hann sendir niður klaka í molum; hver stenzt hans kulda?
18. Hann sendir sitt orð og bræðir hann; hann lætur sinn vind blása, og vatnið rennur.
19. Hann hefir kunngjört Jakob sitt orð, Ísrael sína setnínga og rèttindi.
20. Ekki gjörði hann svo við alt fólk; hans rèttindi þekkja þeir ekki. (Hallelúja) lofið Drottin!

## 148. SÁLMUR.

*Lofgjörð Drottins.*

LOFIÐ Guð! Lofið Drottin á himnum, lofið hann í hæðinni;
2. Lofið hann, allir hans einglar; lofið hann, allar hans hersveitir;
3. Lofið hann sól og túngl; lofið hann allar þèr tindrandi stjörnur;
4. Lofið hann, himnanna himnar! og þèr vötn, sem eruð yfir himninum;
5. Lofi þeir Drottins nafn, því þá hann bauð, voru þeir skapaðir,
6. Og hann hefir fest þá æ og eilíflega; hann setti þeim lög, sem þeir ei munu yfirtroða.
7. Lofið Drottin á jörðunni, þèr ófreskjur og öll djúp,
8. Eldur og hagl, snjór og þoka, og þèr stormar, sem framkvæmið hans skipanir,
9. Þèr fjöll og allar hæðir, þèr ávaxtatrè og öll sedrustrè,
10. Þèr villudýr og allur fènaður, þèr ormar og fleygir fuglar,

11. Þèr jarðarinnar konúngar og allar þjóðir, þèr höfðíngjar og allir dómarar á jörðu,
12. Sveinar og meyar allar, gamlir með úngum.
13. Þeir skulu lofa Drottins nafn, því hans nafn einúngis er hátt upphafið; hans hátign er yfir jörð og himni.
14. Hann hefir gefið sínu fólki veldi, lofstír öllum sínum heilögu, Ísraels börnum, því fólki, sem honum er nálægt; lofið Drottin!

## 149. SÁLMUR.

*Sigurvon.*

LOFIÐ Guð! Sýngið Drottni nýan saung, hans lof á samkomu heilagra.
2. Ísrael gleður sig í sínum skapara, Síons börn í sínum konúngi.
3. Þeir skulu lofa hans nafn í dansi, með bumbum og hörpum skulu þeir fyrir honum leika.
4. Því Drottinn hefir velþóknan á sínu fólki, hann prýðir þá hógværu með frelsi (sigri).
5. Þeir heilögu skulu gleðjast við sinn heiður, þeir skulu fagna í sinni hvílu.
6. Guðs lof skal vera á þeirra túngu, og tvíeggjað sverð í þeirra hendi,
7. Til að taka hefnd af þjóðunum, og refsa lýðnum,
8. Og binda þeirra konúnga með hlekkjum, og þeirra voldugu með járnviðjum,
9. Að breyta við þá eptir þeim skrásetta dómi; heiður er þetta fyrir alla hans heilögu. (Hallelúja) lofið Drottin!

## 150. SÁLMUR.

*Lofsálmur.*

LOFIÐ Drottin! lofið Guð í hans helgidómi; lofið hann í hans útþöndu alveldis víggirðíngu;
2. Lofið hann fyrir hans stórvirki; lofið hann samkvæmt hans mikilleika;
3. Lofið hann með básúnuhljóm; lofið hann með hljóðfærum og hörpu,
4. Lofið hann með bumbum og dansi; lofið hann með streingjum og organi;
5. Lofið hann með hljóðhvellum hornum, symblum; lofið hann með hljómandi symblum.
6. Alt, sem andardrátt hefir, lofið Drottin. (Hallelúja) lofið Drottin!

